Mag. Joons Þorkels Sonar Widalin
(Fyrrum Biskups i Skaal-hollts Stifti,
Sællrar Minningar)

# Huss-Postilla,

Innihalldandi
Gudrækilegar

# Predikanir

yfir øll Hœtijda og Sunnu-daga
Gudspiøll.

## Fyrri Parturiñ,

Fraa Fyrsta Suñudegi i Adventu, til Trinitatis.

Editio VIII.

Baadir Partarnir til samans Iñbundnir seliast 105. Fiskum.

Hoolum i Hiallta-Dal,
Prickt af Eyrijki Gudmunds Syni Hoff.
1767.

HINNE
Dijrkeyptu JEsu Christi Brwde
# Christelegre Kyrkiu
GUDS
I ISLANDE,
Minne Hiartkiærre Moodur, Oska eg Fridar og
Heilla Af sijnum Uñusta.

## Elskulega Mooder!

ÞAD er bæde Guds Bod og vidteked hiaa øllum Þiood=
um, ad Børn eru skylldug ad ala Forelldra sijna, ef þau
gieta. Eñ Faatækur er eg og Vanburda til þess, Mood=
er, ad ala þig, jafnvel þoott ad aungvum af Sonum þijn=
um sie þad skylldara eñ mier; Þu ert og ecke i þvi mijns
Lids Þurfe, þvi Fader þijns Elskhuga og allra hañs
Brædra, hefur Enda bunded aa sijn Heit, er ritud standa hia Esajam i
Fertugasta og Nijunda Capitula: Konungarnir skulu vera þijnir Foost=
ur=Fedur, og þeirra Høfdings Kviñur þijnar Foostur=Mædur: Hvers
Naaduga Fyrirheitis ad þu ert ordinn Hluttakandi, eins vel og hver
Þiood i CHRJSTIñdoominum, og i Krapti þessa Fyrirheitis hefur
hann giefed þier, eptir Raadstøfun Konunga vorra, marga Gudhrædda
og Vijsa Kieñendur og Forstioora, sem vaka yfer Saalum Barna þiña:
Eñ þoott eg sie þeirra Veikastur, og kuñi ecki miklu vid þeirra Verk ad
bæta, samt veit eg Skylldu mijna ad þocknast þier i þvi eg kann eg maa,
eptir þeirri Naad sem Gud hefur giefed mier. Eg les i Exodi Bookar
Þrijtugasta og Fimta Capitula; Ad þegar Gud baud Moysi ad laata
giøra Vitnisburdar Tialldbwdena, þa hafe hann skipad, ad til heñar
skyllde leggia hvør eirn epter þvi sem þeir sialfkrafa villdu, Sumer Gull,
sumer Sylfur, sumer Kopar og dijrmæt Klæde og Steina, eñ adrer Gei=
ta Ull og Hrwta=Skiñ, med ødru fleira sem þar uñgictur og var i miña

Gyllde. Medal þeirra Sijdurstu reikna eg mig, og maa vel reikna, Sek-
um Faafrædis mijns og Overdugleika; Eñ fyrer þvi ad eg veit, ad þinn
HErra aalijtur meir Viliañ eñ Maatteñ, þa voga eg ad blooda þier ept-
erfylgiande Predikaner i Packlætis Myñing, ad eg hafe leiged, og ligge
eñ nu aa Brioostum þier. Þigg þvi, Mooder, þeñañ lijteñ Skeink af hin-
um Aumasta Þienara þijns Brwdguma, og þijnnn Minsta Syne,
sem vill aastunda ad fiñast

Skaalhollte,
Þañ 7. Augusti,
Anno 1717.

Þinn Trwr, og þig
Af Hiarta elskande allt
til Daudans.

**Jon Thorkelsson**
Widalin.

## Til Lesarans.

Epter þvi ad Vel-Edla og Vel-Eruverdugum Herra Biskupinum, Hr. Steine Jonssyne, hefur Naudsynlegrar Ordsakar vegna þocknast, ad laata setia þær Citatiur, sem aa Spatiunñe stoodu i þeirre skrifudu Book, sem þesse er prentud epter, iñ i Predikanernar, þa vil eg hafa Lesarañ hier med advaradañ, ad nær þessar Predikaner Openberlega Lesnar eru, þa skule hlaupa yfer Citatiurnar, so þær ecke lesnar sieu. Citatiur eru ei giørdar til þess, ad þær skule lesast i eirnre Predikun, þvi þær uppHalldq Lesaranum og giøra Lesturen Laangsamañ, helldur til þess, ad hvør sem vill, kuñi ad siaa eftir þvi sem Citerad er af Ritninguñi, og bera þad samañ, þegar hañ les wt af fyrir sialfañ sig. Þetta sijnest mier Naudsynlegt ad gieta uñ vid þaa sem Lesa þessa Book. Befalande alla Lesendur og Heyrendur hier med, Guds Heilags Anda Adstod og Upplijsingu.

Og vil alltijd fiñast, epter Skylldu miñe,
Þeirra Vilingur Þienare
J øllu þvi sem mier er af
Guds Alfu tiltrwad

Skaalhollte,
Dag 9. Martij,
Anno 1718.

**Jon Widalin.**

## Bæn fyrer Predikun.

O Þu Stoore Konungur allrar Veralldareñar, sem bijr i þvi Lioose er eingeñ fær tilkomist: Vier synduger Ormar skrijdum aa þessari Blessadri Stundu upp wr voru Dupti fram aa Skør þiña Foota, til ad Fridmælast vid þijna Guddoomlega Haatign, er vier med saurugum Verkum og Illgiørdum vorum so hræælega mood-gad høfum, allt i fraa Barnæsku vorre. Eñ, æ oss, DRotteñ! vier er-um so vannegna under Byrde Syndaña, ad þegar vier gyrnumst ad lypta oss upp i Hæđernar til þijn, þa draga vor eigeñ Saurende oss nid-

ur

ur aptur. Þu hefur ad soñu fyrergiefed oß margar Synder, og sparad oß mildt i þeim allt aa þeñañ Dag; Eñ vort Hiarta skielfur i oß og kvijder vid þijnu straanga Riettlæte, nær vier til þess huxum, ad vier, Þverbrotnar Mañeskiur, høfum so laangsamlega forsmaad þijna Myskunseme og siaalfer Oviitt so marga Kvittun vorra Synda, er vier þeiged hefum, med þverwdarsamlegre Jdkun sømu Glæpa og Jllgierda. Hvert skulum vier þa flya undañ þiñe Hende? Þu uppfyller bæde Himin og Jord; Eñ þijn Myskunseme er eins stoor og þu siaalfur, Hun hefur øllum þeim vel giefest, sem heñar med bliwgu Hiarta og sundurknosudum Anda leitad hafa: Og ef vier, sem erum Hey-Straa, meigum ecke snerta þig, sem ert eirn fortærande Elldur, þa leif oß ad skrijda ad Sonarens Footum, sem er Hold af voru Holde, og þvo þær i Taarum vorrar Jdranar. Eñ æ, vor Gud! Vier vitum ad hañ er i Heimeñ komeñ til ad lækna þad sem kramed er: Hvad kañ þad oß ad gagna, ef vort Hiarta er heillt? Ef þad er hardara eñ nockur Steirn? Því Graatbænum vier þig fyrer hañs dijru Kvøl og Bloodugar Under: Slaa þu, O HErra! aa þeñañ harda Klett med Moysis Sprota; so ad Vatns-Straumarner, Jaa, eitt breñande Vatns-Flood, meige spretta þar wt af, til ad þvo vorar Ohreinar Samvitskur: Laat eirn glooande Anda breña upp allt Sorp añarlegra Þaanka wr voru Hiarta, sem er þitt Mustere, so þijn Ord faae Rwm þar iñe. Laat oß ecke heyra þad so i Dag, ad þad fordæme oß aa sijdarsta Dege, helldur gief ad þad verde Epterlæte Saalna vorra: Laat þess Sætleika burtdrijfa allt Toomlæte og Gaaleyse fraa oß, so vier vardveitum þad i goodu og Sidsømu Hiarta. Þess bidium vier þig fyrer JEsum Christum þiñ Son med hañs eigeñ Bæn, Seigiande: Fader vor, etc.

# Bæn epter Predikun.

O Þu Haaleita Guddoomsens Þreñing, Eirn Gud og sañur fraa Eilijfd til Eilijfdar. Vier aumer Syndarar liggium hier flater fyrer Auglite þiñar Haatignar, til ad offra þier Þacklæte vors Muñs, fyrer þijnar Owtseiglañlegar Velgiørder, er þijn millda Orlætes Hønd oß Oþacklaatum og Þverbrotnum Mañeskium andsynt hefur, bæde i Andlegañ og Lijkamlegañ Maata: Eñ, æ oß DRottenn! Vier erum so kallder i Bæneñe, ad vier Ottast meigum, ad þu vilier skirpa oß wt af þijnum Muñe, nema þu vermer vor Hiertu. O Vor


Gud

Gud! Laat þiñ gooda Anda, bid'a aa ſamt vorum Anda, med Oumrædeslegum Andvørpunum, So ad vier lijka mætte Foorn Vara vorra, fyrer JEſum Chriſtum. Vier þøckum þinni Guddoomlegri Elſku, fyrir þitt H. Ord og þau Haaleitu Sacramenta, aa hvørium þu fooſtrad hefur og nært vorar Saaler, ad ei ſkylldum vier wt af ſofna i Daudanum. O vor Gud! Laat vorar illar Athafner, Vort Gaaleyſe og Oþacklæte, alldrei þvi vallda, ad þu ſvipter oſs þeſſare Himneſku Gaafu.

Gief ad þitt Ord, ſem vier i Dag høfum heyrt og numed, meige bloomgaſt i Hiørtum vorum, ſo ad þad fære þañ Avøxt er ſijne ſig, bæde i Ordum og Verkum; So þitt Haaleita Nafn vegſameſt i oſs, hvørta þu virdeſt ad nefna þitt Foolk og Eigeñdoom. O Drotteñ! Vort Hiarta er þitt epter Riette Skøpunareñar, Endurlauſnareñar og Helgungareñar; Pad er þijn Kyrkia, eñ Heimureñ, vort Holld, og Dioſulleñ gyrnaſt ad feſta ſiñ Foot þar iñe, og æ þvi verr! ad þad tekſt þeim framar, eñ vier giarnañ villdum: O vor Gud! yferfall þau med þiñe Magt, og tak þijna Eign af þeirra Hende, ſo ad þijner Oviner brixle ecke þijnum Her=Flockum. Pu Volduge Konungur ſem ert Sterkur og Maattugur i Strijde! Laat þiñ Guddoomlega Krapt þiña Heiløgu Orda verda ſo rijkañ i Hiørtum vorum, ad oſs velge vid Syndeñe ſo ſem añare Oþeckt. Gief þu ad Myñeña hiña fornu Glæpaña verde oſs ſo ſkielfeleg, ad oſs hrille vid þeim, ſo ſem añare Ofreſkiu. Gief oſs ad temia vor Hiørtu, vora Tungu og Eyru aa þad, ſem aa ad vera ſiidaſt vor ædſta Glede og Epterlæte i Dijrd Himnaña, ſem er þijn Elſka, þijn Ihugan, þijn Lofgiørd og Packlæte fyrer þijnar Guddoomlegar Daaſemder aa medal vor, og veit ad vier leggium hid meſta Kapp aa, ad framkvæma þad i Verkunum, ſem vier þeinktum i Hiartanu, tølum med Muñenum og heyrum med Eyrunum, ad ei gaungum vier i þeirre Blindne, ad hafa Skyn Gudhrædſluñar, eñ afneita heñar Krapte.

O þu Stoore Konungur Himens og Jardar! Vardveittu þiñ Smurda, vorn Allra=Naadugaſta Arfa Herra og Konung, hañs Haabornu Drottningu, og vorn Naaduga Arfa=Printz, og allt þad Konungleg Hws. Vertu Konungſins Skiølldur og Sool, og eitt øruggt Vijge aa moote ø'lum hañs Ovinum. Laat hañs Rijkisſtiorn farſæla verda, og gief hønum lakanga Lijfdaga: Umgyrd hañs Tignar=Stool med Herſveitum

sveitum þiña Volldugu Eingla: Gief Konungenum Hlijdna, Tr wa; Drugga og Rꜳdholla Undersꜳta: Lꜳt hañ so stioorna i þijnu Umbode, hier ꜳ Jorduñe, ad hañ meige Eilijflega med þier rijkia i Himnenum. O HErra JEsu Christe, þu sem ert hiñ mikle Hyrder Saudaaña, fyrer Blood þess Eilijfa Testamentis! Vardveittu Kieñendur Ordsens, þijna Þienara, Lꜳt þa alldrei gleyma þvi, ad þeir eiga þier Reikning ad standa, fyrer þitt Dijra Blood, med hvøriu ad Endurkeyptar eru þær Hiarder, Er þu hefur sett þa yfer, Eñ vert þeirra Vernd og Forsvar ꜳ moote Ogudlegum og Ohlutvøndum Moñum, nær þeir giora Verk siñar Kallanar trwlega: Og trod Andskotañ under þeirra Fætur. Vor Gud! Stioorna þu Valldstietteñe, og þeim er i Doomunum sitia, Upplijs Hiortu þeirra, ad þeir skilie Rietteñ, og gief þeim Vitsku til ad dæma þitt Foolk, med Vilia og Astundan ad giora þar epter. Tak ad þier, O Gud! Hwsstiornar Stiettena; Lꜳt øll Egta-Hioon elskast Jñbyrdes i Falslausum Kiærleika, og uppala sijn Børn og Hiw i Aga og Umvøndun til DRotteñs, Eñ Børnum og Hiwum hlijdeñ og audsveip Hiørtu, ad þau sieu Foreldrum og Hwsbændum undergiefeñ i øllu þvi, er þeim epter Guds Orde og Lagaña Skylldu tilsagt verdur.

O DRotteñ! añast þu alla þa sem Naudstadder eru, og bera þijns Sonar Kross a Herdum sier; Væg þeim, vor Gud, fyrer hañs Skulld sem lided hefur, uppꜳ þad, hañ kyñe ad hiꜳlpa þeim sem freistadur er. Uñ alla Hlute fram̃ Grꜳtbænum vier þig, Himneske Fader, Forlꜳt oss vorar Bloodugar Illgiørder og Synder, Fyrer JEsu Christi sꜳrn Kvøl og Pijnu. Miñst þess, ad hañ fyrer oss i Daudañ er wtgiefeñ af þiñe Guddoomlegre Elsku, þegar vier eñ þa vorum þijner Oviner. Virdstu þar fyrer ad gleyma vorum Yfertrodslum, Fyrer hvøriar hañ Fullnægiu giørt hefur, Þar vier fyrer hañ og i hønum erum Børn ordner: Og nær vor Æfe er ad Protum komeñ, vor Gud, og vier liggium fyrer Daudans Porte, horfande fram̃ ꜳ Veg allrar Verꜳlldar, Rett oss þa þijna Milldu Hønd, vor Gud, Og lꜳt oss deya med vorn Endurlausnara i Fadmenum, So vier meigum Eilijflega med þier og hønum lifa. Bænheyr þetta, Nꜳduge Gud og Fader, fyrer JEsum Christum, J hvørium allar vorar Bæner eru

Jꜳ og AMEN.

Fyrsta

# Fyrsta Suñudag i Ad=ventu, Gudspialled skrifar Matthæus i 21. Capitula.

Aa Þañ Tijma. Og þa er þeir tooku ad nalgast Jerusalem, og komu til Betphage vid Fialled Oliveti, Utsende JESUS Tvo sijna Læresveina, Og sagde til þeirra: Fared þid i þad Kauptun, sem gagnvart ydur er, Og strax munud þid fiña Os=nu bundna og Folañ hiaa heñe, Leysed hana og leided til mijn. Og ef einhvor seiger nockud til yckar, Þa seiged, þad HErrañ hafe þeirra Þørf, Og jafnsnart mun hañ laata þau laus: Eñ þad skiedi svo, ad uppfyllltest hvad sagt er fyrer Spaamañeñ, Er so seiger: Seig=ed Doottureñe Zion: Siaa, Þiñ Kongur kiemur til þijn hoogvær, sit=iande aa Osnu, og aa Fola Klifbærrar Osnu. Eñ Læresveinarner geingu i burtu, og giørdu so sem JEsus baud þeim, og leiddu med sier Osnuna og Folann, og løgdu sijn Klæde yfer þau, og settu hann þar uppaa. Eñ margt Foolk breidde sijn Klæde aa Veigeñ. Og adrer hiuggu Kvistu af Triaanum og dreifdu þeim aa Veigeñ. Eñ þad Foolked sem fyrer þeim gieck, og Epterfylgde, Kallade og sagde: Ho=siañа Syne Davids, Blessadur sie saa sem kiemur i Nafne DRottens, Hosianna i Hædstum Hædum!

## Exordium.

J Pistlenum til Phil. 2. kiemst Heilagur Paulus þañeñ ad Orde: Vered eins Lynder og JEsus Christus, hvor þoott hann være Guds Mynd, hiellt hann þad ecke fyrer Herfaang ad hann Gude jafn var, helldur lijtilæckade hann sialfann sig, takande aa sig Þræls Mynd, og ordenn Monnum lijkur. Postulenn segier, hann hafe þad ecke fyrer Herfaang reiknad, þoott hann Gude jafn være. Þeir ed Herfaang teked hafa, stæra sig þar af, brwka þad til Yferlætis, giora þar af forkostuleg Sigurmer=ke, breita vid þaa Herleiddu, sem þeim lijkar; So þad var Maalshattur hiaa Grick=ium, ad hallda þann Hlut fyrer Herfaang, er einhvor brwkade Rijkmannlega. JE=sus brwkade ecke þannveg Guds Mynd, þoott hann være allsraadande, bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. Samt hafde hann ecke Valld sitt vid yfer aumum Menneskium, hveriar hann var komenn ad Endurleysa af Myrkranna Vallde, helldur giordest þeim lijkur, Jaa, þeim Undergiefenn, þollde Mootlæte og alls=

konar

koƀar Hǫdungar af Syndurunum, er hañ med Audvirdingu þessare Endurkeypte ur Syndareñar Þrældoome, og hielt ecke Guds Mynd Herfang ad vera, so hañ med siñe Þioons Mynd, feinge Herleidinguna ad Herfange teked, Ps. 68. Eñ aklædt hiñ sterka Hervopnada Dioful siñe Harneskiu, Luc. 11. Og med Hleckium Myrkraña fiotrad, 2. Pet, 2. Þegar Satan took vora Fyrstu Forelldra til Fanga i Paradijs, og i þeim alla þeirra Epterkomendur, þa talde hañ þeim Trw uñ þad, ad ef þau æte af Eplenu, mundu þau Gude lijk verda, Gen. 3. Eñ þau hlijdduſt a hañs Slægdarfullar Fortolur, topudu þvi Guds Mynd, eñ giorduſt Fiandanum lijk, hvorium þau framar hlijddu eñ Gude, og fyrer þetta Raan Guds Myndar took JEsus uppa sig Þioons Mynd, og hiellt þad ecke so sem Raan, edur Herfang, þoott hañ Gude jafn være. Eñ þoott ad vor Frelsare ecke brwkade sijna Almættis Tign i Mañdoomenum, medañ hañs Lægingar Tijme yferstood hier a Jorduñe, þa hefur hañ samt eitt añad Rijke af Gude og Fodur, sem er hañs volldug Stioornan i Christelegre Kyrkiu med Ordenu og Sacramentunum: Þar uñ talar so David under Guds Persoonu: Eg hefe smurt miñ Konung og sett hañ yfer mitt heilaga Fiall Zion, Ps. 2. Eñ þoott ad Guds Rijke kome ecke þañveg, ad þad adgiætt verde, so sem HErrañ seiger, Luc. 17. Þa siaaum vier þo nockra Lijking þess edur Skugga i þessa H. Dags Evangelio, þar ed JEsus rijdur iñ til Jerusalem, so sem eirn Konungur, ecke einasta til ad uppfylla Spaadoom Zachariæ, hvors hier gieted verdur i Gudspiallenu, og þañeñ hlioodar, Zach. 9. Seiged Dootturene Zion: Sia Þiñ Kongur Kiemur Til Þijn Hoogvær, Sitiande a Osnu, og a Fola Klifbærrar Osnu: Helldur til þess ad afreka og wtvega sijna Christelega Kyrkiu, sem er eirn Konunglegur Kieñemañskapur, og þad med sijnu eigeñ Bloode, hvar uñ Esaias spaaer, Cap. 62. a þeñañ Haatt; Siaaed! DRotteñ hroopar allt til Enda Jardareñar, Seiged Dootturene Zion, Sia þitt Hiaalpræde kiemur. Og sokum þess, Born mijn, ad þetta Hroop hefur og heyrſt til vor, sem ad bwum a Enda Veralldareñar, og oss verdur asamt odrum þetta Hiaalpræde bodad, Þa laatum oss af þessu heilaga Evangelio yfervega i þetta Siñ, hvilijkum ad þessa Konungs Undersaatum byrie ad vera. Gud Fader Myskunsemdaña giefe oss Naad sijna þar til, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

Heir munu ecke aller, sem til mijn seigia, HErra, HErra! iñgaanga i Guds Rijke, seger JEsus, Matth. 7. helldur þeir sem giora Vilia mijns Fodurs, sem a Himnum er. Marger munu þeir vera i Safnade Christs hier a Jorduñe, sem eins eru lynder og Judar fordum Daga, er sogdu: Vier vilium ecke laata þeñañ drottna yfer oss, Luc. 19. Þo er Christur allra þessara Konungur, þvi aller vill hañ ad hoolpner verde, og komest til Sañleiksins Vidurkieñingar, 1. Tim. 2. Eñ so sem þad, ad eiñ Konungur, hañ er Konungur bæde þess, er hann lætur undir Exi draga, veg-

na Glæpa sina, so sem hinn, er hann setur sier a Hægra Veg; So eru og bæde Vondir og Gooder i Christi Rijke, og hann drottnar eins vel yfer þeim, til hvorra hann vill seigia a Efsta Deige, Fared fraa mier aller Illgiorda-Menn, Matth. 7. So vel sem hinum er hann kvedur þessum Ordum: Komed blessader mijns Foodurs, og eignest þad Rijke sem ydur er fyrerbwed i fraa Upphafe Veralldar, Matth. 25. Jafnvel þott ecke laati þesser hvorutveggiu sier eins stioorna af Anda DRottens. Hvad byriar oss þa hier um ad þeinkia, Guds Born? Eg meina, ad laata oss umhugad vera, ad lwka þessum Konunge Skylldur þær, sem hann af oss heimtar, Og er sw heilsta, ein audmiwk Hlijdne. JEsus baud sijnum Læresveinum, ad fara i þad Kauptun, sem gagnvart þeim var, þar mundu þeir finna Osnu bundna og Fola hiaa henne, þau skipade hann ad leisa og leida til sijn. Þeim hefde maatt til Hugar koma, ad ei være Skipun þesse svarleg; þeir mundu Akaasum mæta, ef þeir tæke svo annara Manna Eigur Oradspurt: enn þeir fæst ecke um þad, helldur giora sem þeim boded var. Gior slijkt hid sama, Christenn Madur! laat einskis Bod edur Bann vera þier jafnskyldt, sem þijns Guds. Hlijdne er betre enn Offur, seiger Ande DRottens, 1. Sam. 15. Heyr hvad hinn Eingietne Sonur Guds seiger, þegar hann innkiemur i Heimenn, Psalm. 40. Offur og Foornfæringar þocknast þier ecke, Enn mijn Eyru hefur þu i giegnum stwnged, Brennefoorner og Synda-Offur villtu ecke: þa sagde eg: Sia! eg kiem, i Bookenne er skrifad af mier, þinn Vilia, minn Gud, giore eg giarna. Hver Davids Ord St. Paall, til Hebr. 10. heimfærer uppa vorn Endurlausnara. Hafe nu hinn Eingietne Sonur Fodursins, vered honum so hlijdenn, hvor þo med sinne Forþienustu hefur siaalfum sier eckert forþienad, hvad miklu framar ætter þu Gudi ad hlijdnast, sem honum ecke einasta Saal og Lijf skylldugur ert, helldur og þar ad auke Otal Tijn Þusund Punda, Matth. 18. og þann so morg, ad þu alldrei fær honum loked þann Sijdasta Pening, ef hinn Stoore Konungur Himens og Jardar vill Reikning hallda? Hvad þa, Christenn Madur! Muntu ecke um alla Hlute fram skylldur honum ad hlijdnast, sem fyrer þig hefur allt þetta gollded; so Gud hefur uppgiefed alla Skulldena, ad ecke yrde þier kastad i hin Ytstu Myrkur, enn straffad hann, sem var hreirn og heilagur, og fraaskilenn Syndurunum? Hebr. 7. Jaa, hann hefur hans Eyru i giegnum grafed, eins og Præls þess, er ecke villde laus verda a Fagnadar Arenu, Exod. 21. hvorn hans Hwsboonde maatte festa a Eyranwid sinn Dyrastaf, ad hann være hans Præll upp þadann Æfenlega. Muntu neita honum þinar Þienustu, er þvillijka Smaan hefur lided þier til Frelsis; þar þo Christi Præll ad vera, er eintoomis Frelse, og hans Þienusta, er ollu Herradæme ædre. So þader sannkveded, er sa Guds Madur orte Fordum: Kong minn JEsu eg kalla þig, kalla þu Præl þinn aptur mig, Herra-Tign aungva ad Heimsins Sid, hellde eg þar meige jafnast vid. Þvi seiger og Paulus: Þier hafed og ecke medteked Prælkunar Anda aftur til Hrædslu, helldur hafed þier medteked Arfleidsluñar Anda, fyrer hvorn vier kollum Abba Fader, Rom. 8. Enn ef vier Born erum, þa erum vier og Erfingiar, Ja, Erfing-

inglar Guds og Samarfar Christi; Rom. 8. Eñ seigid mier: Hvad munu øll Rijki Veralldariñar vera ad reikna vid þad, ad eiga Arfskifti vid hañ, sem Gud ecki alleina hefur giefid Endimork Veralldariñar til Arfleifdar, Psalm. 2. helldur og sett hañ sier til Hægri Handar, Psalm. 110. og mun leggia alla Ovini hañs til Footskarar honum? 1. Cor. 15. O hvørsu blind er þa Mañeskiañ! Meñ leggia allt Kapp aa, ad komast i Tigeña Maña Þienustu, hvar þo Tiju þioona fyrir eins Lucku Stundum, so margur maa þioona leingi aadur eñ hañ kiemst til þess, sem þo er i siaalfu sier ecki añad eñ Þrældoomur, og i giegnum mikiñ Þrældoom brijtst Faavitska Mañsins til añars meira; hvar þad geingur ofstlega miog Andhælis til; so ad þeir sem dyggvaster verid hafa og Drottiñ-hollaster, þeir faa hina verstu Utreid aa Stundum, eñ þeir eru i Haavegum, er aa Soikraadum sitia, eñ ad gioraſt Hyrdmadur Christi, skeyta faair um, jafnvel þoott hañs Þioonusta standi øllum til Boda: þar er ei Gydingur nie Grickur, ecki Þræll nie Frelsingi, ei Rijkur nie Faatækur, ei Vijs nie Vankuñandi fraaskiliñ, helldur eru þar allir Eitt i Christo JEsu, Gal. 3. Eñ þess er ad giæta, Born mijn, ad saa sem vill gaanga Christo til Handa, hañ skal ecki Tvijskifta Hiarta sijnu, helldur giefa honum þad allt. Ecki seigi eg þad, ad hvør eirn skuli ei þioona i þeirri Kallan, hvar til hañ er kalladur, eda Undirgiefiñ skuli ei Undirgiefiñ vera, þvi saa sem giørir Verk siñar Kallanar, hañ þioonar Christo, sem þad hefur boded; hañ sem Yfervalldenu hlijdnast, hañ giører og Christi Skipan, er sagt hefur: Giefed Keysaranum hvad Keysarans er, Matth. 22. Og hañ sem leitar Næringar siñar med ærlegu Erfidi, hañ hlijdir honum, er þad Bodord gaf, i Sveita þijns Andlitis skalltu þijns Brauds neyta, Gen. 3. Hitt seigi eg, ad saa sem vill þessa Konungs Þegn vera, hañ leiti fyrst Guds Rijkis og hañs Riettlætis, Matth. 6. og meti eckert af þessu jafnframt honum, miklu sijdur hlijdi añarra Bodi edur Fortølum meir eñ hañs. Seigid mier; hefur ei Gud bodid ad Forelldrana skylldi heidra hvad mest af Moñum, og lagt Bølvan vid, ef nockur þa vanheidrar? Devt. 27. Eñ þo seigir JEsus: Saa sem elskar Fodur edur Moodur, framar mier, hañ er mijn ecki verdugur, Matth. 10. Gud hefur skipad, ad Maduriñ skylldi yfirgiefa Fodur og Moodur, og samteingiast siñi Egta-Kviñu, Gen. 2. Eñ hvad seigir Moyses hier um? Devt. 13. Ef þiñ Broodir, Sonur Moodur þiñar, edur Sonur þiñ, edur Doottur þijn, edur þijn Eigiñ Kona, sem hvijlir i þijnu Skauti, edur Vinur þiñ, saa sem er eins og þu, vilia locka þig, seigiandi: Laatum oss fara og dijrka añarlega Gudi, þa skalltu drepa hañ, þijn Hønd skal vera fyrst aa mooti honum, til ad deyda hañ, og sijdañ alls Israels. Nu kynni einhverium i Hug ad fliwga: Hviliikir skulu þa Christs Þegnar vera? Meiga honum ecki þioona nema Syndlausir og Heilagir Meñ? Þad em eg ecki, og giet ecki verid, aa medañ eg lifi i Holldinu, þvi eg em Daudlegur Madur, undir Syndina selldur, Rom. 7. Og þegar eg vil giora hid Gooda, þa lodir þad Vonda vid mig: Hvad skal eg hier til seigia? Þo eg sie skylldur Christo ad þioona af øllu Hiarta, þa giet eg þad ecki, þvi þad

Gooda sem eg vil giora, þad giori eg ecki, eñ þad Vonda sem eg vil ecki giora þad giori eg. Heyr Christin Madur! Guds Sonur er i Heimiñ komiñ til þess, ad kalla Synduga, eñ ecki Riettlaata til Ydranar, Matth. 9. Væri Von aa þvi, ad vier giætum fullnægt Guds Logmaali, þa væri Christs Forþienusta oss Onaudsynleg. Eñ ecke hefur Gud sendt hañ i Heimiñ til þess, ad vier mættum þess Ohultar syndga, ecki yfirgnæfir hañs Naad i Christo þar til, ad vier skulum i Syndunum lifa, Rom. 6. helldur hefur hañ þar fyrir lidid Kvol og Dauda, ad hañ vissi, ad vier mundum med Syndeñi Guds Naad og Vingan oftlega af oss briota. Þar fyrir seigir Johannes, 1. Pistl. 2. Born mijn, þetta skrifa eg ydur til, ad þier syndgist ecki, eñ ef nockur syndgar, þa hofum vier Tals-Mañiñ hiaa Fodurnum, JEsum Christum hiñ Riettlaata. Eñ giætid þess, Christner Meñ, ad Syndiñ er marghaattud: Þar eru Syndir sem verda ad Ovilia, og af Faavitsku, um hvoriar Guds Logmaal so talar: Num. 15. Ef nockur Saala syndgast Ovitandi, þaa skal hun Foornfæra Ars-gamalli Geit fyrir Syndina. Þvilijk var Synd Paals, er hañ Offsookte Guds Sofnud: Fyrir þvi seigir hañ, eg hefi Myskun hlotid, af þvi eg giordi þad Ovitandi i Vantrw, 1. Tim. 1. Item, Abimelechs, er hugdi ad taka Saram Abrahams Hustru Frillu-Taki, og vissi ecki, ad huñ var hañs Eigiñ-Kona, Gen. 26. Adrar skie af Braadrædi einu, þa Mañneskiañ, sem er hneigd til hins Vonda, giefur sier ecki Stundir til ad laata Guds Anda edur Skynsemina vid sig raada, so sem þegar Moyses sloo Helluna Tvisvar, Num. 20. Þegar David hiet ad farga Nabal, og ollu Kallkyns i hañs Hwsi, 1. Sam. 25. Þegar hañ Foolkid taldi, 2. Sam. 24. Og þad er þad sem Paulus kallar, Gal. 6. ad verda yfersttijgeñ af einhvorre Hrosun. Nockrar verda og af Mañlegum Breiskleika, hvor ed jafnvel Guds Bornum filgir, æ so leingi þau bera eptir sier þeñañ daudlega Lijkama, og þad eru þeir Giorningar syndugs Mañs, sem Holldid og Andiñ eru ad glijma um, og gieta alldrei sættst þar uppaa, þviad hvort strijdir aa mooti odru, Gal. 5. Og þær fædast, þegar Andiñ lætur sigrast af Holldinu, og verda hier Imser under, þvi verr, ad su Synd sem i oss bijr, hvoria Postuliñ Holld nefnir, Gal. 5. Hun verdur oftlega sterkari. Þetta verda aa Stundum þwngar Syndir, og sierdeilis Guds Bornum nærri Obærilegar, eñ þo reiknar Gud þær ecki Endurfæddum Mañi til Dauda, þegar þær med hreinnri og alvarlegri Ydran fyrir Lausnarans Forþienustu bættar verda. Hvar fyrir? Þvi þar er eingin Fordæming hiaa þeim, sem eru i Christo JEsu, þeim sem ecki eftir Holldinu gaanga, helldur eftir Andanum, Rom. 8. Eñ þeir kallast ecki ad gaanga eftir Holldinu, sem med Andanum leitast vid ad deyda Holldsins Gyrndir, jafnvel þott tilberi ad þad faai Yfir-Hond, allt so leingi Meñ giefa þvi ecki Taum, þad Meñ þiooni þvi i þess Gyrndum. Og þvi seigir David, Psalm. 19. Hvor skilur hvad oft hañ villist? afleys mig af mijnum heimuglegum Syndum, og hallt Præli þijnum aftur fraa Þvermoodskuni, ad þær drottni ecki i mier, þa mun eg heill verda.

Nu

Nu eru þar adrar Syndir, sem Madurinn ecki einasta giorir med fullum Asetningi, umm hvoriar DRottinn talar, Num. 15. Su Saal, er drijgir Syndina med upprietttri Hendi, (þad er, med æsettu Raadi) hun vanvirdir DRottinn, þvi hun forakt adi hanns Ord, og Onijtti hanns Bod; helldur og laata þeir Syndina drottna i sijnum daudlegum Lijkama, fyrir utann alla Baraattu aa mooti henni, og liaa Limu sijna henni til Vopna, hvoria hun brwkar med Siaalfskylldu Andskotanum til Pioonustu, enn DRottni til Styggdar, so sem eirn Handverks Madur sitt Verkfæri. Þesser eru þeir, er JEsus kallar Præla Syndarinnar, Joh. 8. Og þannveg eiga ad skiliast Ord Joh. 1. Pist. 3. Er hann seigir, ad saa sem drijgir Syndina, hann sie af Dioflenum. Hinn Agiarni þeinkir ecki umm annad, enn hvernig hann meigi fylla sitt Hws af annars Sveita med Riettu og Raungu. Pioofurinn, sem er hnans Stall-Broodir, hyggur ad, Vakinn og Sofinn, hvernig hann stela meigi. Hinn Dramblaate þenur sig wt sem annad Laarberia Trie, Psalm. 37. Hann nijtur ei Svefns nie Matar, ef einhvor hann virdir minna, enn hanns Pootti bijdur. Hinn Metordagiarni sparar aungva Illmennsku til þess, ad tilla sier upp i Vyrdingarnar. Joab svijfst ecki ad taka Lijfid af Abner og Amasa, og þo med Flærd og Svikum, til þess ad hann sie Ohulltur umm Nafnbætur sijnar. Hinn Ofundsiwki etur sitt eigid Hiarta, hanns Ormur sofnar ecki, ef hann sier ad nockrum geingur vel, hann eyrir aungvu nema einhvor steiti sig, og hefur aungva Skiemtan nema af annarra Olucku. Hinn Bakmaalugi fiskar i annarra Avirdingum, hann leitar smaasmuglega eptir þvi sem ødrum yfirsiest, hann þeinkir sig umm, hvorninn hann faai einhvoriu þar lijklega vidaukid, og giorir Tiju Pund af Einu, þvi sem Andskotinn hefur honum i Hendur feingid. Ligarinn spinnur sitt Verk af sijnum eiginn Ydrum, eins og Koongulooinn, og brijtur Heilann til ad lioosta þvi upp, sem alldrei er Tilhafid. Hinn Flaaraadi grefur eina Grof, Baki brotnu, til ad steipa hinum Einfallda þar i. Allt þetta vinna þeir, ed so eru lyndir, med Astundan, fyrir utann allann Guds Otta, edur nockra Mootstodu i giegn Andskotans, Heimsins og Holldsins Vielum. Þessir laata Syndina drottna i sijnum Daudlegum Lijkama. Og þetta er su Pvermoodskan, er David bidur Gud ad hallda sier aftur fraa, Ps. 19. Ad sonnu er þad satt, ad Guds Sonur er fyrir þessar Syndir daainn, þvi hann er Forlijkun fyrir allar Veralldarinnar Syndir, 1. Joh. 2. Hvad og audsied er af Dæmi Manassis Konungs, 2. Par. 33. Hinnar Bersyndugu, Luc. 7. Ræningians, Luc. 23. Og annarra laangtum fleiri: Þo er nærsta hætt vid þvi, Brædur mijnir, ad slijk Ydni Syndanna, sem Madurinn tekur sier aan allrar Ydranar, aan alls Otta fyrir Guds strangu Hootunum, aan alls Asetnings til Afturhvarfs, edur og, med Hiegoomlegre Raadagiord, ad ætla sier þaa ad ydrast, þegar oss gott þykir, sem kannskie seint þyki, edur þegar oss Syndinn leid verdur, er maaskie alldrei verdi, ad þessi Ydia og inndruckinn Vani til Syndsamlegs Athæfis, meigi smwast uppi fraaleitt Sinni, Rom. 1. upp i forbrenda Samvitsku, 1. Tim. 4. Umm hvoria Paulus talar, Eph. 4. ad þeir

gange i Hiegooma sijns Hugskots formyrkvadir i Hiuxtunum, fraafkildir Lijfi Guds, fyrir þad Peckingarleysi sem i þeim er, sökum Hardwódr þeirra Hiarta, hvorier þa þeir hofdu mist alla Tilfiñing, gaafu þeir sig til Lausungar, ad fremia allañ Ohreinleik med Agyrni, so sem voru Pharao, Judas, Achitophel, og þeir ádrir sem Postuliñ kallar Siaalfdæmda, Tit. 3. Eñ þad seigi eg i Guds Stad, og i Umbodi hañs Eingietins Sonar JEsu Christi mijns HErra, hvort eg aa Hendi hefi, ad jafnvel þoott ad Naadiñ yfirgnæfi Syndina, þa er saa aungvañveigiñ Konungsins Christi riettur Þegn, nie sañur Limur hañs Kyrkiu, er vijsvitandi og Ydrunarlaust framfer i Syndum og Glæpum, med þvi Mooti sem aadur hefi eg sagt: Þvi Guds Sonur er til þess i Heimiñ komiñ, ad kalla Synduga til Ydranar, Matth. 9. Eñ ecki til þess, ad þeir skule syndga uppa Naadena; Til þess ad Meñ skijrest i hañs Nafne til Ydranar, Act. 2. eñ ecke til Athugaleysis nie Undañdraattar; til þess ad þioona hönum i Endurnijungu Lijfdagaña, eñ ecke til þess ad giefa Diöflenum hiñ mesta Hluta þeirra, eñ ætla Gude hiñ sijdarsta Part Æfeñar, sem eingeñ veit nær þrijtur. Eg veit, ad þeir sem komu um Ellefu Stund i Vijngarden, feingu jafnt vid hina, sem bored hofdu Hita og Þwnga Dagsins, Matth. 20. eñ þu hefur kalladur vered um Siottu og Nijundu Stund, hvad veitstu af þvi ad þu munir naa hiñi Elleftu, muntu kuña Gud fyrir þad, þoott hañ laati þig hafa jafnañ Hlut med þeim, til hverra sagt var: Eingiñ þeirra Maña, sem bodnir voru, munu smacka mijna Kvolldmaaltijd? Luc. 14. Villtu heimta þad af Konungi Himins og Jardar, þu sem ecki ert einasta Molld og Aska, helldur Landraadum sekur vid hiñ lifanda Gud, ad hañ lieti kvelia siñ Eingietiñ Son til þess, ad þu þess Tryggvar mættir i allri Ohæfu þioona Fiandanum, hvör ad er Guds svariñ Ovinur? Er þad ecki noog, ad hañ hefur laatid greftra þig fyrir Skijrnena med Christo til Daudans, (þad er, til ad deya Syndeñi) so ad lijka sem Christur er uppvakiñ fraa Daudum fyrir Dijrd Fodursins, so kuñir þu ad gaanga i Endurnijungu Lijfdagaña? Reinid þar fyrir, Christnir Meñ, hvort þier erud i Trwni; 2. Cor. 13. Hvada Lyst þier hafid til goodra Verka, hvorn Leidq aa Syndiñi? og ef þier fi[illegible]id Brest aa slijku, þaa giætid ad ydur i JEsu Nafni; forsmaaid ecki Rijkdoom hañs Þolinmædis og Langlundargieds, helldur giætid þar ad, ad hañs Giædska leidir til Ydranar, so ad þier ecki safnid ydur Reidi aa Dag Reidiñar, og Guds Riettlætis Dooms, Rom. 2. Hvor Eyru hefur ad heyra hañ heyri þad, og bidie Fodur Liooßaña, fraa hvorium ad kiemur oll good Giof, og oll fullkomiñ Giof, Jac. 1. ad giefa sier Ydran til Sannleiksins Þeckingar! JEsu Lærisveinar logdu Klædi sijn yfir Osnuna, og settu hañ þar uppa; þeirra Dæmi fylgdi Foolkid, er breiddi sijn Klædi aa Veigiñ. An alls Efa hefur þessum til Hugar komid, ad Jesus mundi i þad Siñ ætla ad upprietta hid Jardneska Israels Rijki, þvi þad var Haattur Gydinga ad breita þanniñ vid þa, sem nijlega hofdu Stioorn tekid, hvad sia maa af 2. Reg. 9. Þegar Spaamañsins Þienari hafdi smurt Jehu til Konungs, þaa breiddi hver af hañs Herra Þienurum sitt Klædi undir hañ aa þad hædsta af Tropp-


unum

unum, og søgdu: Jehu rijker. Og þo nu ad bæde Læresveinarner og Foolked villt-ust i þessu, þa er þad samt skied af DRottne, til ad teikna þar med hans Konungs Tign, hvørn Gud Fader hefur smurt yfer sitt heilaga Fiall, Psalm. 2. Enn giæt ad þvi, Christ-en Madur, ad þesse Konungur Dijrdarennar, rijdur hvørn Dag inn til sinnar Borgar, sem er Christeleg Kyrkia, Og so sem hann er eirn Andlegur Kongur, so og er hans Rij-ke Andlegt, Þviad Vopn Herfarar vorrar eru ecke Lijkamleg, seiger Paulus, 2. Cor. 10. helldur Kraptur Guds til ad nidurbrjota Gyrdingarnar. Hann kiemur til vor i Ordenu og Sacramentunum, I Krapte sijns Heilaga Anda, sem straffar i Mannenum Syndena, Uppvekur Ydranena, Efler Trwna, Kveiker Elskuna til Guds, Innræter Kiærleikann til Náungans, verkar Þolenmædena. Þegar þu, Christenn Madur, finnur i Hiarta þijnu nockrar þesshaattar Hræringar, Þa vit þad, ad sa DRottinarenn er þar komenn til sijns Musteris, sem Malachias um spaer, Cap. 3. Þegar Pharisæi spurdu DRottenn ad, Fordum Daga, hvenær Guds Rijke kiæme? Svarade hann þeim; Guds Rijke kiemur ecke so þess giætt verde, þeir skulu ecke seigia: Siaa! þad er þar, edur siaa! þad er hier, þvi siaaed, Guds Rijke er inne hiaa ydur, Luc. 17. Gud kiemur ecke i Hior-tu Mannanna, eins og Herodes og Bernice Fordum, med stooru Yferlæte, Act. 25. Siaa Þinn Konungur Kiemur Til Þijn Hoogvær, seiger Gudspialled. Þoott Christ-ur bwe i Himnenum, þa bijr hann under eins i sundurkrømdum Hiørtum, Esa. 57. JEsus sagde Fordum vid Nicodemum: Vindurenn blæs, og þu heyrer hans Þit, enn þu veitst ecke hvadann hann kiemur, edur hvort hann fer, so eru og aller þeir sem af Andanum fædder eru, Joh. 3.

Nu er Endurnyungenn Dootter Endurfædingarennar, baadar koma af Anda Guds, sem verkar i Mannenum fyrer Orded: Ei ecke veit hann edur skilur med hvøriu moote hinn Alvitre Gud þad verkar, Verkanena finnur hann, e Verkunarennar Maata skilur hann ecke. JEsus reid einum Asna inn til Jerusalem, og so þocknast Gude aa stundum marg-ann fyrer faafrooda Predikun hoolpenn ad giora, 1. Cor. 1. Enn þegar hann so vitiar þijn, syndugur Madur, þa breit epter þessu Foolke: Þeir breiddu sijn Klæde aa Veig-enn. Enn hvørnenn fær þu þad epter þeim giort? Þad kienner St. Paall, Eph. 4. Af-legged þann gamla Mannenn, epter hine fyrrellugeingne, sem fordiarfast i Gyrndum Villudoomsins, enn Endurnijest i Anda ydar Hugskots. Afklædunst þessum Illsku-ar Ham, og kostum honum fram fyrer Fætur JEsu: Honum byriar þo med øllum ødrum hanns Ovinum ad leggiast til Footskarar honum, þvi ecke er þvilijkur Ovinur Christs, næst Fiandanum, so sem Hollded, hvørs Þaankar ad eru, Reide og Fiandskap-ur i giegn Gude: Enn Iklædunst einum nijum Manne, sem epter Gude er skapadur, i Riettlæte og Heilagleika Sannleikans, Eph. 4. Minnunst Elskanleger aa þad, ad JE-sus Christur Konungur Dijrdarennar, hann var flettur sijnum Klædum, og hans bless-adur Lijkami var Allsnakenn reyrdur vid Stoolpann i Þijng-Hwse Pilati, hvar hann var Hwdstryktur, til þess ad vier yrdum frelsader fraa eilijfum Hwdstrokum i Ytstu

Myrk-

Myrkrum, en̄ Iklæddet hijum hvijtum Skrwda med Paalmavidum i vorum Hondum, Apoc. 7. Jaa, þetta allt hefur han̄ þolad til þess, ad vier mættum honum Iklædast, so sem Paulus seiger, Gal. 3. Skylldum vier þa ecke leitast vid ad deyda vora Jardneska Limu, sem er, Saurlifnadur, Ohreinleike, Gyrnd, Illfyse og Agyrne, hvor ad er Afguda-Dijrkan, Col. 3. Sierdeilis þar Gud hefur oss sialfur Vopnen̄ i Hendur feinged, hvor Paulus kallar Liooss ens Vopn, Rom. 13. og Guds Alvepne, Eph. 6. Þad ætlar Heimur þesse, ad han̄ hafe eingen̄ Not Lijfsins, nema han̄ life ad Munudum sijnum, svo sem væru Men̄ alleina þar til i Heimen̄ borner; eins og Petur seiger, 2. Pistl. 2. Ad þeir sieu eins og Skynlaus Dijr, sem ana fram̄ epter þvi sem Natturan̄ bijdur, alleina til þess skopud, ad þau slatrud verde, nær þau saungud eru: og er Lijking þesse augiæt; þvi so sem Villudijren̄ ecke um̄ an̄ad hyrda, en̄ ad fylla Magan̄, og verda þar fyrer a stundum tæld og lockud, med adskilianlegum Veidibrellum, þar til þau eckert af vita, fyrr en̄ þau hafa Foot sin̄ i Snorun̄e. So eru og þeir, ed um̄ eckert skeita, nema um̄ Lijkamans Epterlæte, Fijsn Augnan̄a, og Drambsamlegt Lijferne, 1. Joh. 2. Þeir giæta ecke ad fyrr en̄ Saalen̄ uppvaknar i Helvijte og Kvolunum. Hvad Postulen̄ greinelega um̄ þaa seiger, er rijker vilia verda, ad þeir falle i adskilian̄legar Freistingar og Snorur og Gyrnder, heimskulegar og skadlegar, er steypa Man̄enum i Topun og Olucku, 1. Tim. 6. En̄ þeir sem Christo tilheyra, þad eru þeir sem eru han̄s Trwfaster Hyrd-Men̄ og Læresveinar, þeir Krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tillhneigingum, Gal. 5. og hroosa sier ecke nema af Christi Krosse, fyrer hvorn þeim er Heimuren̄ Krossfestur, og þeir Heimenum, Gal. 6. Þegar Men̄ rada eirn Þienara til Vistar, þa giora Men̄ Skilmaala vid han̄, hvad han̄ vin̄a eige, og hvad han̄ faa skule i sijn Verka-Laun. So hefur JEsus giort, Luc. 9. Han̄ sagde fyrer ollum Mon̄um, seiger Gudspiallamaduren̄: Hvor sem mier vill epterfylgia, han̄ afneyte sialfum sier, og take Daglega sin̄ Kross uppa sig og fylge mier epter. Han̄ sagde þad ollum, so aller vita meige, hvors þeir vænta eige i han̄s Þienustu. Han̄ seiger Daglega, so ad þeir sem Gud hefur ongvan̄ wtvortis Kross a Herdar lagt, skule þo vera vidbwner ad Krossfesta sitt eiged Holld, og deyda sijna Jardneska Limu, Gal. 5. so ad han̄ vante ongvan̄ Christi Kross, sem vill under Christs Merke strijda, edur gaanga a Maala med þessum Konunge, þvi þad stendur þo O-raskan̄legt um̄ Alldur og Æfe, ad i gieggnum margar Hormungar byriar oss in̄ ad gaanga i Guds Rijke, Act. 14. og er han̄s Þienusta þo þvi betre, en̄ allra an̄arra, ad þoott hun̄ þyke hord Adgaungu, þa er han̄s Ok sætt og han̄s Byrde liett, Matth. 11. þvi hann hialpar sialfur til ad bera, han̄ er Trwr og freistar einkis yfer Megn fram̄, 2. Cor. 1. Sætleike Guds Nadar, og Smeckur Epterkomande Farsælldar, deiser so Nem̄u Krossens fyrer Guds Bornum, ad hen̄ar giæter ecki. Eg heyre ad Paulus og Silas eru glader i Faangelsenu, Act. 16. Postu'arner gelngu fagnande wt fraa Radenu i Jerusalem, þegar þeir Hwdstrykter voru, Act. 5. Jeg heyre ad Paulus Oskar, ad Festus Lands

Doom=

Dõmari og Agrippa Konungur væru eins Meñ og hañ, ad þeim Hleckiunum undañteknum, er hañ var bundiñ med, Act. 26. hvoria hañhefdi þo ecki lætid fyrir alla Dijrd Veralldariñar, hefdi hañ ætt añars hvors æ mis ad fara. Þess Sinnis var Pijslarvotturinn Babylas, er beiddi ad grafa sig med þeim Hleckium, er hañvar leiddur til Aftokustadarins med, so ad ecki vantadi hañ sitt Brwdar-Skart i Uppriśuñi, Evseb. Lib. 6. Cap. 36. et 40. So lijtid akta þeir, sem vel hafa smackad hvad sætur ad DRottiñ er, Ps. 34. So lijted ackta þeir, hvorsu med þeñañ forgeingelega Lijkama er hondlad. Eñ vilie Meñ epter spyria, hvor ad Launeñ sieu i Christi Dijrdar Rijke? þa seiger hañ sialfur, Matth. 5. Sæler eru þier, nær Meñerner hallmæla ydur og Offsookn veita, og tala i giegn ydur alla Vondsku fyrer mijns Nafns Saker, þo liwgande, Fagned þier og vered glader, þvi ydar Verdkaup er nooglegt æ Himnum. Eñ hvada Verdkaup, Brædur mijner? Hvilijkt ecke hefur Auga sied, og ecke hefur Eyra heyrt, og ecke hefur i nockurs Mañs Hug edur Hiarta komid, 1. Cor. 2. Þad er þad Verdkaup, er DRottiñ hefur tilbwid þeim er hañ elska. Hvor sem nu samañber þa litlu Hormung, er vier þola meigum i Christi Naadar-Rijki, og þa Oumrædelegu Sælu, er hañ mun launa oss med i sijnu Dijrdar-Rijki; Hañ mun jæta, med Postulanum, ad Mootlætingar þessara Tijma sieu ei verdar þeirrar Dijrdar, sem fram vid oss mun koma i eilijfu Lijfi, Rom. 8. O JEsu! Uñ oss þessarar farsælu Vistar med þier Eilijflega. O JEsu! Laat oss vera þar sem þu ert, Joh. 17. O JEsu! virdstu ad þurka oll Taar af þiña Barna Augum, Apoc. 7. O JEsu! Laat vora Hryggd snwast i Gledi, Joh. 16. O JEsu! Gief ad hvorki Lijf nie Daudi, hvorki Einglar nie Hofdingia-Dæmi, hvorki Hæd nie Dypt, nie nockur Skiepna, kuñi ad skilia oss vid þañ Kiærleika, sem er i þier, Rom. 8. Og laat oss þier alldrei sleppa, þar til þu blessar oss med eilijfri Blessan, og vier þig aptur med eilijfu Hosiaña i hædstum Hædum. Bænheyr þad O HErra JEsu! Þier med Fodur og Heilogum Anda, sie Lof, Prijs, Magt og Vellde, um Allder Allda, AMEN.

# Añañ Suñudag i Adventu.

Gudspiallid, Luc. 21. Cap.

Y Þañ Tijma. JEsus sagdi til siña Lærisveina: Þar munu skie Teikn æ Sooln, Tungli og Stiornum, og æ Jordu Kvalning Pioodа og Orvinglan, Sioor og Bilgiur munu hlioода, og Meñ munu fyrir Hrædslu uppþorna, og af Eftirbijdingu þeirra Hluta, sem ad koma skulu yfir allañ Heimiñ. Þviad Kraftar Himnaña munu hræраst: Og þa munu þeir siaa Mañsins Son komanda i Skijum med Magt og miklu Velldi; Eñ nær þetta tekur ad skie, þa lijtid upp og upphefied ydar Hofud, af

 þvi

þvi ad ydar Endurlausn tekur ad naalægiast. Og hañ sagde þeim þessa Epterlijking: Skoded þier Fijkiu=Tried, og øll oñur Trie, nær þeirra Alldin tekur wt ad sprijnga, þa vitid þier ad Sumarid er naalægt. So lijka, nær þier siaaid þetta skie, þaa vitid ad Guds Rijki er naalægt. Sañlega seigt eg ydur: Pad þessi Kynslood mun ei forgaanga, þaangad til ad allt þetta skier. Himin og Jord munu forgaanga, eñ mijn Ord forgaanga eigi.

## Exordium.

OG Dæmi aungvañ seigir JEsus, Joh. 8. Hvad er þa þad hañ seigir, Joh. 5. Fadiriñ dæmir aungvañ, helldur hefur hañ Syninum allañ Doom i Hendur feingid. Tvent bar til þess, Brædur mijner, ad DRottеñ talade þesse Ord fyrer Gydingum, þad eina, ad þeir dæmdu uñ hañ epter Ytre Asynd, þar þeir sogdu skøiñu aadur: Þu ber sialfur Vitni um þig, þiñ Vitnisburdur er ecki gylldur, eñ hañ svaradi þessu medal añara: Þier dæmid eftir Holldinu, eg dæmi aungvañ, hañ meinti, eftir Holldinu. Sw var og oñur, ad hañ i þad Siñ ecki var komeñ til ad laata Doom gaanga yfer Jllar Athafner Maññañа, þvi Jllgresenu byriade ad vaxa allt til Kornskieru Tijmans. Matth. 13. Eñ ei ad sijdur var þo DRotteñ komeñ til Dooms aa Jordu, so sem hañ sialfur vottar, Joh. 9. til þess, ad þeir Siaaande yrdu, er ecke saau, og þeir ed saau, skylldu Blinder verda: og er þad audvitad hvør ad sie þesse Doomur, og yfer hverium hañ gieck, sem voru þverbrotner Gydingar, hvørier ei villdu JEsum þeckia fyrer Guds Son, af þvi Kraptaverkenu, er hañ giorde aa honum, sem Blindur var boreñ, Joh. 9. Eñ Doomureñ var þesse; Ef þier værud Blinder, þa hefdud þier ecke Synd, eñ nu seiged þier: Vier siaaum; þar fyrer blijfur ydar Synd; Og þoott Doomureñ sie so Riettvijs, ad eckert sie Riettvijsara, þa er hañ þo nærsta þwngur og hrædelegur, þvi hañ er Undañfare hiñs Ognarlega Dooms, er aa hinum mikla Deige alls Hollds mun aan Myskunar gaanga yfer alla þaa, sem ecke hafa trwad aa DRotteñ JEsum. Þvi so seiger Guds Sonur: Joh. 3. Hvør sem ecke trwer, hañ er þegar dæmdur, af þvi hañ trwde ecke aa Nafn Eingietens Sonar Guds. Þesse hiñ straange, eñ þo Riettferduge Guds Doomur, gieck yfer hiñ vesæla Gydinga Lijd ad miklu Leite, þegar þeir høfdu uppfyllt Mæling Syndareñar. Þess gietur Paulus, Act. 28. Er hañ straffar Þvermoodsku þeirra, Seigiande: Þar fyrer sie ydur Vitañlegt, ad Hiaalpræde þetta er Heidingium giefed, og þeir munu þad heyra. Þessarar miklu Guds Naadar erum vier og Hluttakande ordner, er bwum under hinu Ytsta Heims Skaute; Þeñañ skielfelega Doom, yfer Guds eigeñ Foolke, høfum vier og heyrt: Eñ giætum ad þvi, er Paall seiger til Heidingiaña, þeirra er vid Christne teked høfdu: Vel, þeir eru fyrer Vantrwna af=brotner, seiger hañ, eñ þu stendur fyrer Trwna:

Stær

Stær þig ecke, helldur vert Ottafleigeñ, Rom. 11. Satt er þad sem DRotteñ segier, ad hañ sem ecke trwir, sie þegar dæmdur, Joh. 3. Eñ þvi trwa Meñ ecke? Þvi Meñ koma ecke til Lioossens. Þvi koma Meñ ecke til Lioossens? Þvi Meñ elska meir Myrkrid eñ Lioosid, af þvi ad þeirra Verk eru Vond, Joh. 3. Þad þykir Iñdællt ad sofa aa Kodda Athugaleysisins, sem Andskotiñ dillar sijnum Bornum aa, med hañs gamla Voggu-Kvæde, er þañeñ lætur: Hvar er Fyrerheit hañs Tilkomu? 2. Pet. 3. So hefur þad geinged i fraa Upphafe Veralldar, og þar fyrer eru Meñ so treger ad vakna vid Guds Orda Baasunu, þar til Daudans edur Doomsins Baasunu Hlood tekur yfer, og ecke er vært ad sofa leingur. Eñ Gud vekur sijdañ med Eilijfu Ope og Taña Gnijstran i Helvijte. Hvor þad heyrer, hañ hygge þar ad, og giæte þess, er Paall sagde til þeirra i Athenu Borg, Act. 17. Gud hefur tilsett eirn Dag, aa hvorium hañ dæma mun alla Jardarkrijngluna med Riettlæte, fyrer þañ Mañ, er hañ hefur fyrerhugad. Þar fyrer vil eg laata mitt Tal vera i þetta Siñ, hvad oss eige ad leida til þess, ad bwa oss under hiñ Sijdarsta Dag, sem vær ecke vitum, nema ad Morgne uppreñe. Hiaalpa hier til, O þu Allsheriar Doomare, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

HAr Munu Skie Teikn aa Soolu Og Tungle Og aa Stiornum. Þad sijnest audraaded vera, Brædur mijner, ad ecke mune Endurlausnareñ hafa talad þetta so, vegna Læresveinaña edur Foolksins, er honum i þad Siñ naalægt var, þvi jafnvel þott ad þeir til samans hafe i þeirre Meiningu vered, ad hiñ Sijdarste Dagur mundi vera skamt i burtu, so sem siaa maa af sumu þvi, er þeir hafa skrifad epter sig laated, Þa hafa sijdañ morg Hundrud Ar lided allt til þessa Dags; helldur er þad sagt vegna vor, yfer hvoria lijklegt er, ad Heims Endereñ sie komeñ; Fyrer þvi æt tum vier, ecke sijdst, med Ugg og Andvara ad vænta Tilkomu DRotteñs, þvi ef HErrañs Postular ætludu aa þeim Dogum, ad hun munde so naalæg vera, hvorsu miklu nær mun hun þa vera oss, er so miklu sijdar lifum? Eg hygg ad Teikn þesse flest, er Lucas gietur um i Evangelio, mune ecke fiarlæg Doomenum verda, helldur nærre i sama Vetfaange: Þvi HErrañ segier hier, ad vier munum Þa Siaa Mañsins Son Komanda J Skijum Himens, og er audsæᵹt, ad þess mune ecke laangt ad bijda wr þvi ad allt þetta skiedur, sem maaskie ei a[?]ad verde, eñ Fiorbrot Veralldareñar, þegar Himnarner munu med Stoor-Brestum forgaanga, og Hofud-Skiepnurnar af Hita braadna, 2. Pet. 3. Hvad medal añara maa þar af raada, ad JEsus segier, Marc. 13. Ad um þañ Dag vite eingeñ Madur, og ei jafnvel Einglar aa Himnum. Eñ ef Teikn þesse skiedu rwmum Tijma fyrer eñ Himen og Jord forganga, þa kyñu þeir, ed aa Jordu bwa, ad vita nockud hier um, hvad St. Petur fortekur, 2. Ep. 3. er hañ seiger: Ad Dagur DRotteñs mune koma sem Pioofur aa Noottu: Eñ Pioofureñ giorer aungva Vitneskiu undañ sier, añars være hañ ecke Pioofur: So er og Dagur DRotteñs, þvi eins og Taal-

Snara mun hañ koma yfer alla þaa, sem aa Jordu bwa, Luc. 21. Drage þvi einger sialfañ sig aa Taalar, edur meine, ad af þvi ad þesse Teikn, sem Lucas skrifar um̃ i Gudspiallenu, eru eñ nu ecke oll fram̃komeñ, og vier merkium aungva Um̃breiting aa Soolu, Tungle og Stiornum, adra eñ hun vered hefur i fraa Upphafe Veralldar, epter Venjulegu Naatturuñar Hlaupe, ad DRotteñ mune þar fyrer seinka, so sem nockrer kalla þad Seinlæte, seiger Petur, 2. Pet. 3. Helldur er hañ þoleñmoodur vid oss, viliande ei ad nockur fyrerfarest, helldur ad allir snwist til Yd runar.

Laatum oss ei þviliịkt i Hug koma, Brædur mijner, þvi þad eru Spottarañs Þaankar, er hañ seigir ad upp muni rijsa aa Sijdurstu Dogum, þeir ed gaanga i sijnum eigiñ Gyrndum, seigiandi: Hvar er Fyrirheit hañs Tilkomu, 2. Pet. 3. Þvi sijdañ Fedurner sofnudu, þa er allt hid sama so sem fraa Upphafe Skopunareñar. Og hañ dylur ecke, hvar fyrer ad syndugum Moñum, (sem alla Hlute mæla epter Faafrœde Spillingareñar og Smaamunum vorum, sem þiootum upp eins og Gusa, eñ lijdum i burt aptur aa Augnabragde) Hvar fyrer, seige eg, ad oss þyke so laangt wr verda, er hañ talar um̃ þetta sama Efne, seigiande: Eñ eitt sie ydur vitañlegt, Elskañleger, ad Eirn Dagur er fyrer DRottne so sem Þusund Ar, og Þusund Ar so sem Eirn Dagur. Eñ þeir ed þetta ecke samañbera vid Guds Fyrerheit, Þeim þyker so sem ad hañ tefie og sie bryggdmaall ordeñ; So er þad og vijst, ad jafnvel þoott ad bæde St. Paall og adrer lijse þvi, ad Heimsenđereñ være yfer þa komeñ, 1. Cor. 10. Þa hefur ecke Postuleñ vænt hañs so braadlega, þar hañ seiger, 2. Tess. 2. Þier skulud ecke skielsast fliootlega i Hugskotum ydar, nie trublast, hvorke af Anda nie Orde, nie af Sendebrefe, sem vier hefdum skrifad, Einsog Dagur DRotteñs være nær þvi komeñ: Kañ skie þess vegna, ad einhver hafe teked sier Orsøk af hañs Fyrra Pistle til þeirra, ad skielfa veikar og Istodulitlar Samvitskur, þar ed hañ skrifar: Eg hef ei Þorf ad skrifa ydur um̃ Tijma og Hentugleika, þvi þier giorla vitid, ad saa Dagur DRottiñs mun koma, sem Þioofur a Noottu, þegar þeir seigia: Þar er Fridur og Tryggleiki, þa er þeim skyndileg Foreydsla nærri, so sem Joodsoott þwngadri Konu, 1. Thess. 5.

Laatum oss þvi ecke Andvaralaust lifa, Brædur mijner, þoott DRotteñ dvelie, Þvi Komande mun hañ koma og ecke seinka, Heb. 10. Eñ vier vitum ecke, aa hvorium Tijma ad hañ kiemur, ad Kvollde Dags edur um̃ Midnætte, edur þa Hanen galar, edur sñema Morguns, so ad þegar hañ kiemur hastarlega, ad hañ fiñe ydur ecke sofande. Þad eg seige ydur, þad seige eg ollum, Seiger DRotteñ, Vaked þier, Marc. 13. Laatum ecke vora Ydran bijda epter Soolareñar Formyrkvan, þvi þegar hun allra sijdarst tekur ad sortna, mun Ydranar Tijmeñ wte vera: hun hefur so leinge þioonad oss i Heimsþessum, So leinge afmarkad tilsetta Tijma af Gude, og bored Vitnisburd um̃ hañs Vitsku, hañs Dijrd, hañs Giædsku og hañs Almætte; So leinge hefur hun skynid yfir Ogudlegañ Heim þeña, So leinge uppruñed yfer Raanglaata og Riettlaata, ad aller hafa hast nogañ Tijma til ad ydrast, og leita Guds, aadur eñ þad Sijdarsta Myrkur

byrg=

byrger heñar fagra Lioos, So hun mun upp þadañ alldrei ad Eilijfu skijna. Hun hefur alldrei fraa Verralldareñar Upphafe formyrkvast aa moote Naatturuñar Edle, nema ollu Einu Siñe, þegar Himin og Iord byrgdu fyrir Augu sier, og so sem skielfdust vid ad horfa þar aa, ad þeirra Skapari var eins og ein Bolvan aa Krossiñ uppheingdur. Matth. 27. Eñ ef hin naatturlega Sooliñ misti sijna Byrtu af þvi, ad Sool Riettlætesins formyrkvadest uñ Stundarsaker; Hvad er þa ad undra, þoott hun alldeilis blind verde, Þegar hañ kiemur i Skyum Himens med hañs Heilogu Þusundum, Iudæ Pist. v. 14. Iaa, þegar þeir munu fyrer hiñ Hæsta og Sijdasta Riett kallader verda, sem Konung Dijrdariñar hafa ad niju Krossfestañ, og Saattmaalans Blood Almeñilegt halldid, med hvoriu þeir helgadir eru, Hebr. 10. Laat þier þetta jafnañ fyrir Augum vera, Syndugur Madur! þegar þu sier hid blessada Heimsins Lioos, sem alla Verolldina upplijsir. Þu sier hana i Dag uppreña: þacka Gudi þar fyrir, eñ þu veitst ei hvort hun naa muni sijnu veniulega Takmarki ad Kvolldi Dags; þu sier hana i Ægiñ gaanga, og ad Tunglid og Stiornurnar taka aftur ad lijsa, eñ þu veitst ecki nema aa þeirri somu Noottu reñi upp Iacobs Stiarna Christur, Num. 24. añad Siñ, sem bædi Sool og Tungl mun formyrkva og ad aungvu giora, og Stiornunum af Himnu ofañ steipa, so sem þa eitt Fijkiu-Trie kastar sijnum Avoxtum fra sier, nær þad hristist af Storminum. Laat þar fyrir Soolina ecki undirgaanga þijna Vondsku: Trw ecke so Nætur-Myrkrunum fyrer þier, ad þu miñest ei vid Soneñ, aa medañ þu ert eñ aa Veigi med honum, so ad hañ verdi þier ecki reidur, Psalm. 2. Ef kañ skie hañ byrtist i Skijum Himens a þeirre somu Noottu. Haf þiñ Lampa tendradañ, sem er Lioos Trwar þiñar, ad ei verdir þu wtilokadur, þegar Brwdgumiñ kiemur uñ Midnætti, Matth. 25. Hlijd Bodi Peturs, er hañ seigir: 2. Pet. 3. Þar fyrir, Elskanleigir, þar þier bijdid eftir ollu þessu, þaa kostgiæfid ad þier hreinir og Ostraffanleiger af honum fundner verded med Fride, og hallded Seinlæte DRottens til Reideñar, ad vera Hiaalpræde. Eñ hyggium ad þvi, hvorsu ad hañ mun Obærelega Stræangur og Hardraadur verda ollum Gudlausum og Þverbrotnum, er sier hafa aa Naadar-Tijmanum Reide safnad. Hañ mun ei koma, so sem fordum Daga, liggiande i einum Stalli, ecki, so sem þier heyrdud Fyrra Suñudag, sitiandi aa Osnu, og aa Fola klifbærrar Osnu, Matth. 21. Ecke so sem hañ var wtleiddur af Þijng-Hwse Pilati, berande eina Purpura Kaapu og Þyrne-Koronu, Ioh. 19. Eñ þeir ed allt þetta hafa ad aungvu haft, þeir munu siaa hañ, so sem eirn straangañ Doomara. Elldureñ breñur fyrer hañs Auglite allt til nedsta Helvijtes, Devt. 32. I honum munu Himnarner sundurglidna, og Hofud-Skiepnurnar smelltast, 2. Pet. 3. Krijngum hañ mun geysa Eitthrædilegt Stormvidri, allir hañs megtugir Einglar munu honum fylgia, og hañs Heilogu Þusundir umhverfis hañ skijna; med skielfilegri Hofud-Eingilsins Baasunu mun hañ kalla Lifendur og Dauda i Lopted, upp til moots vid sig, 1. Thess. 4. Og eingeñ Skiepna mun standast hañs Tilkomu, Mal. 3. Þa mun Sooleñ formyrkvast

vast, af þvi ad Guds Forsmaanatar geingu formyrkvader i Hugunum, sokum þeirra Þeckingarleysis, vegna Hardwdar þeirra Hiarta, 2. Tim. 3. Þa munu Kraptar Himnanna hræraſt, af þvi þeir hafa so tijtt syndgad i Himenen, og forsmaad hann sem i Himnenum bijr, Þa mun verda aa Jordu Angiſt og Raadleysa Þioodanna, so sem þa Sioor og Bylgiur hlioda, sem vite þær ecke hvar þær eige ad falla, edur hvad af ſier ad giora. Þannen mun allt Holld verda i Tilkomu DRottens. Þegar Jeremias ſpaaer umm Babylons Eydileggingu, þa dunar hann so sem eitt Reidar-Slag aa þennan Haatt: Þeirra Bylgiur munu dynia, þeirra Raddar-Hliood mun verda so sem mikilla Vatna, Jer. 51. Enn hvad mikin meira mun verda Oſkur hinnar ſtooru Babylon, Veralldarennar, þegar hun hrapar i Dijked þad, sem vellur af Ellde og Breneſteine, Apoc. 21. Med ollum þeim sem druckner eru af Vijne hennar Hoorunar, Apoc. 17. O! hvorsu feigner munu þa þeir, ed ſmaad hafa hinn Faatæka JEſum og hans Limu i Velmagt ſinne hier aa Jordunne, hvorsu giarna munu þeir þa vilia hafa sadt hann, þegar hann hwngradur var, svalad honum, er hann þyrſtur var, hijſt hann, þegar hann Gieſtur var, klædt hann, þegar hann Naken var, Vitiad hans; þegar hann var Siwkur og i Myrkva-Stofu? Matth. 25. Hvorsu lijted munu þeim gagna Metord þau, er þeir keyptu fyrir Guds Vinaattu? Epterlæte Heims þessa, er þeir mottu framar enn DRottens Kroſs? Eigner og Bwgardar, fyrer hvoria þeir ſelldu Saaler ſijnar? Sveite Daglaunarans, er þeir hafa innehallded? Hws Eckiunnar og hinns Fodurlauſa, er þeir hafa wtsogied? Braud hins Einfallda og Naudſtadda, er þeir hafa sviked under ſig md Okre og Raangſleitne? Hvad lijted mun allt þetta duga þeim, nær Verolden og oll henar Dijrd og Hofſrakt ſtendur i biortu Baale, enn hinn Riettlaate Himens og Jardar Konungur vill ſeigia upp Doomenn med þeſſu ſkielfelega Atkvæde: Fared fraa mier Bolvader i Eilijfann Elld, sem fyrerbwenn er Dioflenum og ollum hans Arum, Matth. 25. O DRottenn vor Gud! hvorsu mun hann þaa Ognarlegur verda i Augum fordæmdra Manna, er ecke eiga framar neirnrar Naadar Von? Manoha og hans Kvinna saau Guds Son, er hann ſtie upp i Foornar-Elldinum, og hann meinti þau mundu þar fyrir deya, Jud. 13. Eſajas ſaa Gud ſitiandi aa haaum Stoole, og honum fiellſt Hugur, so hann ſagde: Vei mier, eg mun upprættur verda, þvi eg hefe ſaurugar Varer, og bij a medal þeſs Foolks, er ſaurugar Varer hefur, þar eg hefe ſied DRottenn Allsheriar Konung, Eſa. 6. Iſraels Syner beiddu Moysen ad gaanga uppaa Fialled og tala ſinna vegna vid DRottenn, Exod. 20. Þegar Guds Reider ſloou i Horeb, og ſogduſt eigi framar gieta heyrt Rauſtena DRottens Guds ſijns. Daniel ſaa Chriſtum vid Fliootid Hidekel; og þar var ecke maattur i honum, Oll hans Fegurd umbreittiſt, so hann hafde aungva Krapta, Dan. 10. Læreſveinarner urdu Ottaſleignir, er hann kom til þeirra ad lwktum Dyrum, Luc. 24. Þeſſer voru þo aller Guds Vinir; þeim byrte hann ſig i Naad ſinne og Giædſku, þo kunne ecki Breyſkleike Holldſins ad ſtandaſt Naalægd Guddoomſins: hvad mun þaa vid Ovine DRottens ſkie i Doomenum? Þegar hann wtheller

þeirre

þeirre Reideñe i einu Augnablike, sem þeir hafa safnad sier aa Reideñar Dag, Mañ epter Mañ, um̃ alla Æfe. Þegar Josua, hiñ Ypparste Kieñemadur, stood fyrir Eingle þess mikla Raads, og Andskoteñ honum til hægre Handar, til ad mootstanda honum i Jerusalems Byggingu, þa stood hañ i saurugum Klædum, þar til DRotteñ took hañs Raanglæte fraa honum, Zach. 3. Og var þa Guds Sonur hañs Tals-Madur. Eñ hvorneñ munu aller Gudlauser verda, þegar þeir standa fyrer Doomara alls Hollds, Þegar Gud sialfur aaklagar, eñ eingeñ assakar, Þegar Raanglæted ei framar verdur burt teked, helldur tilreiknad? Þeir munu standa Skom̃eñe J klædder, Psalm. 109. Og um̃ Allder Allda wtrekner fraa hiñe Himnesku Jerusalem, Apoc. 3. Johañes seiger, Þeir drecka af Vijne Guds breñande Reide, og kveliast med Ellde og Breñesteine i Augliti heilagra Eingla og Lambsins, Apoc. 14. og þeir munu aungva Roo hafa Noott nie Dag, Þeir munu eta Tungur sijnar wt af Ofraun, og lasta Gud Himensins wt af Kvol og Saarendum sijnum, og þeir munu Daudans Oska, og hañ mun fra þeim flya, Apoc. 9. J ollu þessu faa þeir ecke eirn Dropa Vatns til ad kiæla med Tungu sijna, Luc. 16. Þetta er ad sonnu Ognarlegt ad heyra, Brædur miner, Eñ þad er þo Guds Ord sem ecke kañ ad liuga: Eñ ef þad kañ ad ofbiooda nockrum ad heyra alleina, Hvad mun þad þa vera ad siaa og reyna? Ecke hefur Guds Ande forgiefens talad þetta, og so skijrlega uppteikna laated: Eckert af Guds Ordum mun aa Jordu falla, Himen og Jord forganga, eñ hañs Ord forgaanga alldrei, Luc. 21. Laat þau þvi duga þier til þess, ad þu verker þijna Saaluhiaalp med Ugg og Otta, Phil. 2. ad ei komer þu i þeñañ Kvala-Stad, edur siert varbweñ vid hinum sijdarsta Deige, sem þu ecke veitst, nær ad þier uppreñur. Hugleid, Christeñ Madur, hvad JEsus seiger: Joh. 12. Hvor sem forsmaaer mig, og medtekur ecke mijn Ord, hañ hefur þañ sem hañ dæmer, Þad Orded, sem eg talade, Þad mun dæma hañ aa Sijdasta Deige. Vert þvi ecke Ugglaus edur Ohræddur, Barn Guds, þegar þu situr under Heyrn hañs Orda, þvi þar er þiñ Doomare, Þad mun aa hinum Efsta Deige uppskaatt verda, Hvorneñ þu hafer epter þvi teked, hvorneñ þu hafer epter þvi lifad, hvorsu fws þu hafer vered aa ad heyra þad, hvad vandlega þu hafer med þad hondlad, J hvad goodu og sidsomu Hiarta þu hafer geimt þad, hvort þu hafer fært þar Avoxt af i Þoliñmæde, Luc. 8. Allt þvilijkt verdur bert, þegar Bækurnar verda upplaatnar i Doomenum, Apoc. 20. Og epter þvi muntu dæmdur verda. Þvi so seiger Paulus, Ad DRotteñ mune dæma leynda Hlute epter sijnu Evangelio aa Sijdarsta Deige fyrer Christum JEsum, Rom. 2. Seig mier, Barn Drotteñs! Munder þu þora ad forsmaa hañ, er ætte ad dæma um̃ Lijf þitt edur Æru, edur svara honum fullum Haalse, sierdeills ef þu þia sekañ visser, og þier uggvænt þætte, ad þu munder falla aa Maalenu? Þad þorer eingeñ ad giora. Ecke eru Dæmi til þess, ad nockur hafe so bitid Hofuded af Skom̃eñe. Eñ þad þora Meñ ad seigia, ad Prestar seige so margt, þad sie ecke allt satt, Jafnvel þoott þeirra Embætte sie DRotteñs, og þeirra Verk, þeirra Guds, Esa. 49. Þetta voga Meñ ad seigia og hyxa under

er Heyrn Guds Orda, sem eiga ad dæma þa a Sijdasta Deige. Veitstu ecke sagde Pilatus, ad eg hefe Valld til ad Krossfesta þig, og Valld til ad læta þig lausañ? Eñ hañ laug, Þvi hañ hafde eckert Valld yfer himum Alvallda Konunge, nema honum hefde vered giefed þad af Himnum ofañ. Eñ Christur hefur til þess Valld i hañs Heilaga Orde, syndugur Madur, ad fordæma þig, ef þu kastar þvi a Bak þier aptur, og so til ad læta þig lausañ, ef þu hlijder þvi. Hvar fyrir læta Meñ þa hid Gooda Ord Guds, so sem Vind um Eyruñ þioota? Meñ hrædast allañ Voda, eñ Guds Ord ecke, þier þykir þeim Tijma vel vared, er þu gietur skoted þier undañ þess Heyrn, og munder þar kañskie alldrei koma, nema þu meir Ottadest Meñena eñ Gud. Eñ muntu og gieta skoted þier undañ hinum Sijdarsta Doome, hvar þu skallt þa af þessu sama Guds Orde dæmdur verda? Og fyrst þu villt ecke heyra Christ, þar ed hañ seiger: Komed til mijn aller þier, sem erfided og Þwnga erud þiader, eg vil Endurnæra ydur, Matth. 11. Þa skalltu þo heyra hañ a sijdarsta Deige, hvort þu villt edur ecke, er hañ seiger: Fared fra mier aller Illgiorda-Meñ. Ieinu Orde ad seigia; Þar er eingeñ Hlutur, sem meir ætte ad hvetia upp syndugañ Mañ til ad bwast vid Daudanum, eñ siaalft Guds Ord, hvort hañ mun dæma, epter hvoriu hañ mun dæmast, og fyrer hvors Foroktun hañ mun dæmdur verda. Sie þad þier kieñt og predikad af hinum Aumasta og Vesælasta, af einum Fatækum og lijttkuñande, hvor hallðeñ er fyrer Afrak og Hreinsun Veralldar, forsmaa þad eige ad helldur, ef þad eru Guds Ord hañ hefur i Muñe, og hañs Evangelium, er sagde til siña Postula og allra þeirra er leitast vid, ad feta i þeirra Footspor og hañs Umbod a Hende hafa: Hvor sem forsmaaer ydur, hañ forsmaaer mig, eñ hvor hañ mig forsmaaer, hañ forsmaaer þañ er mig sende, Luc. 10. Jaa, þott þad sie frambored af einhvorium, sem eckert giorer af þvi hañ kieñer, þa kañast þo þar vid, ad IEsus sagde til siña Læresveina: A Moysis Stoole sitia Skriftlærder og Pharisæi, allt hvad þeir seigia ydur ad vardveita, þad vardveited og giored, eñ epter þeirra Verkum skulud þier ecke giora, þvi þeir tala og giora ecke, Matt. 23. Hvor sem nu um þetta vandlega hugsar, hañ mun þess betur læra ad bwast vid þessum hræðelega Deige, med Daglegre Ydran og Apturhvarfe fra Syndum og Glæpum, og þad þess helldur, sem lijklegra er, ad DRottens Tilkomu sie ei all-laangt ad bijda, þvi þoott þau Teikneñ, er Lucas i þessu Gudspialle umtalar, sieu eñ þa ecke oll framkomeñ, og lijkast sie, ad ei framkoma mune fyrr eñ under siaalfañ Doomeñ, þa geingur þad eins til hier, so sem fyrer Daudlegum Mañe, ad Hel-Soottiñ er leinge ad bwa um sig i hañs Lijkama, adur eñ hun slijtur Lijfed af honum. So hefur og Gud opeñberad oss i sijnu H. Orde nockur Teikn, þau er a sijdurstu Dogum skie munu, og eru Vite hiñs Efsta Dooms, er vier vel meigum þeckia og vidkañast a vorum Dogum. Christur seiger, Matth. 24. Ad Evangelium Rijkesins skule predikast um allañ Heim, til Vitnisburdar ollum Þioodum, og þa mune Endereñ koma. Sieaid hvorsu Guds Orda Doomur skal yfer alla Meñ gaanga, þar eru og miog faar Þiooder nu i Heimenum, a

medal

medal hvorra ei hefur skined Lioos Evangelii, þott aller hafe ecke vid þvi teked: Hañ gietur uñ, þar mune verda Hwngur, Drepsoott og Jardskialftar i ollum Stodum, Matth. 24. og kallar þad Upphaf Hormungaña: Þetta hofum vier siaalfer reynt, Brædur mijner, og er ecke laangt a ad miñast. Gud giæfe vier værum þess so Miñuger sem vera byriade! Ef Meñ vilia ecke oñur Teikn þeckia, þa mættu Meñ þau vidkañast er Almeñust eru, og JEsus umgietur, Luc. 18. Þegar Mañsins Sonur kiemur, meinar þu hañ fiñe Trw a Jordu? Noog er af Guds Orde, noog af Evangelii Lærdoome, til Vitnisburdar yfer ollum Moñum, Matth. 24. Eñ hvort hiñ saña Guds Otta er so vijda ad finna, maa stoorlega efast um; edur seiged mier: Hvada Hyrtne er þad, ad Almenningur hefur a ad læra Christelega Trw, edur kienna hana þeim, er vid þurfa? Enn þo allra sijdst epter henne ad lifa? Eg hygg þad gaange til eins og a Noe Dogum, hvad og er Teikn Mannsins Sonar Tilkomu, Matth. 24. Þeir aatu og drucku, þeir giptust og sig gipta lietu, allt til þess Dags, ad Noe gieck inn i Orkena, og þecktu ecke Flooded, fyrr enn þad kom og took þaa alla i burtu. Jaa, nu a þessum Dogum, aadur enn þeir vita hvad Hioonaband er, edur kunna meir enn eirn Asne ad uppfræda Born sijn i Christelegre Trw og ærlegum Lifnade.; gieta þeir þau epter siñe Mynd, og ala þau upp epter sinne Mynd, Andskotanum til Þioonustu a Stundum, enn ecke Gude. Enn fyrst Trweñ er þanneñ, þa er ei Von ad Kiærleikureñ sie betre, so ad ræteft eirnenn þad, er Frelsarenn seiger ad fram mune koma fyrer hinn sijdarsta Dag, ad af þvi Raanglæted vex, mune margra Kiærleike koolna. Matth. 24.

Þetta er so vijst framkomed, ad mig undrar þad Menn ecke hafa gleymt Nafnenu, þar Hlutenn siaalfann er valla hiaa nockrum ad finna. J einu Orde ad seigia: Menn þreifa a þvi sem Paulus skrifar, 2. Tim. 3. Seigiande: Vited, ad a sijdurstu Tijmum munu verda saarlegar Tijder, þar munu verda Menn siergooder, Agiarner, Hoolsamer, Dramblaater, Gudlastarar, Forelldrunum Ohlijduger, Oþacklaater, Glæpafuller, Hardbriooftader, Heiptrækner, Lausijnnader, Oþijder, Gotthatandi, Svikarar, Þverbrotner, uppblaasner, elskande meir Sælgiæte enn Gud, hafande Skyn Gudhrædslunnar, enn afneita hennar Krapte. Allt þetta hygg eg ad Noe þeckia munde, Ef hann nu mætte lijta upp af Grofsinne, og þad þecker hvor og eirn, Saa ed giører nockurn Greinar-Mun a millum Dygda og Odygda. A Dogum Noa slockte hinn Rietlaate Gud Baal Oleifelegrar Elsku og Losta-Gyrndar med Vatns-Floodenu, fyrr enn þeir nockud af vissu, Enn nu tekur Kiærleikureim so ad koolna, ad Hiortu sumra Manna maa stockfredenn kalla, Jaa, hardare enn Kopar og Staal, Hvad er lijklegra enn ad hinn Almatte Heimsins Smidur mune hræda þau og smellta med hinu sijdarsta Baale, fyrr enn nockurn varer? Þetta vil eg nu hafa sagt, Brædur mijner, Ydrunar og Athugalausum til Vidvorunar, enn ecke Sturludum edur Angraabum Samvitskum til Skielfingar, ollum til Sid-Boota og Leidriettingar Lifnadarens, enn aungvum til Orvæntingar, þvi so sem Tilkoma hins mikla Guds og Drottens vors JEsu Christi mun hrædeleg

verda ollum Ogudlegum Monnum, so mun hun gledeleg verda ollum þeim, er aa hann vona, og heñar med Þolennmœde bijda. Þad kienner oss St. Paall, 2. Theff. 1. seigiande: Þad er Riettvijst fyrer Gude, ad endurgiallda þeim Pijnninguna, er ydur Þiaa, Enn ydur, sem Þiaest, Endurnæringu medur oss, þegar DRottenñ JEsus opennberast af Himne med sijnum megtugum Einglum. Ad sonnu byriar oss ollum ad mæta fyrer Doom-Stoole DRottenns, 2. Cor 5. og þar Reikning ad standa, jafnvel af hvoriu Onytiu Orde, i Doomenum, Matth. 12. Enn þad er Ohult ad mæta fyrer hanns Doome, sem siaalfur er Tals-Madur sinna Barna. Sa fer ecke sekur af Þijngenu, sem siaalfur aa ad dæma: Enn nu eru aller Trwader eitt med honum, so sem hann og Faderenn eru eitt, Joh. 17. Og hann er Hofud Lijkamans, sem er Christeleg Kyrkia, Eph. 1. Þad er og inndællt ad standa honum Reikning, sem siaalfur hefur betalad fyrer alla Skullden; Þar fyrer seiger JEsus, Joh. 3. Sa sem trwer aa Sonenn, sa dæmest ecke (hvar Doomsins Ord merker Fordæming): Og aptur seiger hann: Sa sem heyrer mijn Ord, og trwer honum, er mig sende, hann hefur eilijft Lijf, og hann kiemur ecke i Doom (þad er i Fyrerdæming), helldur fer hann fraa Daudanum til Lijfsins, Joh. 5. Þvi skylldu þa Guds Born fælast hinn sijdarsta Dag? Mun ein Brwdur ottast sijns Brwdguma Tilkomu, og ecki helldur aa allar Lundir bwa sig til ad fagna honum? Mun eitt Barn fela sig fyrer sijnum Fodur? Eñ so sem Faderenñ er Bornunum Lijknsamur, Ps. 103. so vill hiñ eilijfe Fader og Fridar Hofdinge, Es. 9. vera oss naadugur aa þeim Deige. Þar fyrer seiger hañ og i þessa Heilaga Dags Evangelio: Eñ Nær Þetta Tekur Ad Skie, Þa Lijted Upp, Og uppheſied Ydar Hofud, Af Þvi Ad Ydar Endurlausn Er Naalæg. Þad er sem hañ segde: Þier skulud ecke leingur nidurlwter gaanga, af þeirre Sorg er þier hafed i Heimenum, þvi þa skulud þier i mier Glede hafa, Joh. 16. Þier skulud ecke leingur stynia med siaalfum ydur, bijdande epter Arfleidsluñe, sem er Endurlausn ydar Lijkama, Rom. 8. þvi hun er þa naalæg. Þier skulud ei leingur kveliast i Faangelsi þessa daudlega Lijkama, þvi þetta er Dagur Endurnæringarinnar, Act. 3. Dagur Endurfædingareñar, Matth. 19. Dagur Endurlausnareñar, Eph. 4. Dagur Endurnijungar allra Hluta; þa munud þier ecke framar syrgia þa Guds Mynd, er þier i Adam topudud, þvi þier munud siaa i Skijum Himens hiñ añañ Adam, sem er Drottinn af Himni; 1. Cor. 15. Og þo Holld af ydar Holldi, hvor ad er ydar Broodir, og bo ydar Doomare, ydur ad ollu samlijkur, Ebr. 2. ad Syndeñe fraa tekeñe, Eñ þo Jmynd sijns Fodurs Dijrdarfullrar Persoonu, Ebr. 1. Hvor ydar forgeingelega Lijkama mun forklaara og samlijka giora sijnum Dijrdlegum Lijkama, Phil. 3. Lijted upp, þier sem leinge hafed leitad ad þvi sem þar uppe er, Col. 3. þa skulud þier þad siña. Upphefied ydar Hofud, sem aasamt allre Skiepnuñe hafed med wtrjettu Hofde beded epter ydar Endurlausn, Rom. 8. og siaed ydar Hofud komanda i Skijum Himens. Lijted upp þier, sem med Ahyggiu hafed leinge þraad epter hiñe Himnesku Jerusalem, Gal. 4. sem þar uppe er, og gaanged nu iñ i hang; Þa mun DRottenñ seigia; Kom-

ed þier sem naktir erud, eg mun giefa ydur hvijtan Skrwda og faa Paalmavid i Hendur ydar. Komed þier sem þyrster erud, eg mun dryckia ydur af Straumum lifanda Vatns, Joh. 4. Komed þier sem Hungrader erud, eg mun metta ydur af Nægdar Glædum Guds Hwss, Ps. 36. Komed þier sem erfided og Þwnga erud þiaader, eg mun endurnæra ydur, Matth. 11. Komed þier sem syted og graated, eg mun þerra øll Taar af ydar Augum, Apoc. 7. Komed þier, sem bored hafed mitt sæta Ok, og mijna lietta Byrde, eg vil ydur endurgiallda med eilijfre Þijngd Dijrdarenar, 2. Cor. 4. Komid þier, sem reiknader erud fyrer Afrak og Hreinsun Veralldar, eg vil setia ydur til Bords med Abraham, Isaac og Jacob; Matth. 8. Jaa, Komed blessud Born mijns Fødurs, og eignest þad Rijked, sem ydur er fyrerbued fraa Upphafe Veralldar, Matth. 25. Kom O HErra JEsu! Kom og inleid oss i þetta Fagnadarsæla Lambsens Brwdkaup og þijna Dijrd, þu sem lifer og rijker ad Eilijfu, AMEN.

# Pridia Sunudag i Adventu.

Gudspialled, Matth. 11.

I Þan Tijma. En þa ed Johannes heyrde i Bondunum Verken Christi, sende han wt Tvo af sijnum Læresveinum, og liet seigia honum: Ertu sa sem koma skal, eda eigum vier ad vænta eins annars? JEsus svarade og sagde til þeirra: Fared aptur og kungiored Johanni hvad þier siaed og heyred. Blinder faa Syn, Hallter gannga, Lijkþraaer hreinsast, Dauser heyra, Dauder uppriisa, og Faatækum verda Gudspiollen bodud, og sæll er sa, sem ecke hneixlar sig aa mier. En ad þeim i burtu geingnum, hoof JEsus ad seigia til Foolksins af Johanne: Hvad foorud þier wt aa Eydemørku ad siaa? Reyr þan sem af Vinde er skieken? Eda hvad foorud þier ad siaa? Man Miwk-klæddan? Siaed, ad þeir sem miwkan Klædnad bera, eru i Konganna Hwsum: Eda hvad foorud þier ad siaa? Eirn Spaaman? Eg segie ydur fyrer San, þan meire er en nockur Spaaman, þvi ad þesse er saa, af hverium skrifad er: Siaa þu! ad eg sende min Eingil fyrir þini Augsyn, saa er þin Veg skal tilreida fyrir þier.

Exordium.

Hvorsu stoor ad sie Myndugleike Heilagrar Ritningar, þad kienner oss best allra DRotten JEsus, er han sagdi vid Gydinga, sem ecke villdu Trwa honum fyrir Kraptaverkin, er han giorde. : Rannsaked Ritningarnar, þvi þier meined ydur i þeim ad hafa Eilijft Lijf, og þær eru þad, sem bera Vitne af mier. Joh. 5. Vel hefur JEsus þetta hvorutveggia samanteked, ad hondla um Eilijft

Lijf, og ad bera Vitni af sier, þvi þad er eilijft Lijf, ad þeir þecki þig sañan Gud ad vera, og þa þuñ sendir JEsum Christum, sagdi hañ, Joh. 17. Aȷ̃ JEsu Vitnisburdar, verdur eingiñ hoolpiñ, og hvør sem hañ hefur og medtekur, hañ hefur Lijfid i sier blijfanda, og kañ ecki ad fara aa Mis vid Saaluhiaalpina; þar um̃ vitnar St. Petur, Act. 4. Ad ei sie i ødrum Hiaalprædid, og ad þar sie eckert añad Nafn Mønnunum giefid undir Himninum, i hvøriu oss byrie Saaluhoolpnum ad verda, enn Nafnid JEsu Christi. Nu, þar ed heilog Ritning høndlar um̃ so mikla og veglega Hluti, hvad kann henni þa jafnt edur samlijkiandi ad kallast, af øllu þvi, er syndugir Menn hafa Mætur aa. JEsus sagdi vid Kvinnuna i Samaria: Ef þu vissir Guds Giøf, og hvør saa væri, er vid þig seigir: Gief mier ad drecka; þa munder þu bidia hann ad giefa þier Lifande Vatn, Joh. 4. Enn eg vil seigia: Gud giæfe, Menn þecktu Gud vid sig talande i heilagre Ritningu, þa mundum vier fusare vera ad drecka af hanns Naadar Straumnum, er þar wt af fliootá. Hvør hefur kieñt oss ad þeckia Gud vorn Skapara? Hvør hefur Opiñberad oss hanns Vilia? Hvør hefur vijsad oss Veiginn honum eftir ad fylgia? Hvør hefur upplokid vorum Augum ad vier þeckium Syndina? Hvør hefur synt oss, hvørninn vier ættum ad blijdka Gud, nær hann Reidur er, og faa hennar Kvittan? Hvør hefur Opinnberad oss Leyndardoom Heilagrar Guddoomsens Þrenningar, Dijrd Fødursins, Elsku Sonarens, Astgiafer Heilags Anda? Hvør hefur syntoss þad, sem marger Kongar og Spaamenn gyrntust ad siaa, og saau þad ecke? Luc. 10. Þad sem huled var fyrer Spekingum og Vitringum, enn nu er Opennberad Smælingium? Matth. 11. Hefur ecke hinn Naadugi Gud oss allt þetta auglijst og fyrir eckert giefid i heilagri Ritningu? fyrir sinn Eingietinn Son sem er i hanns Skauti, Joh. 1. Af þessarri Andlegu Fie-Hyrdslu, audgadi JEsus Lærisveina Johannis, þegar þeirra Meistari sendi þa til hanns, ad frietta hann ad, Hvørt Hann Væri Sa Sem Koma Skylldi, Edur Ættu Þeir Eins Annars Ad Vænta; Ecki i þeirri Meiningu, ad Johannes visse þad ecki siaalfur, þvi hann hafdi aadur vid hann talad, Matth. 3. Helldur til þess, ad þeim hiaalpad yrdi i þeirra Andlegu Faafrædi, hvad hinn goodi Meistari JESUS giørdi, med þvi Mooti, ad hann vijsar þeim til Verkanna, sem af honum giørdust, og undir eins til Ritninganna, sem um̃ Messiam spaadu: Og þo ad hvørt eitt af þeim Kraftaverkum sem hier standa i Gudspiallinu, sie noog til ad ad vitna þar um̃, ad hann Guds Sonur væri, þar Gud er alleina sa sem Daasemdar Verkinn giørir, Ps. 72. Þa er þo eckert þeirra, sem so bertega vitni um̃ Embætti Messiæ, so sem þad Sijdarsta er hier stendur: Faatækum Verda Gudspiollinn Bodud. Hvør Blessud Ord vier vilium i þetta Sinn oss fyrer Hendur taka, og af þeim sierdeilis Tvent Hugleida. Sem er: 1. Um̃ þaa Faatæku er hier nefnast. 2. Um̃ þad Evangelium er þeim bodad verdur, Med þeim Lærdoomum er þar af leida.

Þu Myskunsami goodi Gud, sem oss hefur med Lioose þijns Sonar Evangelij,

vijsad

viisad hinn rietta Veg Saaluhiaalparinnar, vertu i Verki med oss, ad vier þetta framkvæmt gietum, þijnu Nafni til Dijrdar, enn oss til Eilijfrar Velferdar, Amen.

## Utleggingin.

Fatæker, sem hier nefnast, eru ecki alleinasta þeir, sem vantar Audlegd Heims þessa, helldur og aller þeir, sem aa einhvørn Haatt eiga vid baagañ Kost ad bwa. David var rijkur Konungur, og hafdi Aura Nægtir, þo seigir hañ, Ps. 9. Myskuna mier, og lijt aa Fatækt mijna. Nu kuña Meñ þo eigi ad mootseigia þvi, ad vor Frelsari, aa medañ hañ umgieckst hier aa Jordunni, hefur sier i Lagi wtvalid hina Fatæku og Audvyrdilegu fyrir Heiminum. Siaalfur var hañ i Fatækt aliñ, hanns blessud Moodir fieck eckert annad Rwm i Giesta-Herberginu, eñ eirn Stall til ad fæda hañ i Heiminn, Luc. 2. sem aa allra Valld, bædi aa Himni og Jordu. Hanns Foostur-Fadir var eirn Trie-Smidur, Matth. 13. sem nærdi sig af Hand-Biorg siñi. Hañs Læresveinar voru fatæker Fiskemenn. Flestaller þeir, ed hann umgieckst med hier a Jordunne, voru fatæker og uppskomulitler. Skamast þijn ecke þess vegna Fatæktarennar, Christeñ Madur! fyrst hann hefur hana wtvaled, sem aa þo allt Sylfur og Gull, og øll Dijriñ i Skooginum, Ps. 50. Ærleg Fatækt er heilagur Hlutur, þar hañ hefur vigt hana, sem eirn er Heilagur, og þo alleina Rijkur. Fyrirlijt og ecki Fatækañ, þu sem Audugur ert, þvi þad er ad forsmaa hañs Skapara, sem giordist Oreigi þiña vegna. Edur þvi skylldu Menn þañ Ovirda, er Gud hefur so mikils virdt, ad hañ hefur fyrir hann pijnst, og laatid honum sitt Evangelium opinbera? Eñ hvar fyrir mun vor Frelsari seigia hier, Ad Evangelium Sie Fatækum Bodad? Sannlega, Fyrst þess vegna, ad Johañis Lærisveinar þeckia mættu, ad Spaadoomur Esajæ C. 61. uppfylldur væri. Eñ Guds Andi, sem fyrir Esajam taladi, hefur giorla fyrirsied, ad ei mundu þeir margir verda, er Christum medtæki, sem lifdu i Velgeingni Heims þessa, so sem Raun gaf Vitni. Skuli Meñ og Sañleikañ seigia, þa kiemur Fatæktiñ betur samañ vid Christs Evangelium, eñ Rijkdoomurinn. Hanns Rijki var ecki af þessum Heimi, Joh. 18. Og þvi er ecki Von til, ad þeir muni vel skipast undir hanns Stioornan, sem hafa Gull-Hnottinn fyrir sitt Athvarf, og ei vita af annarri Sælu ad seigia, eñ Audæfum Heims þessa. Þar fyrir sagdi JEsus fordum Daga, um hinn Rijka Yngis-Mañ, ad hægra væri Ulfalldanum ad ganga i giegnum Naalar-Augad, eñ Rijkum Manni inn i Himnarijki, Matth. 19. Ecki þessvegna, ad hann rijkur var, helldur af þvi hañ aangradist, þegar DRottinn sagdi, ad hañ skylldi giefa Eigur sijnar Fatækum og fylgia sier epter. Jaa, Sannlega aa Fatækt og Armoodur betur vid Guds Evangelium, enn Rijkdoomur mikell. Þvi seiger og Jacob Postule, Cap. 2. Heyred, Brædur mijner Elskuleger, Hefur ei Gud wtvaled Fatæka Heims þessa, ad þeir verde Auduger i Trwnne og Erfingiar þess Rijkis, er hann heited hefur þeim, er hann elska. Enn þar er næsta hætt vid, ad þeir mune ecke hafa mikla Ast aa Gude, Sem aastunda miked Aura-Safn. Hvar fyrer Paulus seger, Ad þeir sem Rijker vilie verda, Þeir falle i Freistingar og

Snorur, og margar Syrnder skadlegar og Heimskulegar, sem steipa Mannenum i Forðiorfun og Olucku, 1. Tim. 6. Og hier kvedur so ramt ad, ad Endurlausnarenn seger: Þier gieted ecke under eins Gude þioonad og Mamona, Matth. 6. Og, þvi verr, hvad morg eru þau Dæmenn, ad Menn elska meir Akneyte sijn og Bygarda, enn Drottens Kvolldmaaltijd, Sem þo er ollum tilboded: þar fyrer lætur hann Blindum, Holltum og Vonudum samannsafna, Luc. 14. Vier erum Ahiggiusamer eins og Martha, og mædunst i morgu, enn faaer hyggia ad þvi, ad Eitt er Naudsynlegt, edur ad wtvelia þad Gooda Hlutskipted, eins og Maria, Luc. 10. edur ad hafa þiaaning med Guds Foolke, helldur enn Egyptalands Audæfe, eins og Moyses, Hebr. 11. Enn þoott ad þessu sie nu so vared, munu þa aller wtelokader fraa Evangelio, þeir ed Rijker eru, enn hiner aller inntekner? Fiærre fer þvi. Abraham hafde Gud giefed Gull og Silfur, Þræla og Ambaatter, Ulfallda og Asna, Naut og Saude, Gen. 24. Og þo kallast hann Fader Trwadra, Rom. 4. Og þad var honum til Riettlætis reiknad, ad hann Gude trwde, Rom. 4. Og þvi Evangelio er Gud honum sialfur bodade, Ad i hanns Sæde skylldu blessast allar Þiooder, Gen. 22. Iob var Rijkis-Madur, og var hann þo Guds Vinur, Iob. 1. og 42. David, Iosaphat, Ezechias og Otal fleire, i Gamla Testamentenu voru Maktar-Menn, Og þo eru aller þeir, fyrer Evangelium Trwarennar, holpner ordner. Og ad Menn vite, ad þad ecke odruvijs er i Nija Testamentenu, þa er þad alkunnugt, ad Nicodemus var eirn Hofdinge Gydinga, þo kom hann til IEsum aa Naattarþele, og þaade Undervijsun af honum, Ioh. 3. Iairus var Samkundu Hofdinge, þo leitade hann Christi Hiaalpar, Marc. 5. Um̃ Hundrads-Hofdingiann sagde IEsus sialfur, ad hann hefde ecke funded þvilijka Trw i Israel, Matth. 8. Og hefur hann aan Efa, eingenn Smælinge vered, þar hann uppbygde Gydinganna Samkundu, Luc. 7. Iohanna Hustru Chusæ, er var Raads-Madur Herodis, Luc. 8. hefur vered rijk Kona, þo trwde hun aa DRottenn. Ioseph af Arimathia var eirn Raad-herra og Audugur, þo var hann Lærisveirn Christi, Matth. 27. Cornelius var rijkur, þo vottar Eingellenn um̃ hann, ad hanns Bæner og Olmusugiorder sieu uppstignar fyrer Gud, Act. 10. Dionysius Areopagita, var Raads-Herra i Athenu Borg, Act. 17. Paulus Sergius var Hyrdstioore, og þo lietu baader þesser skijrast, og tooku Christne af Paulo, Act. 13. Og hvor kann oll þvilijk Dæme upp ad telia? Og so sem ad ecke eru aller Ryker þessare Guds Naad fraaskillder, So verda og ecke helldur aller Faatæker hennar Hluttakande. IEsus læknade ecke alla Hallta edur Blinda, So hefur hann ecke helldur giort alla Faatæka Saaluhoolpna, Iafnvel þoott hann fyrer alla lided hafe. Fiærre sie þvi, ad Faatæktenn kunne nockrum ad afreka Himnarijke, fyrer sialfa sig. So sem Gud hefur bolvad þeim, er Riettlæter þann Faatæka fyrer hanns Faatæktar Saker, og aafeller hinn Rijka fyrer hanns Rijkdooms Skulld, So giorer hann og sialfur hvorugt i sijnum Riettlaata Doome, þvi hiaa honum er eckert Manngreinar Alit, helldur aa ollu Foolke sem giorer hanns Vilia hefur hann Þocknan, Act. 10. Ad sonnu er Rijkdoomenum hætt-

ara eñ Fatæktenne; Enn so sem margur, þvi verr, brwkar Audæfenn til Ohoofs og Dramb-seme, til ad underþryckia hinn Volada og Litilmagnann, So er og Fatæktenne ei helldur alltijd Ohætt, og þvi afbad Agur hana, ad ei neyddest hann til ad stela, Prov. 30. Hvort-tveggia þetta er epter þvi sem med þad er hondlad. Olmusugiorder Cornelii voru Gude eins þeckar, Act. 10. og Smaa-Peningar Eckiuñar, sem lagde meira i Guds Kistuna af sijnum Fatækdoom, enn aller hiner Rijku, Luc. 21. Þar eru Fatæker, sem ecke vilia Erfida med Hondunum, og læra þvi ad stela. Þar eru Fatæker, sem ofunda hina Rijku, Formæla þeim fyrer aungva adra Sok enn þa, ad Gud hefur þeim meira laanad, hvor þo giorer bæde Fatækann og Rijkann epter Velþocknan sinne, Prov. 22. Svijkia þa i allre Hondlan, Meina ad þeir so giora meige ad Saklausu, Hælast þar um i sinn Hoop, Hiaalpa odrum til ad bræta þannenn, kalla þvilijkt ad giora Kiærleikans Verk, so sem hinn Rijke eige aungvann Riett aa sier, Nema þann er hann nær med Ofbellde. Þeir una Fatæktenne illa, Og stunda med ollum Hætte, med Riettu og Raungu, ad drijfa hana fraa sier. Munu þetta vera þeir Fatæker, er JEsus hier um talar i Gudspiallenu, Brædur miin r? Laangt er fraa þvi, helldur þeir, ed Fatæktena og allann annann Guds Kross med Þolinnmæde lijda, Saa ed lætur sier nægia med sinn deilldann Verd. Gud telur ecke Peninga þijna, Christenn Madur, helldur mæler hann þitt Hugarfar. Hann er aungvann veigenn riettelega Fatækur, sem giarnann villde taka allt fraa ollum ef hann mætte, Jafnvel þoott eckert hafe hañ; Eins og sa er ecke rijkur, sem vill meira hafa, þoott hañ hafe alls Nægter: So er og hiñ ecke fatækur fyrer Gude, Er med Hiartanu gaper yfer ollu þvi hiñ Rijke aa: Hiñ Rijka kañ og ecke ad skada hañs Rijkdoomur, ef hañ brwkar hañ til Guds Dijrdar, og Naunganum til Gagnsmuna, Saa ed ecke treyster uppa Oriettindenn edur Raanglætid, edur helldur sig til þess sem a d aungvu er neitt: Vilie honum Rijkdoomur til, þa fester hañ ecke Hiarta sitt vid hañ, Ps. 62. Hañ reiser hiñ Fallna, styrker Maal Eckiuñar og hiñs Fodurlausa, upphefur sig ecke i Hiarta sijnu, helldur fellst aa Jacobs Raad, er hañ seiger: Cap. 1. Saa sem rijkur er, hroose sier i Lægingsiñe. Og fyrer þvi ad Gude hefur þocknast margañ audugañ ad giora, til ad audsijna i þvi so sem ollu odru sijna Giædsku vid Mañaña Sonu; eñ añars Vegar er nærsta hætt vid, ad Audureñ, sem er fagur, meige blinda Mañsins Hiarta; Þa giorer St. Paall Raad fyrer þeim sem Rijker eru i Christelegre Kyrkiu, 1. Tim. 6. (So laangt er fraa þvi, ad þeir sieu fraa Evangelio utelokader) seigiande: Þeim sem rijker eru i Olld þessare, Predika þu, ad þeir ecke metnest i Hiortum, og treyste ecke aa Audæfeñ, helldur aa hiñ lifanda Gud, sem oss alla Hlute aanægianlega giefur til Notkunar, ad þeir sieu Good-giarner, ad þeir sieu rijker i goodum Verkum, sieu giafmillder og fwser aa ad medbijta, safnande siaalfum sier goodum Grundvelle til hinns Epterkomanda, So ad þeir hreppe eilijft Lijf. Fare nu nockur þessum Postulans Raadum fram, þa er so laangt fraa þvi, ad hann fare Hlutlaus af Guds Velgiorningum i Evangelio, ad hann hefur meire Ordsok og Efne til ad giora þad Gud hefur i Evangelio boded, helldur enn hinn sem snaudur

er; Eda hvad er þad, ad Christur seiger, ad ei skule Vatns-Dryckiu-Olaunadur vera i Læresveins Nafne giefenn? Matth. 10. Hvad er hitt er hann bijdur / Ad Menn skule giora sier Vine af hinum Raunglaata Mamona, so ad þeir medtake oss i eilijfar Tialldbuder? Luc. 16. Allt er þetta til þess sagt, ad Madurenn lockest med Guds Naadar Fyrerheitum, til ad dijrka hann med hanns Gaafum, og Naaunganum ad gagna: Enn ef ödruvijse er, Þa klijnger þar og önnur Bialla; Hun lætur aa þennann Haatt, hiaa Luc. 6. Vei ydur sem rijker erud, Þier hafed ydar Huggun wtteked. Og Jacob talar nockud skorennordt þar um, Cap. 5. seigiande: Nu vel! Þier Auduger, Graated og Veined yfer Hormungum ydar, sem yfer ydur koma munu, ydar Audæfe eru fwenn, ydar Klæde eru uppetenn af Möl, ydar Gull og Silfur er ridgad, og þeirra Rid vitnar aa moote ydur, og mun uppeta ydar Holld so sem Elldur, Þier hafed geymt Fiesioodenn til hinna sijdurstu Daganna: siaaed, Laun Verka-Mannanna, sem hafa sleiged ydar Lond, er þier hafed inne hallded, þau hroopa, Hroop þeirra, er yrkt hafa, er inngeinged i Eyru DRottenns Allsheriar. Þann Veg hefe eg nu sijnt, Brædur mijner, ad Rijkdoomur og Faatækt eru Gude jafnkiær, þegar med hvorttveggia er Riettelega fared. Þvi vil eg þess ei dylia, ad eg hygg ad Frelsarenn i þessa Dags Evangelio innebinde þa i þessu Orde, sem hann talar um, Matth. 5. seigiande: Sæler eru Andlega Volader, þviad þeirra er Guds Rijke. Þetta sijnest raada meiga af sialfum Spaadoome Esajæ C.61. Til hvors ad Frelsarenn vijsar Johanni i Andsvare sijnu. Hvor Spaadoomur so hlioodar: Ande DRottenns er yfer mier, af þvi hann hefur smurt mig, hann hefur sendt mig ad boda Evangelium þeim Hoogværu, og ad binda vid þa sem i Hiortum eru sundurknosader. Þetta skilst mier ad vera sama og Andlega Volader, Matth. 5. Þad eru þeir, sem ad til þess fiña, ad i þeim, þad er i þeirra Hollde, bijr eckert Gott, Rom. 7. Þeir ed þeckia, ad þeir hafa Skort aa þeirri Hroosunenne, sem fyrer Gude gyllder, Rom. 3. Þeir ed med hinum Fortapada Syne audmijkia sig fyrer sijnum Fodur, Luc. 15. Þeir ed med Tollheimtu-Mannenum voga ecke ad upplipta sijnum Augum til Himens, helldur beria sier aa Brioost og seigia: Gud Vertu Mier Syndugum Lijknsamur, Luc. 18. Þeim er so eru Andlega Volader, og reikna sig so Or-faatæka, af öllu þvi sem fyrer Gude gyllda kann, ad þeim mislijkar allt aa sialfum sier, þeim hygg eg ad bæde fyrst og sijdarst tilheyre Evangelium, hvort helldur þeir Rijker eru edur Faatæker, þvi so seiger DRottenn, Esa. 66. A þann lijt eg, sem Faatækur er, og sundurkramenn i Anda, og skielfest fyrer Ordum mijnum. Þegar Guds Sonur kom i Heimenn, þa villdu Menn af Verkunum Riettlaater verda: Enn hvad seiger JEsus þar um? Nema ydar Riettlæte yfergnæfe meir enn hinna Skriftlærdu og Phariseanna, þa kunned þier ecke inn ad gaanga i Guds Rijke, Matth. 5. Þa Tijundudu þeir Mintu Anis og Cumen, þad var þeirra Guds Þioonusta, enn gleymdu þvi sem mest var i Lögmaalenu, Doomnum, Myskunsemenne og Trwnne, Matth. 23. Þa færdu þeir stoorar Foorner Marc. 7. aa HErranns Altare, og ætludu þar fyrer hoolpner ad verda. Enn DRottenn seiger þar um, Esa. 66. Hvor ed

slaat-

slaatrar Naute, þad er, sem hann slær Mann i Hel, hvor sem Offrar nockrum Smaa-Fie-nade, þad er, sem hann haalsbrite Hund: so mikedgylldte su wtwortis Guds Þioonustann i hanns Augum. Þar funduſt ecke marger, sem giordu ſoddann Jaatning fyrer Gude, sem David, helldur hiet þad so: Eg þacka þier Gud, þad eg em ecke eins og adrer Menn, Luc. 18. Þesser þoottust rijker vera af goodum Verkum, og jafnvel odrum laana kunna. Eñ hvad seiger JEsus vid Biskupenn i Laodicea? þu seiger: Eg em full-rijkur og hefe einskis Þorf, enn þu veitst ecke, ad þu ert aumur og vesæll, blindur og nakenn, Apoc. 3. Og þad hygg eg seigia mætte um̃ Mwga Manns aa þeim Dogum: Þar fyrer var Evangelium Faatækum bodad: Þar fyrer flycktust Tollheimtumenn og Bersynduger til JEsum, Luc. 15. Þar fyrer komu jafnvel heidner Menn aa hanns Fund. Þar fyrer sagde hann til þessa Foolks, Matth. 21. Sannlega seige eg ydur: Ad Tollheimtumenn og Pwtur munu gaanga framar ydur inn i Guds Rijke; Þvi Johannes kom til ydar med Riettlætesins Veg, og þier trwdud honum ecke, enn Tollheimtumenn og Pwtur trwdu honum, enn þier, sem ad saaud þetta, ydrudust ecke epter aa, so ad þier trydud honum. Og hosum vier nu so nockud heyrt þar um̃, hvilijker ad þesser Faatæker sieu, sem vor Frelsare talar um̃ i Andsvare sijnu til Johannem.

Nu vilium vier hier epter nockud um̃ sialft Evangelium tala, sem þeim bodad verdur. Menn kynnu ad efast um̃ hvornenn þad skilia eige, ad JEsus seiger hier alleina: Ad Faatækum Sieu Gudspiollenn Bodud, þar þo St. Paall vottar, Tit. 2. Ad Heilsusamleg Guds Naad sie opennber ordenn ollum Monnum. Hier byriar oss þad ad athuga, ad jafnvel þoott Christi Evangelium sie ecke nema eitt, þa verdur þo eitt og hid sama Evangelium med Tvofolldum Hætte predikad, saa eine hefur nockud af Logmaalenu alltijd med sier, og frambijdur Guds Naad giefens veitta med Fororde, ef Menn ydrast Syndanna og af þeim laata. Þvilijk var sw Predikun Christi, er Marcus um̃gietur, Cap. 1. JEsus kom i Galileam, predikande Evangelium Guds Rijkis, seigiande: Tijmenn er uppfylldur, Guds Rijke er komed, giored Ydran, og trwed Evangelio. Þess haattar var Predikun Johannis Baptistæ, er hann sagde: Giored Ydran, þvi Guds Rijke er naalægt. Oxenn er sett til Rootar Triaanna, hvort þad Trie sem ecke ber goodann Avoxt, skal upphoggvast og i Elld kastast, Matth. 3. Hier er Oleum Evangelij blandad med sterku Logmaalsins Vijne, til Lækningar þeim, sem medal Ræningia hrasader voru, Luc. 10. Med þessum Hætte aa Evangelium enn nu ad kiennast i Guds Sofnudum, hvar inne ad bædeeru Vonder og Gooder, Matth. 13. Og þann Veg byriar Guds Fiaarsioodum wt ad skipta i hentugann Tijma, so hvor eirn faae þad honum ber; þvi ei kom JEsus til ad uppleysa edur afmaa, helldur til ad uppfylla Logmaaled, Matth. 5. Guds Naad i Evangelio hrijn ecke aa Mannenum fyrer utann eina lifande Trw: Undann eirne lifande Trw verdur ad gaanga sonn Ydran: sonn Ydran er alldrei nema med sonnu Angre og Hiartans Trega: Trege Hiartans kann ecke i Mannenum ad uppvekiast fyrer utann Þeckingu Syndarennar; Þecking Syndarennar frambkiemur af Logmaalenu,

 Rom.

Rom. 7: hvar fyrer þoott ad Løgmaaled giøre ongvann hoolpenn af sialfu sier, samt þioonar þad under Evangelium, trwudum Manne til Saaluhiaalpar, so þegar Bookstafurenn hefur deydt, þa lijfgar Andenn, 2. Cor. 3. Þegar Løgmaaled hefur sundur mared, þa læknar Evangelium; þegar Manneskiann af Løgmaalenu þecker, ad hun hefur eckert annad forþienad enn Helvijte, Guds Reide og eilijfann Dauda, þa tekur Trwenn vid honum, og giører hann lifande aptur fyrer JEsu Dauda, og Endurnijar hann til ad giøra framveiges Guds Vilia. Þessa Atferd brwkade hinn ædste Biskup og mikle Hyrder Saudanna optast, til ad leida Synduga Menn til Guds Rijkis, þa sømu brwkudu og aller hans Þienarar um alla Æfe. Noe var Riettlætesins Predikare, 2. Pet. 2. Nathan straffade David, aadur enn hann huggade hann, 2. Sam. 12. Atferd Johannis Baptistæ er øllum kunnug, Matth. 3. So er nu þesse hinn Almennelege Haattur og Maate til ad predika Evangelium, sem aller Guds Ords Þienarar eiga ad vita og brwka. Annar er sa, sem tilhlijder Angraadum og Sturludum Manneskium, þeim sem allareidu hafa þeckt Syndena, og so eru af hennar Umþeinkingu sundurmarder, ad þeir reikna sig Overduga Guds Naadar; og so Faaraader, ad þeir vita ecke hvad þeir eiga af sier ad giøra: Þeckia ad sonnu Guds Naad, enn ofbijdur þo Stærd Syndanna: Þeir vita ad Sool Riettlætesins JEsus Christur er þeim upprunnenn, Mal. 4. Enn fyrer þvi ad þeir treystast ecke til ad lypta sijnum Augum til Himens upp, Luc. 18. og ad Þoka Syndanna skilur a millum Guds og þeirra, Esa. 59. Þa sia þeir ecke i giegnum hana sied (fyrr enn Heilagur Ande ridur Trwarennar Smyrslum a þeirra Hiartans Augu) hvad fagurt hun skijn, þeir þeinkia helldur a Stærd Syndanna, enn til Fiollda Guds Myskunsemda, Og, i einu Orde ad seigia, þad eru þeir Faatæker, er sier i Lage um talad er hier i Gudspiallenu, þeim tilheyrer Evangelium eintoomis a Løgmaalsins straungu Hootana; Hvar fyrer? Þviad Guds Ande hefur alla=reidu verkad allt þad, sem Løgmaaled aatte ad verka, sem er Þeckingu Syndanna og sanna Ydran, er af henne kiemur. Þeim verdur bodad, ad hvar sem Syndenn yfergnæfe, þar yfergnæfe Naadenn miklu framar, Rom. 5. Þeim verdur sagt, ad Mannsins Sonur kom til ad kalla Synduga, enn ecke Riettlaata, til Ydrunar, Matth. 9. Þeim a ad Predika, ad Blooded JESU hreinse þa af øllum Syndum, 1. Joh. 1. Og þo ad þeirra Synder sieu raudar sem Blood, skule þær eins hvijtar og Snioor verda, Esa. 1. Þeim seiger David, Ps. 34. Naalægur er DRottenn þeim sem sundurkramder eru i Hiortum og Harmþrongner i Anda. Til þeirra seiger Esajas Cap. 55. Heyred þier sem þyrster erud, komed til þessara Vatna, og sa ed aungvann Pening hefur, Komed, Medtaked og snæded. Komed, seige eg, og kaaped Okeypis og fyrer eckert, bæde Vijn og Mioolk. Til þeirra hroopar sialfur JEsus, sem bored hefur Synder Veralldarennar, Matth. 11. Komed til mijn aller þier sem erfided og Þwnga þiaader erud, eg vil ydur Endurnæra; Til alls þessa seiger øll heilog Guddoomsins Þrenning, Amen. Ezech. 33. Þier seiged, af þvi ad vorar Yfertrodslur og Synder liggia a oss, þar fyrer visnum vier upp i þeim, hvornenn skylldum vier

meiga

meiga lifa? Þa seig Þeim: So Sannarlega sem eg lifi, seigir DRottinn, þa vil eg ecki Dauda hinns Ogudlega, helldur ad hann snwi sier og lifi. Ecki eru þess Dæmi, ad Fadir Myskunsemdanna hafi nockurn þann fraa sier rekid, sem til hanns komid hefur, Joh. 6. Þetta er Evangelium Fridarins, sem hier bodad verdur, Es. 52. Laat þvi ei, syndugur Madur, þijna Saalu vera Oroolega i þier, þvi þu hefur Frid vid hann feingid, hvers Ovinur þu varst, þegar hann gaf sinn Son i Daudann fyrir þig, Rom. 5. Þad skiedur hiaa goodum Konungum, nær þeim fædest eirn Sonur, ad þeir giefa Einhvorn Bandingia lausañ; Eñ Gud Fadir liet hroopa til allrar Veralldar i sijns Sonar Fædingu: Fridur aa Jordu og Monum goodur Ville! Luc. 2. Þetta er Evangelium Fagnadarens, Luc. 2. Þvi Einglarnir sungu: Eg boda ydur mikiñ Fognud, þann er skier ollu Foolki. Laat þier þvi ecki so Ogna Syndir þijnar, þoott þær yfrid margar sieu og stoorar, ad þu ecki undir eins glediest i Gudi Heilsugiafara þijnum, Luc. 1. Meiri Gledi er i Himninum, seigir JEsus, yfir einum Syndara, sem Yøran giorir, helldur eñ yfir Niju og Nijutiju Riettlaatum, Luc. 15. Nu fyrst ad siaalfur Gud og hanns Heilagir, fagna so miog þijnu Afturhvarfi, þvi skylldir þu þa hryggur vera? Þetta er Evangelium Guds Naadar, Act. 20. og Embætti Forlijkunarinnar, 2. Cor. 5. Enn þu hrædist oll þijn Verk, eins og Job, og veitst, ad jafnvel þitt Riettlæti, er so sem Nidlags Fat, Esa. 64. Nu er þetta Naadarennar Evangelium, i hvoriu Syndaranum verdur frambodiñ Naad wt af Naad, enn ef þad er af Naad, þa er þad ecki af Verkunum, seigir Postuliñ, Rom. 11. Þijn Verk eru vond, enn þetta er þo Evangelium goodra Hluta, Rom. 10. Þitt Hiarta fordæmir þig, enn Johañes seigir þo, ad Gud sie meiri þijnu Hiarta, og viti alla Hluti, 1. Joh. 3. Veit hann alla Hluti, þaa veit hann og þad, ad þu ert Andlega Voladur, þvi vill hann þier Himnarijkid giefa, Matth. 5. Enginn er saa snaudur, er hann a heillt Kongs Rijki, þo er Syndariñ rijkari, þegar hañ aa Guds Rijki; og verdur þa rijkastur, þegar hann er sem faatækastur, og maattugur, þegar hañ veikur er, eins og St. Paall, 2. Cor. 12. Veit Gud alla Hluti, þa veit hann og þad, ad þig hungrar og þyrstir eftir Riettlætinu, Matth. 5. Eñ ef þu, sem Vondur ert, kañt ad giefa Bornum þijnum goodar Gaafur, ef þu sem ert aliñ i Synd, mundir ei neita daud-þyrstum Mañi Vatns-Dryckiar; mun þa Gud, sem er alleina goodur, tefia leingi ad svala þier med Heilogum Anda, þa þig laangar eftir honum, so sem Hiortenn eftir fersku Vatni, Ps. 42. Þu sellur i þær Syndir, er Gud hefur þier aadur fyrirgiefid, og þad optar enn Einusinne; þad er illa giort: Laat þig þad af Hiarta aangra, og syndga ei þanninn framar, ad þu ecki uppausir Bruñ Myskunariñar; Enn giæt þo þess, ad þetta er Evangelium Forlijkunarinnar, 2. Cor. 5. Christur er Kienniemadur ad Eilijfu, Heb. 7. Og situr til Fodursens hægre Handar, til ad bidia fyrer oss Ofaslaatanlega. JEsus skipade Petre ad fyrergiefa sijnum Broodur Siotijusinnum Siosinnum, Matth. 18. Hyggþu ecke ad Fader Miskunsemdanna mune vera sijdur naadugur, eñ hañ ætlar til ad þu skuler vera; Sierdeilis þar hann segier; Vered Myskunsamer, so sem ydar

Fadir er Myskunsamur, Luc. 6. eñ brwka samt ecki þessa Guds Naad til Hyrduleysis, edur til ad giefa Holldinu Taum. Hæd ecki ad honum, sem Augad hefur skapad, og Eyrad hefur plantad, Ps. 94. og er Hiartnaña og Nijrnaña Rannsakari, Apoc. 2. Þvi hañ lætur ecki ad sier hæda, Gal. 6. Hafi Gud fyrirgiefid þier margar Syndir, þa vit, ad þier er þess vandara. Þeink aa þann Tijma, hvorsu ad Syndiñ var þier Obærileg, aadur enn Gud huggadi þig med Evangelio; hun mun þo betur bijta, ef þar kyñi ad koma, ad hañ yrdi fyrir Alvoru reidur. Slockved ecki Heilagann Anda, seigir Paall Postuli, 1. Tess. 5. Giæt ad þvi, syndugur Madur, þvi kañskie, hann verdi ecki so hægt aftur ad kveikia. Siaa! nu ertu heilbrygdur, sagdi JEsus vid hañ, sem hann læknadi vid Dijkid Bethesda, syndga nu ei framar, ad ei hendi þig annad verra, Joh. 5. Þu hefur eitt Sinn leigid vid Dijki Guds Naadar, og Eingill hinns mikla Raads hefur so hrært þad, ad þier vard til Andlegrar Heilsu-Bootar: Siaa til, ad þu ei aftur misser Heilsuna og verdir so ad kvarta um, med þessum Mañi, þad þu aungvann faair, sem ad kasti þier i Dijkid, þegar JEsus er fraageinginn. Hafi hann eitt Siñ wtrekid Dioful inn fraa þier, þa giallt Varhuga vid, ad ei hverfi Sathan aftur, og taki Sio Anda sier verri, og verdi so þitt hid Sijdara, argara hinu Fyrra, Luc. 11. Nu hef eg so med faam Ordum sagt, Brædur mijnir, hvilijkt ad sie þad Evangelium, sem Faatækum bodad verdur. Þeñañ Veg gieck JEsus til ad leita ad þeim, sem añadhvort Harmþrwngnir voru, og sundurkramdir i Mootlætinu, edur særdir og lemstradir af Tilfiñingu Syndanna. Hann hafdi ecki morg Ord vid hina Bersyndugu i Simons Hwsi, hann took Ordalaust hennar Forsvar aa Hendur, og sagdi: Ad henni fyrirgiæfust hennar morgu Syndir, af þvi hun elskadi mikid, Luc. 7. Hann skipti ecki morgum Ordum vid hina Bloodfallssiwku, er gleck Bak til vid hann og snerti Falld hanns Klæda; hann sagdi alleina: Vertu Hughraust mijn Doottir, þijn Trwa giordi þig heilbrygda, Matth. 9. Hann hafdi og ecki laangordt vid hinn Limafallssiwka, er þeir lietu sijga ofann af Þakinu nidur fyrir hanns blessadar Fætur, hann reisti hann strax upp med þessu Huggunar Ordi: Vertu Hughraustur Sonur, þier eru þijnar Syndir fyrirgiefnar, Matth. 9. Hann aataldi ei stoorum Hoor-Konuna, til hvorrar hann sagdi: Kona, Hefur nockur fordæmt þig? Enn hun kvad Nei vid; Þa sagdi hin eilijfa Giædska: So fordæmi eg þig ecki helldur, far burt og syndga nu ei framar, Joh. 8. Einginn er þvilikur Guds Velgiorningur, af ollum þeim Fiolda, sem hanns Fodurleg Naad hefur tiaad syndugum Moñum, sem þessi: Eingiñ Hwngradur verdur so feiginn ad eta, eingiñ Þyrstur ad drecka, einginn Nakiñ ad klædast, eingiñ Þreittur ad hvijlast, eingiñ Utlægur ad naa Lands-Vist aftur, eingiñ Siooh rakinn Landinu, einginn Siwkur Batanum, einginn Þræll Frelsinu, einginn Fiotradur Lausninni, so sem Faatækur verdur Evangelio, og eirn Syndari, sem einskis Von aa, nema eilijfra Helvijtis Pijsla, so sem hann verdur þvi feiginn, seigi eg, ad Guds Naadar-Lioos skijn i hañs Hiarta, so ad hañ sier med Trwarinnar Augum, ad hanns Syndir kvittar eru. O HErra JEsu Christe! þu saklausa

Lamb

Lamb Guds, sem burtu ber allar Veralldarennar Synder; Kienn þu oss ad þeckia vora Overdugleik; Drag þu Skijluna fraa vorum døpru Augum, so ad vier mættum siaa vora Blygdan; Straffa þu Syndena i oss, med sannre Ydran og Angre Hiartans fyrer allt þad Illa, sem vier fraa Barnæsku vorre høfum drygt aa moote þier, og þa vier erum so nidurslegner i vorum Hiørtum, og þijn vollduga Hønd er oss so sterk ordenn, þa riett oss aptur þijna Naadar Hønd, ad vier ei sockvum i Diwp Orvæntingarennar, helldur forlaatum oss þar uppaa, ad þu siert oss af Gude giefenn til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor. 1. Bænheir þad, HErra, fyrer þijna Forþienustu, AMEN.

# Fioorda Suñudag i Adventu.

Gudspialled, Joh. 1. Cap.

A Þeim Tijma. Gydingar sendu af Jerusalem Presta og Levita, ad þeir skylldu spyrja hañ ad, hvør ert þu? Og hañ medkiendest og neitade þvi ecke. Og hañ medkiendest, segjande: Eige em eg Christur. Og þeir spurdu hañ eñ þa ad, Hvad þa? Ert þu Elias? Hañ sagde: Ei em eg. Ert þu þa Spaamadur? Og hañ svarade: Nei, ecke. Þa søgdu þeir vid hañ: Hvør ert þu þa? So ad vier meigum Andsvar giefa þeim er oss wtsendu. Hvad segier þu af sialfum þier? Hañ sagde: Eg em hroopanda Rødd i Eydemørku, greided þier Gøtu DRottens, so sem sagde Esajas Spaamadur. Og þeir sem wt voru sender, voru af Phariseis. Og þeir spurdu hañ ad, og søgdu til hañs: Þvi skijrer þu þa, fyrst þu ert ecke Christur, eige Elias, og eige Spaamadur? Johañes svarade þeim og sagde: Eg skijre i Vatne, eñ sa stood i Mided hiaa ydur, hvørn þier þecktud eige. Hañ er sa sem epter mig mun koma, hvør ed var fyrer mig, hvørs Skoo-Þveinge eg em ei verdugur upp ad leysa. Þetta skiede i Bethabara, hinumeigeñ Jordanar, þar sem Johañes skijrde.

## Exordium.

I Þessu Heilaga Evangelio er Tveñt, sem þarf ad athuga. Þad eina, ad Johannes segiest ecke Elias vera, enn JEsus segier þo um̃ hann, Matth. 11. Ef þier viljed þad medtaka, þa er hann Elias, sa ed koma skal; Og hiaa Matthæum segier hann, ad Elias komenn sie, Matth. 17. Þad er annad, ad hann neitar þvi, ad hann sie Spaamadur, enn hanns Fader Sacharias segier þo um̃ hann, Luc. 1. Og þu Sveirn munt kallast Spaamadur hinns Hæsta. Þetta synest hvort ødru gagnstædt

vera; Enn þess byriar ad giæta, sem St. Petur segier: Ad Spaadoomarner eiga ecke wt ad leggiast epter eigenn Pootta, þui þeir eru ecke ad Mannlegum Vilia til vor komner, helldur hafa Guds Heilager Menn, tilknwder af Heilögum Anda, talad, 2. Pet. 1. Og þui er einginn Vegur betri edur beirni til ad leggia þaa wt, helldur enn sialf Ritningin. Hiaa Malachiam Cap. 4. seigir Andi Guds: Siaa! eg mun senda Eliam Spaamann til ydar, aadur enn kiemur sa mikle og hrædelege Dagur DRottenns. Sa Elias er nu Johannes i Raun og Sanleika, hann gieck undann Guds Foolki i Anda og Krafti Eliæ, so sem Eingillinn spaadi, Luc. 1. Elias var eirn strangur Vandlætari i Guds Stad. Johannes var og Ydrunar Predikari. Elias sagdi hinum Oguðlega Achab Konungi til Synda sinna, 1. Reg. 21. Johannes aataldi Herodem Konung, Matth. 14. Elias upprætti ad miklu Leiti Afgudadyrkanena wr Israel, 1. Reg. 18. Um Johannem seigir Frelsarinn, Matth. 17. Ad hann muni vidrietta alla Hluti. Elias bodadi hinn sanna Guds Veg, 1. Reg. 19. Johannes kom med Veg Riettlætisins, Matth. 21. Um Eliam er spaad, Malach. 4. ad hann muni snwa Hiortum Fedranna til Barnanna, og Barnanna til Fedranna; Og þann sama Spaadoom þijdir Eingill DRottinns uppaa Johannem, Luc. 1. Og ad Menn ecki efist um þad, ad Johannes sie Elias, sa ed koma aatti, þa skrifar Matth. C. 17. Ad þegar Lærisveinarnir saau aa Fiallinu Eliam og Moysen tala vid JEsum, er hann Forklaaradist, þa hafi hann bannad þeim ad seigia þa Syn nockrum, fyrr enn hann væri uppriisinn; Enn þeir spurdu: Phariseri seigia ad Elias eigi aadur ad koma; Enn hann sagdi: Elias aa ad sönnu aadur ad koma og lagfæra alla Hluti. Enn eg seigi ydur: Ad Elias er allareidu kominn, enn þeir þecktu hann ecki, helldur giordu vid hann, hvad þeim lijkadi. So mun og Mannsins Sonur verda pijndur af þeim. Þa skildu Lærisveinarnir, ad hann taladi vid þaa um Johannem, seigir Matthæus. So er nu Johannes sa rietti Elias sem koma aatti; Enn þo ecki eirn og hinn sami Elias Tesbiter; Og so sem Guds Andi seigir, Hos. 3. Ad þeir muni leita sijns Konungs Davids, sem þo er ei annad enn Christur; So heitir Johannes hier Elias, jafnvel þoott hann ecki Elias væri. I ödru Lagi neitar Johannes þui, ad hann Spaamadur sie. Hier byriar ad athuga, ad Gydingar hafa, aan Efa, verid i þeirri Villu, ad Gud mundi ecki einasta senda Eliam Thesbiter i eiginn Personu til þeirra, helldur og eirn annann Spaamann, lijkann Moysi, hvad þeir dreigid hafa af sialfs Moysis Ordum, Devt. 18. Er hann sagdi: Spaamann mun Gud ydur uppvekia af Brædrum ydar lijkann mier, honum skulud þier heyra. Hvor Ord alleina eiga um DRottinn JEsum ad skiliast; So sem St. Petur þad wtleggur, Act. 3. Þad maa og raada af Ordum Foolksins, er sagdi um JEsum, Joh. 6. Þessi er sannarlega sa Spaamadur, sem i Heiminn koma skal; Edur hvad er þad annad, sem stendur 1. Maccab. 14. Ad Gydingum og Kiennemönnum syndist, ad Simon skilldi vera þeirra Hertogi Æfinnlega, þar til sa visse Spaamadur kiæmi? Vilie Menn og Grandvarlega athuga Spurn Gydinga, þaa er hun

þann

þann Veg: Ertu Sa Spaamadurinn? Hvad talad syniſt um̃ einhvørn viſſann Spaamann, ſem þeir væntu epter; Enn ſo ſem Johannes þvi Riettelega neitade, ad hann være Elias epter þeirra Meiningu; So kvad hann og Nei vid hinu med øllum Riette, ad hann ſa Spaamadur være, ſem þeir epter væntu, jafnvel þoott hann være Spaamadur hinns Hæꝛſta, ſo ſem hanns Fader Zacharias aadur ſagt hafde, og meiri enn nockur Spamann, ad Chriſti Vitne, Matth. 11. Og er þetta ad ſeigia um̃ Perſoonu Johannis. Enn af hanns Andſvorum eigum vier Chriſtelega, Hoogværd ad læra. Hvar um̃ eg fram̃veigis tala vil. Þar til ſtyrke Guds Goodur Ande fyrer JEſum Chriſtum, Amen.

## Utleggingen̄.

HJd Fyrſta Andſvar Johannis, er hann gaf Sendemønnum Gydinga, er þetta: Eige Em Eg CHriſtur. Spurn þeirra var þann Veg: Hvør Ert Þu? Og ſijneſt ſo ſem hann hafe ei viliad bijda epter þvi, ad þeir ſpyrde hann ad: HVørt Hann CHRJſtur være, þvi han̄ hefur aan Efa vitad, ad þeſs-haattar munde Eyrendid vera, Þar fyrer fortekur hann þad ſtrax, og ſeiger: EJge Em Eg CHRJSTur; og maa þar af ſiaa, hvorſu annt hønum hefur þar um̃ vered, ad eingenn ſkyllde ſo mikla Hlute um̃ ſig þeynkia, Hvar fyrer hann gietur og ocke bundeſt ſijdar i Gudſpiallenu, ad tala ſo Skorenordt hier um̃, ad aller ſkilia mættu, Er han̄ ſeigier: SA STood i Midt Hiaa Ydur, Hvørn þier þecktud Eige, Hann er ſa ſem epter mig mun koma, Hvør og fyrer mig var; Hvørs Skoo Þveinge eg em ei verdugur upp ad leyſa. Gudſpiallamadurenn, ſem þetta ritar, Hann hefur ſo mørg Ord hier um̃, ſeigiande: HAnn MEDkiendiſt Og NEitade Þvi Ecki, Og Hann Medkiendiſt, og ſagde: EJ EM EG CHRJSTur. Og er þad audſært þar af, ad hann hefur aa allar Lunder viliad gyrda fyrer þad, ad eingenn ſkyllde þvilijkar Øfgar i Hug ſier leida. Þann Veg hafa aller Guds Elſkendur Lynder vered, ad þeir hafa fyrerorded ſig, þa þeir aa einhvørn Haatt hafa orded annadhvørt ad naalægiaſt Gud, edur og ad þeirra hefur under eins gieted vered og hinns Stoora Konungs, ſem øllu rædur bæde aa Himne og Jørdu. Heilogum Johanni var þetta nærſta Ættgeingt ad blygdaſt fyrer ſijnum Gude og Skapara. Þegar Guds Mooder Maria heimſokte Moodur hanns Eliſabeth Frænd-Konu ſijna, er hun var Oliett ad hønum, þa fagnade hun henne aa þennann Haatt: Hvadan̄ kiemur mier þad, ad Mooder DRottenns mijns kiemur til mijn? Luc. 1. Eins var ſialf Maria Skapefarenn, er hun ſagde til Eingelſins: Eg em Ambaatt DRottenns, Verde mier epter Orde þijnu. Abraham viſſe ei hvad hann aatte af ſier ad giøra, þegar DRottenn vyrdte hann Vidtals; þvi ſagde hann: Eg villde nu giarnann tala vid DRottenn Gud, þoott eg ſie Dupt og Aſka, Gen. 18. Eg vil ei þar um̃ tala, hvørſu Poſtular DRottenns vorduſt allre þeirre Lotningu, er adrer ſynduger Menn villdu veita þeim, þa þeir kiendu JEſum, edur giørdu Kraptaverk i hanns Nafne. Þegar Cornelius fiell til Foota Peturs, þa reiſte Poſtulenn hann jafnſkioott aa Fætur, og ſagde: Statt upp, eg er eirnenn Madur, Act. 10. Þegar Fooked i Lyſtris ſagde ad Guderner væru Mønnum lijker orðner, og til þeirra

oſan̄=

ofannkomner, Act. 14. af þvi ad Paall reiste þann aa Fætur med einu Orde, er Foothrum-ur var fraa Moodur-Lijfe, og villdu hafa fært honum og Barnabæ Foorner, þa sund-ur rifu þeir sijn Klæde, stuckurinn i Mann-Þraungena, hroopudu og sogdu: Þier Menn, hvar fyrer giored þier þetta? vid erum Menn, sama Breiskleika og þier underorpner. Jaa, ecke einasta Guds Heilager Menn og Astviner, hafa þann Veg blygdast fyrer Gude, sem meir enn skylldugt er, helldur og hafa hanns volldugu Einglar hid sama giort. Þad maa medal annars lesa, Apoc. 19. Þegar Eingellenn talade vid Johannem, þa skrifar hann aa þennann Haatt: Og eg fiell fram fyrer hanns Fætur ad tilbidia hann, og hañ sagde vid mig: Siaa! ad þu giorer ei þetta, eg em þinn Med-Þienare og Brædra þinna, þeirra er hafa Vitnisburdenn JEsu, tilbid þu Gud. Hafe nu Guds heilager Menn og Post-ular; hafe Johannes Baptista, um hvorn Sannleiks Munnurenn vitnar, ad eingenn sie meire af Kvinnuñe fæddur, Matth. 11. Hafe hanns blessud Mooder, sem hina mestu Tign hefur af Gude þeiged allra syndugra Manna, sem borner eru i þennann Heim: Hafe Guds heilager Einglar, sem eru alldeilis aan Syndar: Hafe þesser, seige eg, so audmykt sig fyrer hanns Haatign og Vellde; hvad miklu framar byriar þier þa, syndugur Orm-ur, ad audmykia þig under vollduga Guds Hond, sem allur ert i Synd, og ecke eitt Augnablik lifer aan Syndar i hanns Auglite? Hafe Sonurenn giorst Fodurnum hlijd-enn allt til Daudanns, jaa, allt til Krossenns Dauda, Phil. 2. Ef St. Paall, 1. Cor. 15. seiger: Ad aa sijdarsta Deige, þegar hann afhender Rijked Gude og Fodur, þa mune hann (þo epter Manndoomenum) undergiefenn verda honum, sem alla Hlute giorde honum undergiefna; ætter þu þa ecke ad skamast þijn ad standa uppriettur i hanns Auglite, þu sem optsinnis ert Ohlijdugur, Þverbrotenn, Toomlaatur, og forsmaaer hanns myklu Mysk-unseme, sem Daglega er nij og fersk yfer þier aa hvorium Morgne? Thren. 3. Hvar fyrer hafa Guds Heilager so audmijkt sig fyrer Gude? Þvi þeir elskudu hann. Þvi hafa þeir hann elskad? Þvi þeir þecktu hann. Þvi þecktu þeir hann? Þvi þeir lærdu fyr-st ad þeckia siaalfa sig. Hvad þecktu þeir hiaa siaalfum sier? Eckert nema Synd og Vo-læde. Hvad hiaa Gude? Eckert nema Dijrd og Vegsemd. Gior slijkt hid sama og muntu finna, hvorsu ad þu ert minna enn eckert i Guds Auglite. Ber þig samann vid hann, þoott nockud Oliikt sie samann ad bera, og nærsta sundurleitt, gior þad þo, þvi slijk-ur Samburdur mislijkar honum ecke, ef hann mætte duga þier til ad kaunast vid Synd þijna og hanns Dijrdarfulla Haatign, hvoria þo Daudlegur Madur alldrei kann ad þeckia so sem hun er. Judar spurdu Johañem ad, HVÖR ERT ÞU? Ef þu sp-yr ad, hvor Gud sie, þa verdur ei svarad, nema med hanns eigenn Ordum: Gud er eirn Ande, Joh. 4. þo ecke so sem adrer Andar, helldur Fader Andanna, Hebr. 12. Og sv-o Dijrdlegur, ad honum maa vid aungvann Hlut samlijkia, Esa. 40. Um hann verdur e-nær komest ad tala, enn med þeim Ordum, er under eins medkienna Faafrode vora til ad wtmaala hanns Dijrd, sem er, ad hun sie Omælannleg, Endañleg, Orañsakannleg og O-wtseigiannleg. Enn spyr siaalfann þig ad, hvad ert þu? J Fyrstunne eckert, og sijdann Ley-

Jard

Jardar, sem Gud skoop hinn Fyrsta Mann af, Gen. 2. Gud er Eilijfur, sa sem er, og sa sem var, og sa sem koma mun, Apoc. 1. Enn hvort ert þu? Nockurskonar Gufa, er siest um Hrijd, enn hverfur sijdann, Jac. 4. Gud er Omælannlegur, hann uppfyller bæde Himen og Jord. Pad vottar Zophar af Naema, segiande: Job. 11. Muntu med Hyganum gieta komest ad Stærd hinns Almattuga, hann er hærre enn Himenenn, og diwpare enn Helwijte. Enn hvor ert þu? Mæl sialfann þig, sem ert farra Foota Leingd, og misgnar ecke, med allre þinne Ahyggiu, ad auka eirnre Alenn þar vid, Matth. 6. Gud er Alvitur, Aller Hluter eru berer og nakter fyrer hanns Augum, Hebr. 4. Enn hvor ertu? Þu veitst ecke hvad a Morgun mune skie, Jac. 4. Gud er Almattugur, hia honum er eingenn Hlutur Omattugur, Luc. 1. Enn hvor ert þu? Þu formatt ecke ad giora eitt hvijtt Haar Svart a þijnu Hofde, Matth. 5. DRottenn er Riettlatur og goodur, seiger David, Psalm. 25. Og so sem hann er i sialfum sier, so er hann i sijnum Verkum. Enn hvor ert þu? Þijner Þanckar eru vonder i fra Upphafe, Gen. 8. og so eru þijn Verk, þvi þar er eingenn sa od gott giore, og ecke eirn, Psalm. 14. Gud er Sannordur, oll hanns Bodord eru Sannleike, seiger David, Ps. 119. Ef vier Otrwer erum, þa er hann trwr, sialfum sier kann hann ecke ad neita, seiger Paall. 2. Tim. 2. Enn hvor ertu? Spyr St. Paal ad, hann mun svara þier, Rom. 3. Verde Gud Sannordur, enn aller Menn Lygarar. Hvad virdest þier nu, syndugur Madur? Muntu ecke, þegar þu so helldur Reikning mille Guds og þijn, munt þu ecke (seige eg) fulla Orsok hafa til ad skamast þijn fyrer hanns Auglite, sem þier so miklu Mattkare, miklu Ædre, miklu Betre, miklu Riettlatare er, og, i einu Orde ad seigia, hia hvorium þu ert minna enn ecke neitt ad reikna; Og fyrer utann allt þetta; þa hefur hann þig so Aumann, so Fatadan, so Vondann og Onoogann sialfum þier um alla Hlute, upp ur Þrecknum hafed, og sett þig i sijns Sonar Rijke, Col. 1. Enn lijtelæckad hann, og giort þier ad ollu samlijkann, Heb. 2. ad þvi einu undanteknu, er hann var straffadur fyrer, enn þu ert frelsadur fra, sem er Syndenn, Heb. 5. Fyrer hvoria hann er deyddur, enn þu fieckst Lijfgiof fyrer hanns Dauda. Þvi skyllder þu þa Aumastur allra skapadra Hluta Guds a Jordunne, skyllder þu (seige eg) stæra þig edur metnast i Hiarta þijnu, so sem værer þu nockud, fyrer utann Gud, og ei miklu helldur, med Audmijkt þijns Hiarta, þacka honum þess innelegar, sem hann hefur giefed þier meira Vit a ad þeckia þad, og meira til þijn lagt enn allra annarra! Eirn Guds Eingell hefur honum meira ad þacka fyrer hinn minnsta Dropa hanns Giæsku, er hann hefur til hanns lagt, helldur enn allar skynlausar Skiepnur, fyrer oll Natturunnar Giæde og Skopun allra Hluta. Enn þu, syndug Manneskia, hefur meira af honum þeiged i hinum minsta Naadar-Mola Andlegra Giæda, helldur enn allar Einglanna Hersveiter i ollu þvi sem ollum þeim er tillagt. Hvar fyrer? Þviad, til þess, ad þu lifa skyllder fyrer Naad Guds, hefur hann lated Son sinn ecke Einglana, helldur Abrahams Sæde uppa sig taka, Hebr. 2. Og giort þitt Holld, sem hann uppa sig took, Einglunum so miklu ædra, sem hann hefur framar þeim ædra Nafn odlast, Hebr. 1. og lated hinn lif-

anda Gud i Mannlegu Hollde beya Mannlegum Dauda, so þu mætter Gudlegu Lijfe lifa, þvi hefur hann so miklu meira til þinnar Upphefdar unned enn til Einglanna, sem JEsum hanns Son hefur meira kostad ad Endurskapa þig, helldur eñ alla Einglana ad skapa, fyrer þvi ættu hönum so miklu meir ad þacka enn þeir, sem hann hefur meira uppa þig kostad: Enn hvar med villtu hönum þacka? Ecke etur hann Kiot Hafranna, edur dreckur Blood hinna feitu Uxanna, Psalm. 50. Offra hönum Lofgiörđenne, og giallt hönum þijn Heit, þad er audmiwkur Ande og sundurkramed Hiarta, hvert hann mun ecke fyrerlijta, Psalm. 51. Þu kañt ad seigia: eg jafna mier ei samann vid Gud, ei hef eg mig upp æ moote hönum, eg veit, eg æ hönum allt gott ad þacka, og ef hann vill Doom hallda vid mig, þa hefur hann Valld til ad kasta Lijfe og Saalu i eilijfann Elld, Matth. 10. Þu seiger vel, þvi allt þetta er meir enn satt; enn rannsaka Hiarta þitt vel, hvort Hugur hefur alltijd fylgt Maale; Hefur þu audmykt þig so fyrer þijnum Gude sem byriad hefur, bæde med Orde og Verke? Ef hann er þinn Fader, hvar er þa hanns Heidur? Giæt ad þvi JEsus seiger, Matth. 21. um þann Son, er Faderenn skipade ad erfida i Vijngardenum, og hann kvad jæ vid, enn foor þo hvorge; þad er ecke nog ad nalægiast hann med Vorunum, ef Hiartad er langt þar fræ. Vier seigiunst aller eiga ad elska Gud fram yfer alla Hlute, og þad er þad sanna Audmyktar Merke ad elska hana, enn Gud næde, hvornenn þad efnt er, þar vier lætum oss æ Stundum alla Hlute skylldare vera enn hans Dijrd. Þegar Hollded og Andskotenn freista þijn til Syndarennar, enn þier kiemur þa i Hug, ad Gud hafe þad bannad, samt hlijder þu Holldenu i þess Girndum, og lætur Syndena i þvi drottna, Rom. 6. Er þad ecke ad upphefia sig æ moote Gude, og meta framar þess Munad enn hanns Bodord? Hvorjer erum vier þa æ medann? Ecke Guds Þioonar, helldur Þrælar Syndarennar; þvi hvor hann Syndena æfer, hann er Þræll Syndarennar, seiger JEsus, Joh. 8. Vier eigum ad hrædast og skielfast hanns Ogurlega Nafni, enn Menn vanbrwka þad æ Stundum, til ad Liwga, Stela og Svijkia. Hvorier erum vier þa? Þeir, ad vijsu, fyrer hvorra Skulld Guds Nafn lastad verdur medal Heidingianna, Rom. 2. Vier seigiunst vera skylldugar ad hlijda hanns Orde, og giöra þar epter, enn Menn daufheyrast þar vid, sitia under eirne Predikun Hyrdulauser, og gaanga þadann Avaxtarlauser, og sumum mæ valla þangad koma, sem þad er um Hond hast. Hvad erum vier þa? Forgleimannleger Tilheyrendur, enn ei Giörendur Ordsins, Jac. 1. J Krosse og Mootgaange siest allra best Audmyktenn fyrer Gude. Sæ audmyker sig riettelega under hanns Vollduga Hond, er kysser æ Vond Drottenns med Þacklæte, þvi hann er hanns sannur Læresveirn; Enn þar vill a stundum nærsta mig afbera, þar Menn eru Oþoleñmooder under DRottenns Krosse. Sumer skioota sier undann hanns sæta Oke æ allar Lunder med Oleiselegu Moote, og leita þeirra Bragda, er Gud bannad hefur. Er slijkt ad audmykia sig fyrer Gude? Fiærre fer þvi. Hvorier erum vier þa? Lijker þeim er lijda so sem Þioosar og Mordingiar, edur þeir, sem falla inn i annars Embætte, 1. Pet. 4. Þvi hvar er vor Audmykt fyrer Gude,

Ef

ef vier villum eckert þola hanns vegna? Og so sem vier erum nu skylldugir aa allar Lund-
er ad audmijkia oss fyrir Gudi, vorum Skapara, So vill hann og ei helldur, ad vier
skulum forsmaa vora Brædur i Heimenum; Þvi hvör hann seigest elska Gud, enn hatar
sinn Broodur, Hann er Lÿgare, seigier Johañes, Þvi ef hann ecki elskar sinn Broodur, hvo-
rn hann sier, Hvornenn maa hann Gud elska, þann hann sier ecke? 1. Joh. 4. Nu er eckert
Verkfære Kiærleikans handhægra enn Lijtelæted, Þvi þad verdur af ollum elskad, og
med þvi dregur Kiærleikurenn alla til sijn, þa sem ecke Kiærleikann hata; Þess vegna seg-
ier Paulus um Dygd þessa: Kiærleikurinn er ecke mikilaatur, Hann þijtur ei upp, hañ lei-
tar ecke epter þvi sem hañs er, 1. Cor. 13. Og Sokum þess, ad hann visse, ad Lijtelæted
var Band Kiærleikans, þa bijdur hann Christnum Moñum, ad þeir hafe hvor annann
sier i Virdingum ædra, Phil. 2. So hefur og JEsus laated ollum sijnum Læresveinum
þad Bodord epter: Hvor sem vill stoor vera ydar aa mille, Hann sie hinna Þienare,
Matth. 20. Hefde Johannes vered aagiarn Hiegooma Dijrdar, þa hefde hann ecke nei-
tad þvi, ad hann Elias edur Spaamadur være, þar hann matte þo hvorutveggia um sig
jaata, Þviad þad Eina vitnar Christur, Matth. 11. um hañ, Eñ Añad hanns Fader
Zacharias, Luc. 1. sem aadur er sagt; Og allt Foolked hiellt hann fyrer Spaamann,
Matth. 21. Enn hann villde aa moote hvorugu taka, so hann giæfe Gude einum Dijrdena:
Ecke Olijkur i þessu sijnum HErra, hvors Eingell hann var, Mal. 3. Hvor þa hann var
af hinum Skriftlærda kalladur: goode Meistare, Svarade hann: Hvad kallar þu mig
Goodann? Eingenn er Goodur nema Gud eirn, Marc. 10. Ecke neitade HErrann þvi
ad hann Goodur være, Villde þo ecke þiggia þann Titil af hanns Munne, er hañ so kalladi
epter sijnum Þeanka, þad er, eins Goodann og Pharisæi voru, hvoria Foolked kallade
Gooda, af þvi þeir gaafu so miklar Olmusur, Enn Saduceos Riettlaata, af þvi þeir
gaafu eckert epter, tooku ei helldur neitt Raanglega fraa neinum. Hvar til St. Paall
synest lijta, Rom. 5. Er hann segier: ad valla mune finnast nockur saa, ed fyrer Riettlaatañ
deir, Þvi kann skie einhvor findest saa, ed dæe fyrer hinn Gooda. Þann Veg forsmaade
Christur og hanns Eingill Johannes saanijta Virdingu Heims þessa, Og ei var St.
Paall odruvijs Lyndur, er hann segier, 2. Cor. 12. Ef eg hroosade mier, Þa være eg þo
eingenn Daare, Þvi eg skal satt segia, Enn eg hlijfest vid þad, So ad eingenn þeinke um
mig fram yfer þad, sem hann sier mig vera, edur heyrer af mier.

Johannes segier hier i Gudspiallenu: GReide ÞJer GOtu DROTTenns. Ord
þau eru tekenn af Esajæ Spaadooms Bookar 40. Cap. þar ed so stendur: Þar er Rodd
eins Hroopanda i Eydemorku, Greide þier Gotu DRottenns, Og giored slietta Vegu
Gude vorum i Obygdenne. Þegar menn ridia eirn Veg og giora hann færann, taka Meñ
i burtu Stoor-Grijte og allar Ojofnur, so greidt verde um ad fara. Offe og Hroke
Veralldar þessarar eru Torfærur þær, sem Guds Veg hindra i Mannsens Hiarta. Hv-
adann kiemur Strijd og Baraatta Manna aa medal? Hvadann kiemur Osund og Ulf-
bwd, Hvadann vex Agg, Reide og Þræta? Hvadann uppstijgur Agyrne og Fiedraattur,

Hvadann framkiemur Mord og Mannslag? Hvadann er þad, ad Menn Tonlast og Tiggast Innbyrdis, þar til þeir um sijder mættu verda uppetner? Zach. 11. Kiemur ecke allt þvilijkt af hinne bolvudu Drambseme, er Satan innræter i Manna Hiortu? Hvorneñ aa Zions Konungur ad rijda um slijkann Veg, þegar saa DRottnaren kiemur til sijns Musteris? Mal. 3. Sem er Mannsins Hiarta. Þeir breiddu sijn Klæde aa Veigenn fyrer hann, þegar hann sijdarst iñreid til Jerusalem, og dreifdu Kvistum Triaana aa hans Gotu; þad var Audmijktar og Fridar-Merke: Þvi aa og i burtu ad ridia Stoor-Grijte Drambsemennar og Offstopans af hans Leid, ecke med Lijkamlegum Verkfærum, helldur med Guds Orde, um hvört Paall skrifar, 2. Cor. 10. Ad Vopn Herfarar vorrar sieu ei Lijkamleg, helldur kroptug fyrer Gude, nidurbriotande Hugrenningarnar, og allar Hæder, sem ad upphefiast aa moote Guds Þeckingu: Eñ hvoriar munu þær Hæder vera? Þad eru, medal annara, Fioll Drambsemennar; Þvi eckert mootstrijder sannre Guds Þeckingu meir, enn Þeckingarleyse sijns eigenn Overdugleika, sem er Moodir Drambsemennar. Þvi segier Rodd Hroopandans, ad aller Daler skule upphefiast og öll Fioll og Haalsar nidurþrickiast. Hvad er þad annad enn þad, sem Guds Mooder sijngur i Lof-Kvædenu, Luc. 1. Dramblaatum hrinder hann af Stoole, enn upphoof Lijtelaata: Og þott ad þesse Hroopandans Rodd spaae sier i lage um Guds Naad i Evangelio, og Lagfæring allra Hluta fyrer Christum, Hvörrar Frumkvodull Johannes var, þa maa eg þad vel heimfæra uppaa þetta Efne, Þvi Faatækum, þad er, Andlega Voludum, og Audmiwkum i Hiarta, verda Gudspiollenn bodud, og þad ecke sijdst vegna þeirra Orda, er hier standa skoñu sijdar i þessum 40. Cap. Esaiæ, aa þennann Haatt: Þar er Ein Rodd sem segier: Predika þu! Og eg sagde: Hvad skal eg predika? Allt Holld er Hey, og allt þess Agiæte so sem Bloom Akursins: Grased uppþornar og Bloomstred fellur af, þaa Ande DRottenns blæs aa þad: jaa, Foolked er Hey. Hvar er þa, segied mier, hvar er þa allt vort Atgiorfe? og allt þad Menn dramba af i Hemenum? Er þad Audur og Rijkdoomur? Fallvallt er þad, og giörer margann vondann, þad aflast med Ahyggiu, enn tapast med Sorg. Og nema Menn giöre so sem Jacob bijdur þeim Rijku, Cap. 1. Ad hroosa sier i sinne Lægingu, þa er þad Volædenu verra. Er þad Metord og Virdingar? Enn David segier, Madurenn blijfe þo ecke leinge i Heidrenum, Ps. 49. og Þrældoomur eru þau Reyndar. Er þad gøfugt Forelldre og Affspreinge? Enn vier erum þo aller af Adam komner: Hann var Utlage Guds wr Paradijs: Fyrer hvoria Sok, er oss alkunnugt, Gen. 3. Fegurd og Pryde Lijkamans? Þad er fallvallt, Þvi Bloomstrid fellur af, segier Esajas, 40. Cap. Eirn Siukdoomur fær þvi öllu umbreitt: Þvi þegar þu typtar, DRottenn, þa folnar öll þeirra Fegurd, Ps. 39. Fagur Bwnadur og skrautþeg Klæde? Þad sagde eirn af þeim Gomlu, ad være eins og ef Pioofurenn stærde sig af Snörunne. Proottur og Styrkleike Lijkamans? Enn Hesturenn er enn þa sterkare, Þvi skilldu Menn þa ecke hann virda? Enn hinn Almaattuge hefur ei Lyst aa Styrkleika Hestsins, edur aa Footleggium Mannsins. Hiaa DRottne eru þeir aller velþockader, sem

hann Ottast og til hanns Myskunar vona, Ps. 147. Hvad er þa framar, sem Madurinn kunni so ad metnast af? Kunnatta og Vijsdoomur er mest tignad i Heiminum, og er hin agiætasta Guds Giof, enn so er hann bestur, ad hann sie med Guds Otta kriddadur; þad vottar St. Jacob, Seigiandi: Ef nockur er vijs, edur med Skynsemi gaafadur medal ydar, þa auglijse hann Verk sijn, i goodri Umgeingni, med skynsamlegu Hooglæti, Cap. 3. Og, hvad eru aller vorir Vitsmunir fyrir utann þetta? Paall seigir, ad þeir sieu Haalfverk, 1. Cor. 13. Og hvad meira er, ad þeir eru einskis verdir, og jafnvel skadleigir, nema þeim Guds Otti og Kiærleikurenn fylgi. Þvi seigir Postulinn enn aftur: 1. Cor. 8. Ef einhvor þykist nockud vita, þa veit hann þo enn nu eckert, so sem vita byriar, Eñ ef nockur Gud elskar, hañ er fæddur af honum. Og þoott ad Skynseminn og Vitsmunirnir sieu ein sw hin besta Guds Gaafa, er hanns Giædska hefur sæmt oss med, þa verdur henni med Drambseminni so spillt, ad hun verdur Oviti argari; þvi seigir Paulus, 1. Cor. 3. Eingiñ villi siaalfann sig, Ef nockur þykist vitur vera medal ydar i Olld þessari, hann verdi heimskur, so hann vitur verdi. Þar skilst mier Postuliñ meini, ad hann skuli giæta ad, hvad lijtid hann veit, so hañ stæri sig ecki, þvi Skynsemi Veralldar þessarar, seigir hann, er Heimska hiaa Gudi, 1. Cor. 3. Nu þo ad allar þessar Guds Gaafur sieu harla goodar, ef þær eru riett brwkadar, þa er samt þess ad giæta, ad þad er ecki vort eigid, og hann aa friaalst, sem þad allt lienti, ad taka þad fraa oss, aa hvorium Tijma, sem vier þad vanbrwkum. Af ollu þessu siaaum vier, hvad lijtid ad þad sie, er daudlegir Meñ brwka til Stærillætis, giætandi ecki þess, ad Virdingeñ elltir þann, sem hana flijr, enn flijr fyrir þeim hana elltir, ef ei annarstadar, þa hiaa Gudi. Postuliñ seigir Gal. 6. Ef nockur þykist vera nockud, þar hann er þo eckert, hañ villir sitt Hiarta; Eñ ef vier eckert erum, þvi vilia Meñ þa krefia þess, so sem annarrar Vitaskulldar, ad vier sieum virdtir af Moñum. Eigi segie eg þad, ad þeim skuli ei Heidur veita, er Heidur heyrer, Rom. 13. þvi þad er Guds Bod. Hitt seige eg, ad þeir sem vid eiga ad taka, skule ecke una þvi Illa, þoott af slijku meige bera aa stundum, þvi saa sem jaatar fyrer Gude, þad hann eckert sie i hanns Auglite, og þad af Alvoru og Hræsnislaust, þa sie eg ecki ad hann þurfi meir ad syrgia fyrir Virdingu siñi, helldur eñ hiñ, sem ecki er eñ nu fæddur. Hiaa oss er eckert gott, þvi skylldum vier stæra oss? Hiaa oss er margt illt, þvi skylldum vier ei skamast vor? Oss kann margtillt til ad falla, þvi skylldum vier ecki jafnann hrædder vera? Oss kann siaalfa margt illt ad henda, þvi skylldum vier ecki jafnvel hrædast oss siaalfa, og leggia af ad forlaata oss uppaa þad sem eckert er? Ef vier jaatum þad fyrir odrum, ad vier eckert sieum, og meinum þad ecki, þa svijkium vier adra. Eñ ef vier meinum þad og þeckium þad, sem vier vel meigum meina og þeckia, enn hegdum oss ecki þar eftir, þa svijkium vier siaalfa oss. Gud saa sem er allt i ollu, 1. Cor. 15. Hann lijtilæckadi sig þinna vegna, Syndugur Madur, og þu sem ecki ert neitt i neinu, villt ecki briioota Odd af Oflæti þijnu hanns vegna; Gud, sege eg enn nu, lijtilæckadi sig til ad verda Madur, enn Madurinn vill þo ecki lijtilæcka sig til þess, ad verda einn And

med Gudi. Þess meir sem þu audvyrdir þig fyrir Gudi, þess meiri verdur hann i þier, og þess stærri sem hann i þier verdur, þess verdur þu stærri i honum, þvi Gud mootstendur Drambláatum, eñ Lijtilaatum giefur hann Naad, seigir Jacob, Cap. 4. Og hvad hellst sem stoort edur ágiætt kallast, þad er alleina stoort og ágiætt i Gudi, og, fyrir utann hann, alldeilis eckert: Hvar fyrir Paall seigir: Hvor hañ hroosar sier, hañ hroosi sier i DRottni, 2. Cor. 11. Þar fyrir, nær sa Guds Madur hefur upptalid allt þad, er adrir reiknudu sier til Gyldis, sem er, ad hann væri Hebreskur eins og þeir, Israels Madur eins og þeir, Abrahams Sædi eins og þeir, Christs Þienari eñ framar enn þeir, Hann hafe erfidad meir enn þeir, optar i Hááska vered enn þeir, þa endar hann med þessu Atkvæde: Ef hroosa skal, þa vil eg hroosa af þeim Hlutum, er Veikleika mijnum vidkoma, 2. Cor. 11. Og enn framar segier hann. Cap. 12. Eg mun miklu fegnastur hroosa mier af Veikleikanum, so ad Mattur DRottenns bwe i mier, þar fyrer em eg vel til Frids i Veikleikanum, i Forsmáánenne, i Naudunum, i Offsooknunum, i Angistenne fyrir Christum, þvi þa eg er veikur, þa er eg Maattugur. So er þar nu eingenn Rijkdoomur, einginn Styrkleiki, eingenn Heidur, eingenn Fegurd, eingenn Skynseme, eingenn Maattur, einginn Dijrd, eingenn Prijde nema i Gude alleina, og eckert þad Meñ kunne ad vegsamast fyrir, nema einsömul og hræsnislaus Audmijkt fyrer honum. Þvi vil eg enda þetta mitt Tal til ydar, Guds Born, med Pauls Ordum, af Pistlinum til Gal. 6. Þad verdi mier ecki, ad eg hroosi mier, nema af Krossi DRottins vors JEsu Christi, fyrir hvorn mier er Heimurinn Krossfestur, og eg Heiminum. Honum DRottni JEsu, med Fødur og Heiløgum Anda, Einum og Þrennum Odaudlegum Konungi, og alleina Rijkum, sie Lof og Heidur, Kraftur og Styrkleiki, Æra og Vegsemd, sögd og sungin, af øllum Tungum Eingla og Manna, nu hiedann i fraa og ad Eilijfu, AMEN.

# A Joola=Dagiñ.

Gudspiallid, Luc. 2. Cap.

Það Tijma. Og þad bar til aa þeim Døgum, ad þad Bod gieck wt fraa Keysaranum Augusto, þad Heimureñ allur skyllde Skattskrifast. (Þesse Skattskrift hoofst fyrst upp þa Cyrenius var Landstioornare i Syria) Og þeir fooru aller ad laata Skattskrifa sig, hvor til siñar Borgar. Þa foor og Joseph af Galilæa, wr Borgiñi Nazareth, upp i Judæam, til Davids Borgar Bethlehem, af þvi ad hann var af Hwsi og Kyni Davids, so ad hann lieti Skattskrifa sig þar, med Mariu siñi Festar=Konu Oliettri. Enn þad skiedi so, þa er þau voru þar, ad þeir Dagar fullnudust, ad hun skylldi fæda, og hun fæddi siñ Frumgietinn Son, og vafdi hañ i

Reif=

Reifum, og lagde hañ nidur i Jotuna, þviad hun fieck eckert añad Rwm i Giesta-Herbergenu. Og Fiaar-Hyrdarar voru þar i sama Bygdarlage um Grandana vid Fiaar-Hwſeñ, sem geymdu og vöktu yfer Hiørd ſiñe uñ Noottena. Og ſiaa þu! Þad Eingell DRottens ſtood hiaa þeim, og Guds Byrte liomade i kringum þaa, og þeir urdu miøg Ottaſlegner. Og Eingelleñ ſagde til þeirra: Hyrded þier ecke ad hrædaſt. Siaaed, Eg boda ydur mikeñ Fognud, þañ er ſkier øllu Foolke, þviad i Dag er ydur Lauſnareñ fæddur, Sa ad er Chriſtur DRotteñ i Borgeñe Davids. Og hafed þad til Merkis, ad þier munud fiña Barned i Reifum vafed, og lagt vera i Jotuna. Og jafnſnart þa var þar hiaa Einglenum mikell Fiolde Himneſkra Herſveita, sem lofudu Gud og ſøgdu: Dijrd ſie Gude i Upphædum, og Fridur aa Jordu, og Møñum goodur Ville!

## Exordium.

SKielfeleg Ognan munde Veſolu Mannkyne hafa ſtaded af þvi hrædelega Straffe, med hveriu hinn Riettlaate Gud fargadi hinne Vantrwudu Verolld aa Døgum Noe, nema hanns Giædſka hefde giort Saattmaala vid Mannkyned, ad hann framar ecke villde Eydeleggia Jørdena med Vatns-Floodenu, og, þeſſu til Merkis, ſett Bogann i Skijenn, Seigiandi: Þegar þeſſe Boge verdur i Skijenu, þa vil eg minnaſt aa Saattmaalann aa mille Guds og allra lifandi Skiepna, af øllu Hollde aa Jordunne, Gen. 9. Med þeſſum Hætte lijſte hinn Naaduge Gud Fride yfer Jørdunne og þeim þar inne bwa. Og er þad vijſt, ad hann hefur lited under eins til þeirra, sem aa hanns Eingietens Sonar Nafn trwa mundu. Flærre ſie þvi, ad Regn-Bogenn kynne þvi ad vallda, ad Gud yrde Mannenum Naadugur, ei helldur þurfte hann ad laata minna ſig aa þad hann giøra villde, jafnvel þoott Ritningenn ſo tale ad Manna Plagſid; Aller Hluter eru opner og nakter fyrer hønum, Hebr. 4. Enn þar JEſus ſitur til hañs Hægre Handar, og hann ſier þar Liooma ſiñar Dijrdar og Jmynd ſinnar Guddoomlegrar Perſoonu, Hebr. 1. voru Hollde Jklædda, og bidiandi fyrer oſs; þa maa hann ei annars enn minnaſt ſinna miklu Myſkunſemda, sem vered hafa i fraa Upphafe, ſijdann hann lofade ad Kvinnunnar Sæde ſkyllde ſundur mola Høggormſins Høfud, Gen. 3. Bid þier eins Teikns af DRottne þijnum Gude, ſagde DRottenn til Achas, hvort helldur þad er nidre i Under-Diwpunum edur aa Hædum uppe: Enn hann ſagde: Ei vil eg þeſs bidia, ſo eg freiſte ecke DRottenns; Þa ſagde Spaamadurenn: So heyred þier þa af Hwſe Davids; Hvort er þad Oflijted, ad þier þiaaed Mennena, þad þier eirnenn vilied aangra minn Gud? Fyrer þvi mun DRottenn ſiaalfur giefa ydur eitt Teikn; Siaa þu! Ein Jomfrw mun Barn gieta, og eirn Son Fæda, og hann mun

hun kalla Immanuel, Esa. 7. Þetta er Teikn hiins mikla Guds og DRottenns vors JEsu Christi; hvor ad er Eingell Saattmaalans aa millum Guds og Manna, Mal. 3. Hann er ollum til Merkis settur, ecke i Skijum Himens, helldur fæddur af eirnre Jomfrw, aa medal vor hier aa Jordunne; til Stadfestu þar umm, ad þeir faae aller Kvittun Syndanna, sem aa hanns Nafn trwa, Act. 10. Sæl eru þau Augu, er siaa hvad þier siaaed, sagde Endurlausnarenn vid sijna Lærefveina, Luc. 10. Enn ecke talade hann alleina umm þad, ad lijta sig og heyra med wtvortis Skilningarvitum; Marger saau hann og hneixluduſt aa honum, þeir saau hann, og þar var eckert gyrnelegt aa honum, Esa. 53. Þeir saau hann og byrgdu fyrer Siooner honum, Luc. 22. Þeir saau hann og hræktu i hanns Andlit, Matth. 26. Þeir saau hann, og saau under eins sijna Villd aa honum. Enn so sem Gud sette sinn Boga i Skijenn til þess, ad hann være Naadar-Teikn ollum Monnum; og hefur hann þo siaalfum sier geimt ad straffa þeirra Ogudlegt Framferde, sem hanns Naad forsmaadu; So hafa þeir marger sied Christi Þioons Mynd hier i Naadenni, er siaa munu hann Reidann og Ognarlegann, þegar hann kiemur i Skijum Himins med Makt og miklu Velldi, Luc. 21. Enn ef vier vilium vita, umm hvoria Sioon hann talar, þa heyrum hvad hann sagdi vid Thomas Postula, Joh. 20. Af þvi þu saaſt mig, Thoma, þa trwdir þu; Enn Sælir eru þeir sem ecki siaa, og trwa þo. Þad er ad siaa JEsum Christum Guds og Mariu Son, voru Holldi klæddann, med Augum hinns innra Manns, oss til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Saaluhiaalpar giefinn, 1. Cor. 1. Oss, seigi eg, sem ad i Syndinni erum gietnir, og i Syndinni fæddir, Ps. 51. Reidinnar Born, Eph. 2. Og Guds Ovinir af Naatturunni, Rom. 5. Þessi Dijrdarfulla Sioon verdur ydur og ollu Mannkyni frambodinn i Lof-Saung Heilagra Guds Eingla, þar þeir sijngia: FRidur A Jordu, og Monnum Goodur Vilie!

Og vilium vier aa þessum Haatijdis Deigi, þessi H. Ord nockud gior yfirvega, og af þeim Hugleida, hvorsu Gledilegur ad þessi Fridur sie, og hvorninn vier eigum honum ad taka.

Til þessa Eyrindis Framkvæmdar virdiſt ad hiaalpa oss vor Nijfæddi Immanuel, fyrir Kraft sinnar Forþienuſtu, AMEN.

## Utleggingin.

HVad mun þvi vallda, Brædur mijner, ad hiner Himnesku Andar eru so glader a Fædingar-Noottu Mannkynsins Endurlausnara? Ecke þurftu þeir Frelsis vid, þvi þeir hofdu ecke syndgad. JEsus hafdi Abrahams, og ecke Einglanna, Sædi uppaa sig teked, Hebr. 2. Hvad mun þa vallda Gladværd þessare? Guds Sonur er ad sonnu þeirra HErra, eirnenn epter Manndoomenum: Hefde hann beded sinn Fodur, þegar hann var i sinni meſtu Angiſt staddur vor vegna, þa mundi hann hafa giefed honum meir enn Toolf Legion Eingla, Matth. 26. Einglar komu og þioonudu honum, þa hann var hart nær yfirgefinn, og so, ad segia, Andskotanum Ofurselldur, þad hann freiſtadur yrdi Matth. 4. Fyrer þvi var þad ecke ad undra, þoott þeir gladſt hefdu, ef hinum Nijfædda

Syne

Synie Guds hefde nockur Heidur edur Upphefd hlotnast? Enn þad maatti ecki so kalla, þvi Paulus talar so hier um. Phil. 2. Ad hañ hafe sijtilæckad sialfann sig, takandi a sig Þioons Mynd, og ordenn Monnum lijkur. Þad Fyrsta hann fær þessa vesæla Heims Lifos, var hann lagdur i Eirn Stall, Luc. 2. Og skomu þar epter vard hann Landflootta, Matth. 2. Og um allar sijnar Æfi-Stundir hafdi hann ecki, þar hann kynni Hofdi sijnu ad halla ad, Matth. 8. Þvi sijnist so sem ad hanns Kiorum væri ecki so miog ad sagna i þetta Sinn. Hvad þa, Brædur mijnir? Vier vitum, eftir St. Pauls Muñi, ad Einglarnir eru þioonustusamir Andar, wtsendir þeim til Þioonkunar, er Saaluhiaalpena erfa skulu, Hebr. 1. Og þoott ad vier sieum vesælir og syndugir, þa er þo meiri Gledi hiaa þeim i Himmenum, yfer einum Syndugum, sem Ydran giorir, helldur enn yfir Niju og Nijutiju Riettlaatum, Luc. 15. Þar af er audsiert, ad þessar Guds Herþveitir hafa so tekid Ækjoostrl vid oss auma Menn, þoott vier sieum þeim ad ollum Edlishaattum Olijkir, ad þeir glediast yfir sierhvoriu þvi Happi, er nockur af oss hlijtur; Enn ef þeir so glediast yfer allre Giæfu vorre, Þvi mundu þeir þa ecki, Veniu framar, lijsa þessum Fognudi, þegar oss aa Nætur-Tijma upprann su Sool, er alldrei hefur nockur fegre yfer Heiminn skined, Og þegar oss su Heill ad Hondum kom, Af hvorre allra Guds Barna, Rijkra og Faatækra, Hærri og Lægre Stiettar, Naalægra og Fiarlægra, Fæddra og Ofæddra, Tijmanleg og eillijf Heill og Hamingia uppsprettur og framflijtur. Þess gietur Johannes, Cap. 1. Er hann seigier: Ad af hanns Fyllingu hofum vier aller medteked Naad fyrer Naad: Þar fyrer Liosmar hin Guddoomlega Byrte i kringum Hyrdarana, So sem Vitnandi þar um, ad hann væri i Heiminn borenn, Sem ad er Lioomi Fodursins Dijrdar, Og Ymind hanns Guddoomlegrar Persoonu, Hebr. 1. Fraa hvorium Liosanna Fodur ad oll Good Giof, Og oll Fullkomenn Giof kiemur. Jacob. 1. Hvorium og þocknast hefur, Ad i sijnum Syne skule oll Fylling bwa, Col. 1. Jaa sialf Guddoomsins Fylling, hvor ed bygger i honum Lijkamlega. Col. 2. Þad er i hanns Blessudum Manndoome, er hann af voru Hollde og Bloode hefur uppaa sig teked, og giort Hluttakande Guddoomlegrar Naatturu. Æ! oss auma og syndüga Menn! Vier siaaum ecke, fyrer Blindu Holldsins, hvad miked oss veitt er i JEsu Holldtekiu, Myrkur vors Skilnings fær þad ecke hondlad, so sem þad er. Enn Guds H. Einglum, er jafnann standa frame fyrer honum, Matth. 18. Þeim er alkunnug Sælu, er ollum Guds Bornum er tilbwenn, hvorri vier tapad hofdum i Adams Falle; þeim eru og ecke Okunnugar Pijsler Forþæmdra, er kveliast munu i Augsyn Heilagra Eingla, seger Johannes i hanns Opennberingum, Cap. 14. Þvi er ecke ad undra, þo Einglarner fagne, þar hinn Annar Adam, sem er DRottenn af Himnum, 1. Cor. 15. var i Heimenn borenn, til ad frelsa oss fraa ollum þeim Oskopum, þvi þeir elska Mannkynid, enn vissu, ad i JEsu Fædingu var Monnunum giefeñ sæ Kostur, ad forlijkast vid Gud, og setter verda i hanns Sonar Rijke, Col. 1. Nu er þad vijst ad sonnu, ad vier ecke ad fullu þeckium hvad vier mist hofum, edur hvor Olucka oss bwenn være, nema Guds

Sonur være i Heimenn komenn synduga Menn Saxluhoolpna ad giora, 1. Tim. 1. Enn þo mættum vier ad so miklu Leite þeckia vort Andlegt Volædi, og so miked hefur oss sagt vered af hinne Eilijfu Dijrdar-Vist i Himnarijke, ad ef vier legdum nockurn Hug aa vort Maal, þa mundum vier Allshugar fegner verda, ad vier hofum hana aptur feinged, og rooa ollum Arum ad þvi, ad vier sleptum henne ecke aptur ad niju. Eg hefe noog sagt hier um, þegar eg sege þad med Ordum Esajæ, hvoriu Synder vorar til Leidar koma: Ydar Synder, seger hann, skilia aa millum Guds og ydar, og ydar Ranglætingar vallda þvi, ad hann byrger sitt Andlit fyrer ydur, og vill ydur ecke Bænheyra, Esa. 59. Nu vitum vier þad, ad vier lifum ecke Eina Stund aan Syndar. Heyred hvad David Konungur talar um allt Holld, Ps. 14. Ps. 5. og 10. og 36. Salomon, Prov. 1 Esajas, 59. Þar er eingenn Riettlaatur, og ecke Eirn, þar er eingenn Skyniande, og eingenn saa ad Gude leite: Aller hafa þeir afviked, aller til samans eru þeir Onijter ordner, þar er eingenn saa ed Gott giore, og ecke Eirn.

Nu seiger Paall, er hann fører þesse Ord til sijns Maals, Rom. 3. Nu vitum vier ad hvad sem Logmaaled seiger, þad seiger þad þeim, sem under Logmaalenu eru, so ad aller Munnar verde tilbyrgder, og allur Heimurenn Sakfallenn vid Gud. Enn ef Guds Sonur være ecke i Heimenn komenn til ad frida fyrer oss, þa værum vier aller under Logmaalenn, og enn þa i vorum Syndum; Þviad Logmaaled er fyrer Moysen utgiefed, enn Naad og Sannleike er skien fyrer JEsum Christum, sagde Baptista, þegar hann hoof Christne-Boded, Joh 1. So adskilia nu Synder vorar aa mille Guds og vor. Seiged mier þa, er þad ecke mikellrar Gledeog Fagnadar vert, ad hann er oss i Heimenn borenn, sem heiter Immanuel, Esa. 7. Þad er, Gud med oss? I hvors Nafne hinn Naaduge Gud hefur til sinnar Christne talad, þad er, til allra þeirra, sem aa hanns Nafn trwa, Esa. 54. Þoott ad Fioll þesse hverfe aa Bak aptur, og þesser Haalsar ur Stad hræres, þa skal mijn Giædska ecke fraa þier vijkia, og Sattmaale mijns Fridar ecke vid þig skilia, seiger DRottenn þinn Myskunare. O hvorsu Gledelegt er þetta, þegar eirn faraadur Syndare, hvors Samvitska vitnar aa moote honum, ad hann hafe eckert annad enn Daudann forþienad, þegar hann, seige eg, hupar til þeirrar Ognarlegu Tijdar, nær Konungar Jardarennar og Hofdingiarner, og hiner Rijku og hiner Vollduga, seigia til Fiallanna og til Biarganna, falled yfer oss, og hylied oss fyrer Auglite hanns sem i Haasætenu situr, og fyrer Reide Lambsins, Apoc. 6. Þess er og ad giæta, Brædur mijner, hvor hann er, sem ad vier vorum missaatter vid. Ofridurenn er ad þvi Leite hrædelegur, sem hann er Volldugur til, sem heriar aa Landed. Hvor er saa Konungur, er hann fører Hernad moote odrum Konunge, ad hann eige setie sig nidur og Raadslage, hvort hann giete med Tiju Þusundum mætt honum, sem med Tuttugu Þusund kiemur aa moote honum? sagde DRottenn vid Lærisveinana, Luc. 14. til ad sijna þeim hvor ad være Munur Guds og Manna. Munum vier gieta svarad hinum Riettlaata Gude Einu aa moote Þusund, ef hann vill i Doom vid oss ganga? Job. 9. Hann er HErrann, vier erum Þrælarner, hann hefur skapad oss,

vier vanskopum oss Daglega, hann hefur oss allt gott giört, vier giorum allt Illt aa moote honum. Hann vegur Fiöllenn aa Vigt, og Haalsana med sijnum minnsta Fijngre, Esa. 40. Vier megnum ecke ad giora eitt svart Haar hvijtt aa voru Höfdi, Matth. 5. Hiaa honum er eingenn Umbreiting edur Mynd til Umbreitingar, Jac. 1. Vier erum eins Vatns-Boola, vier megnum ecke hinum minnsta Vesalingi hid minnsta Mein ad vinna, aan hanns Vilia; Hann hefur Valld til ad kasta Lijfi og Saalu i Eilijfann Elld, Matth. 10. Hvör vill faa stadist, nær slijkur HErra er reidur? Hvörsu Fagnadarsæll er þa Bodskapur þessi, ad vier Fridkeyptir erum, og i Saatt komner vid hann, sem allt Valld hefur bæde aa Himne og Jördu? Matth. 28. Og ef vier vilium gaanga nær og skoda, hvör ad sie Mismunur Lögmaalsins, sem fyrer Moysen er giefed, Joh. 1. og Evangelii, sem Christur hefur fært oss wr Skaute Födursins, þa er þad i mörgum Hlutum audsied: Lögmaaled var med stoorre Ognan og Reidarþrumum wtgiefed: Ef ad jafnvel eitt Kvikinde snerter Fialls-Ræturnar, sagde Gud, Exod. 19. þa skal þad Dauda deya. Hid fyrsta Nija Testamentesins Evangelium, er med Lof-Saung Heilagra Eingla bodad, og almennelegu Fridar-Bode yferlijst. Allt Fialled Sinai skalf og titrade af Guds Ognan, Þar sauust Leiptraner og Elldingar, so ad Moyses, sem var hinn meste Fullhuge, og so var kunnugur Gude, ad hann talade vid hann eins og Madur vid Mann talar, Exod. 33. Hann sagde: Eg em hræddur og skiaalfande, hvad Paulus tiltekur til Dæmis um þesse stooru Undur, Ebr. 12. Enn hier lioomar Guds Byrte i kringum Hyrdarana. Og Eingellenn segier vid þessa Vesælings Smala Menn: Otteist Ecki, Þviad I Dag Er Ydur Lausnarenn Fæddur, Sa Ad Er Christur DRottenn I Borgenne Davids. Menn hallda ad Einglarner hafe geinged aa mille Guds og Moysen, til ad afhenda honum Lögmaaled, edа ad vijsu aa einhvörn Haatt þioonad ad þessu, þad segier Stephanus, hinn Fyrste Pijslarvottur Guds, nærre med berum Ordum Tvisvar sinnum, Act. 7. Þad stadfester St. Paall, Gal. 3. og Hebr. 2. Enn ei heyrest ad þeir hafe þa blijdlega til hanns talad, sem ei var Von, þvi Lögmaaled verkar Reide, Rom. 4. Og er vegna Ifertrodslunnar wtgiefed, Gal. 3. Eg vil ecke faa nu hier til Orda þær grimmu Hootaner, er Lögmaalenu fylgia. Ef þu hlijder ecke Raustenne DRottenns Guds þijns, segier Moyses, Devt. 28. Þa skulu allar þessar Bölvaner koma yfer þig og höndla þig: Bölvadur skalltu i Borgenne vera, bölvadur aa Akrenum, bölvud skal þijn Hyrdsla vera, hvar þijnar Afgaangs Leifar eru, og bölvadur skal þinn Lijfsens Avöxtur vera, þinn Jardar Avöxtur og þinna Sauda, bölvadur skalltu vera nær þu geingur inn, bölvadur nær þu wtgeingur; med ödru fleira, og allre þeirre Olucku er Lögmaalsins Ifertrodsla steyper yfer syndugar Manneskiur og hrædelegt er upp ad telia. O! hvörsu er þad Olijkt honum, er sagdi: Komed til mijn aller þier sem Erfide drijged og Þvinga erud þiaader, Eg vil Endurnæra ydur, Matth. 11. Hann medtook Tollheimtu-Menn og Bersynduga, aat og drack med þeim, Luc. 15. Til ad aavinna þaa til Guds Rijkis, þolde Bryxle og Amæle vondra Manna, þeirra vegna. Hann ed sagde vid hina Bersyndugu Hoor-Konu:

 Hef-

Hafi einginn fordæmt þig, so fordæmi eg þig ecki helldur, gack burt og syndga ecki framar, Joh. 8. So ad þad maa satt jaata, ad hinn Naadugi Gud hefur ecki um̃ Skor fram̃ spaad um̃ sinn Eingietin̄ Son, Es. 42:. Siaa min̄ Þioon, þan̄ er eg an̄ast, og min̄ hinn Utvaldi, aa hvorium eg hefi Velþocknan, eg hefi honum min̄ Anda giefid, hann mun Doominn wtflytia medal heidin̄a Þiooda, hann mun hvorki kalla nie hroopa, og hanns Raust mun ecki heyrast aa Strætunum, þann braakada Reyr-Legg mun han̄ ecki i sundur brioota, og þann Lijtt-logandi Hor-Kveik mun hann ecki wtsløckva, hann mun kienna ad hallda Doominn med Sannleikanum, hann mun ecki Moglunarsamur nie hrædilegur vera, so ad hann aa Jordu Doomin̄ uppbyrie, og Eyarnar munu eftir han̄s Løgmaali vænta. Þegar þier nu þetta hvorutveggia samann berid, Brædur mijnir, og ef þier þykist nockru vid Gud seker vera, þa er lijklegt ad þier munud finna til i Hiarta ydar, hvorsu gledeleg ad sie JEsu Fæding. Gydingum var Fognudur þesse allra fyrst bodadur, so sem Von var til, so ad Spaadoomarner yrdu uppfyllder: þess gieta þeir St. Paall og Barnabas, Act. 13. er þeir søgdu vid þaa; Til ydar byriade fyrst ad tala Guds Ord: enn vær adrer høfum þess sijdann noted: Þar fyrer spaaer Esajas so um Jerusalem: Myrkred mun hylia Jordena, og Dim̃annt Þioodernar, Esa: 60. Enn DRottenn mun upprenna yfer þier, og hanns Dyrd mun siaast yfer þier, og Heidingiarner munu gaanga i þijnu Lioose. Þvi lijser Eingellenn i Samtalenu vid Hyrdarana, þar hann segier: Eg Boda Idur Mikenn Fagnud, Þann Er Skier Ollu Foolke. Hier er ecke Gydingur nie Griskur edur Schyta, ecke Þræll edur Frelsinge, Gal. 3. Helldur aller eitt i Christo JEsu, Col. 3. Epter hanns Løgmaale munu Eyarnar vona, segier Esajas, C. 42. Þad eru, heidnar Þiooder; So plagar Ritningenn þær optlega ad kalla. Þetta meigum vier bæde ad Raun og Nafne tileinka oss, sem byggium Hoolma þennann: Ad sønnu hefur Guds eilijf Fyrerhyggia skoted oss wt under hid ytsta Heimsins Skaut, kannskie og ad morgum þykia meige, ad vier høfum Var-Hluta fared af margre Fullsælu Heimsins, enn þar aa moote høfum vier ecke ad segia af margre þeirre Olucku og Andstreyme, sem annarstadar i Heimenum plaagar synduga Menn, svo vier erum skyllduger ad vidurkienna, ad Gud hefur vel til vor giort, ef vier kynnum med ad fara. Enn hvornenn sem þessu er vared, þa hefur hann ecke giort oss Afskipta af Andlegum Hlutum, sem mest aa rijdur.

Stutt Stund er þad, ad vier eigum vid þetta Tijmannlega ad bwa, hvort helldur oss geingur med edur moot, Enn eins vel er oss JEsu Blessud Tilkoma i Hollded boðud og ødrum, eins vel hanns Pijna og Daude, eins vel hanns Upprisa, eins vel hanns Uppstigning, eins vel Utsending hinns Heilaga Anda; aa eingu af þessu høfum vier nockurn Skort, helldur enn hver onnur Þiood i Heimenum, og, ef eg maa segia, þa erum vier betur hier med forsorgader, enn marger, þvi høfum vier aungvu sijdur Ordsok til ad fagna og Lof syngia hinum gooda Gude i Hiørtum vorum, Col. 3. helldur enn allur Heimurenn: Jaa, øll Guds Christne, hvar hellst sem hun er i Heimenum, hun maa jaata þad satt ad vera, er Paulus segier, Eph. 2. um̃ Heidingiana: Nu eru þier i

JEsu

JEsu Christo, sem ædur fiærri voruþ nálægir ordnir, fyrir Bloodid Christi, þvi hann er vor Fridur, hann sem giorir eitt af bædum, og Gyrdingu Midveggiarins hefur nidurbrotid. J kriingum Jerusalems Musteri var eirn Stein-Veggur, þangad leifdist Heidingium ad koma, enn ecki leingra, so ad Pioonustugiordinn ecki saurgud yrdi af Oumskornum Monnum, og til þessa lijtur Postulin i þessum Ordum. En sijdann Guds Sonur er i Heiminn borin, þa er i Christo hvorki Umskurn nie Yserhwd, Gal. 5. Þvi seigir og Paulus aftur: Ad hann afmæd hafi Logmæl Bodordana, sem var innifalid i Setningunum, fyrir sitt Holld, so hann giordi i sialfum sier Tvo ad Einum nijum Manni, og giordi Frid, Eph. 2. Þetta er, medal annars, sa Fridur, er Einglarnir boda, Fridur millum Guds og Manna, þvi Gud er Madur ordinn, Fridur millum Himins og Jardar, þvi Gud hefur i Christo alla Hluti forlijkad vid sig, (semiandi Frid fyrir Bloodid hans Kross) hvort helldur þeir eru a Jordu edur a Himne, Col. 1. Fridur vid hellaga Guds Eingla, hvorra Samneyti vier hofdum af oss brotid: Þvi seigir Paulus, ad vier sieum komnir til Fiallsins Zion, og til Borgar Guds lifanda, Jerusalem hinnar Himnesku, og til margra Þusunda Einglanna, Hebr. 12. Fridur a millum Gydinga og Heidingia, þvi þad er i JEsu blessadri Hijngadkomu framkomid sem DRottinn spaair, Zach. 8. Seigiandi: A þeim Dogum skulu Tiju Menn (þad eru marger) af ollum Pioodum og Tungumælum, þrijfa i Klædafaiid Gydingsins, segiande: Vier vilium med ydur fara, þvi vier heyrum Gud er med ydur. Þesse er Immanuel, hvor ed fyrst var sendur til Fortapadra Sauda af Hwse Israels, Matth. 15. enn hafde þo adra Saude, er ecke voru af þvi Sauda-Hwse, er honum byriade og þangad ad leida, Joh. 10. so þar yrde eitt Sauda-Hws og eirn Hyrder. O hvilijk Dijpt Audæfanna og Guds Speke! Hier mæ þad satt jæta, er Petur med stoorre Undran sagde fordum, Act. 10. er Gud sende hann til ad skijra Cornelium og þanns Heima-Foolk; Nu reyne eg i Sannleika, sagde hann, ad þar er eckert Manngreinar Alit hiaa Gude, helldur ad sierhvor eirn, af hvorre Piood sem hann er, sem hann Ottast, og fremur Riettvijsena, hann er honum þocknannlegur Act. 10. Þar fyrer syngia Guds Einglar hier i Lofkvædenu: OG MONNum GOODur VILie; Þad kallar Textenn Velþoocknan. Hvar munde þessa Velþocknan vera ad finna, Brædur mijner? Ecke hiaa vesolu Mannkyne, allra sijdst a þeim Dogum, þegar DRottenn kom til sinar Eygnar, og hun þeckte hann ecke; og kiemur þad hier fram sem Johannes segier, 1. Pist. 4. Cap. J þvi er Kiærleikuren foolgen, ecke ad vier elskudum Gud, helldur ad han elskade oss, og sende sinn Son, ad hann yrde Forlijkun fyrer vorar Synder. Þetta er ecke af Mannlegum Tilverknadi skied, þvi aan Christs er Madurenn Andstigd fyrer Gude, helldur fyrer hans Skulld, sem er hanns elskulegur Sonur, i hvorium honum alleina velþocknast, Matth. 3. Þess hafa hiner ad noted, hvorra Holld og Blood hann hefur uppaa sig teked, þvi eingenn hefur um Alldur sitt eiged Holld hatad, Eph. 5. Þarfyrer er ecke ad undra, þoott Gud hafe Velþocknan a þeim, hvoria hanns

Sonur skammast sijn ecke Brædur ad kalla, Heb.2. Og þar ad auke, fyrer Trwna á hañ, eru ordner eirn Ande med Gude, 1.Cor.6. Fyrer þvi samfagna nu Guds heilager Einglar syndugu Mannkyne, er so braadlega høfdu þesse gledelegu Umskipte feinged, ad verda Guds Børn af Satans Børnum, Leysingiar Christi af Syndarennar Þrælum, Guds Rijkis Erfingiar af Ørfum Fordæmingarennar, Einglunum samlijker og þeirra Samlags-Menn, af Lags-Moñum Dioflanna: Eñ so sem ad þeir Himnesku Andar fagna þessu so miøg, sem aadur er sagt, ad þeir boda Frid og Velþocknan Guds yfer Jørduñe, so fagna og Christi Læresveinar, og þad Foolked er hønum fylgde inn til Jerusalem, þar af, ad Fridur er i Himnenum ordenn: þar um skrifar so Lucas C.19. Og allur Fiølde Læresveinaña tooku til ad lofa Gud med Fognude og haarre Rødu, fyrer allar þær Jardteikner er þeir sied høfdu, segiande: Blessadur sie saa sem kiemur i Nafne DRottenns, Fridur aa Himne og Dijrd i Upphædum. Merk þetta vel, Christenn Madur! Hiñ naaduge Gud hefur laated Fridar-Bod gaanga um alla Verølldena, og lagt sijnum Postulum uppaa, ad auglijsa Forlijkun þessa, 1.Cor.15. Hvar fyrer þeirra Hlioomur er wtgeingeñ um alla Heims-Bygdena, Rom.10. Enn Gud naade! hvad farer þeir eru sem vilia fallast aa þau Raad, ad miñast vid Soneñ, so hañ verde oss ecke reidur, Ps.2. Gud hefur laated boda Frid aa Jørdu; Laat þier vera añt um, Christenn Madur, ad verda þess fullørugGur, ad þar sie og Fridur fyrer þig i Himnenum. Aller JEsu Christi Velgiørningar eru i hanns Fædingu øllum bodner, eirnenn þeim sem Foot-troda Guds Son, og Saattmaalans Blood almennelegt hallda, med hvøriu Syndarenn er þo helgadur, Hebr.10. Gud er ad sønnu Frelsare allra Maña, (þvi hanns Sonur hefur fyrer alla lided) þo eirna mest Trwadra, 1.Tim.4. Þvi þeir einer meiga Frelsesins nioota, sem trwa aa Nafn Eingietens Sonar Guds. Gief þvi ecki upp aa Vonge þinnar Saaluhiaalpar, fyrr eñ ad Heilagur Ande ber Vitne þijnum Anda þar um, ad þu siert Guds Barn, Rom.8. Enn hvørneñ maattu þad ødlast? Þad skiedur ef þu giører aungva Saatt vid hanns Ovine. Ecke vid Dioflenn, þvi hann er Guds svareñ Ovinur, Vier høfum afneitad øllu hanns Athæfe i Skijrnenne, hvøria Petur kallar Saattmaala goodrar Samvitsku, 1.Pet.3. (Ecke eiñungis þessvegna, ad vier i henne Endurfædder erum, og høfum Styrk Samvitskunnar þar af, ad vier erum saatter vid Gud, og kvitter um Sekt Uppruna-Syndarennar, helldur og hinns annars, ad hun minner oss aa, um alla vora Æfe, ad halda vort Loford af fremsta Megni, og ad flecka ei Samvitskuna med þeim Verkum, sem Andskotanum eru til Þioonustu, eñ Gudi til Stygdar), Ecki vid Hølldid, þviad þess Þankar eru Reidi og Fiandskapur i giegn Gudi, Rom. 8. Einginn kann Tveimur Herrum ad þioona, Matth. 6. Eñ Christur og Belial eiga eckert Hlutskifti samann, 2. Cor. 6. Nu eru Holldsins Verk auglioos, þad eru Hoordoomur, Saurlijfi, Ohreinleiki, Lausung, Skwrgoda Dijrkun, Fiølkijnge, Fiandskapur, Þrætur, Kappgyrne, Reidi, Þraattanir, Sundurþyckia, Flockadraattur, Ofund, Manndraap, Ofdryckia, Ofneytsla, og þessum lijkt, Gal. 5. Ef vier

 þessar

þessar Synder æsum, og laatum þær drottna i voru Hollde, þa erum vier ecke Guds Viner, og ecke er hanns Fridur i oss, ecke kunnum vier helldur vid Samvitskuna Frid ad hafa nema hun sofe, og mun hun þo siidar af illum Draum vakna þegar vest giegner, þegar Andskotenn kipper Svæslinum undann Hofdenu, og vier erum siist buner til Mootgaungu honum i Daudans harda Striid, og er þa hætt vid, ad hennar Ormur verde ad þeim Orme, sem alldrei deyr, Esa. 66. Jaa, nema vier Daglega tokum uppaa oss Guds Herskruda, og leggium allt Kapp aa ad stockva þessum Dalldar-Flocke, epter þvi sem hvor eirn verdur aasooktur, þa kunnum vier ecke Frid vid Gud ad hafa, ecke Guds Born ad heita, og i aungri Vissu um Guds Riike edur Arf Himnanna ad vera; þvi þeir er Christo tilheyra, Krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Giored ei helldur Samdraatt vid Heim þennann, ef þier vilied Guds Viner heita, þvi Johannes seiger, 1. Pist. 1. Elsked ecke Heimenn nie þad sem i honum er: ef nockur elskar Heimenn, þa er ecke Guds Elska i honum. Ecke seige eg ad Menn skule ei hafa Umgeingne vid Heimsins Born, Annars mættu þeir fara wt wr Heimenum, 1. Cor. 5. Seiger Paall: Hitt er og Riettviist ad umgaangast Fridsamlega vid þaa sem eru af Heimenum, verde þvi aa komid, þvi Paall seiger enn aptur, Rom. 12. Ef þad skie kann, ad soo miklu Leite sem i ydar Valldi er, þa hafed Frid vid alla Menn. Og David hæler þvi, ad hann hafe Fridsamur vered, Ps. 120. Jafnvel vid þaa sem Fridenn hotudu, Ps. 119. Hitt seige eg, ad Menn skule eckert Samblende edur Samtok hafa vid þaa i Illskunne og Prettviisenne, þvi þad er ad færa Hernad aa moote Gude; Og verde einhvor af oss til þess kvaddur, Þa eiga Menn ad briota þennann Frid og Ottast eige Mennena, so vier kunnum ad hafa Frid vid hann, er Saal og Liif gietur dreped eiliifum Dauda, Matth. 10. Riettviisenn og Fridurenn kysse hvort annad, segier David, Ps. 84. Þar segiest vel eingenn vera sem ecke Fridenn kioose, enn aller vilia þo ecke Riettlæted æsa, eins og hvort kunne añars aan ad vera. Þar sem ecke er Riettviise þar er alldrei Fridur, þar sem ecke er hinn sanne Fridur, þar er alldrei Riettviise. Þad er hinn sanne Fridur, ad hallda Eindrægne med Gudrækne og goodre Skickun, enn hata Skamer og Klæke. Þegar Veralldarennar Syner eru mektuger ordner, og hafa broted under sig adra, so ad eingenn vogar ad stiiga aa þad Straa, er þeim mislijkar, þa hyggia Meñ ad þeir sieu i Fride, eñ þad er viist, ad þeir ed odrum hafa Raanglega tilgiort, hafa þa hvad minnstann Frid, er þeim siineſt einkis Ofridar Von vera; Þvi Fridur þesse helldur jafnann Striid vid Samvitskuna. Og nær þeir hafa aungvann ad beriast vid, þa beriast þeir vid siaalfa sig. Soddann Fride eiga oll Guds Born ad hafna, jafnvel þoott þad sie nu um Stunder Fridseme kollud, ad liida og samþyckia, edur, ad minnsta Koste, laatast ecke siaa hinar verstu Skamer og Odygder; Og Hlutseme kollud, ef nockur vandlæter þar um, eñ þad mætte þann einu gillda, sem hefur Frid vid Gud og Samvitsku siina, þvi þoott hann jafnvel Fridlaus yrdi og rækur fraa Monnum, þa hefur hann alltiid Frid-Land i Guds Riike. Og þoott Gud take hann ei so skiott i burt ur Heimenum, þa vardveiter hann þann hinn sama fyrer Heimenum, Joh. 17,

Þad

Þad er gott ad vera Hlutſamur med ſama Hætte og Nóe, Loth, Moyſes, Samuel, David, Elias, Eſajas, Micheas, Jeremias, Johannes Baptiſta, St. Paall og adrer Guds Menn, er hielldu Brixle Chriſti ſtærre Virdingu ad vera, enn Heidur Veralldar þeſſarar. Hebr. 11. Eſajas, Cap. 9. nefner vorn Immanuel Fridar-Hófdingia. Enn þo ſeiger þeſſe Fridar-Hofdinge, Matth. 10. Meined ecke þad eg ſie komenn til ad ſenda Frid aa Jordu, Eg er ei komenn til ad ſenda Frid, helldur Sverd, þvi eg er komenn til ad ſetia Mannenn upp i moote Fodurnum, og Moodurena upp i moote Dootturenni, og Sonar Konuna aa moote Moodur Bonda ſijns, og Mannſijns Heima Menn verda hanns Oviner. Hvor er þa Fridur ſaa, er DRottenn hefur fært oſs af Himnum? Þad er Fridur millum Guds og Manna, enn ecki Fridur millum Guds Barna og hañs Ovina, Fridur vid Samvitſkuna, enn ecke vid Syndena, Fridur vid Guds Logmaal, enn ecke vid Holldid: Eñ ef nockur af þeim, er hann talar um Matth. 10. ſamþycker ecke þeſſa Fridar Koſte, þa er ſaa hanns Ovinur, og aa aungvann Frid vid þañ ſama ad giora, þvi ſaa ſem ecke hatar Fodur og Moodur, Brædur og Syſtur, fyrer hanns Skulld, hann er hanns ecke verdugur, Matth. 10. Ad Sijdurſtu er þetta ſaa Fridur Guds, ſem ædre er ollum Skilninge, Phil. 4. Minn Frid gief eg ydur, minn Frid læt eg hiaa ydur, ecke ſo ſem Heimureñ giefur þa gief eg ydur, ſeiger JEſus vid ſijna Læreſveina, Joh. 14. Þad er ſoddann Fridur ſem giorer oſs rijka i Fatæktenne, Frialſa i Þrældoominum, Glada i Sorgenne, Metta i Hungrinu, Jñſenda i Utlegdiñi, Og uñi alla Hluti oſs ſialfum fullnooga, þa vier eckert hofum. Þeſſe Fridur giorde Job heilbrigdann i Kronnenne, David Riettlaatañ midt i Syndenne, hañ diktade Loffſaungenn fyrer Paal og Silas i Myrkvaſtofunne, Act. 16. Hann gladde Chriſti Poſtula, þa þeir geingu fagnande, og þo hwdſtrykter wt fraa Raadenu, Act. 5. Hann huggade Mariu under ſijns Sonar Kroſſe, og enn nu i Dag alla þaa, er hann bera med henne. Og fyrer þvi, Brædur mijner, ad þeſſe Fridur er ſo mikell og ſo dijr, ad aan hañs er eingenn Fridur. Og þeir ed þeinkla aa himneſka Hlute, kunna aungvann Frid ad hafa, þegar þeir hanns ſakna, þoott oll Verolldenn hlæe aa moote þeim; Þa Grætbæne eg ydur fyrer ydar Velferdar Saker, ad Endingu, med Ordum Paals, þar hann ſeiger: Vier erum Sendebodar vegna Chriſti, 2. Cor. 5. Og ſo ſem Gud beidde fyrer oſs, þa bidium vier i Chriſti Nafne, ſættiſt vid Gud. Enn þu Naadarfulle Himneſke Fader, ſem med dijrmætu Bloode þijns Eingietens Sonar, hefur Endurkeypt Velferd Saalna vorra, gief þu þijnum Bornum ad Elſka þig, Elſkaſt Innbyrdis, og hallda Eindrægne i Andanum, ſo aller þeckia meige, ad þeir ſieu þijns Sonar Læreſveinar, Joh. 13. Gief þeim ad hlaupa ſo Skeid Lijfdaga þeſſara, ad þeir faae yferunned fyrer hann, ſem Heimenn hefur ſigrad, ſo ad þijner Þioonar mætti med Simeone i Fride fara epter Orde þijnu, Luc. 2. nær þier þocknaſt ad þeir gaanga ſkule Veg allrar Veralldar. Bænheyr þad HErra Himneſke Fader, Fyrer JEſum Chriſtum, Amen.

Auñur

# Aunnur Predikun a Joola Dagenn.

Gudspialled, Joh. 1. Cap.

I Upphafe var Ord, Og þad Ord var hiaa Gude, og Gud var þad Ord, þad sama var i Upphafe hiaa Gude. Aller Hluter eru fyrer þad giørder, og ann þess er eckert giort, hvad giort er. J þvi var Lijfed, og Lijfed var Lioos Mannanna. Og Lioosed lijser i Myrkrunum, og Myrkurenn hafa þad ecke hendlad. Þar var eirn Madur af Gude sendur, sa hiet Johannes. Hann kom til Vitnisburdar, ad hann bære Vitnisburd af Lioosenu, so ad aller skilldu fyrer hann trwa. Eige var hann þad Lioos, helldur ad hann bære Vitnisburd af Lioosenu. Þad var satt Lioos, hvert ed upplijser alla Menn komande i þennann Heim. Þad var i Heimenum, og Heimurenn var fyrer þad giørdur, og Heimurenn þeckte þad eige. Hann kom til sinnar Eignar, og hanns sialfer medtooku hann eige. Enn so marger sem hann medtooku, þa gaf hann þeim Makt Guds Børnum ad verda, þeim sem aa hanns Nafn trwa. Eige þeim sem af Bloodenu, eda þeim sem af Holldsins Villd, edur af Mannsins Villia, helldur þeim sem af Gude eru fædder. Og Orded vard Holld, og bygde med oss, Og vier saaum þess Dijrd, Dijrd so sem Eingietens Sonar af Fødurnum, fullann Naadar og Sannleika.

## Exordium.

DAniel Spaamadur, i sinnar Bookar Ødrum Capitula, seiger fraa þvi, ad Nebucadnezar Konunge hafe giefest Syn nockur i Draume, er hann kvad sijdann ad være horfenn wr Minne sier, og beidde Fiolkingis-Menn sijna og Spaasagnara, ad þeir segdu honum Draumenn; enn þeir tolduss undann Bode Kongsins, og svorudu þann Veg: Þar er eingenn Madur aa Jordunne, er meige giora þessa Konungsens Skipan, hvar fyrer eingenn Hofdinge edur Drottenn hefur nockru Sinne þvilijks krafest af nockrum Spaamanne edur Caldæa, þvi saa Hlutur, er Konungurenn æsker epter, er so Dijrmætur, ad eingenn maa hann seigia Konungenum nema Godenn, hvor ed ecke byggia med Holldenu. Nu jafnvel þoott ad Spaamenn þesser være Satans Pioonar, þa maa þo ecke þvi ad moote seigia, ad þesse þeirra Assokun var gylld aa alla Vegu. Enn þess meira sem Heidingiar þesser hofdu til Maals sijns, þess meira hofum vier Christnet Menn Gude ad þacka, ad hann hefur oss þann i Heimenn sendt, er þad hefur giort, er eingenn Manna giora kunne. Caldæa Lands Vitringum þoottu þad Nijungar, ad Kongurenn skyllde leggia þeim uppaa þennann Hlut; Enn hinn Alvitre Gud hefur giort

eirn nijann Hlut a Jordu, ad Konann hefur umkringt Mannenn, Jer. 31. Hvert Spaadoomur þesse eige ad skiliast um Holldtekiu DRottenns edur ei, er eg ecke alldeilis viss um, samt flijgur mier i Hug af þessu, ad þad hefur alldrei um Æfi heyrst, ad nockur hafe under eins Mey og Mooder vered, ad hann sem uppfyller Himen og Jord kreppteſt i einum Stalle, ad Gud er Madur ordenn. Margvijslega og a marga Vegu hefur Gud talad vid Fedurnar i Fyrndenne: Enn þad er nijr Hlutur, ad hann talar vid þa fyrer Sonenn, Hebr. 1. Og ad Gud, Jklæddur Mannlegu Hollde, sa Eingietne Sonur Fodursins, sem er i hanns Skaute, hann i eigenn Persoonu openberar syndugum Monnum allann hanns Vilia og Veg Saaluhiaalparinnar. Spaasagnararner fortooku þad, ad Gud munde byggia med Holldenu; Enn hvad vilium vier þar um tala, Ad ORDED Er Hollld Orded, Og Bygde Med Oss? Vier heyrdum þad, saum med Augum vorum og skodudum, og Hendur vorar þreifudu a þvi, seiger Johannes, 1. Pist. Cap. 1. Godenn eru Monnunum lijk ordenn, og ofann komenn til vor, sogdu fordum þeir Menn i Lystris, er Paulus læknade þann er halltur var borenn, og villdu hafa veitt þeim Barnabæ Gudlega Lotning, Act. 14. Enn þeir voru þo ecke nema Menn, og hvad hellst þeir giordu Undrunarlegt, þad giordu þeir i Nafne JEsu Christi. Enn i Manndoom DRottens er hinn lifande Gud ofann stijgenn, og hefur Bygdfest a medal Mannanna, Ja, þvilijkur Gud, af hvors Krapte og fyrer hvors Almætte ad oll Furdu-Verk a Himne og Jordu giord eru. Um þetta Allra Helgasta og Daasamlegasta Efne giefur oss Orsok ad tala vor uppleseinn Texte, hvorium vier vilium gaanga nockud nær, og þoott ad ei meige hinum gooda Gude fullþacka þar fyrer, ad eingenn er sa medal vor, sem efe um Guddoomenn Christi nie hanns Holldtekiu; Þa samt af þvi ad þetta Heilaga Evangelium færer oss a þa Leid, sem liggur til ad tala hier um; Þa vilium vier af þvi alleina hugleida þad, ad Gud sie Madur ordenn.

Hier til styrke oss goodur Gud med Krapte sijns Anda, AMEN.

## Utleggingen.

I Upphafe VAR ORD, seiger Gudspiallamadurenn. Eg vil ecke i þetta Sinn faa mier til Orda, edur upptelia Meiningar Manna, hvar fyrer hin Onnur Guddoomsins Persona verdur ORD kollud, þo er þad vijst, ad Gydingar nefndu so Messiam a þeim Dogum, og hefur þad ollum kunnugt vered, maaskie, þess vegna, ad Ord Fyrerheitesins uppa hann hlijdde; Ad eg ei tale þar um, ad hinn Maattuge Gud skapade fyrer hann alla Hlute, þegar hann baud þeim ad verda med Einu Orde, Gen. 1. edur og hitt, ad hann, Holldenu J-klæddur, hefur med Sannleiksins Orde opinberad oss Fodursins Villa, Joh. 1. Enn hvornenn sem þessu vared er, þa segier Johannes ad þetta ORD, edur Guds Sonur) hafe vered i Upphafe hia Gude; Hvort sem vier nu tokum þetta Ord, UPPhaf, fyrer Upphaf Eilijfdarennar, sem Raunar er eckert annad enn sialf Eilijfdenn, J hvorre ad ei er Fyrr edur Sijdar, helldur eru Þusund Ar hia Gude, so sem einn Dagur, og einn Dagur so sem Þusund Ar, seger Petur, 2. Pist. 3.

 Edur

Edur vier tokum þad fyrir Upphaf Skøpunar allra Hluta, Gen. 1. Þa er þad auðsært, ad Sonur Guds er hønum Sameilijfur. Paulus segier, 1. Cor. 15. Ad þegar sagt verdur, ad aller Hluter sieu Christo underlagder, þa er þad bert, ad saa er unddantekenn, er hønum hefur alla Hlute underlagt. Alijka vil eg hier um segia, nær sagt verdur, ad Guds Sonur hafe vered i Upphafe Skøpunar allra Hluta, Þa er auduitad, ad hann sialfur hefur alldrei skapadur verid, og er, þess vegna, og hefur vered, fyrer alla Eilijfd. Paulus tekur af Tvijmælenn hier um, er hann segier: Ad hann hafi verid aadur enn ad aller Hluter voru, Col. 1. Og uppaa þad, ad einginn leidi sier þad i Hug, ad hann ecki sie Gudi Fodur Sameilijfur, þa seigir David Konungur, Ps. 45. Þinn Velldis-Stooll, O! Gud, er um Alldur og ad Eilijfu. Einginn Efi er a þvi, ad þetta er um JEsum Guds Son talad, þvi strax eptir seigir David: þu hefur Riettlætid elskad, enn hatad Raanglætid, þar fyrir hefur, O! Gud, þinn Gud smurt þig med Olieo Fagnadarens fram yfir þijna Hluttakendur, Ps. 45. Og þessi hin sømu Ord þijdir Paulus, til Hebræos C. 1. uppaa JEsum, hvør ed eptir Manndoominum smurdur er med H. Anda; Og, hvad meira er, ad DRottinn sialfur er þvi samhlioода, er hann heimfærir uppaa sig þau Ord, er standa, Es. 61. (Andi DRottins er yfir mier, af þvi hann hefur smurt mig), seigiandi: Þessi Ritning er i Dag uppfylld, ad ydur aaheyrendum, Luc. 4. Og so einginn meini, ad þetta sie talad alleina um hina Eftirkomande Eilijfd, þa seigir Micheas, Cap. 5. Þu Bethlehem Ephrata, ert aungvanveiginn hin minnsta aa medal Hertoga Juda, þvi af þier mun framkoma sa DRottnarinn i Israel, hvørs Utgaangur er i fraa Upphafi, og fyrir allar Alldir. Þegar David bidur Guds Son ad spara sijn faau Ar, þaa finnur hann eckert dijrmætara til ad hræra hans blessudu Myskunar-Ydur, sier til Medaumkunar, helldur enn hanns eilijfa Gietnad, þar hann seigir, Ps. 102. Minn Sterki Gud, svipt mier ei burtu midt aa mijnum Dogum, af Eilijfum Gietnadi eru Ar þijn, aadur enn þu Jordina Grundvalladir, og Himnarnir eru þijn Handaverk, þair munu forgaanga, enn þu blijfur, allt mun þad so sem Fat fyrnast, og so sem odru Klædi muntu umbreita þeim, enn þu blijfur hinn sami, og þijn Ar þrotna ecki. Hvør Davids Ord Paulus til Hebreos, Cap. 1. enn aftur þijdir uppaa Drottinn JEsum og hans Guddoomlega Naatturu; Edur þvi mundi Esaias, Cap. 9. kalla hann Fodur Eilijfdarinnar, edur eilijfann Fodur, nema Guds Andi hefdi skotid hønum þvi i Brioost, ad hann hefdi, aasamt Gudi Fodur, verid fraa Eilijfu? Ecki hefur Esajas talad þetta af sialfum sier, þvi hann spaair so Greinilega, ad aa maa þreifa, um þaa Hluti, er einginn Madur vita kunni, nema Gud væri med hønum. Enn eg em viss um, ad ef hann er Fadir Eilijfdarinnar, þa er hann ecki yngri enn Eilijfdinn, enn fyrst hann Eilijfur er, þa er lioost þar af, ad hann er Sannur Gud; Þess gietur og Johannes hier i Gudspiallinu, er hann seigir: OG GUD VAR ÞAD ORD. Hver Grein ad epter Ordshætte Ritningarennar merker sama og hann sagt hefde: Þad ORD var Gud, so sem þegar hann seigier i odrum Stad: Andenn er Gud, Þad merker, Gud er Eirn Ande, Joh. 4. Þet-

ta vottar Gudspiallamadurinn med þeim Verkum, er eingiñ kuñi ad giora, nema Gud eirn, er hann seigir: ALLer HLutir Eru FYrir Þad GJerdir. Hvor vill þa þeinkia um̃ Christ añad, eñ hañ Sañur Gud sie? Mier koma i Hug þau Ord, er sagdi Heidinn Madur Pytagoras, aan Efa til þess ad hæda ad Metnadi og Aeeugyrnd daudlegra Maña, sem þo ecki kuña ad skapa Eina Mijflugu, og vilia þo, so sem Guder, Tignadir vera: Ef nockur þeinkir, sagdi hañ, þad hañ muni Gud vera, þaa skapi hañ Eina Verolld lijka þessari, og mun eg hann strax tilbidia. Johannes Jtrekar þetta aftur, so ad allir meigi wr Skugga gaanga hier um̃, seigiandi: An Hañs Er Eckert Giort Hvad Giort Er. Sie nu eingeñ Hlutur aan hañs giordur, þaa er þad audsært, ad hañ sialfur Ogiordur er og Oskapadur; þvi aa millum Skaparans og allrar Skiepnu kañ eingiñ Madur ad hijxa edur Jminda sier nockurn Hlut, þar eingiñ hefur sig sialfann skapad, og Skiepna einginn hefur giort siñ Skapara; Og so ad v:er ei meinum, ad Guds Sonur hafi verid alleina nockurskonar Verkfæri i Skopunar-Verkinu, þa seigir David med lioosum Ordum i þeirri Grein, er eg strax las, af Psalm. 102. ad hañ hafi V:rolldina Grundvallad, og ad Himnarñir sieu hañs Handa-Verk, og ecki einasta hefur hann þessa sijnilegu Verolld skapad, helldur seigir og Paulus, Col. 1. Fortakslaust; ad fyrir hann, þad er, af honum, sieu allir Hlutir skapadir, sem eru aa Himni og Jordu, hvad Sijnilegt og hvad Osijnilegt er, hvort helldur þad eru Troonarnir edur Herradæmenn, edur Yfervolldenn, edur Valldstioornernar, allt er þad fyrir hann, og hanns vegna skapad. Med þessum hinum Sijdurstu Ordum vill Paulus merkiast laata Eingla Guds og hinar Andlegu Verur, fyrir utann Gud einn, allra Hluta Skapara, sem Einn af ollu Oskaptur er. Nu væri þad ad sonnu noog, til ad vitna um̃ Guddoom Frelsarans, ad hann er Eilijfur og allra Hluta Skapare, enn Johannes lætur ecki kyrt þar med, helldur seigir hann: J ÞVJ VAR LJJFid, Og LJJFid Var LJoos Mannanna. Med hvoriu hann teikna vill, ad allt hvad Lijfs-Anda hefur, Andlegann edur Lijkamlegañ, þad lifi af þvi sama Lijfi, og af hanns Fyllingu hofum vier allir medtekid. Hvorniñ wtmaalar Paulus hiñ sanna Gud fyrir Athenu Borgar-Moñum, er hann foor til þeirra med Christni-Bodid? J honum lifum vier, erum vier og hrærumst vier, Act. 17. Eñ hvad er þad añad eñ þad, sem hiñ sami Postuli vitnar um̃ Christ? Col. 1. Ad i honum standi til samans, edur standist, allir Hlutir (þad er vardveitist og stioornist af honum). Þvi seigir og Postuliñ, Heb. 1. Ad hañ beri alla Hluti med Ordi sijns Kraftar. Eg giet ecki borid allt þetta Foolk, sagdi Moys:s vid Gud, Num. 11. Þegar hañ villdi hafa sig undañ þeigiñ, ad stijra Einsamall Jsraels Foolki, af hvoriu Ordtæki Ritningariñar eg þad fyllilega aalykta, ad saa sem ber alla Hluti med sijnu kroftuga Ordi, hañ stioornar ollum Hlutum med Gudi Fodur og Heilogum Anda bædi aa Himni og Jordu, hvad sialfur DRottiñ samþyckir, er hañ seigir: Þad sem Fadiriñ glorir, þad glorir Sonurinn eirninn med, Joh. 5. sem Von er til, þvi hañ segir berlega, ad Faderiñ sie i sier og hañ i Fodurnum, Joh. 15. Jo-

hañes

hannes segier, ad LIJFed hafe vered i ORDenu, Enn hvilijkt þad LIJF sie, greiner hann sialfur, Joh. 5. So sem Faderenn uppvekur og Lijfgar þa Daudu, so Lijfgar og Sonurenn þa hann vill. Og þott hann hafe þad med mørgum Dæmum sannad, þa er þad samt af hanns sialfs Upprisu allra kunnugast orded. Adrer Guds Menn hafa fyrer hañs Krapt uppvaked hina Daudu, enn eingenn hefur sialfann sig af Daudum vaked, nema hann eirn. Þetta vottar hann sialfur: Þvi sagde hann vid Gydinga: Briootid þier þetta Mustere, enn eg skal þad a þrem Dogum upp aptur byggia, enn hañ talade um̃ Mustere sijns Lijkama, segier Joh. Cap. 2. Og um̃ Saalena seiger hann: Þar fyrer elskar Faderenn mig, ad eg læt mijna Saal fraa mier so eg hana aptur take, eingenn tekur hana fraa mier, enn eg legg hana fraa mier sialfur; Eg hefe Valld til ad leggia hana fraa mier, Og Valld til hana aptur ad taka: Og þessara Ordsaka vegna hafa heilager Guds Menn i Ritningunne ydulega kallad hann GUD, þvi Gud er alleina sa ed Daasemdarverkenn giorer, Ps. 72. Eg hefe allareidu nockur Vitne þar til leidt af hinu Gamla Testament nu, og mætte þo enn fleire telia. Enn Læresveinar hanns og Postular, sem voru uppfrædder af honum, Saau hann og skodudu, 1. Joh. 1. Atu og Drucku med honum, uppa hverra Lærdoom hanns Kyrkia bygd er, Þeir ed hanns Vitnisburd hafa med sijnu eigenn Bloode underskrifad, og laated Lijfed fyrer þennann Sannleika, Þeir lwka aller Einum Muñe upp um̃ þetta. Hañs Vitne hafed þier heyrt, Er JEsus elskade, sem var Johannes, Er Gudspialled ritad hefur. Enn hann talar enn þa framar, 1. Pist. 5. segiande: Vier vitum ad Guds Sonur er komenn, Og ad hann hefur giefed oss Hiarta til ad þeckia hinn Sannarlega, og ad vier sieum i hinum Sannarlega, þad er i Guds Syne, Hann er Sannur Gud og þad eilijfa Lijf. Rom. 1. giefur St. Paall Gude, allra Hluta Skapara, þann Titel, Ad hann sie Blessadur um̃ allar Allder: Enn i sama Pistle Cap. 9. segier hann um̃ JEsum Christ; af hvorium (Hann meinar Fedrunum) ad Christur er epter Holldenu, Hvor ad er Gud yfer ollum Hlutum, Blessadur ad eilijfu. Amen, Judas Postule DRottens, Hann endar sinn Pistil med þessum Ordum: Gude alleina vijsum, Frelsara vorum, Sie Dijrd og Makt, Kraptur og Vellde, bæde nu og um̃ allar Allder: Þeim somu Ordum, sem Guds Eingietenn Sonur hefur skipad oss syndugum Monnum ad kvedia Gud vorn Fodur i Drottennlegre Bæn, Matth. 6. Med þeim somu avarpar hann hier vorn Frelsara, Hvad hann munde ecke giort hafa, nema hann villde hafa honum Gudlegann Heidur veittann. DRottenn Gud þinn skalltu tilbidia og honum Einum þiona, segier Moyses, Devt. 6. og 10. Og med þessum somu Ordum rak JEsus Diofulenn burt fraa sier, er hann freistade hanns, og sagdest munde giefa honum oll Rijke Veralldar, Ef hann fielle fram̃ og tilbæde sig, Matth. 4. Hvar af audsært er, ad einsomlum Gude, enn aungvum odrum, tilheyrer soddann Lotning. Enn hvad seger St. Paall um̃ JEsum? Hann segier ad i hanns Nafne skule oll Knie sig beigia, bæde a Himnum og Jorduñe, og under Jorduñe, Phil. 2. Og so Menn vite ad hier er eingeñ undantekenn, Þa segier Postulenn, Hebr. 1. i Davids Orda Stad, ad aller Einglar Guds skule

skule hann tilbidia. Enn ef þad skulu Einglarner giora, Hvorier ed siaa ydugléga Guds Fodurs Auglit aa Himnum, Matth. 18. Þvi munu þa ecke skylldar til þeß hiaar Oxd= re Skiepnu? Þegar Johannes villde hafa tilbeded Eingelenn, Þann er talade vid hann, Apoc. 19. Þa varnade hann honum þeß, og sagde: Siaa til, ad ei giorer þu þetta; Tilbid þu Gud. Enn er hann fiell til Foota Guds Syne, Þa aptrade hann honum ecke, helldur lagde sijna Hægre Hond yfer hann, segiande: Ottast ecke, Eg em hinn Fyrste og Sijdar= ste, Apoc. 1. Og hvad opt var DRottenn vor tilbedenn, jafnvel i sinne Anaud hier aa Jord= unne? Hin Canaaniska, Matth. 15. Maria Syster Lazari, Joh. 11. Hundrads Hofdingenn, Matth. 8. Og adrer miklu fleire tilbaadu hann, og hann audsijnde þar med ad honum Guddoomlegur Heidur tilheirde, ad hann vard vid ollum þessum jafnskiott og þeir beiddu. Ræningenn, sem med honum Krossfestur var, tilbad hann Daudvona, siaalfann komenn ad Dauda, Luc. 23. þa synde Jesus fyrer Alvoru ad hann Gud vær, Þvi hvorsu maatte hann einum Stoorbrota Manne Himnarijked giefa, nema hañ siaalfur ætte þeß Valld aa Himnum. St. Stephanus, Frumburdur hanns Vijsslarvotta, hañ tilbad hann midt i Andarslitrunum, og var hann þa fullur af H. Anda, sem Lucas vottar, Act. 7. Heirt hafde hann med hvilijku Kalle ad JEsus lietst aa Krossenum er hann sagde: Fader i þijnar Hendur fel eg minn Anda, Luc. 23. Enn hann giorde þeß eingann Mun og hinns er hann sagde: HErra JEsu medtaktu minn Anda. Hvar fyrer? Þvi hañ visse ad Fader og Sonur voru eitt, og Sonurenn Fodurnum ad allre Tign, Dijrd og Mætte samjafn epter Guddoomenum. Heidingiar, þeir ed af Gude eckert vissu, og voru aan hanns i Heimenum, Eph. 2. þeir skopudu sier adskiliannlegar Meiningar um Gud sijn, er þaa hofdu þo ecke skapad, og meintu ad eirn være odrum undergiefenn, enn þvilijkt er eckert um JEsum ad þeinkia. So Eilijfur, so Almaattugur, so Alvitur sem Faderenn er, so er og Sonurenn, so sem hinn heilage Athanasius Lærefader hefur oß þad kiendt i sijne Tru= ariaatningu. Jehova vor Gud, Jehova hann er eirn, segier Moyses, Devt. 4. Enn ef ecke er nema eirn Gud i Verunne, og þad er aadur vottad ad JEsus sie Gud, hvernig maa hann þa honum minne vera? Og þvi segier Postulenn Hebr. 1. Ad hann sie vtþricke= leg Mynd hanns Persoonu. Eg er Jehova, þad er mitt Nafn, og mijna Dijrd vil eg eingum giefa, segier DRottenn, Esa. 42. Være nu ecke Guds Sonur Fodurnum ad ollu jafn, og være þetta Nafn ecke Guddoomlegrar Veru, i hvoriu ad eru Þriaar ad= greindar Persoonur, þvi munde Gud þa siaalfur Giædskunnar Bruñur, hafa opeñber= ad sijna Dijrd med þessu Nafne þeim, sem oll Saalarennar Velferd aa þvi rijdur ad vita aa hvorn þeir eiga ad trwa, og hallda eingann honum jafnann? Enn hann hefur skipad oß ad trwa aa Sonenn. Hvi munde hann segia vid Moysen? Exod. 3. Eg mun vera sa eg vera mun, og þad skalltu segia Sonum Israels: Sa ed vera mun, sende mig til ydar: Þvi munde hann segia fyrer Munn Esajæ? Eg er Jehova, og fyrer utann mig, er eingeñ Gud, Cap. 45. Munde nockud Guds Einngietenn Sonur, sa ed er i Fodursins Skaute, vanheidra sinn Fodur þar med, ad giora siaalfann sig honum jafnann, nema hañ visse þad

være

være so? Þvi seiger hann þa, Apoc. 1. Eg em Alpha og Omega, Upphaf og Ender, saa sem er, og saa sem var, og saa sem koma mun, hinn Almaattuge; Þvi munde hañ segia vid Philippum, er hann beiddest epter ad meiga siaa Fodurenn? Philippe, sa sem sier mig, hann sier Fodurenn, trwer þu ecke ad eg em i Fodurnum, og Faderenn i mier? Joh. 14. Þvi munde siaalfur Faderenn kalla hann sijnu Nafne? Edur mun hann sijna Dijrd odrum giefa? Þvi seiger hann þa, Jer. 23. Eg vil uppvekia David eitt Riettlaatt Sæde, saa ed mun Rijkia sem Konungur, og þad skal honum vel-luckast, og hann skal fremia Log og Riettinde aa Jordu, aa hanns Dogum mun Juda hoolpenn verda, og Jsrael Ugglaus bwa: Þad mun vera Nafn hanns er hann mun nefna hann med, Jehova vort Riettlæte: Þvi mun hann aptur itreka þetta i 33. Cap. segiande: A þeim Dogum mun Juda hoolpenn verda og Jsrael tryggelega bwa, og saa ed kallar, hann mun vera Jehova vort Riettlæte? Mun ei þetta vera hann, sem oss er af Gude giordur til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Endurlausnar? 1. Cor. 1. Hvar fyrer mun Gud Allsheriar enn framar segia um̃ sinn Son, Hos. 1. Enn eg skal Myskuna Hwsenu Juda, og frelsa þaa fyrer Jehova þeirra Gud, og ei vil eg frelsa þaa med Boga edur Sverde edur Strijde, Hestum edur Riddara Lide. Menn þreifa aa þvi, ad þetta er i JEsu af Nazareth fullkomnad og fram̃komed. Hann var alenn i Faatækt, Luc. 2. Hann uppolst i Armood, hann hafde ei þar hann mætte Hofde sijnu ad halla, Matth. 8. Hanns Rijke var ecke af þessum Heime. Ecke strijddu hanns Þienarar fyrer hann, Joh. 18. Hann skipadi Petri ad slidra Sverdid, Matth. 26. J sijnu mesta Yfirlæti reid hann einni Osnu inn til Jerusalem, Matth. 21. hvadann hañ var eins og Oboota-Madur til Gaalgans wtleiddur, og hanns bestu Vinir og Villdar-Meñ eru deyddir hañs vegna allañ Daginn. Eñ þo er i ollu þessu Volædi, Rijki Guds Sonar i hañs Barna Hiortum stærra orded, enn nockurt Konungs Rijke hefur um̃ Æfe vered. So eg maa þad satt jaata, er Severus Sulpitius seiger, (Lib. 2. Histor. Sacræ) um̃ Draap Guds Barna under Diocletiano Keysara: Vier hofum alldrei frægare Sigur unned, enn þa vier ecke urdum med Tiju Ara Offsooknum sigrader. Munde nu ollu þessu vera spaad um̃ JEsum, edur hann nefndur þvi Nafne, sem Gude einum er eigennlegt, og eingum odrum maa aan Syndar til-leggiast, nema hann være eirnnar Veru med Gude Fodur, og honum samjafn ad ollu? Zacharias, ecke af siaalfum sier, ecke af eigenn Hugbode sijnu, helldur fullur af Heilogum Anda, segier um̃ Johañem, Luc. 1. Og þu Sveirn munt nefnast Spaamadur hinns Hærsta, enn þad er kuñugt ad Johannes var Fyrerreñare JEsu, og Eingill undann hañs Auglite sendur, Mal. 3. Enn ef hañ er hinn allra Hærste, hvernenn maa þa nockur honum hærre vera? Ef hann seiger siaalfur: Eg em hinn Fyrste og Sijdarste, Apoc. 1. Hvor kann honum þa fyrre ad vera? Og hvad halldeð hefur vered um̃ Messiam aa Hiervistar Dogum DRottenns, þad kienner Johannes Cap. 5. Segiande: Þess meir sooktu þeir epter ad deyda hañ, ad hañ ecke einasta braut Hvijldar-Dageñ, helldur sagde Gud ad vera sinn eigeñ Fodur, giorande sig jafnañ Gude; hvad hañ med þessum Ordum giorde: Minn

Fader erfidar, allt hijngad til, og eg erfida: sem villde hann sagt hafa: Minn Fader er ei bundenn vid Sabbatz Dagenn, ad han ei stioorne øllum Hlutum bæde aa Himne og Jørdu, epter Villd sinne, so lækna eg þaa Siwku, epter þvi Vallde sem eg hefe! Og maa þvi ecke aa moote seigia, ad þesser Rangläatu Menn toludu riett i þessu. Paulus er skorenordur um þetta Efne, þegar han eggiar Christna Menn aa Hoogværd og Lijtelæte, seigiande: Vered eins lynder og JEsus Christus var, hvor þott hann Guds Mind være, hi ellt hann þad ecke fyrer Herfang Gude jafn ad vera. Og hefe eg so med nockrum Rokum vitnad fyrer ydur, ad JEsus er Gud eilijfur, Almättugur, alls Heidurs verdiigur, og Fodurnum ad øllu jafn epter Guddoomenum; ecke þess vegna, Brædur mijner, ad eg þurfe nockrum i þessum Safnade ad telia Trw hier um, þvi þad jaata aller med Hiarta og Munne, helldur ad eg i stuttu Maale audsyne wt af þessu H. Evangelio, hvilijkur hann sie, er vort auma Holld og Blood hefur uppaa sig teked, hvar um Johannes framar talar med þessum Ordum: Og ORDED Vard HOlld Og Bygde Med Oss. Hvor Ord ecke eiga þann Veg ad skiliast, so sem ad Guddoomurenn sie i Manndoom umbreittur. Hiaa Fodur Liossanna er eingenn Umbreiting edur Mynd til Umbreitingar, seiger Jacob Postule, Cap. 1. Enn þar hann nefner Fodur Liossanna, þa meinar hann Gud: Enn þad er adur vottad, ad JEsus Christus sie sannur Gud; þar fyrer er þvi langt fiærre, ad hann kunne hinn minnstu Umbreitingu underorpenn ad vera, og þott ei være anad til Vitnis hier um, þa eru Johannis eigenn Ord, er hier standa skomu sijdar i Evangelio: Vier Saaum Hanns Dijrd, Dijrd So Sem Eingietens Sonar Af Fodurnum. Enn nær saaa þeir hana? Ad sonnu i Kienningunni, i Kraptaverkunum, i Skijrnenne, enn ecke sijdst þa hann forklaradest aa Fiallenu, Matth. 17. og var þad hinn same er þeir hofdu eted og drucked med, 1. Joh. 1. So er þa ecke Guddoomurenn umbreittur i Manndoom, helldur hefur Guds Sonur Manndoomlega Natturu uppaa sig teked, so sem Paulus til Hebreos Cap. 2. ad Orde kiemst: Ad hann hafe ecke Einglana, helldur Abrahams Sæde aa sig teked; teiknande þar med, ad hann hafe Manndoomenn teked i Samfielag og Einingu sinnar Guddoomlegu Persoonu; Og i þessum Ordum: ORDED Vard Holld: er verulegur Ordshattur Ritningarennar: So seiger i Gen. 2. C. Adam vard ad lifande Saalu, þegar Gud blies lifandi Anda i Masinns Naser, ecke þad ad Lijkamenn umbreittest i Saal, helldur teiknast med þessu Orda Tiltæke, hin allra nakvæmasta Eining aa millum Saalar og Lijkama, hvor miog so er þessare lijk, þvi so sem Saal og Lijkame verda ad eirne Persoonu, so urdu og Tvær Nattururnar i Christo, eirn Gud og Madur, þegar hann Holld og Blood uppaa sig took; Þetta vitnar allvijda H. Ritning, bæde i Spaadoomunum i gamla Testamentenu, sem og i Medkienningu þeirra er saau og skodudu hann, og hvorra Hendur aa honum þreifudu, 1. Joh. 1. og saau þo hanns Dijrd, so sem Eingietens Sonar af Fodurnum. Hinn fyrste Vottur i gamla Testamentenu er siaalfur Gud, er hann sagde, ad Kvinnunnar Sæde skyllde i sundurmeria Hoggormsins Hofud, Gen. 3. Hvilijkt ad sie þetta Kvinnunnar Sæde, þad vitnar Esajas, Cap. 9. med þessum

Ordum:

Ordum: Eitt Barn er oss fædt, og einn Sonur er oss giefenn, hvørs Høfdingia Doomur er aa hanns Herdum, og hanns Nafn er Undrunarlegur, Raad, Hetia, Kraptur, eilijfur Fader og Fridar Høfdinge. Siaaed hier, Brædur mijner! Hann sem fæddur er, hann sem Spaamadurenn Barn kallar, hañ nefner hañ under eins Fødur Eilijfdareñar, af hvøriu lioost er, ad hann er bæde Gud og Madur. Og ad þetta sie meint uñ JEsum af Nazaret, og ecke annad Barn, vottar Esajas Cap. 7. Siaa þu, ad ein Jomfrw mun Oliett verda; og mun Son fæda, og hann mun hun kalla Immanuel, þad er, Gud med oss. Þetta seiger Lucas Cap. 1. framkomed ad vera. Mørg ønnur Vitne mætte hier til leida ef þad Tijmenn leifde, enn i hinu Nija Testamentenu eru ecke færre. Hiñ sterkaste Vottur er Thomas Postule, hvør ed ecke villde trwa fyrr enn hañ took aa, enn þegar hann liet sijna Fijngur i Naglaforenn, og sijna Hønd i hanns Sijdu, þa æpte hann upp af Fagnade, og sagde: O Drottenn Minn og Gud Minn, Joh. 20. St. Paall, sem var i Þridia Himen uppnumenn, og heyrde þar Oumrædeleg Ord, 2. Cor. 12. Hann kallar hann hinn mikla Gud, og Frelsara JEsum Christum, Tit. 2. og hinn same seiger: Ad hann sie giørdur af Sæde Davids epter Holldenn, Rom. 1. Mannsins Sonur, sem talade vid Nicodemum, seigest vera aa Himne, Joh. 3. Og aptur seiger hann vid Gydinga. Joh. 8. Þier leitest vid ad deyda mig, eirn Mann sem seige ydur Sannleikann; Og sialfur seiger hañ, Þegar hann hafde sialfur aptur teked Saalu sijna; Ande hefur ei Holld nie Bein, so sem þier siaaed mig hafa, Luc. 24. Vier vitum ad ecke fædest af Manne nema Madur, enn Lucas seiger, ad Maria hafe fædt sinn Eingietenn Son, hvar fyrer ad Postulenn til Hebræos skrifar, ad hann sie Hluttakare Hollds og Bloods eins og Smaa-Bornenn, Heb. 2. Paall seiger enn aptur, Col. 2. Ad i honum bwe øll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, þad er, Reyndar, fullkomlega og sannarlega.

I Foornum Gamla Testamentesins bioo Gud, so sem i Skugga Epterkomande Giørda, Hebr. 10. J Christo høfum vier sialfann Lijkamann, Col. 2. Og hann bijr i honum eins og Saal Mannsins bijr i hanns Lijkama. Kraptur Guds bioo i hanns Spaamønnum og ødrum heilogum, enn ecke vard hann ein Persoona med þeim, hvad lioost er þar af, ad Guds Ande veik fraa þeim aa Stundum, enn Guddoomurenn Christi hefur alldrei Manndoomenn vidskila orded, fraa þvi fyrsta Augnablike Gietnadarens, og mun hellder alldrei verda uñ alla Eilijfd. Þvi Eingellenn, er hann bodade Moodur hanns Gietnadenn, Luc. 1. Seiger, ad hann mune Drottna yfer Hwse Jacobs ad Eilijfu; Þad er ad hann skule alldrei hanns Konungs Tign afleggia, hve·· honum þo ecke er ødruvijse medeilld, enn fyrer Ibwd Gudddoomsins. Jaa, þoott hinn grime Daude sundurslite Saal og Lijkama i Pijnunne, þa maatte hann þo ecke leysa þad Band Einingarennar, sem var mille Guddooms og Manndooms, þvi hvørsu maatte hann af sialfum sier, og af eigenn Kroptum upprijsa ella? Eige veit eg hvort nockurt Vitne er sterkara edur lioosara uñ Guddoom og Manndoom Christi i eirnre Persoonu, helldur enn St. Paals, 1. Tim. 3. Er hann seiger: Þad er mikell Leyndardoomur Gudhrædslunnar (þad er, Christenndoomsins;

I

sins) ad Gud er Openberadur i Holldenu, Riettlættur i Andanum, er siedur af Einglunum, er Predikadur Heidingiunum, er trwad i Heimenum, er uppnúmenn i Dijrdenne. Hvad er þetta, Br. M. ad Gud sie Riettlættur i Andanum? Kann nockur ad Riettlæta þann Riettlaata i Jsrael? Enn þess er ad giæta, ad þetta Ord, þad er ad vidurkienna Sannann og Riettlaatann ad vera. So skrifar Luc. Cap. 7. Ad allt Foolked og Tollheimtumeñerner hafe riettlætt Gud, þad er, prijsad hann og medkient Sannann Gud ad vera. J Andanum, seiger Postulenn, þad er epter Guddoomenum, so seiger Petur, 1. Pist. Cap. 3. um Christ, ad hann sie Deyddur epter Holldenu, enn Lijfgadur, þad er, Lifande, epter Andanum, þad er Guddoomenum; Og med sama Hætte seiger Paulus, Rom. 1. ad hann sie Auglijstur Guds Sonur i Mætte, epter Anda Heilagleikans; So er þa Meiningenn, ad i Christi Hollde hafe Guddoomurenn so auglijst sig, ad Menn hafe jaatad og þeckt, ad Gud hafe i hønum bwed: Er siedur af Einglunum; hvort helldur þad eru Postular DRottenns, sem opt verda Einglar kallader, Mal. 2. Apoc. 1. edur og Guds Einglar, sem gyrnast ad skignast inn i þennann Leyndardoom, 1. Pet. 1. Þa eru hvorutveggiu þessir fullnooger til Sanninda: Er Predikadur Heidingium, er trwad i Heimenum; Þesse Ord sijna oss, hvad hiner Fyrstu Christner Menn hafe hier um hallded, og hvornenn DRottens eigen Postular hafa Christum Predikad: Uppnumenn i Dyrdenne; Hann sem þeir vissu doo aa Krossenum, Af Daudum upprisenn, hann sem aat og drack med þeim, aa hvorium þeirra Hendur þreifudu, 1. Joh. 1. Hann saa þeir til Himens faranda, med Guddoomlegre Dijrd; Og Skyed took hann i burt fraa þeirra Augum, Act. 1. O! hvilijk Dypt Audæfanna og Guds Vitsku! Hier maa allur Eingla og Manna Skilningur i hina mestu Undran falla. Þetta er saa Leindardoomurenn, sem hulenn er fyrer Vitringum, eñ nu er Openberadur Smælingium, Matth. 11. Hvor vill wtseigia hanns Gietnad? Esa. 53. Hann er fæddur af Fødurnum fyrer allar Allder. Hvor vill þad wtseigia? Hann er Gietenn af Heilogum Anda i Tijmanum. Hvor vill þad wtseigia? Hann er fæddur af Meyu einne: Hvor vill þad wtseigia? Oss fallast Hendur af Forundran, þegar vier heyrum ad Moysis Stafur verdur ad Hoggorme, Exod. 7. Þegar Aarons Vøndur bloomgast, Num. 17. Þegar Soolenn stendur kyrr, Jos. 10. Þegar hun geingur um nockur Strik til Baka aptur, 2. Reg. 20. Þa Biørgenn klosna i sundur, Matth. 27. Þa Vatned skiptest i Tvo Hlute, og stendur eins og Mwr-Veggur, Jos. 3. Þegar Elldurenn brenner ecke og giører øngvann Skada þvi sem i hann er kastad, Dan. 3. Og er þad þo Ender allrar vorrar Undrunar, ad vier seigium þad sie ecke undarlegt, þoott hann, sem Naatturuna skapad hefur, giete umbreitt Naatturunnar Haattum. Enn hvad skulum vier um þad seigia, ad Gud Naatturunnar Madur verdur? Og hann, sem var fyrer allar Allder, hlijder Tijmans Løgmaale? Ad Skaparenn fædest af Skiepnunne? Og hann, sem Himen og Jord taka ecke, verdur i Moodur Lijfe innelucktur? Þesse Gietnadur, þesse Fæding, eru so Furdanlig, ad þegar Kraptur hins Hæsta yferskygger riett-trwada Saalu, þa gietur hann slijka Hlute vid

heñe,

henni, ad Mañurin fær þeim ecki wtklakid, og lætur sier ecki nægia þar med, ad allt Tilefni þessa Stoorundrunarlega Furdu-Verks, er iñifalid i hañs Almætti, hañs Giædsku, hanns Vitsku og Omælañlegri Myskunsemi, er þad giørt hefur. Honum sie Lof, Dijrd og Heidur, um Allder Allda, AMEN.

# Añañ Dag Joola.

Gudspialled, Matth. 23. Cap.

J Þañ Tijma sagdi JEsus til Gydinga Foolksins og Høfdingia Kieñimañaña: Siaaid! Eg sendi til ydar Spaamen, Spekinga og Skriftlærda, og nockra af þeim munud þier Aflijfa og Krossfesta, og suma munud þier Hwdstrijkia i Samkundu Hwsum ydar, og af añare Borg i adra munud þier þaa of-sækia, so ad yfir ydur komi allt Riettlaatt Blood, sem aa Jordena wthellt er, i fraa Bloodi Abels Riettlaata, allt til Bloods Sachariæ, Sonar Barachiæ, hvorn þier draapud aa millum Musteris og Altaris. Sañlega seigi eg ydur: Ad allt þetta mun koma yfir þessa Kynslood. Jerusalem, Jerusalem, þu sem aflijfar Spaamieñina, og grijter þaa, er til þijn eru sendir! hvorsu oft hefi eg villad samañsafna Sonum þijnum, lijka sem Hænañ samañsafnar Ungum sijnum undir Vængi sier? Og þier hafid ecki viliad. Siaaid! Ydar Hws skal ydur i Eydi laatid verda. Þviad eg seigi ydur: Ad þier munud eigi siaa mig upp fraa þessu, þaangad til þier seigid: Blessadur sie sa, sem kiemur i Nafni DROTTINS!

## Exordium.

HEgar Meñ athuga aa eina Sijdu Guds Owtseigiañlegañ Heilagleik, hañs Riettlæti og hañs Almætti: Og so añars Vegar, ad Heimuriñ er nidursocktur j hid Vonda, 1. Joh. 5. hvar ed sialf Giædskañ lijtid añad sier, helldur eñ þad sem heñi er Gagnstædilegast, sem er Illskañ og Ogudlegar Athafnir syndugra Maña; þa meigum vier med Blygdun vors Andlitis medkienna þad satt ad vera, sem Moyses seiger, Num. 14. DRottinn er Poliñmoodur og miøg Myskunsamur, fyrirgiefandi Syndir og Misgiørdir. Nu þoott ad øll Verølldiñ ætti i einn Hlioodi ad prijsa þessa Guds Giædsku, þa mætti þo sijnast, ad hañ hefdi hvad mest auglijst hana sijnu Foolki aa Gamla Testamentesins Døgum, þvi um þaa maa jaata þad satt ad vera, sem David segier: Ad Gud hafe ecke so giort øllu Foolke, Ps. 147. Enn hvoriu launade so þverbrotna Kynslood sijnum Gude? Hann klagar sialfur yfer þeim fyrer Moyse,

Num. 14. Ad þeir hafi Tijusinnum møglad aa mooti sier i Eydimørkunni. Hann setti Miñing sijns Nafns aa medal þeirra, Exod. 20. Þar var hanns Elld-Stoo og hañs Bvstadur, Esa. 31. Enn þeir tooku vid Tiallbwd Molochs, og vid Stiornu Guds þeirra Remphan, Act. 7. Þeir umvelltu hanns Skickan, og yfirgaafu Guds Bodord fyrir Manna Setninga, Matth. 15. Enn aflijfudu hañs Spaamen, sem til þeirra voru sendir. Allra sijdarst sendi hann þeim Sóniñ, og sagdi, so sem JEsus kiennir i Eftirlijkunguñi, Matth. 21. Þeir munu feila sier fyrer Syne mijnum; enn þad villde ecke so tilgaanga; Þeir søgdu: Þesse er Erfingenn, laatum oss raada hann af Døgum; Jaa, vier vilium ecki laata þennann drottna yfir oss. So hafa þeir og sialfañ Guds Eingietinn Son aa Krossinn uppheingt, hanns Þienara og Postula af Lijfi tek.d; Forsmaad þeirra Kienningar; og eckert Ogiørt laatid, þad Gudi kunni til Stygdar ad verda; Hvarum JEsus þeim brixlar hier i Evangelio, og undir eins fyrirseigir, hvad stoorkostleg Hefnd ad fylgia muni aa eftir so laangvaranlega Forsmaan Guds og hanns Heiløgu Orda, þegar þeir høfdu uppausid Brunn Myskunarinnar og uppfyllt Mælingu Syndanna: Þvi DRottenn er eirn Hegnare, eirn vandlætande Gud, Jaa, eirn Hegnare er DRottenn aa sijnum Mootstødu Mønnum, og sa ed ei mun gleyma þvi aa sijnum Ovinum, segier Nahum Spaamadur. So er nu øll sw Olucka komenn yfer þessa vesølu Þiood, sem Gud og hanns Spaameñ hafa fyrirsagt, af þvi ad þeir ecki þecktu sinn Vitiunar Tijma, Luc. 19. Og þeirra Hws er þeim i Eydi laatid; So sem DRottinn spaair hier i Gudspiallinu; Eñ þeir wtreknir um alla Verølld, hafa hvørgi blijfanlegann Samastad, nema þad, er þeir þyggia verda af þeim, er þeir sijst villdu. Nu høfum vier sied þeirra Ofarir, Brædur mijnir: Eñ giætum ad þvi, ad hvad sem skrifad er, þad er skrifad oss til Lærdooms, Rom. 15. Ei sijdur þetta Heilaga Gudspiall, eñ hvørt annad; So ad vier wt af Gydinganna hrædilegu Dæmi laatum oss umhugad vera ad leita DRottinns medann hann er Naalægur, Es. 55. ad ei føllum vier i nockurt syndsamlegt Andvaraleysi; Þvi ef Gud þyrmdi ecki hinum Naatturlegu Kvistunum, þa er Uggvænt ad hann oss ei þyrmi, Rom. 11. Eg hefi i Guds Nafni aasett, i þetta Sinn, ad tala um þaa Hlute wt af Gudspiallenu, sem oss kunna ad hvetia til ad rækia Guds Heilaga Ord, og laga vorn Lifnad þar epter, so ei kome yfer oss þær straungu Hootaner, sem ræts hafa allt of-miøg aa hanns Foolke Gydingum.

O DRotteñ hiaalpa hier til i Nafne JEsu Christi, þijns Eingietens Sonar, og gief þijnum Børnum Naad Heilags Anda þar til, Amen, J JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingiñ.

Þad er vidteked hiaa øllum Gudhræddum Møñum, ad Menn hallda þad fyrer stoora Synd, ad fara illa med Guds Gaafur, sem hañ hefur giefed oss til Notkunar og Lijfs Uppehelldis, og sa er ei þeirra verdugur, sem ecke hyrder þær og medtekur med stærsta Þacklæte og Lofgiørd vid Skaparann; Enn Ord DRottens er eingeñ Almeñeleg Guds Giøf; Þad kostade hinn eilijfa Vijsdoom ecke nema fæa Ord ad skapa Himen og

Jord af eingu Efne, Gen. 1. Af hvorium hann allt til þessarar nálægrar Stundar giefur allre Skiepnu sitt Foodur. Enn i Synda-Fallenu giørdest Vanmaatturenn so maattugur, ad hinn Goode Gud vard ad taka til Almættis sijns, so þad Endurskapad yrde, sem Syndenn og Dioefullenn høfdu Vanskapad, og þad kostade hann so miked, ad opennbera oss sinn Vilia og Veg Saaluhiaalparennar, ad þad eilijfa ORD Fødursins, Joh. 1. Hinn Eingietne Sonur Guds, sem er i hanns Skaute, hlaut Þioons Mind aa sig ad taka og giørast oss ad øllu lijkur, Phil. 2. ad Syndenne fraatekenne, jaa, ad þola hier i Eimdum vors Hollds allskonar Volæde og Vesølld. Hvad virdest ydur þa? Børn DROttens! Hvilijk Skomm er, þad einum Synda Þræl, ad troda under Fætur sier hina Dyrmætu Perlu, Matth. 13. sem DRottenn Dijrdarennar hefur kostad so miked uppaa, ecke sialfum sier til nockurra Nota, helldur hønum til Lækningar, til Miskunar og Syndalausnar, sem var hanns Ovinur og Barn Reidennar? Rom. 5. Eg vil ecke faa mier til Orda, umm Postula DRottens JEsu, hvøriær ed uppfyllt hafa Leifar Christi Harmkvæla aa sijnu Hollde, fyrer hanns Lijkama, sem er Søfnudurenn, so sem Paall umm sig ritar, Col. 1. Ecke i þeirre Meiningu, ad hid allra minnsta vante aa Christi Pijsler, til ad frida fyrer syndugt Manninn hiaa Gude, so ad þeir edur nockur annar þyrfte ad bæta hanns Forþienustu upp, helldur hinns vegna, ad Guds Sonur hefur ecke einasta lided oss til Forlijkunar, helldur og til Epterdæmis, so sem Postulenn til Hebreos, C. 12. vottar. Þa hafa þesser Guds Menn, ad Dæme sijns Herra, lided allskonar Hørmungar, og ad Sijduestu Daudann, til ad byrta Guds Søfnude (hvørn Paulus hier nefner Christi Lijkama) hanns Evangelium, og ad sijna þeim bæde med Orde og Epterdæme hina riettu Leid til Himnarijkis. Nu fyrst hin eilijfa Miskunseme hefur audsynt oss so stoora Giædsku, oss, sem búum aa Torfu þessare, so ad segia wtlæger fraa allre Verølldu, ad vier og meigum reiknast aa medal hanns Safnada; þa verum ecke so Opacklaater edur Ræmulauser, ad vier forsmaaum þennann dijra Doom, sem Guds Astviner hafa vared bæde Fie og Fiørve til ad wtbreida umm Verølldena, so ad þesse JEsu Christi Sendefor hefur og naad til vor, hvøria þeir ecke þecktu, edur vissu, hvørt vier mundum nockurn Tijma Manneskiur verda, edur ei, helldur giørdu þeir þad alleina wt af Hlijdne og Elsku vid sinn HErra, og heitum Kiærleika vid alla þaa, sem aa hanns Nafn trwa mundu; þvi søkum þess, ad þeir høfdu Vitnisburd H. Anda i Hiarta sijnu umm þad, ad þeir væru Guds Børn, og elskudu hann, og þecktu ad Motlæte þessara Tijma var ei verdt þeirrar Dijrdar, sem Gud hefur sijnum tilbwed i eilijfu Lijfe, Rom. 8. þa villdu þeir kosta Lijfe og Velferd til þess, ad sem flester kinnu hennar niootande verda. Epterdæme hinns H. Stephani, hvørs signadre Mynning ad þesse blessade Dagur helgadur er, þad heyrdum vier af Pistlenum, sem nijlega var sungenn fyrer Altarenu. O HErra Gud! hvilijk var hanns Roggseme, hanns Vandlæte, hanns Þolennmæde, þar ed hann, ad Dæme sijns Frelsara, Luc. 23. beidde fyrer þeim sem hann villde hafa aa Guds Veg snued; þegar hann stood fyrer Daudans Dyrum, vard hønum þad fyrst ad Veige, ad bidia Ovinum sijnum Myskunar, og sijdann ad fela

sinn Anda sijnum Frelsara l Hendur; So kiært hafde þesse Guds Astvinur, bæde sijna og þeirra Velferd. Þad er og kunnugt af St. Pals Pistle til Rom. Cap. 9. ad hann segier: Eg æske sialfur ad vera wtrekenn fraa JEsu Christo fyrer Brædur mijna epter Holldenu; og ad Postulenn hafe ecke talad þetta fyrer Sidasaker, helldur af fullre Alvoru, og (ef eg maa segia) af nockurskonar Elskunnar Ofþode, lijku þvi sem Christo þrijste til þess ad laata heingia sig fyrer Syndarann, þad votta þau Ord er hann skrifar strax ædur aa þennann Haatt: Eg segie Sannleika i Christo og lijg ecke, ad samvitnande mier Samvitsku minne fyrer H. Anda; Af hvoriu audsiert er, hvad lijtels hann meted hefur sijna Velferd hiaa annarra, uppaa þad hann feinge Vitnisburdenn JEsu Christi wtbreidt, þeim til Syndalausnar og Saaluhiaalpar, er hann bundinn, offooktur og hrektur fraa einne Borg i adra, fraa einum Raangläatum Doomara til annars: og mætte hier uppaa mörg onnur Dæme finna, ef þad Tijmenn leisde. Enn þu, sem ætlar þier med þessum Guds Einglum somu Vist ad hafa i eilijfre Himnarijkis Dijrd, giæt ad sialfum þier, ad þu ecke ad litlu hafer þann Dijrmæta Hlut, er þeir hafa so mikels meted. Og þegar þu heyrer Johannem Haalshoggvenn, Matth. 14. Jacob med sama Hætte Lijflaatenn, Act. 12. Petur Krossfestann, og allar Guds Hetiur med sinaanarlegum Dauda af Dogum teknar, fyrer þetta Sannleiksins Ord, og hina mestu Goodgiörd, sem aungvann Maka hefur; þa ber samann hvad fraaleitt ad sie þessu, Toomlæte og Haarœna sumra Manna, þeir ed lifa aa vorum Dogum, og allar Stunder þykia inndælle enn þær, er þeir eiga Guds Ehrende og Verk sinnar Saaluhiaalpar ad giora. So laangt er fraa þvi, ad þeir hafe sig epter nockud Gott ad nema af þeim, sem til þess eru setter, edur laata sier umhugad vera, ad Börn þeirra edur Hiw lære þad er þeim kann til Sid-Boota og Saalar-nota ad gagna, Jafnvel þott þvi sie nærre aa hvörium Helgum Deige yferlijst, ad aa Guds Hellogu Orda Predikingar, kann Madurenn sijdur ad lifa Andlegu Lijfe, helldur enn Lijkamlegu, fyrer utan Fædsluna. Þad vottar JEsus, er hann sannfærde Andskotann Fordum Daga med Moysis Ordum, Segiande: Madurenn lifer ecke af Einusamann Braude, Devt. 8. helldur af sierhvoriu Orde þvi er framgeingur af Guds Munne, Matth. 4. Hvad vill hier af verda, Börn mijn? Nema ad sa er andlega daudur, sem ecke hefur Foostur Saalu sinne Guds Orde, jafnvel þoott hann life fullur og feitur i Lijkamanum. O Jerusalem! Jerusalem, Þu Sem Aflijfar Spaamennena Og Grijter Þaa Sem til Þijn Eru Sender! Segier JEsus. Ad sönnu giorer þad eingenn medal vor; Enn hvad giora þeir, ed forakta Spaadoomana og þær Kienningar sem þar wt af eru? Þaa vantar eckert nema Tækefæred til ad giora hid sama. JEsus griet yfer Borgenne er hann saa hana og sagde: Ef þu visser hvad til þijns Fridar heyrde, þa munder þu aa þessum þijnum Tijma þar Vaktan aa hafa, enn nu er þad huled fyrer þijnum Augum, Luc. 19. Mun hann enn nu ecke i Dag segia hid sama i sijnu Heilaga Orde, vid alla Hyrdulausa, sem ecke vita ad giora Grein aa Trw sinne, edur skynia meir hvad Christenndoomur er, enn blindur Madur kann um Lit ad dæma? Þetta munu Ofgat þikia: Enn eg maa spyria: ef Menn vita þad Almennelega,

Þvi haga þeir sier ecke þar epter? og ef Menn þad ecke vita þvi leggia þeir ecke allann Hug a ad naa þvi, ann hvors þeir kunna ecke Guds Born ad heita, ecke Himnarijke ad erfa, og ecke, ellijfar Helvijtis Pijsler ad umflya? Eg vil ei tala um þad, hvorsu hyrdulauser ad marger er eru i þvi, ad laata Born og Ungdoom læra ad lesa Guds Ord, sem þo er eitt ágiætt Medal til ad naa Grundvellenum i hinum sanna Christenndoome og so miklum Froodleik i Guds Orde, sem næger til Saaluhiaalpar: Ecke er ad dyliast vid þad, ad marger Unglingar eru so Tornæmer, ad þeir faa ecke teked allt þad af einum Predikunar-Stool, sem þeir þurfa til Andlegs Upphelldis. Sæded ber ecke Avoxt þott þvi sie kastad i Jordena nema þad rotne, 1. Cor. 15. ei helldur Guds Ord i Mannsins Hiarta, nema Menn smellte þad med ydugligre Umþeinkingu: Ad þessu giæta Menn ecke, og ætla þad sie noog, ef Guds Ord þijtur um Eyrunn i Kyrkiunne, og jafnvel þott sumer medtake þad med Fagnade, um Stundarsaker, Luc. 8. þa hefur þad ecke alltijd so mikla Root, ad þad fære Avoxt, nema þad sie nært og vokvad med sijfelldri Astundan.

Gud skipade Israel, ad þeir skylldu brijna sitt H. Logmaal fyrer Bornum sijnum, þa þeir sætu i sijnu Huse, Deut. 6. Enn ef so þootte miked varda um Logmaaled, sem er nockurskonar deydande Bookstafur, 2. Cor. 3. og aungvann kann af sialfu sier hoolpenn ad giora: Hvad skal eg þa segia um Ord Evangelii, Sem er Kraptur Guds til Saaluhiaalpar ollum þeim sem trwa, Rom. 1. Skyllde þad ecke med allre Astundan kostgiæfa? Edur, segied mier, Brædur mijner, er þad so lijted, ad vier meigum þessarar Guds Gaafu med Fride og Frelse niota, Fyrer hvoria Guds Eingietenn Sonur hefur Lijf sitt laated, og hanns Heilager Pijslarvottar epter hann, til ad stadfesta hanns Vitnisburd hiaa Mannanna Sonum Æfennlega, inntil þess hann kiemur? So er nu Guds Heilagt Ord dijrmætt; So er þad til Saaluhiaalpar Naudsynlegt, edur, riettara ad segia, Omissande. Nu vil eg þess hier gieta, ad þetta Tijmanlega Lijf, þad er Eymdum og Andstreyme vafed. Madurenn, af Kvinnunne fæddur, er fullur Eymda og faarra Lijfdaga, segier H. Job. C. 14. Og jafnvel þeir sem Heimurenn lætur vel, ad þeir una þo ecke aa allann Haatt vel vid Hag sinn, hvar skulum vier faa annad betra Raad vid slijku, enn i Guds Heilaga Orde? Morg eru Manna Mein. Einn hefur Fullsælu Fiaar, enn er þo Oheill ad Lijkamans Burdum. Ecke gietur Gots edur Gardar bætt honum þad, Guds Ord verdur ad hugga hann i hanns Veikleika, so ad þott Saal og Lijf vanmegnest, þa lære hann samt af þvi ad vona aa DROttenn, Ps. 73. Maaskie hann sie og heilbrigdur, enn aa Osuindar-Menn, þa epter honum sitja, og laata hann ecke i Fride, hvorke Nott nie Dag; eckert stodugt Raad finnur hann vid þvi i Veralldlegum Munum, edur hiaa sinne Skynseme, þott hann sie Allvitur, Þvi vorer Vitsmuner eru Haalfverk, 1. Cor. 13. Guds Ord skal kienna honum ad varpa allre sinne Ahyggiu uppaa Gud, hann mun þvi vel til Vegar koma. Kannskie hann vante og hvorke Heilsu, Metord nie Vinsælldir, Enn þa er honum nærsta hætt ad ecke falle hann i Andvaraleise, Nema hann lære ad þeckia sig af Guds Orde. Verda maa hann gyrnest meira enn hann aa, so sem þad giarn-

ann fylger Audlegdenne, Pad er verka enn Barnheilsa Lijkamans; Þvi pad er nockurskonar Sinnisveikia: Vid þvi gliefur Guds Ord honum Raad, ad ecker hafe hann inn i Heiminn bored, mune þvi eckert i burtu bera, 1. Tim. 6. Lære þvi ad vera rijkur af goodum Verkum, Og medbijta hinum Naudþurftuga, ef hann vill riettelega Aud sinn bruka. Kannskie og hann sæke Tijmannlegann Munad i Audlegd sinne, og segie med hinum Rijka: Et og dreck Saala mijn, Þu hefur til margra Ara samannsafnad, Luc. 12. Enn Guds Ord minner hann aa, ad hafa sijna Unadsemd i Drottni, hann mun giefa honum pad hanns Hiarta gyrnest, Ps. 37. Annar er heill Heilsu sinnar, Enn hefur Skort aa Lijkamlegre Atvinnu og Veralldar Munum, honum segier Guds Ord, ad þegar hann hafe pad hann kunne ad eta og drecka og klædast med, skule hann ecke framar Umsorga edur fyrer Morgundeigenum Umhyggiu bera, Matt. 6. So ad hvorn Kost Mannlegs Lifnadar sem vier tokum, þa er Guds Heilagt Ord Boot vid ollum Meinum, so sem Paulus vottar, ad Gudhrædslann sie til allra Hluta Nytsamleg, 1. Tim. 4. Þetta vil eg nu ecke sagt hafa i þeirre Meiningu, ad pad sie noog ad heyra Guds Ord og læra pad, so ad Menn kunne Greiner Ritningarennar og adra Fræde utannad, þvi Guds Rijke er ecke foolged i Ordum, helldur i Krapte, 1. Cor. 4. Pad er ecke noog ad hroosa Guds Heilogum Pijslarvottum, Enn lifa þo ecke epter þeirra Dæme edur Kienningu; Pad geingur nærst þvi ad uppbyggia Leide Spaamannanna, og prijda Grafer Riettlaatra, og segia: Hefdum vier vered aa Dogum Fedra vorra, villdum vier ecke hafa vered þeirra Stallbrædur i Lijflaate Spaamannanna, Matth. 23. Þvi so sem ad Paull segier, Rom. 2. Ad ecke Heyrendur Logmaalsins sieu Riettlaater, helldur þess Giorendur mune Riettlaater verda; So kallar og Christur þa Sæla, sem ecke alleina heyra Orded, helldur þa sem vardveita pad, Luc. 11. Enn ad vardveita Orded, pad er, ad lifa þar epter. Forgiefens vardveita Menn Orded i Hiartanu, nema þeir laate pad sioa i Lijfernenu; Þvi af þeirra Avoxtum skulu þeir þeckia þa, segier HErrann, Matth. 7. Gud lætur rigna hid sama Regn yfer Korn-Akurenn og Þyrnebuskenn, enn yfer Korned til þess ad þvi verde samannsafnad i Hloduna, enn Þyrnerenn verdur uppbrendur, Matth. 13. Og þo er Doggenn hin sama; Siaie hvor eirn til, hvoria Root hann hefur i Hiarta sijnu, til ad taka aa moote hinne Himnesku Dogg, sem ad er Guds Ord; Giæte sierhvor ad, hvad laangt ad þesse Vokve sijgur, og i hvada Jord hann fellur. Doggenn er good, Orded er gott, allt þaangad til pad kiemur i vondt Hiarta, og verdur þar Ilmur Daudans til Daudans, 2. Cor. 2. Og þeim til Fordæmingar sem aungvann Avoxt færa, nema Þyrna og Þystla, sem til einskis annars duga, enn ad utkastast og i Ellde brennast, Hebr. 6. enn eg veit ecke hvort hun hefur i gooda Jord falled, nema Avexterner pad auglijse, Matth. 5. So lijse ydar Lioos fyrer Monnum ad þeir siaie ydar Goodverk, og dyrke ydvarn Fodur sem aa Himnum er. Ecke var ad aalasa Gydingum fyrer pad, ad þeir ecke kynnu Ritningarnar. Paulus segier um þa, ad þeir hafe haft ad sonnu Vandlætingu Guds, enn ecke epter Skynseme, Rom. 10. Þeir voru bæde Skriptlærder og

Log-

Logvitringar, enn þo kallar JEsus Phariſæos Blinda, Blindra Leidtogara, og ad þeir gleymi þvi ſem meſt er i Logmaalenu, Doomenum, Trwnne og Myſkunſemenne, Matth. 23. Sadúcæi þoottuſt og Spekingar vera, og villdu þreyta Spurningar vid Chriſt, enn DRotteň ſagde vid þa, Þier villeſt og vited ecke Ritningarnar, Matth. 22. Spekingar Gydinga, ſem lifdu aa Chriſti Dogum, voru i þeirre Meiningu, ad þeir alldrei kynnu ad forgaanga edur illa fara, þvi þeir væru Abrahams Syner, Joh. 8. Enn Johannes kiende þeim þad laangtum odruvijs, þegar þeſſer hvorutveggiu komu til hanns Skijrnar, þa ſagde hann, Matth. 3. Þier Nødru-Kyn, hvør heſur kiennt ydur ad umflya tilkomande Reide? Þar fyrer giored verduga Avoxtu Ydranenne, og ſeiged ecke med ſiaalfum ydur, Vier høfum Abraham fyrer Fodur, þvi mœttugur er Gud ad uppvekia Abraham Sonu af Steinum þeſſum. Forfedur þeſſa Lijds hielldu miked uppaa hid Fyrra Muſtered, er Salomon Konungur liet byggia, og meintu ad þad alldrei ſkyllde falla, af þvi ad þeir ecke riett ſkilldu Guds Fyrerheit, þvi ſegier DRottenn Gud fyrer Munn Jeremjæ: Cap. 7. Setied ecke Trauſt ydar aa falſka Hlute, Segiande: Muſtere DRottenns, Muſtere DRottenns, helldur vanded Vegu ydar og Giorder ydar, og giored riett aa mille eins Maňs og aňars: Þegar þier Steled, Myrded, drijged Hoor, Sveried falſklega og dijrked Baal, ſkylldu þier þa koma og ſtanda fyrer mier i þeſſu Hwſe, ſem kallad er epter mijnu Nafne, Og ſeigied: Vier erum Ohulter; So ad þier giored allrahanda Svijvirdingar? Þeſſa Mæling ſinna Fedra uppfylltu Jſraels Syner aa Chriſti Dogum: Þad er alkunnugt af Joſepho, þeirra eigenn Sagna Meiſtara, hvørſu Kappſamlega þeir hielldu uppaa Muſtered, og ſo leinge þad ſtood, villdu þeir ecke þijdaſt under hid Romverſka Valld. Þar fyrer var þad ein Høfud-Søk hiaa þeim, ad tala hid minnſta i giegn þeſſu Guds Hwſe; þad ſijner oſs Dæme Chriſti, Matth. 26. Dæme Stephani, Act. 6. Dæme Pauli, Act. 21. Hvørier aller voru fyrer þetta hardlega aaklagader; Enn ecke ad ſijdur ſegier JEſus hier i Gudſpiallenu: Ydar Hws Skal Ydur i Eyde Laated Verda. Þad er; ad hinn vollduge Gud villde þar ecke leinge inne bwa: Þad took til ſnemma ad rætaſt, þegar Fortialld ed mille Muſtereſins og hins Allra Helgaſta rifnade i ſundur i Pijnunne Chriſti, Luc 23. Voru og ecke miog morg Ar til þeſs, ad Joſephus ſkrifar, ad nockru fyrer Eydeleggingunna hafe Rodd heyrſt i Muſterenu, ſegiande: Forum burt hiedann. Nu vil eg minnaſt aa þad DRotteň ſeger vid Juda, Jer. 7. Fared þier til mijns Stadar, ſem var i Silo, hvar eg liet mitt Nafn fyrſt bwa, og ſiaaed hvad eg heſe giort vid hann fyrer Jllſku mijns Foolks Jſrael. Þar fyrer, af þvi ad þier giored nu oll þeſſe Verk, ſeiger DRottenn, og ad þier heyred ecke þa eg tala til ydar fraa Morgne til Kvollds, þier giegned mier ecke þegar eg kalla, þa vil eg giora vid þetta Hws, ſem kallad er epter mijnu Nafne, uppaa hvort þier treyſted, og þennann Stad, hvørn eg heſe giefed ydur og ydar Forfedrum, ſo ſem eg heſe giort Silo. Nu vil eg ſeigia i Guds Stad, Brædur mijner, gaanged þier til hinnar ſijdare Jeruſalem, og ſkoded alla þa Olucku ſem yfer hana er komenn, og hvørſu Spaadoomur HErraňs

anns Chriſti er rættur a henne, ad ei munde þar Steirn yfer Steine vera, Luc. 19. Chriſtur ſegier: Ydar Hws Mun Ydur i Eyde Laated Verda. Hvar fyrer? Þvi þad ecke var framar Guds Hws; þad vottar hann ſialfur ſkomu ſijdar, er hann ſagde: Skrifad er, Mitt Hws er Bæna-Hws, enn þier hafed giort þad ad Ræningia-Bæle. Chriſtenns Manns Hiarta er i Endurfædingunne uppbygt til þeſs ad vera Guds Muſtere: vited þier ecke, ſegier Paall, 1. Cor. 3. ad þier erud Muſtere Guds: Og enn aptur ſegier hann: ydar Lijkamer eru Muſtere H. Anda, Cap. 6. Hvad verdur þa, Br. M. Þegar Guds Muſtere verdur ſaurgad? Þad verdur Ræningia-Bæle, þegar þad, med illum Hugrenningum Ordum og Giordum, ſem af Hiartanu framkoma, verdur giort ad Satans Herberge; Mun þad þa framar vera Guds Kyrkia? Þeſs være Oſkande, ad ecke hendte Chriſtna Menn þad ſama og Gydinga, ad þeir reiddu ſig ofmiog uppa þad, ad þeir være ſkijrder, geinge til Altares, heyrdu Guds Ord i Kyrkiunne: Allt þetta giordu Gydingar epter þeirre Pioonuſtu, ſem a Gamla Teſtamenteſins Dogum tijdkud var. Þad er ad ſonnu Gude ad þacka, ad færſter a medal vor adhafaſt þær Skammer, ſem þeim er brixlad um: Fæer ſlaa Menn i Hel, Færſter leggiaſt med Kvinnu ſijns Naaunga, þeir eru nu ecke helldur ſo marger miog, ſem fundner verda i Opennberum Pioosnade, enn verda ma ad margur læte ſierhvad af þeſſu Ogiort, annadhvort af þvi ad hann er ecke ſo Skape farenn, meir helldur enn af Trwnne og Elſkunne til Guds, og Kiærlekanum til Naungans, edur og ad vær ottiinſt Mennena, og annadhvort Straff edur Amæle af þeim, og er ſlijkt eingenn Dygd fyrer Gude. Iſenn brenner ecke, af þvi hann er kalldur, og Vatned rennur ei afram þa þad er ſtijblad upp; ſo og hefur ſa ecke et Hroos fyrer Gudi, ſem af Naatturunne er ſidſamur, og ecke hneigdur til Stoor-Glæpa, og hefur þo ſierhvor eirn ſo miked Illt i ſier, ad hann gietur med þeſs Aſlaate Gud dijrdkad, þad munde ſierhver eirn finna, ef hann geinge nockud ſkarplega i Riett vid ſialfann ſig, og liete ſier ecke nægia Skriftargang Phariſæarans: Eg þacka þier Gud, þad eg em ecke ſo ſem adrer Menn, Luc. 18. Þeir voru Sidprwdir Menn i wtwortis Hattſeme, og lifdu Hardlijfe, enn þo heyrum vier þeirra Vitnesburd, Matth. 23. af honum, ſem viſſe hvad med Mannenum bioo, Joh. 2. Og ſo ſem þeir þoottuſt ecke þurfa Chriſts Forþienuſtu vid, ſo Ottaſt eg ad Menn ydreſt nu ecke nema ſtoorra Klækia, enn giore ſma Syndernar a d hinum ſtærſtu Syndum, og kaſti þeim Ydrunarlauſt uppa Guds Sonar Hrygg, þvi hann hafe noogu breidt Baked ad bera þær. Þad hafde ſa goode HErra, er hann var Hwdſtrijktur fyrer mijna Skulld, ſem veit mijns HErra Vilia, enn giore hann ecke, og hefe þvi morg Sloeg forſkulldad, Luc. 12. Þad hafde hann þegar hann bar ſinn Kroſs wt af Jeruſalem minna vegna, ſem lær ſo illa vid, ad taka hanns Kroſs uppa mig og fylgia honum epter, er hanns þvi ecke verdugur, Matth. 10. Þad hafde hann, þegar hann bar mijnar Synder uppa Tried, og liet ſitt Lijf fyrer þær a hinum ſmaanarlega Kroſſens Galga fyrer mig, ſem ad ſo tregt veiter ad Kroſsfeſta mitt Holld med þeſs Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Enn ad hann vilie taka i moote þeim Syndunum og kaſta þeim i Haffsins Dijpſtu

ſeiſt

sem eirn helldur eck; fyrir Synd, og ecki þeckir hann þad fyrir Synd, jafnvel þogtt hann meigi þad vel þeckia af Guds Heilogu Ordi, ef hann giæfi sier Stundir til ad Rañsaka Guds Vilia og sitt Frañferdi, þvi hefur hann ecki lofad, og aungvu uñheited, ad þær kvittast skule fyrer hanns Dauda, nema Meñ þeirra af Hiarta ydrest. Eg tala uñ þær, sem Eirn veit og man, þvi uñ hinar Ovitañlegu, hvorra Fiollda eingeñ veit, Ps. 19. vil eg ei odruvijse tala, eñ ad Eirn Syndare laate sig af Hiarta angra þad, ad hañ gietur ecke i þessu Hollde eitt Augnablik Syndlaust lifad. O HErra Gud, þu hinn Heilagi og Riettlaati! hvor kann ad vita, hvad oft hann syndgar? Allir Heilagir hlioota þig Fyrirgiefningar ad bidia, Ps. 32. A þeim Deigi, nær Reikningsskapariñ skal halldast, hvad munum vier þa ecki Ohreinir Ormar? Gud vertu oss syndugum Lijknsamur, og hiaalpa oss, O HErra! fyrir þijna Giædsku, sem ecki villt Syndarans Dauda, ad vier lærum ad þeckia vorn Saurugleik, og sporna vid Syndunum, so vier mættum med alvarlegri Ydran og þijns Sonar Bloodi afþveignir, vera visser uñ Fyrirgiefning vorra Afbrota, aadur enn vier forum burt hiedann. Þad veiti goodur Gud fyrir JEsu Blessadar Undir og Forþienustu, Amen.

# Pridia Dag Joola.

Gudspiallid, St. Joh. 21. Cap.

I Þañ Tijma, sagdi JEsus til Peturs: Fylg þu mier eptir. Petur sneri sier vid, og leit þañ Lærisvein eftirfylgianda, sem ad JEsus elskadi; Sa er og uñ Kvølldmaaltijdina hafde aa hañs Briioosti leigid, og sagt: HErra, hvor er sa er þig Forrædur? Pa ed Petur leit nu þeñañ, seigir hañ til JEsu: HErra, hvad skal þessi? JEsus seigir til hañs? Ef eg vil hañ blijfi til þess eg kiem; Hvad kiemur þad vid þig? Fylg þu mier eptir. Pa gieck so Ordræda aa medal Brædrañá; Þesse Lærisveirn deyr ecki. Og JEsus sagdi eigi til hañs: hañ deyr eigi: helldur, ef eg vil hañ blijfi til þess eg kiem, hvad kiemur þad vid þig? Þessi er sa Lærisveirn, er uñ þetta ber Vitni, og þetta skrifadi, og vier vitum ad hañs Vitnisburdur er sañur.

## Exordium.

VErst siaa sum DRottni JEsu Christo, og þeim Astgiofum sem hinn Goodi Gud hefur i honum giefid vondri Manneskiu, þaer einginn þvilijk, so sem Raad og Skilningur, er hann hefur Saalir vorar prijddar med: þau adgreina oss fraa Villu-Dijrunum, Grosunum, Eykunum og odrum Skiepnum aa Jordunni. Eg veit ecki i hvoriu Madurinn væri betri enn Hesturiñ, nema ad hañ stioornadist af Skynseminni, og hvad meira er, ad ein Vitstola Manneskia, hvoria Gud hefur med

Faasinnu straffad; hun er øllum ødrum Skiepnum midur aa sig kominn, hvad oss sem Heilvita erum, fyrer Guds Þolinnmædi, ætte ad þrijsta til þess ad brwka Diirgrip þennann til Lofs og Dijrdar honum, er hañ oss giefid hefur. Enn Gud naadi! ad þar vill vera stoor Brestur aa hiaa all-morgum og hiaa flestum, og, eg maa seigia, hiaa øllum nockur; So ad David hefur nooga Orsøk til ad taka syndugum Mønnum Vara fyrir, ad ecki lijkist þeir Hestum og Mwlum, hvorium Menn verda Beitsli og Bitil i Munn ad leggia, Psalm. 32. Og samt þykiunst vier all:r noogu Vitrir, og erum noogu framvijgdir i þvi Skada ad giora, i þvi ad dæma um̃ adra enn ecki um̃ sialfa oss, i þvi ad leita eftir þvi sem vort er, enn ecki annars, þvert aa mooti Postulans Bodi, 1. Cor. 10. So þad geingur Olijkt þvi er hann i ødrum Stad seigir; ad Menn eru Børn i Skynseminni, enn ecki i Hreckvijsinni, 1. Cor. 14. Eg meina i hinni riettu Vitsku, sem Ritningin so kallar, og þar i er foolgiñ, ad þeckia Gud og sialfann sig, og velldur þad þvi, ad Menn laata sier vera so añt um̃ þad, ad hnijsa um̃ annara Maña Haattu, ad Menn giefa sier ecki Stundir til ad rañsaka sijna eiginn, hvoriu þo eckert er þarfara i voru Saaluhiaalpar Verke; og er þesse Spilling Naatturunnar so rijk i Mannlegu Holldi, ad Grein af henni hefur strøngid sier wt, jafnvel hiaa Guds Ástvinum. Dæmi hofum vier aa hinum Heilaga Petri i upplesnu Gudspialli; Enn uppaa þad ad Menn vita skylldi ad þvilijkt er Synd, jaa, ein Synd sem margt Illt af sier leidir, sem sijdar mun sagt verda; Þa aataldi DRottinn þeñan sinn Lærisvein nærsta hardlega og røggsamlega fyrir þetta. Nu þoott ad Skap-Lostur þessi sie ecki hinn minnste Avoxtur Spillingareñar, þa vite Menn þo, ad Gud er so Vijs, og so Maattugur i Breiskleikanum, ad þar er eckert i Naatturu Mannsins so illt, ad hann kunne ecke Gott af ad giora, þvi ad Tilhneigingarnar voru i Ondverdu goodar og af Gude skapadar, Vanbrwkunenn giorer þær skadlegar; Enn þegar þær verda hreinsadar fyrer Endurnijungu H. Anda; þa kunna þær enn nu allar Gude ad þioona til Vegsemdar, og Endurgietnum Manne til Saaluhiaalpar. Þar fyrer, ad so sem Forvitnenn er Skadleg og Haaskasamleg, ef henne er beitt i þeim Hlutum, sem Gud hefur bannad, so er hun Þorf og Gagnleg, sie hun brwkud til þeirra, er hann bodid hefur. Eg vil um̃ hvorttveggia tala med faaum Ordum, eftir þvi sem Gud giefur Naad til. Hvar til hann styrkia verdist med Krafti sijns Anda i JEsu Nafni, AMEN.

## Utleggingiñ.

Aa leidir gott af Forvitniñi, seigir Ords-Haattur gamall: Vier hofum nockrum Siñum heyrt, ad þær Syndirnar, er vier miñstar hølldum, þær kuña ad verda ad þeim stærstu; velldur þad þvi, ad Meñ bidia Gud ecki miog rækilega Fyrirgiefningar aa þeim, eins og ad hañ sie skylldugur til ad hallda oss þad til Gooda, sem vier ecki mis-virdum aa sialfum oss, og geingur þad eins til um̃ þetta, og um̃ litla Skeinu aa Lijkamanum, þa er vier forsmaaum, ad hun verdur oftlega ad Lijfs og Lima Tiooni, sie ecki

vid giort; Enn þad maa kunnugt vera, ad þesse Okostur er ecke halldenn fyrer neina Synd af mørgum, og þo kannskie fyrer Dygd, fyrer Adgiætne, fyrer Kostgiæfne, fyrer Fraamsyne, og hiner sem hana ecke æfa, fyrer Oþocka og Raadleysingia. Være nu þetta einginn Stoor Synd i ødru, þa er hun þo i þvi, ad hun ecke er halldenn fyrer Synd, þvi eins kann ein lijtel Synd ad fordæma Mannenn fyrer Guds straangq Doome, so sem ein stoor, og verda þær þo þijngstar sem alldrei verda þecktar nie med alvarlegre Ydran afþvegnar: Þad syner oss Dæme Phariseearans og Tollheimtumannsins hvor ed foor Riettlæt-are hinum aptur i sitt Hus, Luc. 18. Nu er þessu þo ecke so vared um Forvitnena, ad hun sie lijtil Synd, og hafe Menn ecke annad til Dæmis, þa skignust epter þvi, hvornenn Syndenn fyrst inn-kom i Heimenn. Paall segier oss, þad hafe skied fyrer eirn Mann, i hvorium aller syndgudu, Rom. 5. Med hvoriu Mooti var þad? Ritningenn greiner umm þad noogu skijrlega hvornenn Diøfullenn sveik vora Fyrstu Forelldra, sem er, ad þau skylldu faa Gyrnd til ad þeckia hid Illa, og forsmaa Guds Bodord i þvi ad vita hvornenn Epled smackade, og ad verda Gude lijk, Gen. 3. Segied mier, Br. M. er ecke af þessare Forvitne komenn øll Synd, og Daudenn, sem er hennar Verdlaun, iñrunenn til allra Manna? Rom. 5. Bid eg ydur þvi ad athuga, sem Christner heita villed, ad ef Agg, Reide, Præta, Øfund, Agyrne, Drambseme, Mañdraap, Hoordoomur, Frillulifnadur, Afgudadyrkan, Gudlastan, Gal. 5. og adrar Skañer, sem steipa Syndarunum i eilijfa Glotun, ef þetta (segie eg) eru Okoster halldnir ydar aa medal, hvort ad Forvitnenn (sem eg hefe synt og enn þa framar skal syna, ad sie Mooder alls þessa), sie goodur Kostur, edur so lijtel Synd sem hun af Almenninge halldenn er. Ad soñu er þad satt, ad vier i aungvann Maata eigum vorum Fyrstu Forelldrum ad aalasa, þvi þau brukade Gud til þess Medals, ad vier sem nu lifum, kunnum ad verda hluttakande hanns Giædsku. Þo verdur þvi ecke mootsagt, ad þesse þeirra Forvitnis Synd, hun var hin stærsta Synd, sem af Mannkynenu hefur framenn vered; allar Synder sem sijdann giorst hafa, þær eru ad sonnu aa moote Gude giordar, þo Menn fremie þær vid Naaungann, enn þesse stefnde Riettlijnis aa Guds Dijrdarfullu Haatign; Allt hvad Menn nu syndga, þad syndga Menn af Breiskleika edur Illsku Natturunnar, hvorrar Paankar eru vonder i fraa Barndoome, Gen. 8. Enn þau voru Heiløg skopud, og þar þau voru so Dijrdleg skopud, þa gaatu þau audvelldlega hallded Guds Bodord. Eg maa ei faa mier þad til Orda, ad þau steiptu øllum sijnum Epterkomendum i Tijmannlega og eilijfa Ogiæfu hier med, þvi Guds Ouñrædeleg Giædska, sem hefur fyrergiefed þeim, hefur giefed mier og øllum ødrum Stoor-Syndurum noog Medal i sijns Eingietins Sonar dyrmætum og saklausum Dauda, til ad faa þetta endurbætt oss til Saaluhiaalpar og Miskunar. Enn hitt vil eg bidia ydur ad hugleida, hvort ad Gud, sem vegna sijns Riettlætis straffade so hardlega þessa Synd, Forvitnena, aa vorum Fyrstu Forelldrum, hvort hann, segie eg, mune kalla hana gooda aa oss, sem valla kollum hana Synd ad vera. Nu so sem ad þesse Synd var i Upphafe Ordsok til allrar Mannsins Olucku, so er hun enn nu til hvorrar

Syndar; ef Menn riett adgaa; Af henne sprettur allt Ranglæte moote Gude, moote sialfum oss, og moote Naunganum. Andskotenn sagde i Fyrstu vid Konuna: Gud veit, ad nær sem þid eted af Eplenu þa munu upplwkast Augu yckar, ad þid verded so sem Guder, skyniande Gott og Illt, Gen. 3. Hier af kiemur Forvitnesiw, ad Menn vilia ecke laata sier nægiast med þad sem Gud hefur opinberad oss i sinu H. Orde til Saaluhiaalpar, hvornenn vier eigum ad trwa, hvornenn vier eigum Christelega ad lifa, helldur giora sier adskilianlegar Grillur um Guds Fyrerhyggiu, um hanns Veru, um þær Þriaar Persoonur, um þau Heilogu Sacramenta, og margt annad, sem Guds Speke hefur ei unnt syndugum monnum grant ad þeckia, og hefur þo allt þetta so berlega auglyst hvorium Heilvita Manne, sem ecke forsmaaer Uppfrædinguna, ad hann maa þar vid vel una og hoolpenn verda; enn þeir sem þa vilia Forvitrer vera þeir hafa lært þad af Fiandanum, ad laata sier ecke nægiast med Guds Giof, helldur eyda goodum Gaafum og Tijmanum, sem Gud hefur giefed til ad rækia sijna Saaluhiaalp, og ad kienna odrum, til þess ad skignast inn i Guds Leyndardooma, og hid Orannsakanlega Diwp hanns Guddoomlegrar Speke, lijker Bethsemitum, hvorier af Forvitne skignduzt inn i Orkena, og urdu þarfyrer af Gude slegner morg Þusund Manna, 1. Sam. 6. So eru og marger af hinum med Blindne slegner, þvi DRottenn hefur hondlad þaa i þeirra Slægvitsku, og hann veit ad Prætur Vitringanna eru Hiegoome, 1. Cor. 3. Eins og Gud, sa sem vill ad aller Menn verde Saaluhoolpner, 1. Tim. 2. hefde ecke giort þetta lioosara, hefde hann vitad, þad munde Manneskiunne vera hagannlegra til Saalar-Nota. Og þannenn er nu Forvitnenn þeim skadleg, er sig hyggna og lærdasta kalla, hvar af oll Vantrw, oll Hiaatru, Afgudadyrdkan, Mannasetningar, Jaa allar Trwar-Villur, og Andskotans Evangelium er innkomed i Heimenn; og hvor vill þa segia ad Forvitnenn sie ein lijtel Synd? Og þannenn vanvirda Menn nu Gud med þessu, er vier Speke kollum, og syndgar so Forvitnenn einmidt aa moote honum: Enn ei giorer hun þad minna aa moote sialfum oss og Naunganum, þoott ecke eigum vier so Sok þar aa, þar vier erum ecke vorer eigenn Herrar: Gud aa alla Sokena, samt lender Skadenn hiaa oss, honum kunnum vier eckert Illt ad giora med Forvitnenne. Vær komustum ei leingra þar med, enn hiner, er ætludu ad byggia sier Turn upp under Himenenn, Gen. 11. Sialfum oss er hun vest og so Naunganum.

Þegar Diofullenn hafde smeigt þvi inn hiaa Konunne, ad Ovirda Gud, þa flaug henne þad strax i Hug ad vita hvornenn Epled smackade, og ad locka Mannenn til Syndarennar, Gen. 3. So giorer hann enn i Dag, þegar hann fær þvi skoted i Hug Mannsins ad akta Gud lijtels, af þvi hann skilur ecke allt hanns Raad, og þar kiemur ei strax Hefnd yfer vondar Athafner, þa hefur hann bwed sier Rwm i hanns Hiarta, til ad forvitnast um þad, er hann skilia kann, sem er, um Hage Naungans. Eingenn aa meire Plaagu enn sa, er þessum Siukdoome er underorpenn. Hvor er vesælle enn sa, hvors Hiarta ad Diofullenn hefur med Agyrne innteked? Enn mun nockud hinn Agiarne gieta vered aan Forvitne. Hann pyr alla Vegana epter þvi, hvornenn odrum gainge, hvad um þeirra Eigur lijde, hvor-

jar

ar Utriettingar þeir hafi, ecke til þess ad samfagna þeim, ef þad er vel, edur ad sampijnast, ef þad er illa, helldur ad hann meige svæla under sig aa einhvørn Haatt Eigur þeirra, edur hindra þeirra Utvegu sier til Abata; Takest honum þad ecke, þa leggst hann uppaa Sængena, eins og Achab, 1, Reg. 21. Og uner ecke vid, nema hann faae Nabot i Hel komed. Ofundena gietur Forvitnenn af sier, og hun foostrar hana. Eingenn ofundar annann fyrer þa Hlute sem hann ecke af veit; Enn þad er Plaaga hins Ofundsiwka, ad hañ gietur ei lifad aan þess, ad forvitnast uñ Hage sijns Naunga, Jafnvel þoott eingenn Drep fiootti sie honum þvilijk, so sem ef honum lijdur vel, og lijdur honum illa, þa er honum þad ad sonnu ein Stundar-Glede, eñ helldur þo jafnan Spurnum fyrer, hvort þad mune ecke midur vera; Og sie þad ei, Lijkar honum illa. Eins er hann og Andskotenn: honum þyker vænt uñ Mootgaang Manneskiunnar, enn samt er hann þo eins Vesæll. Hinn Dramblaate er Forvitenn, þvi hann er Ævugijrugur, hann spyrst fyrer, hvort nockrum sie meire Lotning veitt enn sier? Og finne hann Brest þar aa, þa eyrer hann þvi ecke betur, eñ Haman, þa Mardocheus ei vilde heidra hann eins og adrer, Esth. 5. Og er þetta ein stoor Olucka, ecke einasta þeim sem verda fyrer Skadanum og Ofbelldenu, helldur og hinum, er ala þessa Ovætte i Hiarta sijnu; Og maa þann med riettu Diofuls-Vodann kalla, sem af þessum Premur Andskotans Einglum er plaagadur, þvi hvør þeirra hefur heila Sveit Diofla, þad er, Skaṁa og Lasta, Og er Forvitnenn þeim so handgeingenn, ad þeir verda ad brwka hana til allra sinna Utriettinga i Satans Eyrendum. Hvør er sw Olucka Manna aa medal, sem Reidenn og Heiptræknen ecke af Stad kome? Sundurþyckia, Tvijdrægne, Mord, Mannslag, Strijd og Bloods Uthellingar, mun þad ecke allt af henne koma? Enn hvad seger hinn Vijse Seneca hier uñ? Vilier þu ecke Heiptrækur vera, þa vert ei Hnijsenn. Þad er margra Manna Haattur, ad þeim er mikel Forvitne aa ad vita, hvad uñ þaa er talad og Raadslagad; Enn slijkt er stoor Prælddoomur og faavijsleg Ordsijke, þviad soddann Menn skal alldrei vanta eirn Hræsnara, eirn Ligara, saa ed bere i Eyru þeirra falskar Søgur, Roog og Bakmælge, hvort ad aflar stoors Orooa i Hiartanu, eñ hiaalpar eckert til Eyrindanna Framkvæmdar, og lætur optlega þann, er giefeñ er fyrer slijku, taka uppaa sig Oþarfa Mædu og Umhyggiu; og þoott Menn forsvare slijkt med þvi, ad Menn hlioote ad forvitnast uñ Raadagiørder Ovina sinna, þa er þad einkis vert, þvi Forvitnenn, hvørsu forvitenn sem hun er, skal alldrei faa ad vita Helmingenn af þvi sem satt er, og þoott hun feinge, þa vill þad afla Mannenum laangtum meire Okyrrleika i Hiartanu, helldur enn Vareygdar edur Framsyne; Og er Þusundsinnum betra, ad kosta þeim Tijma, er Menn brwka til Hiegoomlegrar Forvitne, og til ad vita hvad hvør Her-Kiellingenn uñ hann talar, ad brwka hann, segie eg, til Kostgiæfne og Astyndunar i sijnu Kalle og Embætte, og ad varpa sinne Ahyggiu uppaa DRottenn, Ps. 55. Þvi hitt mætte æra, ecke einungis Ostødugann, helldur og þannsem annars være noogu Raadsettur, þar Verølldenn er full af Hreckvijse, Otrw og Oþackkæte, og er eingenn Vijsdoomur lakare, Jaa, eingenn Heimska heimskare enn sw, ad vilia

allt

allt þetta vita: Þad er eins og ef nockur hefde Yinde af þvi, ad hafa Mok vid Ofreskiur og ecke Manneskiur. Hvad giorum vier oss i Lund? Minum vier ætla þad, vier munum med Einglunum bwa, edur Heilögum Mönnum; og vitum vier ecke ad þeir eru flester, sem unna siaalfum sier best? Torsokt mun þad, ad venja Jllskuna og Varmenskuna af þvi aldeilis. Þar fyrer, þoott ad nockur være so Fiolkunnugur, so sem i Skrok-Sogum segier, ad hann kyñe ad giora sier eirn Speigel, J hvorium hann sæe alla Bakmælge, Roog, Lijge, Aaustur, Raadagiorder, Vondar Osker, Vanþacker, Jmislega Dooma um vorar Athafner og Lijfernishaattu, suma Sanna suma Logna af þeim, sem þo eru jafnvel miklu verre enn vier villdum vera; Ef einhvor, segie eg, sæe þetta i einum Speigle, og horfde þar i litla Stund, þa munde honum ofbiooda, sierdeilis þeim, er miklu ætti vid adra ad skipta, og kasta Speiglenum i burt, ef hann heilvita være, og yrde þvi hvad fegnastur, ad hann alldrei optar i þann lite, nema hañ villde verda eins og Jsmael, ad hañs Hond være a mote hvorium Mañe, og hvors Mañs Hond a mote honum, Gen. 16. Ulfur af Manne, og, eins og Nebuchadnezar, Stallbrooder Varganna, Dan. 4. Og þesser Hluter, er Menn leitast so miog epter ad vita, eru þo optast eins og Þytur i Skooge, hann varer ei leinge; eins rennur Lijgenn aptur þegar sönnu mæter, og være þa betur heima seted, enn fared, til ad Mannspilla sier og hefna a ödrum þeirra Hluta, sem dodna af siaalfum sier, eins og Svepþurenn þegar hann er fullvaxenn; Og breite Meñ ödruvijse, þa ala Menn Jllgyrne añarra med Forvitneñe og Grunsemeñe, er henne fylger aavallt, so sem Skuggenn Lijkamanum; þvi þad er Haaske ad erta Jllt Skap og Samvitskur vondra Manna, hvorier ed laata opt af, ef þeir meina ad Straakskapurenn sie dulenn, Enn ætle þeir ad hann uppvijs sie, þa drijfa þeir Jllt wt med Jllu, so framt þeir megna, þar þeir vita ad þeir ecke eiga til Goods ad giora. O! hvad miklu betra er Raad Salomonis i þvi, ad laata sem Menn siaae ecke Oriettenn, og safna so Gloodum Ellds yfer Hofud Ovin sijnum, til ad færa hann a rietta Leid. Tvær Dætur hefur Forvitnen, sem Menn leika vid eins og Smaa-Börn edur Hvelpa, medann þær ungar eru, enn þegar þær vaxa upp i Mannsins Hiarta, og hafa leinge soged Mooderena, þa verda þær skiæder Griper, þad er Grunsemenn og Trwgyrnenn, so lijkar Systur, sem þær eru skilldar til. Sa ed misgrunar hvorn Mann, gietur alldrei nockurn Trwann aatt; Þviad þess trwrre og dyggvare ad eirn er, þess helldur gremst honum þad, ad honum sie illa trwad, þar ed hann ecke til þess vinnur. Medal annars sijner oss þad Dæme Jsbozeths Jsraels Kongs, 2. Sam. 4. Hvor ed miste bæde Rijked og Lijfed fyrer þad, ad hann misgrunade Abner um Legord med Rispa, Frillu Sauls Konungs Fodur sijns, 2. Sam. 3. Þegar Maagur Samsons Tortryggde hann um, ad hañ munde ætla Dottur sinne Einlæte, þa olle hañ þvi, ad Samson uppbrende Philisteanna Akur-Lond, med Refunum, Jud. 15. Og so skiedur þad tijdt, ad nær eirn Ærlegur Madur er misgrunadur, tekur hann sier uppaa Ress-Ham, og gioreſt ad þeim sem hann er ætladur ad vera. Þusund maa finna Dæme til þess bæde i Ritningunne og annarstadar, Og þar ad auke er hun

hun Ills Hugar Vite, Þvi segier Plautus Skalld um̃ Mogdurena, ad þat sie eingenn Forvitenn, nema ad hann sie under eins Illgiarn: Enn Chrysostomus; Ad eirn goodur Madur ætle skalldann ödrum Illt, og skalldann ætle sier Goods af odrum, sem er Vondur sialfur; Þetta er hvoriu Orde sannara, og sannast hier hid Fornkvedna, ad margur ætlar mig sig, og maatulega dyggvann. Og so sem ad hann, ed hefur Saar eda Orkumsl aa Lijkamanum, hann hryller vid ef nockur kiemur þar nærre, þoott alldrei snerte hañ þad; So ætlar hinn Grunsame alls Ills til allra; Jafnvel þeirra, sem honum eckert Illt giora vilia, edur giora kunna, af þvi hann er sialfur sier Ills medvitande. I Einu Orde ad seigia: Hun giorer Eirn Konung ad Tyranna, Eirn Hwsboonda ad Bödle, Eirn Þienara ad DRottenns Svikara: Hun er Saattarspiller millum Hioona, millum Fedgina, millum Brædra, millum goodra Vina, Og eru til þess Oþriootande Dæme, og Dagleg Reynsla kienner þad, og er þo Trwgyrnenn haalfu verre. So þad er sem i Forn-Vijsimne stendur: Aungvum ad trwa ecke er gott, Ollum haalfu verra. Eg veit ecke hvort ad Andskotenn aa nockurt saarbeittara Pijslarfære, enn Trwgyrnena; Hun er Tvijeggiad Sverd, og skadar beggia vegna, bæde þann sem trwer ollu, og hinn sem loged er aa. Naanka maa vid þvi, ad Eva trwde Hoggormenum, og Adam henne. Fyrer Talhlijdne Potiphars maatte hinn saklause Joseph i Vardhallde gista i morg Ar, Gen. 39. Fyrer Talhlijdne Davids tapade Mephibozet haalfum Akrenum, 2. Sam. 19. Og var hann þo Sonur hanns besta Vinar. Fyrer Trwgyrne Assveri Konungs hafde allur Israel nærre þvi Lijfed mist, Est. 3. Og auk þessa, þa gietur ecke hinn Talhlijdne hiaa þvi sneidt, ad vera allra þeirra Narre sem ad honum liwga, hvorsu vitur sem hann annars er, þvi eingenn er Trwgiarn nema hann sie og Maalugur, enn Mælgeñ er Teikn Heimskuñar, þess gietur Salomon, Prov. 29. seglande: Saastu maalugann Mann, betre Von er aa einum Vitfyrring enn aa honum: Og aptur, Cap. 17. ad jafnvel eirn Heimskinge, ef hann þeiger, sie vitur halldenn. Allt þetta kiemur nu af Forvitnenne, sem aadur er sagt; Og hefe eg nu so wtmaalad þetta Skrijmsle ad nockru Leite, enn þo hvørge nærre, so sem hun Reindar er.

Enn nu vilium vier i hiñe sijdare Greineñe skoda, hvorneñ vier kuñum ad giøra þeñañ Okost ad hinum besta Mannkoste fyrer Naad Guds og Adstod H. Anda. Þad er vitannlegt, Brædur mijner, ad hinn fyrste og beinaste Vegur til allra Dygda og Mannkosta er saa, ad þeckia sialfann sig. Enn saa sem Forvitnena brwkar til þess ad rannsaka sitt eiged Hiarta, sijn Ord og Athafner, hann mun sijdur skignast um̃ añarra Efne, og er þa lijkast ad hann kvittur verde vid alla þa Okoste og Orooa, er eg upptalde i hinum Fyrra Partenum. So sem Madur ecke fær siedañ sinn Yferlit i þvi Vatne, sem er af Vindenum upphlaased, helldur nær þad lygnt er; So er og Omogulegt, ad saa kunne sialfur sig ad þeckia edur rannsaka, sem eckert annad giorer, enn ad forvitnast um̃ annarra Hage. Þad eru dijrmæt Ord, sem Frelsarenn talade Fordum, Matth. 7. Þu Hræsnare, drag fyrst wt Bialkann wr þijnu Auga, og siaa til sijdann, ad þu faaer wtdreiged Flijsena wr þijns Brooders

L Auga

Auga. Þar er i Mannlegre Naatturu nockurskonar Þootte, ad vier metum siaalfa oß meir enn adra, hann kiemur af ongvu meir enn þvi, ad vier ransokum annarra Haattalag meir enn vort eiged; maa þad þo vita sierhvor eirn, ad hvorsu sem hann vera þykest Kostum bwenn, þa er hann þo ecke ollum betre, og hender oß i þessu þad sama og Stiornumeistarann Fordum, ad aa medann hañ var ad siaa epter Himen-Tunglunum og goonde upp i Lofted, fiell hann i Grifiu Eina, sem vard fyrer Footum hanns. Enn vited þad, Br. M. ad allar Vijsdoomur, so sem ad þeckia Stiarnanna Gaang, Naatturu Grasanna, Steinaña, Fuglanna, Fiskaña, þad er Faavitska hiaa þvi ad þeckia siaalfann sig, og þeß er ollum þeim unnt, sem Gud hefur giefed heila Rænu; Þad er ecke i odru foolged, eñ ad bera siñ Lifnad samann vid Guds Vilia, sem bæde er innskrifadur i vor Hiortu, Rom. 1. og oß Christnum Monnum þraalega Openberadur i hanns Heilaga Orde, eñ þvi gleymum vier, og teliim oß þad til Agiætis sem lijtels edur einskis er vert; edur vanbrwkum þad sem mikels er vert. Enn hvad er þad þo, er vier kuñum ad virda so mikels aa oß, ad vier forsmaaum adra? Þad eru annadhvort Luckuñar Giæde, edur Naatturunnar edur Naadarennar. Eg vil Eirn Formaala hafa fyrer ollu þessu, og þann sem Paall 1. Cor. 4. hefur fyrer þeim, er stærdu sig af Andans Gaafum. Hvad er þad Madur, ad þu ecke þeiged hafer, og fyrst þu hefur þad þeiged, þvi stærer þu þig þa, so sem þu hefder þad ecke þeiged? Um Luckuñar Giæde, Aud og Metord vil eg faatt tala: Þad er Almenninge kunnugt, ad eingeñ verdur af þeim aagiætare, margir verre, og er daarlegt ad hrokast upp af þvi, sem hlotnast kann hinum versta Mañe, og hid sama maa segia um Naatturunnar Gaafur, þoott þær sieu goodar; Þær eru wtvortis eda Innvortis. Utvortis er Afl og Frijdleike, enn um Hreistena er þad ad segia, ad Asnenn og Uxenn eru enn þa sterkare, og sieu þeir betre fyrer þad, þa mætte saa ofunda þaa, sem odrum fremur þykest, fyrer Aflsmuna Saker. Enn hvad Frijdleikanum vidvijkur, þa eru Roosenn og Liliann miklu fegre, enn hin vænsta Jomfrw, þvi Lausnarenn segier, Matth 6. ad Salomon i allri sinni Dijrd hafi ecki so skrijddur verid sem þær, og er þo vitañlegt, ad Gud hefur meira lagt til hiñs liootasta Mañs; og hvorniñ sem þvi er varid, þa er þad Oviturlegt, ad þeckia ecki siaalfann sig af Metnadi þeß Hlutar, sem eirn Kvilli gietur i burt fraa oß tekid, og Elliñ ad vijsu rænir alla þa er heñar bijda, enn Daudinn añars. Iñvortis Giædinn, er Gud hefur prijdt oß med, eru Vitsmunernir: þeir eru hiñ aagiætasti Hlutur, ef þeir eru til Goods brwkadir; og þo allra hellst til ad þeckia Gud og siaalfañ sig; Eñ saa er þad giorer, honum er ecke hætt vid ad forvitnast um annara Maña Raadslag edur Haattseme, hann hefur noog ad giora, ad rannsaka hvad hann hafe hvorn Dag Gude aa moote broted, og þeinkia sig um; hvornenn hann meige faa þad kvitt hiaa honum, og Leidriett framveigis. I þessu og odru þvilijku skylldu Menn æfa Forvitnena, Br. M. i Stadenn þeß; ad hnijsa epter Naaungans Haattum, honum til Meins, enn siaalfum oß til einkis Frama, og verdur hun þa ad hinne bestu Mannprijde og Vegur til allra goodra Dygda. Naadarennar Giæde eru hinar Andlegu Dygder, Trwenn, Vonen, Þolennmædenn og Kiærleikureñ, sem er mestur af þessum,

segier

segier Páll, 1. Cor. 13. Og so þeir Avexter sem hier af spretta. Menn vilia vel segia, ad slijkt giete Menn ecke vanbrwkad, þvi þad sie Guds Anda Verkan i oss. Enn giætum þess, ad so sem Gud kann ad giora gott af Illu, so kann Andskotenn ad giora Illt af Goodu. Eg heyre ad Paulus, i hinum Fyrra Pistle til Corinthios og hinum Þremur Fyrstu Capitulum, deiler aa þa Christnu i Corintho, vegna þess, ad þeir stærdu sig af Andlegum Giæfum; Eg heyre ad Phariseanum var þad til Rangslætis reiknad, ad hann sagdest ei vera so sem adrer Menn, Luc. 18. Hvad olle þvi? Br. M. Vanþecking aa sialfum sier, enn Forvitnenn um Tollheimtumannenn, er hann þocktest vita syndugre sier ad vera, sem þo foor Riettlaatur framar honum i sitt Hws. Þad er ad sonnu meste Daarashapur, ad vilia stæra sig af Luckunnar og Naatturunnar Giæfum, so sem ædur er sagt, enn þo er sw enn meire, ad hroka sier upp af þvi sem Naatturleger Kraptar ecke i oss verka, helldur Kiemur, aa þeirra, Riettlijnis fraa Gude; Og er su vijsust Von, ad hann svipte hann sijnum Gaafum, er so illa med þær hondlar. Þu segier; Hann tekur ecke þad Gooda fraa Mannenum, þvi þad er honum þocknanlegt: Eg jaata þad satt ad vera, enn þad sem Guds Naad hefur verkad gott med oss, þad er ecke leingur gott, þegar Madurenn tilreiknar sier Guds Giofning; Enn þad giora aller þeir, ed odrum betre þykiast, og ecke forvitnast um sialfa sig, hvad miked þaa vante aa þa Skylldu, er þeir eiga honum ad giallda, og kalla sig gooda af þvi, ad adrer verre eru, ad þeirra Hyggiu. Mun nu ecke Gud reidast slijku, þegar hanns Gaafur eru þannveg til Metnadar brwkadar? Jw, meir enn hinum, er vier kollum Stoor-Syndara. Vier siaaum i Epterlijkingunne, Matth. 25. Ad Punded var teked fraa honum, sem ecke villde leggia þad aa Maangarans Bord: Hvad eigum vier þa ad ætla um hann, sem fer so illa þar med, ad i Stadenn þess, ad hann ætte ad þioona Gude med þvi i Audmijkt sijns Hiarta, þa slæst hann i Lid med Fiandanum, er var i Dyrd verdu hinum bestu Gaafum prijddur, enn þess gielldur hann enn i Dag, og mun ad eilijfu giallda, ad hann upphoof sig aa moote honum, er hann hafde so Dijrdlegann skapad, so munu og aller þeir ed honum i þessu epterfylgia. Hvor hefur meire Guds Dijrkare vered enn Salomon? 1. Reg. 11. Og þo vard hann straffadur med Faasinnu. Var ecke Jehu hinn meste Vandlætare vegna Guds yfer Achabs Hwsi? 2. Reg. 9. Þo vard hann ofurselldur i fraafeitt Sinne, 2. Reg. 10. Giorde ecke Judas Kraptaverk med hinum Lærsveinunum? Matth. 10. Og þo eru hanns Afdrif Monnum kunnug. Og kann þad eckert þvilijkum Monnum ad gagna, hvad leinge og hvorsu vel sem þeir hafa Gude þioonad, þvi nær þeir hvad bester vera þykiast, og ætla sier einskis Aboota vant, þa verda þeir eins og Smaa-Born, þau er rijfa þad sialf i sundur, er þeim vænst um þyker; So verdur fyrer hinum, ad þeir hafa þess eingenn Not, er þeir hafa þo maa-skie kostad miklu Erfide til, þegar þad skijn os-fagurt i þeirra Augum, af þvi þeir ecke forvitnast um sialfa sig, edur hugleida, Ad hvott þeir giordu allt þad þeir ættu ad giora, þa ættu þeir samt ad kalla sig Onijta Þioona, Luc. 17. Og ecke einasta missa Menn Launenn hier fyrer, (So sem Endurlausnarenn segier um þa ed giora Goodverkenn sier til Hroosunar, ad þeir hafe sijn Laun

utteked, Matth. 6.) Helldur verda Meñ og þar fyrer eilijflega straffader, þvi eingenn mun þvilijkur Reikningskapur mæta oß i Doominum, so sem Misbrwkun Guds Náadar. Enn i Sannleika, þa er eingenn hennar Misbrukan stærre enn su, ad brwka hana þvert a moote þvi, sem hun er oß giefenn til, þad er, til ad audmijkia oß og lijtelæcka, enn ad prijsa Fodur Lioosanna, fraa hvorium ad oll good Giof og oll fullkomenn Giof kiemur Jac. 1. Um allt þetta talar DRottenn Gud med skielfelegum Ordum, Ezech. 18. segiande: Ef hinn Riettlaate i burtu snijr sier fraa sijnu Riettlæte og breiter vondslega, og lifer epter ollum þeim Svijvirdingum, sem hinn Ogudlege giorer, skyllde hann lifa? Jaa, allt hanns Riettlæte, sem hann giort hefur, skal ecke i Minne leggiast, helldur skal hann deya i ollum hanns Misgiordum og Syndum, sem hann giort hefur. Eñ eingenn er meire Synd, eckert Raanglæte meira, enn ad ræna Gud þvi, sem er alleina hanns, (Þad er hid gooda, sem hann hefur verkad med oß) enn brwka þad til ad forsmaa adra. Sizaum þvi til, ad Andskotenn ræne oß ecke, 2. Cor. 2. Og forvitnunst um Hage vorn, hvort ad vier finum i Hiarta voru Þootta nockurn, þad vier sieum betre i vorum Augum, enn adrer þeir ed vier kollum verre, þvi þoott þad vera kunne, þa er þad ecke oß ad þacka, helldur þeirre Guds Naad, sem med oß er, 1. Cor. 15. Og ef vier finum soddann Hugreñing, þa drepum hana strax med Jhugan vors eigeñ Overdugleika, og laatum so þeñañ Veikleika Naatturuñar verda Ordsok til ad blygdast fyrer Gude, af hvors Naad vier erum þad vier erum, 1. Cor. 15. Og þad er ecke oß ad þacka, þoott ei sie hun ydiulaus i oß. Og þegar vier nu holldum Reikning vid sialfa oß, þa berum oß ei samann vid hina, sem vonder eru. Mun þad nockud Boot fyrer þig, þoott annar sie verre? Þad heiter so sem hinn Latinske Ordshaatturr segier: Ad hinn Glaamskigne drottne aa medal hinna Blindu. Helldur, viliet þu i Mann-Jofnud fara, þa ber þig samann vid Enoch, sem var uppnumenn, Gen. 5. Vid Noa, Riettlætesins Predikara, 2. Pet. 2. Vid Abraham, Fodur Trwadra, Rom. 4. Vid Moysen, er var hiñ þoleñmoodaste Madur aa Jordunne, Num. 12. Vid Eliam, 2. Reg. 2. Vid Johannem Baptistam, Matth. 11. Vid St. Paal, hvor þoott so mieg Ahyggiusamur um Velferd sijna, og eckert treister sijnu Riettlæte, Phil. 3. O HErra Gud! Hier kiemur mier i Hug þad, er Petur segier, 1. Pist. 4. Ef hiñ Riettlaate verdur naumlega hoolpenn, Hvar mun þa byrtast hiñ Ogudlegie og Syndareñ? Ef St. Paal þoottest vidþurfa, ad verka sijna Saaluhiaalp med Ugg og Otta, Pil. 3. O hvad hrædder og skiaalfande mættum vier þa vera, sem Daglega inndreckum Raangleted, so sem Jordenn Vatned! Job. 15. Og þvi kalla eg þad Oska-Raad ad vera, sem hann giefur Corinthu Borgar-Monnum, 2. Cor. 13. Rañsaked sialfa ydur, fegiet hañ, hvort þier erud i Trwñe, Proofed sialfa ydur, þecked þier ydur ecke, ad JEsus Christus bijr i ydur, nema þier sieud ræker ordner? O hvad stoor Þorf er syndugre Mannesk-ju aa slijku i Utlegd þessare! Vited þier ecke, Brædur mijner, ad Daudenn stendur jafnañ fyrer Dyrunum, og ad hvors eins Dauda Dagur, er hanns Dooms-Dagur? Jaa, þad vite þier: þvi eru Meñ þa so Oforvitner um sitt Haattalag i Andlegum Efnum?

Margur

Margur ætlar þad, kannskie, ad ef Samvitskann ecke nagar hann eda klagar um̃ neina Stoor-Glæpe, ad hann hafe Vitnis-burd Andans um̃ þad, ad hann sie Guds Barn, Rom. 8. Enn þvi er ecke so vared alltijd, þvi eingeñ er so heilagur, ad hann ecke hafe nooga Orsök til ad afbidia Synder sijnar og graata þær fyrer Gude. Þeckingarleised a Syndunum og Toomlæted i þvi, ad ransaka sitt Hiarta, þad velldur þvi, ad Samvitskann fiñur so lijtt til þeirra, og sefur hun þa, og mæ þad aungvañveigeñ gooda Samvitsku kalla. Eirn Stoorbrota-Madur, sem af Hiarta ængrar sijnar Illgiorder, er miklu betur a sig komenn eñ hinn, sem hvorke er Heitur nie Kalldur, þvi Gud vill skirpa honum wt af sijnum Munne, Apoc. 3. Og hvad miklu betur var fared hinne Bersyndugu, sem ad laut bak til ad Footum JEsu, og þvode þær i sijnum Taarum̃, og þerrade med Haar-Lockum sijnum, Kyste þær og smurde med dijrmætu Salve; helldur enn Hræsnaranum, er sagde i Hiarta sijnu: Ef þesse være Spæmadur, þa munde hann vita, hvor su Kona være, er snerter hann, ad hun Bersyndug er. Mun ecke þesse Siaalfbyrgingur hafa skam̃ast sijn, þegar DRottenn sagde: Henne fyrergiefst miked, af þvi hun elskade miked, og hann sagde til hennar, Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, Þijn Trw giorde þig hoolpna, Far i Fride. Eg kann ecke annad ad segia, enn ad þetta var stoor Skeinkur, og þesse Smirslenn voru betur launud, helldur enn þoott hann hefde giefed henne öll Ryke Veralldarennar. Enn eg vil hier um̃ segia, so sem Paall um̃ sig talar: Þess vegna hefur hann mier miskunad, (segier hann) ad hann synde a mier alla Stærd Miskunar sinnar, þeim til Dæmis, er a hann trwa mundu, 1. Tim. 1. Aller eigum vier hins sama Von og Kvinna þesse, ef vier laatum oss af Hiarta ængra Syndernar, enn þad kann ecke ad skie, nema vier smasmuglega ransokum hin innstu Filsne vors Hiarta, og er þesse Forvitne, sem eg aadur sagt hefe, hin fyrsta Trappa til Himinarijkis, þvi af Ransoknenne kiemur Þeckingenn, af Þeckingunne Idranenn, af Idranenne Fyrergiefningenn, af Fyrergiefningunne Elskann, sem er hin einasta Root allra Digda og Mannkosta, er i Guds Augum kunna ad skarta. Hristed wt, hristed wt, ydar Hiortu, O þier hin Astlausa Þiood! segier DRottenn Gud hiaa Zophoniam. Cap. 2. Þad er ecke noog ad Menn jaate almennelega Synder sijnar fyrer Gude med Munnenum, segiande: Eg hefe allskins Synder giort, til Orda og Verka og vondra Hugrenninga; og kannskie ad Hugur fylge þo lijtt Maale a stundum, enn vier eigum ad leita grandgiæfelega epter þeim, og rekia upp allann vorn Alldur, þad frekast vier tilmunum, allt i fraa Ungmennis Arum, allra hellst, nær vier gaungum til Alltaris, hvar vier eigum ad fridmælast vid Gud, i hanns Sonar Kvolldmaaltijd. Ecke er þad helldur noog ad vier hofum einusinne ydrast Syndanna, og sierdeilis þeirra, er oss mætte hellst Minne til reka, helldur eigum vier ad laata oss þær angra, so opt sem þær oss i Hug koma, so opt sem vier heyrum þær i Guds Orde straffadar, so opt sem vier heyrum þær af odrum drijgdar; Og þa munum vier sijdur hykiast upp yfer þeim i Hiarta voru. Vier eigum ecke ad gleyma þvi so fliott, ad Gud hefur teked oss i Saatt aptur, þvi þad heiter ad

vilia ecke aptur snwa med Utlendingenum og giefa Gude Dyrdenå, Luc. 17. Ef vier gleimum ecke drygdum Syndum, þa vill Gud þeim gleima; enn gleimum vier þeim, þa er hætt vid ad hann minnest þeirra, Sierdeilis þar ecke er trwtt um ad oss kunne optar ad verda hiner somu Glæper, edur, ad minnsta koste, ad oss længe aptur til Katlanna i Egypta-Lande, Num. 11. Og þoott alldrei være, þa vitum vier þad, ad Petur afneitade Christo Einusinne, enn alldrei optar; Þo segia Christenndooms Sögurnar, ad so opt sem hann epter þad heyrde Hanann gala, hafe hann beisklega grated. Enn Gud nææde oss auma Menn! Hvad opt hofum vier nu afneitad vorum Skapara med Petre? Er þad ecke ad afneita Gude, ad elska Skiepnurnar? Jæ, Syndena framar enn hañ, ad vilia eckert lijda hanns vegna, ad vilia ecke læta æ moote sier hina miñstu Hollds Lyst hanns vegna, ad leggia ecke ad eins hanns Ogurlega og Dijrdarfulla Nafn vid Hiegooma, helldur hafa þad ad Haade, ef eg mætte so segia, ad vanbrwka ecke einasta Hvijlldar-Dagana til adskilianlegra Synda og Lasta; helldur hafa Leida æ Guds Orde, hafa þad i Fijflskapar-Maalum, hyxa allt annad nær þad er kient og predikad, og fylla Hiartad, sem er Guds Musteri, 1. Cor. 3. med saurxga Þanka, þa sem þad er vant til, so Guds Ord hefur ecki Rwm þar inni? Er ecki þetta ad afneita Christo miklu verr enn St. Petur? Þvi hann giordi þad af Otta, enn vær giorum þad ad Naunarlausu, enn fæa heyre eg ganga wt og græta med honum, fæa tæraast þegar Hanenn galar i Guds H. Orde, so vier meigum jæta, ad jafnvel vor Ydran hefur stoor Synd vered, þvi hun hefur enn nu ecke þrengad oss til ad Krossfesta Hollded, edur læta af Syndunum. O vei! O vei! Hvorsu laangt erum vier þa fraa Guds Veige, enn vitum þo ecke nær sagt verdur: Gior Reikningskap þiñar Raadsmenſku, Luc. 16. Og kiemur allt þetta af Forvitnisleisenu um vora eigenn Hage. Þu segier vel, ef eingenn yrde Saaluhoolpenn, nema sa sem være eins og Petur og Paall, þa yrdu fæer hoolpner; Þu segier satt, þvi Endurlausnarenn svarade þeim, er spurdi hann ad, hvort þeir mundu ei fæer verda, sem hoolpner yrdu? æ þennañ Haatt: Kieppest vid ad gaanga inn um hid þraungva Hlided, þvi þeir eru marger sem þar vilia inn gaanga og komast þad ecke, Luc. 13. Eñ hvad um þad? Sieu þeir nu fæer, sem satt mun vera, ad reikña hiaa himum sem tapast, er þad Gagn fyrer þig, muntu hafa nockra Skiemtan af þeirra Selskap i Helvijte? Jeg jæta þad, ad þeir munu og marger Saaluhoolpner verda, sem ecke eru Peturs edur Paals Lijkar. Þad syner oss Epterlijkingenn um Penings Giallded, Matth. 20. Enn trw mier til, ad eins miked heimtar Gud af þier, epter þeirre Naad sem þier er gıefenn, so sem af Petre edur Paale. DRottenn er goodur Reiknings-Madur, hann heimtar eins miked af þeim, sem hañ hefur Eitt Pund i Hendur feinged, so sem Tiju, epter þvi sem Tala rennur til, Matth. 25. Þad kienner oss Epterlijkingeñ um Sæded er fiell i gooda Jord, ad sumt færde Hundradfalldann, sumt Sextugfalldañ og sumt Þrijtugfalldañ Avoxt, Matth. 13. Þar fyrer mattu Ohætt hallda þad fyrer vijst, ad þoott ecke siertu so hellagur sem Enoch, Gen. 5. so Fulltrwa sem Abraham, Gen. 15. so þolenmoodur sem Job, Job. 2.

so heitur i Bæninni sem Elias, Jac. 5. so hreirn i Lijferninu sem Baptista, Matth. 11. so brennandi i Elskunni sem Petur, Joh. 21. so alvarlegur og roggsamur i Gudrækninni sem Paall, þa samt ef þu leggur alla Astundan aa, ad þioona Gudi (eftir þeirri Naad sem þier er giefin̄) J Heilagleikanum, J Trwnni, J Þolinmædin̄i, J Bænin̄i, J Elskun̄i, J Alvorugiefnin̄i, J Kiærleikanum, þa ertu Guds Barn: Enn hier um̄ byriar þier yduglega ad forvitnast Kvolld og Morgna, og ad mæla þijnar Athafnir med þeirri Naad, sem Gud hefur þier sient, hvort ecki gietur þu meiru afkastad, og þar sem þu Brest sin̄ur, ad ydrast þess af Hiarta, og bidia Gud ad fylla þad æbrestur; giorir þu so, þaa muntu fin̄a Vitnisburd Andans um̄ þad, þu siert Guds Barn, Rom. 8. þa ertu in̄siglaadur med Anda Fyrirheitisins, Eph. 1. til Dags Endurlausnarinnar, Eph. 4. og hvort helldur þu lifir eda deyr, og med hvoriu Mooti hinum Naaduga Gudi þocknast ad laata þig giallda hina sijdurstu Skulld, aa Sioo edur Landi, i Elldi edur Vatni, i Svefni edur Voku, þa ertu DRottins, Rom. 14. og einginn fær þig tekid af han̄s Hendi, Joh. 10. helldur, þo þu deyer, muntu samt lifa og med honum eilijflega rijkia, þar sem ad er Gnogt Fagnadarins og Gledilegt Lijferni til Fodursins Hægri Handar, Ps. 16. Þad veiti oss Goodur Gud i Nafni sijns Eingietins Sonar JEsu Christi, og giefi oss þar til Styrk Heilags Anda, AMEN.

# Sun̄udagin̄ milli Jóola og Attadags.

Gudspiallid, Luc. 2. Cap.

OG han̄s Fadir og Moodir undrudust þad, hvad af honum sagdist: Og Simeon blessadi þau, og sagdi til Mariu Moodur han̄s: Siaa þu, þessi er settur til Falls og Upprisu margra i Israel; Og til Merkis, hvoriu i mooti mun mælast. Og siaalfrar þin̄ar Ond mun Sverd i giegnum̄ smiyga, so ad auglioos verdi Hugskots Hiortu margra. Og þar var þa An̄a Spaa-Kona, Doottir Phanuels af Kyni Aser, hun̄ var og komin̄ til sin̄a Ara, og hafdi lifad i Sio Ar med sijnum Eignar-Man̄i fraa Meydoomi sijnum. Og þessi Eckia hafdi nær Fioora Vetur um̄ Attrædt, hvor ed eigi gieck wr Musterinu, þioonandi Gudi Noott og Dag, med Fostum og Bæna-Halldi. Þessi gieck Samstundis þaangad ad, og prijsadi DRottin̄, og sagdi af honum til allra þeirra, sem Endurlausnarin̄ar bidu til Jerusalem. Og er þau hofdu allt fullgiort eftir Logmaalt DRottens, sneru þau aftur i Galilæam til Borgar sin̄ar Nazareth. En̄ Sveinnin̄ vox upp og styrktist i Anda, fullur Vijsdooms, og Guds Naad var med honum.

Exor-

## Exordium.

GUD leit allt þad er hann hafdi skapad, seigir Ritningínn, og siaa, þad var allt harla gott, Gen. 1. Stoorter þa Vôiæde Manneskiuñar er Andskotenn hefur fært yfer hana med Syndenni, ad hinar bestu Guds Skiepnur snwast henne til hinns mesta Mootgaangs opt og tijdum. Elldureñ er hinn þarfaste Hlutur, enn hvorsu opt verdur hann oss ad Skada? Vatned i sama Maata; og þo hliootum vier optlega Tioon af þvi: Jafnvel þær Guds Gaafur, sem i siaalfum sier ecke eru Skadvænar, þær snwast oss til hinns mesta Ohagnadar, fyrir Misbrwkun vora. Jll Medferd aa Gotze og Peningum hefur steipt morgum Daara i Olucku, Metordenn hafa margann blindad, og siaalfa Skynsemena hefur margur Veralldar Sonur so vanbrukad, ad honum hefde þarfara vered, ad hafa Sinnings Boonda Vit, enn ad falla so hraparlega aa synu eigenn Bragde, so sem þeir giora, er Paulus segier, 1. Cor. 3. ad Gud hondle i þeirra Slægvitsku: Uñ allt þetta kiennum vier Fiandanum og Uppruna-Syndenne, ad vijsu ecke uñ Skor fram; Af þeirri Root er oll sw Olucka sprottenn, er synduga Menn daglega plaagar, bæde i Andlegann og Lijkamlegann Maata. Eñ samt er oss þad Vitañlegt, ad hinn Myskunsame Gud hefur so bætt Raad vort i Sendingu sijns Eingietens Sonar, ad oss maa Jafngooda kalla, nema vier spillum þvi aptur ad niju; Þvi Guds Sonur er i Heimenn komeñ til ad niđurbriota Diofulsins Verk, 1. Joh. 3. Enn hier er Graatlegt til ad vita, ad þad Hiaalpræded, sem hinn gamle Simeon so miog fagnade, og sagde: Ad Gud hefde tilreidt Fyrer Auglite Allra Piooda, Luc. 2. Þad vill so faaum gagna, og so faaer af hvorre Piood hafa þess Not, og sw Frelsan, er Gud giorde sijnu Foolke; Luc. 1. verdur morgum ad einn stærra Prældoome, Lækningenn ad Eytre, og siaalf Heilsu-Giofenn ad Vanheilsu, fyrer Vanræktar og Þvermoodsku þeirra Saker, er ecke þeckia sinn Vitiunar Tijma. Þess gietur St. Paall er hann segier uñ sig 2. Cor. 2. Vier erum Christi sætur Jlmur i Gudi, bæde i þeim sem hoolpner verda, og hinum sem tapast, þessum ad sonnu Jlmur Daudans til Daudans, enn hinum Jlmur Lijffsins til Lijffsins. Og hvad er þad annad er Simeon hier talar i Gudspiallenu; Ad Christur Sie Settur Til Falls Og Upprisu Margra J Jsrael? Eg vil þesse Heilogu Ord nockud gior Hugleida, og af þeim yfirvega. 1. Hvorsuinn DRottinn sie settur til Falls. 2. Hvorsuinn hann sie settur til Upprisu.

Hier til styrki hiñ Naadugi Gud med Naad sijns Anda i JEsu Nafni, AMEN.

## Utleggingiñ

ÞEsse Er Settur Til Falls, seigir Textinn. Hvor er þesse? Þad er hañ, sem Esaias umspaair, Cap. 28. med þessum Ordum: Siaa, eg set Grundvoll i Zion, eirn Stein, eirn wtvaliñ Stein, (so sem Petur þad wtleggur, 1. Pet. 2.) Eirn dijrmætañ Hyrnungar-Stein, eirn fastañ Grundvoll, sa sem trwir hañ mun ecki flijta sier; þad er eirn og hiñ sami, sem David kvedur uñ Ps. 118. seigiandi: Sa Steirninn sem

Upp-

Uppbyggendur hafa forsmaad, hann er ordenn ad Høfde Hyrningar, af DRottne er þad, og er undarlegt fyrer vorum Augum. Ad þessu sie so haattad, vottar sialfur DRottenn, Matth. 21. Er hann heimfærer þennan Davids Spaadoom, uppaa sialfann sig, og þa sem ad Lijflietu Sonenn, er Faderenn sende, þegar þeir høfdu aadur Lijflaated hans Þioona, þvi hann segier strax epter i sama Capitula vid Gydinga: Þar fyrer mun Guds Rijke fraa ydur teked verda, og gefed Þiood þeirre, er færer Avøxt þar af; Er þvi audræded hvorier þeir sieu, sem ad Guds Sonur er til Falls settur, sem eru fyrst Gydingar, þeir Mordingiar, er Koning Dijrdarennar af Dagum riedu, 1. Cor. 2. og ei skipudust vid Kienningar hans heilagra Manna og Pijslarvotta epter hanns Himnafør, jafnvel þott þeir sæu Teikn og Stoormerke, med hvorium DRottenn styrkte Christne-Boded; So og eru þad aller þeir, sem enn nu i Dag ganga i þeirra Footspor, og Krossfesta Guds Son ad nyju, Hebr. 6. med Vantrw og Gudlausu Framferde; Þessum er Zions Hyrningar-Steirn til Falls settur; Enn med hvoriu Moote er hann þa settur? Villde Gud nockud, ad þeir skylldu detta um hann, sem falla? Laangt er fraa þvi, hann vill ad aller Menn hoolpner verde og komest til Sannleiksins Vidurkienningar, 1. Tim. 2. Kom nockud Sonurenn i Heimenn til ad fordæma Heimenn? Aungvanveigen, helldur til þess, ad Heimurenn hefde Lijfed fyrer hann, Joh. 3. Var ecke Steirn þesse so audsær, ad nockur þyrfte ad detta um hann? Ad sønnu var hann so audsien, ad eingenn þurfte um hann ad rasa. Borg sw er aa Fialle stendur, gietur ecke dulest, Matth. 5. Villdu þeir ei trwa sialfum hønum, þa maattu þeir samt Verkunum trwa, er hann giorde, Joh. 10. Hvornenn er hann þa til Falls settur? Þar til svara eg: Ecke til þess, ad neirn skyllde falla, helldur aller upprijsa; David kienner oss þad i þeim Ordum er eg strax umgat, þar hann segier, Ps. 118. Ad Uppbyggendur hafe forsmaad þennann Stein, og þesse somu Ord Davids brwkade St. Petur, til ad sannfæra med hinn Gudlausa Høfudprestanna Flock, er fordæmde JEsum, Act. 4. Segiande: Þesse er saa Steirn, er þier Uppbyggendur hafed ad øngvu haft, hvør ordenn er ad Høfde Hyrningar, og ecke er i neinum ødrum Hiaalpræded. Og þeir skipudust þo ecke meir vid þesse Sannyrde, enn so, ad þeir hootudu þeim, ad ei skylldu þeir kienna edur tala i þessu Nafne framar, Jafnvel þott þeim alkunnugt være, ad þeir Petur og Johannes hefdu skomu aadur i JEsu Nafne giort þann heilbrigdann sem halltur var borenn, Act. 3. Og er ecke ad undra, þott Guds Sonur være þess-haattar Mønnum til Falls settur, fyrer þeirra Hardwdar og Þvermoodsku Saker.

Laatum nu Juda fara, Brædur mijner, þeir hafa sinn Doom med sier, og sijn Laun wtteked; Enn giætum ad sialfum oss, ad ei verde JEsus oss til Falls edur til Asteitingar. Vier vitum hvoriu Christur svarade Johannis Læresveinum, er hann giorde þa fraa sier, til ad spyria Drottenn ad, hvør hann være? Fared og segied Johanni (sagde hann) hvad þier heyred og siaed; Blinder faa Syn, Hallter gaanga, Lijkþraaer hreinsast, Daufer heyra, Dauder upprijsa, og Fatækum verda Gudspiollenn bodud, og Sæll er sa sem ecke hneixlar sig aa mier, Matth. 11. Þetta høfum vier alltsamann heyrt, og eing-

enn efar um̃ DRotteñs Kraptaverk, med hvorium hann auglijste þad hañ sañur Gud være. Enn hvort ad vier samt og aa dur ecke hneixlunst aa honum sumer hvorier, þad þyrste nockud framar ad rannsaka. Einhvor mun spyria: J hvoriu hneixlunst vier aa honum? So spurdu og Judar fordum Daga, Mal. 1. J hvoriu forsmaaum vier þitt Nafn? DRottenn svarade: Þier Offred Ohreinum Mat aa mijnu Altare, þo spyried þier, hvar [illegible]gum vier þig? Hann svarar: J þvi ad þier segied, DRottenns Bord er foraktanlegt, þvi nær þier Offred hinu Blinda, er þad ecke Jllt, og nær þier komed fram̃ med þad Hallta og Siwka, er þad ecke Jllt: Ber þetta Hertoga þijnum, muntu hiaa honum vel þockadur verda? Seiger DRotteñ Zebaoth. Sama er aa Brefenu, gooder Viner; Foorner Gamla Testamentesins eru afmaadar med þeirre einu Foorn, er hinn Ædste Prestur hefur Einusinne innbored i þad Allra Helgasta, Heb. 9. Samt eigum vier Gude lifanda Foorner ad færa, þad er sialfa oss, og vora skynsamlega Þioonustu, Rom. 12. Enn þegar vier inngaungum i Mustere Guds, dauder i hinum vestu Syndum og Glæpum Ydrunarlaust; For maaum vier þa ecke Guds haaleita Nafn? Hneixlunst vier þa ecke aa Christo? Þegar Menn gaanga Oforhugader til Guds Bords, ecke Reyna og Proofa sialfa sig, ecke giora Greinarmun aa millum Lijkama DRottenns og annarar Fædu, 1. Cor. 11. Ecki rañsaka sinn Lifnad, so þeir meige ydrast, ecke reina hvort þeir eru i Trwnni, 2. Cor. 13. Ecke hafa fullann Asetning til ad betra sinn Lifnad; Hallda Meñ þa ecke Bord DRottenns foraktanlegt, saurga Menn þad þa ecke? Segied mier i DRotteñs Nafne, segied mier, er ecke þvilijkt ad hneixlast aa Christo, edur segier ecke Paulus, ad saa ed þvilijkt giorer, hann sie sekur vid Holld og Blood hanns? 1. Cor. 11. Hvad er ad hneixlast aa Christo, ef ei er þetta? Þegar Meñ ecke hyrda um̃ ad læra hinn sanna Christenndoom, so þeir saae kieñt hann Bornum sijnum og Hiwum, og eru so blinder blindra Leidtogarar, Matth. 15. Og þo reka Menn þetta blinda Fie inn fyrer DRottenns Altare, til ad Eta og Drecka sialfum sier Doom, miklu lijklegra til ad verda þar Satans Foorner, enn Guds Offur, nema hann vilie meire Myskun aa giora: Segied mier: Offra Menn þa ecke hinu blinda? Er ecke þad ad hneixlast aa Christo? Þegar Menn vilia under eins þioona Gude og Mamona, Matth 6. Sitia i Kyrkiunne, enn Hiartad er wt aa Bwgardenum edur hiaa Akneytunum, Luc. 14. Halltra Menn þa ecke aa baadar Sijdur med Prestum Baals? 1. Reg. 18. Er þad ecke ad Offra þvi Hallta og Veika? Er þad ecke ad hneixlast aa Christo, er segier: Eingenn kann Tveimur Herrum ad þioona? Matth. 6. Bioodum þetta einhvorium Veralldar Hofdingia, komum med Opvegnum Hondum fyrer hanns Bord, giolldum honum einhvorn Vanmeta Grip i Skylldur sijnar, svorum honum wtaf, nær vier eigum Tal vid hann, reinum til hvort hann þyggur þad vel af oss, og þo vilium vier heimta slijkt af hinum stoora Konunge Himens og Jardar. Þetta er ad vijsu ad hneixlast aa Christo, ad ottast hann, sem ecke kann nema Lijkamanum ad granda, enn hyrda ei hvad vier giorum vid Gud, sem Lijfe og Saalu gietur kastad i Eilijfan Elld, Matth. 10. Eg spyr, hvar fyrer hneixludust Judar aa Christo? Þvi

hañ

hann var Faatækur. Guds Faatæker eru enn nu hiaa oss: Þeir eru JEsu Limer, ef þeir under eins eru Andlega Volader. Enn hvad er tijdara i Heimenum, enn ad Ovirda Faatækann, og ecke einasta Ovirda hann, helldur og ad taka fraa hønum þad lijted sem hann aa, og ad brwka hanns Sveita til Ohoofs og Metnadar? J Løsum Klæda þinna er Blood þinna þurfande Saalna, segier DRottenn, Jer. 2. vid Juda. Þad maa eg heimfæra til þeirra, er selia hinn Volada fyrer eirn Skoo, Amos. 2. so ad þeir sialfer, þeirra Syner og Dætur, gaanga so sem velbwnar Haller og utskorner Pijlaarar, Ps. 144. Er ecke slijkt ad hneixlast aa JEsu? Hvør ed kallar hina Faatæku sijna minnstu Brædur, Matth. 25. Og vill reikna þad vid sig giørt ad vera, sem þeim er giørt: Hvad bar fleira til þess, ad Gydingar hneixludust aa DRottne? Þad, ad hann ecke hroopade nie hafde miked umm sig, og eingenn heyrde Rødd hanns aa Strætunum, Es. 42. So aasæðlest og Heimurenn hina spöku og kyrrlaatu og forsmaaer þa, hæder ad þeim, kallar þa Oþocka og Heimota, þeir ed ecke bere Mannskap edur Vitsmune til ad hallda Virdingu sinne, og brioota Ok hins Dramblaata af Haalse sier; Er ecke þetta ad hneixlast aa Christo? Hvør ed ecke kom i Heimenn til ad laata sier þioona, helldur til ad þioona ødrum, Matth. 20. Hvad er þad enn þa framar sem kom Gydingum til ad hneixlast aa Guds Syne? Þad, ad hann rak Eyrende sijns Fødurs so skøruglega, og vandlætte umm Glæpe og VanTrw Ogudlegra Manna. Ecke mun Diøfulenn vanta þa enn i Dag, sem ad fylgie þeirra Foot-Sporum i þessu. Hvør vandar so umm illar Athafner Mannanna, ad ei sie hønum aa Haalse leiged? Hvør er saa, er hann þycker vegna Guds og hanns Dijrdar, ad ei sie hann Hlutsamur kalladur og sturle Jsrael? 1. Reg. 18. Ef nockur vill styrkia Maalefne Eckiunnar og hins Fødurlausa, þa giøra þeir Samdraatt aa moote hønum, sem eingenn Fæda þyker Lostæt, utann hun sie tekenn fraa Munne hins Volada og Underþryckta. Hvør er saa, ef hann vill hallda gooda Skickun i Hwse sijnu, ad ecke laste hann Jllkvittner Menn og hate? Og jafnvel þoott ad þeir, sem vilia hlijda Gude i þessu og vardveita Samvitsku sijna Oflecka da, þoott þeir, segie eg, giøre allt þetta epter Skylldu sijns Embættis, þa uppvekr þo Diøfullenn þeim Andskota epter sijnu eigenn Nafne, so þeim tekst ecke Guds Verk ad giøra. Simeon spaaer umm Christ, ad hann mune settur verda so sem Teikn, þad er moote mælest; þad er, epter mijnum Skilninge, so sem eitt uppsett Teikn, er menn plaga ad skioota aa. So var og DRottenn, wr þvi hann inngieck þad Kiennemannlega Embætte. Øll Satans Børn giørdu sier ad skylldu, ad vega ad hønum, hvar sem þeir kunnu med Ordum og Verkum, so sem lioost er af Æfe-Søgu hanns, er Gudspiallamennerner hafa oss ritada epterlaated. Soddann eitt Teikn eru aller hanns Læresveinar, aller hanns Epterfylgiendur i Lærdoomenum og Vandlætenu; Þess gietur sialfur Christur: Esa. 8. (Þegar Spaamadurenn beid epter hvad Gud villde segia, er hann hafde byrgt sitt Andlit fyrer Hwse Jacobs) Siaa, hier er eg og þau Børn, er DRottenn hefur giefed mier, so sem nockurskonar Teikn og Merke hiaa Jsraels Foolke. Hvørn Spaadoom ad St. Paall, til Hebræos Cap. 2. heimfærer til Christ-

Christum og hanns Barna; Og er vijst, ad ecke er Læresveinnenn framar enn Meistarenn: Hafe þeir Hwsboondann kallad Beelzebub, hvad munu þeir ei giora vid hanns Heimamenn? Matth. 10. Nu er þad ad sønnu Gledelegt ad þola fyrer hanns Saker, er lofad hefur noogum Launum aa Himnum, Matth. 5. Enn hitt er þeim Bøl sem Christi eru, ad þeir Erfida til Onijtis, Jafnvel þott ad þeirra Embætte sie DRottenns, og þeirra Maalefne þeirra Guds, Esa. 49. Fyrer hinna Priootsku Saker, er hneixlast aa Christo, og lijkast er ad hann mune til Falls verda. Siaalfrar Pinnar Ønd Mun Eitt Sverd i Giegnum Gaanga, sagde Simeon vid Guds Moodur, teiknande aa Esa þar med, Harma þa, er henne mundu til Handa bera wt af Mootmælum þeim, Offsooknum og Pijslum, er hann i Anda saa, ad DRottenn munde þola verda; aadur enn hann feinge oss synduga leyst fraa eilijfum Pijslum. Ein Riett-trwud Saal, er Christi Andleg Mooder, þad vottar St. Paall til Gal. 4. Sonakorn mijn, med hvoria eg þrongbwenn er, þar til Christur myndast i ydur aptur ad niju. Mun ecke þesse JEsu Mooder kienna i Briooste, nær hun sier DRottenn aptur ad niju Krossfestann, Ebr. 6. fyrer Augum sier, af Børnum Veralldarennar, med hinum verstu Syndum og Glæpum, þeim til Olucku, sem eins vel og hun, eru med Guds Bloode Endurkeypter, og fær þo ecke vid þvi giort, helldur enn Maria vid Pijslum Sonar sijns, Illsku þeirra vegna, sem ad hneixlast aa honum: Enn þeir hlæia þar ad, og þad Angur, sem Guds Børn kvelur fyrer þeirra Ogiæfu Saker, hafa þeir ad Skimpe og Athlaatre, Þad liggur þeim liett i Skape, þoott ad Menn fæest um þetta, og segia: Ad þar siae ecke meira Bann aa sier enn þeim, er laata sier þeirra Olucku til Hiarta gaanga. Segied mier i Guds Nafne, segied mier: Er ecke þvilijkt ad hneixlast aa Christo? Og er nu so nockud hier um talad.

Nu vilium vier i Sijdare Partenum læra, hvørnenn hann sie til UPPrisu settur. Til UPPrisu Margra, segier Textenn. Oss er kunnugt med hvørlu Moote ad Johannes Skijrare hoof sinn Lærdoom: Giored Ydran, sagde hann, þvi ad Guds Rijke er naalægt, Matth. 3. Vidlijkann Formaala hafde St. Petur fyrer Judum, er hann i fyrstu bodade þeim Heilsugiøf þessa, þa þeir spurdu ad, hvad þeir giora skylldu? Svarade hann þeim: Giored Ydran, og sierhvør ydar laate skijrast i Nafne DRottenns JEsu Christi til Fyrergiefningar Syndanna, Act. 2. So er þa Christur þeim til UPPrisu settur, sem ydrast Syndanna, og trwa ad þær verde sier i hanns Nafne tilgiefnar. Ein alvarleg Ydran er hin Fyrsta Trappa til þessarar Upprisu, epter þad ad Menn hafa þeckt Veg Sannleikanns; Enn fyrer þvi ad Ydranenn verkar ecke i Mannsins Hiarta, nema vier þeckium Syndena, þa er einsætt ad læra Guds Vilia af hanns Logmaale og Orde, ecke alleina til ad laga sinn Lifnad þar epter, helldur og til ad þeckia hvad oss er Aboota vant, sem vier fyrer vijst vita meigum ad all-miked er, og fleira, enn vier þeckia kunnum edur upp ad reikna. Enn þoott ad eingenn vita kunne hvad opt hann fellur, Ps. 19. Samt eigum vier med hinn mesta Athygle ad hallda Daglegt Rannsak um siaalfa oss og vora Lifernis Haattu

til

til þess, ad vier þeckium Syndina og heñar Liootleik, so þar af vaxi Angur og Tregi i Hiarta voru: Eñ fyrir þvi ad þetta Hiartalag tekur einginn af sialfum sier, þa vill þar til ydugleg og alvarleg Bæn, ef Jdraniñ aa so heit ad vera, ad hun Gudi lijki, þvi hann nægist ecki med Hiegooma nockurn; Hiartad aa ad braadna og klockna fyrir Gudi, ef hañ aa Syndina burt ad taka: Ecki dugir soddann Ydran mikid sem hann um̃talar hiaa Jeremiam, Cap. 3. Segiandi: J ollu þessu snerist ecki til mijn hin fraafallna Systir Juda af ollu Hiarta, helldur voru þad ei nema Læti hennar, segier DRottiñ. Eckert kann þad ad duga hiaa Gudi, sem hann ecki sialfur med oss verkar, þvi af sialfum oss til megnum vier eckert Gott ad fram̃kvæma: Nema vor Hryggd sie eftir Gudi, so sem Paall ad Ordi kiemst, 2. Cor. 3. þa er hun Onijt; soddañ Ydrañ vill hañ skirpa wt af sijnum Muñi, þvi hun er volg, Apoc. 3. Þad er aagiætt, sem Nicephorus Callistus skrifar eft- er hinum gooda Keysara Theodosio, er hañ sagdi, ad þad væri eingiñ Undur, þott nock- ur dæi, þar hann væri Madur, eñ þad væri eins Guds, ad kalla þañ aftur til Lijfsins med Ydranenni, sem eitt Sinn daudur være; Þvi er hier af audsied, ad Meñ skulu þyggia Ydranena med Bæn af Gudi, so vel sem allt añad, ef hun aa honum ad þocknast, og maa þad ecki hindra nockurs Manns Alvorugiefni i Ydraniñi, þott ei sie hann sier hiñna ver- stu Klækia og Bodorda Brota medvitandi. Noog er þad til ad koma wt Taarunum aa einu Guds Barni, ad þad gietur ecki eitt Augnablik Syndlaust lifad, ef Giordir vor- ar ættu ad stikast aa Guds Riettlætis Mæli-Snuru. Eitt Hiarta, sem elskar siñ Gud, er hægt ad bleita, þad aangrast meir af sijnum Ofullkomlegleika, helldur eñ hinn Gudlausi af Mynningu allra sinna Skam̃a og Odaada. So ad David, i ollum sijnum Heilagleika, hann vætir sijna Sæng i Taarum alla Noottina, Ps. 6. vegna sinna Avyrdinga, þar hinn Ogudleigi Manasses finnur eckert til sinna Stoor-Glæpa, fyrr enn hañ er beygdur i þrongum Jaarn-Vidium, 2. Par. 33. Nu þoott ad sa hafi miklu aflokid, sem hefur straffad sialfann sig, med alvarlegum Trega fyrir Syndina, þvi þad aa heima hiaa þe- im, er Postulinn seigir: Ef vier dæmum sialfa oss, þa verdum vier ecki dæmdir, 1. Cor. 11. Samt er þad ecki noog ad laata sig ydra Syndanna, nema Menn treysti þvi full- komlega, ad hiñ Naadugi Gud muni sier uppgiefa alla Skulldina, fyrir JEsu blessada Forþienustu: Ydraninn kastar Syndaranum nidur fyrir Guds Fætur, til ad aud- mykia sig under hanns Vollduga Hond, eñ Trweñ reysir hañ upp aptur, og giorir hañ þess fulloruggañ, ad hann hafi frijañ Tilgaang til Naadar-Stoolsins, Hebr. 5. hvorsu sem hann sie hinum verstu Syndum hladiñ, og þad ecki fyrir nockurs Mañs eigiñ Verd- ugleik, Ætt edur Atgiorfi, þvi Gud er Heilagri, Volldugri og Riettlaatari enn so, ad nockurt af þessu edur einhvor annar Veralldlegur Hlutur meigi faa hann kreinkt edur yf- ertalad, helldur skiedur þad alleina af hanns skiærri og einsamalli Goodgyrni og Mysk- un, fyrir þad Lausnar-Gialld, er hañs Eingietiñ Sonur hefur ad sonnu wtlagt fyrir alla Verolldina, enn þeir einir munu Not af hafa, sem aa hañs Nafn Trwa, Act. 10. Af Ydraniñi og Trwñi fram̃kiemur Elskañ til Guds, ef þær eru annars so sem þeim vera

byriar: Ydraninn sijnir oss vorn Oþerdugleik, og hvornin vier hofum med Glæpunum unnid til hinna bitru Helvijtis Pijsla; Enn Trwenn Guds Giædsku og Orañsakannleg Myskunar Ydur, i þvi ad uppgiefa þau morgu Tiju Pusund Punda, sem vier ecki einasta Einusiñi, helldur Ar eftir Ar, verdum hinum Gooda Gudi skylldugir um, hvad ef vier yduglega Hugleidum og samannberum i Hiarta voru, þa kunnum vier ei ad fara aa Mis vid þad, ad þar af kvikni ein brennandi Eiska til hanns; er so vel giörir til vor Overdugra, og fyrirgiefur oss margar Syndir, og hun er hin einasta Root allra Dygda og Mannkosta, og jafnvel Logmaalsins Uppfylling, so sem Paulus um Kiærleikann vottar, Rom. 13. Þvi þad er vijst, ad saa sem elskar nockurn, hann skirrist vid ad stiggia hann, og verdi honum þad Ovart, þa aangrar hann þad af Hiarta, og unir illa Hag sijnum, nema hann faai komid sier aftur i samt Lag og naad hanns Vinaattu, er honum þykir iñdællt ad elska. So eru og Guds Born lynd: verdi þau yfirstijginn af nockurri Hrosun, þa standa þau braatt upp aptur til ad Fridmælast vid Gud: Þad sie eg aa David, Psalm. 38. Þad sie eg aa Petri, Matth. 26. og odrum fleyrum, hvorier, er þeir hafa ratad i nockurn Glæp, hafa þeir ecki Frid edur Roo haft, fyrr enn þeir hafa sættst vid Gud, hvorn þeir af Hiarta elskudu. Enn ecki er þess ad dylia, Born mijn good, ad þeir sem eru i miklum Kiærleika vid Gud, og ordnir eru einn Andi med honum, 1. Cor 6. Þeim er miklu vandara enn odrum i slijku. Faderinn heimtar meiri Elsku af Syninum enn af Þrælnum, jafnvel þoott sijdur giori hann Barnid Arflaust, helldur enn Þrælinn wtlægann wr Hwsinu: Þad mætti ætla ad margur hefdi meira tilunnid vid Gud eñ Moyses, þegar hann sloo Tvisvar aa Klettinn, Num. 20. Enn fyrir þvi ad hann var Gudi so Handgenginn framar odrum, þa vard hann straffadur. Margur Konungur hefur laatid telia Lands-Foolkid, til ad vita hvor hanns Makt væri, og hvad hann mætti reida sig uppaa. Þo vard þad David til Syndar reiknad, 2. Sam. 24. Jaa, stoorrar Syndar, af þvi hañ i þad Siñ hafdi meira Traust aa Mañ-Aflanum eñ a Gudi, er þo so ofstlega hafdi barist fyrir hañ, og lagt hañs Fiand-Menn ad Velli. So skulum vier og meina um þañ, sem Gud hefur Eitt Siñ ad sier tekid, honum veitir hægra ad bera Avoxt, enn hinum, sem enn þa hefur ecki notid þeirrar Naadar, og vinnur hann þvi til meiri Hegningar, Luc. 12. ef hann afbregdur. So er þessi Elskann til Guds, sem af Ydraninni og Trwnni framkiemur, nockurskonar Sædi, hvar af allar goodar Dygdir spretta, sem aadur er sagt: Og af henni kiemur hin nija Hlijdni og Umboot Lijfdaganna, aan hvorrar bædi Ydraninn og Trwinn daudar eru og Maktarlausar, þvi þad er einginn Ydran sem lofar Manninum aftur ad gaanga til somu Synda, og þad er ecki hin sanna Trw, sem ei verkar fyrir Kiærleikann, Gal. 5. Hvar um St. Jacob noogu skorinnordt talar i sijns Pistils 2. Cap. Og þessi er hin Andlega Uppriisa, hin Fyrri Uppriisa. Sæll er sa sem hefur Hlutdeilld i henni, seigir Guds Andi i Opinnberingar Bookinni, 20. Cap. Og hefi eg nu so med nockrum Rokum sagt, hvornin Christur sie til Falls settur, og hvortium til Uppriisu. Gud giefi ad hinns sijdara meigi

meige s. m fleſter niþotande verda. Giøreſt þvi eige Stall Brædur Gydinga, er þennann Hyrningar Stein forſmaadu, hvør ſem yfer hann fellur, þann mun hann ſundurbrioota, og yfer hvørn ſem hann fellur, þann mun hañ ſundurmola; Matth. 21. O þier ſaa-viſu Børn Veralldarennar! O þier Paafuglar þeſſa vonda Heims! Torvelldara mun ydur verda ad beria Høfdenu vid þennann Stein, enn St. Paale ad ſpyrna aa moote Broddunum, Act. 9. Hann hefur, fyrer ydur og allra Manna Skulld, Høggormſins; þad er Dioful ſins Haus, i ſundur molad, Gen. 3. Munud þier vera ſterkare eñ ydar Høfdinge, ſem er, Gud Veralldar þeſſarar, og drottnar i ydur Bornum Vantruaren-ar? Eph. 2. Ef ad jafnvel eitt Kvikinde ſnerter Fialls-Rætur nar, þaa ſkal þad Dauda deya, ſagde Gud vid Moyſen, Exod. 19. under þad hann wtgaf ſitt Heilaga Logmaal: Enn þegar ſa Steinneñ, ſem einuſiñe er af Fiallenu wtſkorenn og ſundurbraut Jaarned og Leyrenn, Gulled og Silfred, Dan. 2. Þegar hañ, ſege eg, i annad ſinn dettur yfer Gud-lauſann Heim þennañ i hanns ſydare Tilkomu, munu þa Fiollenn hilia ydur fyrer hanns Reide? Apoc. 6. Munud þier ſaa ſtadeſt i hanns Auglite, ſem jafnvel hin mektugu Konga-Rijke hefur i ſundurbroted? Edur vited þier ecke, ad þier Leyr og Aſka erud? Jaa, breiſk Leyr-Kier, ſem optlega detta ſundur af ſiaalfum ſier, auk helldur ad þier kunned ad bua vid þennann fortærande Elld. Gud er eirn mektugur Konungur, Himenenn er hanns Haa-ſæte, Jordenn er Skør hanns Foota, Act. 7. Og nær hann drepur Fætenum vid Þwfu þeſſare, vid þeſſare Madkaveitu, hvar iñe vier ſyndugir Ormar ſkrijdum hvør uñ annañ þverann, þa titrar hun og ſkielfur, eins og Lauf-Blad fyrer Vinde: Munud þier þa ſtadaſt giæta hañs Tilkomu Dag? Mal. 3. nær hañs Reide tekur til ad breña allt til nedſta Hel-vijtis, Deut. 32. Þvi førſmaaed þier þa hañs Riettinde, þvi hallde þier hañs Sendebodar fyrer eina Skoo-Þurku, og þvi hafa hanns Ord ecke Rwm i ydur? Þvi jafnvel þoott ydur meige hitna i Briooſte uñ Stundarſaker, þegar Guds Reidarþruma ſlær uñ Eyru ydar af einum Predikunar-Stool, þa er þo Snioorenn leingur aa Steinunum, þegar Regned ofann kiemur, Jer. 18. helldur enn Mynning hanns Ogurlega Nafns hiaa ydur. Þvi vanvirded þier hañs Sacramenta, þvi hneixled þier hanns Veſælinga, þvi for-ſmaaed þier hañs Volada, þvi ræned þier hinn Faatæka, þvi hamled þier Riettenum ad hafa ſinn Framgaang, þvi hefied þier hinn Raanglaata, og nidur dreped hinum Saklauſa, þvi halldad þier inne Sveita Daglaunarans, þvi giøred þier allt þetta, og ætled Gud mune ecke færa ydur under ſinn Doom fyrer þeſſar bloodugu Skamer og Illgiørder, ef þier ſegieſt ecke hneixlaſt aa JEſu? O þier Eitur Ormar og Nødru Kyn! Vered þo ecke argare enn Phariſæi og Skriftlærder, ſem komu til Johannis Skijrnar, Matth. 3. og ſpured til ad þier faaed umflwed tilkomande Reide. Giøred Ydran, medann Guds Rijke er naalægt. Leited DRottenns medann hann er ad finna, Eſa. 55. og minneſt vid Sonenn, ad þier eige fyrerfareſt aa Veigenum, þegar hanns Reide tekur til ad brenna. Sæler eru aller þeir ed leita Athvarfs hiaa hønum, ſegier David; Jaa, Sæler erud þier, ſem eckert Athvarf hafed i Heime þeſſum, þvi DRottenn er ydar Hlutſkipte. Sæler

erud

erud þier sem alla Hlute hafed yfergiefed, og jafnvel sialfa ydur; þvi þier skulud faa Hundradfallt aptur, og erfa eilijft Lijf, Matth. 19. Sæler erud þier, sem forsmaaed allt Yferlæte og Skarkala Veralldarennar, þvi þier leited ad þvi sem þar uppe er. Coll. 3. Sæler erud þier, nær þier alla Hlute þola viljed fyrer Guds Saker, þvi ydar Verdkaup er nooglegt aa Himnum, Matth. 5. Sæler erud þier midt i Hormungunum, midt i Armæsunum, midt i øllum þeim Raunum sem ydur til Handa bera, þvi Guds Kraptur fullkomnast i ydar Breiskleika, og þa þier veiker erud, þa erud þier maattuger, 2. Cor. 12. Sæler erud þier, nær Heimurenn kallar ydur Afrak og Hreinsun Veralldar, þvi þa erud þier Dijrmæter i Drottenns Augum, þier skulud sia ydar Glede nær þeir munu til Skammar verda, seigier DRottenn, Esa. 66. Þad sem Heimsins Børn troda under Footunum, þad er Guds Haasæte aa medal vor. Eins Jdrande Syndara Hiarta, Esa. 57. Eins Guds Vesælings Saala, er hanns Himinn aa Jordunni. Mørg Skwr rignir þadann ad sønnu yfir þennann Taaranna Dal, enn aller þeir Dropar falla i Guds Sjood, Ps. 56. Hann telur þa og geimir so sem angd Fiølgu-Fie, hann grefur ecki þetta Pund i Jordu, helldur skilar þvi aftur med yfirmaata miklum Avexti, þegar þad verdur uppskorid med Gledi, sem hier var i Taarunum nidursaad, Ps. 126. Hid naatturlega Regnid kiemur fraa Himnum ofann, og friovgar Jordina, so hun ber Avoxt. Taar hinna Andlega Volúdu i Heime þessum koma fraa Gude, þau færa þann Avoxt er safnadur verdur i Bindene Guds Barna, i hinne stooru Endurfædingu, sem Lausnarenn umgietur, Matth. 19. Ef eg leige nockurs Manns Jord under Bw mitt, þa krefur hann mig Landskulldar hvørt Ar, og þad þess vegna, ad hann ætlar mig ecke fullvedia, edur maa ecke sialfur missa. Enn þvi er ecke so vared fyrer hinum stoora Akur-Manne, Gude Allsheriar, Joh. 15. Eg vil allshugar feigenn byggia honum Hiarta mitt, laate hann Ploog Logmaalsins; Ploog Ydranarennar; Ploog Hørmungannæ gaanga umm þennann Stoorgrytis Akur, so sem hann vill, laate hann Gudlaus Villu-Dyr Heims þessa spora hann i sundur og Footum troda, so sem honum Blessudum lijkar, þad er mier fyrer minnstu, þegar eg veit hann er mier Naadugur, og eg maa alltijd missa so miked, sem hann vill laata mig missa, þvi einkis freistar hann yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Og þoott mier þyki meige, so sem hann svare mier ecke hvørs Ars Rentu, sem þo ecke er, þaa maa eg þo vita, ad hann er bæde trwr og Fullvedia, og er eg þess fulloruggur ad hann muni umm sijder Endurgiallda mier hina liettu Byrde Hørmungarennar, sem varer umm Augnablik, med yferghæfannlegrar Dijrdar Eilijfre Þijngd, 2. Cor. 4.

Hvørrar niootande ad verda, unne og veiti øllum Guds Børnum hin Haaleita Guddoomsins Þrenning, Hvørre ad sie Lof og Dijrd, Vellde og Kraptur umm Allder Allda, AMEN.

## A Nijaars Dag.

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

I Þañ Tijma. Epter þad ad Atta Dagar voru lidner, og þad Barned skyllde umskierast, Var hañs Nafn kallad JESUS, Hvad er kallad var af Einglenum, ædur eñ þad hañ var Gieteñ i Moodur Kvide.

## Exordium.

Komed og fœded Verkeñ DRottens, segler Skalldeð, Ps. 66. hvad Ögurlegur hann er i Verkum sijnum vid Mannanna Sonu. Til þessa vil eg eirn-enn hafa kvadt ydur, Brædur mijner, a þessum Haatijdes Deige. Hvornenn Guds Dijrdarfulla Almætte Daasamlega stioornar Arenu oss til Nota; Þad heyrum vier i hinum 74. Psalme, þar David segier: Þinn er Dagurenn, þijn er eirnenn Noottenn, Lioosed og Soolena hefur þu tilbwed, Jardarennar Enda hefur þu afmarkad, Sumar og Vetur hefur þu skapad. Hier yfer laatum vier næsta lijted, Born mijn. Gud giæfe, ei finduſt þeir ed mogla, þegar þesse hanns Raadstofun er ecke epter vorum syndugum Villa. Hvar fyrer? Þvi þad skiedur Daglega, og vier hofum þess Not a hvorre Stundu, og þiker þad Skyllda Guds, ad svipta oss ecke þvi hann eitt Sinn gaf. Jeg heyre ecke ad Jonas hafe þackad Gude fyrer Lundenn, a medann hann stood, enn reidur vard hann, þa hañ visnade, Jon. 4. Munde ecke hiñ Blinde verda Allshugarfeigenn, mætte hann hid Blessada Lioos Soolarennar Augum lijta? Eñ hinum heilskigna þiker þad lijtels verdt. Hvorsu laangar þann, er Omæder, epter Vatnenu? Þad sie eg a Konungenum Dario, er hann drack hinn sætasta Drick Æfe sinnar wr Hest Farenu; Enn þo ecke sijdur af Epterlijkingunne, uñ hinn Rijka Mann, er hann æskte eins Vatns Dropa af Fingre Lazari, þa hann vaknade upp i Helvijte og Kvolunum, Luc. 16. hvorn hann mun þo lijtels meted hafa, þegar hann liek sier ad allre Fullsælu Veralldar. Jeg tek hina Almenneleguſtu Hute, sem minnſt eru af Monnum virdter, til ad sijna vort Opacklæte vid Gud, i Stadenn þeirra Hluta er hanns Millde ollum jafnt veiter, Vondum og Goodum, Rijkum og Faatækum, Stund epter Stund, Dag epter Dag, Ar epter Ar. O minn Gud! Hvoriu skulum vier þier giallda? Eckert hefur Snaudur fyrer ad giefa. Hvoriu skulum vier svara? Ecke Einu a moote Þusund, Job. 9. Hvad skulum vier af oss giora? Vægt er þaangad ad flija, sem Hond þijn nææ oss ecke, Ps. 139. Vier villdum ad sonnu giefa þier alla oss med Saalu og Lijkama, enn þad er allt þitt, þu hefur oss þad ædur giefed. Gud nææde þad vier hofum teked þijna Limu, og giort þa ad Satans Limum; Lied þa til Verkfæra Ranglætenu, og Syndenne til Jbwdar, Rom. 6. So vier mættum kvijda þvi, ad hinn Heilage i Jsrael munde laata þvilijkum Saurendum wtkasta edur þau i Ellde brenna. Eitt hofum vier til Raads epter, sem er Forþienuſta þijns Eingietens Sonar. Vier hofum Ohlijduger vered, Dan. 9. Hann var hlijdugur allt til Daudans, Phil. 2.

Vier hofum Logmaaled broted, hann er komenn til ad uppfylla Logmaaled, Matth. 5. Vier erum Oumskorner i Hiortum og Eyrum, Act. 7. Hann hefur umskierast læted, so hann umskiere Israels Hiarta og hanns Sædes Hiarta, Devt. 30. Logmaaled lijker Bolvan yfer þeim, sem ecke helldur allt þad sem skrifad stendur i Logmaalenu, Devt. 27. Enn Guds Eingietenn Sonur hefur Bolvan Logmaalsins uppaa sig teked i sinne Umskurn, þvi Paulus segier: ad saa sem Umskierast lætur, hann sie Skulldunautur alls Logmaalsins, Gal. 5. Enn þo hann Logmaaled uppfyllte, þa hefur hann samt Logmaalsins Bolvan þolad; Hann eirn, sem giorde allt þad i Logmaalenu skrifad er, hann Einsamall er aa moote Logmaalenu ad siaalfs sijns Vilia dæenn. Hann eirn, sem ætte alla Hlute; Hann betalade þad hann rænte ecke, Ps. 69. Og hann, sem er Gud Blessadur um Allder, Rom. 9. Hann er so sem onnur Bolvan uppheingdur. Læted þvilijkann Guddoomsins Kiærleika upprickia ydar Hiortum i Himenenn um Stundarsaker, fraa Jardneskum Hiegooma, til ad umskierast med Christo: Af hvors Allra Helgustu Umskurn, er oss bodud verdur i þessu Evangelio; Vier viljum læra, ad umskerast i Andlegann Maata, Eph. 4. Vil eg þvi laata Tal mitt vera þar um i þetta Sinn; Hvornenn hinne Andlegu Umskurn hættad sie. DRottenn umskier þu Hiortu vor med Sverde Andans; So þetta vel luckest, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingen.

EF þu vardveiter ecke Logmaaled, þa er þijn Umskurn ordenn ad Yferhwd, segier Paall, Rom. 2. Ad sonnu talade hann þad Gydingum til Blygdunar: Enn þo maa hier af siaa, ad hin Ytre Umskurn mune ecke hafa einhlijt vered til Saaluhjaalpar. So sem þad var nu fyrer Gydingum, so er þad og fyrer oss, Brædur mijner; þvi ecke meigum vier vænta oss betre Kosta enn hiner Naatturlegu Kvisterner, Rom. 11. Ecke eru aller þeir full-Christner, sem opennberlega eru skijrder, helldur þeir sem fyrer Skijrnena eru med Christo greptrader til Daudanns, og lifa i Endurnijungu Lijfdaganna, Rom. 6. Þacker og Lof sieu eilijfum Gude, sem fyrer Vatns-Saaenn i Ordenu hefur Endurgieted oss i Christo til lifande Vonar, 1. Pet. 1. Enn þar fyrer hefur hann Endurgieted oss, ad vier skylldum Gude lifa, enn Syndenne deya. Þar skal koma eirn Dagur, segier DRottenn, fyrer Munn Jeremiæ, Cap. 9. ad eg skal heimsækia alla Oumskorna, sem eru i Umskurnenne. Þar af ræd eg, ad margur mune hafa bored þetta Teikn aa sijnum Lijkama, sem ecke hefur haft þess mikel Not i sijnu Hiarta, ecke sijdur enn nu. Munu ecke allmarger giefast þeir, ed hroosa sier af Gudhrædslunne, enn afneita þo hennar Krapte? 1. Tim. 3. Margur mun skijrdur med Vatne og Anda i Fyrstu, sem illa lijdur ad laata sig med Christo fyrer Holldsins Deydingu umskiera. Aller Heidingiar eru Oumskorner, segier DRottenn, Jer. 9. Enn Israels Hws er Oumskored i Hiarta. Þar er ad Ottast fyrer, ad Gud hafe enn nu i Dag Ordsok til ad segia: Ad Tyrkiar og Tartarar sieu Oskijrder, enn marger þeir ed sig Christna nefna, sieu Oskijrder i Anda, edur ecke umskorner þeirre Umskurn, er Paulus um-talar, er hann segier; Þier erud umskorner þeirri

Umskurn, sem ecke er med Hondum gior, hvor ad er Umskurn Christi, Col. 2. Pad er, Deyding Holdlegra Gyrnda, fyrer Christi Dauda, Christi Uppristu og Christi Anda. Nu verdur i Skriftenne sierdeilis gieted um Andlega Umskurn a Tveimur Lijkamans Portum: Baada nefner Stephanus Pijslar-Vottur DRottens, segiande; Pier Hardsvijrader og Oumskorner i Hiortum og Eyrum, pier mootstanded jafnann Heilogum Anda, Act. 7. Hiartad kallar Ritningenn Mannsinns Hugskot og Krapta Saalarennar, er pvi fylgia; pad vill Gud laata umskiera sier til Ibwdar. Af Hiartanu wtgaanga vondar Hugraner, Manndraap, Hoordoomur, Frillulijfe, Piofnadur, Lijwgvitne, Last-Mælge, Matth. 15. Petta Illyrme ber ad wthreinsa ur Hiartanu, ef Gud skal par innebwa fyrer H. Anda. Synder og Glæper eru Diofulsins Foostur, hvor hann gieted hefur vid spilltre Mannsins Naatturu, fyrer Sampycke Vilians; enn hvorsu mæ Guds Eingietenn Sonur, sem er Lioome hans Dijrdar og Imynd hanns Guddoomlegrar Persoonu, Ebr. 1. eiga Sess vid Diofulsins Dætur? Hann hefur Trwlofad sier hreina Brwde, pa ed hvorke Fleck nie Hrucku hefde, Eph. 5. pvi er ei Von ad hann vilie i sama Herberge lijda pessar Helvijtis Ambaatter. Rek wt Ambaattena med hennar Syne, pvi Sonur Ambaattarennar skal ecke erfa med Syne hinar Frialsu, segier Ritninginn, Gal. 4. Syner Ambaattarennar eru Hoilldsins Verk, pau byriar wt ad reka i Eydemorku, aasamt Moodurenne, eda ad minsta Koste, ad temia hana, so ad Agar drottne ecke yfer Sara, nie Ismael ofsæke Isaac, Gen. 21. Ef pijn Hond eda pinn Footur hneixlar pig, segier JEsus, Matth. 18. pa snijd hann burt og snara honum fraa pier; Pad heiter ad umskierast i Andlegann Maata. Ecke hefur Gud Pocknan a pvi ad nockur meide edur hamle Lijkama sinn, eins og Baals Prestar, 1. Reg. 18. Og poott hann hefde, pa være sa Footur edur Hond betur af-hoggvenn, sem ætlar ad draga Mannenn til Helvijtis; betra er pau rotne hier a Jordunne, enn svijde eilijflega i Helvijte. Enn pess parf ei vid: Par er Sverd Andans, Hebr. 4. sem afsnijdur so ecke a sier, pad giorer Svida um Hrijd, enn pad bæter eilijflega, pad verkar Hrigd um Stundarsaker, enn epter a giefur pad fridsamlegann Avoxt Riettlætesins, Hebr. 12. Pier gieted ecke under eins drucked Christi Kaleik og Diofulsins, segier Paall, 1. Cor. 10. Hefde Guds Heilagleike gietad lided Andskotans Saurende, munde hann ecke hafa vered Utsnaradur af Himne; Gud villde ecke lijda Satans Naalægd i Himnarijke, eige helldur i sijnu Rijke hier a Jordunne, sem er i Guds Barna Hiortum. Guds Rijke er inne hiaa ydur, segier Frelsarenn, Luc. 17. Enn hvor hann Syndenne pioonar, pad er, hvor hana lætur drottna i sijnum dauðlegum Lijkama, hann hefur giorst Andskotans Madur, en raaded Pegn undan Gude. Pvi segier Paulus, Rom. 6. Vited pier ecke, ad hvorium pier liaaest i Prældoom til Hlijdnis, pess Prælar erud pier, er pier hlijded, hvort helldur Syndenne til Dauda, edur Hlijdnenne til Riettlætis? Laated ei villa ydur! Eg vil pioona Gude i Verkunum, enn hvad mier flijgur i Skap, fæ eg ei vidgiort. Pad er ad vijsu satt: Fuglarner verda ad sonnu ad fliuga yfer Hofuded, pad er baagt ad banna,

 en

enn ecke þurfa þeir ad hreidra sig i Haarenu. Eg vil þioona Gude i Verkunum, segier þu; Hvad þa? Ætlar þu ad þiodna Syndenne i Hiartanu? Siaa þa til, ad þu faaer ei sama Vitnisburd og Phariseæi, ad hid Ytra siertu fagur, eins og daudra Manna Grafer, enn Innvortis fullur med allskonar Obeckt, Matth. 23. Þegar Hiartad er gott, þa er meire Von aa ad allt sie gott, þvi Gud aalijtur Hiartad, 1. Sam. 16. Goodur Madur, af goodum Fiesiood sijns Hiarta, framber Gott, segier Hiartnanna Rannsakare, Matth. 12. Eingenn kann ad segia: Mitt Hiarta er hreint, Eg em klaar af Syndenne, Prov. 20. Hitt kann eg af Alvoru ad giora, ad bidia Gud ad skapa i mier hreint Hiarta, Ps. 51. Hvad ef ecke tekst ad ollu leite, vegna þeirrar Syndar sem i mier bijr, Rom. 7. þa tekst þad fyrer JEsu Blood, sem hreinsar mig af øllum Syndum, 1. Joh. 1. Þvi hann er komenn ad kalla Synduga enn ecke Riettlaata til Ydranar, Matth. 9.

Eg hafde nærre þvi sagt, ad Davids Synder hefde betre vered enn Phariseæanna Riettlæte. David drygde ecke Syndena med þvi Hiartalage, ad hun skyllde Velgiørd heita, helldur af Mannlegum Veikleika; enn allt Phariseæanna Riettlæte var ecke neina Synd, þvi Goodverk þeirra framkomu ecke af Hiarta, helldur til þess ad byrtast fyrer Mønnum, Matth. 6. og þo villdu þeir þad skyllde fyrer Gude gillda. Saa Gud, sem lætur þeim alla Hlute þiena til Gooda, er hann elska, Rom. 8. Hann liet Davids Synd honum fyrer bestu verda, 2. Sam. 12. Enn Phariseæanna Riettlæte snerest þeim jafnann i Synd, so sem allt þad, er ecke framkiemur af Trwnne, Rom. 14. aan hvørrar Omøgulegt er Gude ad þocknast, Hebr. 11. Eingenn segier oss betur enn Moyses, hvørnenn Mannsins Hiarta umskored verdur, Devt. 30. DRottenn mun umskiera þitt Hiarta, so ad þu elsker DRottenn Gud þinn af ollu Hiarta þijnu, og af allre Ondu þinne, ad þu lifer. Elskann til Guds er þad Verkfære, sem best afsnijdur Synder og Leste. Hinn Agiarne vinnur alla Hlute fyrer Rijkdoom. Hvad sparar sa Heiptræke til þess, ad hann faae sijnum Ovin fyrerkomed? Lijtels hefur margur Daudann aktad fyrer Metorda Saker; og þvi skyllde þa ecke Gud vera so sterkur i þeim, er hann elska, so sem Andskotenn i Børnum Vantrwarennar? Eph. 2. Sa sem elskar Vin sinn, hann kostar Kapps um, ad giora sem mest epter Giede hanns. Aller Hluter eru sameiginleger Vina aa millum, ef þad er Fálslaus Elska. Elskann samteinger alla Hlute, so ad Skinlauser og jafnvel dauder Hluter teingiast sijn aa mille, þess vegna, ad hvørs Naattura aa vid annann. Ef þetta Elskunnar Løgmaal er nu so rijkt i Naatturu Hlutanna, þvi skyllde þad ecke hvørium Mun framar aa millum Guds og Mannsins, sem epter hanns Mynd er skapadur? Eingenn Efe er aa þvi, ad sa sem fyrst være komenn i fullkomenn Kiærleika vid Gud, hann telde aungvann Hlut epter sier ad giora hanns vegna, hann giæfe sig og allt sitt alleina Gude, so hann mætte hann eirn aavinna, og hann yrde eitt med honum, og allt hvad Gud bijdur, og ødrum vyrdest þungt ad vera, þad yrde honum sæt Byrde, og þvi segier Paall, Rom. 13. Ad sa sem elskar, hafe Løgmaaled uppfyllt. Gud er Kiærleikurenn, segier Johannes, 1. Pist. 4. Cap. Og sa sem er i Kiærleikanum hann

er

er i Gudi og Gud i hönum. O HErra Gud! Hvilijkt er þetta? Hvorninn maa sa kó-
ra sig undann nockrum Hlut, ad þola Guds vegna, i hvörium Gud bijr? Kann sa um
Æfe illa ad fara sem er i Gudi? Fellur hañ i Synd nockra, þa er Guds styrkve Arm-
Leggur naalægur ad reisa hañ, Ps. 145. Ef hanns Hiarta fordæmir hañ, þa er Gud
mattugri hanns Hiarta, 1. Joh. 3. Ef Vondskufull Heimsins Eftirdæmi ætla ad
villa hañ, þa er ei Guds Fijngur hönum fiarlægur til ad benda hönum aa hiñ rietta Veg:
Og ef Satan ser aa Hendur einum med Her Freistingaña, þa hefur hañ þann ad Vist-
um med sier, sem ad er Trwr, og aungvann lætur freistast yfer Megn fram, 1. Cor. 10.
Þvi aalikta eg so; ad eckert sie kroptugra, eckert aagiætara og eckert heilnæmara Med-
al, til ad umskiera Mannsins Hiarta, enn Elskann til þess eilijfa Gooda, sem er hinn lif-
andi Gud. Eg gat og þess fyrir skomu, Brædur mijnir, ad Meñ ættu sijn Eyru i And-
legann Maata ad umskiera. Eyrunn eru Dyr Hiartans, i giegnum hvor margt geing-
ur, bædi Jllt og Gott; Sæll er sa sem þessu fast helldur, enn wtskwfar hinu. Paulus
varar oss vid, ad einginn fwl Ræda wtgaungi af Munni vorum, Eph. 4. Hun aa ecki
helldur ad gaanga inn um Eyrunn. Þad er Gomul Assokun þeirra, sem tamt er ad
heyra Lijti og Skamir um sinn Naaunga: Eg giet ei byrgt fyrir Eyru mier; enn kann-
skie færri mundu illa tala, nema þig fijsti ad heyra. Eg vil vera faataladur hier um,
þvi baagt mun vera ad temia Munn hinnar prettvijsu Kynslodar, er Hoggorma Eytur
sölgid hefur undir Tungurootum sier, hvar hiñ gamli Dreki, er kallast Diöfull og And-
skoti, Apoc. 12. hefur sier Hreidur bwid, og lagt þar Eggium þeim, wr hvörium um
sijdir mun kviknaa sa Ormur er alldrei deyr, Esa. 66. nema Tungañ aadur umskor-
inn verdi. Alleina vil eg tala um þad fyrir Guds Börnum, hvort ad sie hid hellsta
Medal til ad umskiera Eyruñ i Andlegann Maata: Þad er Guds lifanda Ord, sem er
Haar-hvast Sverd, wtgaangandi af hañs Muñi, sem ad skrijddur er Bloodlitudu Klædi,
Konungur Konunganna og DRottinn DRottnanna, Apoc. 19. David kallar þad
Lystilegann Gras-Haga, Ps. 23. Enn Gud naadi! hvad tregt er Mönnum þo þangad
komid? Paulus nefnir þad Kraft Guds til Saaluhiaalpar ollum þeim sem trwa, Rom.
1. Enn þar er ad ottast fyrir, ad þad verdi hinum Vantrwudu, Guds Kraftur til
Fordæmingar: Þvi Endurlausnarinn seigir, Joh. 12. Þad Ordid sem eg tala, mun
fordæma þaa; Og sannast hier ecke sijdst, ad þad er eins og Tvijeggiad Sverd, er skier aa
baadar Sijdur, þaa ed hiaalpast til Ydrunar, hina til eilijfrar Refsingar. Matur
er Mannsins Meiginn, segium vier; enn hvad er Saalinn ef hun misser Guds Ord? Eins
og St. Paall talar um Eckiuna þa ed i Gyrndum lifir, hun er lifandi daud, 1. Tim. 5.
Krilla Diöfulsins er hun og Helvijtis Elldsneyti. Hvad velldur nu þessum Leida,
Börn mijn? Þad sama, er eg taladi i Ondverdu um hinar Almennilegu Guds Gaaf-
ur, af þvi Guds Ord er so nægt i Heiminum nu ordid, þa vegnar þvi eins og Elemen-
tunum, ad þad er foraktad. Eg sie, aa medann Mennirnir urdu ad fara med Chr-
istni Bodid i giegnum Hwdstrokur og Krossfestingar, þegar Paulus var Haals-

 hogg-

hoggveñ, Petur Krossfestur, Jacobus med Bein-Broti Lijflaatinn, Laurentius steikt-ur a Rist; þa urdu þeir gladir ad þeir maattu lijda nockud fyrir JEsu Nafns Skulld, þaa vard Guds Ord Mønnum sætara enn Hunaang og Hunaangs Seimur, Ps. 119. Þa fañst margur saa, er keypti þa dijrm ætu Perluna, sem Endurlausnarinn talar um, Matth. 13. fyrir alla Aleigu sijna. Enn nu þykir þvi øllu illa varid, sem Gudi er giefid. Þu villt kannskie seigia: Þa væri Raad ad giefa upp ad Predika Christum um Hrijd, og mundi Menn þa eftir hønum laanga, eins og aa Fyrri Døgunum; Eg villdi ad eg giæti Oriett til sumra Manna Þaanka, enn, þvi er verr! ad eg hygg ad nockrir mundi finnast þeir, ed giarna mundu hafa Umskifti aa Svijnunum og Christo, med Gergesenis, Matth. 8. Þvi heyrt hafa Menn Skrijtni þeirra, er laata sier um Munn fara, ad eigi sie þeim Matur i Messunni. Þu talar vel, væri Guds Ord i burtu tekid, þa mundu Menn leita þess med Angist: Mundi þad og ecki gott Raad, ad Gud tæki Soolina af Himninum um nockra Daga, so feingi Menn Vit aa, ad þacka Gudi fyrir hennar Gagnsemi? Þad maa eigi, segir þu, þvi þa mundu allir Menn ûtaf deya, og einginn lifdi til ad giora Gudi Þackir, þar David seigir, Ps. 6. Þeir þacka ecki Gudi, sem i Grofena eru ofannfarnir. Jeg jaata þad satt ad vera; Enn mundir þu leingi lifa i Gudi, ef hanns Ord væru i burt tekinn? Eigi hygg eg þad, þvi Frelsariñ segier, þau sieu Lijf og Andi. Joh. 6. Hvar fyrir? Af þvi ad Saalinn hefur eckert Lijf fyrir utann þau. Enn trw mier til, ad þu sem snerir Bakinu vid Guds Myskunar Fadmi aa medann þu maattir niota hanns Orda, þu mundir verda illur Afturhvarfs til ad leita hanns; þaa hann er ecki leingur ad finna. Þu segir: Sooliñ maa eigi burtu hverfa, so Mennirnir mættu lifa; Enn ef þu mættir sofa aa medann, þa hygg eg þad litlu skipta. So þyki þier og nu, sem i Syndunum sefur aa aungvu rijda, þoott Sool Riettlætisins burtu lijdi og ætti alldrei afturkvæmt, enn þad mundi annad heita, þa þu uppvaknar i Sal Myrkranna, hvar þeir ellda Saalum Ogudlegra Manna. Þeck þvi Giædsku Guds, aumur Madur, og kannast þar vid, ad eins og hann lætur hid fagra Lioos Heimsins renna upp yfir Raanglaata og Riettlaata, Matth. 5. Til þess ad Mannkynid meigi lifa, jafnvel þoott sumir þar eckert i þyggia vilie, so vill hann eirninn ad hin fagra Byrti Evangelii, sem er Lioos aa Vegum vorum, Ps. 119. skijni i Christilegri Kyrkiu, þoott þad verdi af mørgum forsmaad, uppaa þad ad aungvum tape hañ af þeim hann aadur þeckte. Og þesse er Orsokiñ, hvar fyrir hann ecki sendir Hwngur sinna Orda i Landid, Amos. 8. Ord Christi bwi rijkuglega aa medal ydar, ad þier kiennid med allri Vitsku, og aaminnid sial-fa ydur med Andlegum Dicktum, Psalmum og Kvædum, sijngiandi DRottni i ydar Hiortum, seigir Paall, Col. 3. Þessi var Iþroott hinna Fyrstu Christeña Maña, i Stadinn hvørs ad Diøfulliñ hefur iñfært i Heimiñ, Brixli, Haad, Kieskni, Skamarleg Ord og fiblslegt Hial, sem Christnum soomir ecki, Eph. 5.

So er eg hræddur um, Brædur mijnir, ad ef St. Paall mætti lijta upp af Grøf fiñi og sia sig um i heñni, sem nu Christne nefnist, þa mundi hañ ecki vijda fiña JEsu

Christi Tryggda-Pant, Eph. 1. sem hann hefur henne epterlaated, og kallast H. Ande, og hann munde snarara beck(a hana fyrer Andskotans Frillu, helldur enn Brwde hinns Krossfesta. Edur hvar finna Menn nu þad, sem hann vottar um sig og sijna Samchristna? 1. Cor. 4. Þegar oss er formællt, þa blessum vier, þegar vier Ossookter erum, lijdum vier þad. Laangt mun vera ad leita epter Dæme Stephani, Act. 7. og Jacobs Postula, hvørier ed beiddu fyrer þeim, er þaa Aftooku. Mig ugger og, ef Jacob mætte hverfa aptur i Heimenn, þa munde hañ kalla sumra Christenndoom Diofla Trw, þvi so segier hann i sijns Pistils Cap. 2. Þu trwer ad Gud sie Eirn, þvi trwa og Dioflarner og skielfast þar af. Og Gud giæfe þär finduft ei þeir, sem ad nockru leite eru verre enn Dioflarner; Þeir giora ecke epter þeirra Trw, Þvi þeir hafa ecke Von Fyrergiefningarennar, þar þeir eru wtrekner fraa Asioonu Guds eilijflega, og med Myrkranna Hleckium fiotrader, 2. Pet. 2. Enn þoott Gud wtbreide bædar Hendur, Esa 65. Þoott hann hroope; Þu hefur drygt Hooraner med mørgum Elskuga, kom samt aptur til mijn, segier DRottenn Gud, Jer. 3. Þoott hann læte Døgum optar heyra; Eg vil ecke Synndugs Manns Dauda, helldur ad hann snwe sier og life, Ezech. 33. Þoott hañ læte Almennelega wtberast: Þvoed ydur, Hreinsed ydur, Taked ydar Jllsku-Breitne fraa Auglite mijnu, Komed sijdann og eigunst Log vid; Þoott ydar Synder sieu raudar sem Blood, þa skulu þær Sniooþvijtar verda, og þo þær sieu eins og Purpure raudar, skulu þær verda hvijtar sem Ull, Esa. 1. Þoott vier meigum so tijtt heyra, ad þegar hinn Ogudlege snijr sier fraa øllum sijnum Syndum, er hann giort hefur, og vardveiter Guds Bodord, og giorer Doomenn og Riettvijsena, þa skule hann lifa og ecke deyia, Ezech. 18. Allra hanns Misgiorda skule ecke minnst verda; samt lætur ecke Jllvirkeñ af, og Foolked snijr sier ecke til hanns, er þad typtar, Jer. 8. So þad maa satt jaata, er David talar um hinn Ogudlega, Ps. 14. Ad hann segie i Hiarta sijnu, þar er eingenn Gud. Þvi hræddust Menn, ad Gude mislijkade Ogudlegt Athæfe, þa munde ecke so mikill Osse, Raanglæte, Hardydge, Lygar, Bakmælge, Roogur, Agg, Reide, Prætta, Agyrne, Pioofnadur, og allra handa Andskotans Pioonusta drottna so freklega i Heimenum, ad jafnvel sumt af þessu være fyrer Dygder hallded. Hvad mun nu þessu vallda? Børn mijn! Annad enn þad, ad Menn tilbyrgia Eyrunn fyrer H. Guds Orde. Paulus kallar Ord Guds: Sverd Andans, Eph. 6. Þad er saa beitte Knijfur, med hvørium vor Eyru eiga ad umskierast, enn þesse Benenn svijda miøg so hinum gamla Adam, og þoott hann meige þau aa Stundum þola, þa hafast þau so illa, ad þar svellur um til eilijfs Dauda. Hann hallar sier aptur aa Kodda Syndanna, til ad samannhrwga sier Lærendum, epter þvi sem Eyrun klæa, 2. Tim. 4. Hann er eins og Ziphora var fordum, er hun maatte Naudug umskiera sinn Son, Exod. 4. Þegar Moyses kiemur med Knijfenn, þa kalla Menn hann Blood-Brwdguma, edur Bloodgijrugañ Mañ, giærande ecke ad þvi, ad Gud er wtfarenn i Bræde sinne til ad deyda, ef ecke er vid giort. Gud baud sijnu Foolke; Ad aa Siøunda hvøriu Are, skyllda þeir hallda eitt Hvijldar-

þar=Ar, Og aa medal añarra Bodorda sette hañ, ad aa þvi Are skyllde Anaudugu Foolke Lausn giefast; Enn faa er ei villde Frelse þiggia, hann maatte hañs Herra taka, og setia At i giegnum Eyru honum, og festa vid Dyr edur Dyrustaf, og skyllde hann vera hañs Prækt upp þadann Æfennlega. Exod. 21. Ecke einasta aa hvoriu Siounda Are, helldur aa hvorium Siounda Deige eigum vier þann Kost, ad leysast af Andskotans og Syndarennar Prældoome, þvi þad er Meining alls Evangelii, sem oss predikad er, ad vier sieum friaalser vid Syndena, ecke til þess ad lifa i henne, helldur verdum Gude Handgeingner, til þess ad deya fraa Syndunum, so sem Paall segier, Rom. 6. Pier erud frelster af Syndenne, ordner Pioonar Riettlæteþins. Enn ef nockur vill ei Lausn þyggia, og lætur sig festa aa Eyrunum vid Port Helvijtanna, Andskotanum til eilijfs Prældooms, þa er audsært, ad hanns Sijdara verdur argara hinu Fyrra, 2. Pet. 2. O HErra Gud! mier kiemur i Hug, hvorneñ Guds Eingietenn Sonur vijkur þessare Logmaals=Grein til sijn; Ps. 40. Er hann segier til sijns Himneska Fodur: Offur og Foornfæringar villder þu ecke, enn Eyru mijn hefur þu i giegnum stijnged; Teiknande med þessare Prældooms Mynd hina allra herfeleguſtu Anaud, er hann þolde fyrer Præl Syndarennar, þar hann, sem allt Walld er giefed, bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. kom i Heimenn, ecke til ad laata sier þioona, helldur ad hann odrum þioonade, Matth. 20. þar hann hafde verre Kior enn Hræ=Kvikinde Jardarennar, og Fuglarner under Himnenum, Matth. 8. Hvort þo ecke lætur eirn Titling aa Jordu detta, aan sijns Vilia, Matth. 10. þar hann fieck eckert Rwm i Giesta=Herbergenu, Luc. 2. sem uppfyller bæde Himen og Jord; Þar hañ vard Manna=Þurfe, sem uppfyller alla vora Naudþurft epter Rijkdoome sinnar Dijrdar, Phil. 4. Og hann bar sinn Kross, sem ad ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, Ebr. 1. Þetta giorde hann, segier Paall, þegar hann maatte vel Sælu hafa: Og þo vill Syndarenn ecke liaa honum Eyru sijn til þess, ad hann meige eilijflega med honum rijkia, enn aa þo annars Vegar aungvañ annañ Kost, nema pijnast eilijflega. Gud naade þad, ad vier erum ecke Olijkt aa oss komner, og Cicero skrifar um Catadupos, hvorier ad bwa vid Fossana i Anne Nilo, þad þeir heyre verr enn adrer Menn. So giorer Nidur Veralldar þessarar oss daufa, so vier gietum ecke giætt ad DRottenns Raustu. Johannes segier i hanns Openberana Cap. 1. Ad Rodd Mañsins Sonar, er til hañs talade, hafe vered so sem Lwdurs=Hlioomur. Næsta fagurt maa Gledskapur Veralldarennar laata i Eyrum syndugra Manna, ad vier faaum ecke fyrer honum adgiætt Raustu Brwdgumans er hann so haatt kallar: Hvad velldur þessu? Þvi Eyrun eru so tom aa hitt, ad Menn þeckia ecke hvort fraa odru. Mijner Sauder þeckia mijna Raust, segier hinn goode Hyrder, Joh. 10. Hvad vill hier aa epterfylgia? Born mijn! Þeir sem ecke þeckia hanns Roddu, þeir eru ecke hanns Sauder. Hvad mun fyrer þeim liggia? Hvad vill Doomarenn segia aa hinum mikla og straanga Deige? Ecke þecke eg ydur, fared fraa mier aller Illgiorda=Menn, Matth. 7. Þa mun Saudunum skipad verda aa Hægre Hlid, enn Hofrunum aa hina Vinstre, Matth. 25. Aller vilia ad sonnu i Sauda=Flocknum

num vera, enn þeir sem ecke villdu þeckia Hyrdersins Raust i Naadenne, þeir munu verda med Hofrunum Arf ad taka i Kvolenne. Hvor sem elskar mig og vardveiter mijn Ord, til hanns mun eg koma og mijnn Fader, og Vistar-Veru hiaa honum giora, seger Endurlausnarenn, Joh. 14. Hvad ægiæt ad sie þesse Sambwd, veit eingenn, nema sa ed smackad hefur, hvad sætur ad Gud er. Enn hvar eiga Menn ad faa þennañ Smeck, nema i hanns Orde? Þar verdur JEsus Christus framreiddur til Andlegrar Naultnar, um hvoria hañ sialfur þañ Veg talar, Joh. 6. Hvor sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hann skal ecke Daudann smacka ad eilijfu. Lwked þvi upp Dyrum ydar Eyrna, Guds Elskuleg Born, so Konungur Dyrdarennar meige inngaanga i ydar Hiortu, Ps. 24. Laated þær ecke læstar honum, so hañ læse ecke aptur fyrer ydur Himnenum, dreped ei Hende aa moote frambodenne Naad, og bægest ecke til Vandræda vid hann, sem ydur elskade ad fyrra Bragde. Hann hefur sitt Lijf i Daudann giefed til þess, ad þier faa kyñud hanns gledelegu Raust ad heyra, þvi eingenn hefur um Alldur Gud sienann, sa Eingietne Sonur Fodursins hefur oss þad Opennberad, Joh. 1. O hvad Vitstola er þa Manneskiann, sem tredur þann Dyrgrip under Footum, er wtvegadur er med Guds eigenn Bloode! Þeinked til þess, ad hann laangade epter ad lijda Helvijtis Pijsler ydar vegna, laated ydur eirnenn laanga epter honum, so þier kuñed þær somu ad umflija, eñ eilijflega med honum lifa. O þu eilijfa Ord Fodursins, Herra JEsu Christe, þu sem ert Sætare enn Hunaang, Frijdare enn Soolenn, Gledelegre enn Einglanna Saungur! aahrær þu vor dofenn Eyru, Uppliwk voru Hiarta, Endurnija vorn Anda, so oss leidest um sijder Endeme þessa vonda Heims, enn giore fwsa ad renna epter þier; Þu eilijfa Glede! Laat þijn Fagnadarrijku Ord vera Epterlæte Saalna vorra, so ad vier hofum vora Lijsting i Logmaale þijnu Dag og Noott, Ps. 1. Og þegar vor Augu siaa ecke leingur, vor Eyru heyra ecke leingur, og vor Tunga gietur ecke talad leingur, ad vier þa verduger aaliktast mættum hinn fagra Saung, Heilagur, Heilagur, Heilagur ertu DRottenn Gud Zebaoth, Esa. 6. Eilijflega ad heyra i þijnu Rijke, hvar eingenn Noott er, Apoc. 22. Og eingenn Umskipte Lioossins og Myrkursins; Þad Bænheyre Gud Fader Miskunsemdanna, fyrer hid Dyrmæta Blood sijns Eingietens Sonar, og sende oss þar til Naad sijns Anda, AMEN.

# Suñudageñ mille Attadags og Prettanda.

Gudspialled, Matth. 2. Cap.

Og er Herodes saa þad, ad hañ var gabbadur af Vitringunum, vard hañ reidur, og sende wt, og liet drepa oll Sveinborn til Bethlehem, og i ollum heñar Endemorkum, Tvævetur og þadañ af Yngre, epter þeim Tijma, sem hañ hafde wtspurt af Vitringunum. Þa uppfyllltest hvad sagt er fyrir

er Jeremiam Spamann, sem segier: A Hædum hefur heyrst Kall mikillrar Kveinunar, Ops og Ylfrunar: Rachel æpte Sonu sijna, og villdi ecke huggast laata; Pviad pad var med peim wte.

## Exordium.

NEidest enn Syndged ecke segier Paulus, Eph. 4. Laated eige Soolena undergaanga ydar Reide. Mun nockud Postulenn giefa Monnum Leife til ad reidast med pessum Ordum? Edur er par nockur Riettferdug Reide til? Pvi maa ei neita ad pad sie riett, ad hata paa sem Gud hata og hanns Rietrinde; So segiest David hata Samkundu hinna Illgiornu, Ps. 26. Og Ps. 139. segier hann enn aptur: Mun eg ei hata paa, O Rottenn, er pig hata, og hafa Leida aa peim, er reisa sig upp aa moote pier? Med fullu Hatre hata eg paa, og peir eru ordner mier ad Ovinum. Pa sijner Madurenn ad hann elske Gud af Alvoru, ef hann giarnan stendur af sijnum Riette, enn pycker Guds vegna; Og pad er ad vijsu sw Reide er fylgia aa hvorium Christnum Manne, enn po eirna mest peim, sem yfer adra eru i Guds Stad setter. Ritningenn giefur Moysi pann Vitnisburd, ad hann hafe vered hinn polennmoodaste Madur aa Jordunne, Num. 12. Og eige finnst pad, ad honum hafe runned i Skap, poott Israels Born so optlega settu sig upp i moote honum. Miklu heilldur beidde hann Gud fyrer peim, nær peir høfdu syndgast, Jaa, hann villde hafa mist sijna Velferd, fyrer peirra, er hann sagde vid Gud, Exod. 32. Munt pu fyrergiefa peim sijna Synd? Annars drag mitt Nafn wt wr peirre Book, er pu skrifad hefur; Og er pad po alkunnugt, hvorsu aakaflaga hann reiddest, er hann kom ofann af Fiallenu, og saa Afgudadijrkun Foolksins. Vidlijkt er Dæme St. Paals, er hann æskte sier ad vera wtrekenn fraa Christo fyrer Brædur sijna epter Holldenu, Rom. 9. Og er po kunnugt af Giorninga Book Postulanna, hvorsu hann vandlætte vegna Guds umm paa somu. So og eru kunnug Dæme Phineæ, Num. 25. Samuels, 1. Sam. 15. Jonathans, 1. Sam. 14. Davids, 1. Sam. 17. Ezechiæ Konungs, 2. Reg. 18. Nehemiæ, Nehem. 13. Og annarra Guds Manna, sem hafa teked sier pad nærre, er peir hafa heyrt edur sied Gud Dijrdarennar Vanvirdtann af nockrum, hanns heilaga Nafn lastad, edur hanns Bodord under Footum trodenn; Og er Gude valla nockur Hlutur pægare, sem audraaded er af peirra Straffe, sem i pvilijku hafa Toomlaater vered, ad peir hafa maatt bera peirra Synder, er peir hafa sied i giegnum Fijngur vid; So sem ljoost er af Dæme Eli Kiennemanns, er hann stie framm yfer Glæpe Sona sijnna, 1. Sam. 3. Sauls Konungs, er hann pyrmde Amalechita Konungi, 1. Sam. 15. Og Achabs, pa hann vægde Konungenum af Syria, 1. Reg. 20. Nu poott ad pessu sie so vared, pa hygg eg ad eige sie Postulans Meining pessu, ad hann epterlaate Mannenum ad reidast, edur tale umm pess haattar Reide, er eg Samstundis umngat; pvi hann bijdur i pessum Ordum: Ad Soolenn eige skule undergaanga Mannsins Reide; Hvad so er ad skilia, ad Madur ei skule erfa leingur enn til Kvolldz

ollds þad honum er aa moote giort. Enn Gudlegt Vandlæte og Hatur aa Loſtum og Odygdum aa alldrei vid oſs ad ſkilia; Þvi meinar Poſtulenn hier, ad Menn ſkule temia Reidena, þoott hun kunne ad fliwga i Mannſins Hiarta, og hvorki laata hana naa ſo mikelle Yfir-Hond, ad hun framkome i Orde nie Verke, og enn þa ſijdur ali Foolſkuna i Hiartanu, ſo hun verde ad Hatre: Hvad þvi velldur, ad Manneſkiann verdur Ulfur af Manne, Þræll Syndarennar af Chriſti Læriſveini, og Diofulſins Barn af Guds Barne. Dæme uppaa þeſs haattar Reide hofum vier aa hinum grimma Herode i uppleſnu Evangelio, wt af hvoriu vier hugleida vilium i þetta Sinn: 1. Hvad Skadlegur og Daarlegur Loſtur ad Reidenn ſie. 2. Hvornenn vier eigum ad ſtilla hana.

Hinn Goodi Gud virdeſt Naadarſamlega ad framkvæma þetta Eyrende hiaa oſs, med Adſtod ſijns H. Anda i JEſu Nafne, AMEN.

## Utleggingen.

OG Er Herodes Saa Ad Hann Var Gabbadur Af Vitringunum, Vard Hann Reidur; Seigier Textinn. Hvor var hin fyrſta Ordſok til hanns Reidi? Þad var Metorda Gyrndinn. Strax ſem hann fieck ad heyra af Kiennimanna Hofdingiunum og Skriftlærdum Lijdſins, hvar Chriſtur munde fædaſt, ſkaut Diofullinn honum i Brioost ad Lijflaata þad Nijfædda Konungs Efne JEſum; þad ſijner oſs Samtal hanns vid Vitringana, og ſo Aviijſan ſw, er þeir feingu af Guds Alfu i Svefne, ad hverfa aptur til Baka i ſitt Fodur-Land um annann Veg. Meininginn var ſw, ad hann kynni ad ſtadfeſta ſinn Tignar-Stool og ſinna Nidia eptir ſig. Hvorninn Metorda Gyrndinn ſie i Fyrſtu til kominn, er audſært af Falli Satans, og Falli vorra Fyrſtu Forelldra, af hvorſu oll Olucka er innrunninn til allra Manna, og, aa medal annarra, Reidinn. Og fyrſt Moodurinn hefur giort oſs Adams Nidium ſo ſtoorann Skada, þa er audvitad, ad Dootturinn er henni lijk, nema verri ſie. Hvor er ſw Olucka i Heiminum, er Reidinn ecki af Stad kome? Hun er Verkfære allra Laſta og Odygda. Hun er eins og ein Pyta, ſem lifer eptir hvors Manns Villd; So þioonar Reidenn ollum Skomnum, þegar aa þarf ad hallda. Hvor drap Abel, þegar Cain ofundade hann? Gen. 4. Hvor kveikte Ellden i Balachs Roſum, er hann villde mootſtanda Guds Foolke? Num. 24. Hvor kom Eliab til ad atyrda ſinn Broodur David, er hann forſmaade hann? 1. Sam. 17. Hvor rak Saul til ad offækia ſinn Doottur-Maag, 1. Sam. 19. og ad drepa Kiennemennena i Nobe? 1. Sam. 22. Hvor framkvæmde Achabs vondann Aſetning? 1. Reg. 21. Hvad brwkade Haman til ad ſvala Drambſeme ſine med? Eſt. 3. Hvornenn fieck Joab Metordum ſijnum hallded? 2. Sam. 3. og 10. nema med Reidenne? Og var þad honum þo ecke nema Stundar-Fridur: Ollu þeſſu kom Reidinn af Stad, og er hun ſo eirn almennelegur Bodull allra Skamma og Odygda. Eg veit ad bædi Ariſtoteles og Cicero ſkrifa, ad hun ſie Brijni Hugprijdenar, og ad einginn viini nockurt Stoorvirki, nema reidur ſie: Þad gietur valla ſatt verid, og eigi kiemur þad ſamann vid ſiaalfa þaa, er þeir ſegia, ad Hugprijdinn ſkuli vera aa Skynſeminni grundvollud. Enn ſaa ſem reidur er, hann

hann er Vitlaus, og þvi seigir Horatius, ad hun sie nockurskonar stutt Ædi; Teiknandi þar med, ad einginn sie Munur þess, sem reidur, og hins sem Vitstola er, nema ad Reidinn varir skiemur, Ædid leingur: Og eru þo Dæmi til þess, ad sumir hafa bwid so leingi ad Heiptinni, ad þeir alldrei hafa ordid Heilvita aftur. Heiptinn er eitt Andskotans Reidar-Slag; Gen. 4. Hun afmyndar ö lla Mannsins Limi og Lidi, hun kveikir Baal i Augunum, hun hleipir Bloodi i Nasernar, Boolgu i Kinnarnar, Ædi og Stioornleysi i Tunguna, Deyfu fyrir Eyrunn, hun lætur Manninn gnijsta med Tönnum, slwga med Hondunum, æda med Footunum, hun skiekur og hristir allann Lijkamann og aflagar, so sem þegar Hafid er uppblaasid af Stoorvidri. Og i einu Ordi ad seigia: Hun giorir Manninn ad Ofreskiu og ad Holldgietnum Dioffli, i Augum þeirra sem heilvita eru: Og ef hun so afskræmir Asijnd Mannsins fyrir odrum Monnum, hvornenn mun hun þa ecki afmynda Saalina i Guds Augliti? Seigid mier; Hvilijkur Dioful mun þar inni bwa, sem Alit Mannsins verdur hid ytra so afskræmt? Hvilijkur Elldur mun vera i þvi Hiarta, er hann lyster sig þanninn wt i hvorn einn Lid og Lim? Þad er ollum liooft, ad eckert styrkir og eflir Sambwd Mannanna i Heiminum, meir enn Kiærleikurinn, þvi hann er Band Fridarins, Eph. 4. Hann bindur saman Hiortu Mannanna, og hann samanteingir og vidhelldur Christi Lijkama, sem er hans Kyrkia hier aa Jordunni. Enn hvad seigir Salomon, Prov. 18. Hvor gietur þolad eirn reidann Mann? Hvar af audsied er, ad hann, sem Reidigiarn er, hann er Ohæfur til Samneytis annarra Manna, og Ohæfur til ad vera Christi Limur og hans Kyrkiu. Hvad er hann þa? Andskotans Limur og þeirra Stall-Broodir, sem Tonnlast og Tyggiast Innbyrdis, þar til þeir um sijdir verda uppetnir, Gal. 5.

Eg hefi nockrum Sinnum heyrt aa Tal þeirra, er seigia: Menn verda ad reidast, og laata til sijn taka, annars verda Menn forsmaadir, og ad hvor Madur giori sier dællt vid þann sem eckert Sinni hefur, þvi sie þad Hofdingskapur og Stoormenska ad reidast aakaflega, so ad þeir hrockve undann, er einum mootþægia. Ecki ræt ist þetta aavallt, so vel fari, þvi annadhvort reidist eg vid Of-Menni mitt, edur vid minn Jafningia, edur vid mier minni Mann. Reidist eg vid þann sem er meiri Maattar enn eg, þa er eg diarflegur, og reisi mier Hurdar-Aas um Öxl; þvi so seigir Syrach: Þraatta ei vid þann, sem er rijkari þier. Sie hann minn Jafningi, þa viti Menn, ad eckert er þvilijkt Fool, ad ecki eigi sier Jafningia. Og þegar Menn beria Tveim Steinum samann, þa er vansied hvor þeirra fyrri brotnar. Sie hann minni Maattar, þaa giori eg sioalfum mier Oriett, ad eg spilli mier aa honum, sem eg giet alltijd naad Josnudi aa Reidi-laust, og ef mig kostar þad Omak nockurt, þa vil eg þo hyra, ef eg væri Hugprwdur, ad þad sieu Smaamunir ad wthella Reidi sinni yfir þann, sem aungva Mootstodu gietur veitt, og þvi kalla eg sælla og Samvitskubetra ad fylgia Raadum þeirra Salomons, Prov. 25. og Pauls Postula, Rom. 12. Ad safna Gloodum Ellds yfir Hofud Ovinar sijns med Goodgiordum, so hann skammist sijn og rodni af Blygdan, ad hann hafi mier illa tilgiort, er ecki meir ræki hans Mootgiordir

giørder enn so, ad eg giefe hønum ad eta, nær hann er Hwngradur, og ad drecka, nær hann er Þyrstur; Og hvør sem ødruvijs kienner, hañ framfylger so kappsamlega Satans Evangelio medal Mannanna, so sem Guds Pijslar-Vottar Christi Lærdoome, þeir ed blessudu nær þeir lastader voru, og þølldu þad ad þeir voru offoókter, 1. Cor. 4. Eg vil eige faa mier þad til Orda, hvørn Skáda Menn giøra sialfum sier med Reidenne. Saa sem giarn er til Reide, hann er jafnann Sinnisveikur. Eingenn er so var i Umgeingne sinne, ad hann gieti giørt hønum til Meata, og eru þeir þo færster af oss, er so regle nid-ur Athafner sijnar, ad ecke verde adfunded; Enn hann, sem Reidur er, hann er eins og Elldur i Sinu. Hvad sem ecke er epter hanns Skape, þad grijpur hann, eins og Elld-urenn Tundred, Og þar fyrer utann spiller Reidenn Heilsu Lijkamans, ecke all-lijted; þvi segier hinn Vijse: Vandfijsnenn og Reidenn stitta Dagana, og slijta Ellenne, Syr. 30. Eg vil ei tala um̃, hvørsu opt ad hun spiller Gotze og Formegun Manna. Hinn Reide-giarne er eins og saa er bijr i Straa-Hwse: Hann kann ad vera fullrijkur ad Morgne, eñ ef Ellldurenn grijpur þad, verdur hann Hwsgaangs-Madur ad Kvølllde. Skam̃a Stund verdur Hønd Høgge feigenn, segium vier. Hvad margur hefur giørt þad i Bræde sinne, aa einu Augnablike, sem hann hefur ydrast epter alla sijna Æfe? Þad er valla Mann-Kostur þvilijkur, sem ad hafa Valld aa Tungu sinne, og þad er so Naudsynlegt, ad St. Pe-tur segier, 1. Pist. 3. Hvør sem vill elska Lijfed, og siaa gooda Daga; hann hallde Tun-gu sinne fraa Illu: Enn þad er hønum Omøgulegt sem Reidenn er, þvi hann hefur eckert Valld aa neinum sijnum Lim, auk helldur Tungunne, er Jacob segier bæagara sie ad tem-ia, enn alla Nautturu Dijranna, Fuglanna og Fiskanna, Jacob. 3. Nu þoott ad þad sie noogu stoor Olucka, sem allareidu er upptaled, þa er þo ecke bwed þar med: Reidenn er ad sonnu kølllud stutt Æde, enn ecke er þad hiaa øllum. Hiaa allmørgum snijst hun upp i Hatur, og eingenn hatar saa añañ, ad hann hafe hønum ecke fyrst reidur orded. Faa-um þeim sem reidast, þyker Reide sijn Raanglaat vera, og med soddann Moote verdur hun ad Hatre i Mannsins Hiarta, og swrnar þar inne, til þess hun skiem̃er Kiered, og er þa illa fared med Guds Musteri, 2. Cor. 6. Þegar þad er giørt ad soddann Diøfla-Bæle, hvar Andskotenn inne rijker med Siø Ondum sier verre, Luc. 11 Þvi Heiptenn er alldrei Einsømul: Osund, Drambseme, Roogur, Lijge, Bakmælge, Agg, Præ-ta, Tvijdrægne, og margt annad Illþijde, fylger henne giarna. Paall segier i þeim Ord-um, er eg i Ondverdu las fyrer ydur: Laated ecke Soolena undergaanga ydar Reide; med hvøriu hann tekur oss Vara fyrer, ad þoott oss henda kynne ad reidast, þa skulum vier þo ecke laata Reidena ad Hatre verda. Enn strax þar epter segier hann: Giefed ei Diøflenum Rwm, Eph. 4. og bender oss til med þeim Ordum: ad þar sem Andskotenn er Hwsboonde, þar mune þetta hanns Hyske med hønum Samsæte eiga, og er þeim Manne vijst Helvijte, so sioott sem Aundenn skreppur wt af Kroppnum, sem af þessum Pwkum er kvalenn, nema hañ hreinse aadur Saalu sijna med heitre Ydran; og er raadlegt, ad ætla ecke til, ad Daudanns Beiskia skule þad giøra, þvi vandhitt er aa, hvort þar

verdur Toom til þess, ef so kann til ad bera, ad hann kome ad Skyndingu. Enn stoor Saar þurfa mikla Grædslu. Þetta Groom er ecke so flioott wtþveiged, er so lengi hefur brened um sig i Mannsins Hiarta. Enn hitt er vijst, ad so sem þeir aller faa Kvittun Synda sinna, er fyrergiefa wt af Hiarta sijnum Broodur hanns Misgiörder, nær þeir hennar leita af Alvoru i Nafne JEsu Christi; So verda og hinum sijnar Synder aptur halldnar, er ala Hatur til Nææungans, og Gud vill þa ecke heyra, þoott þeir wtbreidi sijnar Hendur, Es. 1. og bidie mörgum Ordum. Hvar fyrer? Þvi þoott ad ei sieu Hendur þeirra fullar af Bloode, fyrer Otta Saker, þa er þo Hiarta þeirra. Og hygg eg sa bert ecke langt af Mordingianum, sem Hrædslann fyrer Straffenu alleina hamlar ad slaa sinn Broodur i Hel. Verda maa ad Cain hefde lated Abel lifa, Gen. 4. Og Joab, Ashael og Abner, 2. Sam. 2. og 20. hefdu þeir Ottast Boduls-Oxena. Og hefe eg nu ad nockru Leite sagt, hvorsu skadleg ad sie Reidenn og Heiptræknenn; enn ecke er hun sijdur Daarleg og Heimskuleg. Hvorier eru giarnaster aa Reide? Þad eru Börn, þad eru vesæler Menn og heimsker; Þar um talar Salomon, Prov. 12. Hinn Faavijse hleiper fram Reide sinne, enn saa er vitur, er hann læst ecke sia Oriettenn. Segied mier, þier Babylons Giærdingar, þier Veralldarennar Phaetontes, † sem vilied dansa aa allra Manna Höfdum, og soopa allt þad, er ydur mislijkar, i burtu med hinum snarpa Reidennar-Vinde. Vilied þier laata hallda ydur lijka þessum? Þier segied: Margur stoor og vitur Höfdinge hefur vered hneigdur til Reide; Þad er þess verr, þa hafa þeir miög so nidurdreped Tign sinne. Homerus skrifar um Agamemnon, (er Gricker nefndu Kongung Konunganna, af þvi hann var fyrer Lide þeirra i Troiumanna Bardögum) ad þa hann hafe vered i goodu Skape, hafe hann vered Godunum lijkur ad Millde og Vijsdoome; Enn þegar Reidenn took hann, grimare enn hin verstu Oarga Dijr. Siaaed þo hvad hid heidna Skallld dæmer hier um: Godunum eignar hann Vitskuna og Milldena, enn Reidena Vorgunum. Þad er og riett dæmt, þvi eingenn kann meir Gude ad lijkiast, enn med Giædskunne. Þar fyrer sagde DRottenn: Vered Myskunsamer, lijka sem ydar Fader er Myskunsamur, Luc. 6. Og eckert lætur verr aa einum Konunge, sem er nærstur Gude, enn Reidenn. Þeim er öllum framar hroosad, sem stioornad hafa med Riette og Myskunseme, enn hinum, er rijkt hafa med Hardydge og Ofvellde, jafnvel þo þeir hafe att Rijke meira enn hiner. Alexander hinn Stoore hefde enn þa stærre vered, hefde hann Clitum, Parmenionem og Calistenem Odrepna laated, helldur enn þoott hann hefde broted under sig allann Heimenn; Þvi var þad ægiætt er hanns Skolameistare Aristoteles skrifade hönum til (er hann heyrde ad Reidenn og Ofsenn tooku til ad aflaga Giedsmune hanns) aa þennann Haatt: Þeir sem reidast, Þeir reidast sier meire Mönnum. Enn þar er eingenn stærre enn þu, þvi byriar þier ecke ad reidast. Siaaed hier hvort Reidenn og

† Skaalldinn dikta um Paetontem, ad hann hafi verid Soolarinnar Sonur, og feingid af Födur sijnum med Bæn, ad hann mætti stijra Soolar Vagninum eirn Dag. Þad tookst hönum so illa, ad hann datt af Himninum, þegar hann var kominn sem hærst i Loftid. Þvi kallast allir Oöig Menn, sem hvorki þeckia Gud nie sialfa sig, Veralldarinnar Phaetontes.

og Foolskann giorer nockurn meire Mann, ef riett er æliteð? Alldeilis ecke, þvi hun giorer hann, sem annars være mikell Madur, ad Kvikende Veralldar og Athlæe skinsamra Manna. Þvi var þad viturlega talad af Cicerone fyrer Julio Keysara; Ad sa eine Dagur, er hann gaf Marcello Lands=Vist, hann giorde hann frægare enn allar hanns Sigurvinningar. Kalla Menn þad ecke hinn mesta Daaruskap ad farga sialfum sier? Enn hinn Reide er Vijsflugunne lijkur, þegar hun stijngur, þa stijngur hun sialfa sig i Hel, og skilur Lijfed epter i Saarenu. So giorer og optlega sa, ed lætur Reidena fyrer sig raada; Drepe hann ecke sinn Ovin, so hann verde aptur drepenn, þa drepur hann þo gott Mannaord sitt, hann drepur gooda Samvitsku, Ja, Saalena, ef til vill, ef hann mellter Reidena med sier þar til hun sioldnar i Hiartanu. Saa sem dreckur Oforvarandis nockud Banvænt, hann maa sia til hvornenn hann faae þvi ælt upp aptur, þad fyrsta hann verdur þess var, Annars er Daudenn vijs; So er og i þessu; Hende nockurn þa Avirding ad hann reidest Broodur sijnum, þa siae hann til, ad hann faae Heiptena af Braut reked, þad fyrsta hann verdur Heilvita aptur, og kiemur til sialfs sijns, annars myrder hann Saalu sijna; hann myrder eirn Mann i Hiarta sijnu, so opt sem hann minnest med Heiptrækne a þad sem vid hann var afgiort, so opt sem hann æsker Hefndar yfer Ovin sijnum, so opt sem hann fagnar yfer þeirre Hefnd, er hann alla reidu feinged hefur yfer sijnum Naaunga. Þvi ef Christur segier: Ad saa sem lijtur eina Konu til ad gyrnast hana, hann hafe allareidu drijgt Hoor med henne i sijne Hiarta, Matth. 5. Þa er lijklegt, ad Heiptenn mune ecke hafa meira Frelse i Himnenum, helldur enn Oleifeleg Elska, hvott hvorutveggia sie Andstigd fyrer Gude. Segied mier; Hvada Daaraskapur er þa þad, ad spilla so Vinattu hanns med Foolskunne, sem sagt hefur; Nema þier fyrergiefed Monnunum þeirra Misgiorder, þa vill minn Himneskur Fader ecke tilgiefa ydur ydar Synder, Matth. 6. Ad Menn naa henne ecke aptur, fyrr enn Menn hafa sættst vid Broodur sinn, og være þa betur heima seted enn fared. Ollum þyker miked fyrer ad bidia Forlaats a Avirdingum honum, og enn þa meira, ad laata undann honum sem oss hefur tilgiort. Þetta verdur þo ad vera, ef Menn skulu hallda Guds Vinattu. Christur bidur ecke fyrer þær Synndernar, sem hann veit ad hanns Fader ecke tilgiefur. O! Gud naade oss, hvorsu illa er honum þa fared, sem Guds Sonur vill ecke bidia fyrer? Þvi kalla eg þad hinn mesta Daaruskap, ad fremia þad i Braadræde, fyrer hvort Menn annadhvort skulu missa Guds Ast i Himnenum, edur og Byrdingu sijna hiaa Monnunum. Enn eg hefe allareidu sijnt, ad saa verdur annadhvort ad giora, sem Heiptrækur er, og være þa betra alldrei ad reidast, edur, ad minnsta Koste, laata Reidena ecke faa so miked Valld yfer sier, ad hun briootest wt umm Munnenn edur Hendurnar. Og hefe eg so nockud talad umm þad, hvad Skadleg og Daarleg ad Reidenn sie. Nu vilium vier sijdann heyra med hvorium Moote Menn faae henne best i Taume halldeð.

Þad er ad tala yfer sig, ad segiast vilia edur kunna Reidenne alldeilis fraa sier ad hrinda. Fordilld Heidenna Spekinga er þad, enn ecke Þecking Christenna Manna a sialfum

sier.

sier. Pad er eins Ohægt, og einhvor segia villde, pad hann kynne olldungis ad deyda Spilling Natturunnar so hun hreifde sier alldrei; og er pad alldeilis Omogulegt, so leinge vier berum epter oss pennann Daudlega Lijkama. Pad er og ecke Riettvijst, alldrei ad reidast: Reidast eigum vier Synduin og Glæpum, reidast eigum vier siaalfum oss, nær vier fremium eitthvad af slijku: Reidast eigum vier og vandlæta fyrer Guds Saker: Pvi er pad hvorke Mogulegt nie Gagnlegt Reidena alldeilis burt ad taka, enn ad setia Skordur vid henne, ad sem minnst gange hun yfer Maal HooglæteSins edur kreinke Samvitskuna, par um̃ a Christenn Madur ad laata sier hugad vera: Og er pad hid Fyrsta, ad vier yduglega hugleidum hvad skadlegur og daarlegur Lostur ad Reidenn sie, hvar um̃ eg nockud talad hefe i hinum Fyrra Partenum. Par nærst er pad, ad Meñ varest peirra Selskap, er oss mest kunna ad egna til Reide, edur siaalfer eru med pessum Skap-Lost plaagader: Par um̃ talar Salomon, Prov. 22. Vert ecke Vinur Reidens Manns, og gack ecke med hinum Gallda, ad pu lærer ecke hañs Vegu, og hneixler Saalu piina. Par ad auke ad Menn varest pær Ordsaker, hvar af Reidenn plagar giarnañ ad kvikna i Mannsins Briooste. Og er pad hid fyrsta, ad vier ecke bwum yfer neinum illum Asetninge. Hvad pesse Blood-Hundur Herodes hafe i Sinne haft, er af Gudspialls-Historiunne augliooft, sem var, ad lijflaata pad saklausa, nijfædda Konungs Efne JEsum, ecke so af Reide, edur illu Skape i Fyrstunne, so sem af Metorda Gyrnd, sem adur er sagt; Enn er hann saa ad pesse hanns illur Asetningur hafde ei Framgaang, pa kveikte Diofullenn Foolskuna i hanns Hiarta, so hann liet myrda pesse Saklausu Born: ecke var petta hid Fyrsta Bragd Satans vid hann; Adur hafde hann laated af Dogum raada sijna eigenn Sonu, Alexandrum og Aristobulum, er peir voru rægder vid hann, so sem ad sætu peir honum epter Rijkenu, og po aan Orsaka, so sem af Sogunum raada maa. Petta er alltijtt i Heimenum: sa sem ecke kiemur fram̃ sinne illre Fyrerætlan, hañ reidest aungvum Hlut so miog, sem pvi, so hann gietur ecke aflaated; Pad siaa Menn a Pharaone, er hann fieck ecke hallded Jsrael a moote Guds Vilia, Exod. 14. Pad sijner oss Dæme Sauls Konungs, er hann gat ecke David fyrerkomed, 1. Sam. 22. Achabs Dæme, er hann fieck ecke svælt under sig Nabots Vijngard, 1. Reg. 21. Gydinga, er peir feingu pvi ecke raaded vid Postulana, ad laata af ad predika wtaf JEsu Nafne, Act. 5. Daarlegt er panneñ ad villa strijda vid hinn Almaattuga. So blindar nu Reidenn pann, sem illt hefur i Sinne. Añadhvort trwde Herodes Spaadoomunum, edur hañ trwde peim ecke. Ef hañ peim ecke trwde, hvad droo hañ pa til pess ad fremia petta Gudlausa Mord? Og ef hann peim trwde, pa var pad Gloopska ad vilia beriast vid Gud, enn pad saa hann ecke, fyrer Heiptenne, og pessare Foolsku velldur nu illur Asetningur. Vondskann er Frilla Diofulsins, og eitt Friossamt Kvikende; Ein Jllska gietur Pusund adrar af sier, og er Reidenn og Heiptræknenn Fooster-Mooder allra peirra. Vakte pvi hvor Christenn Madur Hiarta sitt, og laate par aungva Syndsamlega Gyrnd inne drottna, helldur bidie Gud ad skapa hreint Hiarta i sier, Ps. 51. Pa mun

honum

honum sijdur verda hætt vid Reidenne. Ad sønnu er þad Mannlegt ad reidast, þegar eirn hefur gott i Sinne og fær þvi ecke framkomed fyrer annarra Illsku Saker, (sem optlega skiedur) og er þad skylldt Gudlegre Vandlætingu; Enn þo skulu Menn ecke giefa þann Taum Reidenne, ad Menn trode Guds Bodord under Footunum, þvi ei maa Illt giora, so ad Gott framkome, Rom. 3. Giorum helldur Skylldu vors Embættis med Polenmæde, enn felum Gude Avoxtenn a Hendur. Enn hitt er vijst, ad þess verre sem Asetningurenn er, þess stærre verdur Reidenn og Oriettvijsare, ef Asetningurenn ødlast ecke sinn Framgang: Þad velldur þvi, ad ef eirn Hreckvijs Madur gietur framkvæmt Gyrnd sijna, þa fagnar hann i Hiarta sijnu, a medann honum þiker vænt um Skømmena, hefur og marga, sem eins eru Skape farner og hann, hroosande þvilijku, og kalla þad velgiort, og þoott ecke sieu þeir, þa vantar eirn Maktar-Mann alldrei eirn Hræsnara, sem gyller þad fyrer hanns Augum, sem honum Reindar þykia þo Klæker ad vera. Enn bere af þvi, ad hann naae Fyrerætlan sinne, þad gremst honum, þvi hann veit ecke einasta ad Illmenska sijn er i Lioos komenn, helldur þar a ofann verdur spladur og lijttur af hvørium Manne, so sem saa ed took til ad byggia og gat þad ecke fullendad. Þad syner oss Dæme Nordingians Herodis, er hann saa ad hann var gabbadur af Vitringunum, þa vard hann Æsareidur. Eingenn Hlutur er saa, er so miog upperte illt Skap, so sem Forsmaanenn, og ecke einasta þa, sem vonder eru, helldur og gooda Menn, ef þeir eru annars nockud Stor-Hiartader: Og þess vegna, er þad hid annad Raad a moote Reidenne, ad lijta ecke stoort a sig, helldur ad eignast Saal sijna i Polenmæde, epter Bode Lausnarans, Luc. 21. Þvi fyrer utann þad, ad Drambsemenn spiller Mannkostunum wr Maata, hvørsu vel sem eirn er ad sier um marga Hlute, þa giora aller Menn sier ad Skylldu, ad kiefia þann sem mikellaatur er, og þykest ødrum betre, og gietur hann so ecke a mis vid þad fared, ad eige bere honum margt Reide-Efne til Handa; og þvi er gott ad temia sier nockurskonar Mannwdleika, og um alla Hlute fram Kiærleikann, um hvørn Paulus skrifar, 1 Cor. 13. Kiærleikurenn er Polenmoodur og Goodgiarn, Kiærleikurenn øfundar ecki, Kiærleikurenn giører ei Illmannlega, eige þijtur hann upp, hann er eige Osidsamur, hann leitar ecke epter þvi sin hanns er, hann er eige Þwnglindur, hann þeinker ecke Illt; Og er i þessare Gullvægu Maals-Grein allt þad innebunded, sem afstijra maa Reide og Fiandskap, enn efla Frid og Eindrægne Manna a medal. Verølldenn kieppest nu um Stunder vid, ad tilla sier sem hærst, og saa er lijttur af mørgum er þad giører ecke, so sem hafe hann eige Vit a, ad hallda Virdingu sinne, nema hann trode sier fram. O hvad betra er og Ohultara, ad setia sig i hinn ytsta Sess! epter Lausnarans Raade, Luc. 14. Þa mun Virdingenn sialfkrafa epter fylgia þeim er so giora. Enn hann sem tiller sier a þa Troppu, sem hann er eige vaxenn til ad stijga uppa, hann maa vel taka sier Vara, ad ei þurfe hann ad brioota Odd af Oflæte sijnu; og ef so kann til ad bera, þa er eingenn onnur Von a honum sem hefur giort miked af sialfum sier, enn ad honum greiniest þad, og hann kieppest vid a allar Lunder ad faa Hefnd þar yfer: Er honum þvi illa fared hvørn Veg sem þad tekst.

Næe hann Hefndenne, þa stelur hann henne fra Gude, er segier: Mijn er Hefndenn, eg vil endurgiallda, Rom. 12. Enn bere af þvi, verdur hann lijttur af sijnum Lijkum, Veralldarennar Bornum, hvor ed forsmaaer þa, er Guds Syne fylgia i þvi ad forsmaa Oriettenn. Hvorsu miklu betra er þa ad hafa i Fyrstunne snided sier Stack epter Vexte, so ecke þurfe þeir ad snijda hann upp aptur, er þu sijdst villder, þar til hann verdur maatulegur, eda kannskie oflijtell, og sagt verde til þijn: Gief þessum Rwm, Luc. 14. Þoott eige sie hann Heidarlegre enn þu, sem þu maatt vijkia fyrer. Þvi er Raadlegt ad hafa sig i Hoofe, ef Menn vilia ei giefa sialfum sier nie ødrum Orsok til Reide og Fiandskapar. Menn skulu ei helldur vera allt of grandskygner epter Oriettenum, edur gloggver i þvi ad leggia þad wt aa vondann Veg sem oss er tilgiort, þad kann margt ad vera giort af Faavijse, af Braadræde, af Trauste til Vinaattu vorrar, af Otta, af Annarra Fortolum, er saa reiknar sier ad vera til Smaanar giort, sem er allt of-vidkvæmur, hvorium sijn Virding er saarare, enn þoott hann være skorenn eda brendur, og reidest þar fyrer optlega Ofyrersynju, enn villde kannskie alldrei reidst hafa, þegar hann finnur Sannleikann, og hefur i Bræde sinne annadhvort giort stærre Oriett edur þolad, helldur enn Tilgiordenn var i Fyrstunne, enn skammast sijn ad jaata sijdann ad hann hafe fared villt, þoott hann þecke þad, nær honum er Reidenn runnenn. Og þoott einhvor Ovirde nockurn af aasettu Raade, þa er þad vijslega sagt, er Salomon skrifar, Prov. 12. Ad hann sie Vitur, sem lætur sem hann eige siae Oriettenn; þvi Orietturenn er eins stoor, so sem hann er af honum metenn, er hann lijdur. Eingenn reidest, nema hann ætle sig vanvirdtann aa einhvorn Haatt. J ollu þessu er eckert betra Raad, enn ad giefa Reidenne Stunder, og wthella henne ecke strax sem hun tekur eirn, þvi Bidenn kann margt ad auglijsa, og Þrotenn i Hiartanu kann ad siatna aa medann, og sa sem vijs er, hann giorir so; þad er heilnæmt ad pretta sialfann sig i slijku, og þegar Menn reider eru, ad ætla sier ad bijda betre Tijma til ad hefna sijns Vansa; enn aa medann kann eitthvad ad skie: eg kann ad deya, og skal mig þa alldrei ydra þess, ad eg hafe sleppt Hefndenne: Hann kann ad deya sem mier tilgiorde, og giet eg þa eige helldur ydrast þess, ad eg tilgaf honum, hvorium eg þo giarnann samfagna vil i Himnarijke; Og verde hvorugt af þessu, þa kann skie hann ydrest, og fære mier aptr Virdingu mijna med Avexte, þa hefe eg vel beded og teked Hlut aa þurru Lande: Verde eige helldur þad, þa hefe eg Toom til ad huxa mig umm, hvornenn eg faae þad bætt, er eg lided hefe, med sem minnstum Skada beggia ockar. Alleina er ad vakta sig fyrer þvi, ad Heiptinn snwest ecki upp i Hatur, ef Menn geima Reidina, sem þeim er hætt vid, er ecke Ottast Gud, og hvorium ad søker sijn eilijf Velferd fyrir Virdingu Heims þessa. Guds Born giora þad ecki, sem Himnarijked erfa vilia, þau laata Soolena ecki undergaanga sijna Reidi, nie giefa Dioflenum Rwm, Eph. 4. Enn hvornenn sem ollu þessu er vared, þa fæ eg alltijd Toom til þess, ef eg hepte Reidina, medann hun er sem braadust, ad huxa umm hvad betra sie ad lijkiast mijnum Frelsara, sem Mootmælinn þoldi, Ebr. 12. Og drottna so med honum eilijflega, helldur enn ad vada uppi med Heiminum, og fyrirfarast so med honum og ollu þvi sem i honum er, 1. Joh. 2.

Þvi vil eg brwka Raad hins gamla Platonis; er han baud þeim, sem reidur være, ad skoda sig i Speigli, a medan han være hvad grimastur, og mundi hann hrædast sialfsann sig; Enn eg villdi skoda mig i minni Molld og Osku, þegar nockud fraa lidi, ef eg gieti stillt Brædina, medann hun er sem mest, og skoda þar hvad lijtid eg a undir sialfum mier, eg sem er eitt Bloomstur, er folnar strax sem Andi DRottinns blæs a þad, Esa. 40. ein Vatns Boola, sem þijtur upp af Vindinum, ein Gusa er siest um Stundarsakir, og hverfur sijdann, Jac. 4. og mun eg þa bræadlega skammast mijn, og þeinkia helldur a Vesolld mijna, enn Hefndena yfer honum, sem ecke hefur kannskie meira syndgad enn eg a mooti Gudi, sem baada ockur skapad hefur, og i hvors Hende ad stendur beggia ockar Giæsa og Ogiæsa. Eg vil alleina gledia mig af þvi, ef honum þocknast ad laata mig þola Oriett sinna vegna, Matth. 5. Enn eg aumka minn Ovin, ad han ecke þeinkier hid sama og eg vil þeinkia. So hugleidid nu þetta, DRottenns Born! Allir þier sem elsked ydar Tijmanlega Velferd, þier sem elsked ydar Saaluhiaalp, og allir þier sem Gud elsked, giefed ydur Stundir til ad þeinkia um, hvad skadlegur Hlutur ad Reidenn sie, hvorsu skamvin ad sie sw Glede, er sa hefur af Hefndene, er hana tekur fraa Gude. Laated ydur i Hug koma, ad Saalir ydar bwa i Hey-Hwse, þvi allt Holld er Hey, segier Raust Predikarans, sem hroopar i Eydemorku, Es. 40. hvorsu fliott kann þad ad verda til Osku brendt, þegar i þvi kviknar af Heiptinne, og hvar erum vier þa? Hvad verdur af þeim, er sialfur hefur eydelagt þad Herberge, er Gud fieck Saalu hanns til ad bwa i? nema ad Guds Reide Elldur tekur vid Oskunni og brennur i henne allt til nedsta Helviitis, Deut. 32. fraa eirnre Eilijfd til annarar. Vert þvi snarlega sampyckur þijnum Mootstodu-Manne, a medan þu ert en þa a Veigi med honum, ad ecki ofurselie hann þig Doomaranum, enn Doomarinn Kvalaranum, og verder þu so i Diblissu kastadur. Sannlega segie eg þier, þu munt þadan ecke wtfara, fyrr enn þu hefur golldid hinn sijdarsta Pening, Matth. 5. sem alldrei verda mun um alla Eilijfd. Þar fraa vardveite hinn Myskunsame Goode Gud alla þaa, sem a hanns Myskun og Giædsku treysta, fyrer JEsu Christi Forþienustu, AMEN.

# A Þrettanda Dag Joola.

Gudspialled, Matth. 2. Cap.

NAR ed JEsus var fæddur i Bethlehem a Gydinga Landi a Dogum Herodis Konungs; Sia þu, þa komu Vitringar af Austuraalfu til Jerusalem, Og sogdu: Hvar er sa Nijfæddi Konungur Gydinga? Þviad vier hofum sied hans Stiornu i Austur-Veigi, og erum komnir ad tilbidia han. Enn er Herodes Konungur heyrdi þad, skielfdist han og oll

Jerusalem med honum. Og haũ liet samaũsafna ollum Kleñimaña Hofdingium og Skriftlærdum Lijdsins, og forheyrdi af þeim, hvar Christur skylldi fædast. Eñ þeir søgdu honum: J Bethlehem aa Gydinga Landi. Þviad so er skrifad fyrir Spaamaññ: Og þu Bethlehem aa Gydinga Landi, ert aungvaũveigiñ hiñ minsta aa medal Hofdingia Juda, þviad af þier mun koma Hertogi sa, ed stioorna skal yfir mitt Foolk Jsrael. Þa kalladi Herodes Vitringana heimuglega til sijn, og spurdi þaa iñilega ad, aa hvoriuin Tijma þad Stiarnaũ hefdi byrtst þeim, og vijsadi þeim til Bethlehem, og sagdi: Farid þier, og spyried vandlega ad Sveininum, og nær þier fiñid haũ, þa kuñgiørid mier þad aftur, so ad eg komi eirniñ ad tilbidia haũ. Sem þeir høfdu nu hlijdt Konunginum, fooru þeir af Stad. Og siaa þu, ad Stiarnaũ, sem þeir høfdu sied i Austuraalfu, gieck fraũi fyrir þeim, allt þar til hun kom og stood þar uppi yfir, hvar ed Barnid var. Eñ er þeir saau Stiørnuna, Glødduſt þeir af miklum Fognudi, og geingu i Hwsid iñ, og fundu þar Barnid, med Mariũ Moodur þess, fiellu fram og tilbaadu þad. Og, ad upplokuum sijnum Fiaarsioodum, Offrudu þeir þvi Giafir, Gull, Reikelsi og Myrru. Og feingu Avijsan i Svefni, Ad þeir kiæmi ecki aftur til Herodem; Og fooru so aññ Veg aftur i sitt Land.

## Exordium.

SNeña taka Born til Meina, seigir Ords-Haattur vor Gamall, og er haũ sañur. Madurinn fædist til Eymdanna, eins og Neistarnir upp i Loftid fliwga, Job. 5. Fullur Hormunga og faarra Lijfdaga, Cap. 14. Allar Skiepnur Guds, er hann giordt hefur oss til Þarfinda, þær eru ad nockru Leiti sialf-færar, komu eftir þad þær wtkoma af Moodur-Lijfi; þeim hefur Gud og Naatturann tillagt af sialfum sier, hvad þan skulu hylia sig med og vardveita fyrir Kullda og Jll-Vidrum: Madurinn fædist Nakinn i Heim þennann. Þau fædast þeigiandi af Moodur Lijfi: Manneskiann med Opi og Taarum, so sem kvijdi hun vid þvi, ad henni byriar ad gaanga i giegnum Taaranna Dal, aa medann hun naair Lijfi ad hallda. Jordinn er Dijranna Sæng edur Sioorinn Fiskanna, nær þau wtklakinn eru: Mañeskiañ maa ecki Lijfi hallda, nema hun aa alla Vegu sie nærd og fooſtrud. Þesse er Uppruni vor, hvorium þo aa stundum eckert þykir sier Omattugt, nær vier drøgunst aa Legg; er þetta þo hinn minnsti Hluti Mannlegra Eymda er vier þolum aa Omaalga Alldri vorum. Og er þad ecki ad undra aa oss, hvorra Fodur sagt var i Ondverdu, ad i Sveita sijns And-

litis skyllde hann sijns Brauds neyta, og næra sig af Jordunne med Erfide alla sijna Daga, Gen. 3. Hann hafde til þess unned, og vier sijdann, sem af honum komner erum. Enn þad eru Undur, ad hinn annar Adam, sem er DRottenn af Himne, 1. Cor. 15. Hann skule vid sama, og enn þa miklu lakare Koste buwa, jafnvel þott hann sie epter Holldenu af Adam komenn; Þad heyrum vier i þessa Dags Evangelio, þar Konungur Himens og Jardar mä Svikum og Offsoknum hinns Grima Herodis mæta. Valla var hann fyrr i Heimenn borenn, enn ad Andskotenn uppfyllte Hiarta þess Gudlausa Konungs til ad utsloekva Lioos Heimsins, og aflijfa hann, sem ollum giefur Lijf og Anda. Og fyrer þvi ad þesse Umsaatur Herodis voru Upphaf DRottins Hormunga, er hann þola mætte strax i Inngaungu þessa Natturlega Lijfs, þar sa Refur med Slægdarfullre Underhyggiu, leitade so freklega epter ad vita hvar DRottenn være fæddur, allejna til ad rääda hann af Dogum, sem Raun gaf sijdann Vitne um; Þa vil eg tala framveigis um þeirra Kior i Heimenum, sem Gude vilia epterfylgia i þessum Taaranna Dal inn i hanns Dyrd: og þad i Tvennu Lage. 1. Vil eg ræda um Guds Barna Mootlæte, hvad þarflegt þad sie. 2. Um Guds Adstod i Mootlætenu.

Hinn gode Gud stioorne Twngu minne og Hiortum ydar med Naad sijns Anda, sier til Lofs og Dijrdar, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingin.

DRottenn JEsus sagde vid Læresveina sijna, Luc. 18. Hvor sem ecke medtekur Himnarijke so sem Ung-Barn, hann kan ecke ad ingaanga i þad. Enn eg vil segia, Brædur mijner: Nema þier gioreſt eins og Ung-Barn, Þad er María lagde i Jotuna, þa saaed þier ecke ingeinged i Guds Rijke. Hier med vil eg ecke þad meint hafa, ad nockur af oss Adams Bornum kunne so fullkomen, so Heilagur, so Riettlaatur ad vera, sem hann, er ecke visse af Synd, 2. Cor. 5. Helldur so sem DRottenn segier, Luc. 6. Vered miskunsamer, lijka sem ydar Fader er miskunsamur; og er þo syndug Manneskia laangt fraa þvi, ad jafnast vid Gud i Miskunsemenne, so vel sem ollu odru, helldur bijdur Frelsarenn oss, ad breita epter honum sem mest verdur. So eigum vier DRottne JEsu ad lijkiast i ollum vorum Lijfernis Haattum, ad so miklu Leite, sem oss er mogulegt i þessum Daudlega Lijkama, og þad ecke sijdst i Krossburdenum. Hvornenn hanns Fæding, Hanns Uppfoostur og allur hanns Alldur, var Faatækt og Eimdum hladenn, er oss alkunnugt af Gudspiallamannanna Bookum. Meinum þvi ecke, Brædur mijner, ad vier munum sleppa hiaa ad drecka af Læknum med Christo, Ps. 110. hier i Utlegdinne, ef vier vilium nijtt Gledinnar Vijn med honum drecka i Guds Rijke, Matth. 26. Minnest þess Ords er eg sagda ydur, segier JEsus vid Læresveinana, Joh. 15. Ecke er Þrællenn fyrer Herra sijnum: Hafe þeir mig offsookt, þa munu þeir ydur eirnenn offsækia. Hann hlaut þann Kaleik af ad drecka, er hanns Fader hafde honum aaskeinktann, so ad Ritningenn uppfylltest, Joh. 18. Vier skulum og Ritninguna uppfylla, Matth. 26. med þvi ad drecka hans Kaleik, hvor ed segier: Ad i giegnum margar Hormungar byrie oss inn ad gaanga

ga i Guds Rijke. St. Petur bydur oss, Act. 14. ad vier skulum hugga oss þar vid i Mootgaangenum, ad vorer Brædur i Heimenum hafa þvilijkt ad lijda. Enn hvad miklu helldur ættum vier ad hressa Gied vort þar vid, ad þetta er oss med sialfum Guds Syne sameiginnlegt, hvør ad er Høfundur og Fullkominare Trwarennar, Heb. 12. Þvi segier Paall. 2. Cor. 1. Ad so sem ad Christi Pijsler yfergnæfe til sijn, so yfergnæfe og sijn Huggun fyrer Christum. Vitringar þesser, er Gudspialled umgietur, þeir Offrudu hinum nijfædda JEsu, Gull, Reykelse og Myrru. Allt voru þetta Konunglegar Gaafur. So var hann Faatækur, sem allt Sylfur og Gull aa, Jordena og allt hvad i Jordunne er, Ps. 50. Ad hann maatte þetta þiggia af framande Mønnum; Enn þvilijks einkis krefur hann nu af oss, þar hann er inngeingenn i sijna Dijrd, utann hvad vier skylldüger erum ad hiaalpa hanns Naudstøddum Limum, med þvi sem Gud oss laanad hefur; Umm hvøria hann segier, Matth. 21. Hvad þier giørdud Einum af þessum mijnum minnstu Brædrum, þad giørdud þier mier. Hvørs krefur hann þa af oss? Eirnrar sannrar og lifande Trwar; þad er þad Gull, sem vier eigum Gude Hiinnanna Konunge ad bioooda, enn hun reinist hvad mest i Hørmungunne. Þad er hægt ad trwa Gudi, nær allt ad Oskum geingur. Valla vitum vier hvørt vier Riett-Trwader erum, fyrr enn i Mann-Raunonum. Þad orkar ecke aa Hreiste Kappans fyrr enn aa Hoolmenum. Eige vita Menn hvørsu ad Styrimadurenn er forsiaall nema i Olgu-Sioonum og Andvidrenu; Og eige hvørsu dyggur ad Hyrderenn er, fyrr enn hann sier Ulfenn koma. So reynest og Trwenn vor i Mootlætenu. Þad er saa Elldur, er Gull þetta skal reinast i: og so sem Gulled smelltest i Elldenum, enn tapar ecke Þyngd sinne, ef þad gott er; enn Heyed og Haalmenn brenner hann upp: So reinast Guds Børn i Mootgaangenum, styrkiast, eflast, vidurkveikiast og leidriettast; Enn i sama Mootgaange kollsteipast Veralldarennar Børn, Tortijnast, eideleggiast, ørvænta og falla i Vijl og Efaseme; hiner þacka Gude, lofa hann og prijsa, kyssande aa hanns Fødurlegann Hyrtingar Vønd, med allre Audmykt og Trwfastre Von, hvør ed alldrei lætur til Skammar verda, Rom. 5. Þesser lasta Guds H. Nafn, møgla, leita allra annara Medala enn ad snwa sier til hanns, sem þa typtar. Hier umm talar St. Petur aagiætis vel, 1. Pist. 1. segiande: Þier erud glader, Jafnvel þoott þier, umm litla Stund, ef vid þarf, hryggder verded med adskiliannlegum Freistingum, so ad Reinsla ydvarrar Trwar verde Gullsins Reinslu dijrmætare, (hvørt ed forgeingur, og verdur þo i Ellde reynt) til Lofs og Heidurs og Dijrdar i Openberan JEsu Christi. Med Reykelsenu verda teiknadar Bæner Heilagra i Opennberunum hinns heilaga Johannis, Cap. 5, og 8. Enn Gud naade oss, hvørsu ad vier kallder erum i Bænenni. J Medlætenu giører Madurenn Gud af sialfum sier, þegar allt ad Oskum geingur, og þykest einkis Þurfe vera, enn veit ecke þad hann er Faatækur og Voladur, Ber og Nakenn, Apoc. 3. Menn segia, þar er Fridur og Tryggleike, enn vita ei nær enn Ogiæfann braadlega yfer þa kiemur, so sem Joodsoott Olietta Konu, 1. Thess. 5. Gud naade þann sem Bænarlaus er i Vondre Verølldu þessare! Betra er naken ad gaanga i Orustu, og Mal-

laus

laus fram̃ fyrer Doomarann, helldur enn Bænarlaus fram̃ ad gaanga i Heimenum.
Enn þetta Reykelſe tendraſt ecke betur af neinum Hlut, enn af Ellde Mootlætingañã;
Þvi ſegier David, Pſ. 34. Hiner Riettlaatu kolludu til DRottenns, og hann Bæn=
heyrde þa, og frelſade þa, af ollum Hormungum þeirra. Meñ faa ecki Elld af Staal=
enu, nema Menn ſlaae þvi vid Tinnuna; og ſo læra Menn ad þreyta vid Gud med heitre
Bæn i Mootgaangenum, ſo ſem Von er til, þvi hann ſem heitt ſkal bidia, honum ſkal
miked aa þvi liggia, er hann bidur um̃. Vier erum ſoddann Siaalfbyrgingar, þegar
Verolldenn lætur epter oſs, ad vier þykiunſt oſs um̃ alla Hlute full=nooger vera, ſo ſem
eckert hefdum vier ad þiggia af Fodur Lioosanna, fraa hvorium þo kiemur oll good Giof,
og oll fullkomenn Giof, Jac. 1. Mootlæted hlijtur ad verka i oſs Hitann og Alvorugief=
nena i Bænenne, þvi annars erum vier kallder og dofner i þvi ad bidia Gud. Ecke hefde
hin Canaaniſka þreytt ſo vid DRottenn med Bænenne, nema heñar Dootter hefde vered
ſo þrønglega plaagud, Matth. 15. Ecke hefde Samkundu=Hofdingenn leitad Chriſts,
nema Dootter hanns hefde andaſt, Matth. 9. Og Konungsmadurenn hefde vel heima
ſeted, hefde eige Vanheilinde hanns Sonar reked hann af Stad, Joh. 4. Og þoott ad
oſs Daglega ligge ſo miked aa Guds Adſtod, ad vier erum aller uppaa hana komner, þa
ſiaa Menn þad ſamt ecke fyrr enn i Moorgaangenum. So kveiker nu Gud þetta ſitt Upp=
lyptingar=Offur med Ellde Mootlætinganna hier aa Jordunne, ſo þad verde eirn Sæt=
leiks Ilmur fyrer honum i Himnenum. Fyrer Myrruna hafa Lærefedur Chriſteleg=
rar Kyrkiu, (og medal añarra Gregorius hiñ Mikle) viliad ſkiliaſt laata Deydingu Holld=
ſins, af þvi ad hun beiſk er, enn giefur þo af ſier Ilm miog ſætann. Eingenn Foorn er Gu=
de þeckare enn þeſſe, næſt Trwnne aa Chriſtum, og hun verkar ecke i Mannenum, nema fyr=
er Trwna, enn þo allra hellſt i Mootlætenu. Þegar hinn gamle Adam tekur til ad verda
Fullur og Feitur, og gioraſt Lauslaatur, (ſo ſem Moyſes ſagde um̃ Iſrael, Devt. 32.) Þa
leggur hinn Alvijſe Gud vid hann Kroſſens Beitſle, ſo hann tamenn verde og Kroſsfeſtur
med Chriſto; Þad er, ad hin illa Gyrnd, ſem i oſs bijr, verde afmaad med Kroſsgaung=
unne epter vorum Frelſara. Hanns bleſſada Holld vard ſo Vanburda aa Kroſſenum,
ad hann gat daaed og laated ſijna Saalu fraa ſier. Enn hann vard Lijfgadur aptur epter
Andanum, ſo ſem Petur ſegier, 1. Pet. 3. Þad er, af, eda, epter Guddoomenum: Þad ſkiede
til þeſs, ad hann til=legde vorum Anda þann Styrk, ad hid Syndumſpillta Holld, giæte
daaed i oſs, enn vier epter Andanum lifad, vard ſo hinn ſame Hlutur, ſem afladi honum
Mannlegs Veikleika, Orſok til Gudlegs Kraptar i oſs, og hefur JEſus alldrei meira
Almættis=Verk framed, enn þegar hann ſem veikaſtur var. So verda og þeir, ſem af
Andanum fædder eru, ſtyrkvaſter i Gude, þegar Hollded deydeſt og hinn gamle Madur
er ſem veikaſtur. Þetta vottar St. Paall, er hann ſegier, 2. Cor. 4. Alla Tijma ber=
um vier um̃ kring Deydingu DRottenns JEſu i Lijkamanum, ſo ad Lijf JEſu verde
og auglioost i vorum Lijkama. Segied mier, Br. M. Kann nockurt Hlutſkipte, nock=
ur Heidur, nockurt Rijke þvilijkt ad vera, ſo ſem ad kallaſt, og ad vera, Guds Barn?

Oll

Øll Veralldarennar Metord eru Prældoomur hiaa þvi Nafne; Madurenn blijfur ecke lenge i Heidrenum, segier David, Ps. 49. hvørsu haa Volld edur Virdingar sem einhvør hefur; enn þetta Hlutskipte maa eingenn af oss taka. Vier erum teiknader i hanns Høndum, Es. 49. Af hvørs Hende eingenn fær oss slited, Joh. 10. Enn hvad segier Postulenn til Hebræos, Cap. 12. Hvørn DRottenn elskar, þañ agar hann, og hañ typtar þann Son, er hann ad sier tekur. Ef þier Ogunena þoled, þa mun Gud tiaa sig ydur eins og Børnum. Þvi hvør er saa Sonur, er Faderenn ecke vandlæte um̃? Enn ef þier erud fyrer utann Aga, hvørs aller Hluttakendur eru; Þa erud þier Hiaa-Børn og ecke Syner. Hier af ræd eg þad, ad Krossenn Christi maa reiknast Pantur Arfleifdar vorrar, og eitt Trygda-Merke, sem Guds Sonur hefur sett uppaa sijna Elskulega Brwde, og so sem Feste-Peningur þess Bvstadar, sem Guds Børn hafa i hanns Rijke heimteked, þvi hier høfum vier ecke stadfastann Samastad, helldur væntum eins annars, þat sem vor Borgar-Riettur er, sem er aa Himnum; Phil. 3. Þad er þad Merke, er St. Paall um̃ talar, Gal. 6. er hann segier: Ad Heimurenn sie sier Krossfestur, og hann Heimenum. Hiedann af (segier hann) giore mier eingenn Onaad, Þvi eg ber Teikn JEsu Christi aa mijnum Lijkama. Þar fyrer er Mootlæted alldrei so þrongt, og eingenn Hørmung so mikel, ad sw Huggun ecke yfergnæfe, ad vier eigum vissa Arf-Von i Guds Rijke, medann vier berum Christi Kross med Þolennmæde. Þar um̃ talar St. Paall, Rom. 8. Siaalfur Andenn ber Vitne vorum Anda, ad vier sieum Guds Børn, enn ef vier Børn erum, þa erum vier og Erfingiar, Jaa, Erfingiar Guds, enn Samarfar Christi, ef vier lijdum med hønum, ad vier eirnenn med hønum Dijrdleger verdum. Hann segier enn aptur; Ad ef vier vonudum aa Christ alleina i þessu Lijfe, þa værum vier Vesælaster allra Manna, 1. Cor. 15. Eg vil og þad segia, ad vier værum allra Manna faavijsaster, ef vier dijrkudum Gud fyrer Epterlæte þessa Heims alleina, eins og hann hafe ecke annad Þusundsinnum meira og betra fyrerbwed þeim, er hann elska. Reidunst þvi ecke Br. M. þoott vier siaaum hinum Ogudlega vel gaanga; Ps. 73. enn Guds Børn-Hørmungar lijda. Þoott Gud hafe aa Stundum margt laated epter Elskendum sijnum, þa er þad Reyndar ecke so eigeñlegt Christenndoomenum, ad þeim lijde jafnañ vel, sem eru Christi Þegnar. Ogudleger hafa eckert aa Himnum; So hafa og Guds Børn eckert i Heimenum, og þoott þeim falle Rijkdoomur til, þa festa þau ecke Hiartad vid hann, Ps. 62. Hier um̃ aaminner St. Petur næsta heilnæmlega, 1. Pist. 4. med þessum Ordum: Elskanleger! (segier hann) skielfest ecke so sem Okunnuger af Reynslu þeirrre er fram̃ vid ydur kiemur af Elldenum; til ad freysta ydar; so sem hefde ydur nockud Oveniulegt tilfalled, helldur gledjest af þvi, ad þier erud Hlutakendur Hørmunga Christi, so ad þegar hanns Dijrd Openberast, ad þier glediest þa fagnande. Þegar Skyenn hafa nockra Stund byrgt fyrer Soolena, þa skijn hun hvad fegurst. Þess meira sem vier lijdum hier fyrer Christs Saker, þess helldur munum vier fagna, nær vier skulum med hønum Dijrdleger verda, Rom. 8. Saa kann alldrei huggadur ad verda, sem eige harmade. Ma-

saa

saa nockud Sigrenum hroosa, sem eige vardest? Gud kann ecke ad afþerra þau Taarenn i eilijfu Lijfe, er alldrei voru wthellt i þessu. Lijtum þvi ecke til nærverande Hrellingar hvor ad er skammvinn, helldur til epterkomande Farsælldar, sem er eilijf; vitande þad, ad Mootlætingar þessara Tijma, eru eige verdar þeirrar Dijrdar, sem vid oss mun opinber verda i eilijfu Lijfe, Rom. 8. Og hin lietta Hörmung, er vær hier lijdum, aflar oss Oumrædelegs Þwnga eillijfrar Dijrdar, 2. Cor. 4. Hvoria Gud oss giefe fyrer Forþienustu Sonarens, Amen.

Hvad þvi Sijdara vidvijkur, er eg hiet um ad tala, þa stendur hier i Gudspiallenu, Ad Vitringar hafe komed wr Austurveige, og fært Barne þessu Gaafur. Þetta sijner oss Guds Almaattugs Fodurlega Umhyggiu og Forsioon fyrer sijnum Bornum, midt i Mootgaangenum, midt i Orbyrgdenne; og sannast aa þessu, medal annars, ad JEsus hefur oss til Epterdæmes lided, 1. Pet. 2. Hinn alskygne Gud, fyrer hvors Augum ad aller Hluter opner og nakter eru, Hebr. 4. Hann visse vel, hvad laa fyrer sijnum Eingietnum Syne, og hvorsu hanns Hönd hafde aasett ad plaaga hann vorra Synda vegna, Es. 53. med laangre og Mædusamre Reisu, og laangre Utlegd i Egyptalande, og þad strax sem hann i þennan Eymda Dal borenn var; samt liet Gud hann ecke alldeilis hiaalparlausann, helldur sende þessa Okiendu Menn af fiærlægu Landi, til ad bæta hanns Naudþurft og hanns Fatækrar Moodur. Tvennt hefur hin Goodi Gud med þessu Almættes og Myskunar Verke wtriett: Hid fyrra, ad hann synde, ad þetta Hiaalpræde tilheyrde heidnum Þioodum, Esa. 49. hvorier ad voru aan Guds i Heimenum, og fiarlæger Israels Riette, Eph. 2. Þad Foolk er sat i Myrkrunum saa Lioos miked, Esa. 9. Þvi eige er lijklegt, ad þesser vijsu Menn hafe duled þad fyrer Londum sijnum, er þeir saau og heyrdu, hvar epter sijdann fylgde Christne Boded medal annara Þiooda. Hann sende þessa Framande Menn so sem i Umbode Heidingianna, til ad hylla þennan nijfædda Kong yfer sig, til þess ad hann Drottna skyllde til ytstu Veralldarennar Endemarka, Ps. 2. O hvorsu ættum vier þessu ad fagna! hvorier eige vorum Guds Foolk, 1. Pet. 2. enn hann hefur þo kallad sitt Foolk. Hvorsu ættum vier ad Prijsa hanns Riettlæte yfer hanns eigenn, og hanns Myskunseme yfer oss, sem vorum annarleger, ad hiner Naatturlegu Kvisterner eru af-brotner, enn vier innplantader, sem vorum ville-Vijnvider, Rom. 11. Hann rak sinn eingietenn Son i Utlegd aa Egypta-Land, strax aa Omaalga Alldre, enn hann hefur flutt Vijn-Vid af Egypta-Lande aptur, af þvi Þrældooms Hwsenu, og Groodursett hann i þvi Landenu, er hann villde giefa þeim, Ps. 80. Þad maa eg heimfæra uppaa oss, hvorra Fedur ad voru Syndarennar og Diofulsins Anaud undirokader, er þeir geingu til Maal-lausra Skwrgoda, 1. Cor. 12. Alldrei kunnum vier nooglega ad mikla og upphefia hanns Guddoomlega Speke og Fodurlega Forsioon, ad hann med þessu Vitringanna Dæme synt hefur, ad saa være i Heimenn borenn, sem er vor Fridur, og giorer eitt af baadum, og Gyrdingu Mid-Veggiarens hefur afbroted, Eph. 2. Þar hann afmaad hefur Ovinskapenn, hvort ad var Logmaal Bodordanna,



sem

sem var innefaled i Setningunum fyrer sitt Holld, so hann giørde Tvo ad Einum nijum Manne og semde Frid; So þar er nu af Gydingum, þeim ed trwdu, og Heidingium, er aadur ecke trwdu, orded eitt Sauda-Hws og eirn Hyrder, Joh. 10. Þetta var hid allra mesta Myskunar Verk, vid þaa er voru hinum saarustu Eymdum vafder og mesta Saalar Voda; Enn so ad Guds Føðurleg Giædska liete oss vita, ad hønum og umhugad være um Lijkame vora, þa sier hann sijnum Elskulega Syne, hvør ad i Volæde alenn var, hann sier hønum Farborda med þessu Moote, sem aadur er sagt. HErra Gud! Hann kom til sinna eigenn, og hanns eigenn medtooku hann ecke, segier Johannes, Cap. 1. Arla syndu þad Gydingar; Hanns Mooder fieck eckert Rwm i Giesta-Herbergenu, til ad fæda i Heimenn Himens og Jardar Skapara, nema eirn Stall, Luc. 2. Enn Framande Menn, þeir ed eckert af Gude vissu, þeir koma um laanga Vegu til ad færa hønum Giafer. An Efa hefur hinn Goode Gud þetta giørt medal annars til þess, ad þau eige skylldu Naud lijda aa Floottanum i Egypta-Land. Maattugur var hann ad siaa þeim borged med ødru Moote. Hann gat laated hvørt Hey-Straa aa Jørdunne ad Gulle verda. Þad var ecke meira Krapta-Verk, ad leida þennann litla Hoop i giegnum Eydemørkena, aan allra Medala til Egypta-Lands fraa Canaan, helldur enn mørg Þusund Israels Sona wr Egypto inn i Canaans Land, og forsorga þaa um heil Fiorutijger Ar i Eydemørkenne. Enn Gud villdi hier med sijna bæde Moodur hanns og Foostur-Fødur, sem og øllum þeim, er þetta Evangelium sijdann heyrt hafa og aa hanns Nafn trwa, ad jafnvel þoott hann Konungur være, þa være hanns Rijke ecke af þessum Heime, Joh. 18. Og so ættu aller þeir lynder ad vera, sem hønum villdu til Handa gaanga, ad laata sier nægia, 1. Tim. 6. sinn deilldann Verd, bæde i Medlæte og Mootlæte; Og þegar vier høfum þad vier skulum Fædast og Klædast med, ad vier laatum oss þa nægia ef Gud vill so vera laata: Uppaa sinn Eingietenn Son hafde Gud lagt alla Byrde Synda vorra, Esa. 53. Sw Anaud took til strax i Voggu, annars hefde hann ecke i Armood fæddur vered, og Landflootta orded; Enn ef hønum var so umhugad um hann, þa er hann reidur var Syndarennar vegna, ad hann þetta giørde, ad hann sende hønum Eingla til Þioonustu, þa hann freistadur var, Matth. 4. Ad hann sende hønum Eingil af Himne i hanns bitra Dauda-Strijde, Luc. 22. Þvi villtu þa orvænta um Guds Adstod i Mootgaangenum, sem i hønum og fyrer hann ert sættur vid Gud, Col. 2. Og JEsu Christi Samarfe ordenn? Eru ecke øll vor Høfud-Haar talenn? Mun þa eitt af þeim falla aa Jørdu aan vors Fødurs Vilia, þar slijkt maa ecke eirn Titling henda? Matth. 10. Og hvørsu dijrmætare erum vier þo Titlingunum, sem med Guds Bloode erum Endurkeypter? Act. 20. Enn ef Guds Vilie verdur aa oss, hvøriu høfum vier þa ad kvijda? Er hann Fatækur, ad hann giete ecke hiaalpad? Edur hardsvijradur, ad hann vilie ecke? Þvi moglum vier þa strax, sem ecke er fyrer Augunum þad sem eta skal? Hvar fyrer þijngia Menn Hiørtu sijn med Sorgum þessarar Næringar? Luc. 21. Þvi hrifsa þeir Naungans Braud wt af hanns Munne, sem Vallded hafa, strax sem þaa vantar?

Þvi

Þvi svijkia hiner med adskilianlegum Undanbrögdum og Ráangsleitni er Yfirvölldenu eiga Tolla og Tiundir ad giallda? Þvi hallda Men Daglaunamans Sveita inni? Þvi prettast Men a innbyrdis i Kaupum og Sölum? Allt þetta er af hinum Vonda, og giöra þad nockrer af þvi, ad þeir eru so lyndir: Adrir þess vegna, ad þeir hyrda ecke um, þoott ad þeir brwki Leifar Ecklunar, og Arf hins Födurlausa til Ohoofs og Ofmetnadar, enn flestir þess vegna, ad þeir vantreista Gudi. Eñ hvad miklu betra er ad brwka Davids Rád, Ps. 55. og varpa sinni Ahyggiu uppa DRottinn, þvi hann mun þvi vel til Vegar koma. Hann kann ad giefa Vatn af Hellunni þegar hann vill, Exod. 17. Hann gietur sadt sitt Foolk med Manna, Exod. 16. nær honum þocknast. Hann gietur synt Agar Brunninn a Þurlendenu, nær hun til hanns kallar, Gen. 21. Hann gietur forsorgad Joonas i Hvalfiskfins Kvidi, Jon. 2. og jafnvel lated Hrafninn, þañ grádugasta Hræfugl, færa Eliæ Fædslu, 1. Reg. 17. Enn Vantrwenn segier ad Gud giöri ecki Jardteiknir eins og a Eliæ Dögum. Eg játa þad; þess þarf og ecki vid; Gud hefur so leingi synt oss Giædsku sijna og Almætti, ad vier mættum vel trwa, þoott ecki siaaum vier Teikn og Stoormerki; Eñ þo vil eg þad seigia: Ad væri þar til Eliæ Trw, Eliæ Bæn, og Eliæ Kiærleiki, þa er Eliæ Gud eirn og hinn sami, ef honum þætti Krafta-Verkanna vid þurfa. Enn mier sijnist eigi þurfa Jard-Teiknir til þess, edur ad umbreita Náttúrunnar Háttum, ad Gud vardveiti þaa sem honum treista, og hann i Anda og Sannleika akalla, og siaai þeim Farborda, bædi þa illa og vel geingur, þvi þess hefur alldrei Mis-Brestur ordid fraa fyrstu Heims Sköpun; allt til þessa Dags. Þad Ord stendur stödugt, seigir Postulinn, 2. Tim. 2. ad Gud þeckir sijna. Eda vill nockur skrifa honum fyrer, med hvöriu Mooti hann hiaalpa skal? Seig mier, hvör myndadi þig nær þu eingin varst? Ps. 139. Hvör forsorgadi þig i Moodur-Lijfi? Hvör leiddi þig wt þadann? Hvör gaf þier Alldur og Vöxt, Maal og Vit? Giördir þu þetta siaalfur? Eda hiaalpadir þu nockud þar til med þinni Ahyggiu? Seig mier: Er þa ecke Lijfid meir eñ Fædslann? Og Lijkamiñ meira eñ Klædnadurinn? Matth. 6. Hvör lætur Grasid a Jördunni vaxa? Segier ecki JEsus ad þad verdi, ad Akur-Kallinum sofanda, Marc. 4. Hvör plantar Trien i Skoogenum? Hvör lætur Saudina fiölga a Jördunni? Hvör framleidir Fiskana af Sioonum? Hvör giefur Regnid a Jördena i Hagstædan Tijma? Paall sagdi, Gud giördi þad til Vitnisburdar um siaalfann sig, Act. 14. Væri þier eirninn rignt i Verölldina i Dag, og þu sæir ad allt þetta skiede, mundir þu ecki kalla þad Kraptaverk: So verda Guds Almættis Verk, eirn almeñur Hlutur hiaa oss, i hvörium vier þo ecki hid minnsta skilia kunnum. Hañ lætur mig þo margt Mootlæti þola, segier þu: Þvi maa eg hwngra og þyrsta? Þvi hann vill kienna þier, ad Madurinn lifi ecki af einusamañ Braudi, helldur sierhvöriu Ordi sem framgeingur af Guds Muñe, Matth. 4. Þvi em eg Siwkur og Saar? Til þess, ad Lijkamans Vanheilsa verdi ad Andans Heilbrygde. Þvi misse eg þad Gud mier aadur lánad hefur? So þu ecke festir Hiartad þar vid, Ps. 62. Þvi verdur mijnum kiær=

kiærustu Vinum og Adstodar Moñum i burtu svipt?. So ad Gud sie þinn besti Vinur, og þularir ad þeckia, ad hiaa honum einum er Hiaalpiñ, Es,43. þa oll Mannleg Hiaalp er wte. Hlusta þvi til þess, er Eliphas Themanites sagde vid Job, af hanns Bookar Cap.5. Sañlega er sa Madur sæll er Gud typtar, fyrerlijt þu ecke Straffan hinns Almaattuga; Hann hreller sialfur og læknar; Hañ slær, enn hanns Hendur græda. Af Sex Hormungum mun hañ wtryckia þier, og i hiñi Sioundu skal eige snerta þig hid Vonda; I Hwngrinu mun hañ frelsa þig fraa Daudanum, og i Strijdenu af Sverdsins Hende. Vel er þad satt, sem Postulin segier, Hebr. 12. Ad oll Typtan, nær hun aaliggur, þiker hun Sorg og einginn Glede vera, eñ hun giefur þo epter aa Fridsamlegann Avoxt Riettlætesins. Þar fyrer geingur þad Guds Bornum, so sem hann um sig jaatar, 2.Cor.4. Vier hofum þennann Fiesiood i Leyr-Kierum, so ad Yferburder Kraptarens sieu af Gude og ecke af oss, I ollu þiaaunst vier, enn verdum þo eige adþreyngdir, vier Efunst eñ orvæntum eigi; vier Lijdum Offsokn, enn verdum eigi Yfergiefnir, oss verdur nidurvarpad, enn vier Fyrerforunst þo ecki. Hvar fyrir, Brædur mijnir? Þvi ad oss hendir eigi nema Mannleg Freistni, 1. Cor. 10. Þad er soddann Mootlæte, sem Monnum er bærelegt, eñ hañ er Trwr, og freistar einkis yfir Megn fram; so ad margur Lazarus, saa ed liggur fyrer Dyruin hiñs Rijka, fullur Kauna, Luc. 16. Hann er betur til Frids, enn eirn Veralldar-Sonur, hvorn Agyrndenn daglega plaagar, hvorium Ofundinn slijtur, hvorn Reidinn brennir, hvorn Hofmoodurinn uppblæs, so hann hefur eigi Frid nema einhvor steiti; Hvar aa moot Guds Vinur hroosar sier af Hormungunum, vitandi ad Hormunginn verkar Þolinnmædi, enn Þolinnmædinn Reinsluna, enn Reynslann Vonina, enn Vonin lætur eigi til Skamar verda, Rom. 5. Þviad Elska Guds er wthellt i Hiortum vorum fyrir Heilagañ Anda sem oss giefiñ er, Rom. 5. Jaatum þad þvi satt ad vera, er Jacob segir, Cap. 5. Sæll er saa Madur, er Freistinguna þolir, þvi nær hann reyndur verdur, mun hann odlast Coronu Lijfsins, hvorri DRottinn hefur heitid þeim er hann elska. Hennar niootande ad verda, uñi oss Myskunsamur Gud, Konungur eilijfrar Dijrdar, fyrir Son sinn JESUM, AMEN.

# Fyrsta Suñudag epter Prettanda.

Gudspialled, Luc. 2. Cap:

A Þañ Tijma. Og þa ed hañ var Toolf Ara gamall, fooru þau upp til Jerusalem, eptir Sidveniu Haatijdar-Dagsins. Og er þeir Dagar voru lidnir, og þau fooru Heimleid's, vard Barnid JEsus eptir i Jerusalem, Og hañs Forelldrar vissu þad ecki. Eñ þau meintu þad, ad hañ være hiaa Selskapnum. Og voru so komiñ Eina Dag-Ferd, og leitudu hañs medal Frænda og Kun-

Kuñingia. Og þa ed þau fundu hañ ecke, geingu þau aptur til Jerusalem, og leitudu ad honum. Eñ þad skiede so, epter Prim Daga, ad þau fundu hañ i Musterenu, sitiande midt a mille Lærefedraña, heyrande þeim og adspyriande þa. Eñ aller þeir, er hañ heyrdu, undrudust yfer hañs Skilninge og Andsvörum. Og er þau sau hañ, bnickte þeim vid. Eñ hañs Mooder sagde til hañs: Son miñ! þvi breitter þu so vid Ockur? Sia þu, Fader þiñ og eg leitudum Harmþrungeñ ad þier. Og hañ sagde til þeirra: Hvad er þad þid leited ad mier? Vissud þid ecke, ad mier byriade ad vera i þeim Hlutum, sem mijns Fodurs eru? Eñ þau underskoodu ecke þetta Ord, sem hañ mælte til þeirra. Og hañ foor med þeim ofañ, og kom til Nazareth, var þeim og hlijdeñ. Eñ hañs Mooder geimde oll þesse Ord i sijnu Hiarta. Og JEsu jookst Alldur og Vitska, og Naad hia Gude og Mönnum.

## Exordium.

Hvor sem ecke medtekur Himnarijke sem annad Ung-Barn, hann mun ecke inngaanga i þad, segier Endurlausnarenn, Marc. 10. Hvad skulum vier hier til segia, Br. M.? Jeg ætla ad Hollde og Bloode mune þetta Ofgar þykia, og er þess oll Von, þvi þau erfa sialf ecke Guds Rijke, 1. Cor. 15. Er þar fyrer Lijklegt, ad þau mune ecke kunna mikla Grein a þeim Hlutum, er til Guds Rijkis heyra. Hvornenn kann Madurenn ad endurfædast þa hann er gamall? Hvort gietur hann horfed aptur i sinnar Moodur Kvid, og fædst so ad niju? Sagde Nicodemus: Joh. 3. Og lijkar Tolur mun Holld og Blood telia sier; Skal eg æpa aptur eins og Ung-Barn, og verda Vitfyrringur eins og Ung-Barn, og laata ollum Laatum eins og Ung-Barn? Eda eru Himnanna Dyr so þraungvar, ad eg verd ad skrijda a Fioorum Footum inn i Guds Rijke eins og Ung-Barn? Þraungvar eru þær ad sonnu, Christeñ Madur, og þad so miog, ad hægra er Ulfballdanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, helldur enn Rijkum Manne inn i Himna Rijke, Matth. 19. Og Leidenn er þaangad so þraung, ad marger vilia hana gaanga og gieta þad ecke, ad Vitne Christi, Luc. 13. Eñ ecke er þad Meining vors Frelsara, ad þad sie Vegur til Himna-Rijkis ad gaanga i Bernsku edur i Ungiæde, helldur enn hitt, ad Mannenum byriade aptur ad hverfa i Kvid siñar Moodur. Paulus segier oss best hvornig þvi hagar, med þessum Ordum: Vered ecke Born i Skilningenum, helldur i Hreckvijsenne, 1. Cor. 14. Sa er alltijd noogu Vitur, er sier lætur stiorna af Anda DRottens; Hinn er Faavijsare enn Nauted og Asnenn, Esa. 1. sem mootstendur Heilogum Anda. Þier þyker þad Vesalmañlegt ad æpa eins og Barn, enn ecke þockte þad David, sem ad Taaradest fyrer Gude um allar Nætur, Ps. 6. Ecke Ezechia Konunge, sem tijste eins og Tranann, og kurrade eins

og Dwsann, Esa. 38. Ecke Manasse, sem giørde breita Ydrau fyrer sijnar Synder, 2. Par. 33. Og voru þesser eingenn lijtel-Menne. Ecke Petre, sem gieck wt og griet beisklega, Matth. 26. Og ecke hinne Bersindugu, er þvode JEsu Fætur i Taarum sijnum, og þerrade med Haar-Lockunum, Luc. 7. Þesser breita epter Smaa-Bornunum, og þannenn ætla eg ad flester hafe geinged inn i Himna-Rijke. Gud naide vort Eimdar-Stand hier i Heimenum! Þegar vier vorum Omaalga Born, og vissum eingenn Deile Goods edur Jlls, þa var Himna-Rijke vort; Enn nær vier drogunst a Legg, gioraft sumer Helvijtis Ellde-Brandar. Gott er ad sonnu ad vaxa ad Alldre, og under eins ad Vitsku og Naad hiaa Gude og Monnum, eins og Barned JESUS. Enn hvad Jllskunne vidvijkur, þa ætla eg gott sie ad fara alldrei af Barns Alldre; Þvi kalla eg þann heppenn, sem ecke veit af fleire Odigdum ad segia, enn hann er fæddur med, jafnvel þo allt sie Holldlegt þad af Holldenu er fædt, Joh. 3. Enn þad maa þo ad mikklu Leite bæta med Christelegum Aga og Uppfrædingu, aan hvorrar Syndumspillt Naatturu er eins næm a þad Jlla, so sem Tundred tekur a moote Elldenum. Um þetta vil eg nockud framar tala wt af þessu H. Evangelio, er vier vilium i Tvo Hlute deila. 1. Um Skylldu Forelldranna vid Bornenn. 2. Um Barnanna Skylldu vid Forelldrana. Enn þu sem ordenn ert Hluttakande Hollds og Bloods, eins og Smaa-Bornenn, HErra JEsu Christe! Stioorna þu Hiortum vorum, so oss fwse giore ad fylgia þijnu blessudu Digda Dæme, og send oss þar til Naad þijns H. Anda, AMEN.

## Utleggingen

HJd Fyrsta sem Forelldrarner eru Bornunum skylldugir um, þad er Lijkamleg Forsorgun, Fot og Fæde: Þad kienner sialf Naatturann; Himen og Jord hroopa þad Daglega. Aller Hluter hafa Forsorgun af þvi sem þeir eru fædder af; Villu-Dyren a Morkenne, þau grimmu Leonenn, og hinar Olmu Byrnur afrækia ecke sitt Foostur. Tried hefur sinn Vokva af Rootenne, og Ormum Jardarennar giefur hun sijna Fædu, og vier erum sialfer komner af henne i Ondverdu, og oll sijn Born hefur hun fyrer Almættis Krapt DRottens foostrad, allt til þessa Dags; Þacker sieu honum ad eilijfu, sem hana daa samlega friöofgar, med Feite Vagnle dar sinnar, Ps. 65. Þetta er ad sonnu skylldugt og naudsynlegt, enn þo er þad hinn minnste Partur, jafnvel þoott sumer þykest ollu hafa afloked, þegar so er giort. Þad er þo Haalfverk, nema minna sie, þvi betra er ad kasta Askvæme sijnu wt a Morkena, enn ad laata þad uppalast i ollum Odygdum Dioflenum til Þioonustu. Hvad er þa framar? Hvad heyrum vier af Forelldrum JEsu? Þegar Hann Var Toolf Ara Gamall, Hofdu Þau Hann Upp Til Jerusalem. J Exod. 34. C. stendur, ad Drottenn hafe giefed þetta Bodord: Þrisvar a Are hvoriu skulu aller þijner Karlmenn mæta fyrer Auglite DRottens Guds þijns: Þessu Bode voru þau Joseph og Maria hlijdug, og toldu ecke epter sier ad reisa um langann Veg, allt fraa Nazareth i Galilæa upp til Jerusalem. Merk hier hvad fyrst

aa ad vera i Christelegu Uppelde, sem er Otte DRottenns. Pad sem fyrst kiemur i Kierked, þad lyktar þad leingst af, segier hinn Norræfke Ordshaattur: So eru og Hiörtun, Pad fyrst er þar i þeim innplantad, þvi hallda þau leingst; Enn ecker er þvilijkt, sem Otte DRottenns. Hann er eins og Sæded pad Menn i Jordena leggia; þad kann eige annad, enn ad bera sier lijkann Avöxt: Þar fyrer aa þad ad vera þitt Fyrsta Verk, Christen Madur, ad innræta hiaa Barnenu Elskuna til Guds, og mun allt añad gott, med miña Erfide, aa epter fylgia. Læknisdooma giefa Menn inn aa toomann Maga, og hallda þad gott til Heilsubootar. Vier fæduinst i þennann Heim siwker af Syndenne, þvi i Syndiñe em eg alenn, segier David, og i Syndenne hitnade minne Moodur med mier, Ps. 51. Eñ hvor mun þvilijk Lækning þar vid, sem Elskann til Guds? Laat þinn Son drecka hana iñ med Moodur-Mioolkenne, og muntu afla honum Andlegrar Heilbrygde, og þad aadur enn allt annad innkiemur, aadur enn hid unga Hiarta saurgast af Heimsins Ohreinendum, af vondre Umgeingne og illum Dæmum, ad þad sie þa fullt af Elskunne til Guds og Dygdanna, so þa Satan kiemur og ber ad Dyrum med Hamre Lastanna, þa verde hann snarlega brotenn aa Bak aptur, af þeim, sem honum er yfersterkare, Luc. 11. Lastadu Blygdunarlaust, þar mun alltijd eitthvad vid loda, segia hin hreckvijsu Diöfulsins Börn, sem tamt er ad bera illt i Höfdingianna Eyru, til ad afla Fiandmönnum sijnum Othocka. Brwka hid sama vid Barn þitt med ödrum Hætte. Tala jafnann um Gud, hvad goodur hann sie, og hvörsu Volldugur, ad hann hafe Himen og Jord skapad, hvad miked gott hann Mönnunum veite, hvornenn hann þa daglega forsorge, hvörsu goodur hañ sie þeim, sem hann Ottast, hvad Dijrdlega Vist hann hafe tilbwed þeim med sialfum sier, er hann elska og nockud lijda i Heime þessum hanns vegna, hvörsu aagiæt Giöf ad sie JEsus Christus, og hvornenn hann hafe eirnenn Ungbarn giörst fyrer Mannanna Hiaalpræðis Saker. Tala þetta fyrer Barnenu, Christenn Madur, þad er sw hreina og skynsamlega Mioolk, sem ad Petur um talar 1. Pet. 2. ad vier skulum gyrnast, so ad vier vöxum til Saaluhiaalpar, og trw mier til, þad mun eige Avaxtarlaust verda, Jafnvel þoott Bernskann sie rijk i Ungdoomsins Hiarta, Prov. 22. Þvi af Munne Smaa-Barnanna og Brioostmylkinganna hefur hann sier Lofed tilreidt, Ps. 8. Þetta maa einfalldlegt þykia; Þad er þo þad, aan hvörs eingenn hefur vitur orded. Jeg skamast mijn ecke ad tala þad til Godra Barna, sem Moysi þootte eingenn Mijnkun ad tala til Israels Sona, edur hvad segier hann? Devt. 6. Þesse Ord sem eg bijd þier i Dag, skalltu leggia uppaa Hiarta þitt, og brijna þau allt jafnt fyrer þijnum Börnum, og ræda um þau, nær þu situr i þijnu Hwse, og binda þau til Merkis aa þijna Hönd, og skrifa þau aa þijna Dyrustafe, og þau skulu vera þier Minningar-Teikn fyrer þijnum Augum: Hvar um talade Moyses þetta? Um Guds Logmaal sem þo deyder, 2. Cor. 3. Hvad miklu framar maa eg þad segia um Ord Evangelii, sem er Lijf og Ande, Joh. 6. Og fyrer þvi, ad allt Lögmaaled er i Tveimur Bodordum innefaled, sem er ad elska Gud af öllu Hiarta, og Naungann sem sialfann sig, Matth. 22. Þa undervijsa Barnenu strax aa

unga

unga Alldre, hvoriienn aller sieu ordner eirn Madur i Christo, Gall. 3. Eyn han sie Hof udad-Svoh: „Hvad skiamurlegt pad sie, ad eiru Vinurenn forsmaae annann, edur ad þeir tonnlest og tyggest innbyrdis, þar til þeir mætti um sijder verda uppetner: Jaa, hvad da Merke hinn goode JEsus hefur sett uppaa sijna Læresveina, ad aller skulu þeckia þaa þar af, ad þeir elske hvor annann, Joh. 13. Brijn fyrer Syne þijnum Christelegar Dygder og Gudrækelegt Athæfe, Hoogværdena, Kiærleikann, Myskunseinena, Polenmædena, Riettvijsena, Goodfijsena, Sparsemena, Hugprijdena. Afmaala þær so sem DRottenns Eingla i hanns Augum, so ad hann fære Elsku til slijkra Hluta, og hafe þaa kiærare enn allt annad, og þecke hvorsu Gud hafe þa kiæra er slijkt ydka, og hvornenn ad aller oagiæter Hluter, sem Menn hafa mestar Mætur aa i Heimenum, plage slijkre Atferd epter ad fylgia, so sem er, Heidur, Metord, Astsæla; og annad Stundlegt Epterlæte, er Gud veiter morgum af sijnum Vinum: Enn kunne odruvijse ad falla, þa sie Dygdinn sijn eigenn Verdlaun i þessu Lijfe, og hafe Fyrerheit Eilijfrar Sælu i Himnarijke. Laat hann sem allra seinast naa Odygdernar ad þeckia, Enn elska alldrei. Drep þeirra Nafn wt i hanns Eyrum, og gior Lestena ad Skrijmslum og Ofreskium; Leid honum fyrer Siooner þeirra Straff og illar Ufarer, er þvilijkt adhafast; og ad hann mune slijkann Kost eiga, nema hann gialldе Varhuga vid. Med soddann Fortolum er Christelegt og Skynsamlegt ad hræda ungar Mannesk jur, enn eige med Grijlum, Draugum og Forinium. Upphaf Vitskunar er Otte DRottens, Ps. 111. Enn ecke ad hrædast Fiendur og Pwka, hvoria þeir alldrei sied hafa, er hvad mest þar um rausa. Umfram alla Hlute, vert sialfur hinn skiæraste Dygda-Speigell fyrer þijnu Afkvæme. Laat eckert lioott siaast i Fare þijnu, hvad hinn Unge kunne epter ad henda. Bornenn trwa Forelldrunum eins og Gude, og meina pad sie allt Gott sem þau giora. Laat ecke Hlijdne Undergiefnennar glæpast aa Agne Illskunnar. Fyrer aungvum aa meire Bligdun ad bera, enn fyrer Einum Ungling. Pad er betra ad giora Lioott eitthvad i Hofdingians Auglite enn Barnsins. Hvar aa þinn Sonur Gott ad læra, ef hann sier eige til Fodursins annad enn þad Illt er? Munt þu, sem Lijtum ert hladenn, hafa gieted hann so næmann aa Dygdernar, ad hann læte þær sialfkrafa, er hann sier alldrei fyrer sier nema Odygder? Kunne þig þvi Mannlegt ad henda, so sem opt skiedur, þa tak þier Vara fyrer, ad hinn Unge Madur vite sem minnst þar af; Þvi eg vil helldur ad Ovinur minn siaae Illt til mijn, helldur enn Sonur minn; þegar eg giæte ad hvorsu þrong ad Guds Hond vard yfer Jerobo am Syne Nebat, sem ad kom Israel til ad syndga, 1. Reg. 14. Pad er og ecke noog ad þu vardveiter sialfann þig, Vakta og Barn þitt fyrer vondum Selskap, þvi illt Samtal spiller goodum Sidum, segier Postulenn, 1. Cor. 15. Og lijted Swrdeig sijrer allt Deiged, 1. Cor. 5. Jeg sie hier i Gudspiallenu, ad Joseph og Maria leitudu ad JEsu aa medal Frænda og Kunningia, sem voru Gudhrædder Menn, enn ecke medal Illþijdis. Hvar fyrer? Þvi hann var ecke þesshaattar Selskap vanur. Pau fundu hann og i Musterenu, sitiande midt aa millum Lærefedranna, enn ecke wt aa Strætum

medal

medal Gaarunga. Eingenn kann um̃ þad Hogum ad hyggia, hvad vondur Selſkapur giører; Þad geingur trægt ad venia vonda Náttúru aa hid Gooda; hitt er liett ad temia gooda aa hid Vonda. Juda hefde kannſkie ecke vered Hluttakare i Manſale † Joſephs, hefde ecke ſpillt honum Selſkapur Brædra ſinna, Gen. 37. Dina hefde halldid Æru ſinne, hefde hun ecke komed i Lauslaatar Hendur, Gen. 34. Paulus hefde ei offookt Guds Chriſtne, nema hann hefde aadur vered druckenn af Swrdeige Phariſæanna, Matth. 16. Þoott ad vier ſieum gietner og fædder i Syndenne, þa er þo Barnañs Hiarta lijkt hreinum Papir, þar ed aller Hluter verda ritader aa. Ef þad er Gott, þad blijfur; er þad Jllt, þad er ecke helldur ſo liett vt ad ſkafa, ſo ecke aa ſiaꝛe. Um̃geingne hreckvijſra Manna er heimuglegt Eitur, eirn Nætur-Þioofur, ein Mord-Pijla, ein Drepſoott ſem i Myrkrunum lædeſt, Pſ. 91. Eirn Hoggormur i Barme, og Rotnan i Beinunum, Prov. 12. Hallt þvi hinum ungu Arum fraa ſlijkre Oliſian. Barned ſamþicker þad kannſkie ecke ſtrax, ſem þad heyrer; Enn trw mier til, ad eitt vont Ord grefur meir um̃ ſig i Hiartanu enn Flijſenn i Holldenu; Ef nockur ſtijngur Fijngrenum aa Vaxed medañ þad er blautt, þa verdur þar Hola epter, og hun varer þegar þad hardnar, tekſt og ecke helldur i burt nema þad ſie brædt aptur. So er og Barned. Þad Eirn Ungur numde, þad kann hann Gamall; Gietur og kannſkie ecke gleimt þo hañ villde; og þo hañ kyñe, þa er betra heillt enn bætt. Laat þvi ſem minnſt verda Spiollenn, ſo eige þurfe ad endurbæta. Þar er Stoorlæte nockurt i fleſtra Manna Hiortum, Jer. 17. Þvi Madurenn er drambſamt Dijr. Þad er ad ſonnu ſkadleg Tilhneiging, kann þo til Gagns ad koma, ſie henne vel ſtioornad; Laat þinn unga Son læra ad forſmaa þad ſem Jllt er, og virda þa ad aungvu ſem ecke vanda ſiaalfa ſig: þad Stoorlæte er ſkadlauſt; Þvi Poſtulenn ſegier um̃ þa ſem laataſt Brædur (þad er Chriſtner) vera, enn eru þo Heidingiar i Hiartanu, ad med þvilijkum ſkulu Meñ ecke Matar-Nautn hafa, 1. Cor. 5. Ad þeſſu undanngeingnu, þa venied og Born ydar til Ydne og Aſtundunar. So ſem Lete og Omennſka hefur aflad morgum mikellra Laſta; So hefur Ydne og Eliun margann Oſooma i burtu teked. Hofdinge þeirra Athenuborgar Manna Solon, hann ſette Fordum Daga, ad ſaa ſem ecke hefde kieñt Syne ſijnum neitt Handverk; hann ſkyllde ecke eiga ſkiled af honum Fooſtur i ſinne Elle. Eg kann ecke ad ſegia, ad þad være Chriſtelegt; Hitt ſegie eg, ad þad var gagnſamt, þo eg valla vite, hvad ſaa er Forelldrunum ſkylldugur um̃, ſem er uppalenn i Lete og Omenſku, ſo hañ gietur ecke feinged ſier Atvinnu, þa hañ er fullþroſka. Og þoott aller fare ei til þeſs komeſt, ad ſetia Born ſijn til Menta, þa vited, ad Ærlegt Erfide er Gude eins þægt, þvi hiaa honum er hvorke Þræll nie Frelſinge, helldur aller Eitt i JEſu Chriſto, ſeiger Poſtuleñ, Gal. 3. Þad være eige gott ad aller væru Herramenn, eg ætla þa yrdu aller Bændur, hvad Verolldenn eige þoler fyrer Mañanna Jllſku Saker: Boondenn vid Orfed er eins þægur Gude, þegar hann giører Verk ſinnar Kallanar, ſo ſem Doomareñ i ſijnu Sæte, edur Preſtureñ fyrer Altarenu. JEſus var ecke til Boo-



† Man er Præll, ad ſelia Manſali, er ad ſelia i Prældoom.

kà settur, Þvi sogdu hañs Ovinir, hvadañ kiemur honum Frædi þessi, Matth. 13. Er
hañ hefur þo ecki aa Bækur lært? Þad skiedi af Guds aasettu Raadi, so einginn kynni ad
segia, þad hann hefdi sijna Speki af Monnum. Enn Timburmannsins Son, Marc. 6.
var hann kalladur, og siaalfur Smidur nefndur. Þvi er audvitad, ad hann muni ecki
Ydiulaus verid hafa i Ungdoomi sijnum, helldur numid þad sama Handverk: Þo mæ-
la sumir eptir Bornum sijnum, ad læra ad leita sijns Brauds i Sveita sijns Andlitis,
vitandi ecki þad, ad saa sem uppelst Ydiulaus, hann er nærst þvi ad deya Ærulaus; Þvi
þegar hann kann eckert ad vinna, hvad gietur hann annad giort, enn ad hlaupa med Þioof-
num til ad stela, og verda sijdann dreiginn i Gaalgann til ad haanga? Margt mætti hier
um framar tala, enn eg læt hier vid bijda i þetta Sinn, og vil Ihuga framveigis, hv-
ad Borninn eru aftur aa moot Forelldrunum skylldug.

Og Hañ foor ofañ med Þeim, Og kom til Nazareth, var þeim og Hlijdiñ, seigir Textiñ.
Hvilijkt er þetta? B. M. Skapariñ hlijdnast Skiepnuñi, Gud Mañinum, Herrañ Am-
baattiñi. O miñ Jesu! hvilijk er Þioons Mynd þessi? þad er ecki um Skor fram talad, ad
þu lidid hefur oss til Eftirdæmis, 1. Pet. 2. Merki þad allir þeir, ed undir Forelldra Vall-
di eru, og aññarra, sem i Forelldra Stad settir eru, hversu Ovidurkvæmilegt þad er, ad bri-
ootast aa mooti þeim, sem vier ecki einasta eigum Lijfid, helldur og Foostur og Upphelldi ad
þacka. Þier Born, verid hlijdug Fedrum ydar i DRottni, seigir Paall, Eph. 6. Þvi
þad er riettvijst; heidra þinn Fodur og Moodur, þad er hid fyrsta Bodord med Fyr-
irheiti, ad þier vel vegni, og þu verdir Laanglijfur aa Jorduñi. Hvar fyrir seigir hañ: I
DRottni? Þvi ecke einasta vegna Forelldrañа, helldur og Guds vegna aa þeim ad hlij-
da. Gud er allra vor Fadir, Eph. 4. Og med þvi allra fegursta Nafni hefur hann
auglijst sijna Elsku til vor Mañaña. Hann kuñum vier ecki ad siaa og lifa, Exod. 33. Þvi
hefur hann sett Forelldrana i sinn Stad, ad vier skulum dijrdka sig med Hlijdniñi vid þa.

Hinn Fyrsta Heidur og Lotningu hefur Gud siaalfum sier skilid af Manninum, þau
eru iññibundinn i hinni Fyrri Bodorda Toblunni. Þad allra Fyrsta i þeirri Sijdari,
hefur hann laatid vera þad Fioorda Bodordid, so sem Hlijdninn vid Forelldrana være
saa Hlutur, er umfram adra væri mest verdur; Þetta er hid Einasta Bodord med Fyr-
irheiti, og er ecki Olijkindi, ad hin Almaattuga Speki, sem leikur vid Mannanna Born,
Prov. 8. hafi þad giort i þeirri Meiningu, ad Ungdoomurinn, sem alla Hluti viñur
fyrir fogur Loford, enn ecki hefur Vit aa odrum Dygdum enn Hlijdninni, sem er Root
hinna, skylldi hafa eitthvad þad ad gaangast fyrir, sem inn i Auguñ geingi. Eñ þoott ad
Gud hafi hier Tijmannlegri Blessan heitid, þa viti Menn, ad hitt er eigi fraaskilid, hell-
dur þar sem þetta Stundlega endar, þar tekur hid Eilijfa vid. Sæll er saa sem misser
nockud af Leingd Lijfdaganna, til ad naa sem fyrst inn i Rijke Himnanna, þvi leinge ad
lifa er leinge ad syndga, þad maa og ecke leinge kallast, sem einhvorn Tijma skal Enda
taka; Bregdest þvi Leingd Lijfdaganna hier aa Jordunne, þa bregdst hun ecke aa Laf-
de Lifande Manna. Ohlijdne er Galldra Glæpur, segier Skriptenn, 1. Sam. 15.

Hvat

Hvar fyrer? Eda hvad er Galldur? Þad er Afguda-Dyrkan, enn saa hinn Ohlijdne gior-
er sialfann sig ad Gude; Þvi segier Paulus, Rom. 13. Ad saa sem mootstande Valld-
stiornenne, hann mootstande Gude, enn hann ed Forelldrunum mootstendur hann gior-
er hid sama. Þad er nærsta merkelegt, sem ad sagde Jeremias Spaamadur, vid So-
nu Jonadabs, Sonar Rechab, Jer. 35. Þegar Jsrael aatte ad wtleidast i Herleiding-
una med Kvinnum og Bornum; Þa sagde Spaamadurenn i Guds Stad, til Rechabs
Sona: Af þvi þier hlijddud Bodorde Jonadabs Fodur ydar, og þier giored sem hann
baud ydur, vardveitande oll hanns Bodord, þar fyrer segier DRottenn Allsheriar:
Þar skal ecke upprætast Eirn Madur fyrer Jonadab Syne Rechabs, ad eige stande
hann framme fyrer mier alla Tijma. Og ad Menn vite, ad Hlijdnennar Fyrerheit naae
leingra enn til Jsraels Sona, þa voru Rechabitar Framande Menn, og ecke af Js-
raels Sonum, og var þannenn Fyrerheited teked fraa Bornum Fyrerheitesins, enn
giefed þeim er eige hofdu Fyrerheit. So siaa Menn nu, ad þar er eckert Manngrein-
ar-Alit hiaa Gude, helldur aa ollu Foolke og Tungumaalum, sem giorer hanns Vilia,
hefur hann Þocknan, Act. 10. Og so sem Gud hefur i Naad sinne blessad Hlijd-
nena vid Forelldrana, so hefur hann og i sinne Grimdar Reide Ohlijdnena straffad.
Hrædeleg eru þau Ord, er DRottenn talade vid Samuel, 1. Samuel. 3. Um Sonu
Eli, þa þeir traassudust aa moote sijnum Fodur: Jeg skal giora eirn Hlut i Jsrael, ad hvor
þad heyrer, hanns Eyru skulu klijngia þar vid. Jeg hefe svared Eli Hwse: So sannar-
lega sem eg lifi, Ad Eli Hwss Misgiord skal ecke forlijkud verda med Gaafum edur Foorn-
færingum ad eilijfu. Og hvorsu margur hafe hier fyrer straffadur vered, er oflaangt
upp ad reikna. Fyrer þetta miste Ruben sijna Frumgietningu, Gen. 45. Fyrer þad
hieck Absalon i Eikenne, 2. Sam. 18. Fyrer þad vard Canaan, Sonur Cams, bol-
vadur, Gen. 9. Þad sama wtriette Neronis Hond til ad myrda sialfann sig, og ad-
ter hafa med odru Moote hegnder vered. Og hvad vilium vier laangt leita? Giæt-
um ad Oskopum þessa auma Lands; Þar Sonurenn skipar Fodurnum; Faderenn
þorer ecke ad tala i midt Hoof vid Sonenn. Faderenn vinnur Bake brotnu; Sonurenn
sefur aa bæde sijn Eyru. Fodurenn hwngrar og þyrster; Sonurenn er Fullur og Feitur.
Faderenn hefur aungva Roo, fyrr enn hann hefur klaked þvi upp, sem hann gieted hefur,
enn Sonurenn vill laata Fodurnum vera veitt i ollu þvi hann lætst giora, hvad þo aungvann-
veigenn er, þvi Faderenn þiggur eckert af Synenum, þoott hann ale hann. Hinn gior-
er eige meira enn giallda aptur þad honum laanad var. Ecke þarf eg ad segia, ad fyrer þetta
kome Hefnd DRottens ag Reide yfer Land vort, þvi þetta er noog Hefnd i sialfu sier; þar
þesser, sem so eru uppalder, gaanga heilbrigder Bæa aa mille: þad eru vorer Olmusu-
Menn og vier fædum þa i Guds Nafne: þad eru þeir ed wtsiwga Hus Eckna og Fod-
urlausra, og þeir ed drecka annarra Guds Barna Sveita, Jafnvel þoott þeir eige i sijnum
eigenn ad næra sig af Jordunne, Gen. 3. Solon var eitt Sinn adspurdur, hvar fyr-
er hann hefde aungvar Vidlogur haft vid Fodur-Draaped? Enn hann svarade: Ad

hann hefde alldrei þeinkt til þess, ad þad munde nockrum i Hug koma. Eg medkienne og þad, og þacka Gude fyrer, ad hann hefur vardveitt Land vort fraa so skielfelegre Olucku i laanga Tijma, Jafnvel þoott þess Dæme sieu annarstadar. Enn saa ed formæler Fodur og Moodur, Prov. 20. Sa ed hæder Fodurenn enn foraktar Mooduren a, Prov. 30. Hann sem med Illu einu launar alla þa Mædu og Piaaningu, sem hanns Forelldrar hafa uppaa hann kostad: Hann sem med Ogudlegu Athæfe, Skommum og Lostum kvelur þad Briooст, fyrer hvoriu hann borenn var, so þetta hefur marga Gudhrædda Forelldra til Dauda dreiged: Mun hann vera laangt fraa Fodur-Morde? Og so sem þad maa hin stærsta Glede vera, ad sia sitt Afkvæme framgaanga i Guds Otta, so hlijtur þad ad vera hin mesta Hiarta-Sorg og Hugar Angist, ad sia sijna eigenn Saalu illa fara. Born enn eru kveikt af Forelldrana Veru; Enn eingenn hefur um Alldur sitt eiged Holld hatad, helldur fooſtrar hann þad og nærer, Eph. 5. Selevchus, Hofdinge þeirra i Locris, er hann hafde þad i Log leidt, ad sa sem tæke med annars Manns Ekta-Konu, skyllde Augunn missa, þa hente þad hanns eigenn Son, hvar fyrer hann liet stijnga wt hanns þad eina Auga, enn sitt annad, til ad fullnægia Logmaalenu. Þad auglijste og Psamenites Egyptalands Konungur, þegar Born hanns voru sigvirdt og illa wtleikenn, þa griet hann ecke helldur enn Steirn, enn þegar hann saa Vine sijna til Lijflaats leidda, þa Taaradest hann miog so; og er hann var ad Orsokenne spurdur, svarade hann þvi: Ad i Mootgaange Vina sinna skylldu Menn graata, enn Barnanna Olucka være stærre og saarare enn so, ad hun tæke nockrum Taarum. Og allt mun helldur skorta, enn ad þvilijkt finnest enn nu i Dag, jafnvel aa medal vor. Hvad sijnest þier þa, Christenn Madur? Hvilijkur Ogiorningur er þad, ad saalga þeirra Hiarta, med Ohlydne og illu Athæfe er so heitt elska, af hvorra Saalu þijn Saala so fast haanger, so sem Jacobs af Benjamins? Gen. 44. Þad var i Logum hiaa Athenu Monnum, ad sa sem ecke villde Forelldrana forsorga, hann skyllde Wrulaus vera. Eg kann ecke ad segia þad Oriettvijst, þvi þar er eingrar Æru Von hiaa honum, sem ecke vill unna þeim Lijfs Upphelldis, sem honum hefur til Lijfsins hiaalpad. Þar fyrer, Born mijn, giæted ad ydur, fyrer Guds Saker, og leided ecke yfer ydur Tijmannlega og eilijfa Olucku, med Ohlijdne og Forsmaan Forelldranna. Þier kalled aller Gud ydar Fodur, sem aa Himnum er, enn hann vill ecke þess Fader heita, sem foraktar sijna Forelldra, Þvi elske hann ecke sinn Fodur, hvorn hann sier, hvorsu maa hann Gud elska, þann er hann sier ecke? 1. Joh. 4. O HErra JEsu Christe! Þu sem Fodurnum hlijdenn giordest allt til Daudans, Jaa, allt til Krossens Dauda, Phil. 2. Gief þu ad vier fyrer þijnar, og þijns og vors Himneska Fodurs Saker, verdum so allre Mannlegre Skickan undergiefner, 1. Pet. 2. Ad þu vilier oss þeckia fyrer þijn Born aa hinum efsta Deige, nær þu kiemur ad endurgiallda sierhvorium einum epter sijnum Verkum, 2. Cor. 5. Sier i Lage bidium vier, Goode Gud! Gief Bornunum hlijded Hiarta, og vernda þau fraa vondre Verolld þessare, so þau elske þig, elske Forelldrana, elske Yferbodarana, elske Dygder og Mannkoste, Og, i Einu Orde ad segia,

Ad

ad þau vaxe og þrooest ad Alldre, Vitsku og Naad hiaa Gude og Mönnum. Bæn-
heyr þad fyrer JEsu Forþienustu, AMEN.

# Añañ Suñudag epter Prettanda.

Gudspialled, Joh. 2. Cap.

I Þañ Tijma. Þar giördest Brwdkaup i Cana Galileæ, og Mooder JEsu var þar. Eñ JEsus og hañs Lærisveinar voru og bodner til Brwdkaupsins. Og er þaa þraut Vijn, sagde Mooder JEsu til hañs; Þeir hafa ecke Vijn; JEsus sagde til heñar: Þu Kviña, Hvad hefe eg med þig? Mijn Stund er eñ ecke komeñ. Mooder hañs sagde til Þioonustu-Mañaña: Hvad hellst hañ segier ydur, þad giöred. Eñ þar voru Sex Stein-Kier sett epter Veniu Ebreskra Maña Hreinsunar, og hvört eitt took Tvo edur Þriaa Mæler. JEsus sagde til þeirra: Fylled upp Kiereñ af Vatne, Og þeir fylltu þau allt aa Barma. Og JEsus sagde til þeirra: Helled nu aa, og færed Kræmeistaranum, Og þeir færdu hönum. Eñ þa Kræmeistareñ smackade Vatned, þad ad Vijne var orded, Og hañ visse ecke hvadañ þad kom: Eñ Þioonustu-Meñerner, sem Vatned sooktu, vissu þad: Þa kallade hañ aa Brudgumañ, og segier hönum: Aller Meñ giefa i Fyrstu hid gooda Vijned, Og nær þeir taka Ölvader ad giörast þa þad hid liettara; Eñ þu hefur geimt hid gooda allt til þessa. Þetta er hid Fyrsta Jard-Teikn, sem JEsus giörde til Cana i Galilæa; Og hañ opeñberade sijna Dijrd. Og hañs Lærisveinar trwdu aa hañ.

## Exordium.

Eg hefe Trwlofad ydur einum Manne Christo, ad eg fære ydur hönum hreina Meyu, segier St. Paall, 2. Cor. 11. Hvør skyllde hafa vogad ad koma sa Ordum ad þeirre Einingu sem er aa mille Guds og Manna, hefde ecke Guds Ande fyrstur lagt þad i Muñ sijña Heilagra Maña? Og er þad þo ecke ad undra, þvi Ordenn eiga epter Hlutunum ad lijkia. J Leindardoom Holldtekiunnar vors Frelsara, er Gud samteingdur Mannlegre Naatturu, þad Himneska vid hid Jardneska, þad Eilijfa vid hid Daudlega, þad Synelega vid hid Osynelega, hid Skapada vid þad Oskapta, og þad med so sterku Bande, ad ecke maa adskilia, og þar ad auke eru þeir sem Gud elska, eirn Ande med Christo. Þennan Orannsakannlega Leindardoom hefur hinne eilijfu Speke þocknast ad Jardteikna med Sambwd Daudlegra Manna, þar

Madur og Kona samannkoma i Ærlegum og Heilogum Ektaskap. Nu þoott ab Himneskra og Jardneskra Hluta kunne valla nockur Jofnudur ad huxast, auk helldur talast edur giorast, þa er þo Einingenn æ mille Guds og Manna, miog so Lijk einum Christelegum Ektaskap: Beggia Hofundur er hinn Almaattke Gud; Hvorttveggia hefur Kiærleikurenn samteingt: So sem hrein Elska fester Gudhræddra Hioona Saaler eina vid adra, so hefur JEsus af eintoomre Elsku og Kiærleika ofanstijged i vort auma Holld, og giorst Safnadarens Hofud, eins og Madurenn Kvinnunar, Eph. 5. Og Paulus talar enn þa nær þessu i sama Capitula, Seigiandi: Vier erum Limer hins sama Lijkama, Holld af hans Hollde og Bein af hanns Beinum; Og med somu Ordum utskijrde vor Fader Adam þær Teingder, sem Natturann baud homum ad være æ mille hanns og vorrar Fyrstu Moodur, er hann sagde: Þesse er Holld af mijnu Hollde, og Bein af mijnum Beinum, Gen. 2. Þar fyrer Itrekar Paulus eirnin hina Fyrstu Hioona-Vijgslu, Eph. 5. med þessum Ordum: Af þeim Treimur skal eitt Holld verda. Vor Herra telur alleinasta Eina Ordsok til þess, ad Egta-Foolk skilia meige, Matth. 5. Sem er Hoordoomurenn. So skilst eige Christur vid nockra syndugs Manns Saalu, þa er hann hefur sier eitt Sinn festa, nema hun take fram hiaa honum Heimenn, Hollded og Diofulenn; Og þo segier hin Eilijfa Miskunsemenn, Jer. 2. Siaa þeir plaga ad segia: Ef Madur lætur Konu sijna eina, og hun geingur ad eiga annann Mann, mun hann hverfa ad henne aptur? Mun ecki þad Land magnlega saurgast? Enn þu hefur Hooraner drijgt med morgum Elskuga. Snw þo aptur til mijn, segier DRottenn Gud. Egtaskapurenn er af Gude Innstiptadur, til ad fiolga Mannkynenu i Heimenum, þad baud Gud i Ondverdu, er hann sagde: Vaxed og margfalldest, og uppfylled Jordena, Gen. 1. Þad Itrekade hann epter Flooded vid Noa, Gen. 9. Og þess sama Ords Almættis Kraptur er enn nu nijr og ferskur, og mun verda allt til Enda Veralldar. JEsu Brwdur, er eirnenn nærsta Frioossom, margra Barna Mooder; Hennar Unnusta Spaa er aa henne farsællega rætt, ad hun Einsamla hefur fleire Born enn hun sem Mannenn hefur, Es. 54. Hann hefur med H. Guds Orde Otal Barna vid henne gieted, 1. Pet. 1. Hvor nu standa Umhverfis hans Bord aa Himnum, Ps. 128. So sem Paalma-Vidar Kvister aa Vatns-Bockum plantader, Ps. 1. Þess gietur Jacob Postule, Cap. 1. Hann hefur Siaalfkrafa gieted oss med Orde sijns Kraptar, ad vier sieum nockurskonar Frumburder hanns Skiepnu. Þessu hroosar Brwdgumenn, Es. 8. Segiande: Siaaed mijn Born sem DRottenn hefur giefed mier. Þar yfer fagnar Brwdurenn, Es. 49. Med þessum Ordum; Hvor hefur gieted þessa? Jeg var Obyria, burtflutt og ad Herfange tekenn; Hvor hefur uppaled þessa? Jeg var Yfergiefenn og Einsomul: Hvar voru þesser? Christeleg Kyrkia elur Fiollda Barna, þvi hennar Unnuste er alltijd hinn same, og hans Ar taka aungvann Enda, Ps. 102. Hann er sa Madur Zemach under hvorium Eilijflega grær, Zach. 6. Hvors Ande adlijfgar. Gydinganna Samkunda er ein Obyria, þvi hun hefur sleiged sinn

Mann

Mann i Hel, enn fadmar hinn af-gamla og wtdauda Moysen, hvørs Bokstafur ad deyder, 2. Cor. 3. Nu fyrst hinum eilijfa Gude hefur þocknast ad teikna so hæleita Hlute med Hioonabands Sam-Vistenne, þa giætum þess, Brædur mijner, med hvad mikelle Æru og Virdingu, ad oss byriar ad vanda þa heilogu Stiett. Þar um vil eg nockud framveiges tala wt af þessu Heilogu Evangelio.

Enn þu sem oss hefur Trwlofad hier i Naad og Myskunseme, Eilijfe Sonur lifanda Guds! Upplijs þu Hiortu vor, so ad þetta vort Aform farsællega luckest, og gief þar til Naad þijns Heilaga Anda, AMEN.

## Utleggingeñ

HAR Giordest BRwdkaup J CAna GAlilea, (segier Textenn) OG JESU MOODer Var Þar. Sumer hafa tilgieted, ad þesse Brwd-Hioon hafe vered Ætt-Menn Guds Moodur, og nockrer hallda ad Brwdgumenn vered hafe Johannes Postule, þvi hann eirn skrifar þetta, og þeiger þo um Nofnenn, so sem Plagsidur hanns er, nær hann um sialfañ sig eitthvad merkelegt skrifar. Um þetta er eckert vijst, rijdur og aa aungvu. Hitt er audvæ ded, ad hier hafa Gudhræddar Persoonur bwed Naadahag siñ, þvi ecke hefde JEsu Mooder ætt Sess vid þau ella; Og er þadaf þessu ad læra, ad Menn take Gudhrædda Menn til Naadaneitis med sier, þegar slijkt aa ad byria, eñ ecke hlaupe til slijkra Efna fyrer Naad fram, ecke helldur hlijdest aa Fortolur þeirra, er annadhvort sialfer ecke vita Footum sijnum Forraad, edur fyrer eigenn Gagnsmuna Saker steipa einum Oreindum og Farkiænum i þa Grifiu, sem hañ maa Æfennlega gista og alldrei blijdañ Dag siaa. J Egtaskapar-Maalum er þad eins og i Strijdenu; Þar maa eige villast Tvisvar. Saa sem eitt Sinn fiell i Valenn, hañ reis alldrei upp sijdañ; og hañ sem byriar sinn Raada-Hag, maa bwast vid ad tebla vid slijkann Kost allañ siñ Alldur, er hann teked hefur. Jeg heyre ad JEsu Mooder var hier ad Heimbode, og hanns Lærisveinar. Enn hvad segier hann sialfur? Matth. 12. Saa sem giorer Vilia mijns Fodurs sem aa Himnum er, hann er minn Brooder, Syster og Mooder, þad eru þeir ed Ottast Gud og elska. Slijkum eiga Guds Born epter ad leita. Eingenn er þvilijk Heimann-Fylgia, sem Otte Guds og ærlegt Upphellde. Abraham liet Eleazar sinn Þienara sveria sier vid Gud, ad hann skyllde aungva taka Syne sijnum til Ekta af Canaans Dætrum, Gen. 24. So miked þookte honum aa þvi rijda, ad Born sijn ecke skylldu draga Ok med Ogudlegum, 2. Cor. 6. DRottenn Allsheriar lagde rijkt aa vid sitt Foolk, ad eige skylldu þeir teingiast þeim Gudlausu Þioodum, er hann rak wt wr Canaans Lande, Deut. 7. Þad bar til þess, ad eige skylldu þeir villa Hiarta þeirra fraa Gude, og temiast aa alla þa Ohæfu, fyrer hvoria hiner voru wt drifner, eda aasamt þeim verda fyrer Guds straungu Hefndar Hende, er allareidu var wtriett til ad hvolfa hinum fulla Mælir Syndanna yfir þeirra eigeñ Hofud. Synir Veralldar þessarar spyria fyrst allra epter Audæfum og Rijkdoome, so sem oll er Von til, þvi hvar þeirra Fiesioodur er, þar er Hiarta þeirra, Matth. 6. Ny maa þo ecke slijkar Guds Gaafur lasta, þegar

þad

þad eru hanns Gaafur; og ecke Braud hinns Voláda, Sveite Daglaunarans, edur Hvs Eckiunnar; enn eg sie þo aptur aa moot, ad Heimuren mun fyrirfarast med øllu þvi sem i hønum er, 1. Joh. 2. Og hvar eru þa þess Not, sem eirn hefur sett fyrir sinn Gud og ædsta Hiartans Traust? Þar er fliott til ad svara: Hann er Gudlaus og Huggunarlaus: Og auk þessa, þoott vier skylldum eptir Mannlegum Plagsid tala, þa jaata eg þad satt ad vera, sem hañ sagdi fordum: Eg vil helldur Mañiñ sem Peninginn brestur, helldur enn Peningeñ þañ er Mañiñ vantar; Þvi hvad skal Audurinñ hinum Arga, edur Bogenn þeim er eigi kann ad nijta hañ? Þad være eins og ad kaupa margar Hørpur handa þeim sem ecki kañ aa Hørpu, eda Bækur fyrir þann sem ecki hefur lært aa Book. Audur er goodur þeim er kañ ad brwka hañ, hinum er hañ eins og rogum Mannelaangt Vopn, enn eingiñ veit þa Kunst, nema sa sem Gudhræddur er, og giørir sier Vine af hinum gamla Raanglætis Mamona, þa er medtaka hann i Eilijfar Tialldbwder, Luc. 16. Og i stuttu Maale ad segia, saa er einasta Auds værdur sem Audenn forsmaaer, ecke þad hann fyrerlijte Guds Gaafur edur kaste þeim aa Glædur, helldur fester ecke Hiarta sitt þar vid, og lætur ecke Mamon drottna yfer sier, helldur drottnar yfer hønum. Og fyrst þessu er so vared, þa er ecke ad slægiast til Audsins, sem aa ad vera Þræletin, helldur til Guds Otta sem aa ad vera HErrann. Adrer eru giefner fyrer Ættum og gøfugu Forelldre, þad er ad sønnu aagiætt, þvi tijdar ber þad vid, ad gooder koma af goodum, og Stoormenne hafa betre Raad til ad ala upp Børn sijn, ef þeir vilia vel, helldur eñ Smælingiar. Þo er allt Holldlegt þad af Holldenu er fædt, Joh. 3. Og aller eigum vier til Adams ad telia, og ecke taka Menn alltijd Dygdernar i Arf. Jeg vil helldur ad Eirn giøre Abrahams Værk, enn ad hann sie Abrahams Sonur; Þvi lijtt gagnar þeim gøfugt Affspreinge, sem meir er til Mijnkunar Ætt sinne, enn hun kynne ad vera hønum til Sooma, og nærst er þad hvørium sem sialfur er hann. Þeir sem þa hafa enn minna Vit, þeir gaangast fyrer Lit, og so ætla eg allmarger binde þad Saattmaal, sem eingenn maa riwfa so ad Skøpum fare, nema Daudeñ. Fagurt Gotz er þad ad sønnu enn nærsta fallvallt, þvi allt Holld er Hey, og allur þess Bloome so sem Geas Akursins: Þegar Guds Ande blæs þar aa, þa visnar þad; Segier Rødd Hroopandans i Eydemørku, Esa. 40. Lijtell Kville, eitt Oforvarandes Tilfelle, Ein Mij-Fluga, sem er hid minnsta Kvikende, kann ad eyda Mannsins Frijdleik og hanns Styrk, so þar er ecke epter af. Dygdenn er Ein, so sem hinn gamle Cicero sagde, sem er med diwpum Rootum nidurfest, hvør alldrei veikiast kann, og alldrei wr Stad ad hræraст; Og ef hann hafde so miked Traust aa Dygdenne, sem þo kunne ecke ad meta hana ødruvijse helldur enn annar Heidinge: Hvad dijrt ætter þu þa, Christeñ Madur, Gudhrædsluna ad kaupa, sem er til allra Hluta Nytsamleg? 1. Tim. 4. Giefed mier þessa, sagde Samson hinn sterke, þvi hun þocknast mijnum Augum, Jud. 14. Þad var diwpvitur Røksemd fyrer Doomarann i Israel! Dalila þocknadest og so hanns Augum, enn hann vard annars var, þegar hun olle þvi, ad hañ blindadur var aa þeim sømu Augum, er komu hønum til ad gyrnast hana, Jud. 16.

Og

Og maa af hanns Dæmelæra, ad so verde aa Svinnum sem Osvinnum; Enn hvornenn sem honum er fared, þa ætla eg ad margur enn nu i Dag gyrnest þad, er hann glæpest aa, og sanna so sijdann Ordskvid Salomonis Konungs, er best visse af slijku ad segia, ad vonnd Kona sie eins og Reikur i Augunum. Epter ollu þessu spyria nu heidnar Þiooder, Matth. 6. og þeir sem eins eru Lynder; Enn hvort nockur elskar Gud, edur ræker sinn Christenndoom, edur hefur JEsum ad Heimbode, þar spyria fæer epter af oss, sem þo laatunst Christner vera; Og eg hefe Ooijda heyrt adspurt i Lande voru, hvort Eirn, sem leitar Konfaangs, Ottast Gud, hvort hann ræke hans Bodord, hvort hann giefe Olmusu nema fyrer Fordilldar Skulld, hvort hann være Riettsynn, Astundunarsamur i sinne Kallan edur eige, hvort hann hefde Sinne edur Hiarta til ad voga nockru Omake edur ödrum Munum uppaa sijna og añarra Velferd, eda hefde adrar Christelegar Dygder til ad bera. Enn hvort hann Rijkur være, kynne vel ad hræsna fyrer Mönnum, kyñe ad koma so Aru sinne fyrer Bord, ad hann giæte aa einhvorn Haatt slopped Mijnkunarlaust fyrer Almwga, kynne vel ad hylia Ulfenn under Saudar-Giærunne, Og, i einu Orde ad segia, Stela, Svijkia, Liwga og Ræna, under Hylmingu Gudræknennar og Hooglætesins, þar hefe eg heyrt nærre þvi med berum Ordum umtalad; Og so er fared Christenndoomenum hiaa allmörgum. Være þa eige betra ad taka JEsum til Raads og Heimbods med sier, sem allt Valld er giefed, bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. hvör ed allt Stundlegt Epterlæte kann yfergnæfannlega ad veita Astvinum sijnum, epter þvi sem hanns Alvitra Raad sier þeim best haga, og ef hann þad ecke veiter, þa veiter hann þad sem er ollu ædra, ollum þeim sem hann Ottast, sem er siaafur hann og hañs Vinaatta, sem alldrei bregdst, þoott Himen og Jord forgaange. Þad var stoor Virding, ad JEsu Mooder og hanns Læresveinar voru ad Veitslu þessare, Enn þad tekur yfer, ad Menn heyra i Evangelio, ad JEsus hafe hier siaalfur vered. Abraham vard gladur vid ad hann saa Dag Mannsins Sonar, Joh. 8. Og þeckte hann þo valla. Eñ hvilijkt er þetta? Ad JEsus Christus Sonur Guds lifanda, Matth. 16. voru Hollde Iklæddur, sannur Gud og sannur Madur, hañ virdest ad prijda Samkomu þessa med siñe Naalægd.

O minn HErra JEsu! Hvad er þo Madureñ þess, ad þu miñest hanns? Eda Mañsins Sonur ad þu vitier hanns? Hinn Riettlaate þess Raanglaata; Hinn Odaudlege þess Daudlega, og Konungur Dijrdarennar Þioons Syndarennar? Eñ allt hefur þu þetta giort, minn HErra, til þess ad kieña Bornum þijnum, hvernenn þau eige ad byria þad Saattmaal, sem þu hefur villiad laata vera Lijking þinnar Guddoomlegrar Elsku, til vor aumra Manna. Ecke er JEsus einasta naalægur þessum Brwdhioonum, helldur eiga allar Christnar Manneskiur þann sama Kost sem honum vilia til sijn biooda: Þott JEsus sie oss ecke naalægur sijnelega, so sem hann var aa Dogum siñar Holldsvistar, þa eiga þo oll Gudhrædd Hiortu Kost aa hanns Naalægd, þvi hann hefur siaalfur lofad, Matth. 28. Ad hann vilie vera hiaa oss allt til Veralldarennar Enda. Ecke hefur hañ þad einasta sagt til Læresveinanna, helldur til allra þeirra sem aa hann trwa mundu, þvi Post-

ulanna Dagar þrutu laungu fyrer Veralldarennar Enda, helldur maa hier um̃ ætla þad
sama, sem DRottenn sagde Fordum til þeirra; Þad eg segie ydur, Þad segie eg øllum,
Marc. 13. Biood JEsu med heitre Bæn til þijns Brwdkaups, Christenn Madur, og
mun̄ hann ad vijsu verda þinn Giestur. Riett-trwad Hiarta þarf eige leinge ad leita ad
JEsu, þad er hanns Kyrkja, 1. Cor. 6. Og mun Drottnarenn ecke tefia ad koma til sijns
Musteris, þegar hann til þess kvaddur er, Mal. 3. Eitt Harmþrwnged og sundurknosad
Hiarta fyrerlijtur hann alldrei, þvi þad er su Foornenn sem hønum lijkar; Ps. 51. Þad
eru þær Vister, er hønum skal fagna med, og hanns Þ.gn skyllda hiaa Mannan̄a Børnum.
Sie þvi JEsus hinn fyrste og sijdarste Giestur til allra vorra Brwdkaupa: Þar sem hann
er, þangad vill Faderenn og H. Ande koma, og Vistarveru hiaa þeim giøra Joh. 14
sem Guds Syne hafa til sijns Brwdkaups boded. Adrer Viner og Giester ysergiefa
oss og kannast valla vid oss epter aa, sierdeilis ef nockud skyllde aa þeim liggia, so ad Vin-
skapurenn er wte, þegar af er Konnunne. Þeir hafa Matar-Ast aa oss, enn øngva adra
flestaller. Enn JEsus ysergiefur alldrei þaa, er hønum treysta. Snarara kann Fad-
erenn ad giefa Synenum Høggorm fyrir Fisk, og Stein fyrir Braud, Luc. 11. helldur
enn Gud kun̄e ad neita þeim um̃ goodar Gaafur, er han̄ med Riett-trwudu Hiarta þar
um̃ bidia. Helldur kann Moodurinn ad gleyma sijnu Barni, Averti sijns Kvidar,
Es. 49. helldur enn JEsus kun̄e þeim ad gleyma, sem hann elska. Og fyrst þesse Giest-
ur er so aagiætur, sem nu er sagt, þa sieu øll Christen̄ Ekta-Hioon alvarlega aamin̄t um,
ad skicka sier so i sijnum Ektaskap, ad þau fæli ecki i burtu fraa sier, so milldann so Giæd-
skurijkann og so Volldugann HErra. Paulus leggur Heilræde hier til, Eph. 5. Seg-
iande: Þier Menn, elsked Egta-Konur ydar, so sem Christur Søfnudenn, og gaf sig siaalf-
ann wt fyrer han̄. Omøgulegt er ad sønnu Daudlegum Mønnum ad vera so fullkomnum
i Elskun̄e hvør vid annan̄, so sem Christur hefur vid oss vered, þo kunna Men̄ ad breita ept-
er hanns Elsku, so miked sem møgulegt er. Mier þyker Lijklegt, ad saa sem tijdt hugsar
til þess, hvørsu kiæra ad JEsus hafde hanns Saalu, þegar hanns Saala vard hrygg
allt i Daudann, Matth. 26. til ad wtvega syndugum Saalum eilijfa Glede, hann mune
skyrrast vid ad hata sitt eiged Holld, Eph. 5. Og afrækia þad sem aa ad vera Ein Saala
med hønum. Enn Gud naade, hvad faaer hugsa hier til! Og hvad Olijkur er sumra
Manna Egtaskapar Underbwningur og Sambwd, Christi Elsku til sinnar Brwdar!
Losta og Laatgiæde taka marger til Raads med sier, þegar so Vegsamlegann Raada-
hag skal byria, Þeinkiandelijted um̃ þad, hvørt þeir giete veitt sier og sijnum ærlega For-
sorgun, Eda hvørt þeir bere Vit og Menningu til ad ala Børn sijn upp i Guds Otta
og goodum Sidum: Allt Of-marger hlaupa samann med litlu meire Ahyggiu, enn
Hestar og Mwlar, og þegar Gyrndenn er slockt um̃ Stundarsaker, þa ysergiefur hvørt
annad, edur lifa i Hioonabandenu eins og Vargar: Frillulifnadur er slijkt, og ecke ær-
legur Ektaskapur, Og þoott þad kallest so fyrer Mønnum, þa er Guds Doomur ødru-
vijse enn Mannanna Doomar. Saa sem lijtur eina Konu til ad gyrnast hana, hann hefur
alla

allareidu drygt Hoor med henne i sijnu Hiarta, segier Lausnarenn, Matth. 5. Þar af rænd eg, ad sa sem ætlar Konu sinne Einlæte (edur Kona sem feigenn villde vera vid Mannenn skilenn) Þau hafa allareidu yfergiefed hvort añad. Saa sem illa med henne lifer, hañ hefur tapad hinum betra Hluta Egtaskaparens, sem er Eining Hiartnaña, og i sundur slitid þad, sem Gud hefur skipad ad eitt skyllde vera, Gen. 2. Christur gaf sitt Lijf i Daudann fyrer sijna Brwde, Eph. 5. Ad sonnu er þad valla heimtande af syndugre Nattturu, ad hun so heitt elske; Þo eru þess morg Dæme annarstadar i Heimenum, ad margur vogar Lijfenu fyrer Kvinnu og Born. Enn hvad giora Menn i þessu Idiulausa Lande? Þad sama sem Salomon segier um Letingiann; Eg vil enn þa sofa lijted, og enn nu dotta nockud, og eñ þa leggia mijnar Hendur samann litla Stund, þangad til Orbyrgdenn kiemur, so sem einn Ferda-Madur, og Skorturenn eins og ein Hetia, Prov. 6. Konurnar hafa og Bodord af St. Paule i þessum sama Capitula, sem eg ædur umgat. Hann segier: Konurnar vere sijnum Monnum undergiefnar, so sem DRottne, þvi ad Madurenn er Konunnar Hofud, so sem Christur Safnadarens. Þar fyrer, so sem Sofnudurenn er undergiefeñ Christo, so eiga og Konurnar ad vera sijnum Monnum undergiefnar i ollu. Med Elsku a slijkt ad vera, Br. M. Enn eige med Ofbellde. Madurenn er ad sonnu Konunnar Hofud og Herra, Gen. 3. Eñ hanns Herradæme a ad vera innefaled i Elsku og ecke Ofrijke. Hofuded sier fyrer Lijkamanum til þess ad honum vel vegne, enn ecke meide sig edur steite. Hiner adrer Limerner wtrietta þad sem Hofuded wilicktar, enn þad a so fyrer ad siaa, ad eige sie til Skada nie Hindrunar. Stioorne Meñ Konum eins og Christur Sofnudenum, hann rædur alldrei nema til Farsælldar, þeim sem vilia laata sier af hanns Anda stioorna. Eñ su Manneskia, sem ecke vill hañs Raadum hlijda, hun kann ecke ad heita hanns Brwdur. So giet eg eige helldur kallad þa Egta-Konu, sem ecke vill fara ad goods Manns Raadum. Ecke helldur þann Egta-Mann, sem illa rædur, ef hann hefur betur Vit a. J Moysis Logum bannade Gud, ad nockur Kallmadur skyllde færa sig i Kvenna Bwning, og ad ein Kona skyllde bwa sig eins og Kallmadur; Þetta er Lijklegast, ad hinn Alvitre Konungur hafe sett til ad halda gooda Skickun medal sijns Foolks, og til ad afstijra Lauslæte og Hneixlissamre Umgeingne millum Karla og Kvenna. Enn þo kynnu Menn þess til ad gieta, ad (a medal añara) være hier med teiknad, ad einn Kallmadur skyllde ecke laata þad Valld, er hann epter Guds Bode hefur yfir Konuñe, og Konann eckert Valld taka sier til, yfir Mannenum. Þvi ein Kona, sem vill raada fyrir Boonda sijnum, hun tekur uppa sig Kallmañs Bwning, og einn Ekta-Madur, er so miog vellteft wr sijnu Boonda-Sæte, ad hann lætur Konuna fyrer sig raada, hann bijr sig Kvenna Bwninge, og ma ei framar Hwsbonde kallast, og er hvorttvegg a þetta ad umhverfa Guds Skickun, þvi hvorttveggia hefur hann bannad, er þad þvi ein Andstygd fyrir honum. Þetta segie eg ecki þessvegna, ad eige sie þad Soomasamlegt hvorium Manni, ad þeckiast holl Raad goodrar Konu. Hefde Pilatus hlydt Konu sinni, þa hefde hann ecki giorst sekur i Bloodi hiñs Riettlaa-

ta, Matth. 27. Aurelianus Keysare gaf þann Vitnisburd Zenobiæ Drottningu, ad med hennar Raadum og Fylge, hefde Odenatus, hennar Hwsboonde, Persana sigrad. Munde þad skada David, ad hann hlijdde Abigael? 1. Sam. 25. Edur Joab Raade Kvinnunnar i Avel-Beth-Macha? 2. Sam. 20. Þvi segier og Salomon, Prov. 14: Ad ein skynsøm Kona bygge Hwsed: So kann og opt til ad bera, ad Kvinnann sie framar Vite, borenn enn Madurenn, og er þa einginn Mijnkun ad fallast aa Raad hennar, enn þar fyrer aa hun ecke ad hefia sig upp yfer Mannenn. Eirn Þienare kann ad skynia margt framar enn hanns Herra, samt er hañ þo ecke Herra. Þad kann og oft ad henda sig, ad eiñ Raadgiafi sie vijsari enn hanns Konungur, samt er hann þo ecki nema Raadgiafi; So er og ein Kona alldrei nema Koña, hvørsu sem hun er vel ad sier uñ alla Hlute; Hun kiemst alldrei hærra enn ad vera Hofud-Prijde Boonda sijns, eins og Salomon talar uñ goodar Konur; Vilie hun meira vera, þa smaanar hun bæde sig og hann, og heiter hun þa Rotnan i hanns Beinum, Prov. 12. Sem er eingenn Æru-Titell. Gud hefur Hlutunum nærsta vijslega hagad; Mannenum hefur hann giefed Afl og Vitsmune, Konunne Fegurd og Blijdlæte; Hvorutvegge eiga so sijnar Gaafur ad brwka ad Gude þockenst. Kallmadurenn aa ad brwka Styrkleika sinn til Erfidis, enn ecke til Osstopa, Vitsmunena til Forsioonar, og ecke Hreckvijsi. Konann Fegurd sijna til ad þocknast Mannenum, þvi þad hefur Gud skapad i Naatturunne, enn eige til Lauslætis, þvi þad hefur Dioflullenn innfært i Heimenn. Blijdleika sinn til ad ævinna Mannsins Giedsmune, enn ecke til ad spijkia hann til vondra Verka, eins og Jessabel, 1. Reg. 21. Eg Itreka enn þa aptur hina fogru Paals Samlijkingu uñ Christum og Sofnudenn, þvi hvorge er Christelegum Egtaskap meire Virding gior, enn i henni; Þoott Sonur Guds lifanda hafe virdt oss þess, ad kalla oss sijna Brwde, þa er hanns Dijrd aungvu ad minne, helldur ollu meire i allra þeirra Hiarta sem hann elska; Hanns Brwdur hefur og alla sijna Æru og Virdingu þar af, ad hun er hanns Brwdur, og elske hann eirn og virde, og þar fyrer utann hefur hun aungva. Konann hefur og aungva Æru þegar hun Ovirder Mannenn. Paall segier, Eph. 5. Ad sa sem elske sijna Egta Konu, hann elske sialfann sig; Og sama er uñ Konuna ad segia, þegar hun Mannenn virder, giorer hun sialfre sier Virdingu, og su þad ecke giorir, hun rijfur Guds Skipan, og setur Skorena upp i Beckenn; Þvilijkt Hioonaband er ecke ollu skickannlegra, helldur enn ef einhvor geinge aa Hofdenu. Salomon segier, ad ein þægeleg Kona sie Mannsins Corona, Prov. 12. Og er þad mest i þvi innefaled, ad hun hlijdenn sie, og giore honum allt til Sooma. Þeir sem nu JEsum vilia hafa med sier ad Heimbode, þeir skulu med slijku Skape gaanga ad eigast, þa mun alltijd vel farnast og alldrei illa, þa mun Christi Ok sætt finnast og hanns Byrde liett, Matth. 21. Ef honum þocknast ad spenna sijn Born fyrer sinn Ploog. Romveriar sem og Gricker hafa nefnt Hioonenn med sama Nafne, sem Akneyte þau er draga eitt Ok. Nautenn vera og þvi so von þegar þau samsveitast, ad eitt hiaalpar odru til, og eitt hegdar sier so i sijnu

Erfide

Erfide vid anngd, ad Ploogurenn kunne sem liettast aafram ad gaanga. Siaaum til, Christner Menn, ad eige sieum vier lakare enn þau Vinnu-Dijrenn, er Gud hefur sett oss yfer, og giefed oss til ad lietta under vort Erfide, med hvoriu vier eigum ad næra oss af Jordunne, þar hann hefur so miklu meira til vor lagt enn þeirra, ad fyrer utann hinn fagra Lijkama, er hann hefur oss giefed, og hina skinsemdarfullu Saal, er honum stioornar, þa hefur hann Endurkeipt oss med sijnu eigenn Bloode, Act. 20. Hofum Raad JEsu Moodur, er hun sagde til Þienaranna; Hvad Hellst Hann Skipar Ydur, Þad Giored. Enn hvor eru þa hanns Raad? Paall segier oss þad, Gal. 6. Eitt bere annars Byrde, og þa munud Þier uppfylla Christi Logmaal: Þad hefur ad sonnu Postulinn ollum sagt, enn ecke sijdst Hioonunum. Þa mun hin Almaattuga Orlætis Hond, er sedur allar lifandi Skiepnur, bæta allann vorn Brest, og snwa ollu Vatni Mootlætinganna i sætt Vijn Gledinnar. Og þegar Verolld þesse hættir ad dryckia oss med Vijni sijns Munadar, og þad tekur til, fyrir Yfirburde Þeckingarinnar DRottins vors JEsu Christi, ad smacka oss illa, þa vier finnum aungva Huggun i Heimenum, og hann dryckiar oss med Galle og Edike eins og vorn Brwdguma, Matth. 27. Þa mun JEsus giefa hid gooda Vijned, þa mun hann drecka oss til af Nægdargiædum sijns Hwss, Ps. 36. Þa mun hann laata oss smacka Sætleik epterkomande Alldar, Hvar ecke er Matur nie Dryckur, helldur Fridur og Fognudur i H. Anda, Rom. 14. Hvors niootande ad verda hier i Naadenne, og sijdann eilijflega i Dijrdenne, oss unne og veite Gud Himneskur Fader, fyrer Forþienustu sijns Eingietins Sonar JEsu Christi, AMEN.

# Þridia Sunnudag epter Þrettanda.

Gudspialled, Matth. 8. Cap.

I Þann Tijma. Og þa ed JEsus gieck ofann af Fiallenu, fylgde honum margt Foolk epter. Og siaa þu, Ad Lijkþraar Madur kom, tilbad hann, og sagde: HErra, Ef þu villt, þa gietur þu mig hreinsad; Og JEsus riette wt Hondena, aahrærde hann og sagde: Eg vil, vertu hreinn; Og jafnsnart vard hanns Lijkþraa hrein. Og JEsus sagde til hanns: Siaa þu til, ad þu segier þad eige neinum, helldur far þu og sijn þig Kiennemonnunum, og offra þeirre Gaafu, er Moyses baud til Vitnisburdar yfer þeim. Enn þa ed JEsus gieck inn i Capernaum, kom til hanns Hundrads Hofdinge nockur, bidiande hann og sagde: Herra! Þioon minn liggur Limafalls siukur heima, og kvelst þwnglega. JEsus sagde til hanns: Eg vil koma og lækna hann. Og Hundrads-Hofdingenn svarade og sagde: Herra! Eg em þess ei verdugur, ad þu gaanger inn under

mitt Þak, Helldur seig þu eitt Ord, og mun minn Pioon Hellbrigdur verda. Þviad eg em Madur Yfervalldenu undergiefenn hafande under mier Striids Foolk, Og nær eg segie þessum: Far, þa fer hann, og ødrum; Kom þu, og hann kiemur, og Þræle mijnum; Giør þetta, og hann giører þad. Enn þa JEsus heirde þetta, undradest hann, og sagde til þeirra er hønum epterfilgdu. Sannlega segie eg ydur: Ad þvilijka Trw hefe eg ecke funded i Israel. Enn eg segie ydur: Þad marger munu koma af Austre og Vestre, og sitta til Bords med Abraham, Isaac og Jacob i Rijke Himnanna, enn Rijkesins Syner munu verda wtrekner i hin Ytstu Myrkur, þar sem vera mun Op og Gnijstran Tannanna. Og JEsus sagde til Hundrads-Høfdingians: Gack þu hiedann, verde þier epter þvi sem þu trwder. Og hanns Pioon vard Heill a þeirre sømu Stundu.

## Exordium.

Valla er nockur sa Vitnisburdur i Heilagre Ritningu, er so Krøptuglega votte, ad Gud og Madur eru Samteingder i eirnre Persoonu DRottens vors JEsu Christi, sem þau Ord, er skrifud standa i Pistlenum til Col. 2. Cap. Þar Postulenn segier: Ad i Christo bwe øll Fylling Guddoomsins Lijkamlega. Næsta bermælltur hefur Paulus vered um Leindardoom Holldtekiunnar vors Frelsara i þessare Maals-Grein, þvi hvar Guddoomsins Fylling byr, þar byr Gud allur, og allur hanns Kraptur, hanns Almætte, hanns Guddoomlega Speke, hanns Riettlæte, og hanns mikla Miskunseme, og allt annad sem Mannleg Hyggia kann ad giøra sier i Lund um Guds Orannsakannlega Veru; Og þar Gud byr lijkamlega, þar byr hann so sem Saalenn i Lijkamanum; Og so sem Saaler vorar eru samteingdar Lijkamanum; So ræd eg af þessum Postulans Ordum, ad Gud hafe samteingdur vered Christi Manndoomlegre Natturu: Og þvilijka Ordshattu maa fleire lesa i Sende-Brefum hinns Heilaga Paals og annarra Guds Manna. Nu þo ad vor Frelsare hafe allmarga Votta sinnar Guddoomlegu Hatignar, og hennar Ibwdar i voru Hollde, þa hefur hann samt enn þa framar viliad styrkia þesse Sanninde um sinn Guddoomlega Krapt, med Taaknum og Stoormerkium, hvør eingenn kunne ad giøra nema Gud, sem alleina Dasemdar Verkenn giører, Ps. 136. Þetta ætte ecki ad minnstu leite ad styrkia Trw vora, Brædur mijner, i Eimda-Dal þessum, þvi hann er Gud sem vort Holld og Blood hefur uppa sig teked. Gud er i Hollde voru freistadur a allann Hatt, lijka so sem vier, þo aan Syndar, Hebr. 5. Gud kann ad sampijnast vorum Eymdum. Gud hefur vora Siwkdooma bored, og vorum Orkumslum a sig hladed, Esa. 53. Gud er pijndur i voru, og þo i sijnu, Hollde; Fyrer vorar, enn ecke sijnar Synder. Gud hefur med sij-

nu

nu eigenn Bloode Christnena Endurleyst, Act. 20. Gud hefur giefed oss sinn Lijkama til Nautnar, og med Bloode sijnu hefur hann dryckiad oss, Joh. 6. Gud hefur i voru Hollde lidid, og i þvi sama er hañ inngeingenn i sijna Dijrd, Luc. 24. og hefur sett sig til Kraptarens Hægre Handar, Hebr. 1. J þessare Trw ætte oss ad styrkia, medal annara, þad heilaga Evangelium, er vier strax heyrdum lesed; J hvoriu vor Blessade Endurlausnare med Tvøfølldu Kraptav, rke auglijste sinn Guddoomlegann Maatt og Vellde; Enn Søkum þess, ad eg fyrer vijst veit, ad þar er eingenn af ydur, sem efar hier um, og eg hefe þennañ Formaala talad, laungtum helldur til Uppvakningar i Þacklætenu vid Guds Sonar Oumrædelega Giædsku, helldur eñ til ad telia nockrum Trw um þaa Hlute, sem aller jaata sana ad vera, og eingenn Tvijmæle leika a i nockurs Manns Hiarta, Þa vilium vier helldur, a þessare haalfre Stundu, Jhuga, hvornenn vier eigum þessar Guds Daasemder og Velgiorninga oss i Nyt ad færa. Og skulum vier þvi alleinasta i þetta Sinn oss fyrer Hendur taka hid Fyrra Kraptaverked, Uṁ Lækning hinns Lijkþraa, og þar af yfervega; 1. Hvad Skadsamlegur og Vidurstyggelegur Siwkdoomur ad sie hin Andlega Lijk-Þraa, SYNDenn. 2. Hvornenn vier eigum af henne heiler ad verda. Enn þu goode Meistare, JEsu! Sem vor Kraunkdæme hefur bored; Tala þu Eitt Ord oss til Lijknar hiaa þijnum himneska Fødur, ad hann sende oss sinn Anda til þessa Verks, og munum vier heilbrygder verda; Bænheyr þad O HErra! Fyrer þitt Dijrmæta Blood og Forþienustu, AMEN.

## Utleggingen.

Hier stendur i Upphafe Gudspiallsens, þegar JEsus var komenn af Fiallenu, hafe til hans komed eirn Lijkþraar Madur. Ollum er oss kunnugt, hvorsu skædur ad er þesse Siwkdoomur, þar hann smijgur i giegnum Ædar og Synar, Holld og Bein, eins og nockurskonar Eitur, og er so ad segia almenneleg Rotnan Lijkamans. Hvar fyrer Aaron sagde Fordum Daga, Num. 12. (er hann bad fyrer Systur þeirra Moysis og sijna, Mariam, þa hun hafde moglad sialf og gint hann til ad mogla a moote Gudi og Moyse, og vard þar fyrer med Lijkþraa sleigiñ): Æ mig, minn Herra, sagde hann: Eg bid, legg ecke a ockur Giolld Syndarennar, med hvorri vid hofum daarlega breitt og syndgad: Eg bid, ad eige verde þesse Lijk Hræe þvi, hvors haalfur Lijkame er uppetenn, þa þad utgeingur af Lijfe siñar Moodur. So banvæn sem nu Lijkþraain er, þa er þo Syndenn haalfu verre; Bæde Saalu og Lijkama hefur heñar Spilling inteked, Eingenn Limur Lijkamans, eingenn Tilhneiging Saalarennar er sw, ad eige strijde i giegn Gude. Augun hlaupa epter sinne Fijsn og Drambsomu Lijferne, 1. Joh. 2. Munnurenn bijr yfer Hoggorma Eitre, Rom. 3. Hendurnar utrietta Menn til ad Ræna og Stela, til ad slaa og deyda. Fæturnir eru skiooter til ad hlaupa hinn breida Veg, sem til Glotunarennar liggur, Matth. 7. Eyrun daufheyrast vid DRottenns Orde, Ps. 58. enn klæa epter nijum Lærdoomum, 2. Tim. 4. epter Roog og Bakmælge, epter Naaungans Ohroodre, og naalega ollu þvi, er Menn vilia þar Illt i bera. Nasernar hitna af Foolsku, þeg-

ar vier siaaum þann, er vier þykiunst eiga nockrar Heipter ad gialda, edur ef einhvör virder þetta faanijta Rik og Ösku nockru minna; helldur enn hennar Mikellæte hlijda þiker, þegar Luckunnar Svipvinde heflir hvirflad henne um Stundarsaker i Lopted upp, til ad blinda þeirra Augu; er oss samfara verda um Eymda Dal þennann, edur mæta oss i hönum; veit þo einær enn þad fellur aptur aa Jordena, hvadann þad kom, og verdur Footum trödd, þegar Vedrenu slotar, sem þo litsu aadur munde vid Skyenn, og fa vijsum Monnum þootte, sem ad fære aa Vængium Vindanna, Ps. 104. nærst Gude, yfer Himen og Haudur. Skynsemenn er aflögud, so þegar Hollded rædur fyrer hana, þa er hun Oomaatta i giegn Gude, Rom. 8. Vilienn er haalfu verre, þvi hann kiepper i moote Andanum, Gal. 5. Og af Hiartanu framkoma illar Huxaner, Agg, Reide, Præta, Mord, Manndraap, Hooraner, Matth. 15. og annad þvi um lijkt. So er þesse vesæla Tialldbwd ecke annad enn eitt Hospital daudsiwkra Lima, sem af Andskotanum og Syndenne eitrader eru. Þad jaatar Esajas, Cap. 1. Þar hann segier; Ad allt Hofuded sie siwkt, allt Hiartad sie veikt, Fraa Hoirfle og allt til Ilia, sieu ecke neina Saar, Kaun, Beniar og Þrote. Adrar Sootter verda flestar med einhvoriu moote læknadar, enn Lijkþraaenn ecke; Hun skilur ecke vid Lijkamann fyrr enn Lijkamenn skilar Saalunne Fwenn i Grofene, er Eydelegging heilbrygdra Lijkama: Hann maa kallast Uppbygging þeirra, sem rotna lifande, þvi sielegre er ein Mölldar-Hrwga, enn Lijkþraa Manneskia. Syndenn er i aungvu betre, Nema midur sie; Hun skilur eige vid oss, Æ so leinge vier berum epter oss þennann daudlega Lijkama, Þvi þoott vier sieum fyrer Guds Almættis Krapt i heilagre Vatns-Laug Endurfædder, Samt grær þo alldrei ad heilu um hid gamla Mein Adams Spillingar, og hid eitrada Höggormsins Bit. Andenn er ad sönnu Reidubwenn, enn Holldet er veikt, Matth. 26. Og þau Tvo berast Bana-Spioot epter, so eins Lijf er annars Daudi; Þoott vier sieum greptrader med Christo fyrer Skijrnena til Daudans, Rom. 6, þa lifer þo Neiste Syndarennar i Molldenne, sem optlega vekur hinn gamla Adam aa Fætur aptur. Þad geingur eins um vorn Eymdar-Hag i þessu Lijfe, eins og Josua skrifar um Israels Sonu, Jos. 23. þa þeir forsoomudu ad wtreka hina Canaanisku epter Guds Bode, ad Gud hafe laated þeim epter nockra af þeim Þioodum, er hann formællte, þeim til Asteitingar, Þad er, þeim til Mootlætis: So er þad og fyrer oss, sem geingner erum yfer um Jordan epter JEsu, Þad er, i giegnum heilaga Vatns-Laug, til ad byggia i þvi fyrerheitna Landenu, sem er Rijke Guds Sonar. Þar verdur þo alltijd nockud epter oss til Asteitingar, hellst af þvi vier erum Toomlaater ad stockva þeim O-Alldar Flocke, sem Gud hatar, Eins og Israel i Canaan; So ad hier um hafa eirnenn Heilager kvartad, og medal annarra St. Paall, Rom. 7. Þar hann segier: Ad hid Vonda lode vid sig, þa hann ville giora hid Gooda. Nu er þann Veg Syndenne vared, Br. M. Og þad maa um hana segia, sem Hannibal sagde Fordum um Romverja og þeirra Borg: Ad bægt munde Ulfum þeim fyrer ad koma, Nema Skoogurenn höggvenn være, er þeir plogudu ad flija i; So verdur og eige helldur Syndenn afmaad,

Fyrr

fyrr enn þetta hennar Hreiſi er niidurbrotid, og er med ſoddann Mooti þeſs Koſtur betri ſem daudur er, helldur enn hinns er ſig kallar ad lifa, allt eins og hinns Lijkþraa. Þad ſijniſt mier St. Paall ſamþycki, þegar hann ſegier: Ad Daudinn ſie ſiñ Abati, og ad hañ gyrniſt ad leyſaſt hiedañ og vera med Chriſto, hvad hann kallar miklu betra, Phil. 1. Enn i þvi maa Lijkþraainn kallaſt Heilbrygdi hiaa Syndinni, ad hun ſkilur vid Manniñ i Daudanum, enn Syndinn fylgir ollum þeim eftir Daudann, ſem ecki verda med JEſu Bloodi afþveignir i þeſſu Lijfi, ſo þeirra Reikur mun uppſtijga uñ alla Eilijfd, Apoc. 14. Þeirra Elldur ecki ſlockna, og þeirra Ormur ecki wtaf deya, Eſ. 66. Lijkþraañ er afſkræmilegur Siwkleiki, hun eydir Mannſins Fegurd, ſo adra heilbrygda Menn ſtuggar þar vid, og þeir fordaſt þeirra Naalægd, jafnvel þeir ſem af Chriſtilegri Medaumkan hræraſt Myſkunar yfir Eymdum þeirra. Þar fyrir baud Gud, Levit. 13. Ad ſoddann Manneſkiur ſkylldu hylia Aſioonur ſijnar. Ecki er Syndinn betri, ef vor Augu væru ſo ſkign, ad vier ſiaa mættum hennar Omynd. Vier hofum Vidbiood aa þeim Lijkþraau, af þvi vier erum ecki allir eins af Gudi plaagadir, enn vor Andleg Iſkiu-Kijli og Graftrar-Mein kyſſum vier Iñbyrdis, og laatum vel yfir þeim, nema þau hafiſt ſo illa, ad Faadæmi ſieu ſlijkra Vanheilinda, og ber þad til þeſs, ad aller vier erum med ſlijku Marki brendir, ſumir meira, ſumir miña, þvi eingiñ er ſaa ed gott giore, og ecki eirn, Pſ. 14. Gud giæfi vier mættum ſkynia, hvad illa ad vorar Skamir lijta wt i hanns Augliti, þar hann, fyrir þeirra Skulld, vill ſnwa vid oſs Bakinu, og ecki Andlitinu: Hvad ſegier Gud hiaa Eſaiam, Cap. 1. uñ Mannanna Guds Þioonuſtu? Laatid af ad Offra Hiegoomlegum Gaafum, Reykelſiñ eru Andſtygd fyrir mier. Og komu ſijdar: Ydar Tunglkomu Haatijder og hin viſſu Helgiholldinn hatar miñ Saala, þær eru mier Mæduſamar, og eg em þreittur ad bera. Sie nu þanninn vort Gudræknis Verk i hanns Augum ſumrahvorra, hvilijkar munu þa vera hinar verſtu Syndir og Glæpir, ſem ad hroopa i Himininn? Vier vorum ad ſonnu ſkaptir eptir Dijrdlegri Guds Mynd, enn Illyrmi Klækia og Laſta hefur uppetid vorn Andlegann Frijdleik, og Holldſwi Syndarinnar hefur ſpillt voru Atgiorfi. Mætti oſs þvi til Hugar koma, ad ſkijla Lijkþraa Aſioonu vorrar, ſem i Guds Augliti er Oſijnordiñ, þar Aſiaana hinns fegurſta aa medal Mannaña Sona, Pſ. 45. Jeſu Chriſti, ſem er Imynd Guds Dijrdarfullrar Perſoonu, Hebr. 1. hun var byrgd, medann hañ var ſleigiñ fyrir vora Skulld, Marc. 14. Hvoria Andſkotinn ſleigid hefur med Andlegum Kaunum. O! hvad Naadugur ertu, Lijknſami Gud, ad þu ſo vægdir ſyndugum Moñum, ad þeir ſem þinn Kroſs aa Herdum bera, voru adgreindir fraa þeim, ſem hid ſama hofdu forþienad, Enn þijna Heilogu Eingla lætur þu ecki vijkia fraa oſs, helldur þioona oſs og aa Hondum bera, jafnvel þegar vier ſem verſt wtlijtum i þijnu Dijrdarfulla Augliti. Þinn Eingietinn Son hefur þu wtrekid fraa Augliti þijnu vor vegna, hann er Madkur og ecki Madur ordinn, Pſ. 22. Hañs Alit var andſtyggilegra enn añarra Maña, Eſ. 53. Þetta var þinn trwi Þioon, ſem var hlijdugur allt til Daudañs, ja, allt til Kroſſens Dauda, Phil. 2.

Phil. 2. Enn til vor wtbreidir þu bádar Hendur allann Daginn, Es. 65. Sem Ohlijugir erum og giorir oss i honum þijn wtvalinn Born, Englunum samlijk, Matth. 22. jaa, samlijka hanns Dijrdarlegum Lijkama, Phil. 3. Lijkþraair Menn hafa illa lyktandi Anda, er og þess oll Von, þvijad allur náatturlegur Vessi Lijkamans er spilltur. Þvilijk er Syndinn, og þo ollu verri, jafnvel þott ad vier finnum þar ecki til, hvoriet Samdauna erum ordnir hennar Ylldu. Paulus talar so um hana i Davids Orda Stad, Rom. 3. Ad þeirra Barki sie ein vijd-opinn Grof. Enn um Grafir framlidenna talar so HErrann, Matth. 23. Ad þær sieu hid innra fullar med daudra Manna Bein og allskins Oþeckt. So er og þeim Manni háttad, er grafid hefur Saalu sijna i syndugum Kroppi, sialfa dauda i Syndunum, og varpad ofann aa hana fwlum Leyt Gyrnda og Lasta, hun aflar vidurstyggilegrar And-Fijlu i Guds Augliti, þeim er laata hana drottna i sijnum daudlegum Lijkama, Rom. 6. Og leifa henni ad elldast þar inni. Hennar Straff brennur allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32. Enn hennar Rema uppstijgur fyrir Guds Háasæti. Er þetta saa Fadmur, sem vier eigum Brwdgumanum ad biooda, þa hann frambrunar af Fijlabeins Hollunni? Ps. 19. Er þad saa Koss, sem vier eigum ad fagna med þeim Vorunum, aa hvoriar Naadinn er wthellt? Ps. 45. Er þetta su Fegurd, sem hann aa ad gaangast fyrir, i hvors Augliti, ad ecki Himnanna Himnar eru hreinir? Job. 15. Og hvad aa þessi Andardráattur skylldt vid Harmþrwngin og sundurknosadann Anda, er Konungur Dijrdarinnar vill ecki fyrirlijta? Ps. 51. Vier bwum oss i Skart, hvor fyrir odrum, og leggium Kapp aa þad, sumir fyrir Háversku Skulld, enn sumir til Lauslætis: Enn fáair hyrda um þad, hvort þeir hreinir sieu i Guds Augum. Vei, vei ydur Skriftlærdum og Phariseis, segir Lausnarinn, Matth. 23. Þier ed hreinsid þad ytra af Kierunum, enn hid innra er fullt af Raani og Ohoof. Þu blindur Pharisæus, hreinsa fyrst hid innra af Bikarnum og Diskenum, so þeirra ytri Partar hreinir verdi. Þessa ættu Guds Born ad giæta, og þvo daglega Kaun Syndanna af Hiarta sijnu med heitri Ydran og JEsu Bloodi, þa væri þess meiri Von, ad vier yrdum ecki so Andramir fyrir Gudi. Og þo margt meigi nu fleira hier um tala, þa vilium vier laata þetta so sagt vera um Skadsemi Syndarinnar, enn Hugleida framveigis, hvorninn vier eigum oss Raada ad leita, so hun ecki kvelie oss i eilijfre Hel-Soott: Hvar fraa Gud vardveiti oll sijn Born i JEsu Nafni, Amen.

Nu fyrst ad þessi Andlega Lijkþraa, Syndinn, er so skadlegur, so hrædilegur, so vidurstyggilegur, og so banvæn Siwkdoomur, sem nu hefi eg sagt, og þier munud allir med mier sanna, og, þad sem yfirtekur, ad hun er so laangvinn, ad hun mun alldreigi yfirgiefa oss, fyrr enn vier hana yfirgiefum, þaa er einsætt ad leita þess Medals, sem alleina vid henni aa, ádur enn vier erum so yfirkomnir, ad ecki er Von til Afturbata. Hvad vilium vier þaa hier til giora? Hvad giordi þessi Lijkþraai Madur? Þegar vor Blessadi Endurlausnari kom ofann af Fiallinu, mætti hann honum og bad: HErra, Ef Þu Villt, Þa Gietur Þu Mig Hreinsad. Hanns Bæn var riettskickud, af því

hann

hann bad um̃ Lijkamans Heilbrigde, þa beidde hann med Fororde. Vier þurfum ecke þannenn ad bidia moote Syndenne, þvi vier eigum fyrer Saalum ad sia, hvoriar hann hefur med sijnu dijrmæta Bloode endurleist, Act. 20. Hvar fyrer skylldum vier med Fororde bidia, þar vier vitum hann vill vier hreiner verdum, og hann hefur svared vid sitt Lijf, ad hann ecke vilie Syndugs Manns Dauda, helldur ad hann snwe sier og life? Ezech. 33. Og þar fyrer er hann i þennann Heim komenn, Ad aller þeir sem aa han̄ trwa, fyrerfarest ecke, helldur hafe eilijft Lijf, Joh. 3. Þesse aume Madur jaatadi sin̄ Veikleika fyrer DRottne. Gior slijkt hid sama, Barn Guds, drag ecke Dulur aa þijn Afbrot fyrer Gude, og fegra e ke þijna Illsku i hanns Auglite. Þeink helldur þad sama, sem David, þegar hann sagde, Ps. 32. Eg jaatade DRottne mijna Misgiörd, og þa fyrergafstu mier þad. Christur hefur algiörla vitad, ad þesse Madur var Lijkþraar, aadur enn hann kallade til hanns; þoott hann ecke hefde vered audkiendur af sijnum Bwninge, þa mun hanns Guddooms Speke ecke sijdur hafa þeckt han̄s Meinlæte, helldur en̄ hen̄ar, sem gieck Bak til vid hann, Luc. 8. Og valla þorde ad snerta Falld hanns Klæda. Laat þier af þessu til Hugar koma, ad honum mune ecke Okun̄ug þijn Andleg Lijkþraa: Enn aa medann þu þeiger, þa er eingenn Von ad hann wtriette Hondena. Holld-Fwenn og Daudenn i Saarunum er ad sonnu liootur Asijndum, enn ecke mun þad lijta betur wt i Læknarans Augum, þoott hann sie strokenn yfer med Purpura-Farfanum. Hugsa til þess, hvad lijted þad gagnade vorum Fyrstu Forelldrum ad skijla sier med Fijkiu-Blodunum, Gen. 3. Þa Naatturann baud þeim, ad þau nakenn være: Minna mun þier þad gagna, ad draga Skij Hyrduleysesins fyrer Skom̃ þiina; Þvi þoott ad bæde Diofullenn og þitt eiged Holld giete svæft þig um̃ Stund, Þa munu þid ecki stijnga Israelis Vaktara Svefn-Þorn; Þviad ecki syfiar hann, Ps. 121. Og hanns Auga sier hvad i Myrkrunum er hulid, Syr. 23. Adam vard feigin̄ ad þiggia Skinn-Kyrtilinn af Gude, Gen. 3. til ad hylia sijna Blygdun med, og ad veria syndugann Lijkama sinn fyrer Kullda og Tijmanlegu Froste. Þu munt og verda ad kaupa eirn nijann Klædnad, af hinum ødrum Adam, 1. Cor. 15. So ad Bligdan þijns Klædleysis ecke opinberest, Apoc. 3. Og ad þu ecke brenner i Eilijfum Ellde. Dyl þvi ecke þijn Afbrot fyrer Gude, Christenn Madur, þa mun hann þau hylia, og lypt Skylunne af þijnum Syndum, so mun hann draga hana fraa sijnu Auglite, þvi aungvann þann sem til hanns kiemur, vill hann fraa sier reka, Joh. 6. Þegar vier vilium ecke siaa edur þeckia vor Lijte, þa sier Gud þau hvad best, þvi vorar heimuglegar Synder setur han̄ fyrer sijnu Auglite, Ps. 90. En̄ þegar vier siaaum, þa sier hann þær ecke, þvi hann hefur heited, ad kasta þeim i Hafsins Diwp, Mich. 7. Og minnast þeirra ecke ad eilijfu. Verum þvi ecke so einfallder sem Fiskurenn, hvor ad vænter sier einskis Voda, þegar hann hefur Hofuded faled, þvi þoott vier stijngum vor Augu wt, nær oss ofbiooda vorer Klæker, þoott vier villdum segia Fiollunum, hilied oss, og Haalsunum hrinied yfer oss, Apoc. 6. Þaa skorter Gud ecke Beinskeyte til ad ram̃a vorn Syndugann Kropp, þegar hann hefur spannad sin̄ Boga,

Ps. 7. Þvi aller Hluter eru berer og nakter fyrer hanns Augum, Hebr. 4. Þegar hinn Lijkþraae beidde, þa dvaldest þad eige leinge fyrer, ad JEsus bænheyrde hann, riette wt Hondena og sagde: Eg Vil Vertu Hreirn. Þad var goods Þocka Merke hiaa Persa Konunge, ad rietta ad einhvorium sinn Velldis-Sprota, hvad lesa maa um Esther Drottningu, þegar hun gieck fyrer Konungenn Assverum, Esth. 5. Hvor er þijn Velldis-Spijra, þu Konungur Dijrdarennar? Þad er þijn Almættis Hond, sem allt verkar, J hvoria Faderenn hefur allt Valld giefed, bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. Af hvorre eingenn kann ad grijpa Saude þijna, Joh. 10. Hun er eige stutt ordenn, ad hun kunne ecke ad hiaalpa, Es. 59. Hun er eige apturlokud, þad hun vilie eige miskuna; hun er eige Aflvana, so hun megne eige ad frelsa; Þad er Guds sterka Hond, og wtriettur Armleggur, Devt. 4. Þad er Hond Guds, J hvorre ad eru Fylsine Jardar; og Styrkleike Fiallanna, Ps. 95. J hvorre aller Heilager eru, Devt. 33. Jaa, J hvorre ad er oll Lifande Saal, og allra Manna Ande, Job. 12. Þegar Syndarenn stijngur Hendenne i sinn eigenn Barm, og dregur hana wt aptur hvijta af Lijkþraa, eins og Moyses, Exod. 4. Mun hann þa þora ad drepa Hende sinne aa Odd hinns Almaattuga Velldis-Sprota, eins og Esther? Fiærre sie þvi, ad nockur bere minna Traust til ad mæla vid Fodur Myskunsemdanna, enn hun hafde aa Konunge hinum mikellaata. Hann hafde hana ad Herfaange teked, Esth. 2. Enn JEsus hefur oss af Herleidingunne wt þrifed. Hann kvadst fus ad skipta med henne Konungs-Rijkenu, Esth. 5. Þad kunne hann ecke morgum ad biooda, nema hann giæfe upp sialfur Tignar-Nafned. Enn JEsus hefur ollum segia laated, sem hann elska: Komed blessader Born mijns Fodurs, og eignest þad Rijke sem ydur er fyrerbwed fraa Upphafe Veralldar, Matth. 25. Og er þo sialfur Konungur ad Eilijfu, Og hanns Rijkis-Stooll varer um Alldur og Æfe. Ps. 2. Hann hefur ad fyrra Bragde riett oss sijna Hond, þa hann Trwlofade oss sier i Naad og Myskunseme, Os. 2. Riettum honum aptur vorar Trwar-Hendur, og trwlofunst honum i Elsku og Undirgiefne. Hann riettir ad oss sinn og vorn Trygda-Pant, sem er Heilagur Ande, Pantur Arfleifdar vorrar, Eph. 1. hvorn hann hefur sendt oss af sijnum Fodur. Drepum ecke Hendenne vid þvilijkre Sæmd, og mootstondum ecke Heilogum Anda, so eige verde Guds Rijke fraa oss teked, og odrum giefed, Matth. 21. Eg Vil, Vertu Hreirn, sagde JEsus. Enn hvad segier Gud vid oss? Es. 1. Þvoed ydur, Hreinsed ydur, Taked ydar illa breitne fraa Auglite mijnu, Komum sijdann og eigunst Log vid! þoott ydar Synder sieu raudur sem Blood, skulu þær verda hvijtar sem Snioor, Og þoott þær sieu raudar sem Purpure, skulu þær Ullhvijtar verda. Hvor sem sialfur vel vill, hann þarf ecke ad efast um Guds Vilia. Gud gaf sinn Son i Daudann til þess vier kynnum ad hreinsast, Þvi skyllde hann þa ecki vilia oss hreina? Þar hann er allareidu wtgiefinn. Þad velldur einasta vorum Saurindum, ad vier vilium ecki hreinir vera, Þykir helldur vænt um, ad vellta oss i Endemi Syndanna, og gleymum þvi aa medann, ad i hina Himnesku Jerusalem maa eckert Saurugt inn koma, Apoc. 21.

Hier

Hier stendur i Evangelio; Ad JEsus Gieck Ofann Af Fiallenu. Hvad munde vor Herra þar ad hafast? Hann talade fyrer Foolkenu þa ægiætu Predikun, sem skrifud er hiaa Matth. 5. 6. 7. C. J hvorre medal annara ad standa þesse blessudu og Huggunarfullu Ord; Bidied, og mun ydur giefast, Leited, og munud þier finna; Knijed aa, og mun fyrer ydur upploked verda. Þvi hvor sem ad bidur, hann mun medtaka, og hvor sem leitar mun finna: Er þar nockur Madur af ydur, ef Sonurenn bidur hann um̃ Braud, ad hann giefe honum Stein? Ellegar ef hann bidur um̃ Fisk, ad hann riette ad honum Hoggorm? Þar fyrer, ef þier sem vonder erud, kunned ad giefa goodar Gææfur Bornum ydar; Hvar fyrer mun ecke minn Himneske Fader giefa þeim Gott, sem hann þar um̃ bidia? Nu fyrst ad Sannleiksins Munnur hefur þannenn talad, þvi skyllde eg efast um̃, ad hann vilie mig Lijkþraann hreinsa, Fallenn reisa, villtann Leidrietta, og Harmþrwngeñ og Sundurknosadann endurnæra? Enn epter þvi eg sie ad JEsus, þegar hann gieck ofañ af Fiallenu, þa stadfeste hann allt þad hann sagt hafde, med þessum Tveimur Dijrmætu Kraptaverkum; So veit eg ad Skylldann bijdur mier, sem er hinn vesælaste Ormur, ef skrijdur aa hanns Footskor, ad sanna mijna Vidurkienningu; med alvarlegre Vidleitne þeirra Verka og Athafna, er hann hefur skipad ad dyrka sig med; Sierdeilis þar eg heyre hann segier i þessare somu Predikun; ad þeir mune ecke aller, sem til sijn segie: Herra, Herra, Inngaanga i Guds Rijke, Matth. 7. Helldur þeir, sem giøre Vilia sijns Fodurs, þess sem aa Himnum er. Þvi so sem eirn goodur Lækner nægist ecke þar med, ad giora hinn Siwka heilbrigdann, helldur tekur honum Vara fyrer þeim Hlutum sem hañs Heilsu kunna framveigis ad skada, Sierdeilis þeim, af hvorium hann veit, ad hañ hefur haft sijn Vanheilinde, so ad ecke falle hann aptur i somu Soott; So Giædskurijkur þikest eg vita ad minn Heilsugiafare er, ad hann alvarlega vill, ad eg fordest alla þa Olifnan, sem hann veit ad mijna Saalu kreinkt hefur, so ad ecke verde mitt hid Sijdara argara hinu Fyrra, 2. Pet. 2. Þad kienner mier hanns Lijknarfulla Tilhlutan, þa hann frelsade Hoor-Konuna fraa Afellis Doomenum, og sagde: Kona, hefur nockur fordæmt þig? Enn hun kvad Ney vid; og hann aaliktade med þessum Ordum; So fordæme eg þig eige helldur, gack hiedann og syndga ecke framar, Joh. 8.

DRottenn segier til þessa Lijkþraa Manns: Far Og Syn Þig Kiennemonnunum, Offra Þijna Gaafu Þa Er Moyses Hefur Boded Til Vitnisburdar Yfer Þeim. J Levit. Bookar 14. Cap. stendur, Ad þeir sem hreinsader voru af Lijkþraa, skylldu offra Tveimur Fuglum, hvorra annar aatte ad slaatrast, enn hinn dijfast i Blood þess slaatrada og sijdann laus giefast og burtu fliwga. Þetta minner mig aa ad þeinkia þar um̃, ad Guds Eingietinn Sonur er minna vegna fyrer utann alla Verdskulldan slaatradur, og aa Krossens Altare foornfærdur, Gude til eins Sætleiks Ilms, Eph. 5. Enn mier er dijft i hanns Blood, og þar fyrer em eg laus giefenn, sem hann lijflaated hefe, og i burtu flogenn; samt veit eg þo mijna Skylldu, ad eg ad nockru Leite skal skijrast þeirre Skijrn, sem hann skijrst hefur, Matth. 20. Þad er, ad minn gamle Madur aa med honum ad Krossfestast,

Rom. 6. aadur enn Sāla mijn fær uppflogeð til Himna, og inngeingeð i hanns Dijrð, a Land Lifande Manna, Ps. 116. Hoort ad koma, og þar eilijflega með hönum ad fagna, Bæde mier og öllum Guds Börnum, Veite og giefe Myskunsamur og goodur Gud, Fyrer Forþienustu sijns Eingietens Sonar, og Naad Heilags Anda, AMEN.

# Fioorda Sunnudag epter Prettanda.

Gudspialled, Matth. 8. Cap.

OG er JEsus stie aa Skip, Fylgdu hans Lærefveinar hönum epter. Og sia þu, Ad mikell Okyrrleike giördest i Sioon-um, So ad Skiped laa under Aföllum; En han̄ svaf. Og hans Lærefveinar geingu til hans, voktu han̄ upp, Og sögdu: HErra, Hiaalpa þu oss, Vier Forgaungum. En̄ JEsus sagde til þeirra: Hvad hrædist þier, Lijtiltrwader? Þa reys hann upp, hastade aa Vindinn og Siooen̄, og þar vard Logn mikeð. En̄ Menniruer undrudust, og sögdu: Hvilijkur er þesse? Þviad Vindur og Sioor hlijda hönum.

## Exordium.

HInn Ogudlege Heimur þesse, hvors Hofdinge ad Satan nefnest, Joh. 14. hann synest miog so vel kunna ad samlijkiast vid Hafed. Sioorenn er ein Ostödug Hofud-Skiepna: Þegar hann er sem Blijdastur, veit ecke fyrre til, aa Stundum, enn hann um̄hverfest nærre i Augnablike og rijs Fiöllunum hærra. So er og eckert i Heimenum stadfast; þegar hann fladrar uppaa nockurn, eins og Þioofgiefenn Hundur, þa er Guds Börnum af hönum Skadenn vijs, og jafnvel hans eigenn Börnum optlega. Þoott ad Satan og hanns Vinir hate Gud mest, og þaa, sem eitt eru med hönum, þa er hann þo i siaalfum sier sundurþyckur: Ecke Elskast hanns Þioonustu Menn leinge Inn̄byrdis þegar þar er ad kieppa um̄ þad, sem þeir hafa giört sier ad Gudum. So sem Christi Þienarar eru vidkvæmer, nær þeirra Hofud er meidt, so er og Diofullenn i sinne Kynslood. Þegar Laban vantade sijn Skwrgod, þa rann hann jafnskioott epter Jacob, Gen. 31. þoott hann være hanns Maagur; Og so er Heimur þesse Innbyrdis, þegar hann maa siaa aa Bak einhvors þess, sem Drambsemenn og Fijsn Augnanna hafa fest sinn Trwnad aa, Þa rijfur hann Vinskapenn, jafnvel vid þaa sem hann liest hafa hvad kiærasta. Joab er ecke leinge Vinur Amasæ, 2. Sam. 20. þegar hann Ottast hann mune tapa nockru af Virdingu sinne, eige helldur ræker Absalon Brooderned vid Am̄on, 2. Sam. 23. þegar Heiptræknenn blæs hann upp. Midt aa medal þessarar hreckvijsu Kynsloodar, verdur hinn litle Hoopur Christi ad bwa, og mæta adskiljannlegum Araasum og Hneixlunum; So ad i Villu mættu leidast, ef skie kynne,

nne, jafnvel Utvallder, Matth. 24. So sem Noe og hanns Hyske var i hinne Vantrwudu Verølld, Gen. 6. So sem Loth var i Sodoma, Gen. 19. Abraham i Gerar, Gen. 20. Israel i Egypta-Lande og Chaldea, Exod. 1. So eru og Guds Vinir i Orølld þessare. Hvad er hier til Raads, Bradur mijner, so vel fare, og Menn sieu visser um, ad þeir eige lijde Skipbrot aa Saalu sinne? Eitt veit eg, sem alldrei skal bregdast, þad kienner DRottenn oss hier Matth. 7. (þegar hann aadur hafde teked sijnum Læresveinum Vara fyrer Fals Spaamønnum) Segiande: Hvor sem heyrer þesse mijn Ord, og giører epter þeim, hønum vil eg lijkia vid eirn Forsiaalann Mann, þann er bygde Hws sitt aa Biarge, enn þar giørdest Regn og Vatns-Floodenn komu, og Vindarner bliesu og fiellu yfer þad Hws; Enn þad datt ecke, Þvi þad var aa Biarge bygt. Þetta Biarg er DRottenn JEsus; Þad er saa Hyrningar-Steirnenn i Zion, Esa. 28. sem Gud hefur bygt sijna Christne aa; Hvør sem yfer hann byggdur er, hann mun alldrei Kollsteipast, helldur stødugur blijfa. Læresveinar DRottenns tooku til ad veikiast i Trwnne þegar hann svaf, enn Vedred took ad hefia Siooenn, so þeim laa vid ad Forgaanga: Þa tooku þeir þad til Raads, ad þeir vøktu hann, og gaafu hønum til Vitundar Neyd sijna. Christne Guds er lijk einu Skipe, sem velltest i Olgu Sioo Veralldar þessarar; Hun hefur Christum jafnann innann Bords. Tøkum þvi sama Raad og Læresveinarner hier tooku, þegar Sioorenn, þad eru Araaser, Fiandskapur, Illkvittne, Hneixlaner, Lastmæle og allskonar Ohlutvendne þessarar vondu Veralldar, tekur til ad gaanga aa þetta DRottenns Skip; hvørs aller þeir hafa sier ad vænta, sem hiaa hønum hafa Farteked, so þeir meiga finna til þess, er Paulus um sig talar; Ad þar sie Baraatta hid Ytra, enn Strijd hid Innra, 2. Cor. 7. Vil eg þvi af þessu H. Evangelio og Dæme Læresveinanna tala alleina um þaa Hlute, sem eiga ad giøra oss Fulltrwa um hanns Adstod i øllum vorum Naudsynium.

Hiaalpa oss hier til Naaduge Gud og Fader med Krapte þijns Anda, Fyrer Sonarens Forþienustu, AMEN.

## Utleggingenn.

Hess maa allvijda giæta i Æfe-Søgu DRottenns vors, ad þegar hann hafde einhvøria merkelega Predikun flutt, þa stadfeste hann Kienninguna med einhvøriu Krapta-Verke. So giørde hann þegar hann gieck ofann af Fiallenu, hvar hann hafde talad Eyrinde Rijkesins fyrir Foolkenu, Matth. 5. og hann læknade hinn Lijkþraa. So giørde hann og hier, þar hann allann Dagenn hafde kient Foolkenu med þeim fogru Epterlijkingum (er skrifadar standa Matth. 13.) um Illgresed, um Mustarðs Korned, um Swrdeiged, um Perluna og um Fiesioodenn, og adrar fleire. Enn strax aa epter fylgde þetta Dijrdlega Kraptaverk, er Gudspialled umgietur, Marc. 4. Nu var þad ecki alleina giørt fyrir Lærisveinana, Br. M. helldur hefur og Guds Andi þvilijkt Stormerki uppteiknad laatid oss til Lærdooms, ad vier, sem høfum tekid vid Trwnni aa DRottinn JEsum, og erum i hanns Nafni skijrdir, vier skulum læra ad treysta hønum

i ollum vorum Naudsynium. Þesse var nu Adferd DRottinns, bæde aa hanns Hier-vistar Dögum, so og strax epter hanns Himnafor, leingi fram epter Æfe Christnennar. Þvi skrifar Marcus, Cap. 16. um Postulana, ad þeir hafe ūtgēnged wt, predikande all-stadar, ad DRottne samverkanda og Ordid styrkanda, med eptirfylgiande Teikn-um. Enn þvi var misjafnt teked af Heimenum, so sem auglioost er af Giorninga Bo-ok Postulanna. Þetta Dijrdlega Krapta-Verk skiede i Naavist hañs Elskulegra Lære-sveina. Matthæus skrifar, Cap. 13. ad margt Foolk hafe safnast ad honum, so hann Blessadur vard ad stijga aa Skip fyrer Mann-Þraungenne, eñ Foolked sat i Fiorune og heyrde aa. Flester munu þeir hafa vered i þessum mikla Hoop, sem meir hefur fijst ad heyra Maal-Snille hañs, helldur enn ad skilia edur geyma Krapt Ordaña; Þad ræd eg af þvi, ad eingenn spurde hann epter Meiningu Epterlijkinganna, nema hanns Læresveinar, hvad honum, aan Efa, mislijkad hefur, sem Von var, þvi sagde hann vid þaa; Ydur er unnt ad vita Leyndardoom Himnarijkis, Enn þeim er þad ecke gīefed, Matth. 13. So er og Kyrkiu-Gaunga vor aa Stundum. Aller flyckiast til ad heyra eins Manns Predik-un, sem talar sniallt, enn Rootfesta þo ecke meir i Hiartanu þann heimuglega Krapt, sem bijr i Ordenu, helldur enn þoott eirn Dvite talade, so þeir fære Avoxt þar af, og giorest sanner Christi Læresveinar. DRottenn giorde þetta mikla Krapta-Verk fyrer so faaum, af þvi þar voru so faaer sem gaafu mikenn Gaum ad Predikunenne; Hann talade fyrer Mwga Manns af Skipenu, so aller heyra maattu og skilia Guds Veg; Hefde þeim vered um þad hugad, og þad skiede nærre Lande; Enn Kraptaverked giorde hann og i Skipenu, midt aa Sioonum, þar faaer voru hiaa honum Iñanbords, og ecke nema þeir, sem lögdu uppaa Hiartad, þad hann talad hafde. Þar fyrer, Barn Guds, Vilier þu vera fullviss um Adstod Guds i Sioo-Roote Veralldar þessarar, Þa siaa til fyrst, ad þu siert Christi sannur Læresveirn. Heyr hanns Ord, og laat þier vænt um þad þykia, ecke einasta um Stundarsaker, helldur geym þad i Hiartanu: Stunda eptir ad faa þess riettann Skiln-ing, laga þinn Lifnad þar epter, fær þar af Avoxt i Polennmæde, Luc. 8. So þegar And-Vidre Hormunganna mæter þier, ad þu siert þa viss um, ad þu hafer Guds Son innann Skipsborda, þa maattu vera þess fullöruggur, ad DRottenn er ollum þeim naalægur, sem hann aakalla, Ps. 145. Þad er hid hellsta aa einu Skipe, ad þvi sie vel stijrt, sier-deilis i Olgu-Sioonum. Lijkamer vorer eru Skip Saalarennar, hvoriu hun stioorna-aa, so hun naae Hofnenne um sijder aa Lande Lifande Manña, Ps. 116. A hinu fyrerheit-na Landenu. Gief honum ecke ofmikenn Taum, þrælka hann eins og St. Paall, Rett Holdded ad sonnu, enn þo ecke so ad þu leyfer þvi sijnar Gyrnder ad rækia, Rom. 13. Laat ecke Saalu þinne verda þad sem Palinuro vard, þegar hann sofnade vid Stijred, þa datt hann wtbyrdis. Eins kann Saalu þinne ad verda, utann þu vaker og bidier, so þu faller ecke i Freistne, Matth. 26. Og ef hun kann ad sofna, sem optlega skiedur, Þa siaa til, ad þu hafer JEsum i Skutnum, ad hann veki þig, nær hann sier þu ætlar ad forgaanga. Saala þijn sefur opt þo Lijkamans Augu vake. DRottenn sofnade epter Maattu-

legum

legum Hætti, þvi hann var ad allri Hegdan fundinn so sem Madur, Phil. 2. So hann kynni ad sampijnast þijnum Eymdum, Hebr. 5. Samt vakti hanns Guddoomur, þvi hann er Israels Vaktari, hvor ed ecki sefur og ecki sifiar hann, Ps. 121. Og þar hañ nu i voru Holldi situr til Kraftarins hægri Handar, Marc. 16. Þa hefur hañ vakandi Auga yfir sinne Christne, Hvoria hann Endurkeypt hefur med sijnu eiginn Bloode, Act. 20. Jaa, aa ollum hennar Limum, sem hann þeckir fyrir sijna Lærisveina; Bid þvi med Skaalldenu: Vak þu minn JEsu, vak i mier, Vaka laat þu mig eins i þier, Saalin vaki þa sofnar Lijf, sie hun ætijd i þiñi Hlijf. Þegar þu so giørir, og þad af Hiarta; og stundar eftir ad hallda þier vakandi i hañs Þioonustu; og lætur ecki Satan dilla þier aa Kodda Syndanna, þa maattu vera fulltrwa þar uñ, ad Svefn-Læti Veralldarennar skulu alldrei æra þig, þoott hun velltist uñ, og berie Hæl og Hnacka. Diøfullinn, sem er hennar Høfdingi, skal alldrei reisa so mikla Olgu i henni, ad þier sie hætt vid ad forgaanga; Þad kienna mier hanns Fyrirheit, er sagt hefur: Otteſt ecki, eg hefi Heiminn sigrad, Joh. 16. Þad seigia mier hanns Ord, er sagdi: Høfdingi þessa Heims er dæmdur, og med mig hefur hann eckert, Joh. 14. Hafi hañ eckert med hañ, so hefur hañ ecki helldur med þa sem i honum eru, og hann i þeim, þeir sem eru Limir hanns Lijkama, og hvad meira er, ad þeir eru ordnir eirn Andi med honum. Þvi segir Johannes, 1. Pist. 5. Hvad sem af Gudi er fædt, þad yfirvinnur Heimiñ. Hvad vill saa Ottast, sem hefur soddañ eirn Fodur? Unglingum setia Menn Fiaarhallds-Menn, og þykist saa goodu bættur, sem ødlast þann einhvorn sem er Fullvedia, og lijklegur til ad giøra honum Riett, og forsvara hann fyrir Raangsleitni Oraadvandra Maña, jafnvel þo þad gaangi misjafnt til medal vor Mannanna; Samt laata allir ærleigir Menn sier vera uñ þad hugad: enn hvernig sem þvi er varid, þa eru allir, þeir ed Gud Ottast, hañs Omagar, og er þeim miklu betur raadstafad, helldur enn hinum vollduguſtu Heimsins Giædingum og Villdar-Moñum. Segied mier: Hvad skal eins Mañs Fulltrwi hafa til ad bera, nema Maattinn og Viliann? Uñ hvørugt kuñum vier ad efast hiaa Gudi. Maattinn siaaum vier i þessa Dags Evangelio, þoott ecki væri añad til, sem þo fleira og stærra er, enn ad allar Eingla og Manna Tungur faae þad uñ allar Alldir upptalid. Hann Hastadi aa Vindinn Og Siooinn, Og Þa Vard Strax Logn Mikid, so þeir søgdu: Hvilijkur er þessi, Ad Vindur Og Sioor hlijda honum? Einginn Hlutur er Gudi Omøgulegri eñ annar, Luc. 1. Þad kostar hann ecki meira ad steypa allri Verølldinni uñ Koll, enn ad deyda eiñ Titling; hañ hefur alldrei haft mikid fyrir neinu i allri siñi Rijkis-Stioornan, nema þvi, ad leysa Syndarann wr Helvijti, og þo giørdi vorum Frelsara Elskañ til sijns Ovinar þetta Ok so sætt, ad hann laangadi til ad drecka þann Kaleik, er hañs Fadir skeinkti honum, Luc. 22. og aktadi ecki Forsmaanina, segier Postulinn. Gud giæfi ad Elskann til hañs kyñi ad giøra oss hañs Byrdi so lietta. Og þar ed øll Guds Skiepna er so eckert i hañs Hendi, þa maa eg fulltreysta, ad hañ sem eigi þurfti ad tala nema eitt Ord til hiñs brwsanda Hafs, honum muni eigi vera uñ Megn, ad vardveita mig hiñ vesæl-

asta Orm sem liggur a hanns Footskør, i Ólgu Heims þessa. Hann talar til Siafar-Hafsins: Hijngad skalltu komast og ecki lengra, hier skulu þijnar stolltu Bylgiur leggia sig, Job. 38. Þvi mun honum veita hægt ad drepa Offann i hinum Reambata, so þar verdi Logn mikid, edur og ad sla honum Hogg vid Eyra, Ps. 3. so hañs Stadur fiñist ecki meir, ef honum so lijkar. So mikils Mattar er nu þessi stoori Konungur Himins og Jardar, hvor vill þrijsa mig af hanns Hendi? Joh. 10. Kann nockud Ørinn ad giora, nema henni sie beitt, eda Soginn ad rotrietta, nema henni sie stijrt? eins mikid kunna Meñirnir mier ad giora, nema Gud leisi þeim; þvi vil eg segia med David, nær Heimurinn hatar mig: DRottinn er mitt Lioos og mijn Heill, fyrir hvorium skal eg Ottast? DRottinn er Verndari mijns Lijfs, hvorn skal eg hræðast? Ps. 27. Enn þad hañ leisir, skal mier kiærkomid vera, hañ agar mig þvi hañ elskar mig, Hebr. 12. Hañ typtar mig þvi hann vill leidrietta mig, hann særir mig þvi hañ vill græda mig, Os. 6. Og er þad Vaaraskapur fyrir mig, sem lætst avijta Vin miñ, ef honum yfirsiest, sem strijkir Barn mitt, nær þad giörir þad sem eigi byriar, sem læt skiera og brenna eitt Saar a mijnum Astmanni, so hann heill verdi, ad eg skuli ecki taka hinu sama af Hendi Drottens. Þar fyrir skal eg eigi helldur efast um Viliann, þad læri eg og af þessu Gudspialli. Lærisveinarnir voktu DRottinn, og þad med Umkvortun nockurri, og Mistraust a hanns Almætti. Þvi Marcus skrifar, Cap. 4. (Er hañ segier fra þessu mikla Kraftaverki), ad þeir hafi sagt: Meistari, þu hyrdir ecki um þad, ad vier forgaungum. Hvad var þetta ad seigia vid hann, hvors Almætti þeir vel mattu þeckia, hvor ed so mørg Kraftaverk hafdi giört þeim asiaandi? Samt vard hann fliootari til ad hiaalpa þeim, og ad hasta a Vindinn og Siooinn, helldur enn til ad atelia þa fyrir þessa Efasemi og Trwarleysu. Þetta hendir oss oftlega, nær vier bijdum eftir DRottni a Þurrlendinu, sem David seigir, Ps. 63. Vier meinum hañ sofi þott vier vitum ad hañ sofie ecki, vier kollum ad hanns Hond sie stutt ordinn, þo oss sie alkuñugt af Guds Ordi ad hun ecki einasta kallast hin sterka Hond DRottinns, og votriettur Armleggur med miklum Undrum, Devt. 4. Helldur og hin millda Hond DRottiñs, sem giefur ad vier samañsøfnum, og þa hañ upplijkur heñi, sedionst vier af Giædum, Ps. 145. Og þott vier sieum nu so Tvijlraadir og Efasamir, eigi ad sijdur er hann oss hvad nærstur, þegar vier ætlum hann fiarlægann vera. Þegar Joseph liet sem hann ætladi ad taka Beniamin i Vardhalld, þa gat hann valla Taarum halldid; þegar hañ Ottadi Brædrum sijnum med sinni Reidi, þa fieck hann þo ecki leynt sier fyrir þeim, Gen. 45. Ætlum ecki ad Fadir Myskunsemdanna muni sijdur Naadugur vera edur kieña i Briosti um sijn Børn, þott hann typti þau þeim til Gooda, þvi hann straffar, enn ecki af Hiarta, Thren. 3. Hann burtrekur, enn ecki eilijflega. Hætt er þvi, alldrei steipir DRottiñ nockrum þeim, sem hinn allra miñsta Trwar-Neysta geimir i Hiarta sijnu, so diwpt nidur i Afgruñ Hortmungaña, ad þeir alldeilis orvænti sier Naadar hanns, jafnvel þott þeir sieu a Stundum laangt leiddir, þvi lijtilloggndi Hør-Kveik mun hann ecki wtslockva, Es. 42. Gud

straffar

straffade Synder vorar um skamt med Daaran nockurre; þar epter vitiade hann vor med Lands-Plaagu, hvor ed took fraa oss vora Kiærustu Astvine, og hid besta Foolk; munde oss þa ecke þikia horfa til Vandræda? Hvilijk Audn var þa i Landenu, so ad þeir sem Hrilldlega voru sinnader, tooku til ad efast um, ad vier mundum hier leinge Bygdum hallda. Enn hvorsu hefur hin millda Hønd DRottens sijdann Coronad Ared? Hvorsu hafa hanns Footspor af Feite droped? Ps. 65. Med þvilijkre Argiæsku hefur hann blessad oss, so ad vier ecke einasta hofum aungvann Skortlided, helldur flester bwed vid betre Kost enn nockurn Tijma adur. Er ecke þetta sijnelegt Almættis og Giædsku Merki DRottins? Hvort skylldum vier leita i Hørmungenne, nema til hanns, sem so Vijs, so Maattugur og Giædskurijkur er? Eg vil taka mier Orsøk af þessu Dijrdlega Kraptaverke, til ad tala nockud vid ydur, sem um Sioenn fared, og leited Næringar ydar i Hafsins Dimpe. Hvorsu opt hefur hinn Goode Gud vardveitt ydur i Lijfs-Haaskanum? Hvad tijtt hafed þier maatt segia med David, Ps. 18. Hann sende wt af Hædenne og sookte mig og droo mig upp wr miklum Votnum. DRottenn hefur optlega giort Furduverk aa ydur, þegar Daudans-Bønd hafa umkrijngt ydur, Ps. 18. og þier meintud þier ætludud ad forgaanga, þa hefur hann þo rickt ydur upp wr Daudans-Porte, Ps. 9. og frelsad ydar Saaler ur Heliu. Þar er eige laangt aa ad minnast: Vier lifum enn nu, sem eige erum miog til Ara komner, og munum þad, ad DRottenn hefur aa sama Deige kollvarpad sumum, enn suma hefur hann vardveitt Undrunarlega og Olijklega fyrer Manna Sioonum, og þetta optar enn Einusinne; ecke þar fyrer, ad þeir sem tijnduzt, hafe syndugre vered, enn hiner sem afkomust, meir enn þeir sem Turnenn fiell yfir i Siloa, edur þeir sem Pilatus slaatrade i Galilæa voru sekare enn adrer, Luc. 13. Helldur til ad sijna Riettlæte sitt aa þeim er hann burt took, oss sem lifum til Epterdæmis og vorum Epterkomendum, enn Naad sijna aa hinum er hann sparade, so hann med baadum Hondum leidde oss þverbrotnar Manneskiur til Ydranar, ad eige søfnum vier oss Reide aa Dag Reidennar, og Guds Riettlætis Dooms, Rom. 2. Enn Gud naade hvorn Avoxt þad færer! Eg giet ecke þvi hroosad, ad aller þeir ed voga Lijfe sijnu wt aa Sioenn, take JEsum i Baat med sier; Og eg þore ad segia, ad valla drijgia sumer Menn fleire edur meire Synder, Gude til Stigdar, enn nær Menn þiggia hina mestu Blessan af hanns Orlætis Hende, so ecke er ad undra, þott hann meige lykia henne aptur aa Stundum fyrer oss, og skamta oss ur Hnefa, sem Menn plaga ad segia, Jaa, þoott hann straffe oss med Skipreikum og Mann-Tioone, til ad typta oss lijfada Kaalfa. Alkunnugt er þad ollum Monnum, hvilijkt Framferde, hvada Munn-Søfnudur, Giaalijfe, Straakskapur, Lijge, Raan og Piofnadur, ad ædur er i þvilijkum Selskopum; med laangtum meire Frekiu og Oskammfeilne enn annarstadar, so hann þikest goodu bættur, sem verst gietur laated, og þad þyker Kallmennska og Snille, ad vera fremstur i Flocke, nær Menn slijkt adhafast. Þegar þier rooed til Fiskiar, Laatest þier bidia Gud fyrer ydur; Enn hvad mikell þar filge Hugur Maale, er af þvi audsært, er þier taled og giored, Sumerhvorier, nær þier erud under

Vad setster, þa formæled þier Ydar Veidarfærum, Ydar Verkfærum, Ydar Lagsmonnum, þegar ecke er allt epter Villd Ydar. Og þar þier ættud ad bidia Gud ad blessa, segled þier ad Andskotenn skule taka. So saaer nu Fiandmadurenn Illgresenu, Matth. 13. Bæde aa Siod og Lande. Þegar Gud sender ydur þad aa Aungulenn, er ydur ecke lijkar, Forsmaaed þier þad, Blooted þvi, og kasted þvi aptur i hanns Naadar-Fadm, sem hann er þa hvad mest ad wtbreida til ydar. O þier Raangsnwner og Þeckingarlauser Syndarar! Laate DRottenn sinn Vind blaasa aa Siodenn, so ydur þyker hætt vid Lijfs Tioone, þa kalled þier ad sonnu til DRottens, sem og vera aa; enn giæted ad, hvort þad mune eige kunna ad eiga heima hiaa ydur Allmorgum, sem DRottenn sagde vid Juda, Jer. Cap. 2. Þegar Neidenn yfergeingur, þa segia þeir: Upp þu og hiaalpa oss; Enn hvar eru þa Guder þijner, sem þu hefur giort þier? Biood þeim upp ad standa, Laat siaa hvort þeir kunna ad hiaalpa þier i Neydenne, þegar so tilber fyrer ydur. O þier Gudlauser Menn! Hvar er þa Andskotenn, er þier so tijdt aakalled, og bidied ad taka bæde ydur og ydar Stallbrædur? Hvar er hann þa? mun hann nockud hiaalpa ydur wr Neydenne, þegar þier ligged under Afollum? Mier mun Saklaust vera ad aavarpa hann med somu Ordum og Elias talade um Jessabels Baal fordum Daga: Kalled haatt, þvi hann er eirn Gud og hefur miked ad giora, 1. Reg. 18. Veit eg ad hann hefur Rijke so miked i Heimenum, sem Gud liær honum til ad straffa med Synder Mannanna, enn helldur mun hann uppæsa Siaafar-Hafed þeim til Skada, ef hann þo hefur þad Valld, enn eige mun hann hasta aa Siodenn nie Vindenn; Þa Makt gaf hinn Almaattke Konungur Syne sijnum, og ecke Fiandanum, sem er Faange og Utlæge Guds. Einskis er af honum nema Ills Von, þvi hann rædur ecke fyrer odru. Enn þegar þier so kalled til Guds i Neydenne, munud þier gieta haft fullt Traust aa honum, ad hann wtrycke ydur þadann, Ps. 91. nær þier þannenn leited Atvinnu ydar. Eckert Fyrerheit hafed þier þar um, nema þad, ad aa hvorium Tijma, sem hinn Ogudlege snijr sier fraa sijnu Ogudlegu Athæfe, þa skule hanns Synda ecke ad eilijfu minnst verda, Ezech. 18. Og stendur þad ad sonnu Oraskad um alla Æfe. Enn giæted ad, þier sem so Ogudlega lifad hafed, hvort ydur mune ecke fyrr koma til Hugar, þegar þier rated i Lijfs Haaska nockurn, ad sorga fyrer þessu auma Lijfe, hvort þier þo skulud einhvorn Tijma missa, helldur enn ad befala ydar Saaler Skaparanum af Alvoru: Orsok þa hefe eg til ad efast hier um, ad þar eru so faaer, sem Gud hefur sijndt Daudann, ad þeir lifi betur epter enn aadur. Enn hvad er soddann? Gud er naalægur ollum þeim sem hann Ottast, enn eg kann ecke ad segia, ad þeir ottest hann, sem hann eitt sinn hefur leist ur Helliu, og eru þo aungu betre sijdann. Þegar Gud giefur odrum meira enn ydur, þa ofunded þier þa. Þier erud Raangeygder, af þvi hann er Goodgiarn, Matth. 20. Þier spillid Veidum þeirra, ef þier gieted, og i þvi reke þier Satans Eyrende, þvi hann leitast vid ad koma þvi til Vegar, ad Manneskiann hafe sem minnst Gagn af Orlæte DRottenns. Ecke giorde so Petur og Felagar hanns, er DRottenn gaf þeim hina miklu Blessan, er

Lucas

Lucas skrifar um̃, Cap: 5. Þeir bendtu sijnum Felogum, ad þeir kiæmu og hiaalpudu þeim, og meddeilldu þeim af þeirre Guds Blessan, er þeir feinged høfdu: Enn eg þore ad segia, ad nockrer af ydur eru so Lynder, ad þeir nærre þvi helldur sockva vilia enn um̃a sijnum Naabwa nockurs af þvi þeir hafa Of-miked. So og forsmaaed þier hina adra, sem minna er veitt, so sem være þad ydar Atburdum ad þacka, og þier mættud skamta ydur wr Guds Hende þad þier vilied, og gæted lijted ad þvi, sem Paall segier: Hvad er þad Madur, ad þu ecke þeiged hafer? 1.Cor. 4. Sumer af ydur trwa aa sinn Fiske-Galldur, og hefur þa Andskotenn sijnt Kunst sijna i Hiarta ydar, þegar hann kiemur ydur til ad dyrka sig og þacka sier fyrer Guds Gaafur. Ecke giorde þad Petur. J Þijnu NAFNE Vil Eg Netenu Utvarpa, sagde hann til JEsum, Luc 5. Enn þegar þier bræked Rwner og Ristingar, med hvorium þier þo minna enn eckert faaed wtriett; Kasted þier þa ecke Netenu wt i Fiandans Nafne? O Minn HErra og Gud! eg giet ecke nooglega daadst ad þinne Polennmæde, ad þu setur ecke Krook i Naser Andskotans, Ezech. 29. eins og Hvalsins i Egyptalande fordum, og lætur þa draga Diofulinn upp aa Aunglenum, er so hæda þitt Nafn, ad hann gleipe þa lifande, eins og Jordenn Core, Datan og Abiram, Num: 16. Læred af Petre ad fiska, gooder Menn, hann er hinn beste Formadur, þoott hann sæte wte alla Noottena og feinge eckert, þa mæglade hann ecke, helldur sagde: Epter Þijnu ORDE Vil Eg Netenu Utkasta. Ecke orvænte hann, þoott DRottenn liete hann bijda epter sier, enn þegar hann blessade hann, þa fyrervard hann sig og gaf Gude Dijrdena. Ecke giora þeir so, er hroka sier upp af Guds Laane, so sem væru þeir þess verdugre enn adrer. Fordest slijkann Daaraskap, ef þier vilied vera visser um̃ Guds Adstod i Haaskanum; Taked med allre Hiartans Audmyckt aa moote hanns Blessan, hvort helldur hun er mikel edur lijtel, og siaaed ecke Offioonum yfer þeim, sem hann hefur meira giefed: Forsmaaed og ecke hina, er hann minna laanar: Helldur sie hvor aanægdur med sinn deilldann Verd, og giallde Gude skylldugar Þacker þar fyrer; Hyrded og Faung ydar Skinsamlega, og Onijted ecke Guds Gaafur. Ef þier Ovyrded þær og legged ad litlu, nær þier Nægter hafed, þa Ovyrded þier Skaparann, sem þær giefed hefur. Vered og minnuger Kiærleikans, ad þier gleymed ecke hinum Volada og Þurfa-Mannenum, og sijned Þacklæte ydar vid Gud, ecke einasta med Ordi, helldur og Verke, 1. Joh. 3. vid hanns Fatæka Naudstadda Limu. Ecke faai þier honum betur launad, en̄ med soddann Moote, þvi jafnvel þoott ad Madurenn sie Vesæll til þess, ad hann kun̄e Gude nockud aptur ad giallda, þa vill þo Mannsins Sonur aa hinum Efsta Dege segia: Hvad þier giordud einum af þessum hinum minnstu, þad giordud þier mier, Matth. 25. Enn um̃ alla Hlute fram̃, þa feled Gude aa Hendur Saal og Lijkama, nær þier draged wt aa Diwped, til ad leita ydar Næringar: Hugleided, ad þar eru valla Tveir Þumlungar aa mille Lijfs og Dauda. Hvilijkur Vode er þad þa og Saalar-Haaske, ad trwa so Ostodugum Hlut fyrer Saalu sinne, sem Hafed er, nema Menn sieu þar um̃ aadur fullvisser, ad hvort þeir lifa edur deya, þa sieu þeir DRottens, Rom. 14. Saa sem wt aa

Sidoenn ser, þad er eins og gange hann i Orustu; Hann er ecke viss um ad naa Landenu aptur; Enn þoott ad hinum Almattuga Gude sie ecke um M[illegible] ad vardveita sijna, eins vel a Sioo og Lande, þa m ette mier þo til Hugar koma, ad vanda mig hvad mest, og leita O Rottenns Hiaalpar þegar eg sie Haskann fyrer Augunum. Eg hefe um þetta Efne nockud laangtala vered og þad fyrer þvi, ad eg hygg þess vel vid þurfe, þvi margur er Odæll, hyrdulaus og Ohlutvandur, skeitande ecke um, nema ad fylla Kroppenn, og gyllder einu þoott Saalenn svellte; Og vona eg ad Guds Bornum muni þad ecke Oþægt vera, er eg hier um sagt hefe: Hiner verda sijnu fram ad fara, er heilsusamlegar Aminningar ad aungvu hafa; Og velldur þo ecke sa ed varer, þoott ad verr fare; Þeir munu ad komast Raunenne, er þad forsmaa, nær Uppskieru Tijmenn kiemur.

Vil eg so apturhverfa til hins, er eg i Ondverdu hoof um ad tala, sem var, ad Menn skylldu varpa allre sinne Ahyggiu uppaa Gud, Ps. 55. og honum alleina treysta, þa vier rotum i Neyd einhvoria edur Mootlæte. Ad sonnu er oss ecke bannad, miklu helldur leift, ad leita Mannanna Hiaalpar nær oss aaliggur, þvi Mennerner eru skapader hvor odrum til Adstodar, og hafa Guds Bod um þad, ad styrkia hvor annann Innbyrdes, Gal. 6. Gud naade! ad þvi er aa aungvann Veg so epterfylgt sem byriade; Enn ef vier þetta riett athugum, þa dregur Mannleg Hiaalp oss so skamt aa Veg aa Stundum, suma vantar Efnenn, Adra Viliann, Nockrer eru laangt fraa oss, og naa eige til vor þoott villdu, nær i Raunernar rekur, enn Gud brestur alldrei Maattenn, alldrei Viliann, so sem aadur er sagt, og Menn skulu eige þurfa ad senda laangt epter honum, þvi hann er naalægur ollum þeim sem hann aakalla, Ps. 145. Hier ad auke er sumum vorum Meinum so haattad, ad eingenn Mannlegur Kraptur gietur raaded Boot aa þeim, Enn þar er eckert þad Bol, sem allra Meina Græbare kunne eige ad lækna. Vel kunna Mennerner ad hiaalpa Lijfe voru optlega, enn þo so ad hann vilie hafa oss hoolped i þad Sinn, annars ecke, þvi oll lifande Saal er i hanns Hende, Job. 12. Enn þad skilur Guds og Manna Adstod, ad þoott hann deyde, þa lijfgar hann eilijflega. Þvi þad skal skie, sagde Lausnarenn, Joh. 11. ad hvor sem truer aa mig, þoott hann deye, þa skal hann samt lifa. Giætum og þess, Brædur mijner, ad þoott vier af Monnum Lidveitslu þiggium, þa kiemur hun samt fraa Gude. Edur hvadann er þad ad oss kiemur Hiaalp aa Stundum, þadann sem Olijklegast er, og vier væntum hennar sijdst fraa? Ecke var Moyses, þa hann var Landflootta, Exod. 2. til þess lijklegur, ad leida Israel ut af Egypta-Lande. Gedeons Ætt var hin minnsta aa medal Manasse, og hann minnstur medal sinna Brædra, Jud. 6. þo sende Gud hann til ad frelsa Israel af Hende Madianitanna. Hann sende Okienda Menn af fiarlægu Lande, til ad færa Syne sijnum Vega-Neste, er hann var enn þa i Reisum, Matth. 2. Hann sende honum einn Framande Mann Simon af Cyrenia, til ad bera Krossenn med honum, Matth. 27. Hann sende Nicodemum og Joseph af Arimathia, til ad giora hanns Utfor heidarlega, Joh. 19. Eingenn Madur kann um þad Hogum ad hyggia, hvornenn Gud fer ad hiaalpa, þegar hann er naaduguur; Hann kann ad giefa Israel Vatn af Hellunne, Num. 20. Hann

gietur

gietur sendt Eliæ Fædslu med Hrosnunum, 1. Reg. 17. og mettad margar Þusunder Manna med faum Braudum og Fiskum, Joh. 6. Og eg veit ad þar er nærer eingenn af oss, sem til Ara eium kommer, ad eige hafe þann einhvorn Tijma reint sóddann undrunarlega Guds Adstod, Ef vier hefdum Vit a epter ad taka, og tilrekna þad Gude sem hanns er; Enn sumer trwa a Matt sinn og Meigenn, og þykiast sialfer afreka alla Hlute, Jafnvel þoott eg ætli, ad hinum Megtuga Himnanna Konunge verde lijted fyrer þvi ad gioraoss Þrauternar so þwngar, ad Mannlegur Kraptur nae skamt til ad kasta þeim af sier. Þad hefur hann optlega synt Hvad vard wr þeim Fim Konungum sem Abraham hrakte med nockrum Hwskollum sijnum, Gen. 14. Hvad vard af ollum Risunum i Canaans Lande, sem hrucku undann Josua? Jos. 12. Hvad vard wr Pharao, er hann treyste a sijna miklu Makt og sagde: Hvor er Jehova, ad eg skyllde hlijda honum? Exod. 5. Hvad vard wr hinum sterka Goliath, er David rotade hann med Steins Hoggenu, 1. Sam. 17. Nockrer treysta a Vijsdoom og Framsyne, Enn þad er og Hiegoome. Hvad stodudu Absalon Achitophels Klookende? 2. Sam. 16. Edur Adonia, Joabs Slægvitska? 1. Reg. 1. Bada þa sloou þeirra eigenn Pretter um Haalsenn. Hvar fyrer? Þviad Gud var ecke til Raadaneytis tekenn. Sumer giora þennann fallvallta Mammon ad sijnu Athvarfe, 1. Tim. 6. og vilia alla Hlute med honum wtrietta; Enn þad er eitt vesællt Traust: Guds Gaafa er hann ad sonnu, ef hann er riett feingenn, annars ecke. Enn aungvum maa hann duga nema DRottenn hiaalpe, og allra sijdst maa hann Saalunne gagna, nema þeirra, sem giora sier Vine af honum, er medtaka þaa i eilijfar Tialldbwder, Luc. 16. og eru þar fyrer rijker i godum Verkum, 1. Tim. 6. Enn hvornenn sem ollum þessum er haattad, þa er hinum þo verst fared, er so lijtt treysta Gude sijnum, ad þeir meina ad Hofdingia og Veralldar-Manna Gunst mune duga þeim framar enn Ast hinns mikla Allsheriar DRottenns, er ollu rædur bæde a Himne og Jordu, og giora þvi marga Oleifelega Hlute þeim i Vil, enn moote honum, og ætla ad þeir mune kunna ad vera Skiolld fyrer sig, er þo eckert eiga under sialfum sier, þegar DRottenn er reidur. O farer þeirra, er so hafa breitt, maa allvijda lesa i Ritningunne; So sem þegar DRottenn reiddest Juda Konungum, er þeir leitudu Hiaalpar til Syrlands og Egyptalands Konunga, og kioru helldur ad vera þeirra Naudungar-Menn, enn ad laata DRottenn rijkia yfer sier og heita hanns Frelsingiar. Þvilijkt skylldu oll Guds Born varast, helldur leita hanns i allre Neyd, til hvors þeim er varpad i fraa Moodur-Lijfe, Ps. 22. Og haga so Lijferne sijnu, ad hann þecke þaa fyrer sijn Born, sijna Ast-Menn og Brædur sijns Eingietens Sonar JEsu Christi. Heyred þar fyrer Ord DRottenns, af Esajæ Spaadooms Bookar, 33. Cap. Hvor hann geingur i Riettvijsenne og talar hvad Riett er; Hvor hann hatar Raangindenn og Agyrndena, og helldur sijnum Hondum fraa þvi ad þyggia Skeinkingar; Hvor hann tilbyrger sijn Eyru, ad ecke heyre hann Manndraap, og lykur Augu sijn til, ad eige siae hann þau Illsku Porenn: Sa mun i Hædunum bwa, og

Biorg

Biorgenn munu hanns Byrke og Værndar-Hlijf vera; Hanns Braud mun honum gefast, Sitt Vatn mun hann vijst hafa. Enn þu Drottenn allrar Veralldarennar, sem Himnenum byr, Vertu Sool og Skiolldur þinna Barna, sem aa þig vona, og laat þau alldrei verda hinum skiæda Mordingia Dioflenum edur hanns Limum ad Herfange; Laat þau bijda epter þier med Þolennmæde, og sleppa þier ecke þar til þu blessar þau og innleider i þijns Sonar Dijrd. Bænheyr þad naaduge Fader fyrer hanns Forþienustu, Amen, J JEsu Nafne, AMEN.

# Fimta Sunnudag epter Prettanda.

Gudspialled, Matth. 13. Cap.

J Þañ Tijma. Adra Epterlijking lagde JEsus fram̃ fyrer þaa, Og sagde: Himnarijke er lijkt þeim Mañe, Hver ed saade goodu Sæde i Akur siñ; Eñ þa Meñ svaafu, Kom Ovinur hañs og saade Jllgrese med i bland Hveitenu, og gieck i burt. Eñ er Grased spratt upp og bar Avoxt, þa auglysteſt og Jllgresed. Eñ Þioonustu-Meñerner geingu til Hwss-Fodursiñs og sogdu honum: Herra, Saader þu ecke goodu Sæde i Akur þiñ? Hvadañ kiemur honum þa Jllgresed? Og hañ sagde til þeirra: Fiand-Madureñ hefur þad giort. Þioonustu-Meñerner sogdu þa: Villtu ad vier forum og wtlesum þad? Og hañ sagdi Nei, So ad þier uppræted ecke Hveited under eins, nær þier wtlesed Jllgresed. Laated hvorttveggia vara allt til Kornskurdarens; Og aa Kornskieru-Tijmanum skal eg seigia til Kornskurdar-Mañaña: Lesed fyrst samañ Jllgresed, og bindēd þad samañ i Bindene til ad breña þvi. Eñ Hveitenu samañsafned i mijna Korn-Hlodu.

## Exordium.

Þad eru hrædeleg Ord, sem Esaias Spaamadur talar til Gydinga, Cap. 6. Er hann seiger: Heyred aavallt, Siaaed aavallt, og þecked þo ecke. Gud vere oss Lijknsamur! Hvilijkt er þetta skielfelega Straff? Hvad er Vesælla enn ad hafa Skilningar-Vitenn af Gude þeiged, og hafa þo ecke Not af þeim til þeirra Hluta, sem þau eru til giord? Þad er ad vera lijkur þeim Skwrgodunum, er David um̃talar; Ad þau hafe Munn og mæle ecke, Naser og lyckte ecke, Hendur og þreife ecke, Fætur og gange ecke, Ps. 115. Og er þo ecke ad undra þoott soddann Straff kiæme yfer þaa sem þessa Maalleisinga, þessa dauda Hlute, Stocka og Steina, giordu sier ad Gudum, og dijrdkudu þaa i Stadenn hinns Lifanda Guds, sem bæde þaa og alla Hlute skapad hefur: Þvi David segier hier strax epter; Ad þeir ed giora þau, sieu lijker þeim. Enn þess

þess er ad giæta, Börn mijn, ad Spaadoomur þessi Esaiæ, hefur aatt sier leingri Alldur, enn um hans Daga, þvi þegar DRottinn JEsus framsetti fyrir Foolkid Eptirlijkingum um Sædid, er fiell i Ferinslags Jord, Matth. 13. Og Lærisveinarnir spurdu hann ad, hvar fyrir hann taladi i Eptirlijkingum til þeirra: Þaa vijsar hann þessum Spaadoomi Esaiæ til Gydinga, er lifdu aa hanns Dögum og forsmaadu Evangelium Rijkisins, er hann bodadi þeim, Segiandi: Þar fyrir uppfylltist aa þeim Spaadoomur Esaiæ, er segier: Ad Heyrandi muni þeir heyra og ecki skilia, og Siaandi muni þeir siaa og ei þeckia. Ecke er sw Meining Frelsarans, ad Gud vilie ecki unna þeim Skilnings sinna Heilogu Orda og Riettindá, þvi hann vill ad allir Menn hoolpnir verdi, og komist til Sannleikans Vidurkienningar, 1. Tim. 2. Helldur segier Esaias, og DRottinn eftir honum, Orsokina til þessarar Andlegu Deyfu og Blindni i sama Stad med þessum Ordum: Hiarta þessa Foolks er hart ordid, og þeir heyra þrongslega med Eyrunum, og lykia Augunum aftur, so þeir siaai ecki med Augunum, og heyri ecki med Eyrunum, nie skilie med Hiartanu, ad þeir snwi sier og eg lækni þaa, Es. 6. Hvar af audsært er, ad Sokinn er hiaa Monnunum, og ecki hiaa Gudi. DRottinn setti fram margar Eptirlijkingar i þessum sama Capitula, og medal annara þa, ed Samstundis var upplesinn, enn einginn var saa ed spurdi hann eftir hennar Þijding, nema alleina hanns Lærisveinar. So lijtid scktudu þeir þessa Guds Giof; þar fyrir var þeim ecki unt ad vita Leyndardoom Himnarijkis. Ecki þarf eg þessa fogru Eptirlijking fyrir ydur wt ad skijra; Hinn stoori Biskup, 1. Pet. 2. med þa vel-lærdu Tungunna, Es. 50. hefur þad so vel giort med faaum Ordum, ad ecki er Aboota vandt, þar hann svaradi Lærisveinunum þanninn: Matth. 13. Saa er saadi hinu gooda Sædi, er Mannsins Sonur, enn Akurinn er Heimurinn, enn hid gooda Sædid eru Rijkisins Synir, enn Illgresid eru Synir hinns Vonda, enn Ovinurinn, er saadi þvi, er Diofullinn, enn Kornskurdar-Tijminn er Endir Heimsins, enn Slaattu-Mennirnir eru Einglarnir. Þar fyrir, so sem Illgresinu verdur samannsafnad og i Elldi uppbrendt, so mun og verda aa Heims Endirnum. Mannsins Sonur mun senda Eingla sijna, þeir ed munu samannsafna wr hanns Rijki ollum Hneixlunum, og þeim ed yfirtroodu Logmaalid, kastandi þeim i Ellds-Ofninn, þar mun verda Op og Tannagnijstran; Þa munu Riettlaatir skijna eins og Sool i Rijki sijns Fodurs. Hvor Eyru hefur ad heyra, hann heyri! Þesse er Utskijringin, Brædur mijnir; Og er þad Maala sannast, ad hun er so agiæt, ad Gydingar hefdu vel maatt forvitnast nockud framar um Skilning hennar, so sem Lærisveinarnir hier giordu, hefdu þeir lagt nockurn Hug aa sitt Meal. Enn þess er ad giæta, Born Guds, ad fyrst ad Spaadoomur Esaiæ naadi til Gydinga, sem lifdu aa Christi Dogum, meir enn 700. Arum sijdar, og var þa af honum stadfestur; Þa er audvitad, ad hann einnig nær til vorra Daga, sem nu lifum; þvi so sem þad, ad Guds-Rijki er til vor komid fraa Gydingum, sokum þess Þeckingarleysis sem i þeim var, Eph. 4. So eru og til vor komnar allar þær Vidlogur og Hootan-

er, sem aa þeim munu ad fullu hrijna, er giora sig þess enn nu i Dag Overduga, og forsmaa Guds Son og undir Footum troda, Hebr. 10. Nu fyrir þvi ad einginn Þorf er ad wtskijra þessa Predikun HErrans, framar enn giort er, so sem aadur er sagt: Þa vil eg kvedia ydur þeim dijrmætu Ordum er hann endar þessa sijna Utleggingu med: Hvor Eyru Hefur Ad Heyra, Hann Heyri! Og alleina tala um̃ þaa Hlute af Gudspiallinu, er oss vekia meigi til ad þeckia vorn Vitiunar Tijma.

Hiaalpa oss þar til, O þu goodi Gud! med Naad þijns Anda, fyrir JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingiñ

FRelsarinn segier i øndverdu Gudspiallinu; Ad Himnarijki Sie Lijkt Manni nockrum, Er Saadi Goodu Sædi i Akur Sinn. Af hanns eigiñ Utleggingu er Saudsied, ad Sæded merker hier annad enn i næst fyrerfarande Epterlijkingu, þar merkir þad Guds Ord, enn hier Mennina, sem Guds Ord eiga ad heyra. Þessu gooda Sæde, saade DRottenn strax i Upphafe Skøpunar. Gott Sæde voru þau Adam og Eva, þegar Gud saade þeim nidur i Alldengardeñ. Margt hefur þar Gras fagurt vered, mørg føgur Eik, og margur bloomlegur Avøxtur, þo eingenn nærre til lijka vid þau, þvi Maduriñ var eptir Guds Mynd skapadur, seigir Ritningiñ, Gen. 1. Baaru þau þess vegna laangt af øllum skøpudum Skiepnum aa Jørdunni: Enn jafnskioott kom þar Fiandmadurinn, Gen. 3. og stack þeim Andlegann Svefn-Þorn, so þau tooku nidur fyrir sig, og virdtu meir þa Skiepnu Guds, sem þeim var miklu Oædri, helldur eñ sialfa sig, eftir Slægdarfullri Diøfulsins Aeggian. Sijdann hefur hañ alldrei vantad Sædi til ad spilla Guds Akri med. Strax var þar einn Mordingi i Adams Hwsi, Gen. 4. Og þoott ad Gud setti hañ wt fraa þeim litla Safnadi siña Barna, sem þa var aa Jorduñi, þa vardi þad ecki leingi, þar til Ovinuriñ saadi aftur Illgresinu a medal Hveitisins, og kom Guds Sonum, sem voru þeir af Nidium Adams er Guds Otta giættu, til ad elska Mannanna Dætur, sem voru Cains Affspreingi, hvar af vox þad Illgresi, fyrir hvørt ad Gud upprætti hina Vantrwudu Verølld, Gen. 6. Þegar honum i þad Sinn virdtist Kornskieru-Tijminn kominn vera, og ecki var eftir nema Illgresi eitt a Jorduñi, ad fraateknum Noa og hañs Hyski, og þo var þar eirn Spottari, eirn Ohlijdinn Sonur i hañs Hwsi, Gen. 9. So ad eftir Floodid, þegar þar voru ecki nema Atta Kornstaangir i Guds Akri, þa var þo eitt Illgresi aa medal þeirra; Og er framlidu Stundir, kiæfdi þetta Andskotans Saad-Verk so Hveitid, ad þess giætti valla, og þad so miøg, ad þad ætladi ad vaxa upp i Himiniñ, þegar þeir byggdu Turniñ Babel, Gen. 11. Og ætludu sier ad taka Raadiñ af hinum Almaattuga, so ad eigi skylldu þeir adskiliast, Og so hefur þad jafnann geingid fram̃ eptir Ølldunum. Þegar Gud kalladi Abraham af Ur i Caldea Landi, Gen. 12. Og uppfræddi hañ sialfur i þeirri Himnesku Speki, þaa saadi hiñ Alvitri Hwss-Fadir goodu Sædi i Canaans Landi, þo spratt þar upp strax Eitt Illgresi, Eirn Haad-Fugl, Ismael, Gen. 21. Eirn Offsooknari, Ein Ambaatt, sem

ad

ad vanvirdte Hws-Moodur sijna, Gen. 16. J Kvide Rebeckū voru Tvær Piooder, og sæa Meire ofsookte þann Minna, Gen. 25. Esau, Gudlaus Madur, hiñ frooma Jacob, Gen. 27. Og þo var ecke Jacobs Hws fyrer utann Illgreſe; Þar var Ein Lausláat Dootter, Gen. 34. Þar voru Tveir Mordingiar, Gen. 34. Þar var Eirn Sonur, er fleckade ſijns Fodurs-Sæng, Gen. 35. Þar voru Niju Brædur, er ſelldu ſinn eigenn Broodur Manſale, Gen. 37. Laangt er ſoddann allt upp ad telia. A medal Chriſti Toolf Læreſveina var þar Eirn DRottenns Svikare, Joh. 6. Þegar Akur hanns Chriſtne var ſem blooinlegaſtur, ſo ad aller Hluter voru Sameigemleger med þeim Trwudu, og þeir ſelldu Eigner ſijnar, og batru fram fyrer Fætur Poſtulanna, Act. 4. Þa ſkaut Diofullenn þar ſtrax Illgreſenu iñ, þegar Ananias og Saphira leindu af Jardar-Verdenu, Act. 5. Hvornenn Simon hinn Fiolkunnuge, Atc. 8. ſpillte Guds Chriſtne, er lioost bæde af Poſtulanna Giorningum og ødrum Chriſtenndooms Søgum. Og hvorſu miog Paulus kvartar um Vanſkickunena i DRottenns Kvølldmaaltijd, 1. Cor. 11. ſo og ſkamarlegt Samræde med naakomnum ſier, Er hann ſegier, ad ecke heyrist jafnvel medal Heidingianna, 1. Cor. 5. Þad maa alkunnugt vera af hanns Briefum til Safnadarens i Corintho. Fyrſt nu ad Diofullenn fieck ſlijku til Vegar komed aa medann Gud talade ſiealfur vid Mennena, Eins og Madur vid Mañ talar, aa medañ hanns Eingietenn Sonur, voru Hollde Jklæddur, flutte Eyrende ſijns Himneſka Fodur hier aa Jordunne, medann Heilagur Ande, med ſijnelegum Krapte og Jardteiknum, auglijſte ſitt Guddooms Almætte i Monnunum og aa medal Mannanna, þa ætlunſt ecke til ad hann mune nu ſijdur verka i Bornum Vantrwarennar, Eph. 2. Þar vier meigum gloggłega vid þad kannaſt, af þeim Loſtum og Skømum, er Daglega i Vorxt færa aa medal vor, ad Satan er ofann komenn, hafande Bræde mikla, Apoc. 12. Þvi mætti oſs vera umhugad, ad þeckia vorn Vitiunar-Tijma, er oſs ſo optlega bodadur verdur i Guds H. Orde; Og vilie Meñ ecke Guds Vitiunar-Tijma þeckia, þa þeckie Menn þo Andſkotañs, þvi ſiidann Chriſtne hooſt i Lande þeſſu, hygg eg hann alldrei hafe meira Rijke haft vor aa medal i ſumum Hlutum, enn nu um Stunder. A ollum Olldum hefur hann ſaad Illgreſenu aa medal Hveiteſins, Enn þo hefur þad optaſt vered og vijdaſt, ad Skømenn heſur Skom heited, og Dygdenn Dygd, Jafnvel hiaa þeim, ſem ecke hafa Dygdena elſkad nie hatad Skømena: Enn nu heyreſt mier, ad Menn hrooſe ſier af Loſtunum, og ſetie Dygdanna Nafn uppaa þaa. Jſmael er tekenn til ad offækia Jſaac, og Agar ætlar ad reka Sara wt wr Hwſinu. Abimelech er farinn ad drepa hina ſkilgietnu Brædurnar, Jud. 9. ſo hann Frillu-Sonurenn meige einſamall rijkia. Agyrndiñ er Framſijni kollud, Drambſeminn Hofdingſkapur, Hræſninn Vitſka, þegar Menn briota Riettinn kalla Menn þad ad byggia hann, þegar Menn ſleppa Skaalkum og Jllrædis-Moñum Ohegndum, þa nefna Menn þad Kiærleika og Myſkunſeme. Hyrduleyſe og Toomlæte i ſijnu Kalle og Embætte, heiter Spekt og Fridſeme. A Døgum Chriſti Onijttu þeir Guds Løgmaal med ſijnum Setningum, Matth. 15. Þa hofdu þeir ecke Løg-Book,

nema Moysis Logmaal. Enn þess være Oskande, ad ecke Onijttu Menn nu Konungsens Log med sijnum eigenn Þootta, Nær þeim rædur so vid ad horfa. So falsar nu Andskotenn Guds Stedia a medal vor; og setur hanns Mynd og Yferskrift a svikenn Maalm; Og þetta verkar hann med Slægd og Kuñattu so mikelle, ad so sem ad Illgresed er vandþeckt fraa Hveitenu, aadur enn þad er fullvaxed, Matth. 7. So þeckia Menn ecke þessa Ulfa fyrr enn Saudar-Giærann er af þeim dreigeñ, og þeir bijta Hofuded af Skoñenne, so hun fær ecke leingur dulest. Veit eg ad Fiandmadurenn brwkar Einfelldne og Hugleyse margra til slijkra Hluta, og er þad noogu Illt, Þvi grætlegt er til þess ad vita, ad Faakiænskann og Ottenn fyrer þvi, sem eckert er, skule so Drottna i Verølldeñe, ad faaer annadhvort vite hvad þeir eiga ad giora, edur þore, þoott vita meige: Enn hvorneñ sem þvi er vared, Þa villda eg þess oosk a, ad þegar DRottenn lijtur af Himne ofann yfer Mañanna Sonu, Ps. 14. ad hann hefde þa ecke Orsøk til ad klaga eins og Jeremias Cap. 5. Er hann segier: Nu vel, Saa aume Flockurenn er skynlaus, vitande ecke neitt af DRottenns Veige, og af sijns Guds Riettindum. Eg vil gaanga til hinna Volldugu og tala vid þaa, Þeir munu vita af DRottenns Veige, og sijns Guds Riettindum; Enn aller samann høfdu þeir Oked broted og Togenn i sundur slited. Hvar fyrer kiemur nu øll þesse Olucka? Þvi hefur Fiandmadurenn so mikeñ Framgaang? Er hann sterkare enn Gud? Fiærre sie þvi; Hanns Sonur hefur Einu siñe rænt hañ siñe Harneskiu og sijnum Vopnum, aa hvør hann treyste, Luc. 11. Hvad þa? Hvør er Orsøkenn? Þvi ad Menn vilia helldur liaa Limu sijna til Þioonustu Syndenne, helldur enn [illegible] Riettlætenu til Verkfæra, Rom. 6. Gud vill laata erfida i sijnum Wijngarde, Matth. 20. Þar fyrer vill margur hafa sig undañ þeigenn ad liaast honum til Þioonustu, Jafnvel þoott ad þeim sieu Launenn vijs aa Himnum, er honum til Handa gaanga; Enn þad er Indælt ad gioraſt Verk-Þræll Andskotans, þvi hann leggur Kodda under Høfud Syndarans, Ezech. 13. Þoott Menn fyrer vijst vite, ad hann laune med Ellde og Brennesteine, Apoc. 14. Med Ope og Tannagnijstran, Matth. 13. So sem DRottenn adkvedur sijdarst i Utskijringu þessarar Epterlijkingar.

Þegar Menn svaafu, Kom Fiandmadurenn Og Saade Illgresenu Medal Hveitesins: Segier i Textanum. Ecke er med þessu meint ein Stiett enn ønnur, Enn alleina Tækefære þad, sem Ovinurenn brwkade til ad faa Illgresenu nidursaad i Akurenn, Þad var Svefn-Tijmenn. Samt maa eg taka mier Orsøk her af til ad tala þar um, ad eg hygg oss verde nockud Svefnsamt allmørgum i baadum þeim Stiettum, sem Yfer-Raadenn hafa, so ad Fiandmannenum þar fyrer optlega giefest Tækefære til ad spilla Guds Akre med Illgresenu. Taked fyrst til a mijnum Helgedoom, sagde Gud vid Jerusalems Eingla, er hann baud þeim ad slaa þaa alla sem ecke Teiknader voru. Ezech. 9. Eg vil Fyrst taka aa oss, sem berum Aarons Skrwda. Hvornenn mun lijda um hinar smaau Kornsteingurnar i Guds Akre? Mun þær ecke vanta aa Stundum þann heilnæma Vøkva, er þær eiga ad spretta af, so ad þeim kynne safnad ad verda i Bindene

Guds Barna, þegar Uppskieru Tijmenn kiemur? Eg hygg ad i þessu sie mikill Brestur hiaa allmorgum, hvad Gud Naadarsamlega lagfæri, Og giefi þeim ad ydrast, er i þessu er so m.og Abbota vañt! Enn seigid mier; Hvad giora þeir ed þañig breita? Sofa þeir ecki? Mun ecki Fiandmadurinñ hafa nooga Orsok til ad saa Illgresinu, þegar so tilgeingur? Þad er hægt ad giora Hveitid ad Illgresi, enn ad laata Hveitid aftur hverfa til sinnar firri Natturu, þegar þad er einusinni ordid ad Illgresi, þad heyri eg sagt ad sie Omøgulegt; So er þvi og varid i Guds Akri: Margs Ungmennis Natturu kann ad vera good, enn þvi velldur Fiandmadurinn, og þeir sem eiga hier um ad hyrda, nær þeir forsooma sitt Verk, og giefa honum Rwm, ad hun venist aa þad Illa, sem er audneimt; Þvi hun heyrdi lijtid af þvi Gooda, og dregst so Unglingurinñ aa Legg, ad vægt kañ vera vid ad giora, venur so adra eftir sier, nær hann er gamall ordiñ, so ad þessi Orepsoott smijgur so Mañ af Mañi, þar til hun spillir heilum Akre. Þeir sem eta þetta Illgresi, sem hier getur um i Evangelio, verda blindir edur Glaamskignir; Hvad munu þeir verda sem uppalast med þeim, er so eru uppaldir? Blindir af Blindum Leidtogarum. Og þetta siaa nockrer af vorum Kiennimonnum, og leggia þar ecki til. Sofa Menn þa ecki? Mun Satan forsooma þetta Tækifæri? Eg vil ei tala um þad, hvorsu lijtid ad sumir af oss vanda Kienninguna af Predikunar-Stoolnum; Finnast munu þeir, ed ætla sig vel hafa rekid Guds Eyrendi, ef þeir fylla upp Eyru Tilheyrendaña med Haareisti nockru og Mælgi þeirri, er hvorgi aa heima, enn giæta ecki ad þvi, hvort hinn sturladi finur Huggun þari, hinn saavijsi Leidrietting, hiñ dofni og Hyrdulause Uppvakning, hinn Ogudlegi og saa ed forsmaair Gud og hanns Riettindi, þad sem honum tilheyrer, sem er, Hootun Guds Reidi, og eilijfrar Fyrirdæmingar. Hvort allir þesser finna þad i einni Predikun, þad athuga sumir ecki so gaumgiæfilega aa Stundum; Þegar Menn hrifsa eitthvad wt wr einni Book til ad giora Assokun sijna, giætandi ecki miog smaasmuglega ad, hvort þad gagnadi ad tala, aa þeirri Tijd, edur i þeim Sofnudi, sem honum er aa Hendur faliñ til Umonnunar; Samt þvo Meñ Hendur sijnar fyrir Fooklkinu, og kalla sig Saklausa af Bloodi hinns Riettlaata, Matth. 27. Sem þo ecki hrijn aa þeim er tapast, Sokum Faafrædis þessarra Vesælinga. Eñ hann, sem i Guds Stad er settur, forsoomadi ad giefa hanus Hirdum i riettann Tijma þad sem byriar, Luc. 12. Og ætlar ad Gud muni ecki krefia þess af sinni Hendi sijdann; Ezech. 33. Jafnvel þoott hinn faafroodi meigi deya i sijnum Syndum, nema Gud vilie meiri Myskun aa giora, vegna hanns Toomlætis, er honum aa ad undirvijsa, og aminña Forelldra og Hwsbændur ad giora Skylldu sijna, þar sem hann fær el sialfur tilkomist. Segied mier, er ecki þvilijkt ad sofa? Mun Ovinurinñ ecki færa wt sinn Reit i Guds Akri vid allt þetta? Eg vil ei faa mier til Orda, hvorsu ad margur Leigulidi er ragur i þvi ad straffa Odygdir og Glæpi hiaa þeim, sem eru nockurs Maals metandi; Ein Maaltijd Matar, eirn Bikar aafeings Dryckiar, Eitt Hundrads Virdi edur minna aa Stundum, þvær af allar Syndir hinns Gudlausa, hiaa þeim er so eru lyndir, laun-

ande so skamarlega sijnum Velgiørda Mønnum, ad þeir pretta þa um̃ Gagn Saalar sinnar, og þann mesta Velgiørning er þeir kynnu þeim aptur ad sijna, sem er, ad segia þeim til Synda sinna; So vanhelga þeir Gud fyrer eirn M.ølhnefa, so sem DRottenn ad Orde kiemst, Ezech. 13. Og þoott eckert af þessu i mille kome, þa helldur Otten̄ fyrer Ofrijke þess Vollduga, mørgum af þeim, er sig kalla Umbodsmenn Christi, so i Taume, ad þeir ecke þora Munnenum upp ad liuka, hvøriar hellst Skam̃er og Klæke sem þeir horfa aa. O vei! O vei! Segied mier i Guds Nafne, segied mier, er ecke þvilijkt ad sofa? Mun ecke Fiandmadurenn hlæa ad þessu, nær Guds Þienarar draga hanns Ploog so Kappsamlega, og finna ad þad meige um̃ vorar Tijder segia, er DRottenn sagde fordum um̃ Hyrdarana i Juda: Aller þeirra Vøkumenn eru blinder og vita alls eckert, Mallauser Hundar eru þeir, og kunna ecke ad giellta; Þeir eru later, liggia og sofa giarna, Es. 56. Og þesser hiner graadugu Hundar kunna þo alldrei sadder ad verda; Og þetta hid Sijdarsta velldur, ad Menn eru so spaker i þvi ad um̃vanda vid adra i Guds Stad. Balaks Femuner orka þess, ad Asnann verdur fliootare til ad segia satt, helldur enn Spaamadurenn, sem aa henne situr, Num. 22. So þegar eirn Høfdinge fær ecke ad heyra Sannleikann af Preste sijnum, sem aa og maa segia hønum til Syndanna, aan allrar Misvyrdingar, þa verdur hann aa Stundum ad heyra þad af Fiandmanne sijnum, af hinum minnsta Þienara, af einum Boonda, sem ad giører Skøm̃ til Kiennemannsins, er þetta ætte ad giøra sier til Forsvars hiaa Gude, enn hinum til Saalar-Boota og aungrar Mijnkunar, nema hann þikest meire Madur enn David, er þolde Nathan Spaamanne Sannyrdenn Reidelaust, 2. Sam. 12. Og ef hann heyrer þad af aungum af þessum, þa mun hann þad heyra af Doomara alls Hollds aa sijdarsta Deige. Og þoott Men̄ sieu nu so spaker vid Hofdingiana, og þa, hvørra Valld Menn ottast, þa vantar Men̄ ecke sumahvøria aa stundum, ad brwka sijns Embættis Myndugleika vid Lijtilmagnan̄, ecke til ad leidrietta han̄, edur til ad vandlæta i Guds Stad, helldur til ad otta Møn̄um med þvi Vallde, er vier høfum til ad leysa og binda Syndena á Jørdu, Matth. 16. Og til ad hefna sijn a þeim er Men̄ þykiast varhendt eiga. Gud veit ad eg lijg ecke, ad þesse munu Dæmenn giefast, og þo fleire en̄ Eitt. En̄ eg bid ydur, ad þier athuged, þier sem þetta adhafest; Eg bid (segie eg) i Guds Nafne, ad þier athuged, hvad skielfeleg Hæadung ad þetta sie, og hvørsu ad Blood DRottens JEsu, þad Dijra Saattmaalans Blood muni hroopa i Himenenn, þegar þad er so Almennelegt hallded af einum Synda-Þræl, er vænest þessa Guds Umbods, sem fyrer þeirra og allra Manna Synder er Krossfestur; Segied mier, þier Daarar! Mun Gud hafa nockrum um̃boded, ad Foottroda þan̄en̄ sitt eiged Blood? Hvørs minnste Drope ad er Dijrmætare, enn ad Himen og Jørd meige i nockurn Samjøfnud koma. Þessu vil eg hafa viked til þeirra, er setia eirn Vesæling wt fraa Heiløgu Altaresins Sacramento fyrer litlar edur aungvar Saker, og optlega þær, er þeir siaalfer þikiast vid hann eiga. Vited þier ecke, Þier Hræsnarar, ad þvilijk Utsetning er eitt DRottenns Reidar-Slag til þess ad straffa med Gudlausa Menn;

og hanns Nafns Forsmaanara. Þo skamest þier ydar ecke ad taka ydur þad i Hønd til ad slaa þaa med, er ydur er illt i Skape vid. Hvorsu vel hafe þier geimt ydar HErra Bodords? Er hañ segier: Blessed þaa er ydur bølva, giøred þeim Gott er ydur offæk-ia, Matth. 5. Ad þier sieud Børn ydar Føðurs sem aa Himnum er. Enn þegar þier brwked hanns Dijrdarfullu Stoormerke til ad refsa þeim, er þier þykest eiga Hefnder ad giallda, hvørs Syner erud þier þa? ecke hanns er skipade ad lijda Illgresed til Korn-skeru Tijmans, helldur hinns, sem er Mordinge Saalnanna, Joh. 8. Ecke hanns sem gieck i kring, giørde Gott og græddе alla, Act. 10. Helldur hanns er geingur uñ kring sem greniande Leon, leitande ad þeim, er hann faae uppsvelgda, 1. Pet. 5. Þegar DRott-enn JEsus gieck uñ Samariam Fordum Daga, þa sende hann undann sier Læresveina-na, ad tilreida sier Herberge i Borgenne, enn Bæjar-Menn villdu ecke taka vid honum, þvi hann hafde þann Snid aa sier, sem villde hann reisa til Jerusalem; Enn Samaritani hotudu alla þa, er sooktu helgar Tijder þaangad; Þa reiddust þeir Jacobus og Johannes, og søgdu; Meistare, villtu ecke ad vier segium ad Elldur kome af Himne og fortære þeim, eins og Elias giørde; Enn hann Blessadur snereſt vid, straffade þa og sagde: Þier vited ecke hvørs Anda þier erud, þvi Mannsins Sonur kom ecke, ad hann tortijnde Saalum Mannanna, helldur ad hann þær hoolpnar giørde, Matth. 9. Þetta giørdu þeir Johañ-es og Jacobus, af Einfelldne og Oþorfu Vandlæte vegna DRottens, og þo aatallde hann þaa so hardlega; Enn af hvørium Anda giøred þier þetta? ecke Guds, helldur Andskot-ans. Segied mier: Er ecke þad ad kalla Elld af Himne, ad banna Mønnum hina kropt-ugustu Lækning Saalar sinnar, og steipa þeim so til Helvijtis, ad so miklu Leite, sem i ydar Vallde stendur? O þier Skinlauser Vargar! Laated af soddann Æde, nema þier sialfer vilied þola Bræde DRottens uñ alla Eilijfd, J þvi Dijke sem rijkur af Ell-de og Brennesteine, Apoc. 21. Vakned upp og sofed eige leingur; Giøred Ydran, þviad ydar Hiarta er ecke riett fyrer Gude, Act. 8. Hvør Eyru hefur ad heyra hann heyre! Eg villde og faatt eitt vid ydur talad hafa, þier Veralldar Høfdingiar, med ydar goodu Leife: Munu þeir ecke finnast ydar aa medal, er Svefn-Høggve renne aa i Doomara Sæte, edur nær Menn eiga ad giøra Verk sinnar Kallanar, sem Gud og Konungurenn hafa þeim aa Hendur faled: Eg vil eige tala uñ þad, hvørsu Menn lei-ta sier Fordilldar i ad spilla Steinum og Vitnum, þvert aa moote Løgmaalenu, nær Mønnum rædur so vid ad horfa, ad wtleggia Løgenn epter þvi sem Menn þykiast vid þur-fa i þad Sinn, og aka þeim eins og Seglum epter Vedrenu. Þau munu Dæme giefast, ad eirn og hinn same Doomare hefur i eirnre Søk dæmt epter einu Løgmaale, og þvert aa moote hinu sama i ødru eins Maale, ecke fyrer nockur Olijk Atvik edur Haattalag Sakanna, helldur alleina epter þvi, sem hann hefur unnad þeim til, sem hafa vered fyrer Doome hanns. Segied mier: Er ecke þetta ad sofa? Þyker ydur ecke Von aa ad Akur Fiandmannsins grooe vid þetta: Hvørsu Ohlijfner eru Menn i þvi ad tradka Maalunum, og þoott eg segde Bligdunarlauser, þa segda eg ecke ofmiked, þvi Menn giøra þad so ber-

lega

lega aa Stundum, ad þad er ollum heilvita Monnum auglioost, ad Menn setia þær Flækiur i Dooma sijna, sem eirn Tals-Madur, edur sa sem ætte ad veria Hofud sitt, skyllde ecke annarstadar þora ad brwka sier til Forsvars. Eg vil eige faa mier til Orda um̃ opennbera Riettar-Neitun, hvorsu Slægvitrer Menn eru i þvi ad skioota Maalum aa Frest, aan allra Orsaka, so ad hiñ Faatæke og Einstædingurenn, og jafnvel, aa Stundum, þoott hann sie Maals metande, ef Doomarenn er honum mootfallenn, þeir neydast til ad standa af Riette sijnum, og þeim leidest, edur hafa ecke Efne aa, ad sækia hann framar, og vilia helldur giefa epter Sok sijna, enn spilla Tijdenne; og voga Gotze og Omake uppaa þann Riett, sem Menn eiga ad sækia i þvilijkar Hendur. Hvad sijnest ydur nu, gooder Menn? Mun ecke Skaalkurenn og hinn Ogudlege vaxa vid allt þetta, og æfa somu skam̃er Ortalaust; Og þegar honum so hrockur yfer, Sokum Raangsleitnis þeirra, Er Riettenum eiga ad stijra, þa kallar hinn Ohlutvande, ad Gud hafe Pocknan aa sier, af þvi hañ lætur hann vaxa til Kornskieru Tijmans; enn þeir, sem Gud hefur um̃boded, forsooma ad taka Hneixled og hid vonda i burt wr Israel. Deut. 17. Þegar nu so ber vid, þa kalla eg ad Rietturenn sofe, af þvi eingenn er til ad vekia hann; Er ecke slijkt ad raada Dioflenum Verk-Þræla til handa i sinn Akur? Sem ad miklu sijdur forsooma hanns Verk, enn hiner er Guds Ploog eiga ad draga, og være gott ef hier med være kyrt laated. Enn þess være Oskande, ad ecke lidu Menn alleina hinar verstu Skam̃er og Ohæfu, helldur og tæke þær ecke i Forsvar; So sem er Vanskickun og Olæde under Guds Orda Heyrn, Gudlastaner, Vanbrwkun hanns Dijrdarfulla Nafns, til ad skiem̃a sinn Naaunga med og margt þvilijkt fleira, sem heidvyrdur Madur mætte skam̃ast sijn ad nefna, enn sumer ecke bligdast vid ad forsvara, edur, ad miñsta Koste, nærre Ostraffad laata; So þad sem añarstadar i Christnum Londum er med Utlegd, edur og odrum þwngum Alogum straffad, Þvi sleppa Menn hier alldeilis, edur og laatast straffa þad so sem litla Yfersioon enn aungvann Stoor-Glæp. Eg hefe lesed i Guds Manns Rite, er lifde fyrer Hundrad Arum hier i Lande, hvors Saal nu lifer i Himnenum, enn Minningenn er aagiæt aa Jordunne; Hann segest hafa talad vid eirn Mann, er sagt hafe; ad hann ecke villde sveria raangann Eid, þoott honum Sex Hundrud giefenn væru, enn hefde hid Siounda vered i Bode, þa munde kannskie hafa runned aa hann Tvær Grijmur; skrifar þesse Guds Madur. Þetta var ad soñu ein Hofud Skom̃, er hann talar um̃; Enn ecke hygg eg Meñ þurfe ad kaupa soddañ nu um̃ Stunder sumstadar, þad mun faast Okeipis, ef Doomarenn er velviliadur, þeim er aaliggur; sierdeilis ef ecke liggur vid nema Guds og Konungsins Riettur. Segied mier; Mun þad ecke eiga hiaa þeim heima, er so breita, sem DRottenn segier vid Juda, Ezech. 16. Ollum Skiækium verdur Fie giefed til, enn þu hefur giefed þijnum Fylgiu-Monnum Peninga. Er ecke þetta ad sofa? Er þad ad undra, ad þunnskipad er i Guds Akre af Hveite-Staungenne, nær so tilgeingur, og þoott Guds Þienarar kvarte hier um̃, og fære jafnvel slijkt under Log aa Stundum, epter Skylldu sijns Embættis, þa faa þeir aungvu aa-orkad, mæta helldur Araasum þar fyrer, og ei bligdast

hiner

hinir þar vid, þoott þeim sie hier um̃ brixlad, helldur slær vid þvi Hnackanum (so sem Menn pläga ad seigia), Og giora eins og Salomon seigir um̃ Skiækiuna, ad hun strijds ki sier um̃ Andlitid og segie: Eg hefi eckert illa giort, Prov. 30. Þeir blygdast þar vid ad sönu um̃ Stundar-Sakir, enn reka ei ad sijdur Fiandans Eyrendi, so sem hefdu þeir Valld sitt og Veitslur af honum þeigid, enn ecki af Gudi nie Konunginum. Þyki nu nockrum so sem ad þetta hitti aa sig, þa mun saa giefa Hliood af sier sem ækiemur, eñ mar= gt af þessu er Almennara og kuñugra, eñ ad hier þurfi morg Vitni ad leida. Eg fiñ þad ecki med þvi ad grafast þar eftir, þetta er yfir allt, seigir DRottinn um̃ Klæki Gydinga, Jer. 2. Bref og Doomar Manna skulu þad satt giora, er eg ritad hefi, og sialfir þeir, ed æsa þvilijkt, muñu þad þeckia, þoott eigi vilie þeir ad giora, nema þeir sieu forbrendir i Samvitskum, og hafi mist alla Tilfinningu: Nema hinn graadugi Hræ-Fugl Diofs ullinn hafi rigna lætid i Augu þeim heitum Saur, eins og Titlingarnir i Augu hinns gamla Tobiæ fordum Daga, Tob. 2. Sagann segier, ad hann hafi læknadur ordid med Galli Fiskiarins, þegar þvi var ridid aa hanns Augu, þa datt Hreystrid af þeim, Tob. 11. Enn eg veit ecki hvad þessum muni til Lækningar verda, fyrst Guds Blood sær þess ei orkad, og ecki þad beiska Gall og Edik, er honum var borid, Matth. 27. þeg= ar hañ kvaldist fyrir þessar þeirra og allrar Veralldariñar Syndir. Eg veit ecki hvad þeirra Augum muni uppliwka, nema hin stæka Svæla Helvijtis Ellds; Hun mun liwka þeim upp ad vijsu. Annarra Manna Augu skiemir Reikuriñ og sliosgar þau, eñ þessa mun hin eilijfa Svæla heilskigna giora, ad þeir so loksins siaai hoor annars Skom̃, sem hafa giordt Samband aa mooti Gudi og hañs Christe, og ecki villdu upplaata sijn Augu aa mooti hanns Riettlætis og Naadar-Geislum, medañ þeir plaagudu hañs Ut= vallda i Rijki sijns Fodur, sem er Hofdingi þessa Heims: Og þad er um̃ þa riett sagt, er Seneca skrifar um̃ Claudium, ad hann ecki þeckt hafi ad hann daudur var, fyrr eñ hañ saa Lijkfør sijna. Segied mier nu i DRottinns Nafni, segied mier, er ecki þvilijkt ad sofa? Er ecki þad ad vera Saadmadur Fiandmannsins, og spilla Guds Kornekru af ollum Kroftum? Hvor Eyru hefur ad heyra, hann heyri! So heyrid þier nu Ord DRottinns, sem i Landinu bwid, þier sem hanns Um̃bod er aa Hendur falid. Heyrid þier, sem standid fyrir Altari hiñs Allra Hæsta, hvad hann bijdur ydur, af Ezechielis Spaadooms Bookar 33. Cap. Eg hefi sett þig fyrir Vord yfir Israels Hws; nær eg segie til hiñs Ogudlega, þu skallt Dauda deya, og þu varar hann ecki vid, Og seigir honum þad ecki, so ad hiñ Ogudleigi kuñi ad vakta sig vid sijnu Ogudlegu Athæfi, so ad hañ meigi lifa, þa skal hiñ Ogudlegi deya fyrir siña Synda Sakir, enn hanns Bloods vil eg krefia af þinni Hendi. Og so ad þier kunnid med þess meira Frelsi og Myndug= leika, og betri Samvitsku ad Straffa, Ogna og Aminna i Guds Stad, þa hagid Lijferni ydar so sem Christi Þienarar og Raadsmenn hanns Leyndardooma, 1. Cor. 4. Giefan= di anngvum nockra Hneixlan, so ad vor Þioonusta verdi ecki lostud, helldur i ollum Hlut= um hegdum oss, so sem Guds Þioonustu-Menn, eftir Bodi St. Paals; 2. Cor. 6.

Heyrid þier hinir Volldugu i Landinu, og þier, sem Gud hefur Sverdid i Hendur feing-id, heyrid þier Ord DRottinns, lærid gott ad giora, Leitid eftir Riettinum, giorid Riett hinum undirþryckta, lætid hinn Munadarlausa Logum naa, og takid ad ydur Mælefni Eckiunnar, Es. 1. Halldid Doominn og Riettviisina, frelsid hinn undir-þryckta af Hendi Offooknarans, og sturlid ecki hinn Framanda, Foduerleysingiañ og Eckiuna, og giorid aungvum Ofriiki, seigir DRottinn Zebaoth, Jer. 22. Huxid ecki med ydur, ad nær þier þessar Guds Aminningar ad aungvu hafid, ad hann muni þa vera lijkur ydur, þoott hañ þeigi, Ps. 50. Og læti ydur vaxa til Kornskieru Tijmans, þvi hann mun straffa ydur og tala vid ydur under Augun, nema þier ydrest af Hiarta. Lat-ed af Jllu og læred Gott ad giora. Vandlæted i Guds Stad, og uppræted Hneixled og hid Vonda wr Jsrael, Devt. 22. Annars mun þad heita fyrer ydur, O þier af Moysis og Arons Hwse! Hvør sem mig forsmææer, þann vil eg forsmaa, 1. Sam. 2. Þijn Saala skal vera fyrer hanns Saalu, 1. Reg. 20. Þier erud Guder kallader, og aller erud þier Syner hinns Hæsta, gooder Menn, enn þo munud þier deya so sem Mañ-eskiur, Ps. 82. Heyred þetta til samans Andleger og Veralldleger, heyred hvad DRottenn segier ad Alycktun i Utleggingunne; ad Jllgresenu mune verda kastad i Ellds-Ofnenn, þar mune verda Op og Tannagnijstran. Ef þeirra Doomur verdur so stræn-gur, sem fyrer ydar Vanræktar Saker tapast, hvilijkur mun þa ydar Doomur ver-da, nema þier gialldeð Varhuga vid? O! þier Christner Menn, O! þier sem med Guds Sonar Bloode erud Endurkeypter og i hanns Dauda skijrder, Act. 20. Giefed Gæ-tur ad sialfum ydur og allre Hiordenni, sem Gud hefur afrekad med sijnu eigenn Bloode, hvør i sinn Stad: Punded er stoort, Reikningskapurenn er mikell, Guds Blood er dijrt, hanns Reide er þrøng, Doomarenn er stræangur, Lijfed er stutt, Daudenn er vijs, Helvij-te er heitt, Eilijfdenn er laung; Og þier vited ecke nær ed Hwsbondenn kiemur; Enn hvoria þa Att sem Eikenn fellur, þar liggur hun, Eccles. 11. Læted ydur þvi ecke villa med Ogudlegum Heimsins Dæmum, Vered ydur eige samann vid þa sem þier kalled yd-ur verre; Þeirra Fordæming verdur ecke ydar Afbøtun, Þvi hvør eirn mun sijna Byrde bera, Gal. 6. Nema þier ætled ad ydur mune þar fyrer verda roorra i Helvijte og Kvølunum, ad adrer sæta þijngre Hefndum eñ þier þykest hafa tilunned. Satt er þad ad sonnu, ad Guds Riettlæte mun skamta Hegninguna epter Tilverknadenum, og vega Straffed wt epter Þijngd Syndaña: Enn giæt þess, ad øllum mun verda þar Obærelegt. Og so sem ad Utvallder i Dijrd Himnanna munu ei ofunda hvør annann, þoott eirn skijne fegra enn annar; so munu eige helldur Fordæmder hafa neina Roo af þvi, þoott eirn kvel-iest meir enn annar: Mæl þvi ecke Vondsku þijna samañ vid hañs, sem forþienad hefur hel-tara Helvijte; Helldur giør Ydran a medañ þar seigiest enn þa i Dag, Heb. 3. So ei kom-er þu i þann Kvala Stad, Luc. 16. helldur skijna meiger eins og Sool i Rijke þijns Fedurs. Þad veite hinn goode Gud øllum þeim, sem under hanns Merke strij-da, i Utlegd þessare, Fyrer JEsum Christum, AMEN.

A Hreis

# A Hreinsunar Hątijd Mariu.

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

NA Þeim Tijma. Þa Dagar heñar Hreinsunar fullnuduſt epter Moyſis Løgum, Høfdu þau hañ til Jeruſalem, uppå þad þau å Hendur fæle hañ DRottne (ſo ſem ſkrifad er i Løgmaale DRotteñs, Ad allt hvad Kallkyns var, Þad er fyrſt opnade ſiñar Moodur=Kvid, þa ſkyllde kallaſt DRottne helgad; og ad þau gæfe Offred, epter þvi ſem ſeigteſt i Løgmaale DRotteñs, Tvær Turtil=Dwfur, Eda Tvo Dwfu=Unga). Og ſiaa, Ad Madur var þar i Jeruſalem, ſå ed Simeon hiet, Og þeſſe Mañ var Riettlaatur og Gudhræddur, bijdande epter Huggun Iſraels, og Heilagur Ande var med hønum. Simeon hafde og Andſvar feinged af Heiløgum Anda, ad hañ ſkyllde ecke Daudañ ſiaa, nema hañ ſæe ådur fyrre Chriſt DRotteñs. Og hañ kom af Andans Tilladan i Muſtered: Og þa Forelldrarner høfdu Barned JEſum i Muſtered, og giørdu fyrer hønum epter Sidvenju Lagaña, Og hañ took hañ þa upp å ſijna Armlegge, Lofade Gud og ſagde: DRotteñ, Laat nu þiñ Þiþon i Fride fara, epter þvi ſem þu hefur ſagt, Þvíad mijn Augu hafa ſied þitt Hiaalpræd, Þad þu tilreidder fyrer Auglite allra Þiooda: Eitt Lioos til Uppbyrtingar Heidnum Þioodum, og til Dijrdar þijns Foolks Iſrael.

## Exordium.

MArger Veralldar Høfdingiar, Sem og adrer Vijſer og Goder Menn hafa ſier Oſkad, ad þeir mættu lifa ſo leinge i Heime þeſſum, ad þeir feinge bunded Enda å Fyrerætlan ſijna, enn þad hefur þeim Misjafnt tekeſt. Auguſtus Keyſare er ſagt ad optlega hafe talad þad vid Vine ſijna, ad hann villde lifa meiga, þar til hann hefde ad fullu ſkipad Rijkis=Stioornenne i þvi Romverſka Vellde; Og verdur ecke å moote þvi ſagt, ad hønum tookſt þad ad miklu Leite. Eige verdur þvi helldur neitad, ad i þeſſum Aſetninge var mikel Hugprijde. Hinn ſtoore Solimannus, Tyrkianna Høfdinge, æſkte ſier ad deya ecke fyrr, enn hann hefde unned Høfud=Stadenn i Keyſarans Rijke, enn Gud liet þad ecke epter hønum, Daudenn vann å hønum ådur enn hann fieck Borgena unned; Og hender þetta marga þaa, ſem alleina villa lifa til þeſs ad ſeilaſt å adra, og wtrietta gijrugar Hendur til þeirra Hluta, ſem eige eru þeirra. Vijſenda Mannanna Oſk er ſw giarnann, ad þeir mættu lifa ſo leinge, þar til þeir hefdu aflokid Erfide ſijnu, Skriftum og Bookum, og ødru þvi, er þeir fyrer Stafne hafa;

Og er i slijku Tyēnt ad skoda: Eitt er nockurskonar Ærlegur Meinadur, og Elska goods Nafns og Riktis epter sig Daudann, hvad ecke er Lasts vert, Þvi hun hefur morgum komed til Ydne og Astundunar. Annad er Vilie og Asetningur til ad kienna ødrum, Og sierdeilis Epterkomendunum, sem Loflegt er og mikellrar Hroosunar verdt, Þvi þad ber epter sier Elsku og Hugþocka mikenn til Mannkynsins, hvoriu eckert er ꝍagiætara, eckert Gude þeckara, og, ef eg maa so ad Orde komast, eckert Gude lijkara, Þvi hann elskar oll sijn Handavērk. Enn hvornenn sem ollu þessu er vared, þa er eitt Naudsynlegt, og eitt er þad gooda Hlutskipted, sem eingenn maa af þeim taka, Luc. 10. er þad hafa wtvaled, sem er, ad hafa svo lifad, svo trwad og svo tilreidt sig, ꝍadur ein Madur geingur Veg allrar Veralldar, Jos. 23. Ad hann sie fullviss þar um, ad hann i Fride fare af þessum Heime. Þvi prijsa eg Hlutskipte hinns gooda og gamla Simeonis, Ecke svo miog i þvi, ad honum hlotnadest ad siaa Heimsins Skapara og Endurlausnara med sijnum Augum, so sem hann hier segier i Lof-Saungnum, og ad taka hann uppꝍa Armlegge sijna; So sem hitt, ad hann, wt af fullu Trauste um Guds Naad og eilijfa Vist med honum, saung so ad segia þenna Gledelega Lof-Saung yfer sialfum sier: Nu Laat Þu HERrann ÞJOON ÞJNN J FRJDE FARA Epter ORde Þijnu, Þviad Mijn Augu Hafa Sied Þitt Hialpræde. So þad mꝍa kalla, ad hanns Lijk-Psalmur, og Fædingar og Fagnadar Diktur, Endurlausnarans um tilkvedenn, være eirn og hinn same. Sæll er saa Kvidur, er þig bar, og þau Briost er þu mylkter, sagde Kvinnann Fordum vid vorn HErra; Enn hann svarade henne: Hvad um þad? Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þau, Luc. 11. Þetta kiemur mier til þess, ad mier þyker meir koma til þess, ad Simeon beid med Þolemmꝍ be epter Huggun Jsraels, og ad Heilagur Ande var med honum, helldur enn hinns, ad hann saa JEsum, og took hann i Faang sier, ꝍadur enn hann skyldest vid þetta Lijf; Þvi eingenn er þvilijk Sæla og eingenn Styrkur i Daudanum so mikell, so sem ad hafa sied JEsum med Trwarennar Augum, og fadmad hann med hennar Ormum; Þad kienner hann sialfur, er hann sagde vid Thomam: Af þvi þu saast mig, Thoma, trwder þu; Enn sæler eru þeir sem ecke siaa og trwa þo, Joh. 20. Þenna Kost eiga aller þeir ed Ord Guds heyra, i hvoriu JEsus Christus hinn Krossfeste er oss fyrer Augum afmꝍaladur, Gal. 3. Saa sem epter þvi geingur, hann mun med Simeone allshugar feigenn og gladur skiliast vid hreckvijsa Verolld þessa, og kalla Daudann sinn Abata. Og fyrer þvi, ad þessa gooda Manns er minnst i Gudspiallenu, er strax var uppleseð; Þa viliumvier af honum læra, hvornenn vier eigum Fridsamlega ad lifa, so vier kunnum i Fride hiedann ad fara. Þar til hialpe hinn Naadarfulle Gud, Fyrer Forþienustu sijns Eingietens Sonar JEsu Christi, AMEN.

## Utleggingen.

HVad Manna ad Simeon þesse vered hafe greiner ecke Ritningenn um; Þeir ed skrifa, ad hann hafe Kiennemadur vered, færa eckert til sijns Maals, þad er eigi helldur

helldur lijklegt, añars munde Gudspialla-Madureñ ecke hafa þagad um̃ þad, helldur eñ um̃ Zachariam, Fodur Johañis Skijrara, Luc. 1. Lijklegre er þeirra Meining, er ætla ad hañ vered hafe Sonur Hillelis, er Gydingaña Meistarar segia ad vered hafe Læresader Gamalielis, hvør ed sagde hina Roksamlegu Meining sijna um̃ Christne-Boded, er Olldungarner hielldu Raadstefnu um̃ Postulana og þeirra Lærdooma, Act. 5. Þetta er ad sonnu ecke vijst; Enn ef so er, þa var þad ecke ad undra, þoott Gamaliel framar ødrum, stigndest i þenna Lærdoom, þar hañ hefur, aan Efa, heyrt af sijnum Meistara, ad Huggun Israelis, epter hvørre hann beid, munde ecke fiarlæg vera, hvad hann ræded hefur af Spaadoomum þeim er voru af Messia, er þa tooku marger fram̃ ad koma. Meistarar Gydinga høfdu marga Læresveina, Joh. 4. Sem siaa maa af Christo og Johanne, Luc. 10. So hefur og aan Efa Simeon haft fleire enn færre, og er þad vijst, ad hann hefur ecke sijdst talad fyrer þeim um̃ þessa Høfud-Grein Trwarennar, er hlioodade um̃ Messiam og hans Tilkomu, Þvi ecke hefur hann vered sa einaste, er vænte epter hinum Sanna Messia med Ahyggiu so mikelle; Þad segier oss Lucas i þessum sama Capitula, af hvorium Gudspialled er teked, þar hann skrifar, ad Anna Dootter Phanuelis, af Kyne Aser, hafe talad af honum til allra þeirra, er Endurlausnareñar bidu til Jerusalem, hvorier aan Efa vered hafa af Skoola Simeonis edur hanns Lijka. Hvar af oss sie þad kient, ad Menn velie til ad uppfræda Born sijn, ecke einasta Vijsa Menn og Lærda, helldur Sidsama og Gudhrædda, þaa ed underviise þeim i Otta DRottenns, og temie þeirra unguAr aa Riettvijse og Gudrækne, ef þeir vilia ad þau life so i Heime þessum, ad þau sieu viss um̃ ad deya Riettlaatra Manna Dauda, Num. 23. nær þau leysast hiedann. Þad stendur hier i Gudspiallenu um̃ Simeon, ad hann hafe Riettlaatur Madur vered. Ecke meinar Ritningenn hier, ad hann hafe af sialfum sier vered fullkomlega Riettlaatur; Þad er ecke hiaa Mannlegum Kroptum ad finna. Aller vier meigum segia med Job, Cap. 9. Vilie eg Riettlæta mig, þa Fordæmer minn Munnur mig. Ef eg segie mig Saklausann, þa syner hann ad eg er Raanglaatur. Vilium vier fyrer Gude Riettlaater vera, þa meigum vier kasta fraa oss bæde voru Riettlæte og voru Raanglæte. Riettlætenu i þann Maata, ad Madur treyste ecke aa þad, helldur reikne þad Þreck ad vera, so hann aavinne Christum, og finnest i honum, hafande ecke sitt Riettlæte, sem er af Logmaalenu, helldur þad sem er af Trwnne aa JEsum Christum, eins og Paulus, Phil. 3. Eñ Raanglætenu þess vegna, ad Trwenn er daud aan Verkanna, segier Jacob, Cap. 2. Og Gud er Heilagur, hønum lijkar ecke Ogudlegt Athæfe, Ps. 5. Hvad ecke er i þeirre Veru sagt, ad Madurenn siete alldeilis afklædst þessum vonda Syndarennar Ham, aa medañ hañ lifer i Holldenu, helldur aa hann af fremsta Megne ad leitast vid ad Krossfesta hinn gamla Manneñ, Rom. 6. Judar segia i Skrok-Søgu sinne eirne, ad, þegar Noe giorde Sonu sijna fraa sier til ad byggia Verolldena, þa hafe hann feinged þeim i Hendur nockrar Reliqvias edur Meniar hinns gamla Adams, Fodur vor allra; Kann skie lijkar þeim, ed Papistar hafa bykiast epter sijna helga Menn, og eru i miklu Gillde hiaa þeim. Fraavijsleg er Saga þesse

ad sonnu, enn þo minner hun mig aa ad hugleida med Trega nockrum, ad Forfaderenn Noe, sem var Riettlaatur Madur, Gen. 6. og Riettlætesins Predikare, 2. Pet. 2. til hvörs ad aller Menn i hinne seirne Verolldu eiga Kyn sitt ad rekia, hann hefur ofs epterlaatid nockrar Leifar hinns gamla Adams, er vier Daglega finnum i vorum Limum, so ad Paulus segier: Holldeð gyrnest i moote Andanum, og Andenn i moote Holldenu, og þetta er hvort aa moote odru, so ad þad þier villed jafnvel ecke giora, þad giore þier, enn ef þier leidest af Andanum, þa erud þier ecke under Logmaalenu, Gal. 5. Enn ef vier ecke erum under Logmaalenu, þa erum vier Riettlaater, og þannenn var ad sonnu hinn gamle Simeon Riettlaatur. Enn ecke meinar þo Gudspiallamadurenn hier þetta Riettlæte, edur þad ofs verdur fyrer Lausnarans Forþienustu tilreiknad, helldur merker þetta Ord, Riettlaatur, i þessum Stodum, þad sama og vier kollum goodann Mann og Raadsvinann, þann er vandar Ord sijn og Giordir, bædi fyrir Gude og Monnum, og so merker þad vijda i Ritningunni. Vertu Froomur og Riettvijs, segier David, Ps. 37. Þvi slijkum mun ad Sijdurstu vel ganga. Hinn Riettlaati, sa ed framgeingur i Einfelldni sijns Hiarta, mun laata farsæl Born eftir sig, segier Salomon, Prov. 28. Þessa Riettvijse aa hvor Christenn Madur ad temia sier, annars er hann ecke Christenn: um hana hefur margur Heidinge vel talad, og hana so tamed sier, ad lijted hefur sijnst Aboota vant fyrer Manna Auglite, hvar med þeir hafa giort Skom til Christenna margra hvorra, þeir ed aungvann elska nema sialfa sig, og hyrda eckert um hvornenn þeir aasælast Liitilmagnann. Aristoteles segier; Ad hun sie hin kostulegasta Dygd, og allar Dygder sieu i henne foolgnar: Þad er og satt, þvi aan hennar meiga þær ecke Dygdanna Nafn bera. Vitskann og Framsijnenn er Hreckvijse, ef ecke fylger henne Riettvijsenn: Hugprijdenn er eitt Boduls Sverd, nema hun stioornest af Riettvijsenne. Orlæted, hvort aller Menn elska, þad er þo Gloopska og Athlæe Manna, ef þad vantar Riettvijsena. Sa sem eys ut Femunum sijnum til Onijtis, edur giefur þeim er sijst skyllde, enn lætur Þurfamannenn og Daglaunarann missa, mun hann ecke Osvinnur og Daare kalladur? Sparsemenn er ein aagiæt Dygd, enn þo er hun best med Riettsijne: Sa sem sparar audrum þad þeim byriar ad giefa, hann er Kargur og ecke sparsamur, og ef hann sparar sialfum sier, þad sem Lijkamenn vid þarf, þa er hann sialfs sijns Oþocke, ef hann giorer þad af Kiergiu eirne, og ecke til ad temia sitt Holld, ad hann þess betur fae Gude þioonad, eins og Paulus segiest þrælka sinn eigenn Lijkama; Enn hitt er Loslegt og Gude þægt, ef nockur sparar Lijkama sijnum, jafnvel Leifelegt Epterlæte fyrer hanns Saker. Eingenn Dygder aagiætare enn Miskunsemenn; med henne kunna synduger Menn allra mest ad lijkiast Gude Skapara sijnum, Luc. 6. Enn ef hun er aan Riettlætis, so Menn vægia þeim sem Gud bijdur ad straffa, þa er hun ein Svijvirding og meste Glæpur i Auglite hinns Hærsta Doomara. Og i einu Orde ad segia: Riettvijsenn er sw Mælesnwra, aa hvoria ad stikast eiga Ord vor og Giorder. Veit eg ad einhvor kann ad segia; Eg ber ecke Vitsmune til þess, ad siaa og þeckia hvad riett er, hvornenn maa eg þa giora þad? Mier kann optlega ad skiöstast i slijku. Þar til

svara eg; Ad hellst er þad i Doomum og ødrum Vandrædum, ad Menn þurfa so mikillrar Skinseme med, og er þeim Raadlegt, sem eru sier Faavitsku sinnar medvitande, ad þeir sjeu þar fraa, og ecke trode sier inn i Doomara Sæte, edur hlaupe til þess mikla Vanda, eins og lijsadur Hestur til Bardaga, sem þo margur Daare giører: Eñ hvornenn sem þvi er vared, þa er þad almennelegt, ad margur giører verr enn hann veit, eñ ollum kann yfer ad siaast; Þad er Mañlegt, og maa þad hvor Madur ødrum jaata; Enn i Daglegre Umgeingne, J Kaupum og Solum, J Umtale um Naungañ, J Spekt og Kyrrlæte vid hann, i þeirre Virdingu, sem Meñ eiga ad syna Forelldrum og Yferbodurum, þa er eingenn Heilvita Madur so faavijs, ad hann ecke nockurnveigenn vite hvad hann aa ad giora, ef hañ giefur sier Stundir til ad athuga þad. Og hvad um gilldir; erum vier ecke allir nøogu Vidkvæmir og Grañskignir, til ad þeckia þad, sem oss siaalfum er aa moote brotid? Enn þessa Hugreñingu skylldum vier brwka, nær vier eigum nockru vid adra ad skipta, þvi hier ætla eg duge sw aagiæta Regla, sem Frelsarenn hefur oss epterlaatid: Hvad þier vilied ad Meñerner giore ydur, þad giorid þeim eirninn, Matth. 7. Og sa sem hana hefur jafnañ fyrir Augum sier, hañ mun sjdur syndga. Eñ þetta formaair nu Heimur þesse og þykir i þvi lijtell Vijsdoomur vera, samt ætlar hann sier ad deya Simeonis Dauda, jafnvel þoott þeim verde ad Skyndingu i burtu svipt, aa medann þeir hvad mest eru ad æfa Svik, Prette, Fiedraatt, Undirferle, Fiandskap, og allrahanda Raangsleitne, eins og ad þvilijkra sie Himnarijke. Enn eg segie ydur i Umbode Guds, fyrir hvørium eg stend, ad nema þier giorid Ydran, legged af Ligar og Prette, Agyrnd og Undirhyggu, og adra þvilijka Løstu, sem mootstrijda Riettvijsenne, þa munud þier ecki inngaanga i Guds Rijke. Þetta kieñir mier JEsus Christus, hvor siaalfur er alls Hollds Doomare, og rædur fyrir Himnenum, er hann sagdi, Luc. 18. Hvor hann ecke medtekur Guds Rijke so sem Ungbarn, hann mun ecke iñgaanga i þad. Bered ydur nu samañ vid soddann eitt Barn, og rannsaked hvort þier erud þvilijker i Goodlyndenu og Einfalldleikanum, og ef þier kunned ad fiña þess nockurn Mun, þa vited, ad þier erud eins laangt fraa Himnarijke; þar er ei vid ad dyliast, nema þier vilied reingia Ord DRottens. Segied mier, hvorier munu sitia til Bords med Simeone, med Abraham, Jsaac og Jacob i Rijke Himnanna? Matth. 8. Þad segier David oss i Psalmenum 15. med þessum Ordum: DRottinn, hvor mun bwa i þinni Tiaalldbwd? Hvor mun stadnæmast aa þijnu Heilaga Fialle? Hañ saa ed frañgeingur Flecklaus, og giorir Riettvijsena, og talar Sannleikann wt af Hiarta, hvor ed ecke bakmæler med sinne Tungu, og Naaunga sijnum ecki Jllt giører, og leggur ecke sijnum Naaunga neitt Lastlegt til, hvor ed einkis aktar hinn Ogudlega enn i Heidre hefur hina Gudhrædda, hvor ed helldur þad er hann sver sijnum Naaunga, hvor hann giefur ecke Fie sitt wt uppaa Okur, og tekur ecke Mwtur yfer þann Saklausa, hvor ed þetta giører, honum mun vel vegna Æfennlega. Hier siaed þier, hvorier ad verda mune Bord-Giester i Lambsins Brwdkaupe. Ydur hefur fyrer laungu boded vered, Laangt er sijdann Husbondenn

Ju liet

liet segia; Mijner Uxar og aled Fie er slaatrad, Allt er til Reidu, Komed til Brwdkaupsins, Matth. 22. Rannsaked nu sialfa ydur, hvort ad þier erud skrijdder Brwdkaups Klæde, ef hann kann ad koma um Midnætte, þad er, nær ydur minst varer. Eg veit þier segied, ad Gud hafe mørgum Syndernar fyrergiefed: O Jaa, þad er satt, enn þo þeim einum, sem þeirra hafa ydrast wt af Hiarta, læted af Illu, og lært Gott ad giora, Es. 1. Þetta vited þier, hin Raangsnwna Kynslood, enn merked þad þo ecke: Samt uppeted þier þo Guds Foolk, og aled sialfa ydur, enn DRottenn aakalled þier ecke, Ps. 14. So snwed aptur i Guds Nafne, Snwed aptur, eg grаatbæne ydur fyrer hid dyra Blood JEsu Christi og ydar Velferdar Saker, leited Fridarens, og fylged honum epter, Ps. 34. Ottest DRottenn og giored Riettvijsena, Act. 10. So Gud faae Velþocknan aa ydur, og burtkaste ecke eilijflega. Og er þad so sagt um Riettlæte Simeonis.

J Annann Maata stendur hier um Simeonem, ad hann hafe Gudrækenn vered. So sem ad øll su Skyllda, er vier eigum Naunganum ad sijna, og oss er fyrerskrifud i hinne Sijdare Bodorda Toblunne, hun er i Riettvijsenne innefalinn, So er og hiner vier eigum Gude ad giallda, og oss bodenn er i hinne Fyrre, J Gudræknenne foolgenn. Hann var Gudhræddur Madur, segier Lucas: Hn brwkar þad Ord er merker Guds Dijrkara, þann er ræker hans Bodord, ecke so af Otta, so sem af Elsku og Virdingu. Þannenn aa og Christenn Madur Lyndur ad vera, þoott þad sie ecke Onijtt ad hrædast Gud, af þvi hann er Riettlaatur, og straangur Vandlætare, Exod. 20. Þaa er þad eige fullkomenn Guds Dyrkun. Ottenn duger til þess ad reka Syndarann til Guds, þegar hann hugleider þad, ad hann hafe hans Reide forþienad. Enn Jhugan Guds Fodurlegrar Giædsku, hans Speke, hanns Þolennmæde, uppvekur Elskuna i Mannsins Hiarta, sem lætur oss verda eitt med Gude, og kveiker soddann Unadsemd i vorre Saal, ad Menn forsmaa alla Hlute jafnvel hiaa Krosse DRottins, eins og St. Paall, Phil. 3. So eg maa segia; Ad Ottenn er Fader Gudhrædslunnar, enn Elskann til hanns er Mooder ad henne. Ottenn gietur hana i Fyrstunne (Þvi segia Gudlauser Menn, ad Ottenn hafe Gudena giort), enn Elskann tekur vid henne, elur hana og nærer i Hiarta Mannsins, aa medann hun er ecke Fullburda, eins og ein Mooder sitt Foostur, þar til hun kiemur i Lioos, og auglijser sig i goodum Verkum, og smaamsamann vex hun eins og annad Ungmenne, epter fullkomnum Mæler Christi Alldurs, segier Paulus, Eph. 4. So ad þvilijk Daasamleg Skiepna Heilags Anda, skijn so sem eitt Lioos aa medal hinnar hreckvijsu Kinslooдar, so sem ein Sool aa Himnenum; ecke eins og Sool Ezechiæ Konungs, hvør ed gieck til baka, 2. Reg. 20. Ecke eins og Sool Josuæ, hvør ed stood kyrr, Jos. 10. Helldur eins og Sool Davids, hvør ed gledur sig af ad hlaupa sinn Veg, Ps. 19. Þvi sаa, ed Gud elskar, honum þyker inndællt ad giora þad honum lijkar, og lætur sier jafnann i þvi framfara. Cicero wtmaalar Gudræknena þannenn; ad hun sie Riettvijse aa moote Gude: Hann sagde vel, þvi hann sagde allt þad hann visse edur vita kunne, og var ecke meire Von aa heidnum Manne, og hefur hann þo enn þaa talad Christelegar (Ef eg maa so segia um einn Heidingia) i ødrum

i odrum Stad hier um̃, þar hann seigir: Ef Gudhrædslañ er i burtu tekinn, þa gietur þad eigi odruvijs ordid, enn ad allur Trwskapur og allt Samneyti Manna a medal, og hin kostulegasta Dygd Riettvijsiin fari og i burt; þetta er vijslega talad, þvi sa sem ecki Gud ottast, sem ad i Augnabliki gietur kastad honum i Afgrunn Helvijtis, hañ mun eigi verda miøg hlijfinn vid sinn Jafningia. Þad sia Meñ a hinum Gudlausu Satans Þrælum, er segia i Hiarta sijnu: Þar er eingin Gud, Ps. 14. Hvorki hallda þeir Ord nie Giordir, og aungvum hlijfa þeir, sem þeir sa Hond yfir. Til þessa eru Dæmi, jafnvel i Landi voru, ecki miøg gomul. Og er hier af audsært, ad þad er Dagsatt, er hinn sami skrifar, ad Gudleysid taki allann Trwskap i burt wr Verølldinni, og spilli so Sambwd Mannanna, ad ecki er vært i Heiminum aan þess, ad Menn Ottist Gud: Og þetta Valld Guds er so rijkt a medal Mannanna, ad jafnvel Afguda-Dijrkun Heidingianna, sem voru aan Guds i Heiminum, Eph. 2. hefur þvi valldid, ad þeir ecki uppatu hvor añann. So eg vil hier um̃ segia, vidlijkt og Aurelius Alexander Keysari svarادi þeim, er villdu giora Samkundur Christenna Manna ad Dryckiu og Legu-Kofum; ad miklu betra væri ad Gud þar med einhvoriu mooti dijrkadist, enn ad þau skylldu brwkast til slijkra Odæda. Þad var Roksamlegt og Konunglegt Svar af heidnum Manne. So vil eg segia, ad betra er, til ad hallda Samvist Mannanna vid i Heiminum, ad dyrka Gud med einhvoriu Mooti, þegar eigi eru til þess brwkadar hinar verstu Syndir og Glæpir, sem Diofullinn lætur sier þioona med, helldur eñ hafa aungva Trw a honum, þvi þad mundi giora Verølldina ad Herbwdum Madianita, hvar eirn ryckti Sverdi a mooti sijnum eiginn Broodur og Lagsmanni, Jud. 7. Satt er þad sem Johannes, segir, ad hvor sem ecki elskar sinn Broodur, hvorn hann sier, hvorninn kañ hañ Gud ad elska, þann hann sier ecki? 1. Pist. 4. Enn eg þori og ad segia, ad hañ sem ecki elskar Gud, sem hefur skapad hann, endurleyst og helgad, hvorninn gietur hann sinn Broodur elskad? Þvi bægt mun oss, sem vondir erum, og undir Syndina selldir, Rom. 7. ad elska Ovini vora, Blessa þa er oss bølva, giora þeim gott sem vid oss misgiora, Matth. 5. nema vier giorum þad fyrir Guds Sakir, og verdur þvi Ottinn og Elskann til Guds undann ad gaanga, og sie hun alvarleg, þa er einsætt ad hitt a eftirfilgir, þvi sa sem hann elskar, Hañ vardveiter hañs Bodord, 1. Joh. 5. Og er þetta eitt af þeim hellstu, sem nu sagda eg, ad elska Ovin siñ. Hvad sem nu Heidingiar ritad hafa um̃ Gudhrædsluna, er alltsamann goodra Giallda verdt, og dugar ad vijsu til þess ad sijna oss Christnum Monnum, hvorsu ad hun hafi þoott Omissandi, jafnvel þeim er mest litu eftir þvi nærlæga, og ecki so eftir þvi sem þar uppi er. Enn St. Paall kiennir oss heñar Nytsemi miklu betur, 1. Tim. 4. Segiandi: Ad Gudhrædslann sie til allra Hluta þarfleg, hafandi Fyrirheit, bædi þessa Lijfs, sem nu er, og so hiñs komanda. J Gamla Testamentinu hafdi þesse Hofud-Dygd mikil Fyrirheit um̃ Tijmannlega Farsæld, so sem allvijda maa lesa, bædi i Moysis Bookum og añarstadar; kannskie þessvegna, ad Guds Foolk, a þeim Dogum, hofdu fleiri Bodorda og Setninga ad geima enn vier Christner Menn

so og voru ecki Fyrirheitinn so lioos um̃ Dijrd hiñar eptirkomandi Sælu i Guds Rijki; Eñ sijdann Jesus Christur hefur afmaad Ovinskapinn, Logmaal Bodordanna, sem var innifalid i Setningunum, fyrir sitt Holld, so sem Paulus ad Ordi kiemst, Eph. 2. Sijdañ vier høfum feingid ad siaa og heyra þad, sem margir Konungar og Spaamenn gyrntust ad heyra og siaa, og saau þad ecki, Luc. 10. Sijdann hafa Guds Astvinir ecki so stoor Fyrirheit um̃ Lijkamlega Farsælld, og þad til þess, ad Sætleiki eftirkomandi Alldar, (hvørn vier smøckum i hinu gooda Guds Ordi, Heb. 6.) Hann yfirgnæfir allann Tijmannlegann Føgnud og Medlæti; so ad þeir ed Gud elska og lijda fyrir Christi Sakir, eru gladir i Hørmungunum, og hallda þad mikinn Føgnud, nær þeir rata i Ymislegar Freistingar, so sem Jacob bijdur, Cap. 1. Vitandi þad, ad Reynsla Trwar vorrar, hun aflar Þolinnmædis. Ecki er vid þad ad dyliast, Br. M. ad saa sem vill Gudhræddur vera, hann maa bwa sinn Hrygg undir Christi Ok; 2. Tim. 3. Eins og þegar eirn Kappi bijr sig til Orustu; Og þoott Gud laati honum heppnast Lucku og Heidur i Verølldinni, sem hann og hefur mørgum af sijnum Astvinum veitt, þa er þar þo alltijd einhvør Baraatta, annadhvørt hid Innra edur hid Ytra. Sie þar ecki annad, þa er þar Andskotinn og hanns Þrælar, sem jafnañ offsækia þa, sem geingid hafa a Maala med Christo. Satan kieppist vid af øllu Megni ad nidurbrioota Guds Rijki, og alldrei lætur hann af ad skioota sijnum Ørvum aa Guds Her i Verølldu þessari, so leingi sem hann heitir Diøfull og Andskote; og þarf til þess mikla Gudhrædslu og Alvørugiefni ad saa honum og hanns Arum i mooti stadid, bædi Synilegum og Osynilegum. Enn þegar hinn mikli Guds Kraftur er so maattugur i Breyskleika sinna Astvina, ad þeir saa stadist Araasir vondra Manna, þegar hann styrkir þa og stødugagiørir i sijnum Ordum og Trwnni allt til Æfiloka; þaa kalla eg ad hvad mest sannist Ord St. Paals, ad Gudhrædslann hafi Fyrirheit þessa Lijfs: Og hefur hinn Almaattugi Gud þad oftlegg og Undrunarsamlega fram̃koma laatid, og lætur enn nu i Dag, aa øllum þeim, er honum treysta. St. Paall kallar hina Utvølldu Guds, þau Kier i hanns Hwsi, er hann hefur til Heidurs sett, Rom. 9. A þessi Kier fellur Dupt nockud aa Stundum, so þad hendir sig, ad þau verda jafnvel Groomtekinn. Vondir Menn eru ein Þvaga, sem hañ hreinsar þessi sijn Kier med, so þau verdi hæf til Þioonustugiørdarinnar, og setur þau so aftur inn i Guds Hws, nær þau eru hrein ordinn, enn Þvøgunni kastar hann i burt, ad hun verdi Footum trodinn. Gud leifir, ad þeir ed hañ Ottast, verdi aa Stundum nidurþryckter, eñ alldrei undirþrycktir; Saa sem fæst vid einn Gudhræddann Mann, þad er so sem berie hañ eirn Klett med Vendi; Vonduriñ slitnar, enn Kletturinn verdur hinn sami: eins og saa er vill kiæfa Elldinn med Oliu, hun fortærist, enn Elldurinn logar þess gladar: þad er eins og ad binda Samson med Streingium, þeir hrucku i sundur eins og Hør-Þraadur, er hann rietti sig, Jud. 16. Samson hiellt sijnum mikla Styrk, allt þar til Skiækiann fieck rakad hanns Haar af: Guds Børn eru Osigrandi, allt so leingi þau hallda sier vid DRottinn JEsum, hvør ad er Safnadarins Høfud, Eph. 5. Enn þegar þeim verdur

þad

þad ad taka hina slæmu Dalila Verolldena i Fadm sier, þa missa þau allt sitt Afl, hun stijngur þeirra Augu wt og giorer þa Philistæis, þad er Satans Bornum ad Herfange, Jæ, ad Spotte og Athlætre, Nema Menn danse epter þeirra Pijpu, og er þa Daudenn vijs, nema Menn deyde siælfa sig ad niju eins og Samson, Jud. 16. Þad er, drepe hinn gamla Adam med hanns Gyrndum og Tilhneigingum, og burtkaste Fijsn Augnanna og Drambsomu Lijferne, ad Menn verde heilskigner aptur og siæe Liosed i hanns Lioose, er oss hefur fyrer sinn Dauda sett til Arfskiptis Heilagra i Liosenu, Col. 1. So er nu Gudrækneñ æ sig komenn, og so er hun þorf og Nitsamleg, Jæ, Omissandei þessu Lijfe, enn þo gagnar hun hvad mest i Daudanum, þvi hann verdur þeim Inngængur til Lijfsins er Gud Ottast, tilad medtaka þar Fyrerheit epterkomande Alldar.

Sæ sem hefur i Lijfenu tamed sier Riettvijsena vid Næungann, og Ottann og Elskuna æ Gude, hann fagnar Daudanum, og segier med Simeone: Nu lættu DRottenn Þioon þinn i Fride fara epter Orde þijnu. Þvi eins og Simeon hafde Andsvar feinged af Heilogum Anda, ad hann skyllde ecke Daudann siæ, nema hann sæe ædur Christ DRottens; so bera og þesser jafnañ med sier Vitnisburd Heilags Anda i sijnu Hiarta, ad þeir sieu Guds Born, Rom. 8. nær sem þau leysast i burt hiedann. Hvornenn kañ þvi þann eirn Guds Astvinur Daudanum ad kvijda? Daudenn er ad sonnu hrædelegur, þvi hann er Verdlaun Syndarennar, Rom. 6. Enn hvorium er hann hrædelegur? Þeim sem ecke eru Heimenum dauder, enn ecke þeim, hvorra Lijf Christur er, enn Daudann kalla þeir sinn Abata, Phil. 1. Daudenn er oss, syndugum Monnum, eins og Myrkred er Bornunum, þau ottast þad þess vegna, ad þau ætla i þvi mune bwa nockurskonar Vode, og sierdeilis þau, sem Heimsker Menn leggia i Vana sinn ad fæla med Grijlum og Ofreskium; So er Daudenn; af þvi Menn heyra so miked uñ hanns Grimleika talad, þvi kvijda Menn so fyrer honum, og veit þo eingenn hvad mikell hañ er. Hvor veit, hvort Menn finna meir til i Daudanum, enn i Fædingunne? Þetta man eingenn; Eingenn er helldur aptur komenn til ad segia oss hitt.

Þar er varla so lijtilsiorleg Tilhneiging, ad hun ecke forsmæe Daudann. Heiptræknenn aktar Daudann ad aungvu. Þad sijner oss þeirra Dæme, er selia sitt Lijf fyrer Lijf Ovina sinna. Hvad margur hefur dæed fyrer Ast Kvenna, sem er Hiegoome i siælfu sier? Syrach kienner oss, ad honum, sem æ mootegeingur, þyke Daudenn sætur; Otte fyrer Vanvyrdu nockurre, giörer Daudann liettann; Medaumkanenn giorer hid sama. Þegar Otto Keysare villde helldur taka Lijfed af siælfum sier, eñ ad læta stræhoggva Lid sitt nidur med Sverds Eggium, þa voru marger af hanns Fylgiurum, er alleina af Medaumkan logdu Hendur æ siælfa sig: Enn ef Hiegoomenn virder Daudañ so lijtils, hvad liettur mun hann þa vera þeim, sem fara i Fride hiedann, og vita ad hann er Inngængur til Lijfsins? Ritningeñ talar uñ Daudann, so sem Endurlausn af Fængelse. Allur Israel sæ Aaron leysast, (segier Num. 20.) Eg gyrnest ad leysast hiedann og vera med Christo, hvad miklu betra er, segier Paall, Phil. 1. So þyker og ollum þe-

im, er Heimurenn er Krossfestur vegna Christs, og þeir Heimenum, Gal. 6. Þeir Andvarpa med Paulo og segia: Æ Eg syndugur Madur! hvor mun leysa mig fraa þessum Daudlega Lijkama? Rom. 7. Ottast þvi ei ad deya, Christenn Madur, helldur ad deya Illa, þad mun þier til eilijfs Lijfs gagna. Þad er gott Daudann ad Ottast, til þess ad fordast þad, med hvoriu vier forþienum hinn eilijfa Dauda. Tijmannlegur Daude er ecke i sialfum sier Ognarlegur, nema vier segia vilium, ad þad sie Illt, ad sleppa wr Faangelse, wr Þrældoome, wr Siovolke; Þvi hvad er þetta Lijf annad? Þad er hrædelegt sem epter hañ kiemur, ef audruvijse ferē vel. Þad er vitañlegt, ad Daudenn er Guds Børnum Inngaangur til eilijfrar Sælu. Og þvi skyllda eg þa ei vilia ganga eitt sinn i Bardaga, til ad vinna heillt Konungs Rijke? Enn þeim, er tapast, verdur hann Leid til eilijfra Kvala. Nu veit eg ad Þioofurenn hrædest ecke Stigann sem liggur upp i Gaalgann, enn Snøruna hrædest hann. So er þad og daarlegt fyrer þann, sem hefur leitad epter Helvijte alla Æfe sijna, ad hann skule hinn Tijmañlega Dauda hrædast, og ecke miklu helldur hinn eilijfa, sem aa epterfylger; hann mætte Oska og feigenn verda, ad Helsootten og Fiorbrotenn mættu vara um̃ alla Eilijfd, ef hann mætti þar med sleppa fraa hinum eilijfa Ellde, sem fyrerbwenn er Dioflenum og øllum hanns Einglum, Matth. 25. Þvi þar mun betur bijta. Þar fyrer, O Þu Syndugur Madur! nær þu sier hiñ Nakta og villt ei klæda hann, hinn Svaanga og villt ecke metta hann, og hinn Þyrsta og villt ei giefa honum ad drecka, Jaa, nær þu sier Ovin þinn hungra edur þyrsta, og villt ecke giefa honum ad eta edur drecka. Nær hinn Vollduge og hinn Vesæle standa bææder fyrer Doome þijnum, nær þu aattad vandlæta i Guds Stad, edur hialpa hinum Naudstadda til Riettarens, nær Reidenn tekur þig, nær Løstenn blindar þig, nær Agyrndenn kvelur þig, nær Øfundenn freistar þijn, og i einu Orde ad segia, nær Dioffullenn, Hollded og Heimurenn vilia locka þig, til ad styggia þinn Gud; Laat þa Daudann vera þier Ognarlegann; Imynda þier hann þa, sem eirn skielfelegann Helvijtis Ar, þann er bwenn sie til ad gleipa Saalu þijna og færa i eilijfar Pijsler; Laat sem hann fyrer Dyrunum stande, og eige ad heimta þig under hiñs Vollduga Guds Doom, til ad giøra Reikning fyrer þad, er þu ætlar Samstundis ad fremia. Þannenn skulu Menn Daudann hrædast, og hann ed so giorer, og temur sier þetta Hugarfar, og lifer þar epter i Guds Otta og Trwnne aa Christum, hann þarf ei ad kvijda; hann mun med Simeone Daudanum fagna, hann mun i Fride burtu leysast og deya Riettlaatra Manna Dauda. Hvad oss øllum, Jaa, øllum sijnum Børnum, hvar hellst þau eru um̃ Heimenn, Unne og veite Gud Fridarens, Gud Fagnadarens, og Gud Lijfsins og Daudans, Fyrer siñ Eingietenn Son JEsum Christum, AMEN.

# Siøtta Suñudag eftir Prettanda.

Þessa Dags Evangelium, sem skrifad stendur hiaa Matth. 11. Cap. Og so Predikunina þar yfir, maa lesa þañ Tuttugasta og Siøtta Suñudag eptir Trinitatis, hvør og tilheyrir þessum Deigi, þvi þegar þessi Suñudagur iñfellur, sem skiaſdañ er, þa eru ecki so margir Suñudagar aa millum Trinitatis og Adventu.

Fyrsta

# Fyrsta Suñudag i Nijuvikna Føstu.

Gudspialled, Matth. 20. Cap.

J Þañ Tijma. Sagde JEsus til sinna Læresveina þessa Eptẽrlijking. Himnarijke er lijkt einum Hwβs-Fedur, sem wtgieck sneṁa Morguns, Verka-Meñ ad leigia i siñ Vijngard. Eñ ad giørdum Samninge vid Verka-Meñena, ad Daglegu Penings Giallde, sende hañ þaa i siñ Vijngard. Og nærre Þridiu Stundu gieck hañ wt, og leit adra Jdiulausa standa aa Torgenu, og sagde til þeirra: Fared þier og so i Vijngardeñ, og hvad riettvijst er mun eg giefa ydur; og þeir geingu burt þaangad. Og hañ gieck eñ wt aptur uṁ Siøttu og Nijundu Stund, og giørde slijkt hid sama. Nærre Elleftu Stundu gieck hañ wt, og fann eñ adra standa Jdjulausa, og sagde til þeirra; Hvar fyrer standed þier hier allañ Dag Jdjulauser? Þeir søgdu til hañs: Þviad eingeñ hefur leigt oss; Hañ segier til þeirra: Fared þier og i miñ Vijngard, og hvad Riettvijst er, skulud þier faa. Eñ þa Kvølld var komed, sagde Herrañ Vijngardsins til sijns Raads-Mañs: Kalla þu Verk-Meñena, og gialld þeim Verdkauped, og tak til fraa hinum Seinustu, allt til hinna Fyrstu. Þa komu þeir, sem nærre Elleftu Stund leigder voru, og medtook hvør þeirra siñ Pening. Eñ hiner sem fyrster komu, þeir þeinktu, ad þeir mundu faa meira: Og hvør þeirra medtook siñ Pening. Og þa er þeir høfdu hañ medteked, mogludu þeir aa moote Hwβs-Fødurnum, og søgdu; Þesser enu Seinustu hafa eina Stund erfidad, og þu giørder þaa Jafna vid oss, sem bored høfum Hita og Þwnga Dagsins; Enn hann svarade og sagde til eins þeirra; Vinur, eige giøre eg þier Oriett; Ertu ecke aasaattur ordenn vid mig uṁ eirn Pening? Taktu hvad þitt er, og far i burt; Enn þessum hinum Seinasta vil eg giefa so sem þier. Eda leisest mier ecke ad giøra af mijnu hvad eg vil? Eda ertu þar fyrer Rangeygdur, þo ad eg sie Goodgiarn? So verda Seinaster hiner Fyrstu, og Fyrster hiner Seinustu Þviad marger eru Kallader, eñ faaer Utvallder.

Exordium.

Þegar St. Paall, 1. Cor. 2. skijrer fraa, hvør ad hafe vered Atferd sijn i Christne-Bodenu, er honum var aa Hendur faled, þa talar hann svo medal annarra Orda; Þegar eg kom til ydar, Brædur, þa kom eg ecke med Yferlæte Ordanna

edur Spekennar, er eg bodade ydur Evangelium. Þad maa vijda siaa i Heilagre Ritningu, ad Gud hefur ecke viliad laata sijn Eyrende vera bundenn vid Maal-Snylle mikla. Þegar Moyses afsakade sig fyrer Gude fraa Sendeforenne til Pharao, talde hann þad mest til, ad sier være þwngt um Maal, Þa svarade Gud honum: Eg skal vera med Munne þijnum og kienna þier hvad þu mæla skallt, Exod. 4. Vidlijke fieck Jeremias ad heyra, er hann taldest undann ad flytia Guds Eyrende til Jerusalems Manna, Og sagde: Ach DRottenn! Eg er Ungur og kann ecke ad tala; Enn DRottenn svarade: Seig ecke, jeg er Ungur, helldur til þeirra sem eg sende þig skallt þu fara, Og þu skallt tala allt hvad eg skipa þier, Jer. 1. Hvi mun hinum Almaattuga hafa þocknast ad haga þessu svo? Siaalfur hefur hann Mannenum Munnenn giefed, Exod. 4. Skyllde hann þa ecke vilia laata brwka Gaafur sijnar sier til Dijrdar og Lofs? Þar hann aungvann Hlut hefur i Naatturunne forgiefens skapad, auk helldur Maalfæred, sem er eitt med þeim bestu Guds Gaafum. Paulus kienner oss Orsokena hier til med berum Ordum, 1. Cor. 1. Segiande: Christur hefur sendt mig, ecke til ad skijra, helldur til ad predika, ecke med Spakmælum, svo ad Krossenn Christi verde ecke ad aungvu. Hvornenn maa Krossenn Christi af Spakmælunum nockra Nidrun hafa? Þad kienner Paall strax epter i sama Cap. Þvi sw Ræda um Krossenn, segier hann, er Heimska þeim sem fyrerfarast, enn oss, sem hoolpner verdum, Kraptur Guds. Eingenn Hlutur er svo Foracktanlegur fyrer Heimenum, svo sem Christi Kross, svo ad þaa sem hann aa Herdum bera, kallar Postulenn Afrak og Hreinsun Veralldar: Eckert er þo kroptugra Medal til ad draga synduga Menn til Himnarijkis, helldur enn hann. Afreks Verk hefur alldrei þvilijkt unned vered, hvorke aa Himnum nie under Himnenum, svo sem þad, er JEsus Guds Sonur vann aa Krossenum, þegar hann forlijkade Heimenn vid Gud, enn nidurbraut Diofulsins Rijke, og took Herleidinguna ad Herfaange. Þetta sitt Sigurmerke hefur hann feinged sijnum Strijds-Monnum, ad þeir bere þad fyrer Hertoga sijnum j hanns Bardogum hier aa Jorduñe. Skyllde nu svo dijrmætur Hlutur hafa sitt Agiæte af Mannlegre Speke edur Maal-Snylle, þa være honum þad ecke lijted Nidurdrep, hinns og annars vegna, ad þad maa Satt um oss jaata, sem Paall enn aptur segier: Ad vier erum ecke marger Skynsamer epter Holldenu, 1. Cor. 1. Ecke marger Gofuger, enn hiaa Gude er eckert Manngreinar Alit, Act. 10. Hann þecker best sijna: Hann hefur Faafroodum laated i Faafræde undervijsa, svo hann giorde þa Higgna: Enn þad er þo sw Faakiænska, sem er allre Mannlegre Vitsku Ædre, 1. Cor. 1. Hann hefur med hinu sama Faafræde leidt þaa Higgnu til Guds Rijkis, sem hafa viliad fylgja Raadum Paals ad verda Heimsker, svo þeir Vitrer yrde. Þad sie eg aa Nicodemo, Joh. 3. Hvorn JEsus hondlade med, svo sem annann Briost-Mylking, Jafnvel þoott hann være Meistare i Israel. Og ecke hefur þetta einasta vered Atferd St. Paals, helldur og annarra Christi Postula, hvorier i þessu hafa fylgt Dæme sijns Meistara; þvi jafnvel þoott ad allvijda meige rekia Spor hanns Guddoomlega Vijs-

dööms, Þa eru þess og mørg Dæme, hvorneñ hann teked hefur Lijkingar af Almenneleg-um Hiutum, til ad kienna Faafroodum Guds Gøtu, til þess ad hinn heimuglegc Kraptur Guds Speke, sem i honum bioo, mætte Samfara verda þeim Hiutum, er þeir best þecktu, og Daglega fyrer Augum saau, er skyllde aan Aflaatz minna þaa aa þau Lijfsins Ord, sem framflutu af hanns Blessada Muñe. Til Dæmis hier um, vil eg taka hina fogru Epterlijking er stendur i þessu H. Evangelio, wt wr hvorre margur Veralldar Vitringur hefur raungar Meiningar spunned; Eg vil med faam Ordum tala nockud framar fyrer ydar Kiærleika um hennar riettann Skilning, Þad framast eg veit af Guds Orde, Og þar med hugleida, hvornenn vier eigum ad sticka oss i Guds Vijngarde, svo oss verde ecke þadann med Osæmd i burtu vijsad. JEsu, þu Blessada Vijn-Trie, aa hvoriu vier innplantader erum! Send oss þinn Anda, saa ed leide oss i allañ Sannleika, Og kienn oss riettann Skilning þinna H. Orda, AMEN.

## Utleggingen.

HEllt fraa Upphafe Mannsins Skopunar og inn til þessa Dags hefur DRottenn wtgeinged til ad leigia Verka-Menn i sinn Vingard, og enn nu giorer hann þad med Ydranar og Syndanna Fyrergiefningar Predikun. Rodd Hroopandans hefrest enn nu i Eydemørku Veralldar þessarar hiaa oss, Segiande: Giored verduga Avøxtu Ydranenne, Oxenn er sett til Rootar Triaanna, hvort þad Trie sem ecke ber goodañ Avøxt mun upphøggvast og i Elld kastast, Matth. 3. Hwss-Faderenn hefur leigt Verka-Menn i sinn Vijngard, enn ecke Letingia; Þar aa Guds Eyrende ad giøra, um hvort Jeremias svo segier, Jer. 48. ad bolvadur skule sa vera sem Verk DRottenns giører Svikssamlega. Eingenn hefur sig sialfur leigdann i þenna Vijngard; Þad er sannkveded hier um, sem Esaias talar under Persoonu Guds, Esa. 65. Jeg er fundenn af þeim, sem ecke leitudu ad mier: Og mætte þad stoor Faasinna vera, (hvor sem þar riett ad hygde, þar vier svo fundner erum, og i hanns Vijngard, þad er i Rijke Guds Sonar, setter) ad laata Syslaner þessa Heims vefiast svo fyrer sier, ad Menn þeinke annadhvort ecke aa Guds Verk, edur og giøra þad med haangande Hende; Þarfara være þeim, ad alldrei hefdu þeir leigder vered, og stæde enn nu a Torgenu Idiu-auser, Þvi so segier Endurlausnarenn hiaa Luc. 10. um þaa er ecke villdu medtaka Guds Rijke: Jeg segie ydur, ad Sodomæ nun bærelegra vera aa þeim D ige, helldur enn þeirre Borg. Hvilijkt er þetta Br. M.? Hwsboondenn er wtgeingenn ad leita Prælsins, Koñungurenn ad biooda honum sem hafde burtu hlauped, hinn alleina Rijke hinum Allsþurfanda, Doomarenn Utlaganum, Brwdgumenn henne sem driigt hafde Hooraner med morgum Elskuga, og hann sem oss hefur elskad i JEsu Christo þegar vier vorum hanns Oviner, Rom. 5. oss, sem ad elskudum Heim þenna, og þad sem i honum er, Fijsn Augnanna og Drambsamt Lijferne, 1. Joh. 2. Þess gietur Johannes, 1. Joh. 4. J þvi er Kiærleikurenn, ecke ad vier elskudum Gud, helldur ad hann elskade oss, og sende Son sinn til Forlijkunar fyrer Synder vorar. Þo fæst hin auma Manneskia svo lijted um þa Idiu, er henne bodenn er i Guds Vijngarde, eins og

Menn

Menn væru þaangað leigder til að bada i Rosum, og ecke til að bera Hita og Þwng[a] Dagsins. Hefur þa JEsus sveitst Bloodenu, Luc. 22, til þess að vier skylldum i Syndarennar Epterlæte lifa? Hefur hann Vijn-Pressuna troded, Esa. 62. til þess að vier skylldum færa swr Vijnber? Hefur hann litad sinn Kyrtil i Vijne, og sinn Mottul i Vijnberia-Bloode, Gen. 49. til þess að Syndarenn Blood Saattmaalans Almennelegt hallde? Heb. 10. Hefur hann þar fyrer afdrucked hinn fleitefulla Kaleik Guds Reidt, að vier skulum sitia að Heimbode hinnar vondu Babylon, af hvorrar Hoordooms-Vijne að Þioodernar drucknar eru? Apoc. 18. Fiærre sie þvi. St. Paall kienner oss það laangtum odruvijse, Eph. 2. er hañ segier: Vier erum nij Skiepna i Christo, til að giora Goodverk þau, er Gud hefur tilbwed, að vier gaungum i þeim; Enn hvor eru þau Verk, er hann tilbwed hefur, eda hvilijk Idia er oss ætlud i hanns Vijngardi? Það telur Paall upp, Gal. 5. Kiærleike, Fognudur, Fridur, Þolennmæde, Goodgyrne, Giædska, Trw, Hoogværd, Sparneytne. Enn mier er Spurn: Mun Brwdgumenn plocka mørg þvilijk Ber, þegar hañ ivngeingur i Alldenngardeñ til að skiemta sier þar med henne, sem hanns Hiarta elskar? Jeg er hræddur um̃, að það farnest ecke betur sumum af Triaanum, helldur enn Eikenne, sem Frelsarenn bolvade, þegar hañ fañ aungvañ Avoxt a heñi, Matth. 21. nema midur sie, þvi hun bar aungva, eñ eg hygg, þvi verr, að finnast mune þeir, ed bere illa eina. Gud klagade Jerusalem, að hun bære swr Vijn-Ber og Villu-Vijnvide, Esa. 5. Enn þess være að Oska, að ecke yrdi sagt til Christnennar, svo sem hun nu tekur til að gioraft, eins og til Jerusalem Fordum: Samaria hefur ecke að Helminge syndgad sem þu, þu hefur margfiølgad þijnar Misgiorder, meir enn þær, og þu hefur Riettlætt þijnar Systur med þijnum Svijvirdingum, Ezech. 16. Forum eige viller Vega, Brædur mijner, og þeinkium ecke, að vier mun um þvi alleina fyrerhlijta, að vier Leigder sieum; Það være haalfu verra, enn að segia: Abraham høfum vier fyrer Fodur, enn giora þo eingenn Abrahams Verk, Joh. 8. Vier erum að sonnu Leigder, Vier erum skijrder, vier erum Christo i Skijrnenne iñplantader; Enn hann segier, Joh. 15. Jeg er hid saña Vijn Trie, og miñ Fader er Akur-Madurenn, hvorn hann Kvist aa mier, sem ecke ber Avoxt, mun hann burt taka. Hañ segier og ecke: Hvor sem mier er Einusinne innplantadur, helldur; hvor sem blijfur i mier, og eg i honum, hann ber mikenn Avoxt, þvi aan mijn gieted þier eckert giort, eñ ef nockur blijfur ecke i mier, hann er wtkastadur eins og Vijn-Kvistur, og uppþornadur, og þeir samansafna þeim og i Elld kasta, og þeir munu brenna. Adur enn Adam fiell fra Gude, þa var hann af honum settur i eirn Alldenngard, hvorn hann skipade honum að yrkia, Gen. 2. Og fyrst þvi var so haattad i Heilagleikans Stande, þa er lijklegt, að Gud mune eige vilia laata það nu odruvijse vera i sijnum Vijngarde; Þar vier erum, Syndarennar vegna, under það Logmaal skylldar, að neyta vors Brauds i Sveita vors Andlitis, og næra oss med Erfidi af Jordu ñi alla vora Lijfsdaga, Gen. 3. Enn ef það aa so að vera i þeim Utriettingum, sem vier nærum aa þetta Lijkamlega Lijf, hvad miklu fram ar

ar mun þad skylldt i voru Saaluhiaalpar Eyrendi ? Vier høfum allir stoort Pund af Gudi medtekid, eingiñ þarf meira med, enn hønum tiltrwad er: Nockrer hafa Audlegd Veralldar þessarar, sumir Embætti, nockrer Vitsku og Speki, og sumir Afl og Atgiørfi Lijkamans. Af øllu þessu byriar Reikningskap ad standa; Enn hvorninn foorst hønum þad, er bar sitt Pund fram̃ Avaxtarlaust, hvørt ed hann hafdi i Iørdu grafid? Hann fieck þann Doom, ad þeir skylldu kasta hinum Onijta Þioon i hin ytstu Myrkur, hvar vera mundi Op og Tanna=Gnijstran, Matth. 25. Hvad mun þa verda um̃ hann, sem ecki einasta skilar Avaxtarlausu Pundi sijnu, helldur leggur þad aa Satans Bord, til ad uppbyggia þar med hanns Rijki ? Lijtt gagnar hønum ad vera leigdur i Guds Vijngard, þvi hanns Idia er sw eina þar inni, ad giøra Christs Kyrkiu ad Belials Krambwd, lijkur þeim, er Gud talar um̃, Ezech. 16. Þu hefur tekid mitt Gull og mitt Silfur, sem ad eg gaf þier, og giørdt þier Mañs=Lijkan af, til ad hooraft med. Hinn Onijti Þioon sagdi vid Hwss=Fodurin̄: Medtak hvad þitt er; Eñ Hwss=Fadirinn mun vid hinn vonda Þioon aftur segia: Tak hvad þitt er, sem er Fordæming Daudans, Gack i burtu fraa mier i eilijfañ Elld, sem fyrirbwinn er Dioflinum og øllum hañs Arum, Matth. 25. Dragi þvi eingiñ sialfann sig aa Taalar, edur ætli þad, ad i Nottinns Vijngardi sie eckert, edur Illt, ad giøra. Hwss=Fadirinn hafdi ecki aatalid þaa, sem allann Daginn stoodu Idiulausir aa Torginu, hefdi þvi eins hættad verid i hanns Vijngardi: Þar fyrir er þad ecki noog, ad leggia Hønding aa Ploogiñ, eñ lijta aptur; Þvi saa ed þad giørir, hañ er ecki hæfur til Guds Rijkis: Eñ þott þad sie sialfsøgd Skyllda vor, ad erfida i Guds Vijngardi, svo mikid sem vier berum Maatt og Megn til, þaa veri einginn so blindur, ad hann ætli ad hann hafi til Skulldar ad reikna hiaa Gudi. Ad soñu seigir Paall, Rom. 10. Ad saa sem giørir hvad Løgmaalsins er, hann lifi i þvi, og þad sama segir sialft Løgmaalid. Hvor eru þa Launinn, ef Menn skulu tala eftir Guds Riettlæti? Ecki annad enn hann lifa skuli; og ecki deya, Levit. 18. Vier heyrum ecki ad vorum Fyrstu Forelldrum hafi heitid verid Launum nockrum, þoott þau vardveittu Guds Bodord, enn ef þau bryti þad, aattu þau Dauda ad deya; So kunna vor Goodverk alldrei neitt ad forþiena af Gudi: Þad kienuir oss Endurlausnariñ, Luc. 17. Segiandi: Er þar nockur af ydur, sem hefur eirn Þræl, er plægir, edur helldur Hiørd aa Beit, ad hann segie til hanns, strax sem hañ geingur iñ af Akrenum; Kom hijngad og sit til Bords: enn mun hann ecki segia hønum? Bw til þad eg snædi, gyrd þig og þioona mier, þar til eg hefi etid og druckid, sijdann skalltu eta og drecka. Mun hañ þacka þeim Þræl fyrir, ad hann giørdi hvad hønum skickad var? Jeg meina Nei. So og þier, þegar þier giørt hafid, allt hvad ydur bodid er, þa segied; Vier erum Onijtir Þioonar, þvi vier giørdum hvad vier aattum ad giøra. So hafa Goodverkinn einginn Verdlaun eftir Riettinum, enn hinum Vondu tilheyrir Straff ad riettu. Goodverkinn eru jafnann Skyllda, enn hin Vondu eru Afgiørd aa mooti Skylldunñi. Hin bestu Goodverk forþiena eckert, þvi þad er eins og ad betala Skulld sijna, enn hid miñsta Af

brot vinnur til Reidi, þvi þa vantar so mikid til Skullda-Lwkningar: Þess gietur Jacob Postuli, 2. Cap. Saa sem helldur allt Logmaalid, enn verdur brotlegur i einu Bodordi, hann er sekur vid øll. Ad sønnu stendur hier i Eftirlijkingunni, ad Hwss-Fadirinn hafi giort Samning vid Verka-Mennina um̄ eirn Pening, enn ecki er þad so ad skilia, Br. M. So sem þegar Madur semur vid Mann, helldur talar DRottinn þetta ad Mann̄legum Plagsid. Peningur þessi er JEsus Christus, hinn sanni Israels Sikill, med hvørium Foornernar leystar voru fraa Lijflaatinu aa Gamla Testamentisins Døgum, enn syndugar Saalir fyrir JEsum Christum fraa eilijfum Dauda. Enn Samningurinn skiedi i Ondverdu vid vora Fyrstu Forelldra eptir Fallid, þegar Gud, af einskiærri Naad og Myskun sinni, hiet þvi, ad Kvinnunnar Sædi skylldi i sundurmeria Høggormsins Høfud, Gen. 3. Hann verdur Itrekadur so oft sem vier heyrum af Guds Ordi, ad vier sieum af Naad hoolpnir vordnir, og ecki af Verkunum, Eph. 2. Ad Gud hafi eftir Myskun sinni giort oss hiaalplega, enn ecki af Verkunum, sem vier giørdum, Tit. 3. Þegar oss sagt verdur, ad hvør sem aa JEsu Nafn trwir, skuli ecki fyrirfarast, helldur hafa eilijft Lijf, Joh. 3. Og þessi Samningur hefur einn og hinn sami verid fraa hinu Fyrsta Fyrirheiti, og mun verda allt til Veralldarinnar Enda, vid alla þaa, er forlaata sig uppaa Sonarens Forþienustu med hreinne Trw; þvi JEsu þessum bera allir Spaamenn Vitni, ad i hanns Nafni faai þeir allir Syndanna Fyrirgiefning, sem aa hann trwa, Act. 10. Og er hier af audsært, ad þetta er einginn almennilegur Samningur, helldur lijkt þvi, þegar eirn goodur og Raadvandur Madur heitir nockrum einhvøriu Goodu, aan allrar Verdskulldunar, þa reiknar hann sig skylldugann þad ad hallda, uppaa þad ad hanns Ord bregdist ecki. Og ef finnast kann einhvør so lyndur aa medal vor, sem vondir erum, hvad miklu framar mun Gud, sem er alleina goodur, vera bundinn vid sijn Loford, Luc. 11. Þar hanns Ord forgaanga alldrei, þoott Himinn og Jord forgaangi, Luc. 21. Hvar fyrir einginn kann wt af þessu Lausnarans Orda Tiltæki, ad reikna til nockurrar Verdskulldunar hiaa Gudi, helldur blijfur hid sama, sem Paall segier, Rom. 3. Ad allur Heimurinn verdi Logfallinn fyrir honum. Og so sem þad, ad þeir sem komu um̄ Siøttu, Nijundu og Elleftu Stund, feingu af Naad þad þeir feingu, so er og Samningurinn vid þa Fyrstu af einskiærri Naad giørdur; Þvi sialfraadur var Herrann ad laata sinn Vijngard audann liggia, nema hanns Giædska hefdi knwd hann til ad leita eftir þeim, er hann mætti hiaalpa. Jeg veit ad nockrir hafa steitt sig aa þeim Ordum, er skrifar Jacob Postule, 2. Cap. og þannig hliooda: Sier þu eckl ad Trwinn hefur samverkad hanns Verkum, og Trwinn er af Verkunum til Lykta leidd, og Skriftinn er uppfylld, er segier: Abraham trwdi Gudi, og þad vard honum til Riettlætis reiknad! siaaid þier þar fyrir, ad Madurinn Riettlætist af Verkunum, og ecki af Trwnni alleina. Þetta hefur nockrum þoott gagnstædt þvi, er bædi St. Paall, og øll H. Ritning med einu Hlioodi vottar, sem er þeirrar Meiningar, ad Madurinn verdi af Trwnni hoolpinn, og ecki af Verkunum, Rom. 4. Enn þess er giætandi,

hvør

hvør ad sie Meining Jacobs i þessum Pistle. Hann atte Ordastad vid þa, er hielldu sig vel Christna, ef þeir trudu aa Gud, og jaatudu hann eirn ad vera, eins og Dioflarner, enn auglijstu ecke Trw sijna med Christelegum Verkum; Þad byrta þesse Ord, er standa komu aadur i sama Capitula: Ef Brooder edur Syster eru nakenn, og skorter Dagslega Næringu, enn einhvør ydar segier; Fared i Fride, vermed ydur og metteft, enn giefed þeim þo ecke þad Lijkamanum er þarflegt, hvad gagnar þad? So er og Trw enn, ef hun hefur eige Verkenn, hun er daud fyrer sialfa sig. Hier giører Jacob vert fyrer Mønnum hvad hann meinar: So sem þad er ecke Miskun ad segia; Verm þig og mettast, So er þad og ecke helldur Trw, ad segia; Eg trwe aa Gud og hanns Son, enn afneita Gude med Verkunum aptur aa moot; So sem þad er eckert Myskunar-Verk, ad giefa allar sijnar Eigur Faatækum, enn hafa þo ecki Kiærleikann, 1. Cor. 13. So forþiena og eigi helldur Verkinn neitt i sialfu sier: Vilie eg segia, ad Verkinn vinni til nockurs hiaa Gudi; Þa vil eg og segia, ad Efnid i einum Smijdis-Grip forþieni Laun, af þvi hann er vel giordur, enn so sem hñ kunni ecki ad giora sig fyrir utann Hagleik Mañsins so hafa og Verkinn allt sitt Agiæte af Trwnne, sem er Guds Verk i Mannenum, Joh. 6. Segied mier þa, hvar er þeirra Verdskulldan? Trwenn Samverkar Verkunum, segier Jacob; Eg jaata þad, þvi aan hennar væru þau Synd, Rom. 14. Hun verkar þad med þeim, ad þau Syndlaus reiknast, forþiena þo eckert. Trwenn fullkomnast af Verkunum; Menn siaa ad eirn er sterkur, af þvi, ad hann kann ad lipta miklu, annars visse eingenn þad hañ sterkur være. Lioosed þeckest ad vera Lioos af Byrtunne. Abraham audsijnde sig ad vera Trwadann, af þvi hann giorde hvad Gud baud honum; Þañinn fullkomnast Trwenn af Verkunum, enn ecke audruvijse; nema einhvør villde segia, ad Verkenn være Partur af Trwarennar Veru, og være þad eins og ad segia, ad þad være Mannenum verulegt ad gaanga og standa. Hiteñ filger Elldenum, Hark añ Jaarnenu, Byrtann Soolunni, Þo er hvorki Hitenn Elldur, nie Harkann Jaarn, nie Byrtañ Sool, eigi helldur eru Verkinn Trw, Þo þau fylgi Trwñi, og ecki Riettlæta þau, Þo þau framkomi af þeim sem Riettlaatur reiknast fyrir Trwna. Abraham trwde Gude, og þad var honum til Riettlætis reiknad, segier Jacob; Enn eckert gott Verk gietur Skriftinn um, Gen. 15, þegar Gud matti hañs Trw so mikils, helldur alleina um þad, ad hañ hafi Gudi trwad til þess, ad hanns Sædi skylldi verda so sem Stiørnur Himens, Eñ Jacob tekur þad samañ vid hañs Trwar-Verk, þegar hann villdi offra Syni sijnum, Gen. 22. Til ad styrkia þar med sijna Meiningu, sem er su, ad Trweñ sie daud aan Verkaña. Af Verkunum Riettlætest Madur, og ecke a Trwnne alleina; Um Auglijsingu Trwarennar talar Jacob hier, og ecke um sialfa Trwna, um Trwarjatninguna fyrer Mønnum, og ecke um Trwarennar Krapt fyrer Gude; Þad kienna mier hañs eigeñ Ord i sama Capitula; Syn mier þijna Trw af Verkunum: Og ad þier vited, Brædur mijner, ad þetta er meir enn Hiegoome eirn, þa merker þetta Ord, ad Riettlæta, i H. Ritningu optast ecke annad, enn ad auglijsa sig edur adra Riettlaata ad vera. Þu hefur

 Riettr

Riettlætt þijna Systur med þijnum Svijvirdingum, segier DRottenn um̃ Jerusalem, Ezech. 16. Hvornenn kunne hun ad riettlæta, sem sialf var ollum Skommum vafen? En þad kunne hun ad giora, ad sijna ad hun være sier riettlaatare. Ad þu riettlætest i þijnum Ordum, þegar þu dæmest, segier David um̃ Gud, Ps. 51. Hvor vill Gud Riettlæta? sem sialfur er alleina Riettlaatur; enn ad byrta hanns Riettlæte fyrer Monnum, þad kunna Menn ad giora. Tollheimtumennirnir Riettlættu Gud, er þeir skijrder voru med Skijrn Johannis, Luc. 7. Hvornin̄ gaatu þeir Gud riettlætt? Synduger Men̄ og framar audrum Lostum og Lijtum hladner; Enn ad þeckia og opennbera Riettlæte Guds, þad var þeirra Skyllda. Jacob segier; Madurenn riettlætist af Verkunum. Enn hvornenn kann Madur ad riettlætast af þvi sem er eins og nidurlags Fat, Esa. 64. af þvi sem er Synd, Rom. 14. af þvi sem er Skyllldu-Verk Onijtra Þioona, Luc. 17. En þess eru Verkenn um̃komenn ad auglijsa, ad Gud bijr i Mannenum fyrer Trwna, ad Trw Mannsins er kroptug fyrer Kiærleikann, ad þad sie lifande og ecke daud Trw, hvor ed stiornest af H. Anda til goodra Verka, epter Bode vors Endurlausnara, Matth. 5. Svo lijse ydar Lioos fyrer Monnum, ad þeir dyrke ydar Fodur sem a Himnum er. Nu er þessu svo vared, Br. M. ad eingenn hefur til neirnrar Skulldar ad telia hiaa Gude, og þad er þad sem Endurlausnarenn hier segier i Epterlijkingunne under Persoonu Hwss-Fodursins; Vinur, Eige Giore Eg þier Oriett, etc. Fyrst eingenn hefur af Gude neitt forskulldad, er þad þa ecke noogu stoor Naad, ad hann hefur alla leigt i sinn Vijn-Gard, þad er, Alla kallad til Ydranar og Syndanna Fyrergiefningar, enn, þoott adrer bere þar Hita og Þrongva Dagsins, og sieu strax ad Morgne kallader, munu þeir meiga lijta raungu Auga til þess, þoott hann, sem um̃ aungvann Hlut er nockrum skylldugur, þoott hann, segie eg, myskune einhvorium a Daudastundunne? Mun Samuel meiga sia Ofsioonum yfer Paulo? Jeremias yfer Tollheimtumanninum Matthæo? Matth. 9. Josias yfer Manasse? Baptista yfer Tito og Timotheo, edur þesser, aller yfer Ræningianum a Krossenum? Luc. 22. Fiærre sie þvi: Gude er i sialfs Vallde ad laata hvorn eirn hafa so miked fyrer Himnarijke, sem honum þocknast, þvi aller medtaka af Naad og ecke af Verdskulldan. Og þo eirn sveitteist Bloodenu i Guds Vijngarde, fra þvi fyrsta hann hefur Vit a, og til þess hann giæfe-Ordena upp, þa hefur hann ecke med Verkunum meira forþienad af Himnarijke, helldur enn hinn sem i Andlaatenu var kalladur; Þvi a mille hinns eilijfa, sem er Guds Rijke, og þess er Endatekur, sem eru daudlegra Manna Verk, er eingenn Jofnudur, so eitt meige med audru kaupast ad riettum Solum. So vill nu DRottenn hafa sijnt, ad hiner Fyrstu verde hiner Sijdurstu, þegar Menn vilia gaanga i Riett vid Gud, og mogla vid Hwss-Fodurenn; og Sijdarster hiner Fyrstu þegar hann vill Naadugur vera þeim sem hann er Naadugur, Rom. 9. Og er þo ecke hier fyrer nockurt Manngreinar-Alit hiaa Gude, Þvi Marger Eru Kallader Enn Faaer Utvallder. Balaam, Saul, Achab, Judas, og adrer miklu fleire, þeir voru kallader, enn þeir breittu epter Fodur sijnum, og stoodu ecke i Sannleikans

leikanum, Joh. 8. Gud hefur ecke sagt þeim sem kallader eru, helldur þeim sem er Trwr allt til Enda; Vil eg giefa Coronu Lijffsins, Apoc. 2. Utvalningenn er ad sõnu alltijd viß hiá Gude, þvi hann hefur wtvaled þá sem hann veit i Køllunenne støduger standa munu, enn aungvañ hefur hañ kallad med þeim Skilmaala, ad hañ skyllde eige kuña freá ad falla; Enn vier erum ecke visser um vora Utvalningu med ødru Moote enn þvi, ad so leinge sem Trwenn er i oß kreptug fyrer Kiærleikann, Gal. 5. so leinge erum vier Guds Børn, og þvi rædur Petur riett, 2. Pist. 1. talande um Trwna og hennar Avexte: Fremied i Trw ydar Dygdena; i Dygdenne Vitskuna, i Vitskunne Sparsemena, i Sparsemenne Polennmædena, i Polennmædenne Gudræknena, i Gudræknenne Broodurlegann Kiærleika, i Kiærleikanum Elskuna; Þvi nær þetta er hiá ydur, og yfergnæfer, þa giorer þad ydur ecke Ydiulausa, edur forgiefens erfidande, til Þeckingar vors Drottens JEsu Christi, þvi hvorium sem þetta eige fylger, hañ er blindur, og leitar ad Veigenum med Hendenne, gleymande þvi, ad hann er af gømlum Syndum hreinsadur; Þar fyrer kostied Kapps um, Brædur, ad giøra ydar Kallan og ydar Utvalningu vissa, þvi nær þier þetta giøred, munud þier alldrei falla. Med sodann Moote, enn aungvu ødru, verdum vier visser um Utvalningu vora, þar fyrer hefur og Gud vijsad oß i sinn Vijngard til ad erfida, enn ecke i Heimenn til ad rañsaka sitt Leyndar Raad: Enn so Menn best vite hvorninn þad samann hanger, þa segier Paall þad med faam Ordum, Rom. 8. a þennann Haatt; Hvoria hann adur þeckte, þá hefur hann fyrerhugad, hvoria hann fyrerhugad hefur, þá hefur hann kallad, enn hvoria hann kallad hefur, þá hefur hann Riettlætt, enn hvoria hañ Riettlætt hefur, þá hefur hañ Dijrdlega giort. Hvorrar Dijrdar og eilijfrar Farsælldar oß unne ad nioota um eilijfar Allder, Gud rijkur af Naad, fyrer sinn Eingieteñ Son JEsum Christum, og sende þar til siñ H. Anda, Amen.

# Añañ Sunnudag i Nijuvikna Fostu.

Gudspialled, Luc. 8. Cap.

A Þañ Tijma. Og þa ed margt Foolk var samañkomed, og þad dreif til hañs wr Stødunum, sagde hañ i Epterlijkingu: Saa gieck wt, sem saade, ad saa Sæde sijnu. Og þa hañ saade, fiell sumt utañ hiaa Veigenum, vard Footum troded, og Fuglar Loptsins aatu þad. Og sumt fiell a Hellu, og nær ed þad spratt upp, visnade þad, af þvi ad þad hafde eige Vokvan. Og sumt fiell a medal Þyrna, og Þyrnerner spruttu upp med og kiæfdu þad nidur. Og sumt fiell i gooda Jord, og þad vox upp og bar Hundradfalldañ Avøxt. Þa ed hañ sagde þetta, kallade hañ: Hvor Eyru hefur ad heyra, heyre hañ! Eñ hañs Læresveinar spurdu hañ ad, hvør ed være þesse Epterlijking. Eñ hañ sagde: Ydur er uñt ad vita

Leynda Dooma Guds Ryjkis, Eñ þeim ødrum i Epterlijkingum, so ad siaande þa siae þeir eige, og aheyrande þa skilie þeir þad eige; Eñ þesse er Epterlijkingeñ: Sæded er Guds Ord. Eñ hiner vid Veigeñ, eru þeir sem heyra þad, Eñ epter þad kiemur Diøfulleñ og tekur burtu Orded wr þeirra Hiørtum, so ad þeir skule ecke trwa og verda Hiaalpleger. Eñ þeir aa Helluñe, eru þeir, sem medtaka Orded med Fognude, þa þeir heyra þad, og þesser hafa ecke Root, Hvørker um Stundarsaker trwa, og aa Freistingar Tijmanum falla þeir fraa. Eñ þad sem fiell aa millum Þyrnaña, eru þeir, sem þad heyra, og velkiast i Sorgum, Audæfum og Gyrndum þessara Lijfdaga, kiefiast og færa aungvañ Avext. Eñ þad sem i gooda Iord fiell, eru þeir sem heyra Orded, og behallda þvi i goodu og Sidsømu Hiarta, og færa Avøxt i Poleñmæde.

## Exordium.

Ef þier Vardveited mijna Setninga og mijn Riettinde, saa Madur sem þad giorer, hann skal lifa af þvi, segier DRottenn, Levit. 18. Riettvijst er þetta Løgmaal, svo sem aller Doomar DRottenns, enn Obærelegt er þad Syndugum Monnum, þvi hvør er saa ed Løgmaaled hallded giete? Eingenn af øllum Adams Nidium, nema hann eirn sem giordest Bølvan fyrer oss, Gal. 3. er Løgmaalsins Bølvan forþienad høfdum Bølvadur vere saa sem ecke helldur allt þad sem i Løgmaalenu stendur, so hann giore þad, segier Moyses i Guds Umbode, Devt. 27. Þesse Kostur var Obærelegur þeim sem ecke gieta eitt Augnablik Syndlaust lifad, og er þad vijst, ad hinn Naaduge Gud hefur ecke sitt H. Løgmaal wtgiefed i þeirre Meiningu, ad nockur munde þad hallded gieta, helldur til þess, ad Menn skylldu laga sinn Lifnad þar epter, ad so miklu Leite sem Mannlegur Kraptur fær orkad. Og svo i ødru Lage til þess, ad Synduger Menn vita mættu hvad miked þaa brestur aa ad uppfylla þad, sem Løgmaaled bijdur, svo þad yrde vor Typtunar Meistare til Christum. Nu þoott ad Løgmaaled sie straangt, þa hefur hinn goode Gud laated þvi alltijd fylgia Evangelium, allt fraa þvi hann wtgaf þañ Fyrsta Naadar Bodskap, ad Kvinnuñar-Sæde skyllde i sundurmerkia Høggormsins Høfud, Gen. 3. Stoor var sw Naad ad sønnu, og svo stoor, ad øll Verølldenn gietur hana alldrei fullþackad. Eñ svo sem ad hun er mikel, Svo er og miked þeirra Straff, sem hana forsmaa. Þegar Israel villde sig hafa undannþeigenn ad tala vid DRottenn i Horeb, er hann wtgaf sitt H. Løgmaal, Exod. 20. Þa sagde Gud vid Moysen; Eg vil uppvekia þeim eirn Spaamann af sijnum Brædrum eins og þu ert, Devt. 18. Og eg vil leggia mijn Ord i hanns Munn, hann skal segia þeim allt hvad eg bijd hønum, og hvør sem ecke heyrer mijn Ord, sem hann talar i mijnu Nafne, af

Af þeim hinum sama vil eg þess krefia. O vor Gud! Vert þu oss Naadugur. Hvorsu Illa er þeim fared sem Gud vill krefia Skulldar sinnar? Honum mun verda i hin ytstu Myrkur kastad, og mun ecke þadann utfara, fyrr enn hann hefur borgad hinn Siidarsta Pening, Matth. 18. sem alldrei verdur um alla Eilijfd. Þoott Løgmaaled være bæde strangt og Riettvijst, þa gieck þo ecke hinn Naaduge Gud epter þeim Sektum, sem þad Mønnunum aa Hendur sagde, Vegna þess Lausnar-Giallds, er hann hafde sialfur tilbwed oss og fyrerhugad i sijnum Eingietnum Syne, sem var sw eina Boot vid þvi Saare, er Diøfullenn veitte Adam og øllu hanns Hyske; Forsmaae hana nockur, þa segier Moyses oss i þeim Ordum, er eg strax umgat, hvad vid þvi liggur, sem er, ad Gud mune krefia þess af Hende hinns sama. Ef nockur syndgade aa moote Moysis Løgum, þa vard þad þo forlijkad i Gamla Testamentenu med Offrum og Foornfæringum, i hvorium ad Christur var fyrermyndadur, svo sem Paulus Hebr. 10. vottar, aa medann Syndenn var under Guds Þolennmæde; Enn nu þar Skuggeñ er i burtu horfinn, eñ vier høfum sialfa Hlutena, Rom. 3. Þa verdur Syndenn burt tekenn med sannre Trw aa JEsum Christum. Þetta verdur oss bodad i øllu Guds Evangelio, sem er hid Andlega Sæded, af hvoriu hinn Nije Madur gietenn verdur i Hiarta voru, um hvort Frelsarenn talar i þessa Dags Evangelio. Enn þad er Grætlegt til ad vita, ad þesse Naad er svo morgum frambodenn, kiend og predikud, eñ svo fæer hafa þess Not, sem hier maa sia, fyrer þeirra eigenn Forsoomunar Saker. Vier vilium þetta H. Gudspiall nockud gior yfervega, og af þvi hugleida hvad DRottenn segier um þa Fernslags Jord, er took vid Sædenu.

O vor Gud! Laat þitt Ord, sem i Dag verdur kiennt, falla i gooda Jord, svo vier færum þar af Avøxt i Þolennmæde. Bænheyr þad Himneske Fader, fyrer þinn Eingietenn Son JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

VOr Endurlausnare talar þannenn um hina Fyrstu Tilheyrendur i Upphafe Gudspiallsins; Ad sumt af Sædenu hafe falled utann hiaa Veigenum, og orded Footum troded, og Fuglar Loptsins hafe uppeted þad. Hann leggur þad sialfur svo wt, ad þad sieu þeir, sem vid Veigenn eru, enn epter aa kome Diøfullenn og take Orded wr þeirra Hiortum. Þeir eru vid Veigenn, segier JEsus, og ecke aa Veigenum. Þad mun valda, ad Orded er Dioflenum svo audsookt i þeirra Hiortu; væru þeir aa Guds Veige, munde þad leingur vefiast fyrer hinum illa Ovin, ad grafast epter þessum dijra Fiesioód. Eg em Vegurenn, Sannleikurenn og Lijfed, eingenn kiemst til Fodursins nema i giegnum mig, segier Lausnarenn, Joh. 14. A þessum Veige Saaluhiaalparennar eiga oss Guds H. Ord ad leida, aňars faalma Menn epter Veigenum og eru blinder, 2. Pet. 1. Enn hvørsu maa nockur siaa Lioosed i hanns Lioose, 1. Tim. 6. nema fyrer Christum i hañs Lioose, sem er Guds Ord, ef Meñ snwa þar vid Bakenu, og ecke Andlitenu, eñ hørfa aller uppa siñ Veg, Esa. 53. Hia Matth. 7. C. ræder Frelsareñ um Tveña Vegu a

þeñañ

Þennann Hætt: Gaanged inn um̃ hid Þraungva Ported, Þvi hid vijda Port og hiñ breide Vegur leider Afvega til Glötunarennar, og Þeir eru marger ed hann gaanga. Þesser eru Þeir, er vid Veigeñ standa, Vr M. aa hvörra Vegum ad bijr Sorg og Armæda, og Þeckia ecke Veg Fridarens, Esa. 59. Hvörra Vegur ad er haall, og Þeir munu dreifast aa fram̃ i Þokunne og i henne hrapa, Jer. 23. Lausnareñ segier: Ad Sæded falle utañ hiaa Veigenum, hann meinar Akur-Reinarnar: Þad sem i Þær fellur, vardveitest, Þvi Jordenn er plægd, og aller varast ad gaanga Þar um̃. Enn Þeir sem vid Veigeñ standa i Guds Akre eru sw Jord, er Ploogur Lögmaalsins hefur alldrei geinged um̃ til ad mijkia Akurenn, Eige helldur Guds Vagn, sem ad er Evangelij Lærdoomur, til ad feita Jordena. Hvad sem Þar fellur i, verdur af Fuglum Himens, Þad er vöndum Aundum, uppeted, edur og Footum troded, Þvi Þa er Perlum fyrer Svijn kastad, Matth. 7. Hvörnenn bijr Gud i Mannanna Hiörtum? J sijnu H. Orde. Hvörneñ aa Þad Hiarta tilreidt ad vera, sem hann vill bwa i? Angrad og sundurkramed, Esa. 57. Þad sem ecke fellur i soddann Hiarta, Þad fellur utann hiaa Veigenum, utann hiaa Guds Akur-Reinum, og verdur Footum troded, Þvi aller Veiger DRottenns eru Myskun og Sannleike, öllum Þeim er vardveita hanns Saattmaal, Ps. 25. Enn Vegur Ogudhræddra mun fyrerfarast, Ps. 1. JEsus segier, ad Johañes hafe komed med Veg Riettlætesins, Matth. 21. Enn hvörnenn var saa Vegur, er Johannes kiende? Giöred Ydran, Þvi Guds Rijke er nalægt, Matth. 3. Saa sem ecke geingur aa Þessum Veige, hann geingur ecke aa Guds Veige, ecke aa Riettlætesins Veige, ecke aa Fridarens Veige: J einu Orde ad segia, hañ geingur utañ hiaa Veigenum. Predikareñ segier, Cap. 11. Ad hiner Ogudlegu gaange aa Vegum sijns Hiarta, Eñ hvörneñ Vegur er i Þess Mañs Hiarta, sem daufheyrest vid Guds H. Orde? Þad er almeñeleg Þioodbraut Lasta og verstu Klækia, hvar Agg, Reide, Þræta, Manndraap, Hoordoomur, Frillulifnadur, sem af Hiartanu framkoma, Matth. 15. hafa troded sier Gadd i Jskölldu Mannsins Hiarta, svo Guds Ord faa ecke Rwm i Þeim, og ef nockud af Sædenu kann ad hrioota Þar inn, verdur Þad Footum troded. Þesser eru Þeir, er fyrer Sidasaker gaanga inn i Guds Helgedoom, til ad byrtast fyrer Mönnum, Þeir Hræsnarar. Vel hefur Gud um̃ Þaa talad fyrer Munn Ezechielis, 33. Cap: Þu Mannsins Son, Þeir koma til Þijn svo sem Foolked er vañt ad koma, og Þeir sitia fyrer Þier so sem mitt Foolk, og heyra Þijn Ord, enn Þeir giöra Þar ecke epter, helldur giöra Þeir Haad-Vijsur Þar af med Munne sijnum, Þeirra Hiarta stundar epter Abata, Þu ert Þeim eins og Amors-Vijsa, su ed lætur vel og er fögur ad leika, Þvi Þeir heyra Þijn Ord, enn giöra Þar ecke epter. O, er Þad skielfeleg Faasiña, Br. M. er hinn slæge Diöfull hefur blindad Mannanna Hugskots Augum med; ad Meñ leggia Eyrun vid skam̃arlegum Ordum og fijflslegu Hiale, Eñ byrgia Þau fyrer Guds Evangelio, Þau standa opeñ fyrer Hafgyu Saungum Veralldareñar, Enn Brwdgumans Raustu heyra Þau svo Þwnglega, ad ecke er sijnt Þau mune bregda vid fyrr eñ Höfud-Eingilsins Basuna lætur i Skyum̃ Himens. Dæmafrood Æfeñtijre og Liga-Sög-

ur

ur læta Mënn sier inndællt ad heyra, enn vilie nockur framtelia Guds Dasemdir, um Stoorvyrke vorrar Skøpunar, um Myskunarverk vorrar Endurlausnar; um Leyndardoom vorrar Helgunar, þar velger Menn vid, so sem ødru Liettmeti, svo eg sie ecki annad i sumra Manna Fare, enn ad þeir muni þeinkia hid sama um Guds Ords Þienara, sem Athenu Borgar Menn kvædu upp um Paulum, er hann taldi þeim Christilega Trw, enn þeir sogdu: Hvad mun Ordsnæpur þessi vilia sier? Act. 17. Giætid þo ad, i Guds Nafni, Christnir Menn, hvilijkur Hlutur ad Guds Ord er; þad er Foodur Sælna vorra, Matth. 4. Þvi ænn þess munum vier deya; þad er Lijf og Andi, Joh. 6. þvi ænn þess erum vier i Syndunum daudir; þad er Leidarvijsir til Himnarijkis, Ps. 119. þvi fyrir utan þad munum vier ofann fara i hin ytstu Myrkur, hvar vera mun Oop og Tannagniistran. Og fyrst vier þetta vitum og þad er i Hiortum vorum fyrir Doomi Samvitsku vorrar sannproofad, þa þykir mier sa ecki kvalrædur vera, og ecki mikid kvijda Helvijtis Pijslum, sem lætur þad eins og annann Vind um Eyrun þioota, so sem þad kæmi ecki vid hann, sem af Gudi er talad, og alltijd muni eitthvad til eilijfs Lijfs verda.

Nærst þessu talar Endurlausnarinn um þa, er hann samlijkir grijttri Jordu, i hvoria þegar Sædid fiell og spratt upp, þa visnadi þad, af þvi þad hafdi ecki Vokvan: Þessir eru þeir, sem heyra Guds Ord, og medtaka þad med Fognudi, og hafa þo ecki Root, þviad um Stundarsakir trwa þeir, enn æ Freistingar Tijmanum falla þar fra. Jeg kann ecki annad ad seigia, enn þessum er ad nockru Leite betur hættad enn hinum; þvi lijklegri er sa til Afturhvarfs, sem ad smackad hefur hvad sætur ad Gud er, helldur enn hinn sem ævallt mootstendur H. Anda. Þo er þad med þvi Mooti, ad þeir læti sig leidrietta af Anda DRottinns, nær þeir villt fara, annars munu þeir bwa vid verri Kost enn hinir, þvi þad Ordid, sem þeir heyrdu, mun fordæma þa, Joh. 12. Petur fiell fra æ Freistingar Tijmanum, enn JEsu blijda Tillit sneri honum aftur, so hann gieck wt og griet beysklega, Matth. 26. Aaron fiell fra, þegar hann Ottadist Foolksins Reidi, Exod. 32. Enn hann hvarf aftur æ Guds Veg, so hans Synd var honum ecki til Dauda reiknud. Siælfur Møyses var ecki langt þar fra, er hann sloo Tveimsinnum æ Klettinn, Num. 20. Hvar til hann þo ei hafde Guds Bodord; Enn allir þessir voru nærsta Leiditamer aptur æ Guds Gotu. Judas fiell og fra, enn skipadist ecke vid Christi Aminningu i Kvølldmaaltijdinne, Joh. 13. ecki vid hans blijda Avarp i Grasgardenum, Luc. 22 og ecki nema til ills vid hinn harda Doom, er hann sa ad ætlade ad gaanga yfer sinn Herra, Matth. 27. Saul fiell og fra æ Freistingar Tijmanum, enn leitade ecke Guds i sijnum Mootgaange, helldur Galldra-Konunnar, 1. Sam. 28. Þvi fiell hann æ sitt eigid Sverd, 31. Cap. Achab medtook Orded med Fognude, so hann sat i Seck og Osku og griet fyrir Gudi, 1. Reg. 21. Enn ecki ad sijdur fiell hann fra og sendi til Fretta vid Baal, enn liet aflijfa Spæmenn DRottins. Þvi er eg viss um, ad þessir muni Obærilegri Kost eiga enn hinir, sem alldrei hafa æ Guds Veigi geingid: Enn hvad mun þessu valda? Br. M. Ecki annad, enn ad Hiartad er hardt, svo ad Sæded fær aungvann

Vokva. Guds Ord hafa eigi gietad unnid so aa Þriootskuna, ad þad hafi smelltst i þeim fyrir hreina Ydran, ad hid Himneska Sædid hafi feingid nockra fasta Root. Margir vilia Guds Vinir vera þegar allt leikur i Lyndi, enn þegar Soolbruni Mootlætinganna tekur til ad hafa sijnar Verkanir i Guds Akri, þa visna þeir Avextirnir braadlega, sem ecki eru vel Groodursettir. Ef Menn laata Steininn i Elld, þa verdur hañ gloоandi um̃ Hrijd, enn ecki mijkist hann, nema hann ad Osku brenni; Eins er þess Manns Hiarta, sem Spaamadurinn klagar yfir, Jer. 8. ad sie hardara enn Demant. DRottinn typtar þaa med Vendi sijns Ords, enn þeir finna þar ecki til, hann hellir yfir þaa Oleo Fagnadarins, þad geingur eigi inn i Steininn. Þegar Gud giefur Regn aa Jordina, þa fellur þad eins yfir friooſsama Stadi og Ofriooſsama, harda og miwka. Þad er vijst, ad hvorttveggiu bera nockurn Avoxt medann þad yfirstendur, enn þegar Soolinn tekur ad brenna, þaa verdur sw Grein þessarra, ad hvad sem yfir hina hordu og Omiwku Stadi fiell, þad þornar braadlega upp, þvi þad fann eckert sier lijkt i Hellu-Steininum, sem þad kynni ad vardveita: Hin Plaatzinn færa Avoxt þess meiri og meiri sem Soolinn meir verkar, þvi þeirra Mijkindi hallda þvi er þau hlutu, og hid besta þar af stijgur ecki upp i Loftid aftur, helldur snijst Avextinum i Vokva og Vessa: So verdur og Guds Ord predikad Vondum og Goodum, Bliwgum og Hardsvijrudum. J þessum brennir Elldur Mootlætinganna allann Vokva i burt, enn i hinum verkar hann Fridsamlegann Avoxt Riettlætisins, Heb. 13. Alldrei hefur Guds Kyrkia meir efllst enn i Mootgaanginum. Þegar JEsu Nafn maatti ecki nefna fyrir utañ Lijfs Haaska, þaa friofgadist Guds Alldingardur best; þegar Kraftur JEsu Bloods, sem var i Ordinu, fann Guds Akur mijktann med Bloodugum Ydranar Taarum i Hiartanu, þaa kvikнadi Kiærleikurinn, þa spratt upp Þolinmædiñ, þaa greri Trwinn, þaa voox Lijtilætid, þaa lifnadi Myskunseminn, þa dafnadi Hoogværdinn, þaa brann Elskann til Guds, hvad heitast; so ad hvorki Lijf nie Daudi, hvorki Einglar nie Valldstiettir nie Hofdingiadæmi, hvorki hid Naalæga nie þad Eftirkomanda, hvorki Hæd nie Dypt, nie nockur onnur Skiepna, kunni ad skilia Guds Elskendur vid þann Kiærleika, sem er i Christo JEsu, Rom. 8. Enn sijdann Moñum took til ad leidast ad draga Okid med Christo, þa hefur ecki Ploogur Logmaalsins rist so diwpt i Mañanna Hiortum. Menn vilia allir med honum rijkia, enn faair med honum lijda, og hyggia ad maatuleg Gudhrædsla dugi noog til Saaluhiaalpar; þar fyrir koolnar Hiarta Mannsins so, ad Guds Ord, þad Himneska Sædid, verdur ecki i Bein og Merginn druckid; fyrir þvi vex og Kornid i Guds Akri miog so þuñt, so ad ein Staunginn æpir til annarar, og Andskotinn hefur med Baali Oleyfilegrar Heimsins Elsku, breñt oss marga Dijla þar inni. Þar fyrir tem þier christilega Ydran, O þu Guds Barn, sem villt Saaluhiaalpina erfa! aa medann Gud lætur þier ad Oskum gaanga, og laat Miñing þiña Synda og hanns Astgiafa mijkia Hiarta þitt, so ad H. Andi, sem bijr i Ordinu, meigi una þar inni, þviad þu veitst ecki nær ed Hiti Freistinganna tekur til ad breña, og þu þurf-

ir

er bradkga a ad hallda, og þott þad verde eige fyrr enn a Daudans Stundu, sem hvorn Dag yfer hanger, þa þeink ad þær eru þa viisar; Enn aungvum hefur veitt af a þeirre hördu Tijd, þeim einum hefur þa best vegnad, vid hvoria Ande DRottens hefur talad i Hiartanu, J þvi Ordenu sem þeir adur mundu og Rootfestu þar inne, til heilnæms Veganestis i giegnum hiñ myrkva Daudans-Dal, Jñ a Land lifande Maña.

Hinum Þridiü Tilheyrendum dregür vor HErra Dæme af þvi Sæde, sem fiell a medal Þyrna, Enn Þyrnenn spruttu upp med og kiæfdu þad nidur: Þad eru þeir (segier hann) er heyra Orded, og velkiast i Sorgum, Audæfum og Gyrndum þessara Lijfdaga, kefiast og færa aungvann Avoxt. Hvilijka Hindrun ad þetta Illgrese giore Akur-Londum Guds, eru fleire Dæme til, enn segia þurfe: Margann hefur Bwksorg og Ahyggia fraa Gude dreiged. Þar sem þinn Fiesioodur er, þar er þitt Hiarta, segier Endurlausnarenn, Matth. 6. Hvornenn fa Meñ þa under eins Gude þiionad og Mañona? Endurlausnareñ segier; Ad Þyrnerenn hafe vaxed upp med og kiæft Sæded nidur. Ecke segier hann, ad Korned hafe ecke og nockud vaxed, enn þo er þad eige ad meira Leite enn so, ad hann reiknar þad fyrir aungvann Avoxt. Hvar fyrir? Af þvi Þyrniñ hofdu Yfirhond, eñ Korn-Staunginn þroskadist alldrei, so ad Axid nædi wt ad sprijnga. Lijkt er þetta Gudhrædslu sumra Manna, þeir ed giarna ræki a Ord DRottinns, þeir hafa þad uñ Hond, þeir bidiast fyrir, þeir taraſt fyrir Gudi, þeir siingia og lesa, þeir heyra giarna talad um Gud og hanns H. Daasemdir, og laatast þad sialfir giora med fullri Alvoru, enn straffa adra, sem þa eru Toomlaatari i sinni Þioonustu. Enn þegar Broodir edur Systir eru nakinn, og hafa Skort a tijmannlegri Næringu, þaa giefa þeir þeim þo ecki hvad Lijkamanum er Naudsynlegt, Jac. 2. Þegar þeir siaa Þioofenn, hlaupa þeir med honum ad stela; Ps. 50. Ef ecke med almeñelegre Launung, þa med Yfervarpe Laga og Riettinda. Siaie þeir nockud gyrnelegt, verdur Bwksorgenn þeim svo Obærelег sem Achab, ad þeir nærre þvi leggiast uppa Sængena, 1. Reg. 21. Nær þad er ecke fyrer Augunum sem eta skal, þa er ecke Trwenn a Gud betur grundvollud enn so, ad Meñ spyria med Heidingiunum; Hvad skulum vier eta, eda hvoriu eigum vier ad klædast? Matth. 6. Uñ Asnans Skugga, og um Geitar-Haarenn tonnlast þeir og tyggiast Innbyrdis, þar til þeir mættu uñ siider verda uppetner, og ef einhvor giorer nockud af vid þa, þad rækia þeir inn til Daudans; Siaie þeir Veg til ad Fiefletta einhvorn, spara þeir ecke Roog nie Lijge; Þyke eitthvad inndællt vera, þa stendur Guds Elska og hanns Ord til baka, enn Holldenn er þioonad i þess Gyrndum og Tilhneigingum. So vaxa nu Þyrnenn upp fullum Fetum, enn i Sæde Guds Orda dempast, og bera ecke Avoxt, og a Gudhrædslunne ber ecke fyrer Illgresesins Ofvexte; Hvort hun sie nockur i Hiartanu, þad vita eige adrer nema af Avoxtunum; Hitt er Deigenum lioosara, ad alldrei kiemst hun leingra enn i Munnenn, enn hiner Limerner erfida i Satans Akre; og sijnest mier ad þesser elske Gud med somu Elsku og hanns Lijmu, er þeir segia; Vermed ydur og mettest, Jacobs 2. enn giefa þeim þo eckert. Slijkt er i Raun og Sannleika, ad

hroosa sier af Gudhrædslunne, enn afneita þo hennar Krapte, 1. Tim. 3. og (so sem JEsus sagde vid Juda) utsiwga Hws Eckna og Fodurlausra under Hylmingu laangra Bæna, Matth. 23. Og kann þad ecke ad fara a annann Haatt, þvi eige verda Vijnberenn samannlesenn af Þyrnunum, nie Fijkiurnar af Þistlunum, Matth. 7. Gudhrædsla soddann Manna er eins og Tal hinns Heimska, fyrer Gude, um hvørt Salomon segier; Ad þad sie eins og Kvister i Hond hinns Druckna, Prov. 26. Þyrnerenn er nærsta Brädþroska, velldur þad þvi, ad hann dregur til sijn allann Vokva wr Jördunne, so þau Grösenn, er i Naaind vaxa, þau faa ecke til Vidurvijsis, og þess betre Vokva sem hann nijtur, þess lijklegra er ad hann betur bloomgest. So er Hreckvijsenn; Þegar hun er plöntud i Naalægd Dygdanna, (svo kalla eg Skin Gudhrædslunnar) þa tekur hun þess meira Afl. Þegar Odigdenn er brinjud med Lijkingu Guds Herskrwda, þa hefur hun stoorann Myndugleika, Jafnvel þoott þad sie ecke nema Hamur eirn, og Satans Eingill i Liossens Eingel umstreiptur; Enn eige ad sijdur mun rætast a þeim Spaadoomur Esajæ, Cap. 10. Eldurenn mun uppbrenna hañs Þyrna og hañs Þistla a einum Dege. Þyrnarner eru bloomleger nærsta, eñ saart stijnga þeir, ef Ogiætelega er a þeim teked. Þannenn er Ahyggia og Bwksorg þessara Lijfdaga; Hun lofar öllu fögru, Gulle og Silfre, fullum Kornhlodum, Ynde og Epterlæte; Enn þeir ed slijta Hiarta sijnu þar med, þeir finna þo eckert Ynde, helldur, eins og hiñ Vatnsiwka þyrster æ þess meir, sem hann meira dreckur, so er þess frekare Agyrndenn, sem meire er Audurenn, og hun etur sialfa sig, og elur sig þo sialfa; Hun er bæde Hungur og Fylle, Ynde og Sorg, og er þo alldrei so miked Epterlæted, ad ecke sie meira Andstreymed, og, þad sem yfertekur, ad hun klefur þa Unadsemd, er Menn eiga i Motthne ad hafa, og mettar sijna Þræla med Harma-Braude einu, og dryckiar þa med Ominnis-Ole, so þeim gleimest ad safna sier Fiesiood a Himnum, hvorjum ecke kann Mölur nie Rid ad granda, nie Þioofar eptergrafast, Matth. 6. O þu Dijrkeipta JEsu Brwd, Christeleg Kyrkia! Laat þier þad til Rifia renna, ad þinn Unnuste er med Þyrnum Koronadur a yckar Heidurs-Degi, enn þu ræktar þa Þyrnana best, sem hanns blessada Hofud hafa hvad saarast stungid i Pijnunni, Þad eru þijnar Syndir og þitt Eptirlæti, Þu sem ert afrekud med Guds eiginn Blodi, Act. 20. Svo þad er ecki all-lijtid Sorgar-Efne, hvor sem þess giæter, ad hid Oforgeingelega Sæde Guds Orda, sem Petur talar um, þad þrovast valla svo hier a Jordunne, ad Bindene hanns Barna verde fullt i Heimenum. Roomveriar kolludu þad Opacklaatann Akur, sem ecke svarade Kostnadenum og Erfidenu; Enn þad maa hinn Allsvalldande Hwss-Fader ad riettu segia um sinn Akur: Þvi ef nockur vill meta til samans Guds Eingietens Sonar Dijrmæta Blood, hvørs minste Drope ad er Kostulegre enn öll Rijke Veralldarennar og þeirra Dijrd, og so hiñ Fioorda Part af þeim, sem Orded heyra, ad hinum Oreiknudum, sem þar fyrer utann eru, þa mun hann jaata, ad Christi Ervidis og hanns Akur Avexte sie Olijkt fared, og aungvañveigeñ samañ ad jafna. Hvør Eyru hefur ad heyra, hañ heyre!

Hvør

Hvorier eru hiner Fiórdu Tilheyrendur? Br. M. Pad eru þeir, sem JEsus samlijker þvi Sædenu, er fiell i Gooda Jord og bar Hundradfalldann Avoxt. Þetta þijder DRottenn uppa þa, sem behallda Ordenu i goodu og sidsomu Hiarta, og færa þar af Avoxt i Polennmæde. Gud hefur lofad, ad sitt Ord skyllde ecke koma toomt til sijn aptur; þvi hefur hann ecke lofad, ad þad skule hiaa ollum verka Saaluhiaalpena: Hvar fyrer? Þvi þar eru so marger, sem þvi ecke hallda i Goodu Hiarta, og ecke aller sem liaa þvi Rwm i Hiartanu. Hid sama Ord var predikad Pharao og ollum hans Þienurum; Enn þo segier Ritningenn, ad suiner af þeim hafe Ottast Ord DRottens, enn Pharao forherdte sitt Hiarta. Hid sama JEsu Christi Evangelium kiende Paulus og Barnabas i Iconio, og þar trwde mikell Fiollde, bæde Gydinga og Gryckia, enn Judar, þeir ed Vantrwader voru, Æstu upp Heidingiana i moote Brædrunum. Act. 14. Hid sama Guds Ord kiende JEsus ollum þeim, er til hanns heyrdu og saau hanns Kraptaverk, þo sögdu nockrer, ad hann Jardteikner giorde fyrer Belzebub, Luc. 11. Adrer leitudu epter Teikne af Himne; Þo fannst þar ein Kona, er fagnade hanns Kienningu, og sagde; Sæll er sa Kvidur er þig bar, og þau Briooft er þu nyyltter. Andsvar JEsu uppa Ord henar, minner mig aa ad tala um, hvorsu Gledelegt ad er Guds H. Ord i þess Manns Hiarta, sem hefur Lysting sijna i hanns Logmaale, Ps. 1. Hann sagde: Hvad um þad? Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þau. Eg þykest vita, ad morgmunne so lynd sem Kona þesse, er hun liet aa sier heyra, ad hun villde hafa vered JEsu Lijkamleg Mooder, hefde hun þann Kost mætt eiga, enn eg heyre ad hvorre eirne Christenne Saalu er bodenn betre Kostur, sem er, ad heyra Guds Ord og vardveita þau. Ecke hafde Maria miklu Blijdlæte Heimsins ad fagna, þoott hun være Mooder ad Konunge Himens og Jardar. Enn þo heyre eg, ad hun hafe vardveitt oll hanns Ord i sijnu Hiarta, Luc. 2. Þad heyre eg og ad Simeon segier i þessum Cap. Ad hennar Aundu mune Sverd i giegnum smiuga; Þad hefur aan alls efa vered, þegar hun stood under Krossenum, og hun saa hanns Hendur og Fætur i giegnum stungnar, er hun elskade so sem sitt eiged Hiarta. Af þessu sie eg Mariu sæla ad vera, þvi þau Ord er hun vardveitte i sijnu Hiarta, hafa hiaalpad henne slijk Oskop ad þola; Þad sama veit eg ad Guds Ord verkar i allra þeirra Hiortum, sem hann elska, og eru JEsu andlegar Mædur. Mitt Ok er sætt og mijn Byrde liett, segier Endurlausnarenn, Matth. 11. Ecke þiker þad Heimsins Bornum, þeir ed Oked i sundur briioota. Enn hvor mun þad liett giora? Þad giorer Guds Ord, sem Riett-Trwud Saala vardveiter i Hiartanu, hvort ed telur henne Trw um þad, ad Mootlætingar þessarra Tijma, sieu eige verdar þeirrar Dijrdar, sem fram vid oss mun koma i eilijfu Lijfe, Rom. 8. Sæler eru þier nær Menninerner hallmæla ydur, og tala i giegn ydur alla Vondsku fyrer mijns Nafns Saker, þo Liwgande, segier hann enn aptur, Matth. 5. Fagned og vered glader, þviad ydar Verdkaup er nooglegt aa Himnum. Enn hvor mun giora oss vissa um þesse Verd-Laun? Þad giorer H. Ande, sem byr i Ordenu, þvi er eirn Harm-Þrwngenn og Sundurknos-

noſadur Ande vardveiter i goodu og Sidſømu Hiarta, þvi hann er Pantur vorrar Arfleifdar, Eph. 1. So ſem eg er þeſs fullviſs, ad mier verdur eingenn Skota-Skulld vr laanudu Fie, aa medann eg Pant hefe; Svo og laangtum framar er eg þeſs fullørugg-ur, ad mier mune øll Harmkvæle þeſſa Heims med eilijfre Glede endurgollden verda, (Jafnvel þo eg þeſs Overdugur ſie) aa medann eg vardveite GudsOrd i goodu og Sidſømu Hiarta, þvi Ande Guds ber Vitne mijnum Anda, ad eg ſie Guds Barn, Rom. 8. Og Færer Avørt i Þolennmæde, ſegier HErrann: Hvørugt gietur annars aan vered. Saa ſem vardveiter Guds Ord, hann færer Avørt i Þolennmæde, og hann ſem Avørt i Þolennmæde færer, hann vardveiter Guds Ord. Þeſs gietur Johannes i hanns Fyrſta Briefe, Cap. 2. med þeſſum Ordum: Ef nockur ſegier; eg elſka Gud; og vardveiter ecke hanns Bodord, hann er Lÿgare. Villt þu, Chriſtenn Madur, vita hvørt ad Guds Ord bijr i Hiarta þijnu edur ei, þa reyn og proofa ſiaalfann þig, hvørt þu manſt þad af Gude er ſagt, hvørt þu hefur Lyſt aa ad tala um hann, hvørt þier misþocknaſt, er þu heyrer hanns Nafn laſtad, hvørt þu gledſt af þvi, þa hanns Ord hefur Framgaang, hvørt þu elſkar þaa er hann elſka, hvørt þu ert fliootur ad tilgiefa Misgiørdernar, hvørt þu kienner i Brioofte um þaa, ſem Naud lijda, og elſkar þaa ecke einaſta med Orde og Tungu, helldur med Verke og Sannleika, hvørt þu audmyker þig fyrer Gude med Þacklæte þijns Hiarta, þegar þier vel vegnar, hvørt þu kiſſer aa hanns Vønd nær hann þig typtar; Þegar þu freiſtaſt af Andſkotans Heimſins og Holldſins Vielum, enn þier kiemur þa undir eins i Hug, hvad Gud hefur bannad, hvørt þu lætur þa af, og Elſkann til Guds rædur meir enn Fijſn Holldſins: Finnur þu þetta hiaa þier, þoott þad ſie i Veikleika og aa Stundum meige afbera, þa er þad vijſt, ad Guds Ord og hanns Ande drottnar i Hiarta þijnu, enn annars ecke; Þvi ſo ſegier Lauſnarenn: Ef nockur elſkar mig, þa ſkal hann mijn Ord vardveita, Joh. 14. Enn ef Skap þitt bijdur þier allt annad, þa ſegie eg þier i Nafne JEſu Chriſti hinns Kroſsfeſta og Bleſſada, ſem þijna Saalu hefur fraa Helvijte Endurleyſt; tak þier Vara og bid Gud ad ſkapa i þier hreint Hiarta, og giefa þier nijann Anda; þviad eg þore ad ſetia mijna Saalu i Ved, ad þu geimer vanfæra Saal i heilbrigdum Lijkama, og herbergiar vondann Gieſt i vænu Hwſe, enn veitſt ecke nær aa Veggenn ſkrifad verdur: Þu Daare, aa þeſſare Noottu ſkulu þeir þijna Saalu fraa þier taka, Luc. 11. Hvad gagnar þad þa Mannenum, ad hann ætte alla Verølld þeſſa, og lijdur ſo Skipbrot aa Saalu ſinne? O þu eilijfa Ord Fødurſins, ſem varſt i Upphafe hiaa Gude, fyrer hvørn ad Alldernar ſkapadar eru! Endurſkapa þu Hiarta vort, ad vier verdum nijar Skiepnur i þier; Laat þu þitt ſæta Ord vera vort ædſta Epterlæte hier Tijmannlega, ſo ad vier meigum þeſs Oumrædelega Fagnadar niioota eilijflega. Veit oſs þad, O Herra JEſu Chriſte, fyrer þitt Dijrmæta Blood og Bleſſada Forþienuſtu.

Þier ſie, med Fødur og H. Anda, Dijrd, Heidur og Lof, fraa þvi nu er og um Allder Allda, A M E N.

# Sunnudagenn i Fostu Inngang.

Gudspialled, Matth. 3. Cap.

I Pann Tijma. Kom JEsus af Galilæa ad Jordan til Johannem, uppaa þad ad hann skijrdest af honum. Enn Johannes varnade honum þess, og sagde: Mier er Þorf ad eg skijrest af þier, og þu kiemur til mijn. Enn JEsus svarade og sagde til hans: Laattu nu so vera, þviad so hæfer oss allt Riettlæte upp ad fylla. Og þa liet hann þad epter honum. Enn er JEsus var skijrdur, stie hann jafnskiott upp wr Vatnenu. Og siaa! ad Himnarner lukust upp yfer honum, og Johannes saa Guds Anda ofann stijga sem Dwfu, og yfer hann koma; Og siaa! ad Rødden af Himne sagde: Þesse er Sonur minn Elskulegur, Ad hvorium mier vel þocknast.

Exordium.

EG vil uppvekia þeim Eirn Spaamann af þeirra Brædrum eins og þu ert, sagde DRottenn vid Moysen, Devt. 18. Þesse Ritning er aa vorum Frelsara JEsu Christo ad fullu uppfylld, þar ed hann strax epter sijna allra-heilogustu Skijrn i Anne Jordan var settur af Gude sijnum Fodur til Kiennemannsskapar og Spaamanns Embættis Nija Testamentesins, og smurdur med Oleo Fagnadarens fram yfer sijna Hluttakendur, Ps. 45. So ad uppfylltest þad sagt er fyrer Munn Esajæ, 61. Cap. og hin eilijfa Spekenn Guds uppaa siálfann sig þijder, Luc. 4. Ande DRottenns er yfer mier, af þvi hann hefur smurt mig, hann hefur sendt mig til ad predika Voludum, ad leggia vid þau Sundurknosudu Hiortunn, til ad predika þeim Hertekinu Frelsed, þeim Faungudu Lausnena, hinum Blindu ad þeir verde heilskigner, ad eg frelse hina Sundurkromdu. Enn hvornenn maa eg þad skilia, ad þesse mikle Spaamadur sie eins og Moyses, þar hann var Madur Syndugur, enn þesse aan Syndar? Þess er ad giæta hier i, ad Gud spaaer, ad hann mune eins og Moyses verda, enn Moyses þo ecke jafn honum: Lijkur ad sonnu i allre Mannlegre Hegdan og Edle uppaatekennar Naatturu, enn nærsta Olijkur epter þeirre Dijrd, sem hann aatte i Upphafe hiaa sijnum Fodur; Og i Sannleika er vor Endurlausnare Moysi i morgum Hlutum lijkur. Moyses var eirn Madur; Christur er og Holld af voru Hollde, og Bein af vorum Beinum. Moyses var af Gude sendur, enn umm sig talar JEsus hiaa Johanne: Svo sem Faderenn sende mig, þa sende eg ydur, Joh. 20. Moyses wtleidde af Egypta-Lande, JEsus hefur frelsad oss af Syndarennar Þrældoome. Gud wthellte sijnum Anda yfer Moysen, og gaf honum Vitsku og Speke til ad dæma sitt Fool: ; miklu framar þo yfer JEsum Christum, þvi honum hefur hann aan Mælingaer giefed Joh. 3. Gud took af Anda Moysis og lagde yfer Olldungana i Israel, Num. 11.

Af JEsu Fyllingu høfum vier aller medteked, Joh. 1. Þar var eige so plagadur Madur sem Moyses, Num. 12. Hvor hefur so plagadur vered sem JEsus? Moyses var Hertoge i Israel, sa ed leidde Guds Fylkingar i Eydemørkenne. JEsus Guds Sonur er hinn mikle Hertoge, sem af Bethlehem er wtgeingenn, Mich. 5. til ad fæda hanns Foolk Israel. Israel hræddest fyrer Auglite DRottenns i Horeb, Exod. 21. og sagde vid Moysen: Eige viljum vier framar heyra Raustena DRottenns Guds; Far þu uppa Fialled, og tala vid hann fyrer oss. Af hvøriu rada er, ad Moyses i þad Sinn hafe vered Medalgangare millum Guds og hanns Foolks: Þeirrar Meiningar hefur og vered Stephanus Pijslar-Vottur DRottenns, er hann sagde um̃ Moysen, Act. 7. Þegar hann þijder þenna merkelega Spadoom uppa vorn Frelsara, segiande: Þesse er hann, ed var i Samkundunne i Eydemørkunne med Einglenum, sa ed talade vid hann og Fedur vora, sa ed medtook þad Lifanda Ord, ad hann gæfe oss þad; Enn þoott ad Moyses i þann Mata være Medalgangare mille Guds og Israels Sona, þa hefur þo Guds Sonur eitt Ædra Embætte odlast, vordenn Arnadar-Madur hinns betra Testamentis, sem stadfest er uppa betra Fyrerheit, Hebr. 8. Vid þenna Mismun a mille Moysis og Christi Medalgaungu hefur Paulus kannast, Hebr. 12. Cap. med þessum Ordum: Þier erud ecke geingner til þess Fialls, sem þreifannlegt er, og med Ellde brennur, nie til Þoku edur Myrkurs og Ovedurs, nie til Lwdur-Þits edur Raddar Ordanna, vid hvøria þeir Ottudust er hana heyrdu, þad eige yrde til þeirra Orded talad, helldur erud þier komner til Fiallsins Zion, og til Medalgangara hinns Nija Testamentis JEsum, og til Bloodsins Adreifingar, þad betur talar enn Abels Blood. Þetta er þad dijrmæta Blood Guds Eingietens Sonar, Apoc. 1. JEsu Christi, med hvøriu hann þvær oss synduga Menn sem komum i þennann Heim, i Skijrnar-Laugenne, af øllum vorum Syndum; Og uppa þad hann helgade øll Vøtn til Hialpsamlegs Medals Endurfædingarennar, þa hefur hann lated sialfann sig i Anne Jordan skijra, svo sem vier nu Samstundis heyrdum af þessa Dags Evangelio; Af hvøriu vier viljum Einasta yfervega, hvad stoor og mikell ad sie Kraptur Skijrnarennar i Framkvæmd vorrar Saluhialpar, og hvørier ad sieu hennar Avexter.

Þu Myskunsame Gud, sem bæde hefur plantad og Avøxtenn giefur; Gief þu ad um̃ þeña þinn Hααleita Leindardoom svo talad og epterteked verde, ad þitt Allra-Helgasta Nafn Vegsamest a medal vor; Enn vier mættum þinnar Eilijfu Myskunar Saluhialpleg Not hafa, fyrer Fulltijnge þijns Elskulega Sonar, J Krapte Heilags Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

DRottenn sagde vid Nicodemum Fordum̃ Daga, Joh. 3. Ad hvad sem af Holldenu fædt være, þad være Hollds, enn hvilijk ad sie vor Holldleg Fæding; þad wtmaalar Guds Ande allra best fyrer Munn Paals, er hann segier, Eph. 2. ad vier sieum af Natturunne Reidennar Børn. Hvad kann þeim aumra ad vera, sem under

Guds

Guds Reidl eru, þar hun er eirn fortærandi Elldur, sa ed brennur allt til nedsta Helvijt-is? Devt. 32. Enn hvernig erum vier nu vid þetta Volædi kvittir vordnir? Þad hofum vier ødlast i Skijrnar Saanum. Þess gietur St. Paall, Eph. 5. seglandi: Christur hefur hreinsad Sofnudinn med Vatns-Lauginni i Ordinu. Hann segier enn aftur: Ad Gud hafi þrifid oss wt af Valldi Myrkranna og sett oss i Rijki sijns Sonar, Col. 1. Nær mun þetta hafa giorst? Ad vijsu i Skijrninni. Hvort er Valld Myrkranna? Þad er Diøfulsins Rijki, Eph. 6. Hvort er Guds Sonar Rijki? Þad er Fridur og Fognudur i H. Anda, Rom. 14. Þier vorud fordum Myrkur (Segir Paall um Heidingiana, adur enn þeir voru af Gudi Endurfæddir), enn nu erud þier Liøs i DRottni, Eph. 5. Eins vorum vier allir aa oss komnir, adur enn Guds eilijfa Myskun Endurbætti vorn syndugann Gietnad med Vatni og Anda. So mikill Munur sem nu er aa milli Liøssins og Myrkursins, milli Dags og Nætur, milli Soolarinnar og þeirra Hluta sem hun upplijsir, svo mikid Diwp sem þar er stadfest aa millum Lazarum i Fadmi Abrahams, og hinns rijka Sælgiætings, þar hann pijnist i Helvijti og Kvolunum, Luc. 16. So stoor Mismunur er, ad sijnu Leiti, milli þeirra, sem alleina af Holldinu, og þeirra sem i Skijrninni verda af Andanum fæddir; Þvi vor Lausnari segier hiaa Joh. 3. Cap. vid Nicodemum: Nema einhvor verdi Endurfæddur af Vatni og Anda, þaa kann hann ecki inn ad gaanga i Guds Rijki. Þetta tala eg ecki i þeirri Meiningu, ad eg hafi hinn minsta Þanka þar um, ad Smaa-Børninn, sem anadhvørt i Moodur-Lijfi burtkallast, eda deya strax eptir þad þau borinn eru i Heiminn, edur hindrast aa einhvorn Haatt fraa Skijrnarinnar Blessan, ad þau muni ecki eilijfs Lijfs Erfingiar verda; helldur af þvi, ad DRottinn aatti Orda-Stad vid Nicodemum, eirn Fullordinn Mann, sem ecki var so uppfræddur i þeirri Guds Rijkis Stioorn, sem Christur hoof hier aa Jørdunni, med Endurgietningu Syndugra Manna, fyrir Vatn og Anda, er Nijungar þoottu hiaa þeim sem af Umskurninni voru, sierdeilis Phariseeunum, af hvorium Nicodemus var, þa eptir þvi (segi eg) ad hann villdi undirvijsa honum i Lærdoomi Nija Testamentisins, Þa sijnir hann honum, ad saa nu vilie Hoolpinn verda, hann meigi skijrast laata. Eirn Konungur er ecki bundinn vid þau Log sem hann sialfur giefed hefur, svo hann meigi þeim ecki umbreita, nær þad ei skiedur aa mooti Guds Løgum; Þvi skylldi þa hinn mikli Stioornari allrar Veralldar vera so fastur vid sijna Setninga, ad honum leyfdist ecki ad giora sijnum Skiepnum Gott, med þeim Hætti sem hanns Alvitra Raadi haga þykir? Guds Setningar skyllda oss undir hanns Hlijdni i ollu þvi sem i voru Valldi er, enn ecki sialfann hann, svo hann þad ecki wtrietta kunni sem hann vill, med þeim Hætti, sem hann sialfur vill. Forøktun Skijrnarinnar, og ecki hennar Brestur, fordæmir syndugann Mann; Enn saa kann ecki ad forakta, sem eigi kann ad adgreina Illt og Gott. Hiaa Gudi er einginn Hlutur Omaattugur, Luc. 1. Þvi mun þa þessi vera? Maattugur er Gud ad uppvekia Abraham Sonu af Steinunum, Matth. 3. Þvi þa ecki ad flytia þeirra Saalir i Abrahams Skaut, hvorra Lijfs-Stundum

hañ ſiælfur rædur ? Ef Gud villdi Endurfæda Manniñ æn Skijrnarinnar, mundi hañ þad ecki gieta edur meiga ? Sañlega. Eg ſie hann hefur Endurfædt þa ſem æ Gamla Teſtamentiſins Dogum lifdu, fyrir Medal Umſkurnarinnar. Enn ef honum þocknadiſt olldungis fyrir utann nockurt Medal ad endurgieta Mañiñ til eilijfs Lijfs, mundi þad ecki i hanns Valldi ſtanda? Einginn Efi er æ þvi. St. Paall ſtyrkir mig i þeirri Trw, Rom. 4. talandi þar uñ, med hvoriu Mooti Abraham hafi verid reiknud Trw ſijn til Riettlætis: Med hvorju Mooti var hun tilreiknud ? Segir hañ: Hvort þegar hañ var i Umſkurniñi, edur Yfirhwdiñi ? Ecki i Umſkurniñi, helldur i Yfirhwdinni. Hafi nu Gud Abraham, Fodur Trwadra, endurfædt fyrir utañ Sacramentaña Medal, þvi ſkal hann ecki kuña og vilia þad ſama giora vid þa, ſem ecki verdur ſo laangs Lijfs audid, ad þeir meigi i Skijrniñi Endurfædaſt. Ad eg ecki tali uñ Adam, Seth, Lamech, Matuſalem, Enoch og Noa, med Otal Þuſund odrum, ſem Menn fyllilega trwa ad nu lifi med Gudi i Himnenum, og Andadir eru ædur eñ Sacramentinn voru iñſtiptud. Og ad Menn viti, ad þeſſu ſie eins varid ſijdann Sacramentinn innſett voru, þa ſie oſs vitannlegt, ad hañ, ſem kuñi hoolpiñ ad giora þau Borninn i gamla Teſtamentinu, ſem burtkolluduſt innañ þeſs Attunda Dags, hvor ætladur var til Umſkurnarinnar, Gen. 17. Hann ſem myſkunadi ſig yfir þa ſem deydu i Eydimorkinni Oumſkornir, Joſ. 5. Hann ſem wthellti Heilogum Anda yfer Cornelium, og þa ſem voru i hanns Hwſi, ædur enn þeir nockurn Tijma ſkijrdir voru, ſo ad Petur ſagdi: Hvor maa banna þeim Vatnid, ſem medtekid hafa H. Anda eins og vier? Act. 10. Hanns diwpu Myſkunar Ydur, Luc. 2. ſem aungvann Botn hafa, þau eru ecki ollſamann wtrunnin i Skijrnar-Saain, helldur renna hanns miklu Myſkunar-Lækir eirneiginn til þeſſara Smælingia, af hvorium Fadir Myſkunſemdanna vill ecki ad nockur fyrirfariſt, Matth. 18. Þeim ſem Trwadir voru af Umſkurninni hnickti vid þad, ad Heil. Andi fiell yfer heidnar Þioodir, Act. 10. ſem lijtid af Gudi viſſu ædur enn þeir ſkijrdir voru: So ſkiedur þad enn nu i Dag, ad þad ſem Omogulegt er fyrir Moñunum, þad er mogulegt fyrir Gudi, Matth. 19.

David Konungur, þoott hann ſtoor ſyndugur Madur væri, þa er eckert ad heyra añad æ hanns Kvedlijngum, enn ad hann hafe ætlad ſier eilijfa Viſt hiaa Gudi, þegar hañ harmadi ſinn Son, hvorn hann gietid hafdi med Berſabe, hvor ed, framar odrum hanns Bornum, maatti kallaſt gietinn og fæddur i Syndinni, ſaa ed og deydi ædur enn hann umſkorinn vard; Hann huggadi ſig med þeſſum Ordum, þegar hann reis upp wr Duptinu, þar hañ griet Synd ſijna fyrir Gudi: Eg kiem til hanns og hann ecki til mijn, 2. Sam. 12. Af hvoriu audſied er, ad hann hefur verid fulltrwa þar uñ, ad hann væri undann ſier farinn i þa gledilegu Viſt, hvar ad er Sadning Fagnadarins; ſo ſem hann þad ſiaalfur kallar. Hvad fiarlægir ad ſieu Guds og Manna Doomar, er, æ medal añarra, audſied af Jonæ Spaamanns Sogu, þegar hann nærri þvi brixladi Gudi uñ ſijna Þolinmædi, Jonæ 4. Med þeſſum Ordum: Jeg veit þu ert Naadugur og Myſkunſamur, Þolinmoodur og nærſta Goodgiarn: Enn Gud ſvaradi honum þeſſu, medal annarra,

munt

munt þu Riettelega Reidaſt? Þu hlijfder Lundenum uppa hvorn þu ecke erfidader, og eckert giörder þu til hanns Fullkomnunar, þvi hann voox a Noottu, og Næturgamall viſnade hann; Skyllde eg þa ecke þyrma Ninive þeim ſtoora Stad, i hvorium ad eru fleire enn Hundrad og Tuttugu Þuſunder, er ecke vita til Hægre nie Vinſtre Handar, og mörg Villudijr. Hafe nu Bruunur Miſkunſemdanna ſo Naadugur vered, ad hañ villde þyrma þeim Ogudlega Stad vegna Oumſkorenna Heidingianna Barna, hafe hañ helldur viliad þola þeirra Illſku, ſem i Himenenn var uppſtijgenn fyrer hann, helldur enn ad Eydeleggia öll Dijrenn ſem þar inne voru, Jon. 1. Þvi ſkyllde eg þa ecke ganga wt Skugga þar um, ad hann mune miſkuna ſig yfer eitt Omaalga Fooſtur, ſem eckert kann til þeſs, ad þad ei leingur lifer. Nu þoott ad Gude vorum ſie i ſiaalfs Vallde, ad taka Mañeſkiuna i Saatt vid ſig og endurgieta til eilijfs Lijfs, med hvoriu helſt Moote, ſem honum þad þocknaſt, epter ſinne Almættis Goodgyrne; Samt er þad hinn verſte Glæpur, ef nockur forſmaaer edur forſoomar þetta Hiaalpſamlega Medal. Þoott eirn Hwsfader meige med audru Moote wtrietta þa Hlute, er hann ſkipar ſijnum Þienara, mun hinn þar fyrer vera ſijkn Saka, ef hann forſmaaer ſijns Herra Raadſtofun? Gud hafde noog Raad ad ſlaa i Hel Konung Amalechitañna, þoott ecke hefde hann brwkad Sauls Hond þar til; Enn af þvi hann var Toomlaatur i Guds Eyrenda Framkvæmd, þa vard Iſraels Rijke rifed af hanns Hende og giefed hanns Þienara; 1 Sam. 15. Munde nockud Achab og hanns Hws umflya Oluckuna, þa hann forſmaade DRottenns Vilia i þvi ad drepa Benhadad Syrlands Konung? 1 Reg. 20. Jafnvel þoott hinn ſterke Gud hefde Þuſund Veige til ad tortijna honum. Þad ſem Umſkurnenn var i Gamla Teſtamentenu, þad er Skijrnenn i þvi Nya. Enn hvorſu miked hafe vardad um Umſkurnena, vottar ſiaalfur Gud, Gen. 17. þegar hann ſtiptade þad H. Sacramentum, ſegiande; Allt Kallkins, ſem ecke umſkier Yferhwd ſijns Hollds, hanns Saal ſkal upprætaſt fraa mijnu Foolke, þvi hann hefur Onijtt minn Saattmaala; hvoriu ſamkynia er þad DRottenn talade vid Nicodemum, og eg hefe aadur aaminnſt. Nu þott ad Barnanna Velferd ſie hier undanntekenn, ſem aadur er ſagt, þa vite þo hiner gömlu, ſem forſooma a þeim ſoddann Hiaalpræðeſins Medal, ad Gud vill þeſs krefia af þeirra Hende: Þar fyrer ſkielfdeſt og Zipphora Kvinna Moyſis, þa hann tafde ad umſkiera ſinn Son, Exod. 4. Annadhvort fyrer hennar Umtolur, edur einhvorn annann Tilgang, enn Gud mætte þeim i Gieſta-Herbergenu, og ætlade ad ſlaa Moyſen i Hel fyrer þeſſa Forſoomun; Þvi ſkyllde ecke ſyndugum Monnum framar aullu audru þykia mikels verdt um þennann Haaleita Hlut? Saa Stadur hvar vor Endurlauſnare liet ſkyraſt, hefur aan Eſa vered Betabara, þar ed Johannes ſkyrde, ſem raada maa þar af, ad DRottenn gieck ſtrax epter Skyrnena wt i Eydemorkena ad freiſtaſt, og epter Freiſtinguna kom hañ til Johannem i Betabara aptur, hvar hann var ad þeſſu Guds Verke, Joh. 1. Þetta Ord merker Feriu-Stad, af þvi mikla Daaſemdarverke, ſem Gud giorde vid ſitt Foolk, þegar hann leidde þad i þeſſu ſama Platze þurrum Footum i giegnum Ana Jordan

inn i Canaans Land, og verdur so hier um̃ skrifad, Jos. 3. Ad Ork DRottenns hafe stad-ed midt i Fliootenu. Þetta ætte ad minna oss aa, ad JEsus Christus er hin sanna Ork Saattmaalans aa mille Guds og Manna, hvør ed i Skijrnenne samenn verdur: Hañ er sa riette Naadar-Stooll, hvørn Gud hefur sett fyrer Trwna i hanns Bloode, hvar med hann frambijdur þad Riettlæte, sem fyrer honum er fullkomed; Þar fyrer ert þu minn JEsus ofannstijgenn i Jordan, allt Riettlæte upp ad fylla, þu hefur staded midt i Vatns-Floodinu, so vier þurrum Footum inngeingium i Guds Rijki. Þu eilijfe Jehoschua, sem oss hefur hoolpna giort i hæstum Hædum! Þig hefur Gud, þinn Gud, daasamlega miklad, laangt fram̃ yfer Josuam aa þijnum Skijrnar-Deige, þegar hann gaf þier fyrer Skijrnar Saaenn i Ordenu heydnar Þiooder og Endemørk Jardarennar til Arfleifdar, Ps. 2. Þu blessada Saattmaals Ork! i þier er bundeñ Saattmaale goodrar Samvitsku vid hiñ straanga og Riettlaata Gud, 1. Pet. 3. hvørs Utlagar vier erum vordner i Adam, og Landraadum vid hann seker med Diøfulsins Þioonkan; Þu hefur sundurklofed, ecke Vatnsfollenn, helldur Himnana, sem med Yfertrodslu Løgmaalsins voru tilbyrgder. Þu ert aadreifdur med þvi rietta Saattmaals Bloode, sem i vorn Skijrnar Saa er wtruñid oss til Riettlætis og Helgunar. Þu stoori Hertogi Guds Heilogu Þusunda! þu hefur fyrer þijna H. Skijrn flutt oss yfer um̃ Jordan, og slited vora Utlegd; Þu hefur fært oss fraa Egyptalande til Canaan, fraa Myrkrunum til Liossens, fraa Diøfulsins Vallde, og sett oss i þitt Rijke, Col. 1 Sjaae hier nu Christner Meñ, hvad miked oss Skijrneñ gagnar: og þoott Gud rate adra Leyd inn i þad Fyrerheitna Landed med þeirra Saaler, er hann sialfur burtkallar, aadur enn þeim þessa Medals auded verdur, þa er audvitad hier af, hvad myklu soddann Guds Raadstøfun orkar, til vorrar Saaluhiaalpar: J faam Ordum ad segia; Hun er þad Fyrsta Port til Saaluhiaalparennar. Endurlausnarenn kallar sig Dyr Saudanna, Joh. 10. Hier verdur hann allra fyrst aa Vegie fyrer aullum þeim, er sijdann eiga Lijfsins Veg ad gannga inn i Guds Dijrdar-Rijke, og hun er hin Fyrsta Trappa til Andlegs Lijfs, so sem hiñ Lijkamlegie Gietnadur er til þess Holldlega. Vier erum i Skijrnenne endurgietner, þvi Paulus segier; Ad vier so marger, sem skijrder erum, vier høfum Jklædst Christo, Gal. 3. Enn aptur segier hann, 2. Cor. 5. Ad ef nockur er i Christo, þa sie hann Nij Skiepna, og fyrer þessa Nija Skiepnu bijr Christur i vorum Hiørtum, Eph. 3. Fyrer hana kollunst vier Guds Mustere, 2. Cor. 6. Fyrer hana verdum vier innplantader aa hid sanna Vijntried, Joh. 15. JEsum Christum; Fyrer hana heitum vier Limer Christi Lijkama, 1. Cor. 12. Vier høfdum i Falle vorra Fyrstu Forelldra mist hid sanna Riettlæte, so ad vorar bestu Athafner voru eige betre i Guds Auglite, enn Nidlags Fat, Esa. 64. JEsus hefur bætt vort Raad med sijnu Riettlæte, Enn þad kunne ecke þeim til ad reiknast, sem voru Guds Oviner, þvi hefur hann i Skijrnenne Endurfædt oss og giort oss Guds Børn af Diøfulsins Børnum, svo hanns Eingietens Sonar Dijrdarfulla og yfergnæfanlega Riettlæte yrde tilreiknad hanns Brædrum, eñ ecke Andskot-

ans

anns Limum. Þad er ecke um̃ Skor fram̃, ad DRottenn segier vid Johannem: Laat Þu So Vera, Þannenn Byriar Oss Allt Riettlæte Upp Ad Fylla. Ad Christur þyrfte ecke sinna vegna ad skijrast, er kunnugra medal vor enn um̃ þurfe ad tala, þvi hvornenn kunna Menn ad skygna Glased, eda Soolena biartare ad giora? Helldur er Christur, skijrdur svo vel sem um̃skorenn, uppaa þad, ad hann helgade Sacramentenn, og forþienade oss Arftoku Guds Barna fyrer þau sømu. Christur var ad sønnu alltijd vort Riettlæte, þvi Gud sende Sonenn i Heimenn, ad hañ vort Riettlæte yrde. 1. Cor. 1. Hañ er orden̄ Bølvan fyrer oss, ad vier yrdum Guds Riettlæte i hønum, Gal. 3. Hann er Jehova vort Riettlæte, Jer. 23. Og þetta Riettlæte hefur vor HErra med sijnum allra Helgasta Dauda oss wtvegad; Enn hier vantade þad Medal, med hvøriu oss skyllde þetta Riettlæte tilreiknast, so þad kinne aa oss ad hrijna, hvort eg segie Skijrnena ad vera, og fyrer Skijrnena Endurgietninguna, þvi erum vier og i hanns Dauda skijrder, þvi trwe eg þess fastar sem St. Paall helldur styrker mig i þeirre Trw, er hann segier, Tit. 3. Ad hann hafe oss hoolpna giort fyrer Endurgietningar Vatns-Saaenn og Endurnijungar H. Anda, hvørium hann hefur nooglega wthellt yfer oss, svo vier Riettlætter fyrer hanns Naad, yrdum Erfingiar Eilijfs Lijfs epter Vonenne.

So er nu vor Skijrn byggd aa Christi Allra-Helgustu Skijrn, Enn af vorre Skijrn fram̃kiemur Riettlætingenn fyrer Gude, sem er Fyrergiefning Syndanna. Þessu sijnest mier ad Faderenn lijse, þegar vor Brooder, sem oss er ad øllu lijkur, ad Syndenne undanteknne, þegar hann stie upp ur Anne Jordan, segiande: Þesse Er Minn Elskulegur Sonur, J Hvørium Mier Velþocknast. Til hvørs er þiñ Sonur i Heimenn komenn, Naaduge Fader? Synduga Menn Saaluhoolpna ad giora, 1. Tim. 1. Þvi hefur hann i sinne Skijrn allt Riettlæte uppfyllt? Til ad kalla Synduga og ecke Riettlaata til Ydranar, Matth. 9. Þvi liet hann Skijrnena vera Inngaang sijns Kiennemannlega Embættis? Þvi hann villde hun yrde vor Inngaangur til hinns Andlega Kiennemannsskapar. Þvi er Herrann af sijnum Þienara Skijrdur, Skaparenn af Skiepnunne, Gud af Mañenum, Soolen̄ af Morgun-Stiørnuñe, hiñ Heilage af Syndaranum, Meistaren̄ af Læresveinenum? So ad þu fyrer þessa og alla adra hañs Forþienustu, giørder Synduga Menn þijna Þienara, þijnar Skiepnur, þijns Sonar Læresveina verduga og hæfelega i hañs Nafne ad fram̃kvæma aa ødrum sijnum Lijkum þetta sitt Eyrende, og ad skijra med Vatne eins og Johannes, þar DRottenn sialfur vill med Anda skijra. Þetta hefur hønum þocknast fyrer sialfann sig ad wtrietta, J hvørium þu hefur alla þijna Velþocknan. Muntu þa hafa Oþocka aa þeim, sem hann ecke skam̃ast sijn Brædur ad kalla, fyrer sømu Skijrn? Ef hann hefur i sinne Skijrn allt Riettlæte uppfyllt, munt þu þa gaanga i Doom vid Raanglaatann, sem i hanns Dauda er skijrdur? Ecke er þad ætlande til hinna heitu Miskunar Ydra, sem giefed hefur oss Sonenn þegar vier vorum en̄ þa þijner Oviner, Rom. 5. Ad þu muner ecke giefa oss alla Hlute med hønum, Rom. 8. Þar hann hefur i Endurgietningar Laugenne giort oss ad þijnum Børnum, þar fyrer

 Veg=

Vegsömum vier þijna Guddoomlega Hæxtign i bliwgustu Audmykt vors Hiarta, enn nu i Dag standande i þijnu Auglite, med þijns Þienara St. Peturs Ordum, af hans Fyrra Pistels 1. Cap. segiande: Blessadur sie Gud og Fader DRottenns vors JEsu Christi, sem af sinne mikillre Myskunseme hefur Endurgieted oss til lifande Vonar, fyrer Upprisu JEsu Christi fraa Daudum, til þeirrar Arfleifdar, sem ecke kann ad skiemmast, ecke saurgast og ecke ad rotna, hvør oss er ætlud aa Himnum. Hvornenn Madur sie epter Holldlegu Edle, þad sijner oss St. Paall aa þeim sem ad aungvu nijta sijna Endurfædingu, og ecke hirda um hana ad endurnija. Um Skilningenn talar hann, ad Holldsins Vitsmuner sieu Reide og Fiandskapur i giegn Gude, Rom. 8. Um Viliann, ad Hollded girnest i moote Andanum, Gal. 5. Um Girndernar, ad þær strijde i moote Saalunne, 1. Pet. 2. Þoott ad þesse Vanheilsa Saalarennar verde nu alldrei fyllelega læknud, so leinge vier lifum i þessu Hollde, so sem Paulus þad nooglega vottar, med mikellre Harma-Klögun yfer sialfum sier, Rom. 7. Þa samt verda vorar Saaler i Skijrnenne, fyrer Verkan H. Anda, tilbwnar til ad mootstanda þvi Illa, og vorer Limer til Riettlætesins Þiwdar, epter þeirre Mæling, sem ad þetta Forgeingelega kann ad þola, so ad þegar H. Ande straffar i oss Syndena, uppvekur Trwna, efler Þolenmædena, styrker Vonina, Kveikir Elskuna til Guds og Naungans, annadhvort fyrir Ordsins Heyrn, J hvoriu hann bijr, edur og fyrir Gudrækilega Þanka, þa gietur sa honum samsint og aukid sijna Endurnijung, sem honum ecke mootstendur, annadhvort med Hirduleysi, Þverwd edur sialfskapadri Vantrw, Hvør ad sönu er i voru Vallde, so sem allt hid Illa, enn ecke Trwenn, hvør ad er Guds Verk, Joh. 6. Og seger vor Endurlausnare oss allra best Greinarmun aa millum þessarra Tvennslags Flocka, þeirra sem nockur, og þeirra sem eingenn Not hafa sinnar Endurfædingar, Joh. 15. Eg em þad sanna Vijntrie, enn Fader minn er Vijngards Madurenn, sierhvorn þann Kvist sem ecke ber Avöxt, mun hann burttaka, og hvørn þann sem Avöxt ber, mun hann hreinsa, ad hann bere meire Avöxt. So verdum vier nu i Skijrnenne Endurnijader til goodra Verka, hvad Paulus vottar, Rom. 6. Vier erum jardader med Christo, fyrer Skijrnena, til Daudans, ad lijka sem Christur er upprisenn fraa Daudum fyrer Dijrd Födursins, so eigum vier ad ganga i Endurnijung Lijfdaganna. Þannenn verdum vier nu i Skijrnenne andlega Endurfædder, Riettlætter og Endurnijader, og þoott ad vor Goodverk, ef nockur væru, sieu Ofullkomenn, og ecke i sialfum sier betre enn margra Heidingia, þa samt lijka þau Gude betur; þvi þau framkoma af þeim, sem i Skijrnenne eru Guds Börn orduer, og Riettlætter i heilagre Vatns-Laug, fyrer þann Fullnad, sem Gude er golldenn i Christi saklausum Dauda, enn oss tilreiknadur fyrer Endurfædinguna. Jeg fæ mier ecke til Orda um þa, sem þar fyrer utann eru, 1. Cor. 5. Gud veit þad sialfur sem Mannenn skapad hefur, af hvørium Krapte verkast i þeim þær Dygder, sem oss munde torsoott epter ad breita, og hvört Alit þær hafa i Guds Dijrdarfulla Augliti, er honum kunnugast, sem er Doomare alls Hollds. Jeg þacka alleina hanns Al-

mætt-

maattugre Goodgyrne, ad hann hefur oss, sem a hanns Nafn truum, þeña Veg tilbwed, Og opennberad til Saaluhiaalparennar; og fæ mier Orsok hier wt af ad þeinkia, hvad miklu Obærelegra oss mune verda a Doomsins Deige, helldur enn þeim, ef vier afrækium þessa Guds Naad, og gaungum ecke verduglega þeirre Kallan, hvar inne vier erum kallader. Draged ydur þar fyrer ecke sialfer a Taalar, Br. M. so sem mundum vier þar fyrer meira Frelse hafa til ad syndga, ad vier erum Endurgietner. Þesse Guds Goodgyrne a ad Krossfesta i oss hinn gamla Adam, enn ecke ala hann a Eitre Syndarennar. Hun er af Gude skipud til ad temia Hollded, enn ecke til þess ad rækia þad so mióg, ad þad fremie sijnar Gyrnder, Rom. 13. Þad er noogu stoor Velgiorningur, sem Gud oss giorde i Skijrnenne, ad hann tilbioo so vorar Saaler daudar i Syndunum, ad H. Ande kynne i þeim ad lifa og verka Gudrækelegt Athæfe, þoott ecke heimtum vier þad af honum, ad hann laate sier þad allt þocknast, sem voru Hollde gott þyker. Skulum vier þa i Syndunum blijfa, svo ad Naaden yfergnæfe? Segier Paall, Rom. 6. Fiærre sie þvi, segier hann, vier sem dauder erum Syndenne, hvornenn skylldum vier framveigis i henne lifa? Ef vier erum innplantader Lijking hañs Dauda, þa munum vier og verda Lijking hanns Upprisu, segier hann. Hvor St. Paals Ord eg so skil, ad fyrst Gud hefur deydt Afl Syndarennar i oss med sins Sonar Dauda i Skijrnenne, þa hafe hann giefed oss so mikeñ Anda-Krapt, ad vier gietum upprised af Dauda Syndaña, so þær ecke drottne framar i vorum daudlegum Lijkama: Og være ecke so, ad nockud af þessu stæde i voru Vallde, sem Endurfædder erum, niunde Ritningenn ecke so tijdt skipa oss ad deyda hiñ gamla Mannenn, er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins. Edur hvad er þad Paall segier? Rom. 12. Samlaged ydur ecke Heime þessum, helldur umimynded ydur med Endurnijung ydvars Hiarta. J ollum þvilijkum Greinum Ritningarennar sie eg ecke añad eñ ad Guds Ande vorkienne ecke Endurfæddum Manne ad þocknast honum; Svo er þa Meiningenn: jafnvel þoott ad vier i aungvann Maata algiorder sieum, edur kunnum Guds Logmaal upp ad fylla, samt hefur Gud giefed oss i Skijrnenne so mikla Krafta, ad vier gietum viliad hid Gooda, jafnvel þoott hid Vonda lode vid oss, Rom. 7. og þurfum ecke ad mootstanda H. Anda, enn adhyllast Holldsins Verk. So laated ydur nu sagt vera, Br. M. ad þier þessum Gudrækelegum Aminningum hlijduger sieud, og yferveged Guds Owtsegiannlega Giædsku, sem ydur i H. Vatns-Laug hefur Andlega Endurgieted, ecke til þess ad þier liaaed Limu ydar Raanglætenu til Jbwdar, helldur ad þier helged Gud i þeim, so sem nijar Skiepnur. Alijted þann Sooma, sem Guds Fodurleg Giædska hefur ydur i Skijrnenne veittann, þar ydur er Makt giefenn Guds Bornum ad vera, Joh. 1. Hia hvorre Sæmd ad allrar Veralldarennar Tign og Herradæme er Endelne ad reikna, Gal. 3. Þier erud i Skijrnenne Christo Jklædder, hvorsu meiged þier þann fagra Skrwda nijda og ata med saurugum Holldsins Verkum? Vited, ad Christur og Belial eiga eckert Hlutskipte samann, 2. Cor. 6. Hvorsu meiged þier þa Tveimur so Olijkum Herrum þioona? Þier erud i Skijrnenne Christi

Limer vordner, vared ydur þad þier giøred ecke Christi Lime ad Satans Limum, 1. Cor. 6. Þier erud i Skijrnenne vijgder og helgader til ad vera Guds Mustere, enn þann sem þad saurgar vill hañ straffa, segier Paulus. Þier erud iñplantader a hid sanna Vijn-Trie Christum, Joh. 15. Siaed til, ad þier ecke verded afhøggner og i Elld kastader. Allt hvad Gud hefur ydur Gott giørt i Andlegum Efnum, ad hann hefur giefed ydur sinn Eingietenn Son, Ad hann hefur ydur fyrer hann opennberad sinn Vilia, ad hañ liet hañ Hwngra og Þyrsta, ad hann liet hann afklædast, Hwdstrijkiast, Hrækum og Sløgum Ogudlegra Manna undergiefenn, og med Þyrnum Coronadann verda, og um sijder þola hinn smanarlega Krossens Dauda, ad hann hefur tilreiknad ydur Ranglætum hanns blessada Riettlæte, sem alleina fyrer honum gyllder, og wtsendt siñ Anda i ydar Hiørtu til eins Pantz og Iñsiglis þar uppa: Þad allt samann, so mikid sem þad er, Sem er þo so mikid, ad Himen og Iørd er ecki Heystraas Virdi þar hia ad reikna; Þad allt-samann, segie eg, er oss i Skijrnenne giefed, þvi er þad Skom vor, ad afrækia þessa stooru Guds Naad og gaanga i Lid med Fiandanum og hanns Arum, sem aungvu launa þa Þioonustu er Menn veita þeim, nema eilijfri Kvøl og Pijslum i þvi Dijke sem vellur af Ellde og Brennesteine, Apoc. 19. Hvar fraa oss og øll sijn Børn vardveite goodur Gud i Nafne JEsu Christi, AMEN.

# Fyrsta Suñudag i Føstu.

Gudspialled, Luc. 4. Cap.

I Þañ Tijma. Þa var JEsus leiddur af Anda a Eydemørk, uppaa þad ad hañ yrde freistadur af Diøflenum. Og þa hañ hafde fastad Fiørutyger Daga og Fiørutyge Naatta, Hwngrade hañ sijdañ. Og Freistareñ gieck til hañs, og sagde: Ef ad þu ert Guds Sonur, þa seig þu ad Steinar þesser verde ad Braudum. Eñ hañ svarade og sagde; Skrifad er; Madureñ lifer ecke af Einusamañ Braude, helldur af sierhvøriu Orde, þvi sem framgeingur af Guds Muñe. Þa took Diøfulleñ hañ med sier i Borgena Helgu, og sette hañ uppaa Musteris Bustena og sagde til hañs: Ef ad þu ert Guds Sonur, fleig þier hier ofañ af, Þviad skrifad er: Ad hañ mune blooda Einglum sijnum um þig, ad a Høndum bere þeir þig, ad þu steyter ecke Foot þiñ vid Steine. JEsus sagde til hañs: Eñ aptur er skrifad; Eige skalltu freista DRottens Guds þijns. Og eñ aptur flutte Diøfulleñ hañ med sier upp a eitt miøg ofurhaatt Fiall, og sijndi hønum øll Rijki Veralldareñar og þeirra Dijrd, og sagdi til hañs; Allt þetta mun eg giefa þier, ef ad þu framfellur

fellur og tilbidur mig. Pa sagdi JEsus til hañs: Far i burt fraa
mier Andskoti, þviad skrifad er; DRottinn Gud þiñ skalltu tilbidia,
og honum einum þiona. Pa forliet Diofulliñ hañ; Og siaa þu!
ad Einglar komu til hañs, og þioonudu honum.

## Exordium.

I. 1. Sam. 17. C. verdur oss kieñt um David, er sijdann vard Konungur i Israel, og Risann Goliath, hvorsu þessi var af hinum ad Velli lagdur med einum Slaungu Steini. Þessi Frækleikur Davids var so miog aagiætur, ad Kvinnurnar geingu wt af Israels Borgum, og swngu: Saul vann Sigur aa Þusund, enn David aa Tiju Þusund, 1. Sam. 18. Nu þoott ad þetta Afreks Verk Davids sie merkilegrar Hroosunar verdugt, þaa hefur þo Sonur Davids, Matth. 1. HErrann JEsus Christus, eitt annad miklu meira unnid aa hinum helvijtska Goliath Andskotanum, sa ed brixladi Fylkingum Guds lifanda, æ sijdann hann sveik vora Fyrstu Foreldra i Paradijs: Þar hann hefur Hoggormsins Hosud i sundurbrotid, Gen. 3. med þeim Steini, sem Uppbyggendur hafa forsmaad, þad er, med sialfum sier: Þvi skaaid, hier er meiri enn Goliath. Hann var einn Madur: Satan er einn Diofull. Þoott Goliath væri Ogurlegur, þaa var hann allur þar sem hann var siedur: Satan er ein Hamhleipa, svo hann bregdur sier jafnvel i Liooss ins Eingils Lijki, 2. Cor. 11. Goliath fylgdu ad sonnu morg Þusund Philistæanna, enn Andskotanum fylgir Oflyanid Her: Þridiung Stiarnanna dregur hinn faarlegi Dreki i sijnum Hala, Apoc. 12. Og mikla Sveit Ogudlegra Manna, sem hanns Merki fylgia. Þennann sterka Hervijking hefur JEsus Sonur Davids sigrad, og afklædt hann sinni Hardneskiu og sijnum Vopnum, aa hvor hann treysti, Luc. 11. Hafi nu Kvinurnar i Israel prijsad David med þessum Dijrdar Dikt, fyrir þann Sigur, er hann vann aa Risanum, þvi skylldu þaa ecki Zions Dætur, sem eru Guds Andlegar Meyar, sijngia og spila i sijnum Hiortum fyrir þeirra Konungi? Segiandi: David vann Sigur aa Tiju Þusundum, enn JEsus Sonur Davids aa Oteliandi Þusundum Þusunda, aa margra Þusunda Hofdingia, aa Þusund Viela Meistara, og hefur sijnar H. Þusundir af hanns Valldi hertekid. Medal annarra DRottinns vors Frægdar-Verka, heyrum vier i þessa Dags Evangelio eitt Einvijgi, millum þess allra Besta og hinns allra Versta, millum þess Stoora Michaelis, og hinns gamla Dreka, sem kallast Diofull og Andskoti, ecki aa Himnenum (svo sem Apoc. 12. verdur umgietid), sem er Guds Haasæti, helldur aa Jordunni; Hvoria Satan kallar sitt Rijki. Og sokum þess, ad þetta Huggunarrijka Efni verdur aa þessum Heil. Deigi predikad i Christnum Sofnudum medal vor, þaa vilium vier þad nockud framar yfirvega, og af vorum Hertoga læra hvorninn vier eigum Hollds ins, Heims ins og Andskotans Freistingum i mooti ad standa. Enn styrk oss hier til DRottinn med Naad þinni fyrir JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingiñ.

Vagt er øll Viela-Brøgd Satans upp ad telia; Eñ Gud nædi oss! Fleiri mættum vier þeckia, helldur enn vier hyrdum um̃ ad varast. J þessu H. Evangelio heyrum vier, ad hann med Þrefølldu Ahlaupi rædur aa Lausnarann. J Fyrstu segier hann: Ef Þu ert GUds SOnur, Þaa Seig Þu Ad STeinar Þessir Verdi Ad BRaudum: Med hvøriu ad lijklegt er, ad hañ hafi viliad reyna, hvørt hann væri hinn Fyrirheitni Messias edur ei, þvi hann vissi ad Messiæ voru allir Hlutir undir Fætur lagdir, Ps. 8. Og hann var HErra og Erfingi allra Hluta. Ef Þu Ert GUds Sonur; segier hinn Vondi: Þad maa ecki satt vera sem þu heyrdir vid Jordan, ad þu Guds Sonur værir, þar hann lætur þig Hwngra; Hvørsu aagiætlega hefur Gud sijna Velþocknan i þier? ad hann hefur þig yfirgiefid hier i Eydimorku aa medal Villu-Dijra, Marc. 1. Og ef so vera kann, ad hañ reyni þig med soddañ Mooti, þa bind Enda hier aa, og reyn aftur, hvørsu Sannsøgull og Halldinnordur hann er, Og Seig Ad Steinar þessir Verdi Ad Braudum, svo þu neyta meigir. Jeg efast ecki um̃ ad Holld og Blood muni og þvilijkar Fortølur hafa fyrir þeim, er mootdrægt eiga i Heiminum. Gud hefur lofad, þad hann vilie minn Fadir vera; Hvørninn er eg þa vordiñ ad Hiaa-Barni? Hañ segier, ad Lijfid sie meira enn Fædslann og Lijkamiñ meir eñ Klædnaduriñ, Matth. 6. Nu hefur hann mier hvørttveggia i fyrstu giefid, þvi fæ eg þaa ecki eitthvad þessu til Vidurhallds? Betra væri mier, þad eg hefdi hvørugs Hluttakandi vordid, helldur enn eg aa hvørutveggia Naud lijdi. Ef eg er hanns Sonur, þvi giefur hann mier þa Stein fyrir Braud, edur Høggorm fyrir Fisk, Luc. 11. þar hann hefur þo sagt sig ad vera Fødur Myskunsemdanna, 2. Cor. 1. Enn eg, sem vondur er og mørgum Syndum hladeñ, villde þad ecki giora vid Barn mitt. Þetta predikar Holld og Blood, þegar þad er ecke fyrir Augunum, sem eta skal. Hvad skal hier til segia, Christinn Madur? Þad sem JEsus Andskotanum svaradi: Maduriñ Lifir Ecki Af Einusamañ Braudi, Helldur Af Sierhvøriu Þvi Ordi, Sem Fram̃geingur Af Guds Munni. Med þessum Ordum hefur ecke Christur sagt þier, ad þu skuler burtkasta allre Ahyggiu fyrer Lijkamlegre Næringu, ecke lofad ad giefa þier þitt Braud, nema i Sveita þijns Andlitis, Gen. 3. ecki heitid ad Hrafnarner skule færa þier Fædslu, 1. Reg. 17. þegar þu sefur med hinum Lata; Helldur svaradi Frelsarenn Andskotanum wt af med þessu Mooti, og kiende þier undir eins, ad jafnvel þo hañ lieti þig lijda Brest aa Lijkamlegri Farsælld; skylldir þu ecki ætla, ad hann muni eigi kañast vid þitt Faderni, so leingi sem þu hann Ottast, og rænir hann ecki sijnum Heidri; Þvi hvørn þann Son sem Fadirinn elskar, þann agar hann, Hebr. 12. Ef Gud vill ad eg lifi, þaa giefur hann mier Braud til ad lifa af; Lætur hann mig lijda Skort aa Braudi, þaa vill hann samt ad eg lifi i Trwnni og Voninni. Jeg vil bera mig eptir minni Atvinnu med øllum þeim Hætti, sem Gud hefur lofad, og eptir þvi Ordi sem fram̃geingid er af hañs Munni. Þocknist hønum ad mitt Erfidi skuli ecki blessast eftir minni Tilætlan, þa veit eg samt, ad hann hefur ecki burtkastad mier

ſtrax i Daudans Hendur. Giefe Gud mier ecki Braud, ſo eg faae lifad, þa lætur hañ mig deya, ſo eg eilijflega life. Er mier vandara uñ enn hanns Eingietnum Syne, hvorn hañ liet hwngra, ſo hann freiſtadur yrde? A eg ad laata mig þad undra, þo hann freiſte mijn uñ Stundar-Saker, ſem er ecke nema Ættleidingur? Pad ſem hiner Egyptſku ſogdu vid Joſeph, Gen. 47. Pad ſama vil eg vid minn Gud ſegia: Þegar Hwngurs Naudenn took til ad kvelia þa allt til Dauda, þa ſogdu þeir: Laat oſs med voru Lijfe og Eignum vera Pharaonis Præla, þad vier liſa meigum og ecke deya. Take Gud þad hañs er, ef honum ſo þocknaſt, og jafnvel ſialfft Lijfed, hvort hann ſialfur gaf; Jeg vil bæde med þvi og ollu, ſem mier tilheyrer, vera hanns Præll, ſo eg Æſennlega med honum rijkie; Pad vardar mig ad litlu, þott hann laate mig ecke lifa af Braude, þegar eg liſt af þeim Ordum, ſem frañgeingenn eru af hanns Munne, ad hann vilie ecke freiſta mijn yfer Megn frañ, helldur giefa Freiſtingunne þann Enda, ad eg ſtadeſt faae, 1. Cor. 10. Madurenn Lifer Ecke Af Einuſamann Braude: ſegier Lauſnarenn. Ordenn eru tekeñ af Deuteronomii Bookar 8. Cap. Par Moyſes ſagde vid Jſraels Sonu: Par fyrer hefur Gud þvijngad þig, og laated þig Hwngur lijda, ad hann giæfe þier Man, hvort þu þeckter ecke og ecke Fedur þijner, ſo ad þeir kiendu þier þad, ad Madurenn lifer ecke af einuſamañ Braude, helldur ſierhvoriu þvi Orde, ſem frañgeingur af Guds Munne. Jeg er hrædduruñ, ad þetta Maal kunne hiaa ſumum af oſs heima ad eiga. Hvad munu þeir, ed nu allvijda i Heimenum uppvaxa, heyra af Fedrunum, ſo þeir kienne þeim þad? Færed hijngad, Bered hijngad, ſo ad vorar Hyrdſlur fullar verde, og þar ſie eingenn Skortur i Hwſum vorum; Enn ecke ad leita Næringar ſinnar epter þvi Orde, ſem frañgeinged er af Guds Munne, ecke ad læra nockud þad Soome er i, med hveriu þeir kunne ſialfer ſijna Næringu ad wtvega, ſo þeir vite og meige med goodre Samvitſku ſegia þad þejr ete ſitt eiged Braud, 2. Theſſ. 3. So ad þegar Skorturenn uppaa fellur, þa fara Menn ad hnoda Braud af Steinum, þad er, af þeim Hlutum, ſem Gud hefur ecke þar til ſkickad, og alldrei þar til ætlad; þvi eru ſo marger þeir, ed med Oleiſelegu og Oærlegu Moote leita ſiñar Næringar, og bijda ecke epter þvi ad Gud hiaalpe; bæde þeſs vegna, ad þeir lærdu alldrei nema Odigder af Fedrum ſijnum til ad leita Brauds med, heyrdu og uñ ſaatt annad talad, hinns og annars, ad þeir hafa aa Gude eckert Trauſt; þar þeir vita, ad hañ ecke brwkar ſlijka Atferd til ad fæda ſijna. Þegar JEſum hwngrade, talar Satan uñ Braud, þvi hann viſſe þad var þad hellſta ſem hann mætte gaangaſt fyrer. Þeſſa Slægsmune hefur Holld og Blood af ſijnum Meiſtara lært: Pad ſem hvor er giefenn fyrer, þar uñ þeinker hann optaſt; þad ſem einhvor vid þarf, þad brwkar Satan til ad locka Mannenn til vondra Verka: Og ſvo ſem eirn klookur Veide-Madur, hann leggur þad Agn fyrer Dyred, ſem hann veit þvi loſtugaſt þyker, og þaa, þegar hañ hyggur þad hafa meiſta Epterlaungun; ſvo fiſkar og Satan med Þorſenne, og kriddar Agned med Velliſtingunne. Seig Pu Ad Steinar Þeſſer Verde Ad BRaudum. Þetta ſagde hann vid Guds Son, og hann lætur ecke af ad predika hid ſama fyrer audrum, ſem eiga Guds

Born ad heita; Jafnvel þoott þaa drage eingenn Naud þar til, og er þvi æ verr og midur, ad hönum tekst meir enn skyllde i slijku hiaa allra handa Foolke. Jeg spyr: Hann er uppskier, hvar hann ecke saade, giorer hann ecki Steina ad Braudum? Hann sem utsijgur Hws Ekkna og Fodurlausra, Matth. 23. under Hilmingu Laga og Riettinda, hann sem svijkur sinn Naunga i Kaupum og Sölum, hann sem leggur Agirnd Onaudsijnlegra og Skadsamlegra Hluta fyrer hanns Ofrامsijne og Faafræde, til ad laata hann hwngra a hinne vondu Tijd, enn seiter siaalfann sig þar med, Saa er innehelldur Sveita þess er erfidar, Saa ed svijkur þann i sijnu Erfide sem hann elur, klæder og launar hönum; munu ecke aller þesser og þeir ed þeim lijker eru, munu þeir ecke, seigi eg, giora Steina ad Braudum? Þetta eru Krafta-Verk Andskotans, er hann verkar i Bornum Vantrwarennar, med hvorium hann stioornar sijnu Rijke, og leider margann Einfalldann til sinnar Pioonustu. Satan apar epter Gude, hvor ed alla Hlute giorde af aungvu, og Satans Villdar-Menn epter Christo hanns Smurda, hvar ed stadfeste sitt Rijke med Furdu-Verkum. Þegar Fiandenn hefur kiennt einum ad feita sig af aungvu nema annarra Bloode, hvort ad þeim Ovorum er flored burt ur Ædunum, þa þenur hann sig ut sem annar Istru-Mage, Ps. 73. Svo ad Faafrooder Menn glaapa aa hann so sem annad Furdu-Verk, og meina þad sie af Himinum komed sem hann talar og bijdur, jafnvel þoott eingenn sie Hiegoome slijkur i Guds Dijrdarfulla Auglite. Ad eg nu ecke tale um þaa, sem þyggia Guds Olmusu, hvoria hann skipar i sijnu Nafne ad giefa þeim, er hann virdest ad kalla sijna Limu, enn under Skyne þeirrar fogru Nafn-Bootar, Stela þeir, Liwga og ræna, eru Bakmaaluger, Ofacklaater, Illyrdter, Hardgiarner, Formæla þeim er briioota þeim sitt Braud, og i Stadenn þess, ad sanner Guds Limer leita sier Olmusu i hanns Otta, hiaa þeim sem hann hefur skipad ad medtaka þaa so sem siaalfann sig, þa fremia þesser allra-handa Skammer og Leste i hanns Nafne, liwga vid þad og svijkia, sveria og formæla, uppaa þad þeir fare sijn um Odaadum skylt fyrer Monnum. Þesser hygg eg, framar ollum audrum, giore Steina ad Braudum, verda þo af oss aa Stundum jafnframt audrum, sem rietta Tiltolu eiga, Bordsetter i þvi almennelega Hospitale, sem Gud Allsheriar Konungur hefur stiptad i sinne Christelegre Kyrkiu. Munum vier þessa mikel Not hafa, Br. M. i Uppriisu Riettlaatra, ef vier giorum þad vijsvitande? Eda þykiunst vier twer Raads-Menn vera yfer Guds Gotze, sem hann hefur oss til Umraada, og ecke Æfennlegrar Eignar, seinged, þar vier giorum aungvann Greinarmun aa þessum, og kostum Forsorgun Guds Fatækra Lima fyrer Andskotans Limu; giorande þannenn ecke Steina ad Braudum, helldur Braud ad Steinum i þeirra graadugum Munne, hvorium Leindar-Braud smackast liuffelega, enn sijdann uppfylłest Munnurenn med Smaa-Steina, so sem Salomon ad Orde kiemst, i hanns Ordskvidum Cap. 20. og siaalfa oss ad þeirra Hluttokurum i Syndenne, under Skyne Miskunsemennar og goodrar Meiningar, enn allra hellst Mannords vegna, hvort oss mun þo ecke fylgia epter Daudann, allra sijst inn i eilijft Lijf, þvi þar hafa ecke Fyrerheit nema þær Olmusur, sem giefnar eru i Lærisveins Nafne, Matth. 10.

Þad

þad maa vel skiliast um̃ þaa sem eru sanner Christi Lærisveinar, takande sinn Kross uppaa sig og fylgia honum so epter. Þetta giorum vier, Brædur, og þykiunst vel giora, jafnvel þoott oss meige alkunnugt Bodord St. Paals, 2. Thess.3. er hann segier: Þegar vier vorum hiaa ydur, budum vier ydur þad, ad ef nockur vill ecke erfida, þa skal hann ecke eta, þvi vier heyrum ad nockrer gaanga aa medal ydar Oskickannlega, giorande eckert, helldur hniysa faafeingelega (hvoort Mark vier meigum þeckia aa nockrum vorum Olmusu-Monnum): Þessum bioodum vier, segier Paulus, fyrer DRott enn vorn JEsum Christum, ad þeir erfide med Spekt og ete sitt eiged Braud; Enn ef nockur hlijder ecke þessu voru Bode, þa teikned mier þad til, og hafed ecke Um̃geingne med honum, so hann skam̃est sijn. Um̃ hina fyrstu Freistinguna hofum vier nu heyrt þanneñ talad; enn þegar Satan merker ad honum tekst ecke ad locka JEsum med Efasemenne, reiner hann til a hinn Veigenn, og vill freista hanns med Oftrauste. Noogu vel talade Satan um̃ sialfann sig, Job. 1. Ad hann sagdest hafa geinged um̃ krijng; þvi fyrer utann þad hann geingur um̃ krijng sem greniande Leon, leitande ad þeim sem hann kunne upp ad svelgia, þa er honum þesse Atferd nærsta tøm, er hann brwkar hier vid Christum, ad fara um̃ krijng og leitast vid aa allar Sijdur, eins og eirn slægvitur Hertoge, þa hañ um̃situr eina Borg, eñ Bæarmeñ hafa med ollum Lids-Afla fyrerbwest i þeim Stad sem þeir ætludu sier mestrar Hættu Von, þa fer hañ ad þeim Oovorum i krijng, og rædst þar til sem eingenn er Vorn fyrer: Svo giorer Olsfullenn; giete hann ecke slækt Mañeñ i Hyrduleyse, leitar hann til med ofmiklum Ahuga, ef ecke i Mistrauste, þa med Oftrauste, ef ecke med Hofmood, þa med Hugleyse, ef ecke i Heimsku, þa med Siervitsku; Og so fram̃veigis.

Ef Þu Ert Guds Sonur, Þa Fleig Þier Hier Ofann Af. Alkunnugt er oss, Br. M. hvad margur er aa medal vor sem Ovarlega fer med Lijf sitt, so sem være þad eirn Hlutur, er hann kinne strax aptur ad kaupa, eins og adra Voru: Svoddann Apaskap kalla Menn Hugprijde, og hvor Daareñ metst vid añañ, svo sem være þad goodur Hlutur. Ad spara ecke Lijf sitt fyrer Guds Saker, þegar hann vill þad so hafa, og Menn hafa Guds Ord fyrer sier, ad þad sie hanns Vilie, þad er hinn aagiætaste Hlutur og Elsku-Merke til Guds, þvi eingenn elskar eirn meir, enn hann giefe sitt Lijf wt fyrer hann, Joh. 15. So er þad og kostulegt, ef nockur vogar Lijfe sijnu, Lande og Lijdum til Varnar, þvi þad er Kiærleikans Verk, Gud hefur þad og samþickt, og boded allvijda hiaa sijnu Foolke Israel. Og eg sie, ad Lausnarenn ecke Ovirdte Hundrads-Hofdingiann, þoott hann Strijds-Madur være, Matth. 8. Eige helldur vijsade Johannes Strijds-Monnunum fraa sinne Skijrn, helldur gaf þeim Bodord, hvornenn þeir lifa skylldu i sijnu Stande, Luc. 3. Enn þad skiedur tijdast, Br. M. ad þeir sem eru Diarfaster i Heimskunne, þeir eru Ragaster i þessum Hlutum, og kiemur þad ecke til af Hugprijde, helldur af Ovitturleik og Einræde; af þvi Gud hefur vardveitt þa so tijdt i Haaskanum, þa meina þeir ad þad skule alltijd eins gaanga. Enn hvor vill skyllda hinn Almaattuga til þess? Hann vill ecke lata trwa sier til þeirrar Hlutar, sem hann ecke lofad hefur. Gud hefur lofad, ad

hanns Einglar bere oss a Hondum sier, Ps. 91. Enn ecke nema a Vegum vorum. Þo Ordeſtal Diosfullenn undann, þa hann talade vid Christ, og mai ſkie hann ſtele þvi og wr þijnu Hiarta, þar hann gyller fyrer þier Haaſkann, og þu meinar þad ſie allt þinn Vegur, ſem þier hefur Einuſinne ſleyptſt yfer: Slijkt er ad freiſta D Rotteñs, hvor Synd ad hefur hinn verſta Vitnisburd i Ritningunne; Enn ef þu i burtu deyr midt i þeſſare hrædelegu Synd, hvad mun þa af Saalunne verda? Laat þvi ecke locka þig af ſiſlslegre Akiefd edur fanijtu Hrooſe (ſem þo er ecke nema i Heimſkra Munne), til ad lijda Skipbrot a Saalu þinne, fyrer hvoria Guds Sonur er daaenn, Rom. 14. Nu þoott Daaraſkap- urenn ſie ſtoor hia morgum i þeſſu, þa er hann þo ecke minne i odrum Efnum. Satan viſſe ad ſkrifad var um Meſſiam: Snart mun ſa Drottnarenn koma til ſijns Muſteris, Mal. 3. Hefur honum maatt þvi lijklegt þykia, ad ef hann þotteſt Meſſias vera, þa mun- de honum hier ſleſtallt leyfaſt. Þegar Gud hefur nockrum ſtoort Umdæme i Hendur feinged, og ſett hann uppa þad haa i ſinn Stad, þa er hætt vid ad Holld og Blood meige ad honum hviſſla: Hier kann mier eingenn ad granda; Og hvad jeg adheſſt, þad ma gott þykia. Fyrer þeſſar Satans Umtolur hefur margur Haalſenn broted. Og af þvi hann munde ecke til þeſs Stadar, er hann var tekenn fra, ſem er Leyr Jardarennar, þegar honum var lyppt upp i Hædena, þa vard Falled hærra enn hann varde, ſo ad þad Leyr-Kiered, ſem Ovarlega var medfared, datt i Sma-Mola. Þegar Menn eru i Gu- ds Stad ſetter, þa þeinkia þeir lijtt þar til, ad þeir eru af ſama Efne giorder og adrer Menn. Þetta hefur morgum komed til ad ætla, ad hann være Guds Jgyllde, þegar hañ ried fyrer odrum, ſo ad nockrer hafa lided þad Hræſnenne, ad ſetia þad haaleita Nafn uppa eina Vatns-Boolu, hvar um Caligula, Nero, Domitianus og adrer bera liooſ- aſt Vitne. Þar verdur ecke a moote mællt, ad Madurenn er eitt Drambſamt Dyr, Jer. 17. Strax ſem Luckunnar Svip-Vinde hefur brugded vorre Molld og Oſku i Lopted upp um Stundarſaker, þa vilia ſumer Menn vera eins og Rik i allra Manna Augum, giætande ecke þar ad, ad þegar Vedrenu ſlotar, þa fellur Dupted a Jord- ena, hvadann þad kom; ſo þeir, ſem blinder urdu i þeſſum Þit, verda heilſkigner aptur, og troda þad under Footunum, fyrer hvoriu þeir hræddust litlu adur. Hier vid kann- aſt David Konungur, ſem bæde a ſier og ſijnum reint hafde Luckunnar Miſlynde, er hann ſegier, Ps 1. ad þeir Ogudlegu ſieu eins og Rik þad, hvoriu Vindurenn feiker, þar fyrer kunne þeir ecke ad ſtandaſt i Doomenum. Fyrer þvi, hafe Gud nockurn hatt ſettann, og giort hann ædre odrum Monnum, er þad i Vijsdoome eda i Yfervallde, er þad i Aud og Rijkedæme, er þad i Lijkamans Styrkleika, edur odru Atgiorfe, þa þeinke hann med ſier, ad hann a ecke þar med ad hondla, ſo ſem honum ſialfum lijkar, helldur ſo ſem Gud hefur boded, og hafe fyrer Augum ſier þad Paall ſegier: Hvad er þad Madur, ad þu haſer þad ecke þeiged? 1. Cor. 4. Þier erud Guder, ſegier David, Ps. 82. eñ þo ſkulud þier eins og Menn deya. Tokum oss Orſok þar af ad þeinkia, ad þoott Gud hafe ſett uppa oss nockra Lijking ſialfs ſijns, edur Skugga ſinnar Tignar i þvi ad raada

fyrir

fyrer ødrum, þa kiemur þo sa Dagur um̃ siider, ad Menn skulu standa Reikningskap af þeirra Raadsmennsku, Luc. 16. Þad var vel tilfunded, sem Tals-Madur þeirra i Schytia sagde vid hiñ Stoora Alexandrum: Ef þu ert Gud, þa ætt þu ad medbijta Mønnunum þijn Giæde, enn ecke ad taka þeirra fraa þeim. Ecke var Guds Eingietnum Syne Omættugt ad stijga ofann af Musteris-Bustenne, enn hann villde ecke giøra Kraptaverk Andskotanum til Epterlætis, eige helldur til Skiemtunar Herodi edur hanns Villdarmønnum, Luc. 23. Hann giørde sijn Daasemdarverk alldrei forgiefens, helldur Mønnunum til gooda; Hann læknade Siwka, Act. 10. Mettade hwngrada, Joh. 6. Uppvakte Dauda, Joh. 11. Snere Vatne i Vijn, þegar medþurfte, Joh. 2. Þu sem af Gude hefur, fram̃ yfer adra, miked þeiged, gack i hanns blessud Footsp[illegible], og ef þu villt sijna þijna Yferburde i nockru, þa giør þad til Gagns og Nota þijnum Brædrum i Heimenum, og lææt aungvum Jlla lijda af Guds Gaafum fyrer þijna Vanbrwkun; Enn sijn ecke Fordilld þijna þar med, Andskotanum og vondre Verølldu til Athlaaturs og Augna-Gamans. Nu høfum vier þanneñ heyrt þessar Tvær Freistingar.

Enn þegar Satan finnur ad hann ecke neitt orkar med Efasemenne edur Otraustenu, med hvorium hann plagar almennelega ad pretta Mañeñ i Heimenum, og eru hañs Daglegar Veidebrellur, þa tekur hann til þess sem hann visse ad sterkast var, sem er, Oleifeleg Gyrnd til Audæfa og Metorda. Textteñ segier; ad hann hafe fært HErrañ uppaa eitt ofur hætt Fiall, og sijnt hønum þadann øll Rijke Verølldarennar og þeirra Dijrd, sagt siidann: Allt Þetta Vil Eg Giefa Þier, Ef Þu Fellur Fram̃ Og Tilbidur Mig. Hier var æred miked i Bode, E.G.B., Og er þad Maala sannast, ad margur hefur loted Andskotanum fyrer Minna. Minna var þad sem Balaam vann til þess ad hañ villde formæla Jsrael, Num. 22. Minne var Gull-Tungann og Kaapann og þeir 200. Siklar Silfurs, sem Achan miste Lijfed fyrer, Jos. 7. Eige var Naboths Vijngardur so mikels Virde, sem Achab tapade fyrer Lijfenu, Rijkenu og allre sinne Velferd, 1. Reg. 21. Eige var Haatijda Klædnadurenn og þau Tvo Centener Silfurs, sem Gezi laug wt af Naaman hinum Syrlendska, 2. Reg. 5. miked ad reikna hiaa þessu; Og hvad voru þeir 30. Silfur-Peningar sem Judas keypte, Matth. 27. fyrer Skapara Himens og Jardar? Hvorsu næm ad sie þesse Andskotans Snara til ad veida syndugar Saaler, þar eru Otal Dæme uppaa. Enn giæt ad þeim Ordum, Christeñ Madur, sem þiñ Endurlausnare segier: Hvad gagnar þad Mannenum, þo hann eignest alla Verølldu, enn lijdi Topun aa Saalu sinne, Matth. 16. Eg medkieñi, ad Gotz og Peningar eru stoor Guds Gaafa, þegar þau eru af Guds Hende medtekenn, enn ecke hrifsud af Munne sijns Naunga, hins Faatæka, Eckiunnar og hins Fødurlausa; Enn eige eru þau þess verd, ad falla aa Knie fyrer Andskotanum, til þess ad eignast þad sem ecke er nema til Þijngsla, og til ad þrælka fyrer þeim Omaga sem ecke hefur Vit aa hvad vid hann er giørt, til ad þioona einum Rijdinge, sem alldrei sadde sinn Þienara, hvad þeir þo aller giøra, sem annadhvort afla Fiaarens med Rangindum, edur festa sitt Hiarta þar vid. Hin grim̃u Villudijr-

eñ

enn a Mørkeñe hafa sinn vissann Skamt, og þau taka ecke Brædena nema hwngrud. Eñ Grædge hinns Fiegiarna tekur alldrei Enda, hann etur alltijd, og er þo alltijd solltenn; Hann Ottast ecke Gud, og eige skamast hann sijn fyrer Mønnunum, hañ þyrmer ecke Fodur nie Moodur, hann underþrycker Eckiuna og ræner hinn Fodurlausa, hvoriu eckert er herfelegra Meistara Sticke Andskotans, enn ad horfa uppa eirn Guds Vesæling, sem Naudstaddur er, og slijta þann Bita Brauds fra hanns hwngrudum Munne, sem hin Millda DRottenns Hønd hefur hønum riett til ad sedia hann a. Þad er satt sem Paall segier, ad Fie-Gyrndenn sie Root alls hinns Jlla, 1. Tim. 6. Vilie Menn uppræta Jllgresed af Akrenum, þa skulu Menn Rootena eirnenn burt-taka. Eg efast og ecke uñ, ad sa sem Agyrndenne hefur wtskwfad wr sijnu Hiarta, hañ hefur og gyrdt fyrer marga Leste; Þvihvad er þad Jllt, sem ecke filger einum Fie-Pwka? Meinsære, Manndraap, Lyge, Svik, Fals, Agg, Þræta og annad, sem hier wt af fædest; Svo ad eirn af þeim Spøku Fordum, er hann var adspurdur, hvort ad være hid versta Dijr a Jordunne? Þa svarade hann: Ad þad være Leon og Byrner a Fiøllunum, enn Agiarner Menn i Bygdenne. Jeg veit ecke lijkare Skwr-God enn Mamon og Moloch, Svijvirding Amons Barna, 1. Reg. 11. Hvør ed sitt Nafn hefur af Rijke. Þessum Afgud offrudu Heidner Menn, og a Stundum Gydingar, Børn sijn, og letu þau ganga i giegnum Elldenn, hønum til Þioonustu, 2. Reg. 21. Hvørium ecke Olijker eru þeir, sem kveikia i Hiørtum Barna sinna, strax a unga Alldre, Oleiselega Elsku til Auds og Fiaarafla, og kienna þeim ad þiena Mamona fyrr enn Gude, og ad hafa sitt Ynde og Epterlæte i Oþorfum Maurum, langt framar enn i goodum Sidum og Dygdum, þar til ad Lijf og Saal standa i biørtu Baale. Og þoott nu ad Metorda-Gyrndenn halldest af flestum ad vera nær Manndygdunum, þa eru þo. badar skadlegar, og halldast giarnann i Hendur, þo so, ad þar sem Metorda-Gyrndenn er einsamann, þa er hun þess stærre ef Agyrndenn henne ecke fylger, þvi Agyrndeñ er þrwng og dregur þañ til Jardareñar, sem vill kieppast uppa þad haafazeñ i þvi eru þær so lijkar, sem ein Syster kañ nockurn Tijma ad vera añare, ad þær giora badar Lækninguna ad skiædare Siwkdoome og Sadninguna ad Stullte; Þvi eins og hiñ Agiarne vill þess meir, sem hañ meir hefur, og vantar alltijd eirnenn þad sem hann hefur; Svo er og hinn Metordagiarne alldrei anægdur med þad Stand sem hann er i, helldur kieppest alltijd uppepter. Þad er og fullkomlega Satt, ad Metorda-Gyrndeñ hefur ecke færrum steipt enn Fiesijnkneñ; Fyrer hana er øll Olucka innkomenn i Heimeñ: Þegar Diøfulleñ villde helldur stioorna enn hlijda, þa hrapade hann morgum til Oluckū. Jeg þykest vita, ad Eva hafe ecke geingest so fyrer Eplenu, helldur mune þad hafa geinged henne i Augu, ad hun ætte Gude lijk ad verda, Gen. 3. Hvad miklu Jllu hefur nu Metorda-Gyrndenn af Stad komed sijdann i Heimenum? Hun sloo Miriam Aaronis Systur med Lijkþraa, Num. 12. Hun lauk Jordunne upp under Core, Datan og Abiram, Num. 16. Hun heingde Absalon upp i Eikena, 2. Sam. 15. og 18.

Hun

Hun ólavdadi Øsku Simri samann vid Konungsins Hwſs-Øsku, 1. Reg. 16. Og er þad nu lijtils verdt og nærsta máklegt, þo hun slæi sinn eigintt Mann um Haals, eñ þad er miklu hryggilegra og aumkunarverdara, þegar heilum Londum og Rijkium illa lijdur fyrir eins Hroka, og þad kostar margra Manna Gots og Velferd, þegar Tveir stoorir þraatta. Gud giæfi Meñ villdu þo giæta þar ad, ad so Vera sem Meñ hafa af Metordunum, er aungvannveiginn verd þess Erfidis sem þar er uppaa kostad. Añadhvort komast Menn þar til med Riettu edur Raungu; ef med Riettu, þa skulu Meñ leingi þrælka, aadur eñ Meñ koma til nockurs, og fyrir mikid Erfidi komast Meñ til annars stærra, þvi þar Meñ eru þar komnir, taka Menn Valld yfer odrum, enn missa Valldid yfir siaalfum sier; Þvi ein Kostgiæfinn Yfirvallds Persona er ecki siaalfraad, helldur allra þeirra Þienari sem hann er yfirbodinn, og maa tijdt vaka þegar hinir sofa. Enn hafi hann geingid hinn raanga Veg med Satans Listum, þa heitir Tignar-Sætid, Stooll Haadungarinnar, og er Svijvirding bædi fyrir Gudi og Mönnum, svo sem Predikarinn segier, Cap. 7. Ad sa sem Raanglega tekur sier Valldid til, muni hatadur verda. Þvi hygg eg þad riett være, sem Joas Israels Konungur sagdi vid Amaziam Juda Kong; Þu hefur sleigid Edom, þar fyrir er þitt Hiarta upphafid, haf þu þijna Vegsemd og sit i þijnu Hwsi, hvar fyrir skylldir þu skipta þier af Illu, so þu fallir og Juda med þier, 2. Chron. 25. Svo er nu Agyrnd og Ofmetnadur nærsta skadlegir Lestir. Þar fyrir, vilie Satan freista þijn þar med, Christinn Madur, þaa slaa hann med Guds Ordi, so sem JEsus giordi; Vijk fraa mier Satan, þviad skrifad er, DRottiñ Gud þinn skallt þu tilbidia, Og hönum Einum þioona. Nu er þad olldungis Omøgulegt undir eins Gudi ad þioona og Mamona, Matth. 6. Vilier þu þar fyrir, ad þitt Hiarta sie Guds Musteri, þaa rek Satan wt þadann med hanns bølvadri Aura-Elsku. Satan aa ecki þad hann giefur, helldur er þad allt Þioosstolid, sem af hañs Hendi er þeiged. Vei þier Satan! Hvør hefur giefid þier øll Rijki Veralldariñar, so þu meiger þau aptur giefa? Þu aatt ecki Raad aa eirni Mij-Flugu, nema Gud leifi; Og þoott þu mættir nockru hier um raada, þa vilium vier ecki taka þijnu Bodi, enn sleppa hönum, sem bædi Himin og Jord hefur i sinni Hendi, sem oss hefur Saal og Lijkama giefed, sem oss hefur frelsad fraa þijnu Vallde, Col. 1. sem hefur giefed sitt Lijf i Daudann fyrir oss, Joh. 10. sem hefur sendt sinn Anda i vor Hiortu, Gal. 4. sem ad ber Vitnisburd vorum Anda, ad vier sieum Guds Born, Rom. 8. O þu Eilijfe Konungur Dijrdarinnar, sem ad ert Hoogvær og af Hiarta Lijtelaatur! kienn þu oss ad eptirfylgia þijnu blessada Dyrdar-Dæmi hier i Heime, svo vier meigum þier sijdann inn i þijna eilijfu Dyrd fylgia, og til þess Himneska Haabords upphafdir verda, til ad sijngia þeirri Haaleitu Guddoomsins Þreñingu Eilijfa Dijrd og Lof um allar Alldir Allda, AMEN.

# Añann Suñudag i Føstu.

Gudspiallid, Matth. 15. Cap.

 J Þañ

I Pann Tijma. Og JEsus gieck burt þadann, og foor i Lands-Bygdir Tyri og Sidonis. Og siaa þu, ad Canversk Kona gieck ut af þeim sømu Takmørkum, kalladi eftir hønum, seg-iandi: HErra Sonur Davids, Myskuna þu mier! Mijn Doottir kvelst illa af Dioflenum. Og hañ svaradi henni aun-gvu Ordi; Hañs Lærisveinar geingu til hañs, bædu hañ og søgdu: Lættu hana fara, af þvi hun kallar eptir oss. Eñ hañ svaradi og sagde: Eg em ecke sendur nema til Fortapadra Sauda, af Hwse Is-raels. Eñ hun kom og tilbad hañ, Segiande: HErra, Hiælpa þu mier. Eñ hañ svarade heñe og sagde: Pad er ecke gott ad taka Bra-uded Barnaña, og kasta þvi fyrer Hvølpana. Eñ hun sagde: Satt er þad Herra; Eñ þo eta Hvølparner af Mølum þeim, sem detta af Borde Drottna þeirra. Pa svarade JEsus og sagde til heñar: O Kona! Mikel er þijn Trw, Verde þier so sem þu villt. Og aa þeirre sømu Stundu vard heñar Dootter Heilbrygd.

## Exordium.

VJer bidium i vorri DRottinnlegri Bæn, Børn Guds Elskuleg! Eigi Leid þu Oss i Freistni. Nu er Tvofølld Freistni til, Onnur kiemur af Gudi, Oñur af Andskotanum, Onnur leidir til Lijfsins, Onnur til Helvijtis. Sw sem af Gudi kiemur, hun er hennar Lækning, sem kiemur af Satan. Pad er ecki Otamt hinum Almættuga Konungi, ad læta Diøfulinn detta aa sijnu eiginn Bragdi, Og sijna Freistni hanns Freistingar yfirvinna. Enn þo ad þessar Athafnir Guds og Diøfulsins hafi sama Nafn, þaa eiga þær þo ecki samann nema Nafnid. Diøfullinn geingur ecki i Berhogg vid Menninna, þvi hann veit þeir fælast sig, helldur hefur hann Tvo Stall-Brædur, sem ecki eru so Uggvænir, enn þo ecki øllu sijdur Skadvænir, Añar er hid Ytra, Añar hid Iñra: Þesse er vort Holld og Blood med þess Tilhneig-ingum: Hiñ er Verølldeñ med sijnum illum Dæmum: Hiñ Sijdare af þvi hañ er vondur, og liggur i þvi Vonda, 1. Joh. 5. Pa leider hañ til hiñs Illa. Sa Fyrre er hælfu verre. Margur kañ sa ad fordast adra, sem ecke gietur fordast siælfann sig. Holld og Blood er gamall Skutul-Sveinn Diøfulsins, sem framreidir allrahanda Sætar, enn þo Eitradar, Vistir, þegar Andskotinn bijdur Manneskiunni til Snæd-ings, enn Saalinn liggur blind i Sænginni eins og Isaac, og veit eigi hvort þad eru helldur Jacobs edur Esau Hendur, sem hun þreifar aa, jafnvel þo hana grylli til ad þeckia Raustina, Gen. 27. So mikid langar hana i þann ferska Riett, veit þo ecki ad gi-sra Grein aa, hvort helldur hann er med Boganum veiddur, eda af Hiørdinni tekinn. Vei þeirri Borg, hvor ed bygdi hefur Ovinina utann fyrir Portunum, og lijka inni aa

Stræt-

Stræteunum: Enn aungvu betur erum vier at oss kommer i Andlegum Efnum. Alla Vega umkringer Hollded oss, at Hægre Siidu med Giirnd Audæfa og Metorda, at Vinstre Hlid med Orbyrgd og Orvijnglan; Fyrer framann oss stendur Sialfs-Pottenn og Virding vors eiginn Agiætis, A Bak vid oss Assokun og Peckingarleise Syndarennar, Innvortis Slog Samvitskunnar, Illar Gyrnder og Tilhneigingar. Pesse er nu Andskotans Freistne og Elldlegar Piilur Pess Hreckviisa, Eph. 6. Enn sokum Pess Pær eru Syndugre Manneskiu svo skiædar, ad Par er eingenn Liifs edur Heilsu Von, ef Dioful lenn, Heimurenn og Hollded meiga siinu framfara, Pa freistar Gud Mannsins, Saalunne til Heilsubootar. Enn Gud freistar vor, bæde sialfra vor vegna og so Naungans. Pad sem Diofullenn giorer med illum Heimsins Epterdæmum til Ills, Pad giorer Gud til Epterdæmis med Krossburdenum til Goods. Margur munde hallda sig Saklausann, nema Gud typtade hann og ride Mootlætinganna Vatne at vor blindu Augu, svo ad vier siaaum vora Ominnd. Pegar Gud byrtest Fedrunum i Gamla Testamentenu, Pa skiede Pad opt i einu Leyptrande Skye; og svo trwe eg Pad verde enn nu i Dag, ad vallt siaæ Menn viett Gud sienann, nema hanns Diird bregde fyrer oss i Poku Mootlætinganna: Pvi at medann vel geingur, Pykest Madurenn svo sem Sialfskiled eiga allt Pad hann Piggur af DRottne; Enn Pegar hann tekur Pad burt, Pa leita Menn hanns med Angist. Kunnuglega talar David hier um, Ps. 30. Eg sagde Pa mier vel gieck: Eg skal alldrei skiliast fra DRottne, Pvi Pu DRottenn veiter Stadfestu mijnu Biarge med Pinne Pocknan. Enn Pegar Pu byrgder Pitt Andlit fyrer mier, Pa skielfdest eg, Pa kallade eg til DRottenns, og eg Graatbænde hann. Aptur freistar Gud Peirra er hann vill, audrum til Epterdæmis, svo sem Abrahams og Jobs, hvad lioost er af hanns Sogu, er ollum er skrifud til Epterdæmis. Og siaaum vier nu af Pessu, ad Gud freistar Mannsins, bæde Peim til Gagns, er hann leggur sinn Kross at Herdar, svo og audrum til Fyrermyndar. I Pessu H. Dags Evangelio hofum vier Dæme eirnrar Kvinnu, hvor ed Pa fyrst leitadi ad Christo, Pegar Naudenn Priiste henne Par til. Og vilium vier Pad nu med Pess Lærdoomum yfervega, epter Pvi sem Gud giefur Naad til.

Hiaalpa oss Par til Naaduge Gud fyrer Pinn Son JEsum, AMEN.

## Utleggingenn.

Pegar Marcus segier fraa PessareHistoriu, i hanns Gudspialla Cap. 7. Pa gietur hann um, ad JEsus hafe svo sem faled sig i Pessum Stad, Pvi hann hafe geinged inn i Eitt Hws, og hafe eige viliad laata neirn vita Pad. Hvar varstu nu minn HErra? Sem segier: Eg er fundenn af Peim sem ecke leitudu ad mier; Pu sem ad hroopader, Matth. 11. Komed til miin aller Pier sem erfided og Pwngaerud Piader, eg vil Endurnæra ydur. Hvar varstu Pa? Er nockud Piin Hond stutt vordenn, ad Pu kunner ecke, Eda Pitt Eyra so tilluft, ad Pu viller ecke hiaalpa? Sannlega er Pad ecke, helldur kiemur Pad hier framm, sem hin eilliifa Spekenn segier: Eg leik mier vid Mannanna Sonu, Prov.

8. Svo plagar Fader Miskunsemdanna ad breita vid sijn Born. Hañ hylur sig um Stundar-Saker, svo ad Manneskiañn leite hanns Andlitis. Visse JEsus ad Lazarus Vinur hañs lææ veikur, Joh. 11. Samt var hañ fiarlægur honum æ medañ hañ took hañ burtu. Eige var honum Okuñugt ad Vijnskortur var i Cana, eñ þo droo hañ undann ad snwa Vatnenu i Vijn, þar til hanns Stund var komenn, Joh. 2. Ymislega breiter Gud vid sijna. Hvor hefur nockurn Tijma hanns Raadgiafe vered? Rom. 11. Hann deilde æ Konungs Mañenn, þa hann leitade Hiaalpar vegna Sonar sijns, Joh. 4. Hañ baud Hundrads-Hofdingianum ad gæanga samstundis heim og lækna Þioon hañs; Matth. 8. Hann fann strax Kraft wt af siet gaanga, þa hin Bloodfallssiwka hrærde vid hanns Klæda-Fallde, Marc. 5. Enn fyrer þessare Naudstoddu Konu hylur hañ sig. Þo kann ecke Sool Riettlætesins ad leyna sier; Þvi segier og Marcus: Ad þesse Kona hafe heyrt af JEsu og þar fyrer til hanns komed, þvi hann hafe eige gietad dulest. Hvor er þa Boon hennar? Hun hroopade og sagde: HErra SONur DAvids Myskuna Þu Mier. O Hvad dyrmætur Hlutur er Krossenn! hann kann ad reka Mannenn wt af Tyro og Sidon, þad er af vondre Verolldu þessare, til ad leita ad Christo. Hañ er eirn Andlegur Seguls-Steirn, sem Mannanna Staal-Hiortum uppricker i Hædernar til Guds Lifanda. HErra Sonur Davids, segier þesse Kona. Faaord er Bæn heñar, enn eckert er hier epterskiled, þad sem audmiwkre Syndugs Manns Bæn æ ad fylgia! Med Herra-Titlenum jaatar hun sijna Undergiefne; var hann HErra, þa var hun hanns Ambaatt; Enn med Nafne Davids Sonar telur hun sig i Ætt vid hann: Ecke þad hun være af David komenn, helldur af Adam, hvors Nidie David var. O minn JEsu! Þeir eru þijn Mooder og þijner Brædur, sem eru þijner Læresveinar, Matth. 12. Enn þijner Læresveinar eru aller þeir, er þitt Ok uppa sig taka, og fylgia þier epter, Luc. 14. Medal hvorra þesse Utlendingur var eige hinn Sijdarste. Þad var henne ecke noog, minn JEsu, ad þu varst hennar HErra; Þad er annad ad kunna, annad ad vilia; enn þad hun kallar þig Davids Son, Þad er Holld af hennar Hollde og Bein af hennar Beinum, þad var biturt Skeite, sem æn alls Efa hefur stwnged þijn Myskunar Ydur. Þetta styrker St. Paall, Hebr. 2. Segiande: Honum byriade Brædrunum i ollu samlijkur ad vera uppa: þad hann Myskunsamur være, og trwr Biskup i þvi sem hiaa Gude atte ad giora, Þvi Sokum þess hann lided hefur þa hann var freistadur, þa kann hann og ad hiaalpa þeim sem freistader eru. Miskuna þu Mier, segier Konann. Hun kiemur til JEsum, ecke svo sem til annars Læknars, þeim er Menn biooda Laun fyrer sitt Omak, ecke helldur i Trauste sinnar Forþienustu. Mykuna Þu Mier, segier hun, enn ecke: Minne Doottur; Jaatande þar med, ad ecke þyrfte hennar Dootter einasta Myskunar vid, helldur være og sialf hun Overdug i Guds Augliti sinna Synda vegna, þad hann skyllde hiaalpa hennar Lijfs-Afkvæme, hvort hun eige einasta hafde gieted og fædt i Syndeñe, helldur uppaled med al Ogudlegra Manna vid Satans Þioonustu, og i hanns Dyrkan. Lær hier af, syndugur Madur! Nær þu framkiemur fyrer Gud ad þiggia nockud af hanns Orlætis

Hende, ad afneita siaalfum þier og øllum þijnum Verdugleik; og giør ecke þijn Good Verk, ef nockur eru, ad hinne verstu Synd, med ofmiklu Trauste a þeim edur Daalæte vid siaalfann þig, helldur seig þu med þessare Konu og David: Miskuna þu mier Gud epter mikellre Miskunseme þinne, og, epter Mikeleik Miskunsemda þinna, afmaa þu mitt Raanglæte, Ps. 51. Þesse Faraada Manneskia leggur Orsøkena til, hvar fyrer hun so Graatbæne: Mijn DOOtter Kvelst Illa Af Dioflenum. O Neyd! O Neyd! O Sorg! O Sorg! Hvad goodur Skoola-Meistare ertu? Og hvørsu sijnt er þier um ad giøra hinar Faraadu Tungurnar vel talande? Eckert er hier epterskiled, sem eitt Manns Hiarta kynne ad hræra til Medaumkunar, svo hier var aa aungvann Veg hægt undann ad komast fyrer þann, sem allt Valld hefur bæde aa Hiinne og Jordu, Matth. 28. Og er þo under eins so Lijknsamur, sem Faderenn er Børnunum Miskunsamur, Ps. 103. Hun kallar hann, HErra, þvi treister hun ad hann giæte, hun kallar hann, Son Davids, þvi vard hann ad vilia, hun bidur um Miskun, hvørt villde þa Brunnur Myskunarennar laata sijna Læke renna, ef ecke i soddann Trwar Skaut? Enn þetta eykur miog so aa, ad hun bidur fyrer sitt eiged Lijfs-Afkvæme, hvørs Saal ad hieck af hennar Saal, eins og Jacobs af Beniamins. Hun segier; Mijn Doottir, Þad var saart, Hun kvelst, Þad var hersilegra, Hun kvelst illa, Þad var Obærilegt, Og þad af Dioflenum, þad yfergieck alla Tijmannlega Hørmung.

Lijkamlegur Siwkdoomur liggur æred þungt aa, og nærsta hart er ad siaa uppaa sijng, þegar svo tilfellur, enn þad geingur nærst hinum bitru Helvijtis Pijslum, þegar Andskotenn fær Leife til med sijnum Illsku-Krapte ad bwa i Syndugs Manns Hollde, og slijta þad og kremia epter Vilia sijnum. Hvad fast mun hin heita Moodur-Ast hafa þreingt ad hanns Hiarta; er siaalfur segier, Es. 49. Kann nockud Moodurenn ad gleyma sijnu Barne, Syne sijns Kvidar, og þo hun gleyme þvi, þa vil eg samt ecke gleyma þier. Siaa eg kiem, vill þesse Kona segia: Eg er ein Vesæl Mooder, Eg bid um Miskun; ecke um Mune þessarar Veralldar, ecke um Lijf Ovina minna, Alleina bid eg ad mitt Barn, sem er Guds volud Skiepna, ad þad mætte frijast fraa Diofulsins Vallde og Ofrijke. Mun ecke JEsus hafa þeinkt til sinnar Moodur, sem stood sijdann under hanns Krosse, þegar hann hieck þar so sem Madkur enn ecke Madur, Afmindadur af Diofulsins Þrælum? Mun nu ecke hann, sem i bitrustu Daudans Angist og Helvijtis Kvolum staddur, saa Aumur aa sinne Moodur, mun hann ecke, segie eg, hafa aumkast yfer þessare voludu Manneskiu? Eige er þad ad efa, sem sijdar gaf Raun Vitne. Enn þo segier Textenn oss, Ad Hann Hafe ecki Svarad Henne Einu Orde. Hvilijkt er þetta, Ofann a alla hennar Neyd, eykur þetta nærsta miklu. Hin blessada Riettlætis Sool Mal. 4. upprann henne um Stundar-Saker, enn Skij Þagnarennar droo fyrer hana aptur. Hvad skal hier til segia? Kann ecke þad eilijfa Orded ad tala? Heyrer hann ecke sem Eyrad hefur plantad? Er hann Afundenn, sem øllum bijdur til sijn ad koma? Matth. 11. Hvar eru nu þijn Ord, minn HErra JEsu, er þu sagder fyrer Munn Es. 65. Cap:

 Þad

Þad skal skie aadur enn þeir aakalla mig, vil eg svara, og aa medann þeir eru ad bidia, vil eg
Bænheyra þaa. Þetta siinest hier allt ad aungvu verda. Enn vier vilium hier standa
vid um Stund, G.E.V. Þad være ecke gott fyrer oss, ad vier skylldum øllum Stund=
um Bænheyrder verda; Þeir eru eige aller, sem Gud fææ til siin leidt med Taume
Naadarennar, nema hann slææ sodruhvoriu med Svipu Tiptunarennar. Þegar vel
gieck, snerum vier Bakenu vid Gude; Vier foorum illa med hanns Gaafur, vier
forsoomudum ad brioota vort Braud hinum Þurftuga og Volada. Oss fannst eck=
ert til, þegar Gud liet oss falla allt i Kiør, og eige þaadu Menn Guds Orlæte, so sem af
hønum komed, helldur so sem af vorum Handafla, vorum Atburdum, vorre Framm=
siine: Er þa ad furda þoott hann meige þeigia umm Stundar=Saker vid oss? So ad vier
høllduin oss ecke Saklausa, og lærum, ad øll goød Giøf og fullkomenn Giøf kiemur ad
ofann fraa Fødur Lioosanna, Jac. 1. Og ecke giører Gud einasta þetta vid hina Praa=
laatu, helldur og vid siin Elskuleg Børn. Sannlega hefur hann kiennt i Briooste umm
Eymd þessarar Konu, enn þo svarar hann henne ecke einu Orde; Hann vill þeir bidie svo
þeir fææ, Leite svo þeir finne, Kniie aa, svo fyrer þeim uppløked verde, Luc. 11. Heyr=
ed David Konung, sem var Ast=Vinur Drottenns, hvørsu hann klagar yfer hanns Þo=
gn vid sig, hvørt helldur hann talar þad under sinne edur Messiæ Persoonu; Hvar fyr=
er ert þu fiarlægur miinu Hiaalpræde, og svo fiærre miinu Hroope, Gud minn? Dag
og Noott kalla eg til þiin, og finn þo aungva Hviild, Ps. 22. Nu, þoott Gud svo þeige
vid oss aa Stundum, þa mun hann samt Hiaalpena ecke leinge undann draga; svare hann
ecke svo sem vier viliuin, þa svarar hann svo sem hann vill: Vier vitum eige hvørs vier bid=
ium, enn hann veit hvad oss er fyrer bestu. Ef vier yrdum alltiid Bænheyrder, þa kann=
skie hann giæfe oss Høggorm fyrer Fisk, edur Stein fyrer Braud, Jaa, Høggorms=
Eyru fyrer umskorenn Eyru, Stein=Hiarta fyrer Kiøtlegt Hiarta, enn þad sama er aa
moote hanns Fødurlegu Hiartalage. Hann Bænheyrde ecke Eliam þa hann bad hann
ad taka siina Saalu fraa sier, 1. Reg. 19. helldur gaf hann hønum Krapt til ad moot=
standa Jessabel og øllu Achabs Hwse. Hann heyrde ecki so braadlega Harma=Klogun
Jobs, enn hann gaf hønum yfermaata mikla Þoleinmæde, Job. 2. Hann took eige Kaa=
leikenn fraa siinum Elskulega Syne, helldur sende hønum Eingel af Himne, Luc. 22.
Og so giører Gud enn nu vid hanns Sam=Arfa; Take hann ecke fraa þeim Hørmungena,
þa sender hann þeim þo Krapt til ad bera hana. Hvørt er betra ad reka Fiandmannenn
burt, edur ad giefa einum Megn og Maatt til ad sigra hann? Hefde Goliath aa Bak
aptur hørfad, hvar var þa Davids Sigur? 1. Sam. 17. Hefde eige Israel barest
vid Cananita, þa hefde hann ecke eignast þad Fyrerheitna Landed. Hefde eige Jacob
gliimt vid Gud, þa hefde hann eige hloted Israels Nafn, Gen. 32. Og hefde ecke þesse
Kona þreitt med Bænenne vid hinn Almaattuga, þa hefde hun eige heyrt þesse Fagnadar
Ord: Kona, Mikel Er Þiin Trwa. Þegar Læresveinar vors Endurlausnara formerk=
tu ad hann svarade henne aungvu, þa hrærdust þeir af Medaumkan, og segia: Laat

 þu

þu hana fara, fyrst hun kallar epter oss. O hvad gott Epterdæme hefur þu hier, Christ-
enn Madur! Sæler eru Myskunsamer, segier Endurlausnarenn, þvi þeir munu Myskun
hliota, Matth. 5. Guds Myskunseme þurfum vier Daglega vid, og æn hennar kunn-
um vier ecke ad lifa. Vilier þu ad Gud sie þier Nædugur, þa vert ecke afundenn vid
þann sem þig bidur, eda fraasnvenn þeim sem af þier vill Laan taka, Matth. 5. Þvi hvør-
su maa Gud opna þier sijna Myskunar Brunna, ef þu tilbyrger þijna Læke fyrer hinum
Naudstadda, og sie so ad þu hafer eige Efne æ ad myskuna med Verke, so sem þu villd-
er, þa ælijtur þo DRottenn Hiartad. Sæ sem myskunar meir enn hañ hefur Raad til,
hann hefur giort sitt Myskunar-Verk jafnvægt sijnum Vilia, og hefur myskunad meir
enn hañ kuñe ad myskuna. Ecke er hier talad um eirn helldur enn añañ af Læresveinun-
um, helldur hafa þeir aller i einu Hlioode meint ad inntaka DRottenns Myskunar Hiar-
ta. O Gud giæfe! Christner Menn villdu vera samtaka i Bænenne. Hvad er þad vier
segium i vorre Trwarjaatningu? Jeg trwe Samneyti Heilagra. Er þad alleinasta,
ad jaata eirn og hinn sama Gud? Ad vera med eirnre Skijrn skyrdur? Ad koma sam-
ann i einu Guds-Hwse, og medtaka eirn og hinn sama Lijkama og Blood JEsu Christi?
Nei, aungvannveigenn, helldur þar ad auke ad hallda Eindrægne i Andanum, Eph. 4.
med Bænum og Fyrerbeidslum fyrer ollum Monnum, 1. Tim. 2. Bidied hvorier fyr-
er odrum, segier St. Jacob, Cap. 5. ad þier heilbrygder verded, þvi miked maa Bæn
hinns Riettlaata, þa hun er heit. Siaalfur DRottenn segier, Matth. 18. Ef Tveir
af ydur samþyckia æ Jordu um hvorn þann Hlut, sem þier bidied, þa skal ydur þad veit-
ast af mijnum Fodur, sem er æ Himnum. Og ef Gud heyrer svo Tveggia Bæn, hv-
ad miklu framar mun hanns Fodur-Hiarta komast vid, þa eirn heill Sofnudur wtheller
sijnum Bænum i Eindrægne Andans. Gud elskar Mennena, þa hann sier ad hvor þeir-
ra elskar annañ. Eirn Vatns-Drope, ef hann er eiñsamañ, þa þornar hañ braadlega,
enn falle hann i Sioenn, þa geimest hann Otiindur: Svo eru og Taara-Dropar Christ-
enna Manna; ef þeir falla samañ, þa verdur þar eitt Vatns-Flood af, sem allt upp i Him-
enenn ver, þar til þad fellur i Nadar-Strauma hinns Almættuga Guds, sem fram flioo-
ta af hanns Hæsæte, og renna so aptur ofann til vor æ Jordena. Damparner, sem upp-
stijga af Jordenne, samannsafnast i Loptenu; þegar þeir verda ofur-þwnger og þietter, þa
sundurdreifast þeir af Vindenum, sem ecke kann i giegnum þa ad briootast og falla aptur
yfer ymsar Allfur Jardarennar, henne til Frioofgunar: Andvarpaner Guds Barna,
sem uppstijga af heitu Hiarta, þær samannsafnast fyrer Guds Hæsæte, þar til þær verda
hanns Myskunar Idrum ofur-þwngar, so ad Himnarijke lijdur Ofrijke, Matth. 11.
Þar af verdur hin hiaalpsamlega Nætt-Dogg Guds Goodgyrne og Myskunar, sem
fellur af þvi himneska Hermon yfer þa Jardnesku Zion, Ps. 133. hvorre Ande DRott-
enns sundurdreifer og wtskipter medal Mannanna Sona. Þad er eige noog, þoott Eirn
edur Tveir bidie fyrer ollum. Þo Gud hafe miked giort fyrer Bæn Moysis, Abra-
hams, Eliæ, Elizei, St. Pauls og annarra Guds Astvina, þa er Gud ecke skylldugur ad

giora so øllu Foolke: Munu og fææer vera þeim lijker ꜳ vorum Døgum. Margra Trw hygg eg ad nu meige leggia vid Abrahams og Eliæ Trw. Fyrer Almennelegre Plaagu skal Almennelega bidia, þvi ꜳ Stundum er Gud svo lyndur, ad hann vill straffa þꜳ Goodu med þeim Vondu i Landenu. Hafed þvi Raad Endurlausnarans, M. E. Luc. 18. Bidied Oaflaatannlega og letiest ecke, þvi hvar fyrer skyllde Gud eige frelsa sijna Utvallda, þoott hann udanndrage Hiaalpena? Sannlega segie eg ydur, hañ mun frelsa þꜳ. Hvort Svar giefur nu Frelsarenn sijnum Læresveinum hier uppꜳ? Eg Em Eige Sendur Nema Til Fortapadra Sauda Af Hwse Israels. Þetta sijnest nockud þwngskiled i fyrsta Alite, enn hefur þo sinn stadfastann Grundvøll i Ritningunne. Epter sijnu Spaamanns Embætte var hann eige sendur nema til Gydinga. Epter sijnu Kiennemannlega Embætte var hañ øllum sendur, þvi fyrer alla hefur hañ forlijkad. Hañ bañade ad soñu Læresveinunum ad gaanga ꜳ Veg Heidingianna eda i Samverskar Borger, helldur til Fortapadra Sauda af Hwse Israels, Matth. 10. Þo segier hann hiꜳ Johañem, Cap. 10. Jeg hefe og adra Saude, sem ecke eru af þessu Sauda-Hwse, þꜳ byriar mier og hier til ad leida. Ecke heyre eg ad JEsus hafe ꜳ sijnum Hiervistar-Døgum predikad medal Heidingianna, þvi þad var hañs Spaamanns Embætte, hañs Tijme var enn þa ecke komeñ; Fortialldeđ var enn nu ecke sundur-rifed, þar var enn nu eige nidurbrotenn sꜳ Midveggurenn sem ꜳ millum var, Eph. 2. edur vorded eitt af baadum; þad skiede allra fyrst i hanns Pijnu, Dauda og Upprisu, þvi skoñu þar epter baud hann sijnum Læresveinum ad fara wt um allann Heimenn, Matth. 28. St. Paall þorer ad segia, Rom. 3. Er Gud alleinasta Gud Gydinga, og eige Heidingia? Sannarlega og svo Heidingia, þviad Gud er Eirn, hvør ed Riettlæta mun Umskurnena i Trwnne og Yferhwdena fyrer Trwna. Svo var nu JEsus sendur alleina til Gydinga epter sijnu Spaamanns Embætte; Enn so sem Faderenn sende hann til Gydinga, so sende hann sijna Læresveina til Heidingia. Epter hinu Kiennemannlega Embættenu, er hann øllum Heime sendur, þvi Johannes segier Fortakslaust; Hann er Forlijkun fyrer vorar, og ecke einasta fyrer vorar (þad er Gydinganna) helldur og fyrer allrar Verallðarennar Synder, 1. Joh. 2. Epter sijnu Koniunglega Embætte var hañ og øllum sendur, þvi hañs Gud hafde giefed hønum Endemork Jardareñar og heidnar Þiooder til Arfleifdar, Ps. 2. Og er þad Eptertekta verdt, ad þau Tvo Kraptaverk, sem DRottenn giørde medal heideña Þiooda, añad þetta, añad hiꜳ Gergesenis, Matth. 8. Þau voru bæde til ad auglijsa hanns Almættis Herra-Tign, þvi i hvørutveggia Sinn rak hañ Diøfuleñ wt, sem kallar sig Drottenn Verallðar þessarar.

Hvad giører nu þesse Kvinna til, vid Af-Svar þetta? Hun lætur ecke af, helldur sæter þessu Tækefære, þar hun sier Læresveinarner tala hennar Maale. Lær hier, Christenn Madur, ad þreytast ecke i Bænenne; þoott Gud hiaalpe ecke strax, sem þu kallar, þa hefur hañ þo ecke forgleymt Myskunsamur ad vera; Fodurlegt Hiarta hefur Gud: Hann er ecke so sem Stockur eda Steirn. Forgiefens hefur hañ þa straff-

ad

ad Gudleyse Mannanna, sem gaanga til Maallausra Skwrgoda, ef hann være þeim sialfur lijkur. Gud er ecke eins Sinnadur og Madurenn; ef nockur Olmusumadur liggur jafnañ vid Dyr hinns Rijka, þa heiter hann Praabænenn, Ofkickanlegur, Heimtufrekur. Pad verdur so fyrer oss Monnunum, þvi vier megnum eige margra Þorf ad fylla: Eñ Afgruñe Myskunarennar er ei so haattad; þess optar sem hann er bedenn, þess kiærara er þad honum, þvi hann kann ad uppfylla alla vora Naudþurft, epter Rijkdoome siñar Dijrdar, Phil. 4. Þeir neyddu hann; segier uñ þaa Tvo, sem til Emaus geingu, Luc. 24. Gud vill laata þvijnga sig med heitre Bæn, og þad er honum inndællt ad þola Ofrijke af Trwudum Syndara. Su Prææfelkne er good sem Gude þocknast, og su Orusta mætte liett falla, þar sem Madur er viss uñ Sigurenn. Saa sem af Tinnunne vill Elldenn faa, verdur optar ad slaa, enn Einusinne. Vilier þu og ad Guddoomsins Giædsku-Neist ar stockve wt af Hellu Hiaalprædesins, þa verdur þu optar enn einusinne ad slaa med Hamre Bænarennar, og ecke aflaata, þar til þu aa einhvern Haatt Bænheyrdur verdur. Menn skulu og audmiwklega bidia. Matthæus segier, þesse Kona hafe tilbeded hann. Marcus segier, hun hafe falled til Foota JEsu, Marc. 7. Pad Ord er ad Eilijfu satt sem David segier, Ps. 34. Naalægur er DRottenn þeim Harmþrwngnu i Hiortum, og þaa Sundurkromdu i Anda frelsar hann. Hvor sem vill uppausa Vatn af nockrum Brunne, hann maa beigia sig. Hvor er Brunnur þess Siaaanda og Lifanda? Hanns ed sier, þoott eingenn siaae, hanns ed lifer i oss, þo ad vier deyum. Hvor sem vill af honum Naad og Myskun uppausa, hann kriwpe audmiwkur aa sijn Hiartans Knie. Josua fiell til Jardar nidur, og joos Molldu yfer Hofud sier fyrer DRottne, Jos. 7. David lagdest flatur aa Jordu fyrer hañs Tignarvellde, 2 Sam. 12. Sialfur Guds Sonur kastade sier flotum aa Jordena fyrer sijnum Himneska Fodur, Matth. 26. Og þvi skylldum vier þa eige beigia Knie vor fyrer Fodur DRottenns vors JEsu Christi? Eph. 3. Saa sem vill vera mikell i Himnarijke, hann skal fyrst giora sig lijtenn hier aa Jardrijke. Pad er ecke Vegur til ad liwka upp Guds Myskunar Ydrum, ad standa iñst i Kyrkiu og bidiast fyrer, enn forsmaa Tollheimtumannenn, sem stendur laangt i fraa, Luc. 18. Tak þijn Skoo-Fot af, sagde Gud vid Moysen, þvi saa Stadur er heilagur er þu stendur aa, Exod. 3. Vor Bænastadur er heilagur Stadur; Par er Guds Musteri, hvar hellst þad er, þar er oll Heilog Guddomsins Þrenning aa Tali vid oss. Oll Ohreinindi Drambseminnar, allt Endemi Sialfs-Þoottans aa þar i burtu ad vera.

Hvort Andsvar fær nu þessi aangraada Manneskia uppaa þessa sijna audmiwka Bæn? Pad Er Eigi Gott Ad Taka BRaudid BArnanna Og Kasta Pvi Fyrir HUndana. Hord var þessi Ræda; Hvorsu maatti DRottinn þwnglegra svara? Eñ ecki fiellst henni Hugur vid allt þetta, helldur svarar hun: SAtt Er Pad HErra, Enn Po Eta HUndarnir Af MOlum Peim, Sem Detta Af BOrdum DRottna Peirra. Poott Abrahams Munnur hefdi hier komenn verid til ad kieppa med Bæninni vid Gud

 uñi

um̃ Sodoma, Gen. 18. þaa hefdi hann ecki kunnad betur ad mæla. Ecki þyckist hun vid Sannyrdi þessi, helldur þess meir hun er Ovirdt, þess audmiwkari er hun ad bidia. Hina hordustu Freistingu giorir hun ad sætustu Huggun. Þau Ordiñ Christi, er henne brixludu um̃ siñ Overdugleik, þau brwkar hun sier til Forsvars, og þad sem sijndist ad horfa henni til mestu Orvæntingar, vard heñi til ædstu Blessunar, og hier af er audsied, ad Gud lætur þeim alla Hluti til Gooda verda, sem hañ elska, Rom. 8. Hun slær vorn HErra, ef so mætti ad Ordi komast, med hanns eiginn Sverdi. Satt er þad HErra, eg em Hundur i þijnu Augliti, og hefi aungvann Riett med Bornunum. Þad er Riettvijst ad þau mettist fyrst: Þu hefur tilreidt eina mikla Maaltijd fyrir þeim, Og þijnir Uxar og alid Fieer slaatrad, Matth. 22. Enn i slijku Giesta-Bodi munu nockrir Molar aa Goolfid falla, sierdeilis þar Borninn, sem mett eru, hyrda eigi so vandlega þar um̃; Þessir Molar nægia mier aumri Hund-Tijk, eg em þinn Hundur: Enn mun nockud Hwsboondinn slaa sinn Hund fraa sier, þa hann vill fylgia honum eptir? Eg er eigi so væntinn, ad eg gyrnist ad sitia til Bords med Bornunum; Leif mier þo samt ad tijna Molana med Hundunum, þaa Braud-Mola, sem þijn Born vilia ecki nijta; Leif mier og minni Doottur þaa upp ad tijna, og þo vid hofum þaa ecki forþienad, þa veit eg ad þu, sem ert eiñ Herra, og þar ad auki Davids Sonur, miñ Skapari, og þo minn Broodir, þu munir eigi ockur allra vesolustu Skiepnur, enn þo þijnar Skiepnur, ad soñu Hund-Tijkur, enn þo þijnar Hund-Tijkur, i Hwngri og Vesolld wt af deya laata. Fyrir þessari so oflugri Trw, liet hinn Almaattugi sigrast; hanns Hiarta brast i honum, so hann hlaut henni Myskunsamur ad vera, Jer. 31. Og Bruñur Myskunsemdanna vard ad opnast i slijkri Hræringu, so ad þadann wtflaut eirn lifandi Naadar-Straumur, til ad endurnæra þessarar Kviñu Sorgbitid Hiarta. Þanninn verdur hann hier yfirunninn af sinni eigiñ Giædsku, sem þo er Osigrandi, hañ verdur til Faangatekinn, sem hefur Herleidinguna ad Herfaangi tekid. Hann þurfti valla eitt Ord til ad wtreka Diofulinn, Matth. 4. Enn med morgum Ordum fær hann ecki þessa Trw fraa sier rekid, so ad alltijd verdi Sonnur aa hanns Maali; hvorn þañ sem til mijn kiemur, vil eg ecki fraa mier reka, Joh. 6. Athuga þu nu, Christinn Madur, nockud um̃ þijn Efni hier wt af. Munt þu i Guds Augliti betur vera aa þig kominn, enn einn Hundur? Þu ert ad sonnu Christiñ, þessi Kona var heidiñ, þu ert skijrdur og iñtekiñ i Guds Saattmaala, hun var ecki. Þu heyrir Guds heilogu Ord Daglega, enn hun alleinasta Ryktid af JEsu: Eñ hygg ad, hvad Endurlausnarinn segir: Drottninginn af Arabia mun upprijsa aa Effsta Deigi og dæma þessa Kynslood, þvi hun kom laanga Vegu ad heyra Speke Salomonis, og siaaid hier er meiri enn Salomon, Matth. 12. Svo er eg og hræddur um̃ ad Kona þessi muni dæma marga þar er Christnir kallast; Hun sem hier ber Hunds-Nafn, taldi ecki eptir sier ad leita ad Christo, og fylgia honum eptir, þo hun yrdi ecki so fliott Bænheyrd. Enn hvor er nu sa er leiti ad DRottne, og kalli af Alvoru til hanns i Hornunginni? DRottinn tiptar oss, eñ vier finum þar

ecki

ecke til, Hann slær oss, enn vier betrum oss ecke, Jer. 5. Menn hafa hardara Andlit enn Steirnenn, og vilia ecki suwa sier. Hundarnir hafa nockra Rækt a sijnu Afkvæme, Þesse Heidna Manneskia var af innstu Hiarta-Sorg tilknwd ad leita sier Hialpar hia Þeim Himneska Lækner, vegna sinnar Doottur sem plagud var af Dioflenum; Enn hvad fæer eru nu þeir, sem fæera sijn Born til JEsum med Christelegum Aga og Umvondun, og gieta eige jafnvel lided, ad Omennskunnar Diofull sie fra þeim rekenn med Guds Ords Kienningu og goodre Tilsogn. Þesse Kvinna gieck wt af Tyro og Sidon, þeim Ogudlegu Stodunum, til JEsum; enn hvad tregt er oss komed til ad ganga wt af vondre Verolldu þessare og fylgia honum, Jafnvel þoott Saalenn ligge Vitstola i Æde Syndarennar. Þesse Kvinna reiddist, ecke þo henne være osuglega svarad, enn hvad giora þeir sem mogla a moote Gude, þa ecke geingur allt ad Oskum, og formæla hanns Hofud-Skiepnum, þa þær, epter Skipan sijns Herra, eru oss mootfallnar, hvoriar Gud hefur oss þo giefed af Ommrædelegre Giædsku sinne, til ad hallda vid voru Opacklaata Lijfe. Hundar komu og sleiktu Lazari Saar, enn ecke fieck hann ad sedia sig af þeim Molum, sem duttu af Borde hinns rijka, Luc. 16. So finnast og marger Omiskunsamer, hardwduger enn i Dag, hvorier ed hafa Gnægt Veralldar þessarar, enn laata þo sinn Naunga Hwngur lijda; Og ef þesser Ogudlegier Lester skylldu finnast medal Christenna Manna, (sem ecke er ad efa) Hvad erum vier þa betre enn Heidingiar i Guds Dijrdarfulla Auglite? O vor Gud og Almaattuge Skapare! Vert þu oss Syndugum Lijknsamur, og tilreikna oss ecke vorar Illgiorder, epter þeirra Verdskulldan, helldur minnstu þinnar mikellrar Miskunseme! Vor Dootter, þad er vor Saala, kvelst þronglega af Dioflenum, hvorre hann Ognar med hrædelegre Minning Illgiordanna. Illa hofum vier lifad, enn þu, Christe, ert fyrer vorar Illgiorder uppheingdur, Fleire eru vorar Ranglætingar helldur enn Taar vorra Augna, enn langtum fleire eru þo Dropar þinnar Mijskunar, sem ad upprennur yfer oss syndugum Monnum ny og fersk a hvorium Morgne, Harmagr. Jer. 3. Allra Manna syndugasta jatum vier oss, hvor i sinn Stad, enn þeckium þig þo ad vera hinn allra Helgasta, sem fyrer oss Ranglaata ert Bolvan ordenn. Vier erum elge betre enn Hundar i þijnu Dijrdarfulla Auglite, þar vier hofum forþienad ad wtelokast fra þeirre Himnesku Jerusalem, Apoc. 21. Enn samt erum vier þo þijner Hundar og vilium helldur so heita, enn Andskotans Oska-Born. Vier kiorum helldur ad tijna Molana under þijnu Borde, enn hafa full Hwss med Ogudlegum; Meigum vier ecke Born kallast, þa gior oss so sem eirn af þijnum Leigu-Monnum, Luc. 15. Meige og þad ecke, þa laat oss Riett hafa med þijnum Hundum. Þoott vier telium oss Overduga ad sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, Matth. 8. Þa vilium vier samt i þijnu Leyfe skrijda under Borded med hinne Chananiisku. Gott er oss ad ganga DRottne, med hvoriu hellst Moote þijn eilijfa Miskun vill þad vera laata; þoott vier saum ecke þau Kior, sem Rijkesins Syner, þa holldum vier Fullgott ad vera Dyra-Verder i Hwse DRottenns vors, Ps. 84. Þad næger oss, þegar vier alleina

ecke wtkastader verdum i hin Ytstu Myrkur. O þu Lijknarfulle Gud og Naaduge Fader! Þegar vier allra sijdarst wtgaungum af Tyro og Sidon, sem er, af Heime þessum, fyrer Tijmanlegann Dauda, enn Andskotenn gyrnest ad kvelia vora Saalu med eilijfum Pijslum, Miskuna oss þa fyrer JEsu Davids Sonar Skulld, og laat oss verda epter þvi sem vier vilium, sem er, ad vier frelster af Synd, Dauda, Dioste og Helvijte, meigum þier þioona i Riettlæte og Heilagleika um̃ allar Allder Allda, Amen, I JESU Nafne, AMEN.

# Pridia Sunnudag i Føstu.

Gudspialled, Luc. 11. Cap.

Nu Þeim Tijma. JEsus rak wt Dioful han̄ er Maallaus var. Og þad skiede, þa Dioful̃eñ var wtfareñ, ad hiñ Maallause talade, og Foolked undradest þad. Eñ nockrer wt af þeim sogdu: Fyrer Belzebub Diosla Høfdingia þa drijfur hañ Dioflana wt. Adrer freistudu hañs, og leitudu af hønum epter Telkne af Himne. Eñ er hañ saa þeirra Hugreñingar, Sagde hañ til þeirra: Hvort Rijke, sem i sialfu sier er Sundurþyckt, þad mun eydast, og hvort Hws mun yfer añad hrapa. Og ef Andskoteñ er i sjaalfum sier Sundurþyckur, hvørneñ maa hañs Rijke þa standast, fyrst þier segled mig fyrer Belzebub wtreka Dioflana? Eñ ef eg fyrer Belzebub wtrek Dioflana, Fyrir hvørn wtreka þa ydrer Syner? Þar fyrer skulu þeir og verda ydrer Doomendur. Eñ ef eg rek wt Dioflana med Guds Fijngre, Sañlega er þa Guds Rijke komed til ydar. Nær ed sterkur Hervopnadur vardveiter sitt Andyre, þa er allt med Mak hvad hañ aa. Eñ nær añar Yfersterkare kiemur og yfervinñur hañ, þa fletter hañ hañ øllum Hertijum, aa hvør ed hañ treyster, og i sundurskipter so hañs Herfaange. Hvør hañ er eige med mier, saa er aa moote mier, og hvør sem samañsafnar ecke med mier, sa sundurdreiser. Nær Ohreirn Ande fer wt af Mañenum, raafar hañ um̃ þurra Stade, leitar ad Hvijlld og fiñur ecke, þa segier hañ: Eg vil aptur hverfa i Hus mitt, hvadañ eg foor wt; Og þa hañ kiemur, fiñur hañ þad soopad og prijdt. Þa fer hañ og tekur med sier Sio adra Anda sier verre, og sem þeir eru þar iñkomner, byggia þeir þar, og verdur so þess Mañs hid Seinasta, verra hinu Fyrra. Eñ þad skiede þa hañ talade þetta, ad Kona nockur, wt af Foolkenu, hoof upp

upp ſijna Rauſt og ſagde til hanns: Sæll er ſa Kvidur ſem þig bar, og þau Brjooſt ſem þu mylkter. Eñ hañ ſagde: Jaa ad viſſu; Sæler eru þeir ſem heyra Guds Ord, og vardveita þad.

## Exordium.

EKke er Laan leingur enn lied er, ſegia Menn i Fornkvednum Ords-Hætte, og er hann ſannur, þvi þegar Eigandenn aptur heimtar, þa er hanns Riettur wte ad brwka, ſem Laaned took: Og ſvo ſem þvi er hattad Almennelega aa medal vor Mannanna, ſo er þad eirnenn aa ſig komed aa mille Guds og Satans; Andſkotenn hefur aa ſtundum nærſta Diarftækur vered til ad hondla med hanns Skiepnur, þa honum, fyrer einhvorn Tilgaang, hefur þad leift vered, enn aungvannveigenn maa hann raada yfer þeim moote Vilia hinns Almaattuga. Ad ſonnu heyrdum vier ei alls fyrer laungu, ad hinn Bligdunarlauſe Diofull baud vorum HErra, ad hann villde giefa honum oll Rijke Veralldarennar og þeirra Dijrd, Matth. 4. Eñ hvad mikid Rijke hafder þu þa i Heiminum Satan? er þu þorder ecke ad bwa i Svijnunum fyrer utann Leife Drottiñs vors, Matth. 8. Syne ſijnum hefur Gud feinged Raad yfer Verolldenne, hvorn hann ſett hefur Erfingia allra Hluta, Hebr 1. Honum hefur hann giefed allt Valld bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. enn ecke Dioflenum. Þar fyrer, þoott ad DRottenn kalle hann Hofdingia þeſſa Heims, hiaa Joh. 14. Þa er þad ei ſvo ad ſkilia, ad hann med friaalſu hafe nockra Stioorn aa Jordu i þeim Hlutum, ſem Valldſtioornenne vidkoma, helldur meinar Lauſnarenn þar med Heimenn, ſem eru þeir Ogudlegu, þad eru Vantrwarennar Born, Eph. 2. J hvorium Diofullenn maattugr er, til ad drijfa þa epter Villd ſinne til allskins Synda og Laſta. Ei þorde hann ad granda Jobs Lijkama, fyrr enn Gud gaf honum Leife þar til, Job. 2. Ei gat hann Petur ſigtad, þvi vors Endurlauſnara Bæn maatte meira, Luc. 22. Og ſvo ſem Andſkotenn hefur eckert med Chriſtum, edur þa ſem i honum eru, ſvo kunna ei helldur hanns Born Guds Bornum ad granda, framar enn Gud leifer. Oll vor Hofud-Haar eru talenn, og ecke fellur eirn Titlingur aa Jordu aan hañs Vilia, Matth. 10. Nu þo ad Satan vel vite, ad hann megnar eckert med ollum ſijnum Illſku Krapte aa moote einu Guds Orde, þa fær hann ei vid ſinne Illſku giort ad aareita Gud og hanns Utvallda. Alldrei er ſvo ſterkur Kaſtale, ad ei þurfe ad vaka ſvo leinge Strijded yfer ſtendur. Nu er Lijf þetta ecke annad enn ſijfelld Baraatta, Job. 7. bæde hid Ytra og Jnnra, þvi er Þorf ad Saalenn vake i Hiartanu, ſem er Slot Lijkamans, og bidie ſvo ad vier follum ecke i Freiſtne, Matth. 26. Jeg ſagde fyrer Skomu, Born mijn! Ad Andſkotenn hefde eckert med þaa, ſem eru Gude Handgeingner, enn þad gyllder aa medañ þeir eru i hanns Þienuſtu, enn ecke annars. Svo marger ſem ecke geingu wt af ſijnu Hwſe þa Noott, ſem Paaſka-Lambed var ad Kvollde eted, þeir urdu frijer fyrer Mord-Einglenum i Egypta-Lande, Exod. 12. Guds Oſijneleg Kyrkia hier aa Jord-

unne, er Hws þad, hvar inne hid saklausa Guds Lamb, sem burttook Heimsins Synder, verdur Daglega slaatrad og offrad i Riett-Trwadra Hiortum, þeim Himneska Fodur til Sætleiks Ilms: Gaanger þu wt af þessu Hwse, Christenn Madur, þa kann eg ecke ad segia þig Ohultañ fyrer Draaps-Einglenum; Enn þyker hitt lijkara, ad þu meigir i hanns Hendur falla. J þessu H. Evangelio høfum vier Epterdæme, bæde uppa Andskotans Illskufulla Medferd aa Syndugum Mønnum; Og so hañs Barna, Hreckvijse aa moote Gude og hanns Børnum. Vil eg þvi i þetta Siñ tala: 1.
Um̃ Diøfulsins Valld yfer syndugu Hollde aa hinum Fyrre Døgunum, og so nu.
2. Um̃ hanns Illsku i þvi ad spilla vorre Andlegre Velferd.

Styrk oss þar til Naadarfulle Gud, med Krapte þijns Anda, J JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

MIjøg so Aumkunarlega hefur þesse Manneskia halldenn vered, sem hier um̃ gietur i Gudspiallenu; Þvi hvad kann Vesællra ad vera, enn þegar Twnga Mañsins er bundenn i hanns Munne, so hann fær ecke talad vid adra Menn sier til Skiemtunar, eige kvartad um þa Hlute, sem hann aangra. Eirn Maalleisingur er i Heimenum, so sem fyrer utañ Heimenn; Hañ hefur Twngu og talar ecke, og ecke ollu betur, eñ eirn Lijkneskia, er hañ aa sig komeñ. Nu eykur þad þo miklu aa, ad raada er af Gudspiallenu, ad þesse Plaaga hafe vered af Diøflenum; Og er þvi ecke ad neita, ad Gud hefur Andskotanum leyft mikla Hlute i Lijkamlegum Efnum, aa Døgum gamla Testamentesins, aa Hiervistar-Døgum vors Frelsara, aa Døgum hanns H. Postula, hvøria hann sierlage wtsende i sijnu Nafne til ad planta siñ Vijngard a medal Mañaña Sona hier aa Jørdunne, og so nockra Stund fram̃ epter Olldunum, til ad styrkia og auka þessa niju Plantan, med Auglijsingu sijns Maattar yfer Diøflenum. Hanns Owtsegiannlegre Myskunseme og Naad høfum vier þad ad þacka, ad vier finnum ecke so miøg þar til aa vorum Døgum, ad Diøflenum sie leyft ad hafa Valld yfer Manneskiunne i Lijkamlegañ Maata. Fiærre sie þvi, ad eg segie þad Gud kunne ecke, ef hann vill, ad brwka Andskotann til ad straffa Synder Mannanna, þvi hann er i hanns Hende, so sem øll hanns Verk. Hitt efast eg um̃, hvørt þad sie hanns Vilie nw um̃ Stunder. Saa Alvitre Konungur hefur Þusund Veige og Maata til ad stiorna sijnu Rijke. Eins og eitt Kongs Rijke um̃breitest aa marga Vegu epter Tijdunum, so siaaum vier eirneigenn, ad þad er skied i Guds Rijke hier aa Jordunne. Ad sønnu er hann ecke sialfur i nockru um̃breitannlegur, helldur um̃breiter hann øllum Hlutum, epter þvi sem hanns Guddoomlegu Speke haga þyker. Hann talade sialfur vid Fedurnar fyrer Floodid; Hann giørde slijkt hid sama vid Abraham og hanns Epterkomendur, allt til Moysen. Moyses took Riettindenn af hanns Munne, og fieck þau Israels Sonum, og hann gaf þeim fyrer hanns Hønd sitt H. Løgmaal, skrifad aa Stein-Toblum, til ad lifa epter, Exod. 24. Hann stioornade sialfur, eins og eirn Veralldlegur Konungur, sijnu Foolke, þar til þeir villdu ei leingur laata hann

Drott-

Drottna yfer ſier, Og hann gaf þeim Saul Konung i Brædeſinne, Hoſ. 13. Hann talade þo vid hañs Epterkomendur fyrer Munn ſinna Spaamanna, og jafnvel i Herleidinge-unne lagde hann ſitt Ord i þeirra Munn. Enn i Timans Uppfyllingu hefur hañ talad vid oß fyrer Sonenn, Heb. 1. og lꜳted hann, ſem er wtgeingeñ af hanns Skaute, Joh. 1. opinnbera Moñunum ſiñ Vilia, eñ þegar hañ ſtie til Himna og iñgieck i ſijna Dyrd, þa ſendi hann Poſtulum ſijnum H. Anda, af ſijnum Fodur, Joh. 15. ſꜳ er leidde þa i allañ Sannleik, Joh. 16. og kiende þeim ecke einaſta, hvad þeir tala ꜳttu fyrer þeim, ſem Sꜳluhiꜳlpena erfa ſkylldu, helldur og fyrer Herrum og Konungum, Matth. 10. ſem oſſooktu Guds Evangelium. Þeſſer eru þeir, ſem oß hafa Guds Vilia ſkrifadann epterlꜳted i Gudſpiollum, Sendebreſum og Openuberunum, fyrer hvort ad Guds Kyrkia ſtioornaſt enn nu i Dag hier ꜳ Jordunne. Sijdann þeirra Daga vitum vier ecke til, ad Gud hafe talad vid Mennena, nema i þeſſu ſijnu H. Orde, hvort ed enn nu Daglega kienneſt og predikaſt medal vor. Af þeſſu ſiꜳum vier, hvorſu margbreitt ad hefur vered Rijkisſtioorn þeß Mꜳttuga Allsheriar Konungs hier ꜳ Jordunne. Enn hvad Satans Utriettingum vidvijkur, þa ſie eg, ad hann hefur leyft honum marga Hlute ad fremia ꜳ Gamla Teſtamenteſins Dogum. Honum þocknadeſt ad lꜳta hann ſlꜳ ſiñ Pienara Job, med Sꜳrum og Kaunum, Job. 2. uppꜳ þad hann reynde hanns Þoleñmæde, og ſijnde Andſkotanum, hvorſu ad Guds Kraptur være i Mannſins Breiſkleika mꜳttugur, 1. Cor. 12. Hann leyfde Tofra-Mönnum Pharaonis marga undarlega Hlute ad giora fyrer Satans Krapt, Exod. 7.8. uppꜳ þad hann med þeim, og þeir med honum, yrdu til Skañar, fyrer Moyſi Guds Þienara. Gud leid honum ad ꜳklaga Joſuam þann Ypparſta Preſt, Zach. 3. ſo hañ af hinum Ædſta Biſkupe Sꜳlnavorra ſtraffadur yrde: og annad þvi uñ lijkt er ad leſa i Sogum Gamla Teſtamenteſins. Hvar fyrer munde nu Gud giora þetta? Ecke þeß vegna, ad hann ei giæte med ſijnum Almættis-Krapte alla Hlute verkad, epter þvi ſem ſiꜳlfur vill hann, þvi fyrer honum er eckert Ord Omꜳttugt, Luc. 1. helldur, eins og hann liet Pharaonem ſtanda og ecke uñ Koll ſteipaſt, þar til hann Optſiñnes audſijnde ſijna miklu Makt ꜳ honum, Rom. 9. So liet hañ, ꜳ þeim Dogum, Andſkotann bruka ꜳ Stundum ſijna Makt, til ad lꜳta Mannkyned ſiꜳ, hvad miklu Gud være honum ſterkare, ſo þeir lærdu ad truꜳ ꜳ eirn DRottenn Gud, og aungvañ añañ. Alldrei hefur þo Andſkotenn feinged ſo mikla Makt til ad opeñbera ſig Moñunum, ſo ſem ꜳ Hollds-Viſtar Dogum vors Lauſnara, og lijtur þad eins wt, ſo ſem Gud hafe viliad geyma ſijnum Eingietna Syne þa ſterkuſtu Oruſtu moote honum, ſo hanns Sigur yrde þeß frægare medal Mannanna. Hann talade vid hann ſiꜳlfann eins og Madur talar vid Mann, Matth. 8. Hañ kvallde Doottur þeirrar Canaaniſku, Matth. 15. Hann kaſtade þeim Dioſulooda ꜳ Vatn og Elld, Matth. 17. Hann bioo i þeim Tveimur Gergeſenis, Matth. 8. Hann giorde þennann Mꜳllauſann, ſem vor Texte uñ talar. Hvar fyrer mun þetta ſkied vera? Ur. M. Mannſins Styrkleika ſiꜳ Menn ecke, nema hann hafe einhvorn ad reyna Orku

vid.

vid. Og so sem Endurlausnarenn segier i þessu Evangelio; Þegar eirn sterkur Hervopnadur vardveiter sitt Andyre, þa er allt med Mak, hvad hann a, etc. Þad var vorum HErra fyrer minnstu, ad þvijnga Diöfulenn epter sinne Villd. Annad var hans Eyrende meira i Heimenn, sem var, ad lwka þa Sekt, er Mannkyned atte Gude ad giallda. Enn so sem DRottenn i Gamla Testamentenu leifde Andskotanum ad sijna Megn sitt ödruhvoriu, Mönnunum til Eptertektar; Svo leifdest og þessu Illhvele ad vada hvad mest uppe og brwka Makt Myrkranna, a medann Guds Sonur umgieckst hier a Jordunne i Mynd eins Þiöons, þeim öllum til Trwarstyrkingar, sem a hanns Nafn trwa villdu; Ad þeir sia mættu, ad so audvirdelegur, sem hann var, þa være hann þo sa, sem af Gude sendur være til ad nidurbriota Diöfulsins Verk, 1. Joh. 3. og med öllu ad sundurmola Höggormsins Höfud, Gen. 3. Hefde og Guds Eingietenn Sonur, strax sem hañ var til Himna farenn, bunded so Hendurnar a Dioflenum, ad hann hefde ecke feinged ödruhvoriu ad sla sig sialfann a Munnenn, þa kañskie, ad Illþijded i Verolldeñe hefde sagt, eins og þesser sögdu; Ad fyrer Beelzebub hefde hann wtreked Dioflana a sijnum Hiervi star-Dögum: Þvi gaf hañ hönum og nockurn Taum um Postulaña Daga, sem er ad sia af þeirra Giorninga Book, og a medal a ñarra, þegar Satan matte til Skammar sier medkienna: JEsum veit eg, og Paal þecke eg, enn hvorier erud þier? Act. 19. Þad er og lijklegt, ad Featækum Fiskurum, sem hielldust fyrer Afskrom Verolldar, munde ecke hafa stoorum trwad vered i þeim Hlutum, sem so eru gagnstæder Holldlegre Skynseme, sem Christs Evangelium er, hefde hann ei stadfest þeirra Predikun med þessum og ödrum jafnvægum Kraptaverkum. Dassamlega hefur Gud uppbyggt sijna Kyrkiu hier a Jordunni, hvor sem þar ad vill giæta, ad hañ hefur latid hana vaxa fyrer utañ allt Mannlegt Yferlæte, og alleina af þeim Hlutum, sem ecke standa i nockurs Manns Vallde, nema hönum sie þad af Gude giefed: og er hun i þessu lijk Salomonis Mustere, sem byggt var fyrer utann allt Hamreyste, So þar heyrdest ecke Axar edur Hamars-Hliood, 1. Reg. 6. Segied mier, hvort nockur Atrwnadur hefur so byriast sem þesse? Edur so leinge stodugur staded, nema hönum hafe framfylgt vered af Mannlegu Vallde? Enn sijdañ hiñ alhage Smidur hafde so fastann Grundvöll lagt fyrer Spameñena og Postulana, Eph. 2. og allra hellst fyrer hinn sterka Hyrningar-Stein (hvorn Gud hefur sett i Zion, Esa. 28. Ad hann yrde Höfud Hyrningar um Alldur og Æse, so ad vel mætte ofann a byggia), þa hefur hañ lated Spadoomunum slota og Krapta-Verkunum linna. Gud giörer aungvann Hlut forgiefens, og so sem þad var ecke Naudsynlegt, ad Gud talade framar vid Mennena, edur opennberade sig, epter Postulaña Daga og Spamannanna, þar allur Guds Vilie er opennber i þeirra Bookum og Psalmum; Svo lagde hann og Hapt a Andskotann, epter þad hañ ei þurfte framar ad auglijsa sijna miklu Makt a hönum. Jeg veit eingenn Rok til, ad Gud hafe giefed Satan nockurn Tijma Taum, alleina til ad kvelia Mennena, þvi hañ hefur noog Raad til ad straffa Synder vorar an þess; Helldur gñadhvort til ad reyna sinna Barna Trw edur sialfum hön-

um til Hegningar? Thå forgied mier, Nær Satan hefur augliist siina Makt, nema sier til Sorgvirdilig Sinu Rijki til Nidurbreps? Siidann Gud, hefur nu þocknast ad brwka oñur Medöl til ad stioorna med sinni Kyrkiu, sem er hid skiæra Lioos Evangelii, þa vill Gud ecki leika fyrir Mannlegri Forvitni med Opinberunum edur Kraftaverkum, þar þeir eru O=affsakannlegir, sem eigi vilia Guds Ordi trwa. Herodes vænti ad hañ mundi sia Teikn af JEsu, Luc. 23. Enn JEsus var ecki i Heimiñ komiñ til ad skiemta Herodi. Satan villde eirneñ, ad hañ augliiste sitt Almætte a Steinunum, Matth. 4. Eñ Christur sijnde honum, ad hañ var sa Almættuge Hyrningar=Steirn, sem hañs Höfud hefur i sundur brotid. Þetta Fooplk beiddist epter Teikni af Himni, og þokti þad ecki noog, ad þeir saau Diofulinn wtrekinn; enn HErrann sagdi, þeim skylldi ecki Teikn giefast nema Jonæ Spaamanns, Matth. 12. Þvi eins og Jonas var Ninive, mundi Mannsins Sonur verda þessari Kynslood. Enn þeir sem nu ecki vilia Gudi trwa, nema þeir þykist Diofulinn sia, skulu eckert Teikn sia nema Mannsins Sonar, hvors Greftrunar og Uppriisu Teikn ad Jonas var. Og vilie þeir ecki, þar med nægiast, munu þeir sia hanns Teikn i Skijum Himens, er hann kiemur med Makt og miklu Velldi, Matth. 24. ad fordæma bædi þeirra Hiartru og þeirra Vantrw, sem a Jördu byggia.

J Añann Maata vil eg taka mier Orsok af þessum Maallausa Manni, til ad skoda, asamt ydur, hvort ecki er sumum Mönnum i Verolldu þessari eins mikid aafaatt i Andlegri, so sem honum var i Lijkamlegri Heilsu. Ei þurfum vier laangt ad leita ad Dæmum þar uppaa. Hvorra Kostur var betri, þeirra er sögdu, ad JEsus ræki wt Dioflana fyrir Beelzebub, edur þessa Maalleysings? J hinu Fyrsta Bodordi hefur DRottiñ tilreidt sier eitt Musteri i Manninum, segiandi: Þu skallt ecki hafa aññarlega Gudi fyrir mier, Exod. 20. Hvad hann wtleggur i ödrum Stad, segiandi: Elska skallt þu DRottinn Gud þinn af öllu Hiarta þijnu, og allri Alundu þinni, og öllu Hugskoti þijnu, Devt. 6. Enn strax i Ödru Bodordinu hefur hann skickad Kiennimeñ til þessa Musteris, sem er Tungann. Þegar Kiennimennirnir i Gamla Testamentinu fooru til Frietta vid DRottinn, þaa leitudu þeir hanns oftast i Helgidoominum; Svo tekur og Tungann af Hiartanu, allt þad hun tala skal, og af þess Nægd mælir Munnuriñ: Eñ segied mier: Verdur nockud Guds Musteri helgad, þo þar væri Hiegoomleg Æfiñtijr og Skrok=Sögur þuldar? Enn sijdur verdur Hiartad helgad med saanijtum Þaunkum: Ad eg tale ecke uñ skamarleg Ord og fiflslegt Hial, sem Christnum soomer ecke. Eph. 5. Soddann er undarleg Þögn i Guds Eyrum. David bijdur, ad Meñ sieu ecke eins og Hestar og Mwlar, hvorium Menn verda Bitel og Beitsl i Muñ ad leggia, Ps. 32. Enn þad er Sorglegt ad vita, hvorsu Maallausar Skiepnur eru fremre mörgum Gudlausum, sem vanhelga hanns H. Nafn, forsmaa hanns Ord, hæda ad hanns Þienurum, spotta hanns Kienningar, og alldrei edur allskialldañ taka sier hanus Dijrdarfulla Nafn i Munn, nema þa þeir Liwga edur Sverja. Asnann talade Fordum Daga,

Num. 22. Þegar Gud sende sinn Eingel til Balaam ad mootstanda hønum, og hun taladeriett. Enn þau Otømdu Villudijrenn, sem ad nu uppalast i Heiminum aa Andskotans Stalli, hafa lært an̄adhvørt eckert, edur Jllt, ad tala, þa Gud sendir sijna Eingla, Mal. 2. Þad er, sijna Kiennimen̄, til þess ad leida þau til Himnarijkes. Eru ecke soddan fraaleitar Manneskiur halldnar af daufum Djøfle? Jeg vil nu ei tala um̄ Bænræktarleysed i Heimenum. Hvør er saa, er leite ad Drottne og aakalle hann i Neyden̄e? Ps. 59. enn laatast koma saman̄ i Hwse Guds, og Menn krwpa þar nidur til ad Fridmælast vid hinn Almaattuga; Enn Gud giæfe þad være med sannre Trw, Lijtelæte og audmiwkum Anda! Allt þad sem ecke er af Trwnne, þad er Synd, Rom. 14. Saa sem bidur aan Trwar, hann bidur ecke einunges Forgiefens, helldur giører sijna Bæn ad Synd, so sem David Oskar þeim Ogudlegu, Ps. 109. Og Men̄ lasta Gud meir en̄ dijrka med soddann Bænum, verande ecke einasta Maalhallter, helldur verr enn Maallauser fyrer hønum. Ecke þarf mikenn Orda-Fiollda til ad vera Maalsniall fyrer Gude, sem er Hiartnanna og Nijrnanna Rannsakari, Jer. 17. Eingenn saa Moysis Varer bærast, Exod. 14. Og sagde þo Gud vid hann: þvi hroopar þu þannenn til mijn? Konann, sem um̄gietur Matth. 9. talade ecke Ord fraa Munne, helldur sagde med sialfre sier: Ef ad eg mætte ad eins snerta Falld hanns Klæda, þa munda eg heilbrigd verda; Þo vard Myskunsemdanna Afgrunn ad byrta sig fyrer henne med þessum Ordum: Vert þu Hughraust, Dootter, þijn Trwa giørde þig heilbrigda. Hvør kann oss hier um̄ betur ad undervijsa enn saa Eingietne Sonur Fødursins, sem er i hanns Skaute? Þar hann segier til sinna Læresveina, Matth. 6. Þegar þier bidiest fyrer, þa vered ecke margorder, so sem Heidingiar, þeir ed hyggia, ad þeir fyrer Mælge sijna Bænheyrder verde. J Anda og Sannleika ber oss ad bidia, Joh. 4. Þa tala Menn noogu sniallt fyrer Gude, þvi þad er sa Maals-Haattur sem hønum þocknast. Aller Menn kostgiæfa ad tala þeirre Tungu sem Konungurenn talar; so eiga vor Bænar-Ord Guds Orde samlijk ad vera, um̄ hvørt David so talar: HErra, þijn Ord eru glooande; og þar epter vill han̄ breita, nær hann segier: HErra, mijnar Varer skulu þijnu Lofe wtfleyta (so sem heitt Vatn i Sudunne yfergeingur og skwinar, hvørt ed ei kann leingur ad hallda sier i Katlenum fyrer Hita); Og þad kallar St. Paall, Rom. 12. ad vera glooande i Andanum; enn þessar Glædur Hiartans aastundar hinn vonde Maalleysis Djøfull ad wtslockva aa einhvørn Haatt, so þo vier tølum, þa skule Gud ecke heyra, og þo vier bidium, skulum vier ecke Bænheyrder verda, og þo vier wtbreidum vorar Hendur, þa hylie þo Gud sijn Augu fyrer oss, Esa. 1. Þvi glepur hann fyrer oss i Bænenne med hiegoomlegum Þaunkum, med Vantrw, med Epterlaungun til vorra Uxa og Bwgarda, eda med Velgiu Andans, so vier ecke medtekner, helldur wtskirpter verdum af Guds Munne, Apoc. 3. O oss auma! Vier erum ei betur aa oss komner enn Lazarus, hvør ed ecke kunne gaanga, fyrr enn Christur skipade ad leysa af hønum Bøndenn, Joh. 11. Svo erum og vier, ad vier meigum ecke tala riett vid Gud i Bænenne, nema hann uppleyse Fi-

ørur

otur vorrar Tungu, og wtreki Maallemsesins Diøful, enn leggi Elld-Kol sijns Anda, aa vorar saurugar Varir, Esa. 6. Þaniñ erum vier nu vid Gud; Eñ vid Naunganñ onguu betri. Hvor kañ stærri ad vera Tungunnar Brestur eñ sa, nær Meñ giora stooran Roog af þvi, sem eckert er? Hvad kann Vidurstyggilegra ad hugast edur talast, eñ ad brwka Tunguna, hvor ad er einn hinn besti Limur aa Mañsins Lijkama, sem giørd er til ad lofa Gud sinn Skapara, til ad forsvara sinn Naunga, til ad semia Frid millum sundurlyndra; ad brwka hana, segie eg, til ad myrda hinn Saklausa, og rwga Lijf og Æru af sijnum Naunga? Lijginn er verri øllum ødrum Andskotans Illsku Aundum, þvi er sa plaagadur med vondum Diøfle og þrongu Maalleysi, er sier hana temur. Øll Synd er Lijgi, og fyrir hina Fyrstu Andskotans Lijgi, Gen. 3. er øll Synd innkominn i Heiminn, og sijdañ wtruñinn til allra Manna; og þoott ad allir sieu ecki ad þessu fundnir, þaa er þo hier fyrir utann mørg Tungunnar Vanbrwkan, sem i allann Maata er Osæmandi. Þar eru þeir til, er eckert Velgiørdt þykir, utann hvad þeir sialfir giora, og lasta annarra Giørdir, jafnvel þær, sem ecki Lastverdar eru. Falli margvijslegir Doomar um einn Hlut, kieppast þeir vid ad filla þañ Flock, er færir aa hiñ verra Veg. Þessir eru giarnañ sialfir hinir sijdstu og ødrum lakari, og af þvi þeir vita, ad þeir eru sialfir illa ræmdir, þa ætla þeir ad annarra Ohroodur muni þeirra Afsøkun verda. Þu Hræsnari, segir Frelsarinn, Drag fyrst Biaalkañ wt wr þijnu Auga, Luc. 6. Þad væri vel adgiætandi, ad saa væri heilskygn sialfur, sem dæmir um annars Blindni. Jeg veit ad þad er Loflegt ad segia einum til sinna Lasta, þvi segier DRottinñ Gud, Levit. 19. Þu skallt straffa þinn Naunga, so þu berir ei Skulld hañs vegna; Eñ þad aa ad vera eftir Skynsemi, so ad Gaukurinn dæmi ecki um Svana Hlioodid, edа Hrafninn um Sund-Fuglana. O HErra Gud! hvor kann ad vita hvad oft hann syndgar? Ps. 19. Dæmid ecki, segier Endurlausnarinn, so þier verdid ecki dæmdir: Fordæmid ecki, svo ad þier verdid ecki Fordæmdir; Þvi med þeim sama Mælir, sem þier ødrum mælid, mun ydur aftur mællt verda, Matth. 7. Hvad margur dæmir sialfann sig Ovitandi, þegar hann adra dæmir fyrir søinu Lesti, er hann er mest hladinn sialfur? Og eckert er tijdara enn þad, ad Menn lijta þad aa ødrum, er þeir vita med sialfum sier, viliandi þannig dyliast fyrir Mønnunum. Þar eru og soddann skynlausar Mañeskiur til, sem lijta sinn Naunga fyrir þaa Hluti, sem honum er ecki i sialfs Valldi ad giora vid. Soddann er einn skadlegur Illsku Andi, þvi hvor hann forakter Faatækann, hañ hædir Skaparann, segir Salomon, Prov. 17. So er og um hvad annad. Sie einhvor Vitgrañur, Vesæll, Ofrijdur, Maalhalltur, eda hefur nockurn þvilijkann Brest Naatturuñar, sem hann fær ecki adgiort, þa finnast þo soddann Vitstola Manneskiur, sem ecki skamast sijn ad hafa þvilijkt ad Haadi. Heyr þu syndugur Madur! Er hann Faatækur; Seig mier: J hvoriu ert þu audugri? Þar hañ vantar Fiemuna, hvorium Molur og Rid kann ad granda, enn þig vantar Þeckinguna aa Gudi og sialfum þier: Er hañ Vanskapadur og ei so Giørvilegur; Þorir þu ad seigia þad lioott, sem Gud hefur so vera

lætid? Eñ lijt þig hid Jñra, ef þu mætt, og skoda hvøriñ Diøfullinn hefur afmyndad Sælu þijna, þad þu mætt ecki lijta riettu Auga til Guds Skiepnu: Hann er Vitgrañur og veit ei hvad giøra byriar! Hvøriu ert þu Vitrari? Þar þu med Sialfs-Þoottanum og hanns Nidran giørir þig hotium þess Fævijsari, sem Odur Madur er Heimskum argari. Lucifer, hvørs ad gietid er hier i Evangelio, var af þeim i Samaria Beelzebub kalladur, þad er Flugna-Hofdingi, og þad af þvi, ad Illsku-Øndunum i Loftinu verdur vid Flugur samlijkt, Eph. 6. Eñ þad er þeirra Art ad sækia þar mest ad ødrum lifandi Skiepnum, sem þeim er Meinsamast; og hvar sem Hørundid er af, þar setiast þær a og stijnga. Þeim eru hinir Ogudlegu Spottarar lijkir, sem eru þroottkir um annars Mein, og una sier illa, nema einhvør steiti sig, sverja sig so i Ættina ad þeir sieu af Fiandanum, um hvørn Paulus talar, Eph. 2. ad hann sie einn Hofdingi, sem Valld hafi i Loftinu, verkandi i Þvermoodskunnar Børnum.

Þessi Maalhellti drottnar enn nu so miøg i Heiminum, ad þoott allir hati hana a ødrum, sem Von er, þvi hun spillir hinum besta Hlut, sem er gott Mannord og Nykti, þaa gleta so fæir vanid Tungu sijna þar um; og eru þeir af Diøflinum þrongslega plaagadir, sem þannig lyndir eru, og væri øllu betra, ad þeim væri Tungann wr Muñi skorin, helldur enn ad þeir sieu veltalandi til þess, ad safna sier þeim Syndum, er þvi vallda, ad þeir ecki faa eirn Vatns Dropa til ad kiæla hana med, nær þeir pijnast i Helvijtis Elldi, Luc. 16. af hvøriuin St. Jacob segier: Ad þvilijkar Twngur sieu upptendradar. Þvi ef Endurlausnarinn skipar ad wtstijnga þad Augad, sem hneixlar, Matth. 18. Þa er lijklegt ad hid sama meigi þess helldur um Twnguna segia, sem hun er hæfari til ad drijgia fleiri og verri Syndir, nær hun misbrwkud er. O HErra JEsu Christe! Þu Saklausa Guds Lamb, sem ecki upplaukst þijnum Munni, helldur enn Saudur til Slaatrunar leiddur! Es. 53. Virdst þu ad temia vora Tungu til ad lofa og dijrka þitt H. Nafn a medañ vier hrekiunst i Utlegd þessari, so ad vier þier eilijft Lof sijngia meigum i Dijrd Himnanna, med øllum Utvølldum Guds Børnum, Amen.

# Suñudagiñ i Midføstu.

Gudspiallid, Joh. 6. Cap.

A Þeim Tijma. Eftir þetta foor JEsus yfir um Siaafar-Hafid Galileæ, sem liggur vid Stadiñ Tiberias, og mikill Mañ-Fiølldi fylgdi honum eftir, þviad þeir saau hañs Jardteikn, sem hañ giørdi a þeim sem sivkir voru. JEsus gieck uppa eitt Fiall, og settist þar nidur med sijnum Lærisveinum: Eñ þaa var Paaska-Haatijd Gydinga naalæg. Og JEsus leit þaa upp, og saa ad mikill Mañ-Fiølldi kom til hañs; Þa sagdi hañ til

Philipp-

Philippum: Hvadañ kaupum vier Braud so ad þesser neyte? Eñ þetta sagde hañ til ad freista hañs þar med, þviad hañ visse sialfur hvad hañ villde giora. Philippus svarade honum: Braud fyrer Tvo Hundrud Peninga nægest þeim ecke, so ad hvor eirn fae þa nockud lijted. Eirn af hañs Læresveinum, sem ad var Andreas Brooder Simonar Petri, sagde honum: Eitt Ung-Meñe er hier, sem hefur Fim Bigg-Braud og Tvo Fiska; Eñ hvad skal þetta aa medal so margra? Þa sagde JEsus: Latted Meñeñ setiast niidur ad borda. Eñ þar var i þeim Stad Gras mikid: Og þar settust nidur ad borda, Kall-Meñ, ad Tolu, nær Fim Þusunder. Eñ JEsus took Braudeñ, þa hañ hafde Packer giort, og fieck sijnum Læresveinum, eñ þeir feingu þeim, sem til Bordsins hofdu sest: Slijkt hid sama af Fiskunum, So mikid sem hvor villde hafa. Eñ þa þeir voru metter, Sagde hañ til siña Læresveina: Safned samañ þeim Leifum sem afgeingu, So ad eckert spillest. Eñ þeir sofnudu þeim samañ, og fylltu upp Tolf Karfer medur þessar Leifar, af þeim Fim Bygg-Braudum, hvoriar ad voru auk þess sem þeir hofdu neytt; Eñ þa er þesser Meñ saau hvort Teikn ad JEsus giorde, Sogdu þeir: Þesse er sañarlega saa Spaamadur, sem i Heimeñ skal koma. Eñ þa JEsus formerkte þad, ad þeir mundu koma og Handtaka hañ, og giora hañ ad Konunge, Veik hañ Einsamañ burt upp aptur aa Fialled.

## Exordium.

Virn af þeim gomlu Spekingum sagde Fordum Daga, ad Natturann være Anægd med Lijted: Enn ef vier eigum ad skrifa under med honum, þa munar nockru, hvornenn Natturunnar Þijding er tekenn; Þvi skiliest fyrer þetta ecke nema Saal og Lijkame i sialfum sier, þa er þad satt, ad þau þurfa ecke mikels vid af Veralldlegum Munum sier til Vidværis. Þegar Lijkamenn er O-solltenn og O-frosenn, þa er honum noog; Enn þegar Saalenn gyrnest ei framar, þa er hun Anægd, og vardar litlu, med hvoriu þesse Naudþurft er uppfylld; Þvi eins vel unde Adam i Skinn-Kyrtlenum, Gen. 3. og Salomon i allre sinne Prijde, Matth. 6. og Johannes ollu betur i Ulfallds Felldenum, Matth. 3. helldur enn Herodes i sinne Purpura Kaapu, Act. 12. Eñ sie Natturunnar Gloosa tekenn fyrer Syndumspillt Mannsins Edle, þa hefur hun nær þvi alldrei noog; Hun er Elldenum lijk, sem þess meir logar, sem meir er i hann bored. Bloodsugan slepper Hwdenne um sijder, þegar hun er full ordenn; Enn Syndumspillt Nattura sialldann þvi er hun leggst aa. Sadningenn er heñe Ordsok til æ meira Hwngurs

urs, og hun verdur alldrei sødd nema med Sulltenum. Vilie nockur sedia hennar Fijkn, þa tekst þad ecke med audru Moote, enn ad draga vid hana Foodred, svo hun dragest sialf upp um sijder: Hvad lijtels ad Naatturann af sialfre sier vid þurfe, þad kienner oss Frelsarenn, hiaa Luc. 12. Cap. medal añara, þar hann segier: Vered ecke Hugsiwker fyrer ydru Lijfe, hvad þier skulud eta, eda fyrer ydar Lijkama, hvoriu þier skulud klædast; Er ecke Lijfed meir enn Fædslann, og Lijkamenn meir enn Klædnadurenn? Eñ þoott ad vor Naattura þurfe ecke margra Hluta edur mikillrar Umsorgunar vid, þa hefur Gud samt tilskickad, ad Madurenn skule med Erfide næra sig af Jordunne alla sijna Lijf-Daga. Þad gamla Logmaal stendur enn nu i Dag Oraskad: J Sveita þijns Andlitis skallt þu þijns Brauds neyta, Gen. 3. Gud hefur lofad ad blessa Jsraels Erfide, Devt. 28. enn ecke hanns Jdiuleise; hann giefur ad sønnu þeim, er hann elska, sitt Braud, þa þeir sofa, Ps. 127. Hann lætur Himenenn rigna, Jordena groa, Fienadenn Avaxtarsamann verda og Vøtnenn af sier giefa allrahanda Fiska, þoott Madurenn sofe: Enn samt hefur hann þo ecke hier med leyft ad hann skule alldrei Vaka, aungvum hefur hann heited ad steikt Giæs skule fliwga i Munn honum. Letenn er eirn lifande Daude og vakande Svefn, og vinnur ecke nema til Obocka, bæde hiaa Gude og Moñum. Ef nockur rietter einhvorium Ølmusu og hann nenner ecke vid ad taka; Hvad kann sa vid þvi sem giefur? Og svo er þad eirneigenn; þegar Gud upplijkur sinne Milldu Hende til ad sedia allar lifande Skiepnur, og lætur Grased vaxa aa Jordunne, Fiskenn tyngast i Vøtnunum, Fienadenn Avaxtast aa Landenu; Enn Mennerner forsooma ad hyrda þessar Guds Gaafur: Er þa nockud Skulldenn hiaa vorum Skapara? Laangt fraa þvi. Man liet hann rigna ad sønnu aa Eidemørkunne, Exod. 16. Enn sialfer maattu Jsraels Syner þad samannlesa; Og alldrei veit eg ad Mannenum sie Atviñu sinne lofad nema hañ hafe Umsorgun þar fyrer med sijnu Erfide, þo ecke med Heidinglegre Bwk-Sorg, med hvørre Gud bannar ad þijngia Hiortun, Luc. 21. J einu Orde ad segia: Ad leita fyrst Guds Rijkis og hanns Riettlætis, svo oss allt annad Gott tilleggiest, Matth. 6. Þad er saa riette Vegur; Enn þadann fraa liggia Tvær Ville-Gøtur: Aunnur til Lete og Omennsku; Aunnur til ofmikellrar Ahyggiu. Baadar verda oss bannadar i upplesnu Evangelio; Af hvoriu eg vil þad alleina tala i þetta Siñ: Hvørnenn vier eigum Christelega og Ærlega ad leita Næringar vorrar. Hiaalpa oss hier til goode Myskunsemdanna Fader fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingen.

J Upphafe þessa H. Evangelii heyrum vier, B. G. E. ad þegar vor HErra foor yfer um Siooenn, sem liggur vid Stadenn Tiberias, þa hafe Mañfiollde mikell fylgt honum epter, þviad þeir saaû þær Jardteikner, er hann giorde aa þeim Siwku. Sannlega hefur þad vered Eyrende þessa Foolks ad heyra JEsum og hañs Kienningar, hvoriar hann stadfeste med Kraptaverkum. Þeir telia ecke epter sier ad fylgia honum epter, þo hann geinge aa Eydemørku, Þo JEsus Gieck Uppaa Eitt Fiall, segier Textenn, og þeir

þeir faaſt ecke um̃ þad, ad þeir hoſdu eckert til Matar med ſier, og ei helldur var þar ad faa i Obygdenne. Lær hier af, Christenn Madur, hvornenn þu aatt ad haga Daglega þijnu Framferde. Þesser voru 5000. ad Tolu, enn Gud giæfe, ad 5. findeſt i mørgum Þuſundum aa medal vor, ſem laata ſier um̃hugad vera, ad leita fyrſt Guds Rijkis, og hanns Riettlætis, aadur enn þeir fara ad þijngia ſitt Hiarta med Sorgum þeſſarar Næringar. Ecke er hier gieted um̃, ad þetta haſe ſkied aa Sabbats edur Hvijldardeige; Þad hefur og ecke vered, þvi annars munde DRottenn hafa byrtſt i Samkundunne, og ecke vered aa Reiſu þann ſama Dag: Þu ſkallt og ecke meina, ad þad ſie noog, ad þu hlauper til Kyrkiunnar hvorn helgann Dag. Hvorn Dag aattu ad Offra Gude Þackargiorden̄e, þvi hvorn Dag er hanns Myſkun ny og ferſk yfer þijnu Hofde, Thren. 3. Þu medtekur aa hvorium Deige þitt Daglegt Braud med þijnum Munne, þvi aa og þinn Mun̄ur Daglega ad loſa og prijſa hann, ſem þig og allar lifande Skiepnur mettar med ſinne Velþocknan, enn þu ert Hyrdulijtell þar um̃, og þier þyker þeirre Stundu illa vared vera, ſem þu giefur Gude til ad bidia hann um̃ ſijna Bleſſan, eins og honum ſie veitt i þvi ad Myſkuna þier. Hvorn Afgud giorer þu ſiaalfann þig? Meinar þu ad eirnrar Stundar Erfide drage þier meira enn hanns Adſtod, ſem i einu Augnablike ſnere Vatne i Vijn, Joh. 2. Sem med ſinne Bleſſan mettade 5000. Manns af 5. Bygg-Braudum? Mun þitt Vikn-Verk, med allre þinne Ahyggiu, verka meir, enn hann ſem aa 6. Døgum ſkapade hid Daaſamlega Stoorvirke Himens og Jardar? Gen. 1. Og þo ert þu ſvoddann Siaalfbirgingur, ad þu villt ecke faa hann i Lid med þier, aadur enn þu geingur til þijns Erfidis. Veiſt þu ecke, ad Madurenn lifer eige af einuſamann Braude, helldur af ſierhvoriu Orde, ſem fram̃geingur af Guds Munne, Devt. 8. Tveir Veiger liggia til alls Nægta i Heimenum, Annar i giegnum mikel Um̃ſvif med Martha, Luc. 10. Enn Annar med Mariu, ad þvo Fætur JEſu med ſijnum Taarum, og þerra þaa med Haar-Lockum ſijnum, Joh. 11. Ecke ſegie eg, ad þeſſar Leider kunne ecke ſamann ad liggia, og þoott ſin̄ fare hvoria, ad þeir kunne ecke baader ad hafa ſama Nætur-Stad, þvi Martha og Maria kunna vel ad forlijkaſt i einu Hwſe, þo ſo, ad hin giøre ecke þeſſa afſkipta edur klage yfer henne, þvi hun hefur wtvaled þad gooda Hlutſkipted, Luc. 10. Luckulegt er þad Hws, hvar Forſioon og Gudrækne halldaſt i Hendur, ſo ad Maria bidur enn Martha ſtidur: Enn ſkule an̄ars hvors aan vera, þa er faa laangtum beinne, ſem liggur Riettlijnis til Guds, helldur enn hin̄, ſem lætur oſs flækiaſt i krijngum hanns Skiepnur. Vor Ahyggia og Erfide kann ad bregdaſt. Hvad margur vinnur Bake brotnu, og þrijfſt ecke ſamt? Enn Gudræknenn hefur alldrei nockrum brugdeſt, helldur verda þeim aller Hluter ad Goodu, Jafnvel ſiaalfur Skorturenn, ſem ad Gud elſka, Rom. 8. Sieu þeir Lijkamlega Volader, þa eru þeir i Gude Rijker; Sieu þeir fora ktader i Heimenum, þa eru þeir þo mikels metner i Himnenum. Skal eg kalla hann Rijkann, ſem aa mørg Naut og Saude? Og ecke miklu helldur þann, ſem aa Himens og Jardar Skapara. Ef Gud bleſſar ecke ſijna Þionuſtu med Rijkdoome, þa bregdſt þad þo alldrei, ad hann bleſſe hana med

ſiaalfum

sialfum sier. Sa er ecke Rijkur sem miked a, helldur hinn sem lætur sier nægia: Enn hann sem hefur Gud, hann er alltijd anægdur, þvi þegar hann hefur DRottenn, þa skeyter hann hvørke um Himen nie Jord, Ps. 73. Mig skal ecke furda, þo Gud laate a Stundum sijna Elskendur vanta Audlegd Heims þessa, þvi hann hefur giefed þeim laangtum betra, sem er, sialfann sig. Þegar nockur hledur sitt Skip med Nytsamlega Vøru, þa lietter hann a sier Barlesteune. Hvad skyllde hann, sem fullur er af Gude, vilia þyngia sig med Mammona? Og mun hann ei alla Vegana varast Dioffulsins Snørur, sem Gud hefur Einusinne veiddann i sijnu Nete? Sa sem Gud hefur, hann hefur meir enn allt, og hann sem ecke hefur Gud, hann hefur minna enn ecke neitt, svo verdur giefed þeim sem hefur, og teked fra þeim sem ecke hefur, eirneigenn þad hann hefur edur meinar sig hafa, Marc. 4. Vier heyrum frammveigis i Gudspiallenu, ad DRottenn segier vid Philippum: Hvar Kaupum Vier Braud, Svo Ad Þesser Neyte? Allt Valld hafde JEsus a Himne og Jordu, Matth. 28. þo raadgast hann um þetta vid sinn Læresvein, hvar þeir kunne Fædslu ad kaupa. Med hvøriu Orde hann bender þier til, Christenn Madur, hvørnenn þu aatt ad leita þinnar Atvinnu, sem er, i allann Leifelegann Maata: Ecke ad Andskotans Raade, þvi hann stelur øllu þvi hann rædur til, og ert þu þa hanns Þioofsnautur, ef þu, fyrer hanns Aeggian, wtvegar þier Foostur: Ecke med Okre, þvi DRottenn segier: Þu skallt ei faa þijna Peninga þijnum Broodur til Okurs, Devt. 23. Ecke med Kwgun edur Hardrægne, þvi Gud hefur Andstygd a þeim, sem selur Lijtelmagnann fyrer eirn Pening, og hinn Fataæka fyrer eirn Skoo, Amos. 2. Nærst þessum sitia i Andskotans Rijke Þioofarner, sem wtrietta sijnar Hendur til Annarlegra Fiaarmuna, um hvøria St. Paall segier, 1. Cor. 6. ad þeir ecke eignest eilijft Lijf. Og i Sannleika: Þa er Þioofurenn Svijvirding bæde fyrer Gude og Mønnum. Ad sønnu segier Syrach, Cap. 20. ad lijdannlegre sie Þioofurenn enn Lygarenn, þo mune baader til Olucku verda. Enn þegar eirn Odaada Skielmer twinnar hvørttveggia samann, mun hann ecke flietta Oluckunnar Snøru handa sijnum eigenn Haalse? Og þoott hann meige um flya þa Tijmannlegu, þa er eckert vijsara, enn ad honum saalgad verde med eilijfre Kyrkingu i Helvijte; Þvi eg hafde nærre þvi sagt, ad þad være Þioofsins Lucka, ef hann yrde heingdur, ef skie mætte, ad Galgenn frijade hann fra Helvijte. Heyred þier Satans Børn, ef nockrer erud, sem meiged Ord mijn heyra, edur til þeirra spyria! Erud þier enn nu ecke Oþyrster vordner af Bloode fataæks Almwga hier i Lande? Nær vilied þier laata af ad wtsiwga Hws þeirra, sem ydur Forsorgun veita med sijnu Erfide? Skulu Guds Børn leinge bera ydar Svivirdingar? A Gud oss, leinge reidur ad vera fyrer ydar Saker? Geingur ydur þad ecke til Hiarta, ad hann straffar þa, fyrer ydar Skulld, sem ydur ala? Hafed þier ecke heyrt, hvørsu Gud vard reidur vid Israel fyrer einnsamann Achans Þioofnad? Jos. 7. Vited þier ecke hvad DRottenn segier hia Zach. 5? Þad er su Bølvan sem wtgeingur yfer Landed, þvi aller Þioofar verda sagder froomer epter þessu Brefe, Enn eg vil þad frammkoma laata, segier DRottenn Zebaoth, ad þad skal koma yfer Þioofsens Hws, og

þess

þess Hws sem sver falsklega vid mitt Nafn, og þad skal blijfa i þeirra Hwsi og eyda þv-
med þess Stockum og Steinum. Þeinkid þier þaa; fyrst hann lijdur ydur ad plaaga
sijn Børn medann ydar Tijmi yfirstendur og Makt Myrkranna, þad Gud muni vera
eins og þier, af þvi hann þeigir? Ps. 50. Og sier þo þetta, og ecki vitia um̃ sijdir ydar
Ogudlegs Athæfis i sinni Reidi, sem ad brennur allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32. Þar
fyrir laatid af Illu, O þier Eitur-Ormar og Nødru-Kyn! og lærid Gott ad giøra, Es.
1. Hvør hann hefur stolid, hann steli ei framar, helldur Erfidi med Høndunum? Eph.
4. Maurinn er einn veikur Hoopur, þo wtvega þeir sijna Fædslu um̃ Sumar-Tijm-
ann. Kunijsinn er og veikur Lijdur, þo byggia þeir sitt Hws aa Steinum. Gras-
Hoppurnar hafa aungvann Konung, þo gaanga þær allar wt i Hoop. Gaungurofan̄
vinnur med sijnum Footum, og er i Konunganna Hijbijlum, Prov. 30. Þetta giøra
hin vesælustu Kvikindi Jardar; enn hvad giørid þier, sem Gud hefur giefid Skynsemdar-
fulla Saal i heilbrygdum Lijkama? O þier hin hreckvijsa Kynslood! Hvørsu vilied þier
um̃flija Guds Reidi og Fyrirdæminguna? Matth. 23. Nema þier ydrest af Hiarta.

Gudspiallamadurinn segier, ad JEsus hafi talad þessi Ord til ad freista hanns med,
þvi hann vissi sialfur hvad hann villdi giøra. Þu skallt og ecke laata þig þad undra,
þott Gud reyni sijna, Christinn Madur! Gud freistar ad sonnu einkis Manns til Ills,
segier Jacob, Cap. 1. Enn til Goods freistar Gud Mannsins, so ad Reynsla vorr-
ar Trwar finnist Gullinu dijrmætari, 1. Pet. 1. til Lofs og Dijrdar Christo. Abraham
vard freistadur, Gen. 22. so han̄ væri Fyrirmyndan allra Abrahams Sona; Su Cana-
aniska, Matth. 15. so einginn ørvænti, þoott Gud meige þeigia um̃ Stund vid Bænum
sinna Barna. Merkelegt er þetta, ad DRottinn spyr Philippum ad þessu framar od-
rum; Sannlega, þvi han̄ hefur Trwarveikur verid, so ad þad Dyrdlega Kraptaverk, er hn̄
villdi giøra, mætti þess betur gaanga honum til Hiarta. Eda hvad segier vor HEr-
ra, Joh. 14. vid sama Lærisvein, er han̄ beiddi, ad han̄ sijndi þeim Fødurin̄; Trwir þu
ecki ad Fadirinn er i mier og eg i honum? Og varla ødruvijsi voru hinir Lærisveinar-
nir aa sig komnir; Hvar fyrir Endurlausnarinn straffar þa, Matth. 16. þa þeir høfdu
Braudid eptirskilid, segiandi: O þier Lijtiltrwadir, enn þa skilied þier ecke, muned
þier ecki þau 5. Braudinn, þar ed voru 5000. Manna? Og hvad margar Karfir þier
upptookud? So vill nu vor JEsus, med Reynslunni og Auglijsingu sijns Almættis
midt i Freistingunni, smaamsamann in̄planta Trwna hiaa sijnum Lærisveinum, og sama
giørir hann en̄ nu i Dag, þa hann Hiaalpina undan̄dregur, edur lætur Veniuleg Lijfs-
Medøl bresta. Gud naadi! Þoott Menn sieu Christi Lærisveinum i flestu Olijkir nu i
Heiminum, þaa finnast þo margir þeirra Lijkar i þessu; Braud fyrir 200. Peninga næg-
ir þeim ecki. Enn hvad giørum vier? Strax sem vier ecki høfum fullann Maga Mat-
ar, þaa er þar Munnurinn fullur Ørvæntingar. Ef þar er ecki allt fyrir Augunum sem
eta skal, þaa seigir hinn Vantrwadi: Þott Gud giøri Glugga aa Himinin̄, þa kan̄ þad ecki
ad skie ad Menn lifi, 2. Reg. 7. Enn hinn Matvandi gietur ecki lifad vid þad Liettmeti,

 sem

sem Daglega fellur; Hann segir, hvar vill þessi giefa oss Kiot a Eydimörku? Num. 11. Sijnist nockud Omögulegt, þa hædir Mannleg Skynsemi þar ad. Hvorninn skal þesse giefa oss sitt Holld ad eta og sitt Blood ad drecka? Joh. 6. Þessi Örvæntingarinnar og Oþolinmædis Ord byrgia tijdt og oft aftur Guds Myskunar Ydur, so hann lætur hinum Gudlausa verda eftir Trw sinni. Heyrid þier mier! Er þa nockurt Ord O-maattugt fyrir Gudi? Hann sem skapad hefur Steininn, kann hann ecki ad giefa Vatn af honum? Num. 20. Hann sem giort hefur Vatnid, hvad liett veitir honum ad umhverfa þvi i Vijn? Joh. 2. Er honum nockud bagara ad laata mig finna Gull i Fiskfins Munni, helldur enn i Filsnum Jardar? Er ecki Hrafninn gradug Skiepna? Þo liet hann Eliam faa af hanns Munni Kiot og Braud, 1. Reg. 17. Pressar nockur Oleum wt af Leyr-Kierum? Og þo fyllti Spaamannsins Bæn og Eckiunnar Trw so morg Kier allt a Barma, 2. Reg. 4. Þu seigir, Gud giori ecki Kraftaverk a þessum Dogum, so sem Eliæ. Eg medkienni þad, þvi þess gioriſt ecki Þorf: Gud hefur giordt so morg Kraftaverk sijdann Eliæ Daga, ad sa sem ecki vill Gudi trwa fyrir þau, hann mundi ei helldur trwa, þott hann sæi Eliæ Kraftaverk. Þar eru ei helldur marg ir a vorum Dogum, sem þioona Gudi eins og Elias. Væri þar Eliæ Trw, hans Arvekni og Astundan i Guds Þioonustu, þa trw mier til, ad Eliæ Gud er einn og hinn sami, og ecki umbreytist hann. Þu segier: Gud giorer einginn Kraftaverk: enn hvort er meira ad giora alla Hluti af aungvu, Gen. 1. Eda ad giora Vatn ad Vijni? Eda Steina ad Braudum? Mier sijnist eckert meira Kraftaverk enn þad, ad Gud kann adforsorga þann Vantrwada. Lærisveinarnir gaatu ecki wtrekid Tunglmeina Dioflinn fyrir þeirra Vantrwar Sakir, Matth. 17. Enn eins mikid Valld hefur Gud yfir Dioflinum, sem yfir odrum sijnum Skiepnum, þvi sijnest mier þad yfir Maata mikid Kraftaverk, ad Gud lætur hinum Vantrwada og Oþacklaata nockurn Hlut ad nockru goodu verda. Þar fyrir, E. G. V. Ef Mannlegur Veikleiki kann ad koma inn hia oss, so sem Christi Lærisveinum, ef vier erum þeim lijkir i Trwarveikinni, þa verum þeim ecki Olijkir i Hlijdninni: Þeir giordu slijkt er þeim var skipad, þeir stoodu ecki upp i Nosunum a sijnum Herra, eins og ad væri þetta Omedal, so sem ad giora vorir Þioonustumenn a þessum Dogum, sie þeim skipad nockud Oveniulegt, þa hroopar hinn Lati, ad þar sie Leon a Veiginum, Prov. 22. Giorum þvi Verk Kallanar vorrar i Guds Otta, og vorpum allri vorri Ahyggiu uppa Gud, hann mun þvi vel til Vegar koma, 1. Pet. 5.

JEsus Took Braudinn J Sijnar Hendur, segir Textinn: J þær Blessudu Hendur took hann þad, i hvoriar Fadirinn hefur lagt alla Hluti, Joh. 3. Framar segier Gudspiallid, ad hann hafi litid Augunum til Himins og giordt Packer. Ei þurfte vor JEsus þessarar Blessunar vid, til ad giora Kraptaverk fyrer sialfann sig; þad vottar hann sialfur, hia Joh. 11. segiande: Eg þacka þier, Fader, ad þu Bænheyrder mig, enn eg visse þu munder mig Bænheyra, helldur vegna Foolksins sem i kringum er, so ad þeir trwe þad þu hefur sendt mig. Þar fyrer skallt þu vita, Syndugur

Madur.

Madur, hvorium Gud giefur O aglega sijna Blessan, ad þinn Endurlausnare herfu giefed þier eitt blessad Orme hier med, þad þu trwa skyllder, ad þijn Faung og Fæda verdur þa hellst til Blessunar, þegar hun er i hanns Nafne blessud. Þad er ei minna verdt, ad giæta feingins Fiaar, enn afla; Somu Atferd skal og Christeñ Madur hafa til hvorstveggia. Jeg sagde fyrer skomu: þess skyllde i Guds Otta leita; So segie eg eñ nu, ad þess skal i Guds Otta neyta. Hvad segier DRottenn um þa, sem treista aa Maatt sinn og Megenn, Es. 8. Vered iller, þier Lijder, og reñed þo undañ, Herklæded ydur og hlauped þo aa Flootta, bwed ydur wt, og flijed þo undañ, aalyckted eina Raadagiørd, og þar verde þo ecke af, hafed Samtok, eñ þad hafe þo aungvañ Stad: Og allt eins eru Sofn Mañа og Addrætter, fyrer utañ Blessan DRottenз. Margur Hyrdulaus meinar, ad þetta sie ecke nema faanijtt Hial, sa ed ecke einasta hleipur, sem añar Hundur, til siñar Fædu, helldur og lætur sier alldrei til Hugar koma, ad bidia Gud ad blessa sijn Efne. Øll Skiepnañ er good, segier Paall, 1. Tim. 4. og eckert burtkastande, ef hun er med Packlæte medtekeñ, þvi hun helgast fyrer Orded og Bænena. Eñ Gud nаade, hvada Packer hin eilijfa Myskunseme maa faa, fyrer sijna Daglega Blessan hiaa morgum Mañe! Jeg meina þad sie sañast, ad vier setiunst nidur ad eta aa Stundum, og rijsum upp til ad dansa, Exod. 22. O Mañeskia! er þa Gud leingur ad svipta eñ ad giefa, Reidur helldur eñ Myskunsamur ad vera? Syrach. 5. Laate hann oss nockud mootdrægt tilfalla, þad liggur so þrongt med oss sem Blij; Enn ef hañ opnar sijna Myskunar-rijku Orlætis Hond, þad er hiaa oss liettara enn Fis.

Framveigis stendur i vorum Texta: Ad JEsus Hafe Feinged Sijnum Læresveinum Brauded, Enn Þeir Feingu Þeim, Sem til Bordsins Saatu, Slijkt hid Sama Af Fiskunum, Svo Mikid Sem Hvor Villde Hafa. Þetta sijnest mier vera ein aagiæt Lijfs-Regla fyrer Christenn Mann, hvornenn hann aa ad hondla med Guds Gaafur, sem honum eru i Hendur feingnar. Jordenn er DRottenns og allt hvad þar inne bygger, Ps. 24. Sijna Raadsmenn hefur hann sett yfer Eigur sijnar: Hvor er sa Trwe Raadsmadur, segier JEsus, Luc. 12. er hanns Herra setur yfer sijn Hiw, þad hann giefe þeim i riettann Tijma þad sem þeim ber? Sæll er sa Þioon, sem hañs Herra finnur svo giora, þa ed hann kiemur! Eins og JEsus fieck sijnum Læresveinum i Hendur Brauded, til ad wtskipta þvi medal Bordsitiandanna; So hefur hañ og þeim, er honum þocknast, afhendt Audlegd þessa Heims, til ad wtbijta medal Þurftugra. Þu skallt ecke meina, Christenn Madur, ad þad sie allt þitt eiged, sem þu medferdis hefur. Þad Braud, sem Afgaangs er i þijnu Huse, er Forsorgun hinns Volada. Saa Rottull, er þu þarft ecke ad brwka, er Klæde hinns Nakta, Luc. 3. Þau Faung, sem aa annann Veg hiaa þier skiemast og fwna, eru Lijfsbiorg hinns Naudþurftuga: Þar fyrer giorer þu so morgum Faatækum Oriett, sem þu mætter annars, þier ad skadlitlu, hiaalpa, ef þu þvi inne helldur, þa hinn Volade, sem er sañur Olmusu-Madur, vid þarf. Ei þurfum vier ad brioota nidur vorar Kornhlodur og giora adrar stærre, so leinge vier hofum Faatæka hiaa oss. Korned liggur Idiulaust i Hloduñe, og verdur kañskie wm sijder af Or-

mum uppeted, enn hiaa hinum Faatæka ber þad Avøxt, svo sem aa Akrenum. Soddann Akur-Menn eru nærsta þarfer. Jeg vil helldur saa einu Korne i Munn hinns Faatæka, helldur enn Tiju i Jørdena. Jeg vil helldur faa hinum Volada Tiju Peninga, enn kasta Hundrad aa Maangarans Bord; Hann mun þvi med Þusundfølldum Abata apturskila, ef ecke i þessum Heime, samt i Upprisu Riettlaatra, hvar eirn Vatnsdryckur mun ecke Olaunadur verda, Matth. 10. Hinn Raanglaate Raadsmadur var Ofrægdur vid sinn Herra, svo sem hefde hann eydt hanns Gotze, Luc. 17. Meined þier ecke og, ad Hroop hinns Faatæka og Eckiunnar mune Ofrægia þa i Himnenum fyrer lifanda Gude, sem liggia aa Guds Gaafum, svo sem Ormur aa Gulle, og ala Agyrndena, enn Faatækur fellur af Hwngre i Froste og stoorre Neyd; Þvi er illa wtsooad, sem of-vel er geymt, þvi slijkt er Ellds-Matur og Orma-Fæda, enn kiemur ecke i Guds Kistuna, svo þad verde ad Himneskum Fiesiood, hvørium Mølur og Rid kann ecke ad granda, Matth. 6. Fordum Daga i Gamla Testamentenu, þa hafde Gud skiled sier vissar Foorner fyrer Synderner, ecke i þeirre Meiningu, ad Blood Uxanna og Hafranna kynne ad hreinsa Samvitskurnar, helldur voru þar i fyrermyndud epterkomandi Giæde, sem er Blooded JEsu Christi, hvort ed hreinsar oss af øllum vorum Syndum. Enn þesser Tijda-Sider eru fyrer laungu afteknar, þar Guds Eingietenn Sonur er i Holldenu opennberadur, og hefur fyrer sitt eiged Blood einusinne inngeinged i þad Allra-Helgasta, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, Ebr. 9. Þo eiga vorar Foorner og Upplyptingar-Offur Daglega ad uppstijga i Himininn fyrer Guds Haasæte, ecke einasta med Bæn og Andvarpan, helldur med Ølmusugiørdum vid Faatæka. Þijnar Bæner og Ølmusugiørder eru uppstignar fyrer Gud, sagde Postulenn vid Cornelium, Act. 10. Þad er su Foorn, sem Gude lijkar framar enn Blood Uxanna og Hafranna, þa þad framkiemur af Trwudu Hiarta; Þvi segier Paulus, til Hebr. 13. Gott ad giøra og ad wtbijta gleymed ecke, þviad slijkt Offur þocknast Gude. Hvar fyrer mun Gud laata suma Menn vera Rijka, suma Faatæka i Heimenum? Mögulegt er hønum ad laata alla vera jafna, og aungvann þurfa annars med. Margar eru Ordsaker þar til, enn þo ecke hin sijdsta, ad Gud vill laata sig dijrka af soddann Manneskium: Þad þier giørdud einum af þessum minnstu, þad giørdud þier mier; segier alls Hollds Doomare aa sijdarsta Deige, Matth. 25. Miked er þad, ad Gud, sem er einkis Þurfe, vill þiggia i þvi, sem hinum Faatæka er gott giørt: Þar eigum vier ad sijna vora Elsku til Guds, þar er Skoole vorrar Gudhrædslu, þar er þad Altare sem vier eigum ad leggia vora Gaafu uppaa. Ein Brwdur skiemter sier vid Mynd sijns Brwdguma þar til hann kiemur. Vor Meistare er nu tekenn fraa voru Høfde og hafenn yfer alla Himna; Mig hafed þier ecke alltijd hiaa ydur, enn Faatæka hafed þier hiaa ydur, sagde hann, Joh. 12. Þeir eru hanns lifande Eptermynd, og hanns Limer sem fara Ut og Austur, og ecke hafa, hvar þeir kunne Høfde sijnu ad halla ad. Jeg meina ecke þa, sem fyrer Omennsku Saker bidia um Ølmusu, edur hina Drambsömu Lete-Maga, sem alla Hlute heimta af sialfs Vallde, og

giallda Bolvan og Formæling i Laun, ef þeirra Hals er ecke fylltur; helldur þa, sem aff adhvort hafa slited sinne Heilsu med Ærlegu Erfide, eda Gud hefur siñ Kross a Herdar lagt, (Þvi ecke heyre eg minn Herra hafa nockurn Hlut med Sialfskylldu utheimt, þo hañ hefde allt Valld bæde a Himne og Jordu, Matth. 28.) Þa byriar ad medtaka i JEsu Nafne, og miñast þess, er DRottenn baud, Devt. 15. Alla Tijma munu þar verda Fatæker i Landenu, þvi bijd eg þier og segie, ad þu skuler upplwka þinne Hende fyrer þijnum Brodur, sem Þurftugur og Fatækur er i Landenu.

Eñ þa þeir voru nu metter (segier Texteñ) sagde hañ til siña Læresveina: Safned samann þeim Leyfum sem afgangs eru, svo ad eckert spillest; og ad þeir hafi fyllt upp Toolf Karfer med Afgangs Leyfar. Hier kienner vor Endurlausnare þier, Syndugur Madur, Logmaal Christelegrar Forsioonar, sem er, ad hyrda vel Guds Gafur. Gud sa allt þad hañ hafde skapad, og sia, þad var allt harla gott, segier Ritningeñ, Gen. 1. Ef þad var allt gott fyrer honum, i hvors Auglite Himnarner eru ecke hreiner, Job. 15. Skyllde þa nockur Skiepna vera so audvirdeleg i þijnum Augum, O þu sauruga Mañeskia! ad þu villder þar ecke uñhyrda? O Herra Gud! Vorar Synder, Vorar Synder, vort Opacklæte og Ofmetnadur stendur mier nu fyrer Augum. Hvad giorum vier a þeim goodu Tijmunum, þegar DRottenn lætur sijna Blessan an Mælingar falla af Himnum ofann i vort Skaut? Munum vier nærsta hyrtner vera i Lande þessu, ad samañsafna þeim Leyfum, sem Afgangs verda? Er ecke allur annar Hiegoome dijrmætare i vorum Augum, enn þad sem Gud giefur oss til Foosturs; Velger ecke vora Þioonustumenn vid Daglegre Fædslu? Hyrda Menn stoortuñ ad nijta Guds Gafur, so sem giora mætte? Þessar Synder berum vier sijdann; Kannskie þad kiæme sier æred vel i Dijrtijdenne, sem eingeñ nijter þegar allt er noog. O hvad margann kañ þa ad hwngra epter þvi sem hann nu Foottredur! Þo kostum vier Skullldeñe uppa Gud; Eñ eingiñ gæer ad þvi, ad oss er þesse Hefndenn nærsta makleg, og ad vier hofum þad og annad Þusundsinnum verra forskulldad. Lætum oss þessara Synda vðrast, Born mijn, og þær til Hiarta ganga, med Gudrækelegum Asetninge ad breita forsialllega frañveigis. Gud hefur aungvann Hlut giordann forgiefens, so vill hann og ecke lata illa nie Onaudsynlega þar med fara. So er og ei helldur Gude þæg Metordagyrnd þeirra, er sooa Guds Gafum, til ad wtvega sier stoort Nafn þar med. Hvad talar DRottenn uñ þa, er giora sijnar Olmusur fyrer Monnum? Sannlega segie eg ydur: Þad þeir hafa sijn Laun wtteked, segier hann Matth. 6. Þad er, Hiegooma Dijrd og faanijtt Hroos Mañaña. Frelsareñ liet giefa þessu Foolke ad eta, þar til þeir voru metter; þvi er afgieck skipade hann upp ad safna. Þad er Christelegt, ad metta Maga hinns Hwngrada, enn ad sedia Auga hinns Graduga er Onaudsynlegt: Þar eru marger, sem Menn giora verri med ofur miklu Orlæte, og alltijd reidubwna til ad gapa epter sama. Þad er Gudrækelegt ad safna Nægtum, þegar vel geingur, svo þar sie til ad hialpa af, i þeirre vondu Tijd. Þad er ein good Forsioon ad minnast þess Umlidna, Hyggia uñ þad Nærverandа, og sia fyrer þvi Okomna, þo fyrer utann Bwk-Sorg

og O-Christelega Ahyggiu. Josephs Framsyne er hroosad, ad hann fyllte Korn-Hlödur Pharaonis aa þeim goodu Arum, og frelsade Landed af Hwngre þa illa gieck, hvar fyrer hann kalladest Landsins Fader, Gen. 41. Pad er og hæլfu verra, ad eyda Onaudsynlega uppaa sialfan sig i Ofmetnade Klædnadarenns og Ohoofe Matar og Dryckiar. Ad sonnu hefur Gud ecke bannad ad hafa Inndæle af sijnum Skiepnum; þo so, ad Menn gledie sig med Otta, og gleyme ecke hinum Þurftuga. Ecke er vijst, ad Doomur hinns Rijka hefde vorded svo skielfelega strangur, hefde ei Lazarus leiged Vatnande fyrer hanns Dyrum, Luc. 16. Sialfur Gud hefur giefed eitt Logmaal hier um sijnu Foolke, Devt. 16. Þu skallt vera gladur fyrer DRottne þijnum, þinn Sonur og þijn Dootter, Þinn Þienare og þijn Ambaatt, Levitenn sem er innan þinna Port-Dyra, hinn Framande, hinn Foדurlause, og Eckiann sem er hiaa þier, i þeim Stad, sem DRottenn Gud þinn hefur wtvaled þad hanns Nafn skule hiaa þier bwa. Svo hefe eg nu ad nockru Leite sijnt þann rietta Veg til ad leita Atvinnu sinnar, wt af þessu H. Evangelio, epter þvi sem eg skil af Guds Orde. Svo leited nu fyrst Guds Rijkis og hans Riettlætis, Matth. 6. Brwked Leyfeleg Medol i ollum ydar Athofnum og Utriettingum: Treysted Gudi, ad hann mune ydur og ydar forsorga; þa þier so giored, bidied þann Almattuga ad blessa ydar Faung, ydar Karfer og Afgaangs Leyfar: Gleymed ecke hinum Þurftuga og Volada: Laated ydar Olmusur framkoma af Trwnne og Elskunne til Guds og Naungans: Hondled Vareygdarsamlega med Guds Giof, og vered þacklaater bæde i Orde og Verke; Giored þetta, og munud þier alldrei illa fara. Enn DRottenn Gud eilijfur Konungur og alleina Rijkur, hann uppfylle alla ydar Naudþurft, epter sijnum Dijrdar Rijkdoome i Christo JEsu, Phil. 4. Og giefe, fyrer hanns Forþienustu, ad þier, ad afstadenne Armædu þessa Lijfs, mættud innleidder verda i Fognud ydvars HErra, til ad sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, Matth. 8. og mettast af Nægdar-Giædum Guds Hwss. Þad Bænheyre Myskunsamur Gud, fyrer sinn Son JEsum Christum, AMEN.

# Sunnudagenn epter Midfostu.

Gudspialled, Joh. 8. Cap.

I Þann Tijma. JEsus sagde til Gydinganna og Hofdinglakiennemannanna: Hvor er saa af ydur, þad hann meige straffa mig um nockra Synd? Enn ef eg seige ydur Sannleikann, Hvar fyrer trwed þier mier þa ecke? Hvor hann er af Gude, sa heyrer Guds Ord; Þar fyrer heyred þier þau eige, þvlad þier erud ei af Gude. Enn Gydingarner svorudu, og sogdu til hans: Seigium vier ecke vel, þad þu ert Samverskur, og hefur Diofulenn? JEsus svarade: Eg hefe ecke Diofúl, helldur heidra eg minn Fodur, og þier Vanheidred

heldred mig; Eg leita ei ad minñ Dijrd, ſaa er ſem leitar og dæmer. Sañlega, Sañlega ſegie eg ydur. Hvør hañ geimer mijn Ord, hañ mun ecke Daudañ ſiaa ad Eilijfu. Pa ſøgdu Gydingarner til hañs: Nu þeckium vier ad þu hefur Dioffuleñ. Abraham er daudur, og Spaameñerner, og þu ſegier: Ef ad ſaa er nockur ſem geymer mijn Ord, hañ ſkal ecke Daudañ ſmacka ad Eilijfu. Hvørt ertu meire Fødur vorum Abraham, hvør ed Framliden er, og Spaameñerner eru og Framlidner? Hvørn giører þu ſiaalfañ þig? JEſus ſvarade: Ef ad eg Vegſama mig ſiaalfur, þa er mijn Dijrd eingeñ. Miñ Fader er ſaa, ſem mig Vegſamar, hvørn þier ſegied ydar Gud vera, og þier þecked hañ þo ecke: Eñ eg þecke hañ, og ef eg ſegde þad, eg þeckte hañ eige, þa være eg eirn Lixvgare lijkur ydur; Helldur þecke eg hañ, og eg geyme hañs Ord. Abraham Fader ydar gladdeſt, ad hañ ſkyllde ſiaa miñ Dag, og hañ ſaa hañ, og vard gladur vid. Pa ſøgdu Gydingar til hañs: Þu ert eñ ecke Fiñtugur, og þo ſaaſtu Abraham? JEſus ſagde til þeirra: Sañlega, Sañlega ſegie eg ydur: Ad aadur eñ Abraham var, em eg. Pa tooku þeir upp Steina, ſo ad þeir køſtudu aa hañ. Eñ JEſus fordade ſier, og gieck wt wr Muſterenu.

## Exordium.

I Annarar Konganna Bookar 9. Cap. leſum vier, ad þegar Sendemadur Spaa-Mannſins Eliſæi hafde ſmurt Jehu til Konungs yfer Jſrael, þa hafe hanns Herra Þienarar ſagt vid hann: Hvad villde þeſſe Vitfyrringur til þijn? Svo voru nu Jorams Villdar-Menn lynder, af þvi þeir ecke þecktu DRottenns Raad. Reg er og hræddur uñ, ad þott eg i Dag, epter Guds Skipan, vilie ſmyria þeirra Saaler til Andlegra Konunga og Kiennemanna, ſem af Gude eru, med Himneſku Oleo, ſem er Guds Heilagt Ord, þa mune eg ecke betur wt lijta i þeirra Augum, ſem Holldlega Sinnader eru, helldur enn eirn Vitfyrringur, þegar eg tala uñ þaa Hlute, ſem Guds Anda eru og Holldlegur Madur ecke ſkyniar, 1. Cor. 2. Og er mier þad fyrer minnſtu, ad eg af Mannlegum Deige dæmdur verde, 1. Cor. 4. Þvi gott er ad eiga Hlutſkipte med St. Paale, vid hvørn Feſtus Landsdoomare ſagde, þa hann talade uñ Chriſti Pijnu og Uppriſu Framlidenna; Ad hann være galenn vordenn, Act. 26. Eñ þad aangrar mig framar, ad Holld og Blood giefur ſier ecke Stunder til ad rannſaka Dypt og Hæd Guds Vitſku, og þa Speke ſem hann hefur Monnum opennberad. Þegar Felix heyrde talad uñ Trwna aa Chriſtum, uñ Hreinlijfed, uñ Riettlæted, uñ Epterkomande Doom, þa ſkelfeſt hann vid, og lætur bijda ad hluſta til þeſs fyrr eñ hann hefur Toomſtund, Act. 24. Agrippa Konunge liggur vid ad verda Chriſtenn, eñ

fyrer

fyrer þvi ad hann hefur annad ad sijsla, þa dregst þad undann, Act. 26. Hinn Rijke Ynglingur vill ad sønnu faa ad vita hiaa JEsu, hvad hann skule giora, svo hann eignest eilijft Lijf; Enn þegar hann heyrer, ad hann skule selia allar Eigner sijnar og giefa Faatækum, þa verdur hann hryggur, Matth. 19. Hvad kiemur til þessa? Þad alleina, ad Menn hafa ecke vel smackad hvad sætur ad Gud er, Ps. 34. Og ecke komed Auga aa þa Perluna sem Madurenn saa, og sellde allt hvad hann aatte fyrer þa sømu, Matth. 13. Þvi eingenn gyrnest þad sem hann ecke þecker; Og þad er Ordsøkenn hvar fyrer ad Guds H. Ord verdur af svo faaum medtekenn; Þad og annad, ad þar er svo mikill Ovijnskapur aa mille Holldsins og Andans, Gál. 5. Lioossins og Myrkursins, Riettlætesins og Raanglætesins, Christum og Belial, 2. Cor. 6. Guds Kyrkiu og Skurgodanna; ad eingenn kann til Christum ad koma, nema sa Himneske Faderenn drage han̄, segier Endurlausnarenn, Joh. 6. Hvar til hann brwkar sitt H. Ord. Enn þeir ed ei hyrda um̃ ad gaanga i Lioosenu, eda smacka hid gooda Guds Ord og Krapt Epterkomande Alldar, Ebr. 6. Hvornenn meiga þeir um̃flija þad, ad Myrkurenn høndle þaa ecke? Samt eru þo Guds Ord Lijf og Ande, svo sem Endurlausnarenn vottar, Joh. 6. Og Gulled er Gull, þo þad verde af Svijnunum Foottroded. Svo er og þad Orded af Krossenum Christi Heimska þeim sem tapader verda; Enn oss, sem hoolpner verdum, er þad Kraptur Guds, segier Paulus, 1. Cor. 1. Eckert Strijd aatte vor Blessade Endurlausnare meir vid Synduga Menn hier aa Jordunne, enn ad giora Mismun aa mille Holldsins og Andans, svo ad jafnvel Nicodemus, sem var eirn Meistare i Israel, Joh. 3. og Gudhræddur Madur, hann var i þessu nærsta Tornæmur. Ad eg ecke tale um̃ þan̄ Ogudlega Hoop Phariseanna og Skriptlærdra, sem alldrei villdu laata telia sier Trw hierum̃, og ecke lietu sier skiliast þad, þo hann segde: Þier dæmed epter Holldenu, Joh. 8. Þier erud hier ad nedann, eg er ad ofann. Og enn nu i þessu Samtale sem DRottenn aa vid þann Ofyrerlaatsama Flock Gydinga, heyrum vier, ad aa mille ber um̃ þessa Spurningu. Eg vil um̃ þad alleina tala i þetta Sinn, hvornenn þeim haattad sie sem af Gude eru; wt af þessum Heilogu Ordum: HVØR HANN ER AF GUDE, HANN HEYRER GUDS ORD.

DRottenn gief oss þinn Anda hier til, fyrer JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingen̄.

AF Gude eru aller Hluter i Ondverdu, E. G. B. So sem þar stendur Gen. 1. J Upphafi skapade Gud Himen og Jord; og en̄ nu er þad svo, ad aller Hluter meiga af hønum segiast, þvi hann stioornar og stijrer øllum Hlutum, fraa þvi minsta Skridkvikende Jardar, allt til þess stærsta Dijrs sem er i Naatturunnar Rijke, og i hønum erum vier, lifum vier og hrærumst vier, Act. 17. Enn ecke er þad þo Meining vors Endurlausnara i greindum Ordum. Þeir kallast og af Gude ad vera, sem i han̄s Naadar Saattmaala eru inntekner, svo sem Israel var til forna kalladur Guds Foolk, af þvi þeim var Guds Saattmaal og hanns Ord i Hendur feinged epter Guds Fyrerheite til

Abra-

Abraham. So erum og allir vier af Gudi, sem høfum Iklædst JEsu Christo i Skijrninni, Gal. 3. og eigum ad samteingiast hønum i Dijrdiñi, Heilagleikanum og Ostraffanlegu Framferdi, Eph. 5. Enn eins og þvi hættad er i voru Lijkamlegu Edli, ad Meñ taka ecki alltijd Vøxt edur Afl, nie adra Kosti i Arfeptir Forelldrana, og margur er sijnum Olijkur þo skylldur sie; Svo eru þar fleiri Ismael helldur enn Isaac i Hwsi DRottins, sem ad er Christileg Kyrkia, og þeir gaanga ecki allir i Andanum, sem þo eru i øndverdu af Andanum Endurfæddir: Þvi er og ecki þetta eiginnleg Meining vors Endurlausnara i þessum Ordum, helldur meinar hann þa, sem fyrst eru af Vatni og Anda Endurfæddir i Skijrninni, Joh. 3. og JEsu Christo fyrir sanna og lifandi Trw eru iñplantadir, vordnir Andlegir Kvistir aa þvi blessada Vijntrie, sem hann umgietur, Joh. Cap. 15. og bera þar fyrir mikinn Avøxt, hvorium hañ hefur giefid Makt Guds Børnum ad verda, þeim sem aa hañs Nafn trwa, sem ecki af Bloodinu, edur Holldsins Villd edur Mannsins Vilia, helldur af Andanum eru fæddir, Joh. 1. Þeir ed sijna þad i sijnu Framferdi, ad þeir sieu fluttir fraa Daudanum til Lijfsins, af þvi þeir elski Brædurnar, 1. Joh. 3. Ecki segi eg þeir sieu einasta af Gudi, sem eru aan Syndar, þvi þa yrdi eckert Holld hoolpid. Ef vier segium þad vier høfum ecki Synd, þaa tælum vier sialfa oss, segier Johannes, 1. Pist. 1. Orinn er ecki strax sett til Rootar Triaanna sem nockur Blod folna; þo Kvisturiñ um nockra Stund beri ecki Avøxt, þa er hañ ecki strax afhøggviñ. Sa Himneski Urtagards Vørdur bidur siñ Fødur ad hid visna Trie meigi eñ nu standa eitt Ar, og hann meigi bera Myki kriingum þad og rækta þad, Luc. 13. Þvi mun hañ ecki kasta þvi strax i Elldiñ sem þad ber lijtiñ Avøxt. Mun hañ nockud wtslockva þañ lijttloganda Hørkveik, eda þañ braakada Reyr i sundur briioota? Es. 42. Nei aungvañveigiñ; hañ mun forsiaallega breita, so sem Fadirinn talar um siñ Son, Es. 53. Hann mun auka oss Trwna, Luc. 17. og bidia siñ Himneska Fødur fyrir oss, ad hun þrotni ecki, Luc. 22. Helldur tala eg hier um þa sem syndga ad sønnu, eñ laata þo ecki Syndina drottna i sijnum daudlegum Lijkama, Rom. 6. Þa sem af Mañlegum Veikleika giora hid Vonda, er þeir vilia ecki giora, enn giora þo so mikid gott sem þeir gieta, þar ed eirn og hinn sami þioonar Guds Løgmaali i sijnu Hugskoti, enn þviingast þo til af Ofbelldi Naatturunnar ad þioona Syndarinnar Løgmaali, Rom. 7. Og i einu Ordi ad segia, saa sem er syndugur ad sønnu, enn þo fyrir Christi Forþienustu jafnann i Guds Augliti riettlaatur; og þott hañ syndgi, þa hefur hann Arnadar-Manninn aa Himnum JEsum Christum hinn riettlaata, sem er Forlijkun fyrir hañs Syndir, 1. Joh. 2. Sa sem þañig er nu af Gudi og Gud i hønum, þegar hann hefur Gud, þa hyrdir hañ hvorki um Himin nie Jord, Ps. 73. Vei þeim sem er einsamañ, segier Predikariñ, Cap. 4. Þvi ef hañ fellur, þa er eingiñ ad reisa hañ, eñ saa er alldrei einsamañ sem Gud er med, þvi Gud er i og med hønum, Rom. 14. Fellur hann, þa stendur hann upp aptur, þvi Gud reisir hañ: Ratar hañ i nockra Villu, þa viller þo Heimurinn alldrei so um hann, ad hann rati ecki heim aptur, þvi Guds Naadarfullt Tillit aavijtar hañ. Hiñ Gudlausi finnur ei til þo hañ syndgi, meir eñ hiñ Daudi, þo hañ

sie barinn, enn þad Hiarta sem lifer i Gudi, þad er vidkvæmt vid Brodd Syndarinnar. Ei þurfti Nathan leinge ad telia um fyrir David, 2.Sam. 12. DRottinn leit einasta til Peturs, og hann gieck wt og griet beyskleg, Matth. 26. Sa sem af Gudi er, hann yfirgiefur alla Hluti Guds vegna, hann er i Heiminum, svo sem fyrir utann Heiminn, svo sem Fatækur, og þo marga Audgandi, svo sem eckert hafandi, enn eignast þo alla Hluti, 2. Cor. 6. Sa sem um Hafid siglir, hann hugar þo jafnann um, hvorniñ hañ meigi komast i gooda Hþfn. Hann sem wt a Akurinn geingur til ad erfida, hann hefur þo jafnann sitt Hws i Þankanum, og til þess giorir hann alla Hluti, ad hann fai þad vel forsorgad; So er og hañ, sem af Gude er: Þoott hañ verde ad flækiast vid Sysslaner Heimsins, epter Naudþurft Lijkamans, þa er hañs Takmark hia Gude; hañ slepper sier ecke so vid nockurn Hlut, ad hann halldi ei honum: Falli hañs Erfidi honum liett og vel, þad minnir hann a, ad þacka Gudi fyrir sijna Giædsku og Eptirlæti; Vilie þad mootdrægt falla, þa yfirgnæfir þo Guds Elska hia honum. Ok Christi er honum Hunang i Munni, og hañs Byrdi liett a hañs Herdum, Matth. 11. Þvi Gud hialpar honum til ad bera. Hañ lærir fyrir Guds Sakir bædi hatt og lagur ad vera, saddur og hungradur, noog ad hafa og Skort ad lijda, og alla Hluti formar hann fyrir þann sem hann styrkir JEsum Christum, Phil. 4. Þoott hann gangi i giegnum myrkvann Dal og Daudans Skugga, þa hrædist hañ aungva Olucku, Ps. 23. Veri so til, ad nockur sie i Fangelsi byrgdur, hvad vardar um þad? Jeg sie Paulus og Silas eru langtum gladari i Fangelsinu, helldur enn þeir sem ad Dryckiu sitia, Act. 16. Sooliñ uppliooinar þennann vorn Horizont edur Siwonhverfis Hriing, og giorir Asiind Heimsins biarta fyrir vorum Augum, þo gietur Sky-Flookinn byrgt hana fyrir oss. Enn hvor vill byrgia fyrir mier þa sonnu Riettlætisins Sool? Mal. 4. Kann nockur ad wtilykia fra mier Fodur Liossanna? Jac. 1. Hann sem kom ad lucktum Dyrum, og stood midt a milli sinna Lærisveina, og sagdi: Fridur sie med ydur, Joh. 20. Kunna nockur Myrkur, nockrer Mwrar, ad loka hann wti fra mijnu Hiarta, so hann giefi mier ecki sinn Frid? hvorn Verolldinn kann ei giefa, og hun ætlar muni vera Helvijti allra Eymda. Ef eg er Landflootta, munu þeir nockud reka mig þangad, hvar ecki er Hond DRottins? Ps. 139. Sie eg foraktadur af Heiminum, þad er mier noog ad eg verd heidradur af Gude; af badum kuña faer under eins virdter ad vera. Sæler erud þier, sagde Lausnarinn, Matth. 5. Nær Mennirnir hallmæla ydur og tala i giegn ydur alla Vondsku fyrir mijns Nafns Sakir, þo liwgandi. Hvort skal eg nu helldur wtvelia ad lijda Illt med Guds Foolki, Ebr. 11. eda þad, ad hafa tijmannlegt Eptirlæti Syndariñar? Jeg hyrdi ei mikid uñ þa Ofundar-Menn, sem Gud hatar. Hvad liett fellur honum ad forsma Heiminn, sem forsmadur er af Heiminum: Hafi eg misst Agiæti Veralldar þessarar, hvad rijdur mier a þvi? Þad voru einginn wrtoku Giædi, sem svo fallvollt voru, ad þau kunna ad missast; Og þo eg missti allt þad eg a inn ad Hwdinu, þa hefi eg þo eckert misst, þvi eckert af þessu var mitt, þa eg kom nakiñ i Heimiñ, eñ Gud var allijd minn med

eiu=

einhvoriu Mootte, ſvo eg lifde ecke fyrr enn eg atte hann fyrer Skapara, og þad Eignar-Skial bættiſt i Skijrnenne, og vard underſkrifad med JEſu dijrmæta Bloode, og innſiglad med H. Anda; ſvo ad minn Vinur er minn og eg ein hañs, Cant.6. allt fraa Moodur-Lijfe, epter Skøpunar Endurlausnar og Helgunar Riettenum; Honum vil eg alldrei ſleppa; Fare allt annad ſem auded verdur! Take hann Heilſuna fraa mier, þa er honum þad i Sialfs Valide; eg aa þar aungva Sok aa, eg bij i Leygu-Hwſe, og aa ſaa friaalſt ad byggia þad og brioota, ſem er Hwſbondenn. Hvorke ſarde eg nie plantade þad, helldur enn Jonas Lundenn, Jon. 4. Þo mijn Saala kuñe um Stund ad verda Orooleg i mier, ſem Jonæ, þa veit eg, ad ſu Soott er ecki til Dauda, hun ſtendur upp þegar minn Heilſugiafare tekur i Hond hennar og ſegier: Talitha Kumi, þad er: Stulka, rijs upp; og er mier þad noog þegar minn betre Partur er heilbrygdur, þad er Saalenn. Þad kann ecke ſtoorum ad veikiaſt, hvors Kraptur ad Gud er; Þad ſie mier noog, ad eg veit, eg er af Gude og hann er mier Naadugur, þa hefe eg Frelſe i Bondunum, Fodur-Land i Utlegdenne, Heidur i Forſmaanenne; Rijkdoom i Skortenum, Heilſu i Siwkdoomenum, Allshaattada Farſælld i allskonar Eymdum og Hormungum. Hvornenn kann ſaa ad klaga ad hann vante Lioos, ſem bijr midt i Soolunne? Kañ ſaa ad beria ſier um Armood, ſem Einuſinne hefur eignaſt allrar Veralldareñar Skapara? Hvad kann mig þad ad vanta, ſem Chriſtur ſie mier ecke? Vil eg hafa Mat og Dryck, þa ſegier Chriſtur: Mitt Holld er ſannarleg Fæda og mitt Blood ſannur Dryckur, Joh.6. Vil eg Klædnad hafa; Iklædid ydur Herranum Chriſto ſegier Poſtulinn, Rom.13. Er eg ſiwkur og þarf Lækninga vid, þa er Chriſtur Lijffins Trie, hvors Blød ad þiena til Heidingiaña Lækningar, Apoc.22. Ef eg vil uggalaus bwa, þa flytur hañ mig wt i eirn ſterkañ Kaſtala, Mijn Saal voñar uppaa hañ alleina, þvi hann er mijn Von, mitt Trauſt, Pſ.18 mijn Hiaalp og mijn Hlijf, ſo eg mun ei falla. Hiaa Gudi er mitt Hiaalpræde, mijn Dijrd, mitt Styrktar-Biarg, og mitt Athvarf er til hanns, ſegier David, Pſ. 62. Kvijde eg vid Daudanum, þa er Chriſtur Uppriſann og Lijfed, Joh. 11. Og þo ad eg deye, þa mun eg ſamt lifa, epter þvi ſem hann lofad hefur. Vilie eg hafa alla Andlega Farſælld, hvors kann eg ad Oſka, ſem ad Chriſtur ſie mier ecke? Þar hann er mier af Gude giordur til Riettlætis, Helgunar og eilijfrar Saaluhiaalpar, 1. Cor. 1.

Allt þetta hefur ſaa hiar ſier, ſem er af Gude, ef ecke ſo fullkomlega ſem vier vilium, þa ſamt er þar Vilie til hinns Fullkomna, ſem er ædre allre Tijmanlegre Farſælld; Þvi ef Guds fullkomenn Ibwd er eckert annad enn Himnarijke, þar Gud er allt i ollu, þvi ſkyllde þa ecke hanns Viſtarvera med oſs aa Jordunne, þvi ſkyllde hun ecke vera eitt Jardneſkt Himnarijke? Syneſt mier þvi, ad þeſſar tvær Sælur mune ecke i ſiaalfum ſier, nema þvi, ad ein er betre enn aunnur, og ein algiordare enn aunnur; Og aungvann añañ Mun giorer St. Paall þeirra, þegar hañ ſegier; ad nær þad kome ſem algiort er, þa afleggieſt þad ſem Haalfverked er, og ad vier ſiaaum nu ſvo ſem fyrer Speigil og i Raadgaatu, eñ þa munum vier ſiaa Auglite til Auglitis, 1. Cor. 13. Framar, E.G.V. Hvad ſañarlegt er,

ad ærlegt er, hvad Riettvijst er, hvad hreinlegt er, hvad Astsamlegt er, hvad vel soomer, er þad Digd nockur edur gott Rikte, Phil. 4. Þad hugsar hann epter, sem af Gude er, og þad veiter honum liettara ad uppausa af Brunne Nægdarennar, helldur enn þeim, sem leita epter soddañ i Fræde-Bookum Heidingianna: Hvørier þott um̃ Dygder og Mañkoste hafe skrifad bæde vel og viturlega, epter Mannlegum Hætte, þa er þvi alltijd so vared, ad saa sem dreckur ur Ohreinum Farveg, hann maa vel vara sig vid, ad ecke fliote Saurendenn i Munnenn med, og þo Vatned sijnest tært ad vera, þa smackar þad alltijd af Leyrnum; so er og þetta. Vilie Meñ af Heims-Spekingaña Vatns Rennum drecka Vijsdoomenn, þa er alltijd hætt vid, ad þar fliote i bland nockrar Agner Holldlegrar Skynseme, sem ad er Reide og Fiandskapur i giegn Gude, Rom. 8. Þvi þo þær sieu wtrunnar i Upphafe af þeim sanna Vijsdooms-Brunne, þa fer þeim eins og audru Vatne, ad þad dregur Daam af þeim Farveg, er þad reñur um̃. Trwed mier, svo eru og Spekingaña Læker, ad þeir tapa sijnum Uppruna, þa þeir reña um̃ Leyrvelltu syndumspilltrar Naatturu. Þad sem adrer hafa med stooru Erfide, þad vinnur saa, sem Gud elskar, med stooru Epterlæte. Eirn Romverskur Heidinge, þar ed hann laa i sijnum Lyste-Garde med Kunningium sijnum, og þookte vænt um̃ sialfann sig, hann sagde: Gud giæfe, þetta være ad giøra vel; Meinande so, ad være þad so Inndællt, þa villde hann alldrei annad giøra. Enn þvi er ecke svo vared fyrer þeim, sem Gud elska. Liett falla Lostverkeñ, seigium vier, og so er þad fyrer þeim, sem elska Gud; þvi þoott ad Spilling Naatturuñar strijde aa moote þvi sem Guds Anda er, Gal. 5. þa verdur hun þo liettar yferunneñ af Elskuñe til Guds, helldur eñ af Naatturuñar Kroptum. Þegar Madureñ aa eirn Vin og añañ Kuñingia, og þeir bidia bæder um̃ sama Hlut, þa lætur hann þo sinn Vin fyrersitia: Og so giører saa sem elskar Gud, þo honum þyke torvelldt ad laata a moote Holldenu, þa metur hann þo Gud meir. Þar voru nockrer Spekingar i Fyrndenne, er kolludust Stoici, þeir villdu dempa eina Tilhneiging med annare, og setia þær so i Lag; Enn þad er laangsamt nockud og viñst alldrei vel, þvi Høfudenn aa þeirre Hydra †, Syndumspilltre Naatturu, þau spretta jafnskiott upp aptur, þo þau sieu smaamsamann afhøggvenn. Elskann til Guds er eirn Andlegur Hercules, saa ed Haalsenn aa Skrijmslenu sundurbrijtur, so þau naa ecke so fliott ad vaxa: Hun setur Tilhneigingarnar best i Lag, ecke ad hun take þær burt, eins og Stoici villdu giøra, helldur þvijngar hun þær til ad giøra sijna Skylldu, og temur þær med frialslegum og iñdælum Þrældoome. Hun kienner Elskunne ad elska Gud alleina og eckert annad, Reidenne ad vandlæta i Guds Stad, Ofundenne ad kieppast sem hærst i Christi Skola, Orvæntingunne ad vona einkis Goods af Heimenum, Voneñe ad þola og bijda, Gledeñe ad hafa sijna Unadsemd i Drottne, Hrigdeñe ad aangrast siña Synda vegna, Hrædsluñe ad Ottast Gud, Dyrfskunne ad Ottast ei Mennena, sem ecke kuña nema Lijkamañ ad deyda: og hvad er hier margt um̃ ad tala, hvørsu ad allar Christelegar Dygder

† Hydra var eirn Vatns-Ormur med mørgum Høfdum, so sem Skaalldiñ dikta, þo eitt væri afhøggvid, vox þad aftur; Eñ Hercules hiow aa Haalsiñ, so þau uxu alldrei sijdañ.

er Uppspretta af Elskunne til Guds og Naungans? Hvoriar alldrei kuña ad skilia helld ur enn Söolenn og Byrtann; Pad utmalar eingeñ betur enn St. Paall, 1. Cor. 13. segiande: Kiærleikureñ er Polennmoodur og Vingiarnlegur, Kiærleikureñ er ecke Ofundsiwkur, Kiærleikurenn giorer eckert Illmannlega, eige blæs hann sig upp, hann er ecke Offtopasamur, eige leitar hann Pess hvad hanns er, eige lætur hann giora sig reydann, hann leitar eige epter Skada, eige fagnar hann yfer Ranglætenu enn fagnar Sannleikanum, hañ umber alla Hlute, hañ trwer ollu, hañ vonar allt, hañ umlijdur alla Hlute. Hvad gott nu sie med soddañ moote af Gude ad vera, Pad hefur ecke Peirra Eyra heyrt nie Auga sied, og ecke hefur Pad i Peirra Hug edur Hiarta komed, 1. Cor. 2. sem af Heimenum eru: Enn uppa Pad sierhvor og eirn kunne ad reina og proofa siaalfann sig, og vita sitt Andlegt Faderne, Pa leggur DRottenn hier til eitt Kienne-Teikn Peirra sem eru af Gude, sem er Petta: Ad Peir heyre Guds Ord: Enn hvornenn aa Pad ad vera? Ecke so sem Judar, Peir ed heyrdu Rædu Stephani, og skaarust i Hiortum sijnum af Hatre, Act. 7. Ecke svo sem Eutychus, hvørium vard so vært under Predikun St. Pauls, ad hañ sofnade og datt dauður ofañ wr Vindauganu, Act. 20. DRottenn wtleggur sijna Meining siaalfur i Pessum Texta, segiande: Hvor Sem Geymer Mijn Ord, Hann Mun Ecke Daudann Siaa Ad Eilijfu. Enn Po allra best i Epterlijkingunne uñ Sæded, Luc. 8. segiande; Ad Sæded, sem fiell i gooda Jord, sieu Peir sem heyra Orded, og vardveita Pad i goodu og sidsomu Hiarta, og færa Par af Avoxt i Polennmæde. Petta er nu vijst Mark aa Peim sem ad eru Guds Born. Drage Pvi eingenn siaalfann sig aa Taalar, sem Petta heyrer, og ætle ecke hann mune vera af Gude, ef hann ecke geymer hanns Ord. Sa Saudur er ecke af Hiordenne, sem ecke Pecker Raust Hyrdersins, Joh. 10. Su elskar ecke siñ Uñusta, sem ecke gietur heyrt hann tala: Sa Mage er ecke heilbrigdur sem ad velger vid Fædunne. Hvorsu maa Pa Gud lifa i Peirre Saalu, sem blijdur vid Guds Orde? Par fyrer, syndugur Madur, ef Pier leidast Guds heilogu Kieñingar, siert Pu tregur til ad gaanga Paangad sem Guds Ord er uñ Hond haft, Pyke Pier fyrer, Pa komed er vid Pijn Mein og Pijnar Synder straffadar, virdest Pier Pad liettvægt sem af Guds Orde er fyrerheited, og Pu aktar Pad ecke mikels, ef Pu hefur ecke Astundan ad framkvæma Pad i Verkunum sem Pu heyrer med Eyrunum; So sannarlega sem Gud lifer i Himnenum, Par er ecke hanns Ande i Pier, og Pu ert daudur i Syndum Pijnum: Hier uñ er ecke ad villast: Eg segie Sannleika i Christo, og lijg ecke. Saalenn er annadhvort Guds Brwd eda Diofulsins Frilla, segier Augustinus; Og Po Pad Pyke gijfurlega talad, Pa vitnar siaalfur Sannleiksins Munnur Pad satt ad vera hiaa Luc. 11. segiande: Hvor hann er ecke med mier, hann er aa moote mier, og hvor hañ ecke samañsafnar med mier, hañ sundurdreifer; Og so segie eg: sa sem ecke heyrer Orded, og vardveiter Pad, hañ foraktar Pad, eñ saa sem Pad foraktar, Pa mun Pad fordæma hañ aa Peim sijdarsta Deige, Joh. 12. Jeg hafdi nærre Pvi sagt, ad betra være ad vera Kalldur eñ Volgur i sijnum Saaluhiaalpar Efnum. Af hinum stærstu Syndurum hafa vorded hiner bestu Meñ. Hvilijkur var Manasses? 2. Paral. 33. Hvi-

 lijkur

rijkur Paall? Act. 9. Hvilijk hin Bersynduga? Luc. 7. Enn þad er Furduverk, ad af einum Volgum skule verda heilagur Madur. Hvar fyrer? Þvi hann meinar sig ecke ad vera Vondann; Hann segier: Eg ein audugur og rijkur vordenn, og einkis Þurfe (eins og Eingellenn af Laodicea); enn Gud segier: Þu veist ecke þad þu ert Aumur og Fatækur og Blindur og Nakenn, Apoc. 3.

O! HErra Gud, vert þu oss nadugur! Gæte hvor ad sialfum sier, þvi vær eigum aller fyrer Saalu ad sia! Hvor a ad hugga þig i þijnu Andlaate, ef þu hefur eckert numed af Guds Orde? Þu villt Prestinenn kome til þijn þa þu berst vid Ondenia: Seig mier: A hann þa fyrst ad undervijsa þier? Þegar Eyrun heyra ecke leingur, Tungann talar ecke leingur; Seint er ad Herklæda sig þegar a Hoolmenn er komed. Saa sem saung med Bijflugum Veralldar þessarar a Sumartijma Lijfsins, hann maa svellta at hinum bitra Kullda Deige Daudans. O! hvad gott være þa ad hafa safnad nockru i Korn-Hlodu sijns Hiarta af þvi gooda Guds Orda Sæde, so þar være nockud til Vegaنestis i giegnum þann myrkva Dal og Daudans Skugga, sem er Vegur allrar Veralldar fra þessu auma Lijfe, Jos. 23. Svo aminne eg ydur nu i DRottne og Grat-bæne, fyrer Lifanda Gud og ydar Saaluhiaalp, gaanged i Lioosenu medann þad er hia ydur, so Myrkurenn höndle ydur ecke, Joh. 12. Þar eru vonder Dagar, Dioƒullenn er ofann komenn, hafande Bræde mikla, þvi hann veit hann hefur stuttann Tijma, Apoc. 12. Afræked þvi ecke Guds Heilaga Ord, hvort ad er Sverd Andans, so ad þier gieted Mootstodu veitt a þeim vonda Tijma, Eph. 6. Finne nockur sitt Hiarta ecke riett skickad til ad heyra þad, hann bidie Gud ad skapa i sier nijtt Hiarta, þvi þad tekur eingenn af sialfum sier; Verde hann ecke so fliott Bænheyrdur, þa bidie hann aptur og aptur, og vilie þad undann dragast, þa bidie hann Oaflaatannlega, Luc. 18. Dag og Noott, og þreyte vid Gud med Bænenne, ad þad Lambed af Kyne Juda kome, og take sialfur þa læstu Book, og virdest henne sialfur upp ad lwka, Apoc. 5. Eingenn Madur skal telia mier þa Trw, ad Gud mune ecke giefa þeim Heilagann Anda, sem hann þar um bidia. Komed og med audmiwkum Anda under Ordsins Heyrn, reidubwner ad medtaka allt þad sem Gud hefur befalad, eins og Petur sagde vid Cornelium, Act. 10. Faanijtar og Veralldlegar Huxaner sieu laangt i burtu a þeim Tijma, þvi eingenn kann Tveimur Herrum i Senn ad þioona, Matth. 6. sierdellis svo Olijkum, sem Gud og Belial eru. Þeinked ecke svo med ydur: Eg veit þetta adur, eg hefe þad adur heyrt; Þvi þoott svo kunne ad vera, þa hefur Gud sijna Tijma til ad verka i Hiartanu, og hann er i Ordenu; Þvi sieu Eyrun, sem ad eru Dyr Hiartans, alltijd openn fyrer Konunge Dijrdarennar. Vered ei Gryckium lijker, um hvoria Demosthenes sagde; Ad þa hann talade um Skugga Asnans, þa hefde hann nooga Tilheyrendur, enn þa hann talade um Gricklands Velferd, þa stijnge aller Fijngrunum i Eyrun. Laated Svida Raanglætinganna taka af ydur þann Eyrna Klaada, sem Paall umgietur, 2. Tim. 4. ad þeir vilie heyra þad þeim þocknast og hvad Nijstaarlegt er, Esa. 30. Helldur vered Lærdoomunum og Straffunum H. Anda undergiefner.

ergiefner. Fared og ei i Mannvyrdingar um̃ Kiennendaña Gafur edur Maalfære, þvi allt Guds Ord er gott, og saa er eckert sem talar, hellđur Gud sem verkar. Guds Kraptur fullkomnast opt i Veikleikanum, 1. Cor. 12. Hvad er Paall? Eda hvad er Apollo? 1. Cor. 3. Þeir eru Þienarar hanns, aa hvorn þier trwed, epter þvi sem hann hefur hvoriumeinum giefed. DRottenn var ecke i Vedrenu, og ecke i Jardskiaalftanum, og ecke i Elldenum, þa hann talade vid Eliam i Hellernum, hellđur i Vindblænum, 1. Reg. 19. Svo er og Gud ecke bundenn vid stoora Maal-Snilld, og hanns Rijke er ecke innefaled i Ordum, hellđur i Krapte, 1. Cor. 4. Saa sem alleina tekur epter fallegum Ordum og fogrum Maals-Greinum, hann sleiker Nytena, enn Kiarnann snerter hañ ecke. Vær eigum Nytena ad briota, ef vier vilium riett faa smackad Epterkomande Alldar Sætleik, hvor oss mun sijdañ aan Mælingar frambodenn verda i þvi Himneska Brwdkaupe, þar hinn Fegurste medal Mannanna Sona, Ps. 45. mun dryckia hana sem hañs Hiarta elskar, Cant. 3. med lifande Vatns-Straumum, sem framsliota af Stoole Guds og Lambsins, Apoc. 22. Til þeirrar allra Tignarlegustu Haatijdar ad samansafnast, unn þu oss Konungur eilijfrar Dijrdar, og þitt Vegsamlega Nafn þar Eilijflega ad prijsa. Bænheyr þad goode Gud, Fyrer Forþienustu þijns Eingietens Sonar, AMEN.

# A Boðunar Dag Mariæ.

Gudspialled, Luc. 1. Cap.



MN aa hinum Siötta Maanude var Gabriel Eingell sendur af Gude i þa Borg i Galilæa, sem nefnest Nazareth, til þeirrar Meyar, er fostnud var þeim Mañe, er Joseph hiet, af Hwse Davids, og Heite Meyareñar var Maria. Og Eingelleñ gieck iñ til heñar, og sagde: Heil siertu Naadarfulla! DRottenn er med þier; Blessud ertu aa medal Kvenna. Eñ þa hun saa hann, vard hun hrædd af hañs Ordum, og hugleiddi ad, hvilijk væri þessi Kvedia. Og Einglleñ sagdi til hennar: Ottast þu ecke Maria, þviad þu fañst Naad hiaa Gude. Siaa! Þu munt Ygru gieta i Kvidebijnum, og munt Son fæda, og hañs Nafn skalltu kalla JESUS; Hañ mun mikell verda, og kallast Sonur hiñs Hæsta: Og Gud DRotteñ mun giefa honum Sæte sijns Fodurs Davids, og hañ muñ rijkia yfer Hwse Jacobs ad Eilijfu; Hañs Rijkes mun og eingeñ Ender verda. Þa sagde Maria til Eingelsins: Hvorneñ skal þad skie, af þvi ad eg hefe aungvañ Mañ kient? Eingelleñ svarade, og sagde til heñar: Heilagur Ande mun koma yfer þig, og Kraptur hiñs

Hær-

Hærsta mun yferskyggia þig. Af þvi, og þad hid Helga, sem af þier mun fædast, skal nefnast Sonur Guds. Og sia þu, Ad Elizabeth Frænd-Kona þijn hefur og Son gieted i Elle siñe, og þesse er Siötte Maanudur heñar, sem kollud var Obyria, þviad Gude er eckert Ord Omaattugt. Eñ Maria sagde: Siaa, Eg em Ambaatt DRottens, Verde mier epter Orde þijnu! Og Eingelleñ veik fraa heñe.

Exordium.

SVo sem kallt Vatn er þyrstre Saalu, svo er goodur Bödskapur af fiarlægu Lande, segier Salomon, Prov. 25. Þad maa i Dag segia, ad vier hofum goodañ Bodskap heyrt af fiarlægu Lande. Hvad er fiarlægra hvort odru enn Himen og Jord, Gud og Madurenn, Himnarijke og Helvijte? Enn hvad heyrum vier hier i Gudspiallenu, Br. M.? Vier heyrum ad Gabriel Eingell hafe sendur vered fraa Gude: Til hvors? Til eirnrar Meyar, sem fostnud var þeim Manne, Er Joseph hiet, þad er til daudlegrar Manneskiu, og ecke var hann einasta til hennar sendur, þoott hann i þad Sinn ætti alleina Tal vid hana, helldur til alls Mañkyns: Þvi lijser Eingellenn aa Fædingar-Noottu DRottenns, er hann sagde vid Hyrdarana: Eg boda ydur mikenn Fognud, Þann er skier ollu Foolke, Luc. 2. Mooder DRottenns maatte kallast svo sem Umbods-Madur alls Mannkynsins af Gude skickadur, til ad taka fyrst allra vid þessare Heilsusamlegre Guds Naad, er sijdann var opennberud ollum Monnum, svo sem vor Fyrsta Mooder took vid þvi Blessada Fyrerheite, ad Kvinnunnar Sæde skyllde sundurmeria Hoggormsins Hofud, Gen. 3. Vegna allra sinna Erfingia: Svo took og Guds Mooder vid Fullkomnan Fyrerheitesins, vid hinu Fyrerheitna Sædenu, vid sialfum Lijkamanum, sem aadur var fyrermyndadur i Skugganum; Þvi kalla eg þetta goodann Bodskap af fiarlægu Lande, og jaata þad satt vera sem Eirn sagde um þessa Dijrdlegu Haatijd, ad hun sie Bloomstur allra Haatijda. A henne er Kvisturenn af Root Jesse tekenn fyrst til ad bloomgast, Esa. 11. Vetureñ er umlidenn, Stoorvidred er horfed og burtuviked, og Bloomsturenn laata siaa sig i Lande voru, segier i Lof-Kvædenu, Cap. 2. Jaa, Saa Blessade Avoxtur (er sig kallar Bloomstur Akursins, og eina Liliu i Dolunum), hann spratt upp i Nazareth, er þijdest hin Bloomlega: Lijted var þetta Bloomstur i Fyrstunne. Hann var eitt Foostur i Moodur-Lijfe, sijdann eitt Barn, og sijdarst Æfe sinnar vard hann hinn Fyrerlitlegaste, og Forsmaanarlegaste, sem Esajas vottar, Cap. 53. Jaa, minnstur allra þeirra, sem hann med sijnum Syndum kvaled hafa; Enn fyrer þad hefur hañ aadreist marga Hedingia, og wtbreidt sijna Dijrd um allar Alfur-Heims Bygdarennar; Svo ad vier jafnvel, sem hier liggium aa þessum Hala Veralldarennar, vier buum under hanns Skugga, og þoott vier sieum af ollum Heimenum Forsitlaader, samt hefur þo hinn goode Gud virdt oss þess; ad hann hefur breidt yfer oss sinn Klæda-Falld, þar vier laaum

um alls Nakter a Vijdavangenum i voru Bloode, og sagt, ad vier skylldum lifa, Ezech. 16. Þvi meigum vier ei sijdur enn hvor aunnur Þiood i Heimenum, kalla þessa Haatijd mikla, og hana med Glede og Fognude hallda. Være ei þesse Gledelege Bodskapur a Jordu sendur; þa være Christur ecke fæddur til ad helga vora Fæding, ecke Umskorenn til ad taka a sig Logmaalsins Bolvan, ecke Heidingiunum byrtur, ecke dauenn fyrer Synder vorar, ecke upprisenn oss til Riettlætis, ecke uppstijgenn til ad bidia fyrer oss, og ecke hefde hann a Hvitasunnu Dogum sendt sinn Anda yfer sijna Postula: Þvi ma eg segia, ad þesse Haatijd ber allar Haatijder i Skaute sijnu, og ma þeirra Mooder kallast. Hier hefur Gud Fader teked til ad hallda Brwdkaup Sonar sijns, Matth. 22. Hier hefur Sonurenn Trwlofad oss sier i Naad og Myskunseme, Hos. 2. Hier hefur H. Ande byggt sier eitt Mustere, 1. Cor. 6. Ecke einasta i honum, sem er hid allra Helgasta i þessari Kyrkiu, helldur og i ollum hanns Limum, ollum þeim Andlegum Steinum, sem hanns Helgedoomur er bygdur af hier a Jordunni, og af hanns Fylling medteked hafa: Og þvi vil eg kvedia ydur, Br. M. med þeim Ordum, er hiner Lijkþraa Menn toludu sijn a mille Fordum Daga, er Gud hafde frelsad Samariam af Hende þeirra Syrlendsku: Þesse Dagur er Dagur goods Bodskapar, 2. Reg. 7. Skylldum vier þegia yfer þvi? Kunnug ma oss vera vor Andleg Lijkþraa, J hvorre vier gietner og fædder erum: Þvi skylldum vier þeigia yfer þessu mikla Hiaalpræde DRottenns, helldur enn þeir? Þar i Dag er Guds Barna Borg af Vallde Myrkranna frelsud, þvi skylldum vier draga vora Lofgiord, vora Ydran, vora Þackargiord undann til Morguns? Gaungum þvi nær þessu H. Evangelio i Nafne DRottens, og hugleidum af þvi um Stund, hvorsu Haaleitur og Gagnsamad sie þesse Leindardoomur. O! DRottenn styrk oss med Krapte þijns Anda, svo ad þetta Eyrende meige vel-luckast i JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingenn.

Þad er hægra, Br. M. ad lofa eirn Hlut sem ecke er meira enn almennelegs Hroofs verdur, helldur enn þann, sem Afbrygde er allra annara Hluta; velldur þad þvi, ad Menn gieta prijdt þa Hlute med Ordunum, sem ad i sialfum sier ecke eru so prijdeleger. Enn hvad skulum vier um þaa segia, hvorra Dijrd og Agiæte eingenn kann med Ordum ad wtmaala? So þegar Menn hafa sagt um þa allt þad, sem Hiartad fær uppþeinkt og Munnurenn wttalad, þa er þo eckert sagt svo sem verdugt er þvilijkre Haatign. Amedal þessarra dijrdlegu Hluta kalla eg ad vera Leyndardoom Holldtekiunnar DRottenns vors JEsu Christi. Hvad Sendeforenne sialfre vidvijkur, þa var til hennar valenn Gabriel Eingell, ecke eirn almennelegur Eingell, helldur eirn Hofud-Eingell. Veralldleger Kongar og Hofdingiar, þegar þeir leita Konfaangs Sonum sijnum til annarra Konunga, þa velia þeir til þess Eyrendis sijna villdustu Menn: So var og Gabriel valenn i þessa Sendefor: Eirn Guds Kappe, so sem hanns Nafn hlioodar, og hanns Eingietnum Syne hærsta Handgeingenn, sem raada ma af Daniels Spaadooms Bookar 9. Cap. Hvor

og um̃ sig vittar, Luc. 1. Ad hann stande fram̃e fyrer Gude. Þvilijkur Sendebode hæfde vel so Tignarlegu Eyrende. Enn til hvorrar var hann þa sendur? Ad sønnu til eirnrar Konungs Doottur, þvi hun var af Hwse og Kyne Davids, enn hvørre þa var øll Veralldleg Konungs Tign horfenn, so hun var ein um̃komulaus faatæk Mey, og so lijtels metenn af Heimenum, ad hun fieck ecke an̄ad Rwm i Giesta Herbergenu, en̄ eirn Stall til ad leggia i sin̄ Frumgieten̄ Son, Luc. 2. Himens og Jardar Konung. O! hvad satt er þad, sem Postulen̄ skrifar: Þad sem O-gøfugt er fyrer Heimenum, og þad sem einkis meted er, þad hefur Gud wtvaled, og þad sem ecke er, svo hann afmaade þad sem er, 1. Cor. 1. Skijrlijfe og heiløg Faatækt Guds Moodur var miklu dijrdlegre i Auglite hinns Hærsta Konungs, sem er alleina Vijs og alleina Rijkur, helldur enn øll Rijke Veralldarennar og þeirra Dijrd; Annars munde hann hafa laated hann fædast af Keysarans Doottur, sem þa hafde Einvallds Raad i Heimenum, enn ecke af eirnre Munadarlausre Stwlku. Hvad þa? Mun hanns Tign nockud mijnka vid þad, ad hann hefur lijtelæckad sinn Son? Fiærre sie þvi; Þar fyrer er hun hvad mest vordenn: Hefde hann ei so giørt, þa hefde Sonurenn ecke feinged Þioodernar og Endemørk Veralldarennar til Arfleifdar, Ps. 2. Fyrer sijna Hollddtekiu hefur hann Herleidinguna ad Herfaange teked; Allur Heimurenn var under Disfulsins Vallde, nema Gud hefde heited þvi blessada Kvinnunnar Sæde, er i Dag var i Meyar Lijfe gieted, enn med þvi hefur hanns Eingietenn Sonur broted stoort Skard i Disfulsins Vellde; Svo ad Johannes, er hann sa Himnana opna, þa sa han̄ þar Fiolda so mikenn, ad eingenn gat taled, Apoc. 7. og hefur margur sijdann vidaukest, Jaa, eykst en̄ nu i Dag, og mun aukast þar til Verølld þrijtur. Þacker sieu Goodum Gude ad Eilijfu! Satt er þad, ad ecke maa vid Guds Haatign auka, hun verdur i sialfri sier hvorke stærre nie minne af vorum Volldum. En̄ þo ad þessu sie svo haattad, þa verdur þvi ecke neitad, ad Christi Persoonu hefur mikell Soome aukest i þeim Sigre, er han̄ fieck yfer Andskotanum, er han̄ flette hann sijnum Herklædum aa hvor hann treyste, Luc. 11. Enn took sijnar heilogu Þusunder af hanns Hende: Og fyrer þennann Dijrdlega Sigur, hefur Guds Sonur epter Man̄doomenum ødlast Nafn yfer øllum Nøfnum, so ad i Nafne JEsu Christi skulu sig øll Knie beygia, bæde aa Himne og aa Jørdun̄e, og under Jørdunne, Phil. 2. Enn hvørnenn hefur hann þennann dijra Sigur unned, nema i voru Hollde? sem i Dag var i Meyar Lijfe plantad af Heilogum Anda; J þvi hefur hann lided, J þvi hefur hann Sigre hroosad, J þvi situr hann til Kraptarins hægre Handar, og i þvi mun hann aptur koma til ad dæma Lifendur og Dauda, enn innleida oss, sem aa hanns Nafn trwum, i sitt Brwdkaup: Og þvi kalla eg nu þessa Sendefør miøg vegsamlega, fyrer þeirra Skulld sem þessa Bodskapar noted hafa, þvi Gud auglijsør hvad mest sitt Almætte, sinn Vijsdoom og sijna Fodurlega Giædsku i þvi, ad giora gott af þeim Hlutum sem i sialfum sier audvirdelegaster og verster eru, svo sem var allt Man̄kin i Synd og Dauda falled.

Fraa hvorium er þesse Sendefør? Fraa Gude, segier Textenn. Þegar eg Gud nefne, þa hefe eg noog sagt. Eingenn er þvilijkur og ei kann nockur i Samjøfnud vid hann ad koma

ma, þad kann og eingenn Manna edur Eingla Skilningur ad griipa edur Jmynda ſier, hv=
ad ſtoor Munur ad ſie mille Skaparans og Skiepnunnar. Hann ſem er Alviis, Al=
mættugur, Eilijfur, Omælannlegur og Orannſakanlegur, þar hann bijr i þvi Liooſe ſem
eingenn fær tilkomeſt, 1. Tim. 6. Hann ſem ecke einaſta ſkoop Himen og Jord af aungvu
Efne, ſtioornar þeim, vidhelldur og vardveiter þau an alls Omaks og Erfidis, fraa Upp=
hafe Skopunar og inn til þeſſa Dags, helldur kann hann, ef hann vill, ad ſkapa med einu
Orde Otal Þuſund Verallder adrar, eins og þeſſe ſijnelege Heimur er. Hann ſender af
Himnum ofann til Syndugra Manna, er hann ſtyggt hofdu og til Reide reitt. O minn
Gud! Hvad er þo Madurenn þeſs, ad þu minneſt hanns? Pſ. 8. Þegar eg hugleide þetta,
þa ſmellteſt mitt Hiarta i mier wt af Bligdan, ad ſoddan ein ſkielfeleg Hætign, hann gior=
er Sendefor ofann af ſijnu Haaſæte til vor daudra Hunda, til vor ſyndugra Orma, þar
vier ſkrijdum i Leyrvelltu þeſſare, og maa hier af þeſſa Sendefør meire ollum Velgiord=
um kalla, þoott eckert annad være. Enn hvilijkur er nu þeſſe Bodſkapurenn? Þad ſij=
ner oſs fyrſt Kvedia Eingelſins vid Guds Moodur. Heil, Siert Þu Naadarfulla,
O Rottenn Sie Med Þier, Bleſſud Siert Þu A Medal Kvenna. Hun mætti med
ollum Riette kallaſt hin Naadarfulla, þvi hun vard Mooder ad honum ſem er fullur Naad=
ar og Sannleika, ſo ſem Johannes um̃ hann vottar, Cap. 1. Og ecke einaſta hun,
helldur allar Andlegar Chriſti Mædur, ſem er hvor ein Riett=trwud Saala, Matth. 12.
er af hanns Fyllingu medteked hefur Naad fyrer Naad. O Rottenn er med þier, þu He=
tia, ſagde Eingellenn vid Gedeon Fordum Daga, er hann heilſade honum, Judic. 6.
Þad ræt tiſt og; Þvi fyrer hans Hond ſloo O Rottenn i, Hel Madianita, ſem laau eins og
Einge Sprettur i Jeſreels Dal, med Þrem Hundrudum Manns, Judic. 7. Enn þoott
þad være miked Guds Furdu=Verk, þa var þad lijted hiaa þeſſu, ad Maria bar i ſiinum
Kvide þann O Rottenn Himens og Jardar, ſem ber alla Hlute med Orde ſijns Kraptar,
Hebr. 1. Bleſſud var hun a medal Kvenna, þvi einginn Kvennmadur, fraa Upphafe
Veralldar, hefur ſoddann Tijmannlega Sæmd hloted ſem hun, er giordeſt þar Mooder,
ſem hinn Allra Hæſte var Fader ad hinum Allra Hæſta. Enn ecke hefur ein Riett Chri=
ſtenn Saala, er JEſum Andlega gieted hefur, minne Bleſſun þeyged; Þvi lijſer hann
ſiaalfur, er hann kallar þaa ſijna Moodur, Syſtur og Brædur, er hanns Ord heyrdu,
Luc. 8. Fyrer þvi er þeſſe Andlege Gietnadur ſo miklu meire hinum Lijkamlega, ſem ad
allar Andlegar Gaafur eru hinum meire og betre; Þvi forgiefens hefde Mooder O Rott=
enns bored Heimſins Frelſara i ſijnum Kvide, nema hun hefde og bored hann i ſijnu Hiar=
ta. Kalla eg hana þvi ſælle þar af, ad hun vardveitte oll hanns Ord, Luc. 2. helldur enn af
þvi, ad hann ſiuglete Briooſt hennar; Þvi hvad um̃ þad, Sæler eru þeir ſem heyra Guds
Ord og vardveita þad, ſagde hann ſiaalfur Fordum vid Kvinnuna, er priiſade Sælu hans
Moodur, Luc. 11. Og ſo gioret nu þeſſe Kvedia Eingelſins Sendeforena miog ſo fræ=
gaog veglega, ad eckert kann gledelegra upp ad hugaſt. Kvediunne fylger ſtrax ar epter
Þeſſud Eyrended; þad flitur Guds Sendebode med þeſſum Ordum: Siaa, Þu

Munt Barn Gieta J Kvide Þijnum Og Munt SON Fæda, Og Hanns Nafn Skallt Þu Kalla JESUS, Hann Mun Kallast SONur Hinns HÆRSTA, etc. Miked er i þessum Ordum innefaled, og meir enn Syndug Twnga meige þad wtskijra. Hid Fyrsta er, ad hun skule Barn gieta, þad er Manneskiu, eins og hun var og hennar Fedur ad ollum Edlis Hattum, ad Syndenne eirnre fraatekenne; Þad skilur Eingellenn undañ, er hañ segier; Ad þad Heilaga sem af heñe mune fædast, skule kallast Sonur Guds: So var þa Christur hluttakande Hollds og Bloods eins og Smaa-Bornenn, Hebr. 2. So sem Bornenn hafe sitt Holld og Blood, þad er Mannlega Natturu, Saal og Lijkama af Forelldrunum: So hafe Christur af sinne Moodur og Fedrunum eptir Holldenu, bæde Saal og Lijkama. Nu segier DRottenn sialfur vid Nicodemum; Hvad af Holldenu er fædt, þad er Holld, Joh. 3. og teiknade hann þar med spillta Mañsins Natturu: Hvad þa? Var Manndoomurenn Christi Syndumspilltur? Fiærre sie þvi, þar fyrer stendur hier i Gudspiallenu: Heilagur Ande Mun Koma Yfer Þig, Og KRaftur Hiñs Hærsta Mun Yferskyggia Þig. Til hvors? Til þess, medal annara, ad helga og tilreida hennar Blood, af hvoriu DRottiñe var Lijkamenn tilbwenn, svo ad oll Fylling Guddoomsins kynne ad bwa þar i Lijkamlega, Col. 2. Med hvoriu Moote þad sie skied, veit Gud eirn, sem er Meistare þessa Furdu-Verks, um hvort þad maa med riettu segia, sem skrifad er um Salomons Haasæte, ad þvilijkt hafe ecke giort vered i nockru Konungs Rijke, 1. Reg. 10. Og þad sem eg nu sagt hefe um Christi Allra Helgasta Lijkama, og þad Efne er hann var myndadur af, þad sama er um hanns dijru Saal ad segia. Lijkamenn er Herberge Saalarennar, ecke matte i soddann Herberge, sem af H. Anda var tilreidt fyrer Krapt hinns Allra Hærsta, ecke matte þar byggia neima eirn hreirn og Heilagur Giestur. Mannsins Saal hafde framar syndgad enn Lijkamenn, hun var og Hofundur Syndarennar i Mannenum, þvi maatte hanns Saala ecke sijdur Oflecktud vera, sem Saaler vorar hefur wr Heliu leyst, helldur enn Lijkamenn. Postulenn segier, ad i honum bwe aller Fiaarsiooder Vitskunnar, Col. 2. Bwiggu þeir i Lijkamanum edur Saalunne? J Saalunne ad vijsu, eins og Skynsemenn hiaa oss og þad Gott sem henne fylger. So er allur Christur hreirn og Heilagur, sem ei kunne annars ad vera, þar hann var gietenn af H. Anda. Þvi epter þad Eingillenn hafde sagt, ad Heilagur Ande mynde yfer hana koma, þa leggur hañ þetta til: OG Þad HEJLAGA Sem Af Þier Mun Fædast, SKal Kallast SOnur GUds. Og ad Menn gaange wr Skugga um þad, ad Christur sie gietenn i Meyar Lijfe eins og annad Foostur, ad þvi fraatekinu, ad þar komi eingenn Manns Vолld til, so sem hun segier hier vid Eingelenn; Hvorneñ Kann Þetta Ad Skie, Þar Eg Hefe Allngvann Mann kiennt? Og Guds Ande samsinner henne, Matth. 1. segiande; Ad Joseph hafe ei kient hennar, þar til hun fædde sinn Frumgietenn Son. Ad Meñ gaange wr Skugga um þad, segie eg, þaa vottar Matth. Cap. 1. Ad hun hafe fundest Þungud af Heilogum Anda: Og nockru sijdar; Ad þad sem af henne gieted var, þad hafe vered af H. Anda. Og samt er þo ecke H. Ande Fader ad Christo, helldr tilbios hñ og helgadi,

sem

sem aadur er sagt, þad Efni i Lijfe Jomfrur Mariu, sem DRottenn myndadest af og framkvæmde so þeñann Allra Heilagasta Gietnad med sijnum Orannsakañlega Guddoomsins Krafte. Þanñenn byriade allt Riettlæte upp ad fylla, Matth. 3. B. M. Þvi þad vard af syndlausu Hollde ad lwkast, sem af syndugu var tiluñed. Þad Musterid vard Heilagt ad vera, i hvoriu þeirre Foorn aatte ad offra, sem Gude lijka skyllde fyrer allar Veralldareñar Synder. Saa Kienniemadur hlaut ad vera Ostraffannlegur, sem inngaanga skyllde, ecke einusinne aa Are hvoriu (eins og Aaron og hanns Epterkomendur) helldur ollu Einusinne i þad Allra-Helgasta, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, Heb. 9. Þvi segier Paulus: Soddann Biskup heyrde oss, Heilagur, Saklaus, Osleckadur, Fraaskilenn Syndurunum, og vordenn Himnunum hærre, Heb. 7. Þad er, upphafenn yfer alla Himna, hvar þad Allra-Helgasta er, J hvørt hann er inngeingeñ og setstur Gude a hægra Veg i voru Hollde: Og siaa Menn aptur af þessu, hvad gledelegur ad sie þesse Bodskapur, og þesse Sendefør Vegsamleg. Enn þad tekur yfer, Christner Menn, ad Gud er hier Madur vordenn. J sama Vetfaange sem Heilagur Ande tilbioo JEsu Manndoom, svo ad hun gat sinn Son, under eins og i sama Augnablike took hin Oñur Guddoomsins Persoona Manndoomenn i Samfielag med sier, med so føstu Sambande og ecke Samblande, ad þad hefur sijdann alldrei slitnad, og mun ecke um alla Eilijfd slitna. Jaa, Daudenn gat þad ecke slited, jafnvel þoott hañ adskilde Saal og Lijkama DRottenns, þvi añars hefde hann ecke sialfur sijna Saalu aptur teked, hvoria hann sialfur fraa sier liet, Joh. 10. Þetta vottar Guds Ande, sem sialfur var Verkmeistarenn, Tvisvar i þessu H. Gudspialle. Fyrst, þar hann segier: Ad Barned sem hun gieta mune, skule kallast Sonur hinns Hæsta, þad er Guds, þvi eingeñ er hønum hærre; Aptur, ad þad Heilaga sem af heñe mune fædast, skule kallast Sonur Guds. Taked epter þessu, B. M. þoott eg tale i Faafræde um so haa Hlute, þann sem hun gat eins og Guds Son, þann fædde hun eins og Guds Son, svo ad eingenn Umbreiting hefur vorded fraa Gietnadenum allt til Fædingarennar, i Einingu Persoonunnar, sem ei er Von, þvi hiaa Gude er eingenn Umbreiting nie Skugge til Umbreitingar, segier Jacob, Pist. 1. C. Hvad þa? Er Christur Guds Fødurs Naattuurlegur Sonur epter Manndoomenum? Ad vijsu er hann, enn ecke epter Naatturlegum Hætte, helldur fyrer Eining hinnar Guddoomlegu og Manndoomlegu Naatturunnar, Sokum þess, ad hin Onnur Persoona Guddoomsins, Guds eilifur Sonur, took aa sig Manndoomenn, so gietur þad ecki adskilest, ad saa sem er Guds Sonur fraa eilijfu, eñ i Tijmans Uppfyllingu vard Madur, hann er i Raun og Sannleika ad ollu Leite Guds Sonur, og þar fyrer er hann vor Fridur, sem hefur giort eitt af baadum, Eph. 2. Menn kunna ad segia, ad hier um sie ei so Naudsynlegt ad tala, og ad Menn skilie ei þennann Leyndardoom (sem satt er); Enn so miked gieta Menn skiled, sem Gud hefur viliad laata oss skilia, oss til Saaluhiaalpar.

Þad er ecke litel Huggun fyrer eirn Syndara, ad Gud er Fader Christi epter Manndoomenum, þar Christur kallar oss sijna Brædur, Ebr. 2. Adam var Guds Son-

ur, sem Lúcas vottar, 3. Cap. Enn i Fallenu giordest hann Diøfulsins Sonur. Hvornenn ætte nu Adams Sonur aptur ad verda Guds Sonur, nema hinn eilijfe Sonur Guds yrde Adams Sonur, sa ed geingest under Sekt Brædra sinna? Þad sem broted var a moote Gude, þad vard af Gude ad gialldast. Þad sem af Mannenum var broted, þad vard af Mannenum ad bætast. Gud kuñe ecki eiñsamañ ad lijda; Madurenn ecke einnsamann ad fullnægia Guds Riettlæti. Hvornenn ætte þetta ad skie, nema Gud yrde Madur, og lide fyrer þad, sem vier med vorum Syndum høfdum broted? Þvi er þetta ecke lijtel Huggun, og hvad segie eg lijtel? Þesse er hin einasta Huggun Syndugs Manns, og eingeñ er ønnur; Sa sem hana ecke hefur, honum er vijst Helvijte, þvi eckert Nafn er annad giefed Mønnunum under Himnenum, i hvoriu oss byriar Saaluhoolpnum ad verda, helldur enn Nafned JEsu, Act. 4. hvort honum var hier giefed, hvad og kallad var af Einglenum, adur enn hañ var gietenn i Moodur-Kvide, segier Lucas, 2. Caper hann segier oss Umskurnar-Søgu DRottens. O hvilijk Dypt Audæfaña og Guds Speke! Þetta er ein Feste, sem Guds Sonur gaf sinne Brwde i Trygda-Pant, i hvorre eitt Furduverk hanger af ødru, eins og eirn Hleckur af ødrum. Skapare Himensins er ein Skiepna vordenn. Eilijfdenn er gietenn i Tijmans Uppfyllingu, Gal. 4. Ein Joomfrw verdur Oliett, Esa. 7. Hun sem af Gude er skøpud, verdur Guds Mooder: Hann verdur i Moodur-Lijfe innelucktur, sem Himnanna Himnar ecke teked fa, 1. Reg. 8. Hann sem dunar i Himnenum, hann grætur i Stallenum: Sa ed allar lifande Skiepnur fedur, Ps. 145. nærest i Moodur-Kvide. Skiepnann lætur til þad Efne sem Skaparenn var giordur af: Soolenn hefur Lioos feinged af Stiørnunne: Mooderenn var yngre enn Barned, enn Barned stærra eñ Mooderenn. Miñ HErra, þu sagder, er þu villder sijna þijnum Læresveinum ad þu værer Holld af voru Hollde: Ande hefur ecke Holld nie Bein, svo sem þier siaed mig hafa, Luc. 24. Enn hier sie eg ad Andenn er vordeñ Holld, þvi Gud er eirn Ande, Joh. 4. og vard þo Holld, So seger Johannes, 1. Cap. Orded vard Holld og bygde med oss; og vier saaum hanns Dijrd, Dijrd svo sem Eingietins Sonar af Fødurnum. Þetta eru stærre Undur enn øll Undur, og maa hier ad Fyrstu og Sijdurstu kalla, ad þesse Sendefør og þesse Bodskapur sie Dasamlegur, Haaleitur og yfer allann Maata Undrunarlegur. Gud giefe oss þar ad koma, sem vier meigum Eilijflega ad hønum daast, med þeim Fagnade, sem ecke hefur hier Eyra heyrt edur Auga sied, og ecke i Manns Hug edur Hiarta komed, 1. Cor. 2.

Eñ nu vilium vier skoda, hvor ad sie Nytsemd þessa Bodskapar, og er hun ad vijsu svo stoor, ad hun verdur alldrei fullþockud. Eilijf Ar skal til þess hafa, ad Vegsama Guds Eilijfa Giædsku. So elskadi Gud Heimiñ, segier Lausnariñ, ad hañ gaf wt siñ Eingietiñ Son til þess, ad aller þeir sem a hañ trwa, fyrirfarist ecki, helldur hafi eilijft Lijf, Joh. 3. Nær gaf hann oss hann fyrst? A hanns Gietnadar Deige, enn fyrst hañ hafde oss hann Einusinne giefed, þvi skyllde hann þa ecke giefa oss alla Hlute med hønum, Rom. 8. Til hvors gaf hann Sonenn? Til þess, ad þeir sem a hann trydu skylldu ecke forerfarast, þad er,

er, ad þeim ecke skyllde verda skipad fraa Guds Doomstoole i eilijfann Elld, sem fyrerbw-enn er Dioflenum og ollum hanns Arum. Hefde Gud giort oss ad Kvikendum Jard-ar og Vinnu-Dijrum, og laated oss, svo wt af slockna eins og Fienadarens Anda, þa voru þad good Kior hiaa þvi ad pijnast eilijflega i Helvijte; Enn hañ hefur eñ þa betur til vor giort, þar aller þeir, sem aa hanns Son trwa, skulu hafa eilijft Lijf, þad er, Oendannlega Dijrdar-Vist og Sælu med honum og i honum, fraa einne Eilijfd til annarar. Hvor vill þa saa Ordum ad komed, hvilijk Guds Ast oss er veitt i Holldtekiu DRottenns? Vi-er vitum aller hvilijk Byrde ad er Guds H. Logmaal, og hvort ad sie Straff þeirra, er Logmaaled briota; Þad segier oss Moyses, Devt. 27. med svo skielfelegum Ordum, ad jafnvel þeim mætte ofbiooda, sem vita ad þeir eru fraa Logmaalsins Bolvan frelsader, og er þad þo ei nema Tijmannlegt Volæde sem hann uppreiknar; Svo eg vil segia, ad saa sem heyrde Logmaaled og þess Vidlogur, og ætte sier ecke Lausnar Von fraa þess Bolvan, hann være ad miklu Leite i Helvijte, jafnvel hier aa Jordunne, og hefde ei nockra Roo um eitt Augnablik. Enn hvad seiger Paulus? Gal. 4. Þegar Tijmans Uppfylling kom, sende Gud Son sinn giordann af Kvinnunne Logmaalenu undergiefeñ, so hañ leyste þa sem under Logmaalenu voru, uppaa þad vier odludunst Barna Riettenn. Nær skiede þad? A hanns Gietnadar-Deige: Eñ hvad miked oss sie i þvi veitt, siaaum vier best, ef vier hugleidum hvilijkur Munur sie þess, ad vera Samarfe JEsu Christi, og so hinns, ad vera Þræll Logmaalsins hier i Lijfe, og so Faange Satans i odrum Heime. J Einu Orde ad segia: allar Lijfs og Saalar Heiller, sem Guds Born þiggia af DRottne, þær eru oss, i þvi Augnablike veittar, er JEsus var Gietenn i Meyar-Lijfe.

Eingeñ fegre Sool hefur yfer Heimenn skyned enn sw, þegar Sool Riettlætesins, Mal. 4. upprann oss syndugum Monnum i hennar Kvide. Vier vorum nidursockter i Afgrunn herfelegustu Synda og Volædis, oss vantade þann sem riette oss eirn Streing til ad upp-ryckia oss ur þessu Diwpi. Þrij-þættur Streingur slitnar torvelldlega, segier hiñ Vij-se, Eccl. 4. Þessi Streingur var DRottiñ JEsus af Lijkama, Saalu og Gudddoominum samannspunnenn, hann var ofannlaatenn i Synder vors Holld, med honum hefur Guds megtuge Armleggur ryckt oss wt af Vallde Myrkrannа; Oss vantadi eina Foorn, þa er kynni fyrir Gude ad gyllda, hana var ecki ad faa hiaa oss Moñunum; Eirn Broodir kun-ne ecke annann ad leysa, Ps. 49. Og þoott Gud hefde skapad eirn heilagañ Mann af Adams Nidium, og laated hann lijda, þa naade hann skamt, bæde til ad gieta wtstaded hinar bitru Helvijtis Pijsler, so og til ad fullnægia Gude fyrer Syndena, þvi er Gud Madur vord-enn, so Gudddoomurenn hiaalpade Manndoomenum til ad þola Pijslernar, og giora Lausn-ar-Giallded dijrmætt og gylldt i Auglite hinns straanga Doomara, enn Manndoomureñ Gude (ef eg maa so ad Orde komast) til ad deya. Vier þurftum einhvors Saatt-maala vid, til Stadfestingar þeim Fride er Gud giorde vid Mannkyned. Siaa! Gud er Madur vordeñ, hañ hefur trwlofad sier vora Naatturu i Meyarennar Kvide: Med þess-um Teingdum er Fridurenn stadfestur mille Himens og Jardar, mille Guds og Manna,

mille

mille Riettlæteſins og Myſkunarennar. Vær þurftum nockurs konar Veg til Himnenſins, hvad aun vier voru. Gud er Madur vordenn, hann er Vegurenn, Sannleikurenn og Lijfed, Joh. 14. Hann er Jacobs Stige, ſem nær frá Jordu allt til Himnens, Gen. 28. Þvi hann er ofannkomenn af Himne i vort auma Holld, enn vort Holld er uppnumed, Fiollenn eru læckud, Dalerner eru uppfyllder, Eſa. 40. Himenenn hefur læckad ſig allt til Jardar, Jordenn er upphafenn allt til Himna: Og um þennann Jacobs Stiga munu Einglar æ ſijdann bera Sæler vorar i Abrahams Skaut, til ad fagna þar Eilijflega. Vier vorum Gude morg Tiju Þuſund Punda ſkylldiger, Matth. 18. Þar lá ecke annad fyrer oſs, enn ad verda kaſtader i hin ytſtu Myrkur. Eingenn hafde þad hann giallda ſkyllde; Þvi er Gud Madur vordenn. Faderenn gaf oſs eirn rijkann Brodur, ſem eirn gallt fyrer alla. Ad ſijdurſtu villde Gud ecke einaſta frelſa oſs af Myrkranna Vallde i Helvijte, helldur og hefia oſs til Rijkis i Himnenum; Enn oſs vantade Rokſemd, og Skil til þeſs, ad hann villdi ſo giora. Hanns Glædſka var alltijd til Reidu i frá Upphafi Verolldar, Jaa, ædur enn Grundvollur Verolldarinnar var lagdur. Enn þad var ad Ugga, ad vier mundum giora hana Onijta á oſs, fyrir Vantrwarinnar Sakir. Þad var ecke lijklegt, ad eirn Glæpafullur Landráda Madur, eirn Spillvirke, ſem alla reidu hafde Snoruna um Halſenn og unned til Gálgans, hann munde ætla ad Konungurenn munde hann aptur kalla frá Gálganum til Rijkis, ur Boduls Hondunum til ſijns Hæbords, og giora hann Ettleiding af Utlaga, ſitt Barn af Dioflsins Þræl, og ſinn Þienara af Drottenns Svikara. Þeſs vegna er Gud Madur vordenn, þar fyrer hefur hann giefed oſs þad Teikn, er hann hiet ad giefa á Dogum Achas Konungs, Eſa. 7. um hvort ad gietur i þeſſa Hátijdis Dags venjulegum Piſtli, þar ſo ſteudur: Fyrir þa Skulld mun DRotteñ giefa ydur eitt Teikn. Sia þu, ad ein Jomfrw mun Barn gieta, og eirn Son fæda, og hann mun hun kalla Immanuel, þad er, Gud med oſs: Gud i Mannenum og Orded i Holldenu, þad er JEſus, Lauſnare, Frelſare, Sæluhiálpare; Þvi ſo kunne eingenn ad heita, nema Gud bygge i honum. Þetta er nu fullkomenn Viſſa um Sátt vora vid Gud, ſá oſs reidur var, þvi hafe hann giefed oſs hann, i hvorium honum alleina velþocknaſt, Matth. 3. og ofurſellt hann i Daudans Pijſler, til ad forlijka oſs vid ſiálfann ſig, Rom. 5. þegar vier enn þa vorum hanns Oviner; Hvernenn kunnum vier þa ad efaſt um Uppgiof vorra Synda? Mun hann kaſta þeim i Eilijfann Elld, ſem á hanns Nafn trwa, er hann took ſo nærre ſier ad giefa oſs? Mun hann tilreikna þeim Syndernar, hvorra Synder hanns Eingietenn Sonur hefur burtu bored, Joh. 1. nær vier ydrunſt þeirra af Hiarta? Mun hann klaga oſs fyrer þa Handſkriftena, ſem hann hefur alla reidu á Kroſſenn neglt? Col. 2. Flærre ſie þad Fodur Myſkunſemdanna. Og þeſſe er nu ſá Gledelege Bodſkapurenn er eg i Ondverdu hiet um ad tala. O Eitt Fagnadarſamt Ord! O Eitt ſannkallad Evangelium! O Eitt æſkelegt Fridar Bod! med hvoriu Heilſann verdur frambodenn hinum Veika, Uppgiofenn hinum Sieka, Lauſnenn hinum Herteknu, Frelſed Þrælunum, Lijfid hinum Dauda, og þeim (ſem

einkis

einkis Von ættu nema eilijfra Kvala i Helviiti, med Diofliinum og øllum hanns Arum), Eilijf Sæla, Eilijfur Fognudur og Eilijft Samneyti, med hiñi hatleitu Guddoomsins Prenningu og Heilogum Englum i hinni Himneſku Jeruſalem, hvorrar Sool og Tungl ad Gud er, Apoc. 21. Og hvar einginn Umſkifti eru Lioosſens nie Myrkurſins, Jac. 1. Peſſarar Eignar, þeſſarar Dijrdar og þeſſarar Full-Sælu, uñ þu oſs niootandi ad verda, goodi Gud, fyrir Arnan og Forþienuſtu þijns Eingetins Sonar JEſu Chriſti, vors Frelſara, Amen.

# A Pálma Sunnudag.

Gudſpiallid ſtendur aa hinn Fyrſta Suñudag i Adventu.

## Exordium.

Nier høfum aungvañ Konung nema Keyſarann, ſøgdu Gydingar Fordum Daga, Joh. 19. Þa þeir villdu ecki læta Konung Dijrdariñar rijkia yfir ſier, Luc. 19. Enn eg þykiſt vita, ad Chriſtnir Menn muni ecki ſamſiña þeim Ogudlega Flock, þvi jafnvel þoott vier eigum Gudi ad þacka fyrir Konunga vora, er hann ſett hefur til ad ſtioorna ſijnu Foolki, ſierdeilis vier, er hann hefur Millda og Riettvijſa Konunga giefid Eirn eftir Annann, þaa vitum vier þo, ad Gud hefur ſett ſinn Konung yfir ſitt Heilaga Fiall Zion, Pſ. 2. Hvors Rijki ecki er af þeſſum Heimi, Joh. 18. Og þo er hann Heimſins Skapari, Hebr. 1. Hvors Herradæmi ad bræ fyrir ſynduga Menn uñ Stundarſakir, til ad uppfylla Spaadoom Zachariæ, Cap. 9. Þegar hann reid inn til Jeruſalem, enn hanns Rijkis-Stooll varir þo uñ Alldir Allda, Heb. 1. Vorir Høfdingiar ſtioorna med Makt og miklu Velldi, Verølldinn er ſvo ſkipud, ad ecki verdur ødru aakomid; Enn Chriſtur i ſijnu Nædar-Rijki ſtioornar med ſijnu H. Ordi og Sacramentunum, þvi ſegier Paulus, 2. Cor. 10. Vopn Herfarar vorrar, eru ecki Lijkamleg, helldur Kraftur Guds til ad nidurbrioota Gyrdingarnar. Verølldlegir Herrar taka Skatt af ſijnum Þegnum, Matth. 17. Og er þad Riettvijſt, þvi þeſsi vor Konungur hefur þad ſkipad, enn hann giefur øllum allt og upplijkur ſinni Milldu Hendi, til ad ſedia allar lifandi Skiepnur, Pſ. 145. DRottinn ſagdi vid Petrum: Veralldlegir Konungar, hvort taka þeir Skatt af ſijnum Børnum, elldur af Annarlegum? Enn Petur ſvaradi: Af Annarlegum. Og vor HErra ſagdi; Þa eru Børninn frij, Matth. 17. Enn þad geingur ødruvijſi til i Guds Rijki; Hier tekur Konungurinn Skatt af ſijnum Børnum, ſem þo er ecki Gull nie Silfur, helldur Harmþrunginn og Sundurkṅoſadur Andi. Fordum Daga mætti einginn mæta Perſanna Konungi, nema hann offradi honum einhvørri Gaafu, og er Boondi nockur vard aa Veigi fyrir einum af þeim, hafdi hann þad ecki til, er hann kynni ad biooda; Enn i þeſſu Nædleyſi took hann Vatn i Lookum ſier og færdi Konunginum, og ſegia Menn þad háfi verid vel þeigid. Vier mætum vorum Konungi Daglega, þvi allann Daginn utbreidir hann ſinn Fadm til vor, Eſa. 65. Eckert høfum vier þad vier kunnum

ad biooda þessum Allsheriar DRottni; Blood Uxanna og Hafranna þocknast honum ecki, Ps. 50. Allt Silfur og Gull er hanns, jafnvel vor bestu Verk eru eins og Nidlags Fat, Esa. 64. Gudrækileg Taar vorra Augna, og þad Vatn sem ydrandi Manna Hofud eru full af, einn audmiwkur Andi og lijtilaati Hiarta, er hanns Offur, Ps. 51. Betur lijkar honum Foota Þvottur hinnar Bersyndugu enn Heimbod Simonar, Luc. 7. Betur Mariu Audmykt i Hiartanu, helldur enn Umsorgun Marthæ i Hwsinu, Luc. 10. Hinn beiski Graatur Peturs, Matth. 26. helldur enn Offur Vitringaña, Matth. 2. Þoott hvorutveggia væri Þacknæmilegt. Hin besta Þegn-Skyllda Guds af Mønnunum er þetta, Og Trwinn, sem verkar fyrir Kiærleikann, Gal. 5. Eñ þessi Konungur, so Maattugur sem hann er, svo Prijdilegur sem hann er, svo Alvalldur sem hann er, svo Giædskurijkur sem hann er, þaa er hann þo til vor kominn HOOGVÆR, Sitiandi aa Øsnu Eiñi. Hafi nu Konungur Dijrdariñar verid so Hoogvær fyrir vora Skulld, þa laatum oss gaanga nær Gudspialli þessu, og læra nockud af honum, Sem er Hoogvær og af Hiarta Lijtilaatur, Matth. 11. Þad er hiña Andlegu Hoogværd, sem oss aa ad fylgia inn i Himnarijki med Smaa-Bornunum, Matth. 18. Og um hana vil eg tala fyrir ydrum Kiærleika wt af þessu H. Evangelio. Hvar til oss styrki hinn Naadugi Gud i JEsu Nafni, AMEN.

## Utleggingiñ.

HARed Þier J Þad KAuptwn Sem Gagnvart Ydur Er, Og Strax Munud Þier Finna Øsnu Bundna Og FOlann Hiaa Henni; Segier DRottinn. Af þessu er audsied, ad hann vissi alla Hluti, og ef hann var Alvitur, þa var hañ og Almaattugur, Allstadar Naalægur og Omælañlegur, Þvi Guddoomsins Eiginlegleikar meiga ecki adskiliast, hvar fyrir vier siaaum, ad oll Fylling Guddoomsins hefur bwid i honum Lijkamlega, Col. 2. Hvad laangt eru nu allir daudlegir Menn fraa soddañ Hatign? Ad sonnu hefur Gud lagt mikid til margra, Og þar verdur ecki aa mooti sagt, ad Madurenn er hin ypparlegasta Skiepna Guds, sem vier siaaum med vorum Augum, Eñ þad hefur JEsus fram yfer alla adra, ad hañ er bæde Gud og Madur. Hvilijkt er þat þetta Oumrædilega Lijtilæti! Ad hann sem oll Dijr aa Jordunni skapad hefur, hañ virdir sig so Lijtils, ad sitia aa einni Øsnu, sem er eitt hid Audvirdilegasta Kvikindi medal Dijranna. Siaa hier, Christiñ Madur, hvad lijtils verd ad sie Hoffragt Veralldariñar i Guds Dijrdarfulla Augliti. Hier er ecki Pharaonis Vagn, Sem Joseph var i fluttur, Gen. 41. Ecki Mardochei Hestur, sem Ahasverus skipadi honum ad rijda a sijnum Heidurs-Deigi, Est. 6. Ecki hiñ Elldlegi Vagn og Hestar, sem færdu Eliam til Himna, 2. Reg. 2. Helldur ein Lijtilmootleg Asna; Þo stærir eirn syndugur Ormur sig af Bwninginum, Og af þvi Yfirlæti er hann hledur utañ aa sig. Þad er allvijda ad siaa af Æfi-Sogu DRottinns, hvad Lijtels hann hefur metid Oflæti Veralldarinnar. Hañ var fæddur i einum Stalli, Luc. 2. Hann foor aa Fæti, þegar hañ gieck um krijng, giordi Gott og grædddi alla, Act. 10. Hann rijdur hier eigni Øsnu, Og hygg eg þad hafi þo verid

hid

hid mesta hans Yferlæte hier aa Jordunne. Þeink nu ukt, syndugur Madur, Hvilijk Faasinna þad sie, ad metnast i Hiarta sijnu, þo Gud laate einhvorn skijna i Prijde Veralldar þessarar; Ecke segie eg, ad Gude misþocknest Lijkamlegt Hreinlæte edur fagur Bwnadur i sialfum sier, þegar þau sambiooda þess Virdingu er þvilijkt brwkar, laangt helldur meina eg; ad Gud hafe aungvann Misþocka aa þvi, þoott hanns Skiepnum sie hallded til Prijdis; Þad sijner mier Aaronis Bwningur, Exod. 28. Þad vottar Saattmaals Orkenn og Naadar-Stoollenn, Exod. 25. Þad sijner Jerusalems Mustere, 1. Reg. 6. Þad sijner Salomon med allre sinne Dijrd, 1. Reg. 10. hvorre i Ritningunne hroosad verdur: Enn hitt segie eg, ad stæra sig þar af, þad er Austygd fyrer Gude. Ecke trwe eg ad honum hafe illa lijkad sw Bygging, er Nebucadnezar liet giora i Babylon; Eñ fyrer þvi hañ stærde sig þar af, þa vard honum giefed Villudijrs Hiarta, so hann aat Gras med Kvikendum aa Mörkeinne, Dan. 4. Ecke hefur Gud reidst vid Herodem af þvi hann var Maalsnjallur, þvi sialfur hafde hann honum Maalfæred giefed: Enn Sokum þess, ad hann gaf ecke Gude Dijrdena, þa var hañ sleigenn af Eingle DRottens, Act. 12. Kañskie ad Gud hefde laated Hvalfiskenn i Egyptalande vera kyrrann i sijnu Vatne, hefde hann ecke sagt: Mitt Vatn er mitt, og eg hefe giort mier þad, Ezech. 29. Ecke er vijst ad hann hefde sett Krookenn i Zenacheribs Naser, hefde hann ecke lastad Nafn DRottens. Þesse er hinn Riettlaate Doomur hiñs Alvallda Konungs, ad Dramblaatum hrinder hann af Stoole, enn Lijtelaatum giefur hann Naad. Luc. 1. Betra er ad audmykiast med hinum Hoogværu, eñ ad wtskipta Hersfaange med þeim Drambsomu; segier Salomon, Prov. 16. Hvar af audsied er, ad þo Gud hefde miked til hanns lagt, og upphafed hann aa Stóol sijns Fodurs, og giort hann vegsamlegre, bæde ad Vite og Rijkdoome, helldur eñ adra Konunga i Austuraalfunne aa hañs Dogum, 1. Reg. 10. Þa hefur hann kannast vid, ad hann hefde þad allt þeyged og ecke teked af sialfum sier. Svo var og David, hanns Fader, lyndur, hvors Audmyktar merkelegt Dæme vier hofum i aññarar Sam. B. 6. Cap. Þegar Drottninginn Michol brixlade honum, med þessum Ordum: Hvorsu vegsamlegur var Kongurenn af Israel i Dag, hvor ed afklæddest fyrer Ambaattum Þienara sinna, og liek Nakeñ sem Fantar? Eñ hann svarade: Eg vil leika fyrer DRottne þeim sem wtvallde mig, helldur eñ þiñ Fodur og helldur eñ allt hañs Hws, og hefur skipad mig Hofdingia yfer DRottens Foolk Israel; og eg vil eñ nu miñe verda, og eg vil lijtelæcka mig i mijnu Auglite, og vegsamast med þeim Ambaattunum, sem þu talader um. Ad eg tale ecke um Abraham, Jacob, Moysen, Josaphat, Ezechiam og adra fleire, hvorier aller voru af Gude med mikellre Tign sæmder, og þeirra Audmykti Andanum er þo hroosad i Ritninguñe. Gud naade oss! Hvad hofum vier ad stæra oss af synduger Menn? Er ecke Maduren ein Vatns Boola? Hvor þo ad þiooste upp um Stundarsaker af Vinde Luckuñar, þa hiadnar hun jafnskioott aptur, þegar hiñ same aa hana blæs. Er ecke allt Holld Hey? Og allur þess Heilagleike lijka svo sem Bloomstur Akursins? Grased visnade og Bloomstred datt af, þviad Ande DRottens bljes aa þad. Sannarlega er allt Foolked Hey; Grased

visnade, og Bloomstred dattnidur; enn Ord DRottenns varer eilijflega, Esa. 40. Hier er eingenn undanntekenn, Rijkur eda Faatækur, Gøfugur eda O-gøfugur, Smaar edur Stoor, Vitur eda Vankunnande, Præll edur Herra, og þetta eru Guds Ord, hvor æfennlega vara, er oss þetta segia. Laate þvi einginn ofurdaatt ad siaalfum sier, þvi allt hvad vier høfum, hvad Gott edur Kostulegt sem þad er, þad er þo alltsamann Laans-Fie, og ecke vort eiged. Segied mier: Hvar af skylldu Menn þo stæra sig? Af Aud og Rijkedæme? Þvi skyllde eg hroka mier upp af þvi, sem Luckann kann eins ad giefa einum Nijdinge, so sem besta Manne, sem aflad er med mikellre Ahyggiu aa morgum Arum, enn fargast i einu Augnablike, ef til vill. Þvi skal eg giora mig stoorann, þott eg hafe eirn O-maga medferdis, sem eg hlijt alltijd ad þrælka fyrer, og so er Oþacklaatur og Oriettvijs, ad hann sedur alldrei sijna Fyrervinnu? Vilium vier athuga, Br. M. af hvøriu flester eru i Fyrstunne Rijker vordner; Fæster munu þeir vera, sem Naatturann hefur hiaalpad þar til ad øllu Leite, edur þeirra Eittsamann Erfide, med hvoriu Gud hefur skipad ad næra sig af Jordunne, Gen. 3. Eg vænte ad so hafe flester audgast, ad þeir, eda þeirra Forfedur, hafe teked nockud raanglega fraa audrum. Enn segied mier: Er þad Riettvijst ad Menn stære sig upp yfer einhvorium, af þvi ad hanns Forfedur hafa teked nockud fraa hinns Forfedrum? Eingum Manne mun þad þykia, þegar Menn gaa ad, hvornenn Hluturenn er i siaalfum sier. Eda hvad er nu framveigis ad stæra sig af? Eru þad Vitsmuner? Jeg medkienne, ad þeir eru hinn kostulegaste Hlutur, sem Gud hefur lagt til syndugra Manna, enn þo eru þeir fallvallter eins og annad; Og hvad lijted er þad vier vitum, hiaa þvi sem vier ecke vitum? Madurenn veit ecke siun Sess edur Gaungu, seger Ritningenn; Og hvorsu vill hann þo meira vita? Og þott ad þeir sieu i siaalfum sier gooder, þa verda þeir þo af vorre Misbrwkun optlega nijdder, allra mest af Drambsemenne. Riett giorde Gud, so sem alla Hlute, J þvi hann gaf Nebucadnezar Villudijrs Hiarta, Dan. 4. sem aadur er sagt; Og sama ætla eg þa hende, sem forsmaa adra hiaa siaalfum sier, og þykiast einer vita alla Hlute, hvad þa optast hender, sem minnst vita, og þa þeir þykiast øllum hyggnare, verda þeir Skiptingum heimskare. Margur Gortare hefur og stært sig af Hreiste Lijkamans, giætande ecke ad þvi, ad Lijtell Kville kann ad svipta Mannenn sijnu Afle. Sumer hroosa sier af Fegurd Lijkamans, og er hun ad sønnu aagiætur Hlutur, þa hun ecke er brwkud til Lauslætis edur Ofmetnadar, enn einsamann er hun Agiætis lijtil, þvi Madur kann ad maala eitt Bijlæte fagurt, og er þad þo ecke so gott, sem hinn liootaste Madur. Hvad er nu framveigis verdt ad stæra sig af? Dygder og Mannkoster eru mest verder af øllum þeim Hlutum, sem finnast hiaa Daudlegum Monnum, enn þeir verda ad Okostum, þegar Dramblæted þeim spiller. Þvi segier Salomon: Vanvirdann epterfylger hinum Stoorlaata, enn hinn, sem er Lijtelaatur i Anda, mun Vegsemdenn umfadma, Prov. 16. Lijtelæted er fegursta Skart Dygdanna; aan þess verdur Framsynenn ad Underferle, Riettlætid ad Hardydge, Hugprijdenn ad Ofdyrfsku, Sparsemenn ad Nijdsku; Jeg meina hid Christelega Lijtelæte, sem er eitt audmiwk-

ur Ande fyrer Gude, og kannast vid og þecker þad, ad Menn eru Menn og Mannlegum Tilfellum undervorpner.

Siaa Þinn Konungur Kiemur Til Þijn Hoogvær; segier Textenn. Ef Konungur Dijrdarennar Ps. 24. svo Lijtelæckar sig fyrer oss syndugum Monnum, þvi skylldum vier synduger Menn stæra oss upp yfer vorum Brædrum? DRottenn Himens og Jardar kiemur til vor aumra Manna, sem eckert tokum med oss i þennann Heim, og munum eckert i burtu bera, 1. Tim. 6. Hinn Fegurste medal Mannanna Sona, Ps. 45. kiemur til vor, sem fraa Hvirfle og allt til Ylia erum ecke nema Saar, Beniar og Þrote, Esa. 1; Laatum oss þad til Hiarta gaanga, hvad stoor Munur ad er vor og hanns: Vier erum þeir ed styggdum, hann er saa sem misgiort var aa moote; hann þarf ecke vor med, enn vier kunnum ecke eitt Augnablik ad lifa fyrer utañ hañs Myskun. Laatum vort Hiarta komast vid af þvi, ad hañ er siwkur af Elsku, Cant. 2. ofañ til vor komenn, þegar vier hañ hötudum. Ef vorar Synder ecke aangra oss, ef vier hrædunst ecke þeirra Straff, þa laatum þo þann Ouñrædelega Elskuñar Bruna smellta vort Hiarta, ad hañ kiemur med so mikellre Hoogværd inn til Jerusalem, til ad laata sig kvella og krossfesta fyrer mijnar og þijnar Synder, Christenn Madur! Hann grætur yfer Borgenne, hvorrar Innbyggendur ad ecke þecktu sinn Vitiunar Tijma, Luc. 19. Af hvorium hañ visse þo ad hañ munde so Haaduglega wtleikenn verda, sem hanns Pijslar-Saga vottar. Fyrst hann hefur nu allt þetta uñed fyrer oss synduga Jardar-Madka, þa laatum oss giora þad hann oss skipad hefur, sem er, ad læra af honum hina sonnu Hoogværd, sem Gud aalijtur, giorande eckert af Kappe edur fyrer Hiegooma Dijrd, helldur af Lijtelæte, hafande hvor annañ sier i Virdingum ædre, Phil. 2. Audsijnum og vort Lijtelæte i Verkunum, so ad bæde Gud og Menn siae, ad vier leggium ecke ofmikla Virding aa sialfa oss. DRottenn sagde til Læresveinanna i þessu Evangelio, þegar hann skipade þeim ad taka Ösnuna: Ef Einhvor Segier Nockud Til Ydar, Þa Segied Ad HErrann Hafe Þeirra Þorf. Allt Valld hafde JEsus, bæde aa Himne og Jordu, þvi alla Hlute hafde Faderenn lagt i Sonarens Hendur, Matth. 28. Þvi sijnest ad þad hefde ecke vered um fram hanns Raad, þoott hann hefde teked þetta Dijr, ad fornspurdum Eigandanum, þo villde hañ þad ecke giora, uppa þad hañ sijnde oss, hvornenn vier eigum hvor vid annañ ad breita. Enn hvad giora sumer af oss? Þyker oss þad mikels verdt ad giora Lijtelmagnañ fornspurdann, ad þeim Hlutum, er vier eignast vilium? Mun Jessabel virda fyrer sier ad leita Laagvitna i moote Naboth, og laata grijta hañ sijdann i Hel, þegar Achab vill eignast hanns Vijngard? 2. Reg. 21. O Gud giæfe! Ecke væru þvilijk Dæme hiaa oss, þoott Menn raadest þess minna i, sem vier hofum Valldeð minna, helldur enn Achab hafde. Ad sonnu er skickanlega og Lijtelaata Umgeingne ecke ad lasta: Hun kann ecke so ad kallast Dygd, so sem Dygdanna Forvautur; Og margur hefur saa hana til ad bera, sem ecke hefur sialfar Dygdernar, og med þene hafa sumer teked allt fraa ollum; Eñ þo er ecke hid sanna Lijtelæte i þvi iñefaled ad taka Hatteñ af fyrer Moñum, jafnvel þo þad sie ecke lastande i sialfu sier. Utvortis og Iñvortis-

vortis Lijtelæte, er ad sonnu hvorutveggia gott, enn skule annars hvors ann vera, þa vill da eg helldur ad Hatturenn sæte kyrr a Hofdenu, helldur enn ad Aumingians Kiooll være rifenn af hanns Kroppe, so ad Gud klagade mig ecke sijdann, ad eg stelle fram i Pantsettum Klædum i hanns Hwse, Amos 2.

Vier heyrum i Gudspiallenu, ad margt af Foolkinu, sem epter fylgde Lausnaranum, Hafe Breidt Sijn Klæde A Veigenn, Enn Adrer Hoggvod Kvistu Af Trianum; Þad var stoort Audmyktar Merke af þessu Foolke, og eg veit, ad þier, Christner Menn, villdud hid sama giora, ef þier mættud hanns Naalægdar nioota. Enn trw mier til, ad hann er ecke so langt i burtu, sem þu hyggur; þvi hann hefur sagt: Eg vil vera hia ydur allt til Enda Veralldar, Matth. 28. Og ef þar eckert annad er, þa eru þar nooger Klædleysingar, sem hann kallar sijna Lime, þad eru sannet Olmusu-Menn: Breidum vor Klæde a Veigenn fyrer þaa, so ad þeir ecke i Klædleisi utaf deye, sem ad bera Teikn JEsu Christi a sijnum Lijkama, og eru epter hanns Mynd skapader, so vel sem vier adrer, sem betre Raad hofum: Þa offrum vier hinu sannarlega Lijtilæte, og latum Gud sia ad vier þykiunst ecke uppfyser þeim, sem hann hefur minna tillagt. Christur vill ecke lata lwta sier einunges med Ordum, helldur med Verke og Sannleika, Eph. 2. Ecke helldur sijnum Limum, þvi hann er Safnadarens Hofud, Rom. 12. Enn vier erum hvor annars Limir. Þar mun koma sa Dagur ad sagt mun verda til þeirra sem hafa medteked Guds Volada i hanns Nafne, þegar Christur mun i Annad Sinn innrijda til Jerusalem, þad er, til sinnar Christelegrar Kyrkiu, ecke grætande, svo sem nu, helldur med Makt og miklu Vellde, þegar Hofud-Eingelsins Lwdur mun gialla yfer þeim sem a Jordu bwa: Komed þier Blessader mijns Fodur, og eigneft þad Ryke sem ydur var tilbwed fra Upphafe Veralldar; Þviad Hwngradur var eg, Og þier gaafud mier ad Eta, Þyrstur var eg, og þier gaafud mier ad Drecka, Gestur var eg, og þier hystud mig, Nakenn var eg, og þier Klæddud mig, Siwkur var eg, og þier Vitiudud mijn, J Myrkvastofu var eg, og þier Komud til mijn; Þa munu hiner Riettlatu svara honum og segia: HErra, hvenær saaum vier þig Hwngradann og Soddum þig? Eda Þyrstann og gaafum þier ad Drecka? Eda hvenær saaum vier þig Giestkomenn og Hystum þig? Eda Nakenn, og Klæddum þig? Eda hvenær saaum vier þig Siwkann edur i Myrkvastofu og komum til þijn? Og Konungurenn mun svara og segia til þeirra: Sannlega segie eg ydur; Ad hvad þier giordud Einum af þessum mijnum minnstu Brædrum, þad giordud þier mier, Matth. 25. Þa mun þad ecke koma i Epterþorf, ad hafa breidt sijn Klæde a Veigenn fyrer Christi Limu, þad mun verda stoor Fiesioodur a Himnum, ad hafa lijtels acktad Gull og Gersemar, og Kostulegann Bwnad, þegar allt þetta stendur i biortu Baale, og duger til einkis, nema ad kveikia Elld under þeim, sem hafa fest sitt Hiarta þar vid. Þyke oss vænt um þad saanijta Skart, sem vier vesium i þessa forgeingelega Lijkama, og þad so miog, ad sumer af oss være til Frids, ad flytia med sier nockud wr þessare Verølldu, þa er Raad þad vid þvi, ad klæda Fatæka, þeir munu oss

oß þad med Abata aptur giefa, sem er Riettlætesins Skrwde, fagadur i Lambsins Bloode. Eckert berum vier i burtu med oß hiedann, nema þad sem Guds Volydum er giefed, þad mun oß aptur rijkuglega golldet verda i Uppriſu Riettlatra. So læred nu af ydar Frelsara, B. M. ad vera Hoogværer og af Hiarta Lijtelaater, Bæde i Orde og Verke. Hann hefur ecke sagt til vor: Læred af mier ad skapa allañ Heimenn, ecke ad giora Kraptaverk i Heimenum, ecke ad raada fyrer Velferd allra Manna, helldur hefur hañ skipad oß ad læra af sier Hoogværdena. Sa sem vill byggia sitt Hws stoduglega, hann þeinke um Grundvöll Lijtilætesins, þvi hvor sa ed sig upphefur, hann skal nidurlægiast, og hvor ed sig nidurlæger, hann skal upphafenn verda, Matth. 23. Enn þu, O HErra JEsu Christe! sem ert hid fullkomnasta Epterdæme Lijtelætesins og Hoogværdareñar, virdst þu ad taka burt fra oß Hroka Syndumspilltrar Naatturu, so ad vier rata mættum þañ rietta Vegeñ iñ i þitt Rijke. Þad veit þu oß Myskunsame HErra, sem hefur Lijtelækkad sialfann þig, uppa þad vier Vegsamleger yrdum, og bid þinn Himneska Fodur fyrer oß, ad hañ sende oß þar til siñ Heilaga Anda, Amen, J JEsu Nafne, A M E N.

# A Skijr Dag.

Pistillenn, 1. Cor. 11. Cap.

GOODer Brædur. Þvi eg medtook þad af DRottne, sem eg hefe ydur giefed. Af þvi ad DRotteñ JEsus, a þeirre Naatt, er hañ var svikeñ, Took hañ Brauded, Giørde Packer, braut þad, Og sagde: Taked og Eted; Þetta er miñ Lijkame, Sa fyrer ydur verdur broteñ: Giøred þad i mijna Miñing. Somuleidis og eirneñ Kaleikeñ, epter þad hañ hafde Kvølldmaaltijdena eted, Seigiande: Þesse Kaleikur er Nijtt Testamentum i mijnu Bloode: Giøred þetta so opt sem þier drecked þar af i mijna Miñing. Þviad so opt sem þier eted af þessu Braude, og drecked af þessum Kaleik, skulud þier kuñgiøra Dauda DRotteñs, þaangad til hañ kiemur. Hvør hañ etur nu af þessu Braude, og dreckur af þessum Kaleik DRotteñs Overdugur, Sa er sekur vid Holld og Blood DRotteñs. Eñ hvør Madur proofe sig sialfur, og ete so af þessu Braude, og drecke so af þessum Kaleik. Þviad hvør hañ etur og dreckur Overdugur, Sa etur og dreckur sialfum sier Doom; Giørande ecke Greinarmun a DRotteñs Lijkama.

Exordium.

SÆll er sa Madur, sem etur Braud i Guds Rijke, sagde fordum Gydingurenn, er sat til Bords med vorum Frelsara, þa hann var ad Heimbode eins af Phariseanna Hofdingium, Luc. 14. Hann hefur aan Efa meint hier med alla þaa

Sælu, er þeim bwenn er, sem sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob i Rijke Himnanna. Þesse Madur sagde ad vijsu satt, enn Forgiefens vænta Menn hiñar eilijfu Sælu, nema vier faaum hier i Lijfe nockurn Forsmeck hennar; Enn hvar faaum vier hann? J Guds Heilogu Orde ad sonnu, enn þo allra hellst i þeim Heilogu Sacramentis. Hvilijkur Fognudur er þad eirnre Riett-trwadre Saalu, ad hun veit, ad hun i Skijrnenne er vordenn Guds Vinur af Reidennar Barne, Eph. 2. og Hluttakande allra JEsu Christi Velgiorninga, sem hann med sinne beisku Kvol og Dauda hefur oss afrekad, og til Styrkingar Trw sinne þar um, etur hann Guds Lijkama og dreckur hanns Blood i og med hinum Jardnesku Hlutum, Braude og Vijne. J Ordenu heyrum vier Raust Brwdgumans, Cant. 5. Enn i H. Kvolldmaaltijd DRottenns, kysser hann hana med Kosse sijns Munns, er hanns Hiarta elskar, Cant. 1. Þar uppvekur hann Elskuna til sijn, þar styrker hann Trwna, þar lijfgar hann Vonena, þar eykur hann Gledena og giefur oss Forsmeck Himnarijkis. David gat ecke meire Æru veitt Mephiboseth, Syne Jonathans Vinar sijns, 2. Sam. 9. edur Vin sijnum Barsillai, 2. Sam. 19. Enn ad þeir skylldu eta Braud vid hanns eiged Bord. O! hvilijk Æra er þetta þa, Br. M. ad Konungur Dijrdarennar setur oss vid sitt eiged Bord, hann framreider þar, ecke eirn alenn Kaalf, eins og Fader hinns tijnda Sonarens, sem gietur um i Eptterlijkingunne, Luc. 15. helldur sialfann sig þad Saklausa Guds Lamb, sem fraa Veralldarennar Upphafe slaatrad er, Apoc. 5. Hwngrudum til Sadningar. Nathan Spaamadur kunne ecke ad faa annad Vigtugra til ad sijna David, hvorsu miog hinn Faatæke Madur hefde elskad þann Saudinn, sem hiñ Rijki took fraa honum, helldur enn þad, ad hann gaf honum ad eta af sijnum Braud-Bita, Og ad drecka af sijnu Kieri, 2. Sam. 12. O JESU! Vier erum þijnir Voladir Saudir, Þu hefur auglijst þinn brennandi Kiærleika i morgum þijnum Velgiorningum, enn þo hvad mest i þvi, ad þu hefur giefid oss þitt Holld ad eta og þitt Blood ad drecka, þad sama Holld og Blood, sem aa Krossinum hieck og wthellt var, enn nu situr til Kraftarins Hægri Handar til ad byrtast fyrir Augliti Guds, til ad afmaa Syndina med Foornfæringu sialfs þijns, Ebr. 9. Þu hefur til þessa Giestabods kallad Faatæka, Vanada, Hallta og Blinda, Luc. 14. Þad er, oss aumar syndugar Manneskiur, hvoria Syndinn og Dioffullinn svo illa hofdu wtleikid, ad fraa Hvirfli og allt til Ylia, var þar ei nema Saar, Beniar og Þroti, Esa. 1. Enn eg Ottast nærsta miog, ad þeirra Lijkar finnist vor aa medal, er St. Paall svo hardlega aatelur, fyrir Osidsemi þeirra og Vanrækt aa þessu Himneska Bordhalldi, þar hann segier til Corinthios: Þessu hroosa eg ecki, ad þier samannkomid ecki til hinns Gooda, helldur til hiñs Verra eins, 1. Cor. 11. Þvi giefur hann þeim og eitt aagiætt Bodord, hvornenn þeir skulu tilreida sig under þessa H. Nautn i þessum Ordum: Hvor Madur Proofe sig sialfur, og ete svo af þessu Braude og drecke af þessum Kaleik. Og ecke eingasta hefur hann þeim þad giefed, helldur og ollum Christnum Monnum, er med þessum Hætte vilia kunngiora Dauda DRottenns, hvar

fyrer

fyrir eg vil wt af þessum H. Pistle tala um̃ þaa sierlegustu Hluti, er heyra til Christelegs Undirbwnings þessarar haaleitu DRottinns Kvölldmaaltijdar.

Hinn goodi Gud wyrdist ad styrkia oss hier til med Naad sijns Anda, I JESU Nafni, Amen.

## Utleggingiñ.

HAd aa ad vera oss alkunnugt, B. M. ad i Skijrnĩnni hefur Gud giört eiñ Naadar Saattmaala vid oss auma Menn, þar vier fædunst i Heim þenna daudir i Syndunum. Nu er oss þad vitannlegt, ad vier Daglega riwfum þenna Samning, ecki alleinãsta af raasandi Raadi, helldur og oftsinnis med Vilia og Asetningi; enn þvi vallda Guds diwpu Myskunar Ydur, ad vier eigum Kost aa ad niju ad forlijka oss vid hann, og til þess hefur hann sett og iñstiftad þad H. Alltarisins Sacramentum, i hvoriu vor Skijrnar Saattmaali verdur ad fullu Endurnijadur, Guds Naad ad niju frambodinn sannydrandi Manni, og hann aavallt Skulldbundinn til ad giora verduga Avoxtu Idraniñi, Matth. 3. Þad vill DRottinn boded hafa, er hann segir hiaa Luc. 22. Cap. Svo oft sem þier giorid þetta, dreckid þad i mijna Minning; hvad Paulus i Textanum kallar, ad kunngiora Dauda DRottiñs. Eñ hvilijk aa þessi Miñing ad vera, B. M.? ecki so sem þeggar vier dreckum Konungsiñs Skaal, edur Vina vorra og Naunga, þad være ad giora lijtinn Greinarmun aa Lijkama DRottinns og annari Fædu; helldur eigum vier þess ad minnast med Hiartans Angri og Trega, ad vorar Bloodugar Illgiordir hafa Dijrdarinnar Hertoga Krossfestann, ad oss verdi þær fyrir hanns Dauda og Forþienustu alldeilis tilgiefnar, ef vier ydrunst af Hiarta. So er nu Christileg Ydran, so ad segia, hin Fyrsta Trappa, sem liggur upp ad þessu Haabordi DRottinns. Eñ þess er ad giæta, Barn Guds, ad hun sie heit og alvarleg. Christur giordi ecki um̃ Grun, ad lijda fyrir Syndir þijnar; þu aatt og ad laata þig af innstu Hiartans Rootum angra þad, ad þu hafir hann moodgad og moodgir Daglega. Hier til heyrir naakvæm og grandgiæfileg þecking Guds H. Bodorda: Hvorninn maa hann þeckia Syndina, sem ecki er Sannfroodur um̃ Guds Vilia? Enn hvorsu maa saa ydrast Syndarinnar, er hana ei þeckir? Og saa sem ecki ydrast, hann etur og dreckur Overdugur, enn hann ed þad giorir, er sekur vid Holld og Blood DRottinns, segir Paulus i upplesnum Texta. O hvorsu hrædileg mun þessi Sekt, Christnir Menn! Vier kynnum ad leida oss i Hug, ad þeir, ed vijsvitandi, Athugalaust og Overdugir gaanga til Guds Bords, þeir væru ecki ollu minna sekir i Augliti hinns Riettlaata Guds, enn þeir sem hann Krossfestu, þvi þeir hafa Christi Vitni þar um̃, ad þeir ecki vitad hafi hvad þeir giordu, Luc. 23. Enn þad maa hvoriun einum Christnum Mañi vera vitañlegt, ad Gud hefur sendt Son sinn i Heiminn synduga Menn Saaluhoolpna ad giora, og ad hann sialfur hefur giefid sitt Lijf wt fyrir sijna Saudi, Joh. 10. Hvoriu til Stadfestu hann giefur oss sitt Holld ad eta og Blood ad drecka. Edur segied mier: Hvad er þad sem Paulus til Hebr. 10. kallar ad Foot-troda Guds Son? Og ad hallda Saattmaalans Blood almennilegt? Med hvoriu vier erum

Endurkeyptir. Mun þad ecki stappa nærri þvi, sem hier stendur i Textanum? Ad Giora Ecke Greinarmun A Drottins Lijkama. Hvad er þad aññad, Eñ ad hallda hañ almeñelegañ? Eñ Paulus seiger, ad þeir ed þvilijkt giori, Eti og Drecki sialfum sier Doom, þad er, ad þeir giori sig eilijfrar Fyrirdæmingar seka, nema þeir raadi Boot aa slijku og ydrest af Hiarta. Komi þier þvi til Hugar, syndugur Madur, ad þu ecki hafir so verduglega geingid til Guds Bords, sem þad hefur byriad, þaa orvænt þier ad sonnu ecki Guds Naadar, helldur ydrast, og laat þier ei til Hugar koma, ad brwka þessa hiaalpsamlegu Nautn, fyrr enn þu hefur lært ad reyna og proofa sialfañ þig, svo sem byriar, þvi þu sier hvilijkann Haaska þu ert vidkominn, nær þu stendur vid Herrans Bord, nema þu gialldir Varhuga vid. Drag þo ecki slijkt undann med Toomlæti og odrum Umsoifum: Þvi þu sem ert sannfærdur þar um i Hiarta þijnu, ad þu oftlega hefur Onijtt þinn Skijrnar=Saattmaala, þier mætti til Hugar koma, sem fliootast og oftast ad forlijka þig vid Gud i H. Altarisins Sacramento. Þar fyrir, þoott einginn eigi svo Ofroodur ad koma i þenna H. Stad, þaa afsakar þad hañ ecki, ad hañ hefur ei verid fier wt um Þeckingu Guds Bodorda og riettann Skilning aa sijnum Saaluhiaalpar Efnum; Þvi saa sem aan Logmaals syndgar, hañ mun aan Logmaals tapast, segir Paulus, Rom. 2. J Skijrninni verdur oss uppaalogd almennileg Hlijdni Guds Bodorda. Um hana erum vier skylldugir, þaa vier drogunst aa Legg og gietum lært ad kunna nockra Grein Jlls og Goods. Sie þier þvi fyrst umhugad, Christinn Madur, hvort þu ert Ungur edur Gamall, ad þu gaangir smaasmuglega i giegnum oll Guds Bodord, med allri Athygli, rannsaka hvad i þeim er Bodid edur Bannad, hvoriar Dygdir i hvoriu eru Bodnar, og hvorier Lestir edur Klækir þar eru Bannadir. Nockud af þessu er ad sonnu giort i þeim Bookum, er hlijda til vors Barna Lærdooms, jafnvel þoott eg Oska villdi, ad þad væri nockud greinilegar brijnt fyrir Ungdoominum og Faafroodum, helldur enn almennilega gioriſt, svo þeir lærdu ad þeckia Edli og Haattalag Christilegra Dygda, hvar af Vanart og Oedli Glæpanna er audþekt. Þeink og ecki ad vondar Hugrenningar sieu ecki Fordæmannlegar Syndir. Til hvors segir Endurlausnariñ, Matth. 5. Ad saa sem lijtur eina Konu til ad gyrnast hana, hann hafi allareidu drygt Hoor med henni i sijnu Hiarta? Hvar fyrir seigir hann: Saa sem reidist Broodur sijnum, sie Raads sekur? Þvi sagdi hann vid Pharisæana: Hvar fyrir huxid þier so Jllt i ydrum Hiortum? Matth. 9. Dragi einginn sialfann sig aa Taalar, til þess er hinn alskigni Gud, Hiartnanna og Nijrnanna Rannsakari, Jer. 17. ad hañ dæmir allt þvilijkt og fordæmir aa oss, nema vier þess ydrunst af Hiarta eins vel sem Orda og Verka; Og hvad sem hann hefur bannad ad giora og tala, þad hefur hann og bañad ad hugsa. Og uppa þad Ydraninn kunni ad nockru Leiti ad sambiooda Stærd Syndarinnar, þaa athugum Grandgiæfilega Mismun þeirra, eptir þeirra Haattalagi og Atburdum, Tilgaangi og Orsokum, er oss droou þar til; enn einginn kann ad jaata edur ydrast Riettilega þeirrar Syndar, er hann þeckir ecki Stærd hennar og Jllsku, og traudt kann Madurinn ad jaata

af

af þeim Glæp, sem hann ecke veit hvoria Verkan hefur haft i sier, edur hvad sig hefur tildreiged ad drygia hann. Þar eru til Ovitannlegar Synder, sem skie annadhvort af þvi, ad Menn vita ecke hvad giorest, so sem Paull, er hann sagdest ei hafa vitad, ad þad var hinn Ypparste Kiennemadur til hvors hann talade, Act. 23. Edur Mooder þeirra Zebedei Sona, er ei viße hvors hun beidde, Matth. 20. Þær reiknar Gud ecke Endurfæddum Manne til Syndar, þvi eingenn Fordæming er aa þeim, sem eru i Christo JEsu, Rom. 8. Enn þo med þvi Moote, ad Vanvitskann kome ecke af Asetninge til ad syndga; so Menn vilie ecke læra Guds Vilia til þeß, ad ei þurfe epter honum ad lifa. Lijkar þessum eru þær, er Menn giora af Rasande Raade, af Gleymsku, af Braadræde, so sem þegar Petur hios Eyrad af Malchus, Joh. 18. Þegar Læresveinarner þrættuduum, hvor þeirra mestur være, Marc. 9. Þegar þeir villdu kalla Elld af Himne, Luc. 9. Þessum Syndum er hinn goode Gud og so Naadugur, þoott þær i sialfum sier stoorar sieu, hvar uppaa allstadar Dæme eru; Enn oß byriar grandgiæfelega ad taka Vara aa Lijfernis Hattum vorum, og læra ad þeckia Breste vora, annars mun Braadræded og Vangiætslann ecke afbata meir þeß hattar Synder, helldur enn Vanvitskann hinar.

Nu eru þo Synder, sem Menn drygia þvert aa moote Samvitskunne, og ad henne Naudugre, hafande ad aungvu Guds Bod fyrer einhvors Tilgaangs Saker. Þvilijkar Synder kunna ad verda ad stoorum Syndum, þott þær sieu smaaar i sialfum sier; Og þad sem ecke er Synd i sialfu sier, þad reiknast fyrer Synd, nær Menn ætla þad mune vera Gude aa moote, enn giora þad ei ad siidur, þvi hann dæmer epter Asetningenum, og ecke epter Vitsmununum. J Selskap þessara Synda var Aaronis og Mariu, er þau mogludu i giegn Gude og Moyse, Num. 12. Davids, þegar hann took Hwsfrw Uriæ Hetithers Frillutake, enn sloo Boonda hennar i Hel med Sverde Amons Barna, 2. Sam. 11. Þessar Synder verda ei afþvegnar nema med heitum Ydrunar Taarum, þvi stoor Saar þurfa mikla Grædslu; Enn hinn Riettlaate Gud er vandur ad Virdingu sinne, og lætur ei ad sier hæda, Gal. 6. Þeß er og ad giæta, Br. M. ad þær Synder, sem oß ydduglega henda, þær reita hinn Mißkunsama Gud nærsta miog til Reide, þvi þad mætte sijnast, ad Menn med soddann Ogudlegu Athæfe giordu Leyk til þeß ad styggia hann. Oß verda Syndernar med þvi Fororde tilgiefnar, ad vier leggium af vora Jllsku Breitne, Laatum af Jllu og lærum Gott ad giora, Es. 1. Þvi ef vier æfum þannenn Syndena, jafnvel þoott vier laatunst ydrast hennar, þa mætte virdast ad hin sijdarsta Synd hefde forbroted Fyrergiefningu allra hinna, enn eingenn veit hvort hann fær Toom til ad ydrast hennar, edur hvort Gud vill liena honum Ydran til Apturhvarfs (sem Paulus ad Orde kiemst, 2. Tim. 2.) er so leinge hefur giort Handverk af Syndenne. Þar fyrer byriar ollum þeim, er til Guds Bords gaanga, ad athuga, ad þær Synder er oß henda epter þad, ad vier hofum lofad Gudi Betrun Lijfernisins, þær eru þijngri og orka meiri Hegningar enn hinar, er vier aadur giordum, þviad i þessu Sacramenti verdur Skyrnar Saattmaalinn endurnijadur, sem aadur er sagt, og vier verdum ad niju Tryggrofar vid Gud,

nema vier af fremsta Megne leggium allt Kapp at ad hallda vor Sære. Vid þessum Syndum er flestollum nockud hætt, Jafnvel þeim sem ecke eru laangt fraa Guds Veige, og þær henda Guds Born aa Stundum; enn um̃ þa vil eg ecke tala, sem eru so samdauna vordner Raanglætenu, ad þeir ecke þeckia Syndena fyrer Synd, þoott þeir vite ad Gud hafe bannad hana, þeir leidriettast ecke vid Guds Straff og Alogur, þeir taka Syndena i Forsvar, og vilia Riettlæta hana, reidast Guds Pienurum edur og goodum-Vinum sijnum, þa þeir aatalder verda. Þeir elska Syndena ecke alleina aa sialfum sier, helldur og samsinna þeim er hana giora, Rom. 1. Þad hender Guds Born, ad þad gooda sem þau villa giora, þad giora þau ecke, Rom. 7. Enn þesser elska eckert Gott og hafa Gaman af Illu, bæde hiaa sialfum sier og audrum, lockande adra til vondra Verka, og eru i þvi so sem nockurskonar Um̃bodsmenn Fiandans, þvi þad er hanns Embætte. Þessa nefner St. Paull, 1. Tim. 4. Forbrendar Samvitskur, og munu þeir verda iller Apturhvarfs, nema þeim sie i Tijma Grædslu leitad. Nu er eingenn Efe aa þvi, ad soddann Manneskiur finnast i Guds Kyrkiu, fyrer þvi verd eg hier um̃ ad tala, þvi þa er Gudleysed komed aa hina efstu Troppu, og gietur varla hærra stijged, og eingenn Hlutur er þeim vijsare enn eilijft Helvijtis Baal, nema þeir laate sig Leidrietta af Guds Anda. Og er þad ecke noog, Christenn Madur, ad þu lærer ad þeckia Syndena af Yfervegan Guds Bodorda, edur hennar Haattalag, af þvi sem nu er sagt. Þu aatt þar ad auke ad rannsaka þitt eiged Lijferne, og gaanga ytarlega i Riett vid sialfann þig. Þad var Olucka vorra Fyrstu Forelldra, ad þau lærdu ad þeckia hid Illa, Gen. 3. Enn Gud er svo hagur ad hann kann ad giora gooda Hlute af vondum, og þvi kan̄ Þecking Illskunnar ad gagna oss til Saaluhialpar, þo meir aa sialfum oss enn aa odrum. Þad er ecke Mannvant ad þeckia hvad Illt er i an̄ars Fare, en̄ sa sem dæmer sialfann sig, han̄ verdur ecke af Drottne dæmdur; Þad skiedur, nær Menn bera Lijferne sitt, Ord, Giorder og Hugrenningar samann vid Guds Logmaal, enn þar hlijfest margur vid, sumer þess vegna, ad þeir ætla, ad þar mune ecke so skarprar Rannsoknar vidþurfa, adrer hinns, ad þeir kvijda vid ad ysa hin svonu Saarenn, þvi þau svijda Magnlega, nær þau Ran̄sokud eru med Logmaalsins Brodde, giætande ecke ad þvi, ad soddann verkar þo epter aa fridsamlegann Avoxt Riettlætesins, Hebr. 12. Færa Menn þvi alla Hlute sier til Um̃bootar, ecke einasta fyrer audrum, hvad ecke er so ad laa, helldur og fyrer sialfum sier og Doome sinnar eigenn Samvitsku, so ad hann sem laangt er fraa þvi ad elska Gud um̃fram̃ alla Hlute, hann kallar sig vel hafa giort og afloked þeirre Skylldu, ef hann les Bæn sijna Kvolld og Morgna, edur syngur honum eirn Psalm til Dijrdar. Saa sem er giarn aa Bloot og Svardaga, nefner þad Hreyste-Yrde. Hann sem afræker Guds Hvijldar daga, nefner þad Astundan og Ydiusemi. Ef Menn formæla ecke Fodur og Moodur, Jafnvel þo þeir sieu þeim Ohlijdnger i ollu þvi sem þeir þora, og ef Forelldrarner klæda Bornenn og fæda, þo þau lijde ad þau alest upp i ollu Reydeleyse, og jafnvel sumer i Skom̃um og Odigdum, þa þykiast Men̄ hafa giort mikenn Part Skylldu sinnar; Saa sem Reidenn er og Heiptrækur, hann

kallar

kallar þad Hugprijde. Hinn Lausläte vill láta Oſkickannlega Umgeingne heita Mannudleika og Kurteyſe. Hinn Agiarne nefner ſig Framſijnann og Forſiálann. Þegar Menn ecke bera opeñberlega falſkañ Vitnisburd edur ſveria Lijge uppá ſinn Náunga, þykiaſt Menn vera ſkillder vid hid Attunda Bodord, og kann ſkie ſumer hrædeſt þo meir Doomarann enn Gud, enn ecke eru Menn ſo liwſer a þad alltijd ad bera Sannleikanum Vitne. Litla Smaa-Skreitne edur Svigurmæli um ſiñ Náunga, Lausmælgi, Rogburd á millum goodra Vina, edur illt Umtal i Hofdingianna Eyru, þad reikna Menn ſumer ad aungvu, eñ ſumer ad hvorsdags Breſtum, ſem Gud mune audvelldlega ſtijga fram yfer, þoott Menn ydreſt þeſs ecke miog, edur æfe þad ad Gamne ſier, epter þad þeir hafa feinged Fyrergiefning Syndanna; athugande ei þad, ad þvilijkter nærſt til ad fordæma Syndarañ, ſem fyrer litla edur aungva Synd er hallded. Þvi ſegier Lauſnarenn: Sa ſem uppleyſer eitt af þeſſum minſtu Bodordum, hañ ſkal minſtur kallaſt i Himnarijke, Matth. 5. Þad er, Hañ ſkal þar alldrei inkoma. Þanniñ byggia Meñ Odygdunum, Andſkotans Dætrum, Heima-Jordina, ſem er Hiártad, af hvoriu framkoma vondar Hugſanir, Mannſlog, Hoordoomur, Frillulijfi, Þioofnadur, Fals-Vitni, Gudlaſtanir, Matth. 15. Enn reka Dygdirnar, Edur riettara ad ſegia, Myndir Dygdanna i Hiáleigurnar, ſem eru Læte vor og wtvortis Hegdan, til þeſs ad forſvara Heimagardiñ, og byrtaſt hvor fyrir audrum: enn Menn giæta ecke ad þvi, ad hann ſem Augad hefur ſkapad, Pſ. 94. hann ſier hvad i Myrkrunum er huled, þvi ſkylldu Menn þa vilia fegra ſitt Maal fyrer honum? Þvi dylia Meñ Siwkdoomenn fyrer Læknaranum, þvi ſtriwka Menn Purpura Litnum yfer hin fwnu Saarenn? Þad heiter ad færa Chriſt i eina Purpura Kaapu, ad dylia fyrer honum Meinſemder ſijnar, enn ætlaſt þo til Lækningar af honum, eins og þeir lietu ſem hann Konungur være, enn hielldu hann þo fyrer Illrædis-Mann. Guds Sonur má aungvann Hooru Farfa lijda á ſinne Brwde, ecke meir enn Gud villde láta bera Skiækiu edur Hunds-Verd iñ i ſinn Helgedoom, Devt. 23. Þar fyrer ſie þad Aliktan þeſſa mijns Maals, ad þegar þu, Chriſteñ Saala, ætlarad Trwlofaſt þijnum Brwdguma i H. Altareſins Sacramento, hvar þu att ad verda eirn Ande med honum, og Limur hanns Lijkama, 1. Cor. 6. Þa laat alla Hræſne fiærre vera. Nañ ſaka þinn Lifnad, ſem ádur er ſagt, ber eckert i Bæteflaaka fyrer þier hiá honum, ſem veit hvad med Mannenum bijr, Joh. 2. Skignſt epter hvad þier hefur framfared á Guds Vegie ſijdann þu ſeinaſt lofader þijnum Frelſara Trygdum, hvort þu hefur tamed þitt illſwſa Holld um nockurn Loft er á þig ſtrijdt hefur, og hvoria Atburde þu haft hefur til ad Kroſsfeſta hiñ gamla Manneñ, Rom. 6. Yfervega hverſu ſtoor HErra þad er, ſem þu moodgad hefur, ad hann hefur Valld til ad kaſta Lijfe og Saalu i eilijfañ Elld, Matth. 10. Og þo er hañ ſo þoleñmoodur og goodgiarn, ad hañ hefur ſparad þig og láted allt epter þier midt i Syndunum, og kañſkie valla feinged eitt Packlætis Ord þar fyrer af Munne þijnum, hvorn þu hefur til alls añars brwkad; Hugleid þeirra Dæme, ſem ecke hafa meir syndgad eñ þu, hvorſu Gud hefur hegnt á þeim Ovirdingar ſinnar. Laat ſo þijna Illſku


kienia

kienna þier, og þitt Frahvarf giörá þig vitrann. Þeck og hvörsu illt og biturt þad er, ad þu hefur yfergiefed DRottenn Gud þinn, Jer. 2. og þegar þu þannenn giörer, þa gietur þu varla fared á Mis vid þad, ad Hiarta þitt brænde i þier so sem annad Vax, af Ihugan Guds Naadar, af Þeckingu Syndanna, af Efterbid Helvijtis Pijsla, sem þier eru brunar, nema þu ydrest af Hiarta. Enn vilie ecke hier med vorkast, þa latt samt ecke af ad bidia Gud um̃ sinn H. Anda, sa ed skape hreint Hiarta i þier, og giefe þier nijann vissan̄ Anda, Ps. 51. hvörs hann maa þier ecke synia vegna sinna Fyrerheita, þvi ef Madurenn stood upp a Naattar-Þele, til ad faa Vin sijnum þad hann vidþurfte, Luc. 11. Ef hinn Ranglaate Doomare, sem hvörke Ottadest Gud nie Mein̄, ef han̄ liet skipast vid Praa-Beidne Eckiunnar, Luc. 18. Ef vier, sem vonder erum, kunnum ad giefa Bornum vorum goodar Gaafur, hvad miklu framar mun vor himneske Fader giefa þeim H. Anda sem hann þar um̃ bidia, Luc. 11. Þetta stendur Æfinnlega stödugt, þvi hann er trwr, sialfum sier kann hann ecke ad neita, 2. Tim. 2. Þess heitara sem þetta Angur er, þess þægra er þad Gude, allt fram̃ til þess ad þu taker til ad efast um̃ Guds Naad; enn vid þvi er ecke hætt, hann mun fliootur verda til ad laata Trwna lifna, nær þu ert so a þig komenn, og sijna þier Krapt sijns Sonar Forþienustu, med öllum hanns Velgiörningum: Þa heiter þad so: Sæler eru þeir sem hwngra og þyrsta epter Riettlætenu, þvi þeir munu sadder verda, Matth. 5.

Þar fyrer, Guds Barn, þu hvörs Hiarta hanns Ande hefur sundurmared med Þeckingu Syndarennar og Guds Giædsku, þu skallt þess fullöruggur vera, ad hvar sem ad Syndenn yfergnæfer, þar yfergnæfer Naadenn miklu framar, Rom. 5. Fyrer þvi, nær þu stendur vid DRottenns Bord raudur af Ovirdingu vegna þinna Synda, eins og Ephraim, Jer. 31. Þa lijt Trwarennar Augum a þad Saklausa Guds Lamb, sem burt hefur bored Heimsins Synder, Joh. 1. Hvörn Gud hefur þar fyrer sett til Naadar-Stools fyrer hanns Blood, Rom. 3. Hann er Forlijkun ecke einasta fyrer þeirra Synder, er lifdu a hanns Dögum, helldur allrar Veralldarennar Synder, 1. Joh. 2. Þar fyrer er hann og fyrer þijnar, hvörsu miög sem þu ert hinum verstu Lijtum hladenn, þvi Harmþrwngenn og Sundurknosadann Anda mun hann ecke fyrerlijta, Ps. 51. Og til Stadfestu þar um̃, giefur hann þier i H. Alltaresins Sacramento þan̄ sama Lijkama sem brotenn var fyrer þig, segier Paall hier i Textanum. Þad skiede, þegar þijnar Synder er hann bar uppa Tried, þegar þær mördu hans̃ Allraheilagasta Lijkama i sundur a Krossens Gaalga, þegar Ogudlegra Manna Hendur nidurbrutu þad Mustered, er han̄ sialfur uppbygde aptur a Pridia Dæge, Joh. 2. þier til Riettlætis. Hafe nu hin eilijfa Giædska sparad þig midt i þeim Syndunum sem Krossfestu hann, þvi mun hann þa ecke Nadugur vera, þar þu ert a Vegenum ad hverfa aptur fraa þeim? Enn þoott ad Ydranenn og Trwenn sieu fullnoogar til ad ödlast Kvittun Syndanna hia Gude, þa kan̄ þo hvöruz þeirra ad standast fyrer utann nya Hlijdne, þvi nema so sie, ad nockur hafe fastlega asett ad sporna vid þeim Glæpum, hvörra Minning ad hönum vard so beisk i Ydraninne,

ranenne, þa-a þad heima hiaa honum er Petur segier, 2. Pist. 2. Ef ad þeir, epter þad þeir hafa umflwed Saurganer Heimsins, fyrer Þeckingu DRottenns vors JEsu Christi, flæktust i þeim aptur og verda sigrader, þa eru þeirra hin Sijdare Kior verre hinum Fyrre, þvi betra hefde þeim vered alldrei ad hafa þeckt Veg Riettlætesins, enn, ad þecktum honum, ad hverfa fraa þvi helga Bodorde, sem þeim er i Hendur feinged. Enn þad hender þaa, sem segier i hinum sama Ords-Hætte, ad Hundurenn geingur aptur til Spijunnar, og þveiged Svijn vellter sier i hinum sama Saur. Nu fyrer þvi ad hier er ecke vid ad dyliast, enn Syndumspillt Naattura er eitt Otamed Dyr, þa er Naadlegt ad taka til ad leggia vid hana Beitsled, nockru aadur enn Menn fara ad forlijka sig vid Gud i Sacramentenu, nema Menn hafe þad aadur giort laangvaranlega, sem þo mun sialldseinged: Eingenn vond Tilhneiging, sem ecke er ad nockru Leite deydd, maa fylgia oss, Christner Menn, til þessa Bords. Ef Syndenn lifer i oss, þa erum vier dauder i henni, enn eingenn giefur daudum Manne ad eta. Þetta er Andleg Fæda, og þvi hlijtur saa Andlegu Lijfe ad lifa, er hana medtaka skal. Brauded og Vijned medtaka aller og þar med Guds Lijkama, enn þar hiaa er önnur Nautn, umm hvoria DRottenn talar, Joh. 6. Saa sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hann skal ecke Daudann smacka ad Eilijfu. Hennar verda þeir einer hluttakande, er sig hafa verduglega tilreidt,, hun skiedur opt fyrer utann Sacramented, enn þo aa hun i Sacramentenu hellst ad skie; vilier þu hennar niootande verda, þa siaa til ad þu framkomer skrijddur Brwdkaups Klæde, Matth. 22. Annars verdur ecke af Trwlofunenne vid þann Fegursta medal Mannanna Sona, Ps. 45. Þad er ei noog ad hafa umm Stundarsaker wthreinsad Hiartad med Sooplinum Ydranarennar; helldur byriar strax ad safna i þad hinum bestu Dygdum: So ef hinn Ohreine Ande kann aptur ad hverfa med Sio ödrum sier verre, ad hann finne þad þa ecke toomt, og verde so þitt Sijdara argara hinu Fyrra, Luc. 11. Veit eg ad þetta er eirn torvelldur Hlutur, þvi þad er sw Baraatta mille Holldsins og Andans, er gyrnest hvört i moote ödru, Gal. 5. Enn hvad skulu Menn segia? Þar sem eingenn Baraatta er, þar er eingenn Sigurvinning. Þar fyrer saa sem ætlar sier ad uppbyria nijann Lifnad, hann legge mest Kapp aa ad brioota þær Gyrnder, sem hann er mest tilhneigdur. Þier er ecke Okunnugt, ef þu leggur nockurn Hug aa þitt Maal, af hvorium Hlutum þu mest verdur lockadur til ad giora Illt, varast þaa hina somu, þoott ei sieu þeir vonder i sialfum sier. Eingenn Hertoge strijder leinge einnsamann, hvorsu vitur edur volldugur sem hann er; og so eru Lesterner, ef þeir eru einer umm sig, þa er hægra ad fyrer koma þeim. Umm fram alla Hlute, þa laat Gud siaa, ad þier sie Alvara ad lifa vel, og þa er hanns Adstod vijs, sem þier dregur Þusundsinnum meir enn aller þijner Atburder, þvi aan mijn megned þier eckert, sagde JEsus vid Læresveinana, Joh. 15. Saa sem ecke hatar Syndena, hann geingur Overdugur til Guds Bords, enn saa sem hana hatar, hann hefur alvarlegann Asetning til ad laata af henne, þvi eingenn vill Umgeingne hafa med þeim sem hann ad Hatre hefur. Laat Gud finna þetta hiaa þier, nær hann Rannsakar Hiarta þitt, og sviik ei sialfann þig, hann gietur þu ecke svik-

ed

ed. Eg veit þad er Torvelldt ad láta allt aa moote Hollde og Bloode, enn hafer þu nockurn Tijma af Hiarta ydrast og sundred til Guds Reide og Samvitskunnar Veike; hafe þijnar Synder giort þier nockurn Tijma Helvijte heitt: þa Raadgast um vid siaalfann þig, nær þu freistadur verdur af Einhvorre Synd, hvort þu eiger ad vinna þad til skamvinns Munadar, ad þola strax aa epter slijka Kvol. Munde David hafa viliad leika sier ad somu Synd, epter þad hann hafde so leinge Taarast fyrer Gude? Munde Petur ecke helldur hafa i Daudann geinged, enn ad afneita Christo, helldur enn ad lijda ad nyju Atolur Samvitsku sinnar, þegar hann gieck wt og griet beisklega? Matth. 26. Ætla þier og ecke þad, ad laata epter þier eitt Brest, enn þiona Gude i hinu, þvi saa sem brijtur eitt Bodorded, hann er i ollum sekur, segier Postulenn, Jac: 4. Eingenn af þijnum Dygdum kann ad standast fyrer Guds Riettlætis Doome, þvi munu þær þa Riettlæta Glæpena? Snijd þvi allt Ogudlegt Athæfe burtu, so miked sem þu fær orkad, enn þar sem þijner Kraftar dvijna, þa tekur Christi Forþienusta vid. Meina og ecke þad sie noog, ad þu nockra Stund gaanger aa Guds Veige, þvi þeim sem er trwr allt til Daudans, mun eg giefa Coronu Lijfsins, seger DRottenn i Opinberingar Bookenne, 2. Cap. Og eg vil enn framar segia: Ad þad vill helldur fordæma þig, enn Riettlæta, ad þu hefur Einhvorn Tijma Gude þioonad, ef þu hverfur þar fraa aptur, þvi þad er Teikn til þess, ad Gud hefur lient þier so mikla Krapta, ad þu gietur geinged hinn rietta Veg, sem til Lijffins liggur, verdur so Skulldenn hiaa þier, enn ei hiaa Gude. Umfram alla Hlute, siaa til ad þu Ottest hann og elsker, þa munt þu aungvann Saattmaala giora vid hans Ovine, sem eru Hollded, Heimurenn og Diofullenn, helldur munu allar Christelegar Dygder siaalfkrafa spretta i Akre Hiarta þijns, eins og Korned vex fyrer utann Mannsins Umak, þa Sædenu er i Jordena kastad; Og þad er saa einaste og beinaste Vegur til ad lifa Gudrækelega, og saa sem aa honum er, fer alldrei villur Vegar. Nu hefe eg einfalldlega sagt hid hellsta, er þeim byriar ad hugleida, sem vilia verduglega til Guds Bords gaanga, enn eg hefe sagt þad Bornum og Faafroodum Monnum: hina sem vijsare eru og kunna Guds Veg, þaa næger ad minna aa Christi Ord, er hann sagde, Luc. 12. Sa þioon er veit sijns Herra Vilia og giorer hann ecke, hann mun morgum Hoggum sleigenn verda. Enn þu, sem Foornfærdur ert fyrer vorra Synda Skulld, HErra JEsu Christe, styrk þu oss bæde i þessu og ollu odru Verke Saaluhiaalpar vorrar. Bænheyr þad vor Frelsare; Hvorium med Fodur og H. Anda sie Magt og Vellde, Lof, Heidur og Prijs um Allder, AMEN.

# A Føstudagenn Lánga.

## Exordium.

INgre Skiepnu sinne hefur Guds Gladska meira veitt enn Syndugum Manne, og varla er þoo nockur Tregare til ad þeckia hanns Giædsku. Þegar Adam hafde eckert aa moote Gude giort, og ecke af honum þeiged nema Skopunena, og so

so Valld yfir hinum ødrum Skiepnum aa Jördūni, þaa er lijklegt ad einginn Hlutur hafi honum Jnndælli verid, enn ad lofa sinn Skapara, og gledia sig i Undran hañs Daaemdarverka; Enn sijdann Gud honum meira veitti i Fyrirgiefningu Syndanna, og Fyrirheiti þess Blessada Kvinnunnar Sædis, Gen. 3. Þa eru Adams Nidiar bitnir fraa þeim Hlutum sem heyra til Guds Dijrdar. Heilagir Einglar, sem frami fyrir honum standa; hafa einasta hinn Dijrdlega Skapnad og Sælu Vist med Gudi af hanns Hendi þeigid. Guds Sonur hefur Abrahams Sædi, enn ecki þaa, uppaa sig tekid, Hebr. 2. Samt eru þeir Þioonustusamer Andar, Hebr. 1. Eñ Madurinn, hvørn Gud hefur skapad, Skapadann Endurleyst, Endurleystann Endurgietid, Endurgietinn; med JEsu Holldi og Bloodi mettad og dryckiad, og upplijst med sijnum Astgiøfum, honum finnst lijtid þar til, og er nærsta Toomlaatur i sinni Guds Þioonustu. Einglar komu og þioonudu Christo i hanns Manndoomi, Matth. 4. Eñ hanns Foolk villdi ecki þiona honum; Eingillinn bodadi hanns Gietnad, þeir prijsudu hanns Fæd-ingu, Luc. 1. og 2. Eingillinn kom af Himni og styrkti hann i Kvolinni, Luc. 22. Eñ hanns Eiginn giordu hanns Saalu hryggva allt i Daudann. Einglarnir bodudu hañs Upprisu hiaa Grøfinni, enn hanns Foolk og Prestarnir keyptu Liwgvotta til ad mootsegia henni, Matth. 28. Øll Skiepnann mænir med wtriettu Høfdi eftir Guds Barna Auglijsingu, segier Paulus, Rom. 8. og hun stynur til samans, og er til samans so sem i Barn-Burdi. Fyrir vora Skulld er Jordinn bølvud; Fyrir vora Skulld maa hun Þyrna og Þistla bera, Gen. 3. Fyrir vora Skulld er hun Prældoominum undirokud; Enn i øllu þessu auglijsir hun þo Dijrd sijns Skapara, hvørn Madurinn vanvirdir med Oþacklæti og vondum Verkum. Ef ad þessir þegdu, þaa mundu Steinarnir braadlega hroopa, sagdi Frelsarinn vid Gydinga, þaa Børninn sivnngu Hosianna, Matth. 21. O Herra Gud! Høfdu Steinarnir Orsøk til ad hroopa þaa Christur Jnnreid til Jerusalem? Hvad høfdu þeir ecki, þegar hann var af Jerusalem so sem Bølvan wtrekinn? Ef daudir Hlutir maattu vakna vid, þaa Lijfsins HErra kom til sinnar Arfleifdar, hvad maattu þeir ecki þegar Liifid doo aa Krossinum? Skylldu Musterisins Veggir hafa giefid Hliood af sier, hefdu Børninn þagad? Hvad var þaa øll Verølldinn ecki skylldug ad giøra, þar allir løstudu, hæddu og brixludu, og aa Krossins Gaalga negldu hennar Skapara? Þetta hroopar øll Naatturann fyrir Oþacklaatu og Ogudlegu Mannkyni aa Pijslar-Deigi allrar Veralldarinnar Lausnara; Þvi sampijnist hun sijnum Skapara i hanns Pijnu, so sem ecki hefdi hun Rænu aa ad giøra sijns Embættis Skylldu, þar Manneskiann var so assinna, ad hun aflijfadi sinn Lijf-Giafara. Þessi Naatturunnar Umbrot hefi eg aasett i Dag fyrir ydrum Kiærleika ad yfirvega. Og vilium vier þar fyrir, i þetta Sinn, hugleida þau sierlegustu Furdu-Verk sem ad skiedu i Pijnu vors Endurlausnara, Med þeim Lærdoomum sem vier oss til Huggunar og Aminningar taka meigum þar af.

Styrk oss til þessa Verks O Gud! J JEsu Nafni, AMEN.

M m Utlegg-

## Utleggingiñ.

HAr Urdu MYrkur Yfer Alla JOrdina, Og SOOlinn Misti Sijna BYrtu; segier i Textanum. Hvort þessi Formyrkvan hafi einasta skied i Gydinga Landi, edur yfir allann Heimiñ, vil eg i þetta Siñ ecki faa mier til Orda. Vier viljum alleinasta færa oss i Nyt þetta Daadseimdarverk, til Gudrækilegrar Umþeinkingar, vitandi ad þetta, so vel sem allir Guds Giørningar, eru skiedir oss til Lærdooms. Hvørsu matti hid Blessada Heimsins Lioos lijsa Mønnunum, þar Manaña Endurlausnari var kvalinn, og þad skiæra Lioos, sem upplijsir alla Meñ, sem koma i þeñañ Heim, Joh. 1. took undir ad gaanga? Sool Riettlætisins, Mal. 4. var sinni Undirgaungu nærri, þar Daudans Skugga took til ad slaa yfir þau Allra Helgustu Augu, sem ad eru Þusundsinnum skiærari enn Sooliñ, Syr. 23. þvi var þess øll Von, ad hin Naatturlega skamadist sijn ad lijsa. Þegar Meñ siaa eirn vidurstyggilegañ Hlut, sem allir blygdast vid Augunum ad lijta, þa snua Meñ sier undañ, edur jafnvel byrgia fyrir Augu sier. Soolina kalla spaker Meñ Auga Heimsins; Hun hefur alldrei so blygdunarlaust Verk yfirskinid sem þetta, ad Gudlausir Heidingiar og Hardsvijradir Gydingar tooku Konung Dyrdarinnar af Lijfi, þar sialft Lijfid var aflijfad, þar Daudans Daudi matti Dauda deya, Os. 13. þar Daguriñ vard ad Noottu Myrkraña Verka; þvi byrgir Naatturann fyrir Augu sier, ad hun ei skylldi horfa a, ad Naatturuñar Herra væri þanninn af Døgum radinn. J mikilli Sorg og Harmkvælum plogudu Judar ad byrgia sijnar Asiaanir. David gieck med huldu Høfdi yfir um Lækinn Kidron, 2. Sam. 15. So segier Micheas 3. Cap. Siaendurnir munu til Skammar verda, og Spaasagnararnir blygdast, og þeir munu allir byrgia sijnar Asioonur, þvi þar er ei Andsvar fraa DRottni. Hier byrgir Himiniñ sitt Andlit, og þolir þar ecki yfir, ad hann, sem uppfyllir bædi Himin og Jørd, 1. Reg. 8. Hann, i hvørs Augliti Himnanna Himnar ecki eru hreinir, Job. 15. Ja, hvørs Haasæti ad Himininn er, Es. 66. Hann skuli aa sinni Footskør einum Madki og ecki Manni lijkur verda, Ps. 22. Formyrkvun Soolarinnar orsakast þar af (eptir þvi sem hinir vijsu segia) ad Tunglid geingur aa milli Soolarinnar og Jardarinnar. Þo skiedi þad ecki i þessari Formyrkvan, þar Tunglid var i sinni Fyllingu, hvar fyrir hun var aa mooti Naatturuñi; Þvi giefur þetta mier Orsok til ad þeinkia þar um, ad vorar Daudlegar Illdiordir settu sig aa milli Christi Mañdooms i Pijnunni, og þess blijda Auglitis Fødursins, hvør ad er Sool þeirrar Himnesku Jerusalem, Apoc. 21. So ad Geyslar hanns Fødurlegrar Elsku naadu ecki ad skijna i giegnum þær, yfer þañ Elskulegasta Guds, og svo Velþocknan sem hann hefur i sijnum eingietna Syni, Matth. 3. umhverfdist (ef so mætti ad Ordi komast) i hinn stoora Byrdar-Þwinga hanns Reidi, hvør ed kvaldi JEsu Blessadañ Lijkama og Saal allt til Daudans. Siaa hier, Christinn Madur, þañ breñheita Kiærleika lifanda Guds, sem hañ hefur elskad þig med, þegar þu varst hañs Ovinur, Rom. 5. Er ecki þetta skied til þess, ad þijnar Syndir ecki adskilie þinn Gud og þig? Es. 59. Og þegar ad Skuggi Myrkraña Verka, og hinir svørtu Dampar þiña

Ill-

Illgiørda og Boodorda-Brota, stijga uppi Himenenn fyrer hinn Riettlaata Doomara, ad Christur med sinne Forþienustu afmaae þær þa, so sem annad Sky, Es. 44. og kaste þeim i Hafsins Diwp, so þeirra ecke ad eilijfu minnst verde, Mich. 7. Um þessa Formyrkvan spaaer Amos, i 8. C. a þennann Haatt: A þeim Tijma vil eg laata Soolena undergaanga um Middeige, og allt Landed myrkt verda aa Deigenum. Minn HErra JEsu! Þvi munde ecke þad blessada Lioos Veralldarennar innebyrgia sinn Liooma, þar Lioome Fødursins Dijrdar og Jmynd hanns Guddoomlegrar Persoonu tæmde sialfann sig; so sem Paulus ad Orde kiemst, Phil. 2. Og Guddoomurenn (so ad segia) hulde sitt Auglit fyrer Manndoomenum, þegar Christur leid? Þvi skyllde ecke Landed myrkt verda? Þegar Lijffsins-Trie, hvørs Blød ad þiena til Heidingianna Lækningar, Apoc. 22. var af heidenna Manna Myskunarlausum-Høndum upprætt af Lande Lifande Manna. Epter þad mikla Myrkur, sem skiede Fordum i Egyptalande, Exod. 10. þa fylgde Jsraels Sona Frelsun og Utleidsla af þvi Prældooms-Hwsenu, enn þessum Myrkrum hefur fylgt eitt eilijft Frelse fraa Syndarennar Prældoome. Epter Myrkurenn i Egyptalande kom Slaatrun Paaskalambsins, Exod. 12. Enn i þessum Myrkrum verdur þad sanna Paaska-Lamb slaatrad aa Krossens Altare, sem ber allar Veralldarennar Synder, Joh 1. Gydingar høfdu beded Christum um Teikn af Himne, Luc. 11. Siaa, hier er eitt Teikn, sem skied er i Augum allrar Veralldarennar. Hvilijkur mun hann vera i Dijrdenne, sem so er kroptugur i Pijnunne? Hvør mun hann vera Lifande, sem er so Volldugur Deyande? Hvad øflugur mun hann Drottnande, er so drottnar yfer hinum miklu Høfudskiepnum i Mynd eins Þioons lijdande? J Exod. B. 10. C. skipade Drottenn Gud Moysi ad upprietta sijna Hønd til Himens, ad þar yrde Myrkur yfer allt Landed, og þar vard Myrkur og Þoka i Egyptalande um þriaa Daga, so einn Madur saa ecke sinn Broodur, enn øllum Jsraels Sonum var lioost i þeirra Hybijlum: Enn siaaed! Hier er meir enn Moyses, hier er JEsus Sonur Guds Lifanda; Hann wtbreider baadar sijnar Hendur a moote Himnum a Krossens Trie: Hier verdur Myrkur yfer allt Landed um þriaar Stunder, enn i þessu Myrkre hefur aullum andlegum Jsraels Sonum upprunned eitt skiært og sannarlegt Lioos, so einn Brooder þarf ei audrum ad kienna, helldur verda þeir aller af Gude lærder, Jer. 31. Og aller þeir ed aa JEsum Christum trwa, hvør ed gaf sitt Lijf wt fyrer sijna Brædur, þeckia hvør annann fyrer Systur og Brædur, og eru eitt Innbyrdis, so sem hann og Faderenn eru eitt, Joh. 17. O HErra Gud! hvad skal eg hier til segia? Eg vil brwka þad sama Orda Tiltæke sem Jeremias i 2. Cap. brwkar yfer Syndum Jsraels Foolks, segiande: Himeneirn skyllde grwa þar yfer, hrædast og skielfast mikelega. Hier sijnest mier ad Himenenn og Himnanna Kraptar giøre af Alvøru þessa Befalning Drottenns. Enn þu, Christenn Madur, sem ert hin veikasta Boola af Floode þessarar Veralldar, kiemur þier ecke til Hugar, ad byrgia þitt Andlit, sem er fullt af Ovirdingu, þegar þu heyrer ad Soolenn, sem Daglega upprennur yfer þier Raanglaatum, Matth. 5. Hun sortnar i þijns Skapara herfelegustu Nidurlægingu? Veitst þu ecke, hvad St. Paull

ſegier? Eph. 5. Þier vorud Fordum̄ Myrkur, enn nu erud þier Lioos i DRottne, gaang ed ſo ſem Liooſsins Børn. J þeſſum miklu Myrkrum, ſem þu heyrer i Dag vera talad um̄, hefur Leoned af Kyne Juda, Apoc. 5. Myrkranna Høfdingia ſigrad og Herleid inguna ad Herfaange teked, Eph. 4. Og þig, ſem eilijflega aatter ad kveliaſt i yſtu Myrkrum med Ope og Tan̄agniiſtran, þrifed wt af þeirre Griſiunne, hvar eckert Vatn var in̄e, Zach. 9. Paulus ſkrifade þeſſe Ord til þeirra i Epheſo, ſem af Heidingium hofdu Chriſtner giorſt. Þu ert og Chriſtenn af Heidingium komenn, hvorier af Gude eckert viſſu. Seig mier: Hefur þu aflagt Verkenn Myrkranna, ſijdann þu heyrder JEſum a Kroſſenn fyrer þig uppheingdann? Þegar þu les, ad þu ſkuler Ottaſt og elſka Gud, enn fremur þo aan Um̄þeinkingar þad honum verſt lijkar, ſem er ſyndugt Athæfe, eru ecke þad Myrkran̄a Verk? Þegar þu huxar Jllt i þijnu Hiarta og fremur allar Odaader under Skyne Meinleyſeſins og Gudhrædſlunnar, enn veiſt þo ad hann ſier hvad i Myrkrunum er huled, Syr. 23. heiter þad ecke, ad vilia blinda hann, ſem Augad hefur ſkapad? Þa þu ſier eirn Veſæling Naud lijda, ſem eins miked fær de in̄ i Heimenn og þu, og allt eins miked mun burtu bera, enn þu byrger þijn Augu fyrer honum, og ſtijngur þau helldur wt, enn ad þu ſkuler ſiaa Aumur aa honum, er þa ecke æred myrkt fyrer Augum þier? Þegar einum geingur i Vil, og hanns Lucka er þier þo eingenn Aſdraattur, enn þitt Hiarta gremſt yfer þvi, og þu ert Raangeigdur af hanns Velgeingne, munt þu þa, fyrer Myrkre þinnar Ofundar, gieta ratad þann Veg, ſem Guds Børn feta eiga inn til Lijfſins? Þegar þu elſkar þijn eigenn Lijte, og Biaalkenn i þijnu Auga ſkygger aa alla þijna Klæke, enn Flijſenn i Naungans Auga er þier aavallt fyrer Sioonum, Matth. 7. Er þad ecke Svartnætte Eigenn-Þoottans? Þegar einhvor af Mannlegum Veikleika giorer edur talar þier nockud aa moote, enn þu ſieſt ecke fyrer, Jafnvel ad voga þinne eigenn Velferd honum til Olucku, Mun þa ecke Myrkur Fooſkunnar apturbyrgia þijn Augu, ſo þau gæe ecke ad, ad ſkam̄a Stund verde Hønd Høgge feigenn? Þegar Satan hefur þig uppa eitt ofurhaatt Fiall, og ſijner þier øll Rijke Veralldarennar og þeirra Dijrd, Matth. 4. Enn þu veiſt upp yfer þier ſtendur DRottenn Gud þinn, ſem þu alleina aatt ad tilbidia, munu þa ecke ren̄a aa þig Tvær Grijmur, hverium helldur þu eiger ad þioona, Gude edur Mam̄on? Ecke munu þeir aller vera, ſem med goodre Samvitſku hrooſa kunne, ad ecke hafe vorded myrkt fyrer Augum ſier i þvilijku Tilfelle. Þegar dæma aa mille Broodur og Broodur, aa millum Bloods og Bloods, enn hinn Vollduge ber Fie i Doomenn, eda Ottenn tvelur, eda Vinaattann kytlar þa Hønd, ſem aa Sverdenu helldur; Mun þa ei Andſkotenn ſetia Brillur uppaa Riettareins Naſer, ſo hann ecke ſiaae ratmad þann Høggſtad, ſem han̄ ætte? Villdum vier nu ren̄a vorum Augum fraa Giaalijfe Veralldar þeſſarar um̄ Stundar-Saker, og bera þeſſe Verk ſaman̄ vid Lioos Guds Heilogu Orda, þa þyker mier ecke Olijklegt, ad Andlit vorrar Samvitſku munde rodna fyrer Gude. Med hverium Augum ſkal eg lijta þin̄ Broodur Joab, ſagde Abner Fordum Daga, þegar Haſael rann epter honum i Bardaganum, ef ad eg ſlæ þig i Hel? 2. Sam. 2. Enn hvoriu vilium

vier

vier Gude eilijfum Konunge og alleina rijkum svara, þar vier høfum hanns Son Kroſsfestann, og, fyrer vor Myrkra-Verk, er Makt Mykranna yfer hann komenn? Munum vier þora, helldur enn Tollheimtumadurenn, Luc. 18. ad lypta Augum vorum upp til Himens? Munum vier diarfare verda enn vor Fader Adam? Saa er fallde sig fyrer Gude, og þorde ecke ad lijta hanns Auglit, Gen. 3. Þar fyrer, Christenn Madur, kannast þar vid, ad þier ber Bligdan þijns Andlitis, enn hønum ber Dijrdenn og Heidurenn, Dan. 9.

J Annann Maata segier Pijslar-Sagann, ad Fortiallded i Musterenu hafe i sundur-rifnad fraa Ofannverdu, Allt Nidur i Giegn. Von var, ad þad Mustered sem var med Høndum giort, munde ei standast þa Ogn, ad hid Dijrdlega Mustere hanns Lijkama var nidurbroted, Joh. 2. Þetta Fortialld adskyllde þad Allra-Helgasta fraa sialfu Musterenu, hvar inne var, aa Døgum Salomonis, Saattmaals Ørkenn, Naadar-Stoollenn og Vøndur Aaronis, sem voru Skugge epterkomande Giæda, Hebr. 9. Þvi sundurrifnar Fortiallded, ad Skuggenn yrde burt-tekenn, þar vier høfum sialfa Hlutena. Ørk Saattmaalans mille Guds og Manna var uppfest aa Kroſsens Trie. JEsus, sem er eirn Naadar-Stooll i sijnu Bloode, Rom. 3. Var hier øllum giefenn. Kvisturenn af Root Jesse var bloomgadur, Es. 11. Lijfsins Braud var af Himnum ofannkomed og øllum frambođed, so ad hvør sem æte þar af, skyllde ei Daudann smacka ad Eilijfu, Joh. 6. Inn fyrer Fortiallded i þad Allra-Helgasta maatte ei gaanga, nema hinn Ædste Kiennemann Eitt Sinn aa Are, enn þad rifnar hier i sundur, til ad audsijna þar med, ad hinn Ædste Biskup vorra Saalna er, fyrer sitt eiged Blood, einusinne inngeingenn i þad Allra-Helgasta, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, Ebr 9. Þar fyrir er oſs nu þad Allra-Helgasta opnad, sem er i Himnenum, so vier høfum frijann Tilgaang til þeſs Himneska Naadar-Stools, af hvørs Fyllingu vier høfum aller-medteked Naad fyrer Naad, Joh. 1. Ei maatte Almwge Manna inngaanga fyrer Fortiallded i Musterenu, Levit. 16. Enn hier er þad sundurrifed fyrer hanns Dauda, sem hefur fullnægt Logmaalenu, og lided fyrer þad, sem vier med vorum Syndum høfdum forskulldad, so ad hvør eirn Riett-Trwadur er Guds-Kiennemadur i sijnu Hiarta, Apoc. 1. sem er hanns Mustere. Hann hefur Fortiallded i sundur rifed, og þar med i burtu-teked þann Veggenn, sem mille var, og giort eitt af baadum, Eph. 2. So þar yrde eitt Sauda-Hws og eirn Hyrder, Joh. 10. Og ei være framar Kall edur Kona, Þræll nie Frelsinge, Gydingur nie Grijkur, helldur aller eitt i Christo JEsu, Gal. 3. Kiennemanna-Høfdingenn hafde aadur rifed sijn Klæde aa moote Guds Bode, er hann kiende Frelsaranum Gudlostun; Enn Gud Allsheriar, uppaa þad hann audsijnde, ad hann og hanns Selskapur være seker i þeirre Ohæfu, hann lætur Fortialldeđ sundur rifna. Þeſse Atburdur ætte nu ad kienna oſs, mijner Elskanleger, ad sundur rijfa ecke vor Klæde, helldur Hiortu vor med heitre Ydran, Joel. 2. Giæt ad, syndug Manneskia, hvad Ovidurkvæmelegt þad er, ad þinn Lausnare haanger aa hinum smaanarlegasta Kroſsens Gaalga. Hanns Hørunder er sundur-slited af Hwdstrokunum, sundur-mared af Høggunum, sundur-rifed af

Þyrne-Broddum, sundur-stwnged af Nøglunum, sundur-flakande af Saarum og Beinum, og Loksins sundur-kramed, sundur-kreist og sundur-mared af Guds-Elldlegum Reide-Svipum og Obærelegum Þwnga þinna Synda, sem hann hefur bored; og Hegningarennar sem a hønum laa, uppaa þad þu hefder Fridenn, Es. 53. Þegar þu villt þetta fyrer þier virda, þa mætte þier under eins til Hugar koma, ad draga þa Skijluna fraa Augum Saalar þinnar, sem þar leinge hefur fyrerhanged, og glepur so fyrer þijnum innra Mañe, ad þu þecker hvorke Gud nie sialfann þig. Villt þu vera Guds Andlegur Kiennimadur i þijnu Hiarta, sem ad er hanns Mustere, þa byriar þier ad athuga, i hvada Herberge hann vill bwa, sem er i einu sundurknosudu Hiarta, Es. 57. Fóorner Gamla Testamentesins eru ad sonnu fyrer JEsu dijrmætu Fóorn aa Krossens Altare afnumdar og ad aungvu giordar, enn þar fyrer skallt þu ecke meina, ad þu eiger aungva Skulld Gude ad giallda. Enn hvilijkt er þad Offred sem hønum þocknast? Þar segier David fraa, i Ps. 40. Blood Uxanna og Hafrañna þocknast þier ecke: Enn Harmþrwngenn og Sundurknosadann Anda munt þu ecke fyrerlijta, Ps. 51.

J Þridia Maata segia Gudspiallamenerner, Ad Jordenn Hafe Skolfed. Hvad hrædelegur hefur Jardskialfte þesse vered, Børn mijn? Þar ecke einasta Fialled Golgatha, aa hvoriu ad stood DRottens Kross, helldur oll Verollden, hefur leiked aa Reideskialfe. Plinius eirn heidenn Madur segier fraa, ad aa Valldstioornar Dogum Tiberii Keysara um þetta Skeid hafe 14. Stader i Gricklande og i þeirre miñe Asia i Grunn nidur falled, hvorra Nøfn Cornelius Tacitus i Añare Book sinna Añala oll upp telur. Hefur nu þesse skielfelege Jardskialfte vered eitt Teikn Guds Almattugs Heiptar Reide, þar hanns Eingietenn Sonur, i hvorium hønum alleina velþocknast, Matth. 3. er fyrer annarlegar Synder af hinum Synduguztu so hardlega wtleikenn. Þad giefur Messias til Vitundar i Ps. 18. med þessare Harma-Klogun: Daudans Angist hefur umkrijngt mig, og Belials Bæcker hafa Ognad mier; Eg kallade til DRottenns, og Jordenn titrade og skalf, og Grundvollur Fiallanna hrærdest og umturnadest, þvi hann vard reidur. O minn HErra Gud! Hvad stoor er þijn Þoleñmæde yfer Syndeñe og Ogudlegu Mañana Athæfe? Hier gieck so mikel Ognan aa, ad Jordenn gat ecke stadest under þeim Þwnga, þa hennar Skapare leid. Naatturann took ad glidna i sundur, þvi þær Hendurnar voru aa Krossenn negldar, sem vega hennar Þwnga med einum Fijngre og iñelykia Siaafar Hafed i sijnum Hnefa, Esa. 45. Hann ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, Ebr. 1. Þvi skylldu þa ecke aller Hluter sundurbresta, þa hann, sem hefur Ord eilijfs Lijfs, Joh. 6. matte deya? Þegar Logmaaled var Fordum wtgiefed, þa skalf Jordenn, og Fiollenn bifudust og titrudu eins og eitt Straa, Exod. 19. Enn siaa, hier liggur oll Logmaalsins Bolvan aa þeim, sem Logmaaled hafde wtgiefed, enn hafde þo i allann Maata uppfyllt Logmaaled; Þvi skielfur Jordenn af Ognan, ad sw Handskrifstenn, sem moote oss var, er borenn uppaa Tried, og aa Krossenn negld, Col. 2. Enn Evangelium, sem er Kraptur Guds til Saaluhialpar ollum þeim sem trwa, Rom. 1. er hier underskrifad med

med hanns Bloode, sem vordenn er Bølvan fyrer oss, Gal. 3. Core, Datan og Abiram mogludu moote Gude, þar fyrer urdu þeir lifande i Jordena nidur ad fara, Num. 16. Enn meire Mootmæle hefur þu hier þolad minn HErra JEsu, þvi er ei ad furda, þo Jordenn opne sig, og bioode sig til ad svelgia þaa Ogudlegu Skaalka, sem þad Saklausa Guds Lamb hofdu aa Krossenn neglt. Enn hier siaaum vier, ad þitt Blood er Forlijkun fyrer allar Veralldarennar Synder, ad þijnum Kvolurum hefur þyrmt vered fyrer þijna Bæn i þinne bitru Pijnu, Luc. 23. Enn Naatturann maa sampijnast sijnum Gude. Þeir hofdu hroopad til Forna: Krossfestu hann, Krossfestu hann, enn hier opnar Jordenn sinn Munn til ad kunngiora þitt Sakleyse og aaklaga Gydinga. Þegar Adam neytte þess Forbodna Avaxtar Jardarennar, þa var Jordunne bølvad, Gen. 3. Enn sw Bølvan linadest fyrer þess Fyrerheitna Sædis Skulld. Nu maa sijnast ad Jordenn, þar hinn Annar Adam, sem er DRottenn af Himne, var pijndur aa henne, ad hun kvijde vid ad henne verde ad niju bølvad med eilijfre Bølvan. O HErra Himneske Fader! Fader allrar Naadar og Myskunseme! Vier meigum jaata þad umm oss, sem Jeremias segier i 5. Cap. Ad vier hofum hardar Asioonur, so sem eirn Steirn, og vilium ecke umvenda oss. Vor Hiortu eru hardare enn Klettur, þar Biorgenn i sundur klofna og Jordenn skielfur, enn oss kiemur ei til Hugar ad laata oss Ogna þær Synder, sem hafa þinn Son Krossfestann. Grafer Frammlidenna Lukust Upp; Enn vier erum so dauder i Syndunum, og so diwpt nidur grafner i Naunglæted, ad vier faaum ei rised upp wr hinne fwlu Gr̄of Hollds og Bloods aa moote vorum HErra. Af þijns Eingietens Sonar Sijdu, sem er Hella vors Hiaalprædis, wtrennur Blood og Vatn, Joh. 19. Enn af vorum Augum gietur ei stocked eitt Jdranar Taar.

Jordenn Skalf Og Biorgenn i sundur klofnudu aa Pijnu-Deige vors HErra. O! hvad meiga vor Hiortu vera Steinum hardare, þar Minning DRottenns Dauda, er vier hölldum aa þessum Deige, kann þau ecke ad mykia til Ydranar og Apturhvarfs fraa Ogudlegu Athæfe. O hvad stoor Munur er þo aa millum Guds og Manna! Ad hans Hiarta brestur yfer einum ydrande Syndara, so hann hlijtur honum Myskunsamur ad vera, Jer. 31. Enn Syndarans Hiarta er so Obifanlegt, ad JEsu Dijrmæta Blood, fyrer hvoriu oll Verolldenn liek aa Reideskiaalfe, þad fær ecke orkad þvi, ad Madurenn graate sijna Synd fyrer Gude. O! þu Almaattuge Gud, sem alla Hlute kann framar ad giora, enn vier kunnum ad hugsa edur mæla, Eph. 3. Umskier þu vor Eyru og Hiortu med Sverde þijna H. Orda, so ad þau meige finna til Synda sinna og Christi bitru Kvalar: Laat oss, medann Naadar-Tijmenn enn nu yferstendur, þeinkia þar til, ad hann mun aptur koma i Skyum Himens med Makt og miklu Vellde, Ellldurenn mun brenna fyrer hanns Auglite, i hvorium Himnarner munu forganga, med Stoor-Brestum, og Hofud-Skiepnurnar af Hita braadna, aadur enn allt þetta skier, 2. Pet. 3. O HErra Gud! Gief oss þa ad vier upphefium vor Hofud, so ad vier þeckium vorn Vitiunar Tijma, so vier lærum ad fela oss i Biargskorunum, sem eru Blessadar Under þins Ein-

gietens

gietens Sonar, og þar i dyljast medann Reidenn fram hiaa geingur, Esa. 26. Svo ad vier er aa þeirre vondu Tijd, mættum fraa skilder þeim Ogudlegu, er JEsum ad niju Kross-festa og Foottroda hanns Blood, Hebr. 10. þvo vorn Skrwda i Lambsins Bloode, Apoc. 7. Og med þvi Dijrdlega Skarte inngaanga i hanns Brwdkaup og þa Himneska Jerusalem, til ad lofa þig Eilijflega, Þu Haaleita Guddoomsins Þrenning.

Þad veite oss Gud Fader, Sonur og Heilagur Ande fyrer Christi Blessada Forþienustu, A M E N.

# A Paaska Dagenn.

Gudspialled, Marc. 16. Cap.

OG þa ed Þvott-Dagurenn var umlidenn, Keyptu þær Maria Magdalena, og Maria Jacobi og Salome, Dijrdleg Smyrsl, ad þær kiæme og smyrde JEsum. Og miøg snemma Morguns þeirn Þvott-Daganna, Komu þær til Grafarennar umm Soolar Uppruna. Og þær søgdu sijn a mille: Hvør mun vellta fyrer oss Steinenum af Grafarmunnanum? Og sem þær litu þanngad, saau þær ad Steirnenn var afvelltur. Enn hann var ad sønnu nærsta mikell. Og þær geingu inn i Grøfena, Og saau eitt Ungmenne sitia til Hægre Hlidar, Skrijddann sijdu Klæde hvijtu, og þær urdu Ottaslegnar. Enn hann sagde til þeirra: Eige skulud þier hrædast. Þier leited ad hinum Krossfesta JEsu af Nazareth, hann er Upprisenn, og er ecke hier. Siaaed þann Stad hvar þeir løgdu hann; Helldur farid þier burt, og seiged hans Læresveinum og Petre, ad hann munne gaanga fyrer ydur i Galileam. Þar munud þier siaa hann, So sem hann sagde ydur.

Exordium.

ÞAnn STeirn sem Uppbyggendur hafa burtu kastad, Hann er vordenn ad Hofdes Hyrningar, af DRottne er þesse, og er Undarlegur fyrer Monnum: A þessum Deige hefur DRottenn þad giort, Fognum og verum Glader aa honum, segier David Konungur, Psalm. 118. Ad þetta Kvæde sie ordt umm Mannkynsins Frelsara, vottar sialfur hann, Matth. 21. er hann þijder þennann Spaadoom uppaa sig, hvor og so i hanns Dauda og Upprisu ad øllu Leite framkomenn er. Hvornenn þeir hafe honum burtkastad, þad hofum vier heyrt aa umlidnum Fostu Tijma. Enn hefde DRottenn ad eins vort auma Holld og Blood uppaa sig teked, og daied i þvi sama fyrer allar Verálldarennar Synder, þa hefde hann ad sønnu ad fullu loked þa Skulld, er vier erum aattum Gude ad giallda; Þar fyrer sagde hann under sitt Andlaat, haangande aa Krossenum; Ad þad Fullkomnad være, Joh. 19. Enn ecke vorum vier vijser i þvi, ad hann

hann hefdi golldid fyrir oſs hiñ Siidaſta Pening, itema hann hefdi af Fiotrum Dauðans leyſtur verid, og þad ſama kyñgiora latid, og ſiaalfur ſig opinnberad, og þvi kalla eg þad riett ſagt, ad JEſus Chriſtur ſie ad Hofdi Hyrningar vordinn i ſinni Dyrdlegu Upprifu. A þeſſum Deigi hefur DRottinn þad giort, ſegier Skaalldid, fognum þvi og verum gladir aa honum: Eckert hefur oſs þvilijkt til Kiæti borid, Guds Born, og elnginn Sool hefur oſs fegri upprunnid enn þeſſi. Adra Daga giorir hin Naatturlega Sooliñ med ſinni Upgraas; Enn þennañ, Sool Riettlæteſins ſiaalf, er hina ſkapad hefur. Þegar Soolinn upprennur, formyrkvar hun hin onnur Himin-Tunglinn med Naalægd ſinnar Byrtu; Enn þegar hin Bleſſada Sool Riettlætiſins undirgieck i hinu bitra Dauda Striidi, þa giordi hun hina myrkva, þegar hun hvad fegurſt ſkein. So mikid Valld hafdi hann bædi aa Himni og Jordu midt i Daudanum, hvad mikla Byrtl mun hun þa bera i allra Riett-trwadra Hiortum i ſinni Upprifu? Þeſſi hin ſagra Sool rann oſs upp fyrſt allra i hañs Gietnadi, eñ ſtrax eptir hañs Fædingu droou braadlega fyrir hana Skij vors auma Hollds Veikleika, og ſijdann Daudans, er hañ þo ecki forþienad hafdi. Enn aa þeſſum Degie er hun ſo eitt ſinn upprunninn, ad hun mun framar alldrei undirgaanga; Þvi Chriſtur, uppriſinn af Daudum, deyr ecki meir, og Daudinn rijkir ei framar yfir honum, ſegier Paulus, Rom. 6. Þeir ſlatrudu honum ſo ſem Lambi, enn hann reis upp aftur ſo ſem ungt Leon. Johannes Baptiſta kallar hann þad ſaklauſa Guds Lamb, ſem i burtu ber Veralldarinnar Syndir, i hanns Nidurlægingu, Joh. 1. Johannes Evangeliſta nefnir hann þad Leonid af Kyni Juda, ſem Sigurinn unnid hafi, Apoc. 5. i ſinni Upprifu. Fognum þvi og gladir verum, Chriſtnir Menn, ſijngiandi og ſpilandi DRottni i Hiortum vorum. Guds Heilagir Einglar, þeir Himneſku Andar, hvorium Guds Sonur eckert hafdi wtvegad med ſijnum Dauda, þeir fagna ſijnum HErra i hanns Upprifu, Joh. 20. Þvi ſkylldum þaa ecki vier allshugar fegnir verda, ſyndugir Ormar? ſem vorum Daudans Menn, hefdi ecki DRottinn uppriſid oſs til Riettlætis. Chriſti Poſtular trwdu ecki Upprifu DRottinns fyrir Fagnadar Sakir, Luc. 24. Þeſsi braadi Fognudur var meiri enn ſo, ad hann leyfdi þeim ad grunda, hvad ſannaſt væri i fliootu Bragdi; Enn vier, ſem trwum fyrir þeirra Vitnisburd, laatum oſs þeim ſamfagna og glada vera! Þad bijdur oſs Guds heilog Moodir, og hennar Selſkapur, þad biooda oſs Einglar DRottinns, þad biooda oſs hanns Poſtular, þad biooda oſs Himin og Jord, þad bijdur oſs ſiaalfur hann, i hvors Nafni vier Sigrenum hrooſum, ſegiandi til ſinnar Chriſtni: Vaknid upp og ſijngid þier, ſem i Duptinu liggid, þegar þier hafid nidurſleigid hina Andvonu til Jardar, Eſa. 26. Og uppaa þad, Brædur mijnir, ad vier mættum þad þeſs betur framkvæma, vilium vier af þeſsa Haatijdis-Dags Evangelio nockud gior yfirvega Upprifu DRottinns med þeim Avoxtum og Aminningum, ſem þar af rijſa. J þeſsu Eyrendi hiaalpi oſs goodur Gud, fyrir Forþienuſtu ſijns Eingietins Sonar, med Naad heilags Anda, AMEN.

## Utleggingin.

Packir og Lof sie eilijfum Gudi, fyrir þa Naad, ad JEsu Dijrdarfullu Upprisu þarf ecki med Vitnum ad stadfesta, nu sem stendur, þvi þar er einginn aa medal Christenna Manna, sem þad ecki jaatt: Enn aa hinum Fyrstu Døgum Christniñar, løgdu Guds heilagir Meñ ecki so mikid Kapp aa nockurn Hlut sem þeña, og þvi sagdi Petur Fordum Daga, Act. 1. Pad byriar ad einn af þeim Mønnum, sem med oss verid hafa alla þaa Tijd, er Drottinn JEsus gieck iñ og wt aa medal vor, byriandi aa Skijrn Johañis, allt til þessa Dags, er hann var fraa oss uppnumiñ, ad eirn af þeim verdi Vottur hañs Upprisu medur oss; Og enn framar, þa ed Petur taldi uñ fyrir Judum, hvorier Jesum Krossfestann høfdu: Pier afneitudud hinum Heilaga og Riettlaata, enn beiddust eftir ad ydur yrdi Mordinginn giefinn, enn Høfund Lijfsins deyddud þier, hvorn Gud hefur uppvakid af Daudum, hvors vier allir Vottar erum, Act. 3. Og uñ alla Postulana til samans ber Lucas Vitni, segiandi, Act. 4. Og med miklum Krafti vitnudu Postularnir uñ Upprisu Drottinns vors JEsu Christi. Petta er ecki af Mønnum skied, B. M. helldur af Gudi, so ad hanns Sannleiki stadfestur verdi aa medal þeirra, til Myskunar þeim og Syndalausnar. So segier Petur aftur, Act. 10. Pennann uppvakti Gud aa Pridia Deigi, og giordi þad bert, ecki øllu Foolki, helldur fyrir Vottum þeim, sem af Gudi tilskickadir voru, oss sem ad aatum og druckum med honum. Og uppaa þad ad Christi Lærisveinar ei kynnu ad fara villt i þessu, þaa hefur hann i heila 40. Daga umgeingist med þeim hier aa Jordunni, aadur eñ hann til Himna stie, Act. 1. Og sijnt þeim klaarlega, ecki einasta ad hann upprisinn væri, helldur med sama Lijkama, og þo forklaarudum, med Mañlegum Lijkama, og þo Dijrdlegum, med þeim Lijkama sem aa Krossenum hieck, og i Grøfena var nidur lagdur, og þo er Volldugleg upprisinn, ad luktri Grøfinni og Steininum O-afvelltum. Ad hann hafdi Naatturlegann Manns Lijkama vottar hann, Luc. 24. Siaaid og þreifid aa, þvi Andi hefur ecki Holld nie Bein, sem þier siaaid mig hafa. Ad þad væri saa sami Lijkami, auglijsir hann nockru sijdar i þessum Capitula Lucæ, segiandi: Siaaid mijnar Hendur og Fætur, ad eg em þad sialfur: Hann taladi vid þaa, hann braut Braudid, hann aat og drack med þeim, eins og til forna, hañ liet þa þreifa a þvi sama Holldi, og sijndi þeim þær sømu Hendur, sem a Krossiñ negldar voru, og þaa Sijdu, er med Lensunni var i giegnum stonginn, þar hann þo i sama Sinn inngieck til þeirra ad luktum Dyrum, so sem annar Andi, ad þeir siaa mættu, ad þad væri hinn sami Lijkami sem leid, og þo Dijrd Oveniulegri prijddur: Jaa: til þess ad ecki vantadi þeim til Trwarstyrkingar; Took hann til aa Moyse og øllum Spaamøñunum, og lagdi wt fyrir þeim allar Ritningar sem af honum voru, leidandi þeim fyrir Sioonir, ad Christo byriadi þetta ad lijda, og inngaanga so i sijna Dijrd, so ad þeirra Hiarta brann i þeim, er hann taladi vid þa aa Veiginum, Luc. 24. Enn so ad þeir mættu fyrir vijst vita, ad hann bædi Gud og Madur væri, og ad Manndoomurinn væri ecki i Daudanum vid Guddoomiñ skilinn, itrekadi hañ eitt af þeim Kraftaverkum er hañ aadur giort

hafde, og upp er teiknad hiaa Joh. 21. Þegar hann kom til þeirra, er þeir voru ad Fiske-Veidum, og hofdu um̃ Noottena einkis aflad, enn hann baud þeim ad varpa wt Netenu til Hægre Handar, hvad so tookst, ad þeir gaatu þau valla iñebyrgt fyrer Mergd Fiskaña, er i voru komner. Nu, þar ed Einglarner hafa DRottens Uppriſu bodad, Heilagar Kvinnur þeim trwad, Poſtularner hafa hann ſied, aa honum þreifad, og vid hann talad, JEſus ſiaalfur ſig Openberad, og wtlagt Ritningarnar, þær ſem af honum voru, og i hvorium hanns Uppriſu ſpaad var og fyremyndud, og Guds Heilager Meñ hafa Þuſund um ſamann laated ſitt Lijf uppaa þennañ Sannleika, þa er hann viſſare og aa faſtare Rokum bygdur, eñ honum mootſegia meige. Enn hvoriar munu Orſaker þær, Br. M. hvar fyrer ad ſo vandlega er bwed um̃ þetta dijrmæta Efne? Ein er ſu, ad Guds Sonur i hañs Uppriſu hrooſadi Sigre yfer Dauda og Dioſle, og auglijſte oſs ſyndugum Monnum, vegna hvorra hann þennann dijra Sigur unned hefur, ad hann være Daudañs Daude, og Helvijtis Oliſian, Oſ. 13. Herleidingeñ være ad Herfange tekeñ, eñ hañ, under eins, hefde fridad fyrer oſs hiaa Gude og Fodur. Þeſſi er hin hellſta Nitſeme Uppriſu Drotteñs.

Hina adra ſegier oſs Paulus, Rom. 6. med þeſſum Ordum; Vier erum Jardader med honum fyrer Skijrnena til Daudans, ad lijka ſo ſem Chriſtur er uppvakenn fraa Daudum, fyrer Dijrd Fodurſins, ſvo eigum vier ad gaanga i Endurnijiung Lijfdagaña. Þar til er Chirſtur daeenn, ad i oſs meige fyrer hanns Dauda, deyddur verda hinn gamli Madurenn, þad er Uppruna Syndenn, ecke ad hun olldungis wt af deye, helldur deyr hennar Illſku Kraptur, ecke ad hun burt-tekenn verde, helldur hennar Sekt fyergiefenn, ecke ad Madurenn i Endurgietningunne Heilagur verde, helldur medtekur hann Heilagann Anda, fyrer hvorn hann framveigis dempad gietur Holldſins Gyrnder, ecke Riettlaatur i ſiaalfum ſier, helldur fyrer Chriſti Riettlæte, fyrer hvort honum veiteſt ſaa Anda Kraptur, ad hann gietur uppriſed med Chriſto, og geinged i Endurnijungu Lijfdaganna; Þvi ſegier Paulus framveigis: Vitande þad ad vor gamle Madur er under eins Kroſsfeſtur, ſo ad afmaaeſt Lijkame Syndarennar, ad ecke þioonum vier Syndenne framar, Rom. 6. Ecke ſegier Paulus ad vier Syndlauſer ſieum, þvi þeſs er ecke ad vænta af Holldenu under Syndena ſelldu; helldur ſegier hann, ad vier ecke þioonum Syndenne, þad er, laatum hana ecke drottna i vorum daudlegum Lijkama, ad vier hlijdum henne i hennar Gyrndum, ſo ſem hann ad Orde kiemſt i ſama Capitula. Þeſſe er hanns Meining i Ordunum, er vier ſtrax heyrdum, þvi hann ſvarar þvi ſem hann aundverdlega i Capitulanum þeim ſiotta framſetur aa þennañ Haatt: Skulum vier þa i Syndunum dvelia, ſo ad Naadenn yfergnæfe? Fiærri ſie þvi. Tveggia Guds Velgiorninga gietur og St. Paulli-greindum Ordum; Endurgietningarennar og Endurnijungareñar. Vier erum Jardader med Chriſto fyrer Skijrnena til Daudans, þad er En durgietningenn. So eigum vier ad gaanga i Endurnijungu Lijfdaganna, þad er Endurnijungenn: Hin Fyrre ſkiedur i einu Augnablike i Heilagre Vatnslaug: Hin ſijdare aa ad framkoma um̃ alla Æfe vora, og fara Dagvaxande, ſo ad ſmaaſamann afmaaeſt Lij-

kame Syndarennar, og so sem vier i Christelegum Frædum lesum; Ad sa gamle Madurenn, þad er Uppruna Syndenn, Daglega Dreckest og Deydest, fyrer Ydran og Yferboot, enn framkome og uppaptur rijse eirn nijr Madur, sa ed lifesi Heilagleika og Riettlæte fyrer Gude Æfennlega. Hin fyrre er alleina Guds Verk i oß, so sem Paulus segier, Tit. 3. Ecke af Riettlætis Verkunum sem vier giordum, helldur af Myskun sinne hefur hann oß hoolpna giort fyrer Endurgietningar Laugena. Hin Sijdare stendur ad nockru Leite i voru Vallde: Þad vottar St. Paull, Eph. 4. Endurnijest i Anda ydvars Hugskots, og Iklædest einum nijum Manne, sem epter Gude skapadur er, I Heilagleika og Riettlæte. Hvorutveggia kallast Umskurn Hiartans i Gamla Testamentinu. Endurgietningenn, Deut. 30. Gud mun umskiera þitt Hiarta. Endurnijungenn, Jer. 4. Umskiered ydur fyrer DRottne, og burt-taked Yferhwd ydar Hugskots, þier Menn Juda og Jerusalems Borgarar, ad ecke frambrune mijn Grimd so sem annar Elldur, þann eingenn slökt fær, sökum Illsku ydar Athafna.

Hier kunnum vier nu ad siaa Skylldu vora, Brædur Mijner, og hve mikill Hæske oß bwenn er, nema vier giölldum Varhuga vid, og rijsum upp med Christo Drottne vorum, I hvors Dauda vier skijrder erum, Rom. 6. Og fyrer hvorn vier hösum Barna Riettenn medteked, Gal. 4. Ef þier erud upprisner med Christo, þa leited þeß sem þar uppe er, hvar Christur er sitiande aa hægre Hond Gude. Hugsed um þad sem þar uppe er, og ecke þad sem er aa Jordunne, segier Paull, Col. 3. O! hvilijk er Faasinna Daudlegra Manna, þar vier vordner erum Borgar-Menn Heilagra, og Guds-Heimilis-Menn, Eph. 2. þad Menn söckva sier nidur i Leyrvelltu og Endeme Heims þeßa, sem þo mun fyrerfarast med ollu þvi, sem i honum er, enn yfergiefa sijns Fodurs Heimkyñe. Giætum þeß, ad vier erum i Skijrnenne vordner Kvister aa hinu Andlega Vijn-Trie DRottne JEsu Christo, til ad bera mikenn Avöxt, enn hvorn þann Kvist sem ecke ber Avöxt, mun Vijngards Madurenn, sem er hanns Fader, afhöggva og i Ellde brena, Joh. 15. O hvad herfeleg eru þau Umskipte, af einum Himneskum Vijn-Vid, ad giorast Helvijtis Elldebrandur, af Christi Þienara, Satans-Þræll, af Guds Oska-Barne, Reidennar-Barn! Og þad fyrer stundlegt Epterlæte Syndgrennar, hvorrar Verdlaun eru i þeim Pitte, sem rijkur af Ellde og Brennesteine, Apoc. 21.

Enn framar segier Paulus, Col. 2. Þier erud grestrader med Christo i Skijrneñe, I hvorre þier og uppvakter erud fyrer Krapt Trwarennar aa Gud, sem hann uppvaked hefur. Hvor mun þeße Kraptur Trwarennar vera, Brædur mijner? Þad segier Paull oß aptur Gal. 5. er hann so ad Orde kiemst; ad i JEsu Christo (þad er i þeim Hlutum, sem JEsu Christo vidkoma) gyllde hvorke Umskurn nie Yferhwd, helldur Trw su, sem fyrer Kiærleikann verkar. Enn hvorier eru þa Kiærleikans Avexter? Paull kienner oß þad, 1. Cor. 13. segiande: Kiærleikurenn er Þolennmoodur og Goodgiarn, Kiærleikurenn öfundar ecke, Kiærleikurenn giörer ei Illmannlega, hann þijtur ei upp, hann er ei Osidsamur, hann leitar ecke epter þvi sem h..ans er, hann er

ei Þynglindur, hann þeinker ecke Illt, hann fagnar ecke yfer Raanglætenu, enn samfagnar Sannleikanum. Hier telur Paull upp allar Christelegar Dygder, er af Kiærleikanum, so sem audrum Brunne, framfliota, eins og adrer hreiner frioofgande Læker, til allra þeirra, sem vier eigum nockru vid ad skipta i Heimenum, ad saa sem temur sier þær og Daglega ydkar, hann maa þess fullvruggur vera, ad hann hefur med Christo vel upprised, og er honum fyrer sanna og lifande Trw innplantadur, þviad Elskann er Kraptur Trwarennar og hennar Lijfs-Mark; Þar fyrer segier Postulenn Afdraattarlaust, ad Trwenn sie daud aan Verkanna, Jacob. 2. Og St. Paull sem vard (fyrer þeirra Skulld sem forlietu sig uppaa Logmaalsins Verk) ad hroosa Trwnne so miøg, ad nockrer hafa steitt sig þar aa, þo aan Orsakar, og meint ad ei þyrfte Goodverkenn ad giora; Hann segier sialfur, 1. Cor. 13. Þo ad eg hefde alla Trw, so ad eg megnade Fiollenn wr Stad ad hræra, og hefde ecke Kiærleikann, þa være eg þo eckert. Vilium vier lijta til vors fyrra Haattalags, aadur enn vier Endurfædder vorum, og heyra hvad Paulus þar umm segier, Eph. 2. Gud saa, er rijkur er af Naad, fyrer sinn mikla Kiærleika, med hvorium hann elskade oss, hefur lijfgad oss med Christo, þegar vier dauder vorum i Syndunum, og hefur under eins uppvaked oss, og aasamt Christo JEsu sett oss i Himnarijke. I Skijrnenne riette Gud oss fyrst allra sijna Myskunar-Hond, þegar vier minna kunnum ad hiaalpa oss i vorum Saaluhiaalpar-Efnum, enn eirn Briooftmylkingur Lijfe sijnu, þa reiste hann oss upp wr Saurendum Naatturlegrar Spillingar, þa took hann oss inn i sinn eilijfa Saattmaala, þa Trwlofade hann oss sier i Naad og Myskunseme, Os. 2. Þa sette hann oss i Rijke sijns Sonar, Col. 1. Enn hvad er þad, Brædur mijner, ad vier briootumst wr Fadme hanns ad niju, med Jdkun vondra Verka, er Guds Bornum sæma ecke, og forlaatum Meistara vors Ungdooms, sem took oss upp, þar vier laaum i voru Bloode, wtkastader aa Vijdavaangenum, Ezech. 16. enn gaungum Dioflenum til Handa, hvorium vier afneitad hofum og ollum hanns Verkum. Er þad ecke ad kasta sier aptur i sama Saur, þott vier Einusinne uppreister sieum? Edur munum vier þess nockur Not hafa, ad Gud hefur med sijnum sterka Armlegg Handdreiged oss af Dioflenum i Endurgietningunne, ef vier leggium Lag vort vid Satan aptur? Laatum oss til Hugar koma, Brædur miiner, hvad margt og miked JEsus þolad hefur, þegar hann maatte þo vel Sælu hafa, Heb. 12. aadur enn hann fieck upprised oss til Riettlætis. Saa sem heyrer Guds Son yfergiefenn, Matth. 26. Gud blessadann umm Allder, Rom. 9. so sem Bolvan uppheingdann, Gal. 3. og hann, sem gallt þad hann ecke rænte, medal Rænungia talenn, Marc. 15. og veit ad þetta er skied, fyrer alla þa Illsku, sem ad Syndarenn hefur unned til Helvijtis med, og ecke leitast vid ad Krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, svo honum mætte Christi vegna Heimurenn verda Krossfestur, eins og Paule, Gal. 6. Þeim verdur alldrei auded med Christo upp ad rijsa i Naadenne, svo hann eilijflega med honum life i Dijrdenne. Fyrer þvi aaminner Petur nærsta vel, segiande: Med þvi ad Christur hefur nu fyrer oss lided i Holldenu, þa

brynied ydur med ſama Hügarfare, þviad hvor aa Hollbenu lijdur, hann lætur af Syndenne, 1. Pet. 4. ſo ad hann þadann i fraa, hvad epter er Æfinnar i Hollbenu, liſe, eige ad Mannlegum Gyrndum, helldur ad Guds Vilia. Hvad er þad ad vier ſegiunſt ydraſt vondra Verka, nema vier og upprijſum med Chriſto? Vier komum hvort Ar, og Priaar, Fioorar Reyſur aa Are, epter þvi ſem hvor er lyndur til, fram fyrer Kiennemanneñ þar hañ ſitur i Guds Stad til ad fyrergiefa oſs Syndernar, ecke þeim ſem naalægiaſt Gud med Vorunum alleina, Eſ. 29, helldur þeim, hvorra Hiarta ad riett er fyrer DRottne. Vier ſegiunſt bera Angur og Trega fyrer Syndena (Gud giæfe ad Hugur jafnann Maale fylgde, og ad vier villdum af henne laata og vid ſiaa framveiges!) og er hann hefur ſo i Guds Umbode tilſagt oſs Kvittun vorra Afglǫrda, meinum vier oſs ad fara Riettlaatare heim aptur i vort Hws, Luc. 18. Og þad er i Sannleika ſatt aa þeim, ſem vel hafa reynt og proofad ſiaalfa ſig, og af Alvoru audmijkt ſig under Vollduga Guds Hond, þviad Chriſti Loford er fyrer þvi, ad hvorium hellſt Guds Þienare fyrergiefur Syndernar, þeim ſieu þær fyrergiefnar, Joh. 20. Þo ecke nema þeim ſem elſka ſinn Lauſnara og rækia hanns Bod, þviad St. Paall lijſer Bolvan yfer þaa, ſem ecke elſka DRottenn JEſum, 1. Cor. 16. Og eru þeir þa laangt fraa Syndanna Fyrergiefningu. Hinne Berſyndugu fyrergafſt miked, þviad hun elſkade miked, Luc. 7. Hvornenn villium vier kallaſt elſka Chriſt edur med honum upprijſa, ef vier afrækium Bod hanns? Ef hann er vor Fader, hvar er þa hañs Heidur? Mal. 1. Saa ſem ecke tekur ſinn Kroſs uppaa ſig og fylger honum epter, Matth. 10. hann er hanns ecke verdugur? Enn Kroſs er varla þvilijkur Hollde og Bloode, ſoo ſem ad uppfylla Chriſti Logmaal, ſem þo er ecke nema i einu Bodorde iñefaled, ſem er, ad bera hvor annars Byrde, edur elſka hvor annann Innbyrdis, ad Vitne St. Paals, Gal. 6. Þvi dæme eg ſo, Brædur mijner, ad ſaa ſem ecke ſtundar epter ad vardveita Chriſti Logmaal, hann elſkar hann ecke, ſaa ſem ecki elſkar hann, nijtur ecke hanns Forþienuſtu, ſaa ſem ecke nijtur hañs Forþienuſtu, hañ er bolvadur, og er enn þa i ſijnum Syndum, hvorſu opt ſem Preſturenn lijſer þeirra Kvittun yfer honum, þviad hann er Madur, og veit ecke aa Stundum hvorium hann fyrergiefur Syndernar, þviad Guds alleina er ad rañſaka Hiartad: Þar fyrer eigum vier ecke ad taka þad, ſem Gud hefur talad aangraadum Saalum til Trwarſtyrkingar, Illſkunne og Prettvijſeñe til Afbotunar. Enn giætum ad oſs i JEſu Nafne, Brædur mijner! Hvad opt hofum vier Syndanna Kvittun þeiged, enn þad mun tilbored hafa, ad vier hofum aptur framkomed ecke einaſta med þær ſomu, helldur og adrar verre aa Stundum. Hvad lijtt hefur oſs þa vered giefed um ad hallda þad Loford, er vier giordum Gude i Jaatningu Syndanna, aadur enn vier þaadum Heilaga Aflauſn af Hende hanns Þienara? Hvorſu tregier hofum vier vered aa Heyrn hanns Orda? Hvad Ofwſer til ad elſka vorn Naunga, ad forlaata honum hanns Afbrot, ad giora þeim Gott ſem vid oſs misgiora, ad forſvara hann og færa alla Hlute aa betra Veg, ad ſtilla Reidena, ad laata hans Eigur kyrrar? Og i einu Orde ad ſegia; Ad rijſa upp med Chriſto og bera Kroſſenn epter honum, þad er,

er, ad deyda þañ Gamla Mañeñ, er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins? Eph. 4. Jaa, hvi verr! ad margur mun fiñast, sa ed strax, sem hañ er komeñ fraa Prestsens Kniaam, vellter hann sier i sama Saur, og hefur aungva Vidleitne til þess ad laata af ollu þvi Illa, er hann strax medkiende og lofade Umboot aa, og bad i Ostrauste Naadar Guds, og fallvalltre Von laangra Lijfdaga. Ecke er slijkt ad upprijsa med Christo edur bera Krossinn epter honum, helldur ad gabba hinn Krossfesta. Enn heyred hvad Paulus til Hebr. segier, i 10. Cap. Saa sem ad aungvu hefur Moysis Logmaal, hann skal epter Vitne Tveggia edur Þriggia Vægdarlaust deya: Hvad þijngra Straffs verdugur meined þier hann reiknast mune, er Foottredur Guds Son, og Saattmaalans Blood, med hvorju ad hann Endurleystur er, Almennelegt helldur, og vanvirder Anda Naadarennar? Hvad er þad, ad vier jaatum alleina vorar Synder fyrer Gude? Mun honum nockur Þocknan i þvi? Hann þarf ei þess vid, hann veit þær betur enn vær, þviad aller Hluter eru berer og nakter fyrer hanns Augum, Hebr. 4. Þad er nærre þvi, ad brijxla Gude med Jona Spaamanne um sijna Myskunseme, Jon. 4. So sem hann ecke sie under eins Riettlaatur, og take alleina Skullda Reikningenn fyrer Skullda Lwkninguna, hvad oss munde þykia lioott aa einum Doomara, þvi kunnum vier þa ad ætlast til þess af Gude, hvers straanga Riettlæte aungva Þurdu maa lijda? Þad sie fiærre, ad eg lijted giore wr JEsu Forþienustu, hanns Pijnu og Dauda, hanns Upprisu og ollu þvi hann unned hefur oss til Myskunar, þviad hvad er jafnvægt Guds Riettlæte, hiaa hvoriu Himen og Jord eru minna enn eitt Sand-Korn ad reikna, nema þessar Astgiafer Frelsarans. Hitt segie eg, ad þad heyrer þeim ecke til sem ætla sier ad lifa i Syndunum, uppaa þad ad Naadenn yfergnæfe. Harmþrwngenn og Sundurknosadur Ande er alleina þad Offred, sem Gude þocknast, Ps. 51. Hvar fyrer? Þviad Christi Forþienusta hrijn aa þvi, nær þvi er so haattad, enn ecke añars, so ad Gud vill ecke tilreikna Mannenum giordar Synder; eñ ecke er þetta Aflaats-Brief til ad meiga framveigis Syndena drijgia, þvi Christur er komenn til ad uppfylla Logmaaled, enn ecke ad uppleysa þad, Matth. 5. Til ad forlijka fyrer Syndena, enn ecke til þess Madurenn skule syndga: Til ad deyda Syndena i voru Hollde fyrer sijna Upprisu, enn ei til þess ad hun skule drottna i vorum daudlegum Lijkama.

Þu segier: Eg aangrast af ollu þvi Illa, sem eg hefe moote Gude giort, enn hvar er þad Angur, þegar þu leikur þier ad somu Syndum eins og odru Table? Þu segier: Eg hata Syndena; Laat þa siaa ad þu elsker Gud, og drijger ei þad hann bannad hefur. Þu segier: Eg elska Gud sem mier hefur so margar Synder fyrergiefed; Laat þa siaa under eins, ad þu elsker ecke þad hann hatar, þviad þessum Tveimur Herrum maa ecke i Senn þioona, Matth. 6. Annad er þad, ad Syndenn hender Manneñ, og hañ samþyckest henne um Stund, annad þad, ad laata hana drottna i sier, hafa Lyst af henne, og giora Hand-Verk þar af; Þad Fyrra gietur ecke ad ollu Leite skiled vid oss aa medann vier berum epter oss Lijkama þessa Dauda, so ad jafnvel Paulus segiest giora þad Vonda er hann þo ecke giora vilie, Rom. 7. Hitt Sijdara er hiaa Bornum Vantrwareñar Algeingt,

geingt, um̃ hvoria Paall talar, Rom. 1. (Er hann uppreiknar Skam̃er þær, ed medal Heidingianna tijdkuduſt), og ælyktar med þeſſum Ordum: Hvorier ed ſnſivel hvott þeir þecktu Guds Riettinde (ſem er, ad þeir ed þvilijkt giøra ſieu Dauda verder) þa giøre þeir þad ecke ad eins, helldur ſamſinna þeim er þad giøra, Rom. 1.

Þegar Gud er hvad Nædugaſtur i ſijnu Evangelio, þa er þad þo alldrei odruviiſe en̄ ſo ſem han̄ ſegier, Eſa. 1. Lææted af illu og læred gott ad giøra; Komed ſijdan̄ og eigunſt Løg vid, þvott ydar Synder ſieu raudar ſem Blood, þa ſkulu þær verda hvijtar ſem Snioor, og þo þær ſieu ſem Purpure raudar, ſkulu þær verda hvijtar ſem Ull; og Paall er þvi ſamhlioda, Rom. 8. er han̄ vottar, ad eingenn Fordæming ſie framar yfer þeim, ſem eru i Chriſto JEſu, þeim ſem ei gæunga epter Holldenu, helldur epter Andanum. Þetta er eitt Eſennlegt Evangelium, ſem varad hefur i fraa Heimſins Upphafe, og geinged hefur i giegnum bæde Guds Teſtamenta, og er ſo Oumbreytannlegt, ſem hann er ſiaalfur, hia hvorium ecke er Um̃breiting nie Skugge Um̃breytingar, Jac. 1. So þvott ad Eingell af Himne kiæme ad predika annad, ſem þo er Omøgulegt, þa villda eg med Paulo ſegia: Ad þad bølvad vera ſkyllde, Gal. 1. Hliijdum þar fyrer Raade St. Peturs, er hann ſegier: Legged af Illſku alla, og øll Svikræde og Smiadur, og Ofund og alla Bakmælge, og gyrneſt hinnar ſkinſamlegu og hreinu Mioolkur, ſo ſem nijfødd Børn, uppaa þad, ad þier þrooeſt fyrer þa ſomu, ef þier ſmackad hafed hvad liwfur DRottenn er, til hvors vier komner erum, ſo ſem til eins lifanda STEJNs, hvor af Mønnum er burtkaſtadur, enn af Gude er wtvalenn og dijrmætur, 1. Pet. 2. Nootten̄ er um̃liden̄ en̄ Daguren tekur ad nalgaſt leggium þvi af Verkenn Myrkranna og Jklædunſt Herklædum Liooſſins, Rom. 13. JEſus Chriſtus er aa þeſſum bleſſada Dags-Morgne upprisenn. Hann er vordin̄ morgum til Falls og Uppriſu i Iſrael, epter þvi ſem hin̄ gamle Simeon Raad fyrer giørde, Luc. 2. Riiſum þvi upp med honum, ad ecke falle hann yfer oſs, og i ſundurmerie med hinum ødrum, er honum burtkaſtad hafa, allra hellſt þar vier vitum Tijmann, ad oſs er Maal ad rijſa upp af Svefne Syndanna, þvi nu er Hiaalpræded oſs nær, enn vier nockurn Tijma trwdum, ſagde Paall, Rom. 13. Vier vitum ecke hvad naalæg ad er vor Endurlauſn, edur nær Hofud-Eingelſins Lwdur kvedur vid i Skyum Himens, og þar vort Paaſka Lamb Chriſtur er fyrer oſs Foornfærdur, þa holldum Haatijdena ecke i hinu Gamla Surdeige Illſkunnar og Prettviiſennar, helldur i Oſijrdu Braude Hreinlyndeſins og Sannleikans, 1. Cor. 5. Þad Saklauſa Guds Lamb ſem i burtu ber Heimſins Synder, Joh. 1. Þad verdur enn nu Foornfært i Himnenum, ſvo opt ſem oſs verda Syndernar fyrergiefnar aa Jordunne, þvi ſegier Poſtulenn, Hebr. 9. Han̄ er i Himenenn inngeingenn, ad hann byrteſt vor vegna fyrer Guds Auglite, ſiaalfur Foornenn, ſiaalfur Kiennemadurenn, og ſiaalfur Gud ſaa ed Foornina þyggur: Þvi ætte Chriſtenna Manna Lijferne ad vera eiti ſijfellt Paaſka-Halld, þar til þad fullkomnaſt i Guds Rijke epter hanns Loforde, og vier munum eilijfar Paaſker med honum hallda aa Lande lifande Manna, þar ed verda mun eilijfur Hvijldar-Dagur,

ur, Esa, 66. Og vier munum med sostu Elskunnar Bandi teingiast vid hann, sem oss hef-
ur so heitt elskad, ad hann doo fyrir oss Raanglaata, Rom. 5. Hvør ad er siaalf-
ur Uppriisann og Lijfid, Joh. 11. Honum med Fødur og Heilogum Anda
sie Oendanlegt Lof og Dijrd, nu hiedañ i fraa og ad Eilijfu, Amen.

# Annann Dag Paaska.

Gudspialled, Luc. 24. Cap.

I Pañ Tijma: Og siaa, ad Tveir af þeim geingu aa þañ sama Dag til nockurs Kauptuns, þad ed var fraa Jerusalem Sextiju Skeida-Rwm, ad Nafni Emaus. Og þeir voru ad tala um alla þa Hluti sijn aa millum, sem vid høfdu borid. Og þad skiedi, þa þeir rædduſt vid, og spurduſt aa sijn aa millum, ad sialfur JEsus naalægdist þa, og gieck jafnframt þeim. Enn þeirra Augu voru so halldiñ, ad þeir þecktu hañ ecki. Og hañ sagdi til þeirra: Hvad er þad fyrir Rædu, sem þid høndlid yckar aa milli Reikandi, og erud hryggver þar af? Þa svaradi eirn, er Cleophas var ad Nafni, og sagdi til hañs: Ertu alleina so Framandi til Jerusalem, ad þu veitst eigi hvad aa þessum Døgum þar iñi glorst hefur? Eñ hañ sagdi til þeirra: Hvad er þad? Þeir søgdu til hañs: Þad, af JESU af Nazareth, hvør ed var Spaadooms-Madur, maattugur i Verkum og Ordum fyrir Gudi og øllu Foolki. Hvorniñ ad vorir Høfud-Prestar og Høfdingiar selldu hañ i Fyrirdæmingu Daudans, og Krossfestu hañ. Eñ vier vonudum ad hañ mundi Endurleysa Israel. Og yfir allt þetta er nu hiñ Þridie Dagur i Dag, er þetta skiedi. So og hafa skielft oss nockrar Kviñur af oss til, þær ed aarla høfdu hiaa Grøfiñi verid, og fundu ecki hañs Lijkama, komu og søgdu sig eirniñ hafa sied Einglaña Sioonir, þeir sem seigid hañ lifa. Og nockrir wt af oss geingu til Grafariñar, og fundu eins lijka og Koñurnar høfdu sagt, Eñ hañ saau þeir ecki. Og hañ sagdi til þeirra: O! þier Heimskir og Treigir i Hiarta, ad trwa þvi øllu sem Spaamenirnir hafa talad. Hlaut Christur ecki þetta ad lijda, og iñganga so i sijna Dijrd? Og hañ took til fraa Moyse og øllum Spaamøñum; og lagdi wt fyrir þeim allar Ritningar, þær af honum voru. Og þeir tooku ad naalgast Kauptwnid, þad þeir geingu til; Og hañ liet þaa sem villdi hañ leingra gaanga, og þeir neyddu hañ og søgdu: Vertu hiaa oss HErra, þviad

Kvollda tekur, og aa Daginn lijdur. Hann gieck inn og var hiaa þeim. Og þad skiedi, þaa hann sat med þeim til Bords, ad hann took Braudid, Blessadi þad og braut, og riettí ad þeim. Þa opnnduft þeirra Augu, so ad þeir þecktu hann, og hann hvarf fraa þeirra Augum. Og þeir sögdu sijn aa milli: Brann ecki ockar Hiarta i ockur, þaa hann taladi vid ockur aa Veiginum, og opnadi fyrir ockur Ritningarnar? Og þeir stoodu upp aa sömu Stundu, og snern aftur til Jerusalem, og fundu þa Ellefu samansafnada, og þa sem med þeim voru. Hvorier ed sögdu: DRottinn er sannarlega Upprisinn, og hefur byrtst Simoni. Og þeir sögdu hvad giorst hefdi aa Veiginum, og hvörninn þeir hefdu þeckt hann, i þvi hann braut Braudid.

## Exordium.

Þessa Hatijdis Dags Evangelio heyrum vier, ad Tveir af JEsu Lærisveinum geingu fraa Jerusalem til nockurs Kauptwns, er nefndist Emaus, þad þijdir Kastala. Þad giefur mier þa Hugleiding, ad allir viljum vier, Brædur mijnir, laata leida oss wti eirn sterkann Kastala med David, Ps. 108. So vier kunnum Ohulltir bwa; Enn þad er Vansied, hvort vier erum allir so fwsir til ad gaanga med JEsu Lærisveinum wt af Jerusalem: Eg meina ecki hana, sem er riettchristinna Manna Samkunda hier aa Jordunne, Gal. 4. edur hina sem þar Uppe er, Hvar vör Umgeingne ætte ad vera, helldur hana, sem er i Þrælkair med sijnum Bornum, hvör ed myrdti sinn Konung, og giordi hanns Hws ad Ræningia Bæli, Luc. 19. Þad er, wt af hinni vondu Babylon, Apoc. 17. og 18. Hvör ad er Lijkneskia Veralldar þessarar, og ecki lætur af ad Krossfesta DRottinn ad niju, og offækia hann i sijnum Limum. Vier heyrum i Gudspiallinu, ad JEsus hafi Nalægst þessa sijna Astvini aa Veiginum, Og Geingid Jafnframt Þeim. Sioaum til, Brædur mijnir, ad vier meigum og nioota hanns Nalægdar aa hinni hættu og torvelldu Leid vorra Lijf-Daga, og ad hann gangi Jafnframt oss, þar til vier erum til vors Sijdarsta Herbergis komnir. Vier viljum af Dæme þessarra Tveggia læra. 1. Hvad vier eigum ad giora og adhafast, so JEsus vilie unna oss sinnar Nalægdar. 2. Hvornenn vier eigum honum ad hallda, so vier missum hann ecki. Hiaalpa oss hier til goodi JESU, og upplijwk vorum Augum, ad vier þeckium þig! Bænheir þad HErra, Fyrir þijna Forþienustu, AMEN.

## Utleggingin.

OG Siaa Ad Tveir Af Þeim Fooru Þann Sama Dag Til Nockurs Kauptwns; Segier Textinn. Af hvorium? Af hanns Lærisveinum, sem umgeingust med honum, fylgdu honum eftir, heyrdu hanns Kienningar, hlijddu þeim, elskudu hann

hann lifande og hörmüdu hann Daudann, enn vöru ecke vijsser i þvi ad hann være upp aptur risenn. Vilier þu, Christenn Madur, ad JEsus unne þier Naalægdar sinnar, þa breit epter þessum aa allar Lunder: Haf þijna Umgeingne med JEsu, tala vid hann i þijnum Bænum, i þijnu Hiarta, þa muntu finna ad sw Eilijfa Speken Guds hefur Lyst af ad bwa hiaa Mannanna Sonum, Prov. 8. Fylg honum epter, þad er, tak þinn Kross uppaa þig, annars ertu ecke hanns Læresveirn, Luc. 14. Hafe Gud þyrmt þier fyrer wtvortis Krossburde, þa gior þad þess helldur til Packlætis vid hann, er so væger þijnum Breiskleika, og Krossfest þitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, þvi so segier Paulus, Gal. 5. ad þeir giore sem Christo tilheyra, þad eru þeir, sem eru Christi Læresveinar.; Og nær þu temur þier soddann Krossburd, þa maattu vita, ad hann er þier Naalægur, þvi hanns Kraptur er i breiskum maattugur, 2. Cor. 12. Heir hanns Ord, laat þier þad vera sætara enn Hunaang og Hunaangs-Seim, Ps. 119. Gack yduglega þaangad sem þad er kient og um Hond haft, og ecke fyrer Sidasaker, helldur til ad læra nockud þier til Trwarstyrkingar, til Huggunar, til Sidboota: og vert viss um, ad hann er þier naalægur, þvi hvar sem Tveir edur Þrijr eru samannkomner i mijnu Nafne (þad er, til ad prijsa mitt Nafn, heyra mitt Ord, og tala vid mig i sijnum Bænum) þar vil eg vera midt aa millum þeirra, segier DRottenn hiaa Matth. 18. Enn um alla Hlute fram, þa kappkosta ad naa þvi Hlutskipte, sem bæde þesser hanns Læresveinar og adrer hlutu, sem var, ad elska hann: þad maatt þu siaa aa þeirra Dæme; þvi lijser sialfur DRottenn, er hann segier: Hvad Er Þad Fyrer Rædu Er Þid Hondled Yckar A Mille Reikande, Og Erud Hriggver Þar Af? Hvar fyrer vöru þeir Reikande? Þvi Gud hafde sleiged Hyrderenn, og Sauder Hiardarennar vöru sundurtvijstrader, Matth. 26. Hvar fyrer voru þeir hryggver? Þvi ad þeirra Meistare var tekenn fraa þeirra Hofde: Hier med sijndu þeir Elsku þa, er þeir hofdu aa honum, og ecke leyner Cleophas Orsokenne til Sorgarennar i Andsvare sijnu uppaa Spurningu DRottens. Siaa hvad kiærann hann hefur haft hann, sogdu Gydingar, er JEsus taaradest vid Grof Lazari, Joh. 11. Þesser sijndu hvad kiærann þeir hofdu JEsum, af þvi þeir syrgdu hann laatenn. Gior sama, Christenn Madur, þar þu veitst hann er upprisenn, og situr til Kraptarens Hægre Handar. Elska JEsum, þa mun hann þig elska, þvi so segier hann, Joh. 14. Hver hann elskar mig, hann vardveiter mijn Ord, og Fader minn mun elska hann, og til hanns munum vid koma, og Vistar-Veru hiaa honum giora. Born Veralldarennar faast ecke miog um, þoott þau vante JEsum. Hvar fyrer? Þvi þau elskudu hann alldrei. Saa griet ecke fyrer Gull, sem ecke aatte þad, segier Ordtæked. Heimurenn broser smaatt ad þvi, þoott JEsus hverfe honum, og þyker svo sem þad kome ecke sier vid, hvort hann er upprisenn edur ecke; Þegar hann hefur sinn Gull-Hnott ad treysta aa, þa er hann saattur; Þegar hanns Svijn, þad eru hanns saurug Verk og Ohreinar Gyrnder, meiga vera Omakslaus, þa er hann til Frids þoott JEsus vijke wr hanns Landsaalfum, Matth. 8. Þegar hann hefur sijn Skwrgod i Dan og Bethel til ad vardveita sijn Landamerke, og til ad hallda Stioorn yfer Foolkenu, ad ecke falle þad fraa honum til

Guds Þioonustu sem i Jerusalem, 1. Reg. 12. Þad er, i Guds Samkundu, tijdkast, þa þykest hann hafa vijslega um̃ sig bwed, enn þesser voru ei so lynder. Hvad heyrum vier hier i Gudspiallenu? Þeir Voru Ad Tala A VEigenum Um̃ Alla Þaa Hlute, Sem Til Høfdu bored. Og framar segier i Textanum: Þegar þeir voru ad bera sig samann og spyriast aa, Hafe JEsus Naalægst Þeim. Hvørt hid sierlegasta Iñtak Rædunnar vered hafe, þad maa siaa af Andsvare Cleophæ, sem er: Ad JEsus hafe vered Ofurselldur J Fyrerdæmingu Daudans, og sie nu allt hinn Þridie Dagur sijdann, enn Einglarner hafe sagt Kvinnunum ad hañ Lifde. Þeir hafa aan Efa vered ad bera sig sundur og samann um̃ þetta, hvad hier um̃ hallda skyllde. O! hvad satt er þad, sem DRottenn segier, Es. 42 um̃ sinn Son JEsum: Þann braakada Reir mun hann ecke i sundurbriota, og þann riwkanda Lijn-Kveik mun hann ecke wtslockva. Mikell var þesse Veikleike Læresveinanna, hvar fyrer hann og aatalde þaa hardlega, so sem hier stendur sijdar i Gudspiallenu. Enn meire var þo hanns Giædska, sem villde samlaga sig þeim, og vera hinn Þridie Madur aa Reisuñe, til ad leidrietta þaa, ad ei skylldu þeir gaanga framar i þessare Villu.

Lucas skrifar, ad þeirra Augu hafe svo halldenn vered, ad þeir þecktu hañ ecke: Þad hefur aan alls Efa af Gude skied: Hefde DRottenn strax Opennberad þeim sig, þa hefde hann ei feinged svo Ordsøk til ad laata þaa skam̃ast sijn fyrer þeirra Vantrw og Þeckingarleyse aa Ritningunum, og ecke til ad kveikia þañ Bruna i Hiarta þeirra, sem Ordsakadest af Utleggingu Spaadoomanna; hann hafde aadur noogu berlega talad fyrer þeim um̃ sijna Pijnu og Upprisu, Matth. 16. Eñ þad hafde þo ecke svo mikeñ Stad i þeirra Hiarta, ad þeir trydu Kvinnunum, er søgdu hann upprisenn. Mikel var Blindne þesse; Eins og hann, sem uppvakte Lazarum, Joh. 11. Doottur Jairi, Marc. 5. og Son Eckiunnar af Naim, Luc. 7. Hann munde ei kunna, ad laata sijna Saal fraa sier, og taka hana aptur, nær hønum þocknadest, Joh. 10. Nu villde hann fyrst laata þaa þeckia Vantrw sijna af Utleggingu Ritningaña, og sijdann auglijsa þeim, ad hann være hinn same, er þær høfdu um̃spaad; Þar var ad sønnu eirn Trwar-Neiste i Hiarta þeirra, enn hann var svo diwpt falenn i Østu Vanþeckingarennar, ad hann, sem visse hvad med þeim bioo, Joh. 2. villde fyrst rydia henne i burtu med Utleggingu Spaadoomanna, og sijdann blaasa ad hønum med sijnum Anda, svo þar kviknade eirn Elldur af, hvør ed sijdann brann i þeirra Hiarta, hvad þeir sialfer jaatudu. Vidlijka Atferd brwkar DRottenn nu i Dag vid sijn Børn. Hvad opt eru vor Augu so halldenn, ad vier þeckium hann ecke; Þegar vier røtum i einhvørn Mootgaang, þa køllum vier, ad hanns Hønd sie stutt vordenn, og ad hann hafe forgleymt Myskunsamur ad vera, Jafnvel þoott vier i Guds Orde høfum so mørg Fyrerheit um̃ hanns Adstod i Mootlætenu. Þegar oss vantar hañs innre Hugsvølun, finnum ecke til hanns Anda, ecke til Fyrergiefningar Syndanna, oss þykia þær stærre vera, enn ad þær kunne so audvelldlega ad fyrergiefast, þa eru vor Augu so halldenn, ad vier þeckium hann ecke. Mørg eru slijk Tilfelle fyrer þeim, sem Gud elska; Og þarf þo ei ad kalla þad Tilfelle, eins og Læresveinarner hier kollydu, þvi þeir þecktu ei Guds Raad,

minā

minna hender hanns Born æn hanns Vilia, helldur er þad Reinsla Trwarennar, þegar Menn þykiast kallder i Værenne, kallder i Ydranenne, esast um sijna Utvalningu, vantreista sier ad þeir fæe stoduger staded allt til Enda. Þegar vier fordæmum oll vor Goodverk, ef þau mæ so kalla, og ætlum ad Gud mune ei taka þau fyrer Avexte Trwarennar, af þvi þau sieu so Ofullkomenn, þegar oss slijkt ad Hondum ber, þa eru vor Augu so halldenn, ad vier þeckium hann ecke: Jæ, þegar ein almenneleg Synd verdur so stoor i þess Augum, sem eckert villde Gude æ moote giora, ad hann ætlar hann mune vera sier Reidur, eins og Læresveinarner, er þeir hofdu gleimt ad taka Brauded med sier, Matth. 16. Þa þeckium vier JEsum ecke. Enn nær vier hofum þannenn yfergiefed siaalfa oss þa opnar hann oss fyrst Ritningarnar: J Mootlætenu segier hann oss þad sama og Læresveinunum: Byriade Ei Christo Þetta Ad Lijda Og Jungaanga So J Syna Dijrd? Enn sa skal med honum lijda sem med honum skal Dijrdlegur verda, Rom. 8. Laate hann hiñ Ogudlega vada uppe og hafa Jferhondena, þa skipar hann oss med David, Ps. 73. inni Helgedoomenn, þad er hanns Heilaga Ord og Ritningarnar, til ad skoda þar hvornenn hann breyter vid hinn Gudlausa: Ef vor Saala er Orooleg i oss med David, Ps. 42. af einhvoriu þvi, er eg strax upptallde, edur audru þvilijku, ha skipar hañ oss ad bijda epter DRottne, edur vier fæum ad heyra med Paulo: Laat þier nægia mijna Naad, minn Kraptur fullkomnast i Breiskum, 2. Cor. 12. Og þegar vier so hofum leitad ad honum i Ritningunum, þa mun hann vera oss nalægur, þa finnum vier hann, þa blæs hann ad Neista vorrar Trwar med sijnum Anda, so ad vier þeckium Pant vorrar Arfleifdar, Eph. 1. Og efunst ecke um Guds Vinaattu nie eilijft Lijf, so leinge vier hañ hofum, þa brennur vort Hiarta i oss, þar kviknar Elldur Elskuñar, Elldur Trwareñar, Elldur Kiærleikans, sem eru Guds Foorner i hanns Mustere, sem er vort Hiarta. So er nu DRottenn JEsus nalægur ollum þeim sem æ hann trwa, þoott veiker sieu. Dumædeleg var Giædska DRottens, J þvi ad opennbera sig Astvinum sijnum strax sem hañ var uppriseñ af Dauda, hvorier hann þo aller hofdu yfergiefed og fra honum flwed, Matth. 26. nema hañs Mooder og Johañes med faam einum Kviñum, er stoodu vid Krossenn, Joh. 19. Jæ, Petre, sem honum hafde Prisvar afneitad, skipudu Einglarner sier i Lage ad boda hanns Upprisu, Marc. 16. Mariu Magdalenu, fra hvorre hañ hafde wtreked Sio Diofla, Luc. 8. opennberade hann sig fyrst allra Manna, Joh. 20. An Efa, þvi hun hefur vered Sorgbitenn og Veiktrwud, þvi epter Christo spurde hun so sem framlidnum Manne: Þeir hafa burt-teked Herrann minn, og eg veit ei hvar þeir hafa lagt hann: Og af Samtale DRottenns vid hana, mæ hvad mest ræda, hvorsu honum hefur vered umgiefed ad hugsvala þeirra Ormæddum Saalum. Snert þu mig ecke, sagde hann, þvi eg em enn nu ecke uppstijgeñ til mijns Fodur, helldur far til Brædra miña og seig þeim, ad eg fer upp til mijns Fodur og ydar Fodur, etc. Skilie eg þetta riett, þa er su Meiningenn: Maria hefur viliad fagna honum, sem Von var, og þreifa æ honum, enn hann liet sier so annt um vera, ad hun flytte sijnum Brædrum strax þennann Fognud,

þvi vafnade hañn henne þess, ad ecki skylldi hun tesia sig, þvi eg em eñ nu ecki uppstijgiñ til mijns Födur; Pier verdur noogur Tijmi til ad tala vid mig, og þreifa a mier, þar til eg uppstijg; far skyndilega og kunngior mijnum Brædrum þessa Gledi fyrst. Þesse hygg eg sie Meiñingin i Ordum DRottiñs: edur þvi skylldi hann annars bana heñi ad snerta sig, helldur enn Thomæ og hinum Læresveinunum? Joh. 20. Enn hvornenn sem þessu er vared (eg læt hvorn eirn raada sinne Meiningu hier um) þa tek eg þetta til Dæmis um Fodurlega Giædsku DRottens og Medaumkun med þeim Trwarveiku: þeir hofdu yfergiefed hann, hann leitar ad þeim ad fyrra Bragde, þeir mættu reiknast burthlaupner, hann kallar þa sijna Brædur, Joh. 20. Þesser Töfir, sem geingu til Emaus, hofdu ecke nærre vered, þegar hiner adrer feingu Bodskapeñ um þad ad DRottenn hefde byrtst Simoni; þo vill hann ecke ad þeir skule fara varhluta af þessare Blessan, helldur medtaka hana Samdægris og hann uppreis, eins og hiner; Hvar af þad maa sia, ad Trwarveikenn kann ecke ad hindra Nalægd Christi, helldur, so sem good Mooder lætur sier mest umhugad vera þad Barn sem Veikt er, so er og DRottenn þeim nakvæmastur, er i Trwnne hvad veikaster eru. Ein veik Trw er þo Trw, ein vanheil Hond tekur eins vel vid Olmusu og ein fullhraust. Ein lijtel Trw er þo Trw; Eirn Vatns-Drope er somu Natturu og Sioorenn; Ein lijtel Perla er þo Perla; Eirn Neiste er og Elldur; Eitt Barn er so vel Manneskia, sem eirn Fullordenn, Dvergurenn eins vel og Risen. Dootter hinnar Canaanisku, Matth. 15. og hinn Tunglsiwke, Matth. 17. bæde voru þau af Dioflenum plaagud; eñ eins hægt veitte DRottne ad lækna hann, þoott Fader hanns være Trwarveikur, so sem hana, þoott Mooder hennar være Trwarsterk, og eins vel hiaalpade Drottenn Konungs-Mañenum, Joh. 4. so sem Hundrads-Hofdingianum, Matth. 8. Enn hvad skulu þeir nu til Marks hafa um þad, sem Trwarveiker eru, ad þeir sieu i Trwnne? Hun er so lijtel aa Stundum og Olioos, ad vier þeckium hana ecke, þott hun sie inne hiaa oss. Magdalena saa JEsum og talade vid hann, enn þeckte hann þo ecke, Joh. 20. Sama hender og Guds Born, ad þau ei þeckia JEsum aa Stundum, þoott hañ gange jafnframt þeim, eins og þessum Læresveinum. Skodum þvi Dæme þeirra, og færum þad heim uppa oss: Þeir voru Sorgbitner; Hvar af? Þvi þa vantade JEsum. Sierdu þu og hryggur af þvi, ad þu finnur ecke þin Lausnara i Hiarta þijnu, þad er, nær þu efast um Syndanna Fyrergiefning, þa leita epter honum med Brwdenne, er gietur um i Lofkvædenu, Cap. 5. Þu veitst ecke hvar þeir hafa lagt HErrann þinn, eins og Maria, þa brwka þessa Sorg til ad lækna siaalfan sig med. Holld og Blood vekur hana ecke, þad sorgar fyrer þvi sem Madurenn aa ad eta og drecka, enn ecke fyrer Christo. Guds Anda Verk er hun i þier, og er Christur þa ecke langt i burtu, þvi hann og Heilagur Ande eru Eitt, og mun hann koma i Leitena þegar minst Vonum varer.

Þesser Guds Viner voru ad tala um alla þa Hlute, sem tilfalled hofdu, um Kraptaverk DRottenns (þar þeir sogdu hann hefde vered Spaadooms-Madur, Mattugur J Ordum Og Verkum), um hanns Pijnu, um hanns Upprisu: sem lioost er af Gudspiallenu,

enn. Hafog þetta til Merkis: sie þier inndællt ad tala um̃ Gud, um̃ hanns Daasemdar-Verk, hanns Stoormerke, hanns Velgiørninga, hafer þu þijna Lyst i þessu og meiger giarnann heyra adra tala þar um̃, þa bijr Christur i þier. Enn hafer þu Leida aa Guds Orde, þyke þier um̃ allt annad meira Gaman ad tala; ef þu venur Munn þinn til swllrar Rædu, sieu skam̃arleg Ord og fifslegt Hial þitt Epterlæte, hallder þu Guds Dijrkun fyrer eckert, þyke þier lijted koma til þess ad þioona honum, og metur hanns Umbun ei ad miklu, helldur forsmaaer þaa er til hanns vona; þa tak þier Vara: þvi so sannarlega sem JEsus er þeim naalægur, sem laangar epter honum, þoott Veiktrwader sieu, so vissulega er hann þier horfenn, þoott einkis Meins þykest þu kienna, og fæst ecke aptur nema med heitre Bæn og sannre Ydran. Nu þoott þad sie heilnæmt og Gude þocknanlegt, ad tala um̃ alla DRottenns Velgiørninga, þa er þo eckert Huggunarsamlegra, enn ad tala um̃ hanns Dauda og Upprisu, so sem þesser giordu. Þeir toludu i Faafræde og Einfalldleika. Eñ Gud giæfe! ad vier, sem betur erum uppfrædder i þessare Himnesku Speke, helldur enn þeir voru i þad Sinn, vier villdum þess helldur laata oss þessar Haaleitu Guds Daasemder til Hiarta gaanga, og oss i Nyt færa, sem vier erum Sannfroodare hier um̃. Eckert er þad i voru Saaluhiaalpar Verke, ad Minning JEsu Kvala, hanns Dauda og Upprisu kunne ecke ad wtrietta i þvi Hiarta, sem ydugléga þar um̃ hugsar. Þegar eg minnest aa Synder mijnar, sem opt hafa styggt fraa mier Gud, hinn ypparsta Gooda, og mier ecke so hitnar i Briooste, sem eg giarnann villde, þa mætte þad koma Sudunne upp aa Hiarta mijnu, ad Guds Sonur er fyrer mig Raunglaatann Saklaus kvalenn og deyddur, Rom. 5. Þykest eg i Bæuenne kalldur vera, þa mætte þad smellta Hiarta mitt, ad Guds Eingietenn Sonur sveittest Bloodenu, er hann badst fyrer, Luc. 22. under minne Synda-Byrde, og vard þo ecke Bænheyrdur, so hann giorde mijna Bæn kroftuga fyrer Gude, þoott hun sie veik. Hafe eg Opocka aa nockrum Manne, og giet ecke so flioott dreped þa Freistingu, þa hugsa eg til þess, ad DRottenn miñ bad fyrer Yfertrodslu-Monnunum, þeim er hann kvoldu, Luc. 23. og mun eg braadlega skam̃ast mijn, ad rækia þad Lijtilræde, er minn Brooder mier til giørde. Elske eg Heimenn edur nockud þad sem i honum er, þa rekur hanns Elska þad braadlega wt, sem doo fyrer mijnar Synder, þegar eg var hanns Ovinur, Rom. 5. so eg meige Eilijflega lifa, ef eg forsmaae Heimenn, enn elska hann sem mig hefur so heitt elskad. Ofbioode mier Stærd minna Synda, þa minner Heilagur Ande mig aa, ad Gud er daaenn i mijnu Hollde, og hafe eg sied hann daaenn fyrer mijnar Synder, þa sie eg hañ vel upprisen̄ mier til Riettlætis, Rom. 4. Læresveinarner þecktu DRottenn i þvi hann braut Brauded; So þeckia og Christner Menn hann allra best, nær hann brijtur oss þad helga Braud i Altaresins Sacramento, sem ad er Meddeiling hanns Lijkama, og drecka þann Blessunarennar Kaleik, er vier blessum, sem og er Meddeiling hañs Bloods, 1. Cor. 10. Þa er hañ oss hvad naalægastur, þa siaaum vier hann hvad best med Augum Trwarennar, þa þeckium vier hanns Guddoomlega Elsku, og skodum hanns Myskunar-Ydur algiørlega, ad hann ecke einasta

hefur

hefur giefed sitt Lijf i Daudann fyrer oss og wthellt sijnu Bloode, helldur og fædir Saal-ir vorar a þvi hinu sama oss til Trwarstyrkingar um alla sijna Velgiorninga, þar kunngiorum vier hanns Dauda, þar skodum vier hañ uppriseñ: þvi læge hañ eñ þa i Grof-enne, hvornenn mætte hann giefa oss sitt Holld ad eta edur sitt Blood ad drecka? Nu hefe eg so nockud talad um hvorneñ vier eigum ad skicka oss, so JEsus vilie oss nalægiast. Epterfylger ad minnast a, med faum Ordum, hvornenn vier eigum ad hallda honum, so vier missum hann ecke.

Pad er ecke minna verdt ad giæta feingens Fiar, enn afla þess; Og þad mæ seg-ia um JEsum. Margur hefur ad sonnu feinged hann Einusinne inn til sijn, er þo hef-ur mist hannsijdann, og sumir alldrei aptur feinged. Judas sellde hann eitt Siñ fyrer Agyrndar Saker, Luc. 22. og miste hanns so ad Eilijfu: Hann mun sier marga Stall-Brædur i Heimenum eiga. Petur miste hann og, enn fieck hann þo aptur med beiskum Graate, Matth. 26. Pvi erþad vijst hier af, ad Menn kunna ad missa JEsum, þott Menn hafe eitt Sinn noted hanns Nalægdar. Par fyrer bañar Paulus og ad hryggia Heilag-ann Anda, Eph. 4. Ja, hann segier: Vier skulum ei slockva Andann, 1. Tess. 5. So mu Atburde skal til þess hafa ad soñu ad hallda JEsu, so sem ad lada hann ad sier i Fyrst-unne; hvorugt gieta Menn an Guds Anda, þvi eingenn kann JEsum DRotteñ ad nefna fyrer utann hann, segier Paulus, 1. Cor. 12. Enn ad mootstanda ecke Heilogum Anda, þad er i Mannsins Vallde, sierdeilis þess, sem Endurfæddur er med Vatne og Anda. Eg vil ei Itreka þad aptur, sem adur er sagt, um þad ad niota JEsu Nalægdar; Enn eitt sie eg hier i Fare Læresveinanna, sem batt hann svo, ad hann gieck inn og var hia þeim; Hann Liet Sem Hañ Villde Leingra Ganga; Enn Peir Neyddu Hann Og Sogdu: Vert Hia Oss HErra, Pviad Kvollda Tekur Og A Dageñ Lijdur. Hvilijk ad ha-fe vered Naudung þesse, er audsied hier af, þad var ein audmiwk Bæn; Soddann Of-rijke hefur DRottenn opt lided; So neydde hann Konungs Madurenn, Joh. 4. So neydde hann hin Canaaniska, Matth. 15. So neydde Abraham Gud, er hann bad fyrer Sodomitum, Gen. 18. So neydde Moyses hann, er honum tookst ecke annad enn Myskuna Israel; So neydde Jacob hann, er hann sagde: Eg sleppe þier ecke, fyrr enn þu bleissar mig, Gen. 32. JEsus lætur opt sem vilie hann leingra gan-ga, þegar hann leggur oss sinn Kross a Herdar, enn vier siaum ecke, ad hann er oss nalægur, so sem adur er sagt; Pegar vor Eyrende luckast ecke, sem vier þo rekum i hanns Nafne, fyrer Mannanna Ofbelldis Saker, enn vier þeckium ecke hanns Tilgang. Hvad skal þa hier til giora? Eigum vier þa ad sleppa honum, og leita Raads hia Heiminum? Fiærre sie þvi. Hvad þa? Giorum eins og þess-er giordu? Neydum hann med audmiwkre Bæn og Andvorpunum, ad hann vil-ie hia oss vera. Eingum af oss hefur þvilijk Sorg tilfalled, sem þessum Guds Vinum; þeir hofdu mist hann, sem þeir hofdu allt sitt Traust a, fyrer hvorn þeir kañ-ske hofdu yfergiefed alla Hlute, eins og Petur sagde um þa Toolf, Matth. 19. Peir

voru eptir i Hers-Hondum, og þordu valla ad siaa uppaa nockurn Mañ, þar allir vissu ad þeir hofdu verid hanns Lærisveinar, er so Miskunarsamlega var wtleikinn fyrir Skomu; Og hvorsu uggvænt þeim verid hafi, þad sijnir oss bædi Dæmi þeirra, er forlietu hann i Grasgardinum, og St. Peturs, er Ottinn þreingdi honum til ad kannast ecki vid hann, fyrir hvorn hann þo skomu aadur villdi Lijfid laata, Matth. 26. sem og þad, ad þeir lokudu Dyrunum ad sier, Fyrir Hrædslu Sakir Vid Gydinga, Joh. 20. Samt neyddu þeir þennann Framandi Mann (þvi ei vissu þeir þaa añars), til ad vera hiaa sier: Hvar fyrir? Af þvi hann taladi um̃ JEsum, og opnadi fyrir þeim Ritningarnar, so þeirra Hiarta brann i þeim. Þessum Manni villdu þeir ecki fyrir hvorn Mun sleppa. Enn þu, Guds Barn, sem þeckir Jesum, og veitst hann upprisenn og setstann til Kraftarins hægri Handar, ad hann bidie fyrir þier, Rom 8. Villt þu ei taka þetta sama Raad, þegar þier sijnist hann vilie fram̃ hiaa þier gaanga? O Jw, Guds Barn, Fodurlegt Hiarta hefur Gud: Þañ er hægt ad locka, er siaalfur vill Dansa: Þu tekur alldrei so feigins Hendi vid Guds Naadar Hugsvolun, nær þig laangar eftir DRottni aa Þurrlendinu, eins og David, ad hann sie ecki liwfari til ad veita þier hana. Þegar Alexander hinn stoori hafdi lagst um̃ Borgina Tyrum med sijnum Her-Flockum, þaa skrifar Plutarchus, ad suma af Bæar-Monnum hafi dreymt, ad Godinn villdu flytia wr Borginni og i Herbwdir Konungs; enn þeir bundu þau med Hleckium, ad ei skylldu þau i burtu komast. O hvorsu mikid hofum vier, Christnir Menn, Gudi ad þacka! Graatlegt er til þess ad vita, hvornin̄ Andskotinn hefur blindad Vantrwarinnar Born. Vesælings Guder voru þad og aumur Atrwnadur, ad trwa aa þañ, sem þeir ætludu ad þeir mundu faa til Faanga tekid: Enn DRottinn JEsus hefur feingid oss adra Festi til ad binda sig med, Þad er hanns eiginn Bæn, hvor ed ritud stendur hiaa Lucam i 11. Cap. og Matth. 6. Og skomu sijdar i sama Capitula kiennir hañ oss, Hvornin̄ vier skulum leggia þessi Bond aa sig, med þessum Ordum: Bidied og mun ydur giefast, Leitid, og munud þier finna; knijid aa, og mun fyrir ydur upplokid verda. Og enn þa framar kiennir hann oss, hvorsu ad þessi Festi sie sterk og Obilandi, er hann segier: Þvi hvor sem bidur, hann skal medtaka; og hvor sem leitar hañ skal finna, og hvor sem ad aaknijr, fyrir honum skal upplokid verda. Eñ med þessu hefur hañ sijnt, ad oss ecki einasta byriadi Oaflaatanlega ad bidia, svo sem Lucas vottar, 18. Cap. Helldur heitt og aakaflega, eins og DRottinn i Grasgardinum, Luc. 22. Eins og Tertullianus skrifar um̃ Christna a sijnum Dogum, ad þeir komi samann i Eitt, og med nockurskonar Fylkingu og Athlaupi taki Gud til Faanga. O hvad Olijk er þessi kallda Verolld slijku! Menn hyggia þad sie noog, ad falla a Knien og hallda Klwtunum fyrir Augunn, og murra þar eitthvad, er þeir ei siaalfir skilia, Eins og Esajas skrifar um̃ Phitons Andann, og þa sem fooru til Frietta vid hina Daudu, Esa. 8. Er þetta Samneyti Heilagra? Er þetta hin saña Christilega Kyrkia? Mun nockud Andin̄ bidia fyrir þeim med Oum̃rædilegum Andvorpunum? O nei, Sannlega segie eg ydur, ad betra er alldrei ad bidia, þvi

þeirra Bæn verdur ad Synd, Ps. 109. og þeirra Guds Þioonusta ad Offri hinns
Faavijsa, Eccl. 5. Þessarra Lærisveina Hiarta brañ i þeim, aadur enn þeir neyddu hañ
med sier iñ ad gaanga. Siaa og til, Christiñ Madur, ad þu a einhvorn Haatt faair smellt
þitt Hiarta, aadur enn þu krijpur fram̃ fyrir Guds Haatign i þijnum Bænastad: Þad
er hægt ad giora i Kyrkiuñi undir hañs Orda Heyrn, ef þad er riett predikad, og þu
liær þvi Eyrunn, og þar fyrir utann; Strax sem þu Augunum upplijkur aa Morgna, þa
Ihuga hañs Giædsku og þijna Illsku, hanns Tign og þiñ Overdugleik, hañs Velgiorn-
inga og Værnd yfir þier, og þitt Hirduleysi og Vanþacklæti, og nær þu hefur so giort
um̃ Hrijd, þa gack til Bænarinnar, og bid Andañ ad bidia med þier, þvi þu vitir ei hvørs
þu aatt ad bidia, Rom. 8. Brwka sømu Adferd aa Kvølldum, og laat þessa Þaanka
svæfa þig, þa er þad vijst, ad þu verdur aa einhvørn Haatt bænheyrdur, Act. 7. Moyses
var eitt fagurt Barn Alits, sem Ritningiñ segier, hann predikadi svo vel fyrir Dottur
Pharaonis med Barns-Graatnum, er hann laa i Reyr-Kistlenum, ad hun komst vid
i sijnu Hiarta, og saa Aumur aa honum, Exod. 2. Miklu fegri muñ saa vera i Guds
Augliti, sem med JEsu Bloodi er aadreifdur. O! hvørninn munu hanns Myskunar-
Ydur saa leint sier, nær hann heyrir þeirra Graat og sier þeirra Taar, sem wt eru hellt
i hid rauda Haf Guds Eingietins Sonar dyrmæta Bloods, hvørt miklu betur kallar
enn Abels Blood, Heb. 12. Þar fyrir, mijnir Elskulieger, gleimid ecki ad bidia iduglega
og alvarlega um̃ Naavist JEsu: Sleppid honum ecki fyrr enn hann blessar ydur til
fulls. Þegar honum er tapad, þa er øllu tapad; Medann þier honum fast halldid,
þa er øllu halldid, þott þier missid alla Hluti, og jafnvel sialfst Lijfid, þa erud þier jafn-
rijkir, þegar þier eigid hañ, sem allt Valld er giefid bædi aa Himni og aa Jørdu, Matth.
28. Og hafi þar nockurn Tijma verid Þørf aa ad neyda JEsum til ad gaanga inn
til sijn, og vera hiaa sier, þaa er þad aa þessum sijdurstu og verstu Døgum. Vert Þu Hiaa
Oss HErra, þviad Kvøllda Tekur Og A Daginn Lijdur; Søgdu þessir Guds Meñ.
Þad maa kalla, ad allareidu taki miog so til ad Kvøllda i Heiminum. Myrkur Rang-
lætisins taka til ad byrgia fyrir oss Sool Riettlætisins; hin sanna Guds Þecking og
Skilningur aa hanns H. Ordi, er um̃snwinn i Kapprædur og Þrattanir. Þeir sem ei-
ga ad hafa Lykil Vitskunnar stunda þad mest, hvørniñ þeir meigi flækia adra i Spurn-
ingum, þeim er þeir ecki sialfir skilia, og þykiast miklir Menn, þegar þeir vel Munnhøgg-
vast; Eñ hinni søñu Þeckingu Guds og hanns Lærdooms sleppa Meñnu um̃ Stundir, og
þad velldur þvi ad nockru Leiti, ad Lijfernid er aungvann veigiñ so sem Christnum sømir,
þar Menn laata Guds Rijki vera foolgid i Ordum einum. Menn hafa Skyn Gudhræd-
sluunnar eñ afneita heñar Krafti, 2. Tim. 3. So varla er ad fiña Trw aa Jørdu, Luc. 18.
Eg meina þaa Trw, sem verki fyrir Kiærleikañ, Gal. 5. So þad er stoor Naudsyn øll-
um Guds Børnum, ad neyda Christum ad vera hiaa sier, þar allt teiknar til þess, ad
Dagur DRottinns muni ei laangt i burtu vera, Og þoott ei væri, þa veit eg ecki nema þad
Augnablik, sem eg lifi aa, sie Kvølld miña Lijfdaga, þvi vil eg JEsu hallda og honum ecki
sleppa,

sleppa, so nær sem eg dey, þa deye eg med Lausnara minn i Fadmenum, og ad hvort sem eg life edur dey, þa sie eg hanns, Rom. 14. Slepp þu mier, sagde hann Fordum vid Jacob, þviad nu Dagar, Gen. 32. Minn HErra, eg vil ecke sleppa þier, þviad nu Kvolldar; Eg sleppe þier ecke fyrr enn þu blessar mig, þvi eg veit ecke nær enn Myrkur Daudans byrger mijn Augu. Nootteñ er umlidenn, eñ Dagurenn tekur ad nalgast, sagde Paull aa sijnum Dogum, Rom. 13. Þad var og satt, þviad þa var Sool Riettlætisins, so ad segia, Nijlega upprunnenn, og skein fagurt i Heimenum leinge fram epter Olldunum. Enn nu ætla eg ad þessu meige umhverfa, og segia: Dagurenn er hartnær umlidenn, enn Nootteñ er i Naand. Vert þvi hiaa oss HErra, þviad Kvollda tekur og a Dagenn lijdur. Jaa; O HErra JEsu Christe! Þegar dregur ad Rockre Æfe vorrar, og vor Augu taka til ad formyrkvast i Daudanum, so þau siaa ecke leingur; Vert þu þa hiaa oss, þegar aller hafa forlaated oss, og vier siaalfer hofum yfergiefed oss, enn varpad Saalu og Lijfe i þinn Myskunar-Fadm; Laat oss þa leggia vora Trwar-Hond i þijna Sijdu, og hennar Fijngur i Naglaforenn, og gief ad vier þa sieum Trwader og ecke Vantrwader. Upplwk þa vorum Saalar-Augum, ad vier þeckium þig oss af Gude giefiñ til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Saaluhiaalpar. Bænheyr þad goode JEsu, fyrer þitt Blood og Forþienustu, Amen; J JEsu Nafne, Amen.

# Þridia Dag Paaska.

Gudspialled, Luc: 24. Cap.

JÞañ Tijma. Þa Læresveinarner voru nu eñ ad tala um þetta, Stood siaalfur JEsus midt i mille þeirra, og sagde til þeirra: Fridur sie med ydur. Eñ þeir skielfdust og urdu hræddir, og meintu ad þeir sæe Anda nockurn. Og hañ sagde til þeirra: Hvar fyrer skielfest þier, og þvi koma slijker Þanckar i ydar Hiortu? Siaaed mijnar Hendur og mijna Fætur, ad eg em þetta siaalfur. Þreifed aa mier og skoded, Þviad Ande hefur ei Holld og Bein, so sem þier siaaed mig hafa. Og þa hañ sagde þad, Sijnde hañ þeim Hendur og Fætur. Og er þeir trwdu eñ eige fyrer Fagnadar Saker, og undrande þad, Þa sagde hañ til þeirra: Hafed þier hier nockud Matarlegt: Og þeir logdu fyrer hañ Stycke af Steiktum Fiske, og Hunangs Seim, Og hañ took þad og aat fyrer þeirra Augum. Og hañ sagde til þeirra: Þetta eru þau Ord, Hvor eg talade til ydar, Þa eg var eñ nu hiaa ydur, Þviad þad hlaut allt ad fullkomnast sem af mier er skrifad i Moysis Logmaale og i Spaamañana Bookum og Psalmum. Þa opnade hañ þeirra Hugskot, So ad þeir skildu Ritningarnar,

nar, Og sagde til þeirra; So er þad skrifad, og svo byrlade Christo ad lijda, og upp ad rijsa aa Pridia Deige fraa Daudum, Og predikast laata i Sijnu Nafne, Yòran og Fyrergiefning Syndanna aa medal allra Pioodæ, Uppheflande i Jerusalem. Enn þier erud Vottar allra þessarg Hluta.

## Exordium.

Fridur aa Jordu og Mennum goodur Vilie! Sungu Einglarner Fordum, þegar Mannkynsins Endurlausnare var i Heimenn borenn, Luc. 2. Þa maattu þeir Himneskn Andar lijsa þessu Fridar Bode i Umbode sijns HErra, þar hann laa eitt Omaalga Barn i Stallenum, og aatte þo margt epter Ogiort, sem ad þurfte, til ad semia þennann Frid mille Guds og Manna. Enn nu, þar hann fyrer Krossens Dauda hafde afmaad allann Ovinskap, sem hanns Utvallda maatte fraa Eilijfum Fride hindra, þa lijser hann sialfur þessum Fride yfer sijnum Elskulegum Læresveinum, hvorier ad sijdann fooru med þetta Fridar Bod vt um allann Heimenn, epter hanns Skipan. Enn fyrer þvi, ad vier erum og þessa Fridar Bods Hluttakande vordner, þa viliüm vier af Gudspiallenu hugleida. 1. Hvilijkur ad sie þesse Fridur. 2. Hvornenn vier eigum honum ad taka. Þar til hiaalpe oss hinn goode Gud, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingen.

Hvilijkur ad þesse Fridur sie, Brædur mijner, þad siaa Menn, nær Menn athuga hvilijk ad var Sekt Mannkynsins, er þad styggt hafde hinn Almaattuga Gud. Er Fridur Jehu? Sagde Fordum Joram Israels Konungur, er hann mætte honum aa Veigenum, enn Jehu svarade: Hvad gillder þig um Frid? Þar Hoordoomar og Tofrar Moodur þinnar vara enn nu, 2. Reg. 9. Ad vijsu er þad satt, ad vor Fyrsta Mooder hafde ecke þær Skamer adhafst sem Jessabel, enn þo maa ecki þvi neita, ad af hennar Fyrstu Synd, eru komnar allar þær Synder, er i Heimenum hafa sijdann drygdar vered. Þeirra Sekt varde allt til þess, ad vor Fridar Hofdinge neglde þa Handskriftena aa Tried, sem i giegn oss var, under eins og hanns blessudu Hendur og Fætur voru aa Krossenn negldar. Þar var eingenn riettkalladur Fridur, aadur fyrer syndugt Mannkyn, Jafnvel þoott ad Synden være allt þaangad til under Guds Polennmæde, Rom. 3. Noe bygde DRottne eitt Altare, epter þad hann var frelsadur af Vatns-Floodenu, og Fornfærde þar aa allra Handa hreinum Dijrum, so ad Gud lyktade eirn Sætleiks Ilm og lijste Fride yfer Mannkynenu, segiande: Ecke vil eg framar bolva Jordunne fyrer Mannsins Saker, Gen. 8. Þesse Fridur naade þo ecke nema til Lijkamlegs Frelsis, enn þa voru Saalernar Okvittar vid Gud, nema hann hefde vitiad vor, upprunnenn af Hædum, i sijnum Myskunar Yòrum, med Sendingu sijns Eingietins Sonar i vort Holld, þegar þad Saklausa Guds Lamb var aa Krossenum Fornfært fyrer allar Verallðarennar Synder

er, med hvoriu ad bædi Noa og allar adrar Gamla Testamentisins Foornir eru helgadar og fullkomnadar, þa lyktadi Gud til fulls eirn Sætleiks Ilm. Og þegar hañ hafde hiaalpad honum wt af Daudanum, sem Paulus segier, Hebr. 5. wt af þvi Reidinnar Floodi sem gieck iñ ad hanns Saalu i Kvoliñi, þa hefur þessi mikla Hetia, ad uppleystum Daudans Fiotrum, med ollum Rietti lijst þessum Fridi yfir sijnum Brædrum. Þegar Brædur Josephs hofdu fundid Fied i Seckiunum, er þeir ecki aattu Von a, þa urdu þeir Ottaslegnir, so þeir vissu ecki hvad þeir skylldu til Raads taka, Gen. 43. þa sagdi Raads-Madur hañs til þeirra: Fridur sie med ydur, Ottest þier ecke, ydar Gud og ydar Fodurs Gud hefur sendt Fied i ydar Sioodu. Þeir hofdu i þad Sinn eckert Illt giort, Samt Ottuduft þeir og meintu sier munde kieñt verda um þessa Varmennsku. Enn hvad hafde syndugt Mannkyn i moote Gude giort? Þad hafde rænt hañ sijnum Heidre, þad hafde Lijflaated hanns Eingietenn Son med sijnum Illgiordum, og, ofann aa allt þetta, ecke þeckte meir sinn Vitiunar-Tijma, Luc. 19. helldur enn Jacobs Syner vissu, hvorneiñ Fied var apturkomed i Secke þeirra. Veralldlegier Hofdingiar, er þeir giora Frid vid annann, þa stadfesta þeir hann med Bresum og Ritningum, edur og seliast Gisla aa. Þess þurfte ei hier af vorre Hende, þvi vier aattum vid þann eirn ad skipta, sem aungva Vissu þurfte af vorre Alfu og aa alls Koste vid oss, ef vier ecke holldum hañs Fridar Saattmaal. Eñ so hañ tæke allañ Efa fraa sijnum Læresveinum um þetta Fridar-Bod, þa sijner han þeim þad, sem ollu sterkara og Obrigdulla var, enn nockurs Konungs Hond edur Innsigle, er hann sijnde þeim sijnar Hendur og Fætur. Gledelegt var þetta Fridar-Bod Læresveinunum, Br. M. Eñ ecke hofum vier miña þeiged i þvi, hvorra Fedur voru aan Guds i Heimenum, Eph. 2. Hvilijkur er hann, sem vier hofdum stríed fraa, Jaa, fraa hvorium vier Daglega flijum, og briootum hanns Raad af oss med Syndunum? Þad er Konungur Himens og Jardar, DRottenn sterkur Vandlætare, vitiande Raanglætis Fedranna a Sonunum i Pridiu og Fioordu Ættkvijsl, Exod. 20. Jaa, munde vitiad hafa i Þusund Lidu, allt til Enda Veralldar, nema ad vier, Riettlætter fyrer Trwna, hefdum Frid vid Gud fyrer DRottenn vorn JEsum Christum, Rom. 5. Nu er þad vijst, ad Syndeñ reiknast so stoor sem hann er til, sem hun er aa moote giord. Enn um Guds Haatign er kunnugra, enn fraa þurfe ad segia. O Guds Barn! Hvilijk Glede er þad þa, ad hafa Frid feinged vid svoddañ Konung, og svoddann eirn Frid, sem alldrei um Æfe maa riwfast, nema hann af oss rofenn verde! Hvar fyrer þvi er ecke ad gleyma, ad skomu aadur eñ DRottenn fieck Læresveinunum i Hendur Lykla-Vallded til ad fyrergiefa og apturhallda Syndunum, þa lijste hann Frelde yfer þeim, Joh. 20. Þar fyrer nær þessi Fridur til allra þeirra, sem taka Kvittun Synda sinna af Gude, fyrer hanns Raads-Manna Þionustu. Hun er eitt Aflaats-Brief, sem Christur underskrifar med þeirra Hende aa Hofud allra Riett-Trwadra, eñ iñsiglar þad sialfur i þeirra Hiarta med Heilogum Anda, hvor ad er Pantur Arfleifdar vorrar, Eph. 1. Þess gietur Paulus, 2. Cor. 5. Segiande: Gud hefur i Christo sætt Heimenn vid sialfann sig, tilreiknande þeim ecke þeirra Yfer-

trodslur, og leggiande oss uppaa ad boda Forlijkun þessa. Þvi hvørs Synder kvittar eru, hann hefur Frid vid Gud, Frid vid hanns Løgmaal, og Frid vid Samvitskuna. O! hvørsu fagrer eru þa Fætur þeirra sem Fridenn boda Esa. 52. Og hvad kunne gledelegra þeim ad bodast, er saatu i Myrkrunum, enn þesse Fridur! Nah. 1. So vier meigum þvi fagna, er Zacharias skrifar, Cap. 9. Hañ mun fyrer Testamentesins Blood wtleida hina Bündnu af þeirre Grifiunne, hvar eckert Vatn var inne, og boda Heidingiunum Fridenn. Og hefur hin eilijfa Giædska ecke laated þar med bwed, ad hann hefur giefed oss Syndernar kvittar, og giort Frid vid oss i sijnum Syne. Þad dijra Gialld, sem hin Eilijfa Haatign lauk i voru Hollde aa Krossenum, maatte enn þa meire Blessan, meire Sælu, og meire Føgnud afreka, þad var, ad hann sette oss i sijns Sonar Rijke, Col. 1. Hvort ad ecke er Matur nie Dryckur, helldur Fridur og Føgnudur i Heilogum Anda, Rom. 14. Þegar Veralldleger Høfdingiar giefa einhvørium Grid; þa þykiast þeir vel giøra, ef þeir laata hann hallda Lijfe og Lands-Vist. David gaf Simei Lijf, 2. Sam. 16. og þootte vel giørt, wr þvi sem raada var. Salomon gaf honum Lands-Vist, þo med þvi Moote, ad hann fære ecke wt af Jerusalem, 1. Reg. 2. Josua gaf Gibeonitunum Frid, og þad til ad hallda Loford sitt er hann villde ecke bregda, og lagde hann þeim þo nockurskonar Þræłdoom uppaa, ad høggva Trie og bera Vatn til Þioonustugiørdarennar, Jos. 9. Enn hvad er Gud skylldugur ad hallda vid oss Mennena, sem Daglega briootum þann Eid, er vier unnum honum i Skijrnenne, nær hañ trwlofade oss sijnum Syne fyrer hanns Blood med Heilogum Anda? Jaa, hvad opt høfum vier rofed þad Heit, er vier so tijdt høfum giørt honum i Skrifta-Stoolnum, ad aflaata og siaa vid Syndunum? Og samt hefur hann ecke einasta uppgiefed oss, og daglega uppgiefur øllum þeim, sem vid hann Fridmælast, alla Skulldena, og þau mørg Tiju Þusund Punda, er vier so tijdt verdum honum skyllduger, Matth. 18. helldur lofar oss Omælannlegrar Dijrdar eilijfre Þijngd, fyrer Munn sijns Þienara St. Paals, 2. Cor. 4. øllum þeim sem bera vilia hid sæta Ok Christi, og hanns liettu Byrde; Jaa, øllum þeim ed sier til hanns snwa vilia fraa sijnu illu Athæfe og vondre Breitne, allt frañ under Daudastundena. Hvilijkur er þa þesse Fridur? Edur hvør fær hann nooglega prijsad? Ecke hefur DRottenn heited sijnum Børnum Veralldarennar Fride, miklu helldur segier hann, þeir skule hafa Angist i Heimenum, Joh. 16. Enn þvi hefur hann lofad, ad þeir skylldu hafa Frid i sier, Joh. 15. Jaa, þann Frid sem Verølldenn kann ei ad giefa, og þann Frid sem eingenn kann af oss ad taka, Joh. 16. So leinge vier høfum Frid vid hann, sem oss þeñan Frid alleina giefed hefur og giefa kann, en eingenn annar. Þar verdur alldrei so tryggelega bwed um nockra Veralldareñar Saatt edur Fridar-Giørning, ad Meñ kuñe ad seigia ad hann skule leinge stadfastur vera. Hann kann ad vara i Tveggia Konunga Tijd þeirra aa mille, medann þeir lifa bader, og þo ecke alltijd. Hvad leinge hielldst Saatteñ aa mille Syrlands og Samarlan, er Achab og Benhadad giørdu, 1. Reg. 20. Hvørsu vel efnde Ptolomeus þad hann heited hafde Doottur-Manne sijnum Alexandro, edur Rom-

veriar

veriar Gydingum, 1. Maccab. 10. og 11. Enn uppaa þann Frid maa reida sig er Gud heiter oss syndugum Monnum, þar er alldrei Lijge fundenn i hanns Munne. Eckert er tijdara enn þad i Heimenum, ad þegar Tveir hafa Osatter vered, og þeir lætast þo sættast heilum Sættum, og jafnvel sveriast Eida aa, ad saa bregdur af, er sijdann fær Vallded meira, og finnur sier allt til Ordsaka, helldur enn ad hann ecke hefne sijns Vansa, sierdeilis ef hann þykest hafa vorded under i Sætteñe; Þvi er þesse Maals-Hættur Heimsins: Vakta þig fyrer þeim Vin, er þu hefur sættst vid. Enn þetta er ecke ad Ottast hiaa Gude; oll hans Verk eru Myskun og Sañleike, Ps. 25. Hañ er trwr, siaalfum sier kañ hañ ecke ad neita, 2. Tim. 2. Nema ef vier viliu̾ kalla þad Brygdmælge, ad þær Hefnder koma ecke strax yfer vondar Giorder, sem hann hefur hootad þeim; Enn vier bregdum Daglega af, og ecke gietum vier um̃ eitt Augnablik hallded vor Sære, þo hefur hann ecke wtskwfad oss, ecke hefur hann enn nu broted þann Frid vid oss, sem hann giort hefur vid aumt Mannkyn fyrer sijns Sonar Dauda, Rom. 8. Jafnvel þott þad jaata meige, ad aa þessum Tijmum hafe allt Holld fordiarfad sinn Veg, ei sijdur enn aa Dogum Noa, Gen. 6. Svo Menn kunna aungva Ordsok til þess ad færa, ad hunn straange og Riettlæte Domare ecke kollsteipe þessare vantrwudu Verolld, nema þa, ad hann er Gud og ecke Madur, Hos. 11. Þetta munu Ofgar þykia, er eg tala: Enn giætum ad, hvorsu fleire Manneskiur þar eru nu i Heimenum eñ aa Dogum Noa, hvorsu lijtell ad er Christeñdoom utenn hiaa Heidingiunum; Hvad faaer af Christenndoomenum sem jaata þa riettu Trw, og hvad faaer af þeim sem hana jaata, er færa verduga Avoxtu henne. Hvornenn aa þessu stendur, veit Gud eirn, þad er ei Monnunum unnt ad vita. Verda maa ad þar sieu fleire Guds Born enn Meñ hyggia; Þvi Elias visse jafnvel ecke, ad þar voru so morg Þusund i Jsraels Rijke, sem ecke hofdu beygt sijn Knie fyrer Baal, 1. Reg. 19. Enn ættu Meñ epter ytra Alite, edur Mannlegre Skynseme, ad dæma, þa kynne einhvor ad vijsu ad ætla, ad i Holld þessare mundu ecke ollu fleire vera Riettlaater, epter þvi sem Tala rennur til, helldur enn fyrer Flooded. Þetta skrifa eg alleina til þess, ad Meñ þecke Guds Oumrædelega Giædsku og Trwfeste, ad hann helldur vid oss enn nu i Dag þad Sættmaal, er hann giorde vid Noa. Hvad miklu framar mun hann þa hallda þa Saatt, er hañ giort hefur vid sijna Utvallda i Christo. Þess er og ad giæta, Brædur mijner, ad þott vier giorum Frid vid Mennena, sem oss Vollduge, Gofugre, og Sterkare eru, þa er ecke trwtt um̃, ad þeir kuñe ad duga oss þott þeir villdu, nær adrer þeim sterkare rijsa aa moote oss; Þvi allt Holld er Hey, segier Rodd Hroopandans, Esa. 40. Lijted gagnade þad Juda og Ephraim, ad þeir sendu til Konungsens af Assyria og Egyptalande, þvi DRottenn sagde: Hann skal ecke kunna ad græda ydur, og ecke ad lækna ydar Saar, þvi eg em so sem grim̃t Leon aa moote Ephraim, og so sem ungt Leon aa moote Juda. Os. 6. Soddañ Munur er nu aa þeim Fride sem Verolldenn giefur, og þeim er Gud giefur: Sieu þeir so Maattuger, so Vinsterker, so Frændmarger, sem þeir vera vilia; Eg aa eirn Vin sem alldrei skal bregdast; Eg em hanns, og Hann er minn, Cant. 6. Hann er megnugur um̃ ad setia Krook i Zenacheribs

nacheribs Naser, Es. 37. Hann gietur dreckt Pharao og hanns Vøgnum, og Reid-Mønnum, Exod. 14. Hañ kañ ad slaa Jeroboams Her, þott hann hafe umkrijngt Abiam, 2. Par. 13. Og þockneſt hønum ad laata vonda Menn hafa Yfer-Høndena, þa vil eg segia med David: Giøre hann vid mig hvad Gott er i hanns Auglite, 2. Sam. 15. Þad næger mier, ad eg hefe Frid vid hann, sem er Gud Fridarens; 2. Cor. 13. Hann giefur mier Frid i Offsooknunum, Rijkdoom i Armoodnum, Virdingu i Forsimaanenne, Heilbrygde i Siwkdoomenum, Saðning i Hwngrenu, Glede i Sorgenne, þad næger mier ad hann er minn Vinur, þegar aller mijner Viner hafa mig yfergiefed. Segied mier, hvad vill Verølldenn giora þeim, er Gud hefur giort so lynda? Ecke meir enn eitt Barn einum Risa, edur Skollahvelpurenn Leonenu. Ef eg er i Lande einhvorin, þar sem Herskaatt er, enn veit þo, ad þar er Fridur i mijnu Lande, hvar eg hefe Bw mitt, mijna Vine og Frændur og allañ Lijkamlegann Varnad, þa er eg þo betur til Frids þoott eg sie medal Ovina staddur; Eg er ei nema ein Mañeskia; Eg vil segia med Spekingnum; Eg ber allt mitt med mier, eg vil aa einhvorn Haatt siaa til, hvornenn eg Lijfs afkomeſt og naae mijnu Fødur-Lande. Guds Børn eru ad sønnu i Hers-Høndum i Utlegd þessare, enn þeirra Umgeingne og þeirra Borgar-Riettur er aa Himnum, Phil. 3. Allt hvad þau hafa i Verølldenne þad er ecke þeirra, Gud gaf þad ad sønnu þeim til Brwkunar og Medferdar, enn þau hafa ecke fest Hiarta sitt þar vid, helldur hafa þau þad Gude aptur giefed, eru þad Gots edur Gardar, Metord og Virdingar, Gull edur Silfur, þad er ecke þeirra eiged, þad er Christs Fie allt samann, og jafnvel sialft Lijfed, enn þeirra Fasta-Eign er aa Lande Lifande Maña. Eg vil siaa til hvornenn eg kunne ad naa þaangad Lijfs, hvar einginn skal Lijfed fraa mier taka, hvad mier alldrei mun bregdast, so leinge sem eg hefe Frid vid hann, sem er Fridarens Gud, sem er Lijfsens Høfdinge, Act. 3. JEsus Christus, hvør ed daudur var, og siaa hann lifer, Apoc. 1. So leinge eg veit minn Endurlausnare lifer, so Ottaſt eg eckert Strijd, hønum er ecke um Megn ad Leidsegia mier i giegnum minna Fiandmanna Hendur, Jaa, i giegnum sialfañ Daudann inn til Lijfsins, og ad laata mig lifa þott eg deye, þvi hvørt eg life edur dey, þa er eg þo hanns, Rom. 14. Þvi vil eg segia: Daude! hvar er þinn Broddur, Helvijte! hvar er þinn Sigur? 1. Cor. 15. Gud er saa sem oss hefur Sigurenn giefed fyrer DRottenn vorn JEsum Christum; Hønum sie Lof, Dijrd og Heidur ad Eilijfu, Amen. Og er nu þetta sagt þar uñ, hvilijkur ad þesse Fridur sie; Eptersylger ad tala uñ, hvornenn vier eigum hønum ad taka.

Þad er ecke noog, Guds Børn, ad þyggia Grid af einum Konunge, nema Menn hallde þau. Zedechias Konungur took Grid af Nebuchadnezar, hvør ed gaf hønum Kongungs Rijke i Juda epter Frænda sinn Joachim, 2. Reg. 24. Enn hann giørde Uppreist aa moote hønum og hiellt ecke Saattena, hvar fyrer hann took hann faangenn, stack hanns Augu wt og flutte til Babylon, 2. Reg. 25. Margur hefur saa teked Grid af Gude, i Skijrnenne, fyrer Christi Blood, sem skytst undann hønum aptur og giøreſt Satans

Madur,

Madur, med Vantrw og Syndsamlegu Athæfe, og verdur þa hin seirne Villann argare hinne fyrre, Matth. 27. Hvar med gietum vier þa vid hinn Almættuga Frid halldeð? Ef vier erum hanns Þegnar vordner, þa eigum vier honum Skylldur ad giallda:

Hin Fyrsta Þegnskyllda vor vid hann, er audmiwkt Packlæte Hiarta vors fyrer þeñ ann Hæleita Velgiorning; Offred DRottne Lofgiordenne, segier David. Varla mæ mina vera, Br. mijner, enn ad vier Offrum honum Kalfum Vara vorra, Os. 14. Þad er Lofgiordenne, er sijnum Eingietna Syne, þvi Saklausa Guds Lambe, liet slatra æ Krossens Altare, til ad forlijka Heimenn vid siaalfañ sig. Margur þykest ad sonnu þeñ ann Skatt lwka Gude, ef hann syngur honum eitt Psalm-Vers med Munnenum alleina, enn hvort ad Hugur fylge Mæle, þad athuga Meñ ecke so giarna, so hañ mun hafa Orsok til ad segia vid marga þa, sem laatast þacka honum hier fyrer: Þetta Foolk nælægest mig med Vorunum, enn þeirra Hiarta er laangt þar fraa, Es. 29. Enn hvorsu miøg ad Menn brisote Guds Frid af sier med þessu Opacklæte, þad siaaum vier medal annars æ þeim Tiju Lijkþraau, er JEsus hreinsade, um hvoria hann sagde: Voru ecke Tiju hreinsader, Enn hvar eru hiner Niju? Luc. 17. Fañst eingenn sæ ed aptur snere og gæfe Gude Dijrdena, nema þesse Utlendingur? Og hann sagde til hanns: Statt upp og gack burt, þijn Trw giorde þig hoolpenn. Hiner voru alleina æ Lijkamanum hreinsader, þesse bæde æ Saalu og Lijkama, þvi eckert talade DRottenn um Trw þeirra, og mun Saalarennar Heilbrigde hafa fared þar epter. Eg er og nærsta miøg uggande um, ad þar finnest varla eirn æ medal Tiju, sem þetta Hiaalpræde, þennann mikla Frid, sem oss er i Christi Dauda og Upprisu bodadur, so þacke sem byriar. Flester laata sier nægia med þad, ad sijna sig Kiennemannenum i Kyrkiunne, i Skripta-Stoolnum, i wtvortis Jaatningu Trwar sinnar, Einusinne edur Tvisvar æ Are, enn hvort ad Samvitskann kiemst vid af Tilfinningu Syndanna, hvort Elskann til Guds er so miøg heit, þar um mætte efast hiæ allmorgum; Þvi annars mundu Menn hafa meire Vidleitne æ ad hafna Syndunum, og Elskann til Guds munde framar spretta wt med Verkunum, so hañ þar med yrde dyrkadur; Þad er ad snwa aptur og giefa Gude Dijrdena, ad snwa sier fraa sijnu Oguðlegu Athæfe, og taka sijna Illsku Breitne fraa hanns Augsite, Es. 1. Ef hann er vor Fader, hvar er þa hanns Heidur? Ef hañ er vor HErra, hvar er þa hanns Virding? Mal. 1. Þad er minnst verdt ad lofa Gud og þacka honum med Munnenum, þad giora og Hrafns-Ungarner, segier David, Ps. 147. Og eru þeir ecke med hanns Sonar Bloode afkeypter. Ecke kostade þad Gud nema eitt Ord ad skapa þa og allann Heimeñ, Gen. 1.

Enn hvad segier Paulus vid oss? 1. Cor. 6. Þier erud Verde keipter, þar fyrer dyrked Gud i ydar Lijkama, og i ydar Anda, hvorier ad eru Guds. Hvornenn skulum vier hann dyrka i vorum Lijkama? Hvad segier hann enn aptur, Col. 3. Deyded ydar Jardneska Limu, Saurlijfe, Ohreinleika, Lauslæte, Vonda Gyrnd, Agyrne sem er Skwrgoda Dijrkan, fyrer hvort ad kiemur Reide Guds yfer Born Vantrwarennar. Legged af allt þvilijkt, Reide, Grymd, Illsku, Gudlostun, Nijdyrde fraa ydar Munne,

Þad er ad dyrka Gud j siinum Lijkama, ad afsniida þessa Limu hinns Gamla Mannsins. Postulenn segier, ad fyrer þvilijkt kome Guds Reide yfer Børn Vantrwarennar. Siaaed hvad Omøgulegt þad er, ad hafa Frid vid Gud, nema Menn aflegge þesse Verk Myrkranna, sem Von er aa, þvi ecke hefur Gud laated kvelia siin Son til þess, ad vier þioonum Syndenne i hennar Gyrndum, edur laatum hana drottna i vorum Daudlegum Lijkama, Rom. 6. Þvi hann hefur ecke kallad oss til Ohreinleika, helldur til Helgunar, segier Postulenn, 1. Tess. 4. Enn hvornenn meigum vier Gud vegsama i vorum Anda? Þad eri Saalum vorum, þad er, ef vier færum Andans Averte. Hvorier eru þeir? Þad segier oss Paulus, Gal. 5. Þad er Kiærleike, Fognudur, Fridur, Þolenmæde, Goodgyrne, Goodsijse, Trw, Hoogværd, Bindinde; Og endar hann so þetta Tal med annare Maalsgrein, sem alla Guds Þioonustu i sier innebindur, segiande: Enn þeir sem Christi eru, Krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum. Hvør sem þad daglega giører, epter þvi sem Guds Ande fær i hanns Breiskleika verkad, hann maa vera fullviss um Guds Vinaattu, Jafnvel þoott eingenn giete fullkomenn vered i þessu Daudlega Hollde, þvi ef vier gongum i Andanum, þa erum vier ecke under Løgmaalenu, Gal. 5. Enn þetta Frelse eigum vier ecke ad brwka til þess, ad laata epter oss Smaa-Syndernar, er vier so kollum, og ætla þad sie noog ad varast Stoor-Glæpena. Þar er eingenn so lijtel Synd til, ad ei sie hun noog til ad fordæma Manneñ, ef Gud vill i Doom vid oss gaanga. David bad Gud Forlaats aa siinum Heimuglegum Syndum, Ps. 19. Þvi mun þad ecke Ohult ad drygia hinar Smaau Vijsvitande. St. Paull sagdest jafnvel ecke Kyllde Kiøt eta, ef hann visse sinn Brooder hneixladest, 1. Cor. 8. Og mun margur hallda þad fyrer litla Synd: Þad er alldrei lijtil Synd, sem Guds Riettlæte fordæmer, enn hann fordæmer allar þær sem vier litlar edur aungvar køllum. Þad er allt Synd, sem Helvijte forþienar, enn þær forþiena allar þad, sem Madurenn lætur vijsvitande epter sier, og liggur i þeim viliande, Jafnvel þoott ei sie þvilijkt af Mønum kallad nema Guds Barna Brester. Smaa-Regned væter eins miøg og Stoor-Droparner; Þær smaau Syndernar kunna ad verda hvad Skadvænastar, þvi vier reiknum þær ecke, og verda þvi flestar, og þoott þær sieu smaaar i vorum Augum, þa verda þær þo stoorar, nær vier byggium þeim leinge heima. Eirn lijtell Ormur, þegar hann er svolgenn i Magann, þa etur hann so leinge um sig, ad hann verdur stoor, nema hann annadhvort sie drepenn, edahonum sie uppsellt: Eirn lijtell Pwke, þegar hann er Einusinne innkomenn i Hiarta Mannsins, gietur vorded ad stoorum Diofle, ef hann er laateñ hindrunarlaus, og þegar hann er so vaxenn, gietur hann teked Sio Anda sier verre, Luc. 11. Menn taka eirn lijtenn Dreing til Foosturs; ef hann er Skaalkur, sem marger eru, þa giører hann sig ad Hwss-Boonda, nær hann er fullordenn, og rædur sijna Lijka inn i Hwsed, þar til hann med sijnum Fielogum drepur Hwssboondañ, ef hann þorer, og giører sig Herra af Goodsnu: So eru hinar litlu Syndernar; Þau daalitlu Børn Satans, er vier leikum oss ad, medañ þau ung eru, þau verda vor Ovineñ um sijder, og taka vort Andlegt Lijf fraa oss, og

enda

eyda þeim Fiesiood vor vöru Hiarta, sem med Guds Bloode keiptur er. Sumt Gaman og Gledskapur, sem heiter Kurteyse i Fyrstumne, kann ad verda ad Hædne og Spieskap, so þegar Meñ hafa leinge vaned sig aa ad hæda Meñena, og þvi er hrooſad af þeirra Lijkum, er leita sier Fordilldar i slijku, þa ser þeim so fram̃ i Kunstenne, ad þeir fara ad hæda ad Gude og hanns Heilaga Nafne. Þad þyker hiaa oss Saklijted, ad leggia Guds Nafn vid Hiegooma ad Gamne sier i Dagleguu Tale, edur kalla aa Andskotann; Enn sa sem hefur þetta leinge tamed sier, honum mun ecke þykia miked fyrer ad brwka þad sama til ad liwga Lif og Æru af sijnum Naunga; Hann sem reiknar þad fyrer aungva Synd, ad hañ forsoome ad gaanga til Kyrkiunnar, og leikur sier ad Hiegoomanum aa Guds Helgum Dogum, hann kann ad verda yfergiefenn i so fraaleitt Siñe, ad hann þeinke, ad þad sie ecke nema fyrer Sida Saker, ad Menn brwke Helgar Tijder. Eg segie þetta til Dæmes, um̃ allt þad er Meñ giora aa moote hinum Bodordunum, sem hvor eirn kann ad skilia, ef hann vill giefa nockurn Gaum ad sijnu Fram̃ferde, og taka vara aa Saalu sinne. Fyrer þvi, ef þier vilied hafa Frid vid Gud, Br. mijner, þa dreped þessa Smaa-Pwka, edur ad vijsu giored þa so Vanmeta, ad þeir ecke verde ydar Ofur-Efle; Annars munud þier ecke Frid vid Gud hafa. Enn Sokum þess, ad eingenn af oss er so Adgiætenn edur Varkaar, ad ecke falle Blettur aa vort Skijrnar-Fat aa hvorre Stundu, Jafnvel þeirra sem bester eru, þa eigum vier i hvort Sinn, sem vier af nockurre Hrosun verdum yferstigner, ad þvo hann af med beyskum Ydrunar-Taarum, ef vier vilium Frid vid Gud hafa. Jaa, vier eigum ad gaanga streingelega i Doom vid sialfa oss, og ecke laata vora Ydran stijga fram̃ yfer Almeñelegar Synder, þvi þær fordæma eins Mañenn og hinar storru, nema Menn þeirra af Hiarta ydrest. Giærum þess, ad Gud er Riettlaatur, hann er Eptergaangssamur og straangur Sooknare, hann heimtar ecke alleina Stoor-Sum̃urnar, helldur vill hann laata gialld a hinn sijdarsta Pening, Matth. 5. Hvar med faaum vier þessa Sekt lokid, Nema med Christi Forþienustu, sem er Ondañleg? Enn hun verdur ongvum tilreiknud, Nema þeim, sem ydrast af Hiarta Syndañá. Ad soñu kunna Menn ecki allra ad ydrast sier i Lagi, hvor veit hvad opt hañ fellur? Ps. 19. Gietur þu uppreiknad alla þijna Ungdooms Bresti? Hvor maa telia alla sauruga Þanka og Onytiu Ord? Þad er ad vilia telia Sandinn og Bylgiur Siaafarins; Eñ þar vier erum oss þess Samvitandi, ad vier so opt hrosum, So ad oll vor Reisa, fraa Vogguñi til Grafariñar, er varla añad enn eirn sijfelldur Blood-Vadall, þa eigum vier ad laata oss þad af Hiarta angra, ad vier erum so under Syndena felldir, Rom. 7. Jaa, J Samtale vid vora Vine og Naaunga, edur og nær vier sleppum oss i Gaman og Gledskap, þa byriar Riett-Christnum Manne ecke einasta Adgiætnum ad vera, ad ei styggie hann Gud med Munne sijnum, helldur og i hvort Sinn, nær hann kiemur til sialfs sijns aptur, ad hugleida hvort ecke hafe hann rasad med sinne Tungu, og finne hann þad, sem aa efa optlega finna maa, ad laata sig þess af Hiarta ydra og bidia Gud um̃ Naad, ef vier vilium vera fullvissir um̃ hanns Vinaattu; Og ecke einasta eigum vier þær Synder ad

fordast, sem eru Riettlijnis aa moote Guds skielfelegre Haatign, helldur og, ef vier vilium hanns Viner vera, þa eigum vier ad kappkosta ad hallda Frid vid vora Brædur i Heimenum, Rom. 12. Hvad er þad fyrer Fridur, er DRottenn spaaer um ad verda mune i Rijke Christi? Es. 2. Ad þeir myne giora Sverdenn ad Ploog-Jaarnum, og sijnar Staanger ad Liaaum, og ein Þiood skule ecke ryckia Sverde moote annare, og þeir skule ei framar læra Strijds-Atferd. Hvad sijnest ydur, Born mijn? Mun þetta vera saa Fridur, sem Verolldenn giefur? Ecke Teiknar til þess nu um Stunder, þar ein Þiood rijs upp i moote annare, og Frændur og Naaungar beraft Bana-Spioot epter, helldur er þad Fridur Guds, sa ædre er ollum Skilninge, Phil. 4. Þad er oll Andleg Farsælld, sem Guds Postular, Paulus, Petrus, Judas, og Johannes i sijnum Opennberunum jafnann oska Guds Sofnudum, enn ecke er þad sijst Eindrægne Andans, sem oll Guds Born hafa a mille sijn, hvar hellst þau eru i Heimenum: Saa sem ecke er i þessum Fridar-Saattmaala innebundenn, hann er ecke Limur hinnar sonnu og Osijnelegu Guds Kyrkiu. Vakte sig þvi hvor og eirn, saa er vill Christi Limur heita, ad ei ale hann nockurt Hatur til sijns Naaunga; Og er þad ecke noog, ad vier holldum Frid vid Vine og Frændur; Tollheimtumenn og Pwtur giora og þad hid sama, Luc. 6. Helldur bijdur Endurlausnarenn oss, ad vier elskum Ovine vora, Matth. 5. Þad Logmaal er þwngt ad sonnu Hollde og Bloode, enn ecke so miog þeim, sem epter Gude er skapadur, og leitast vid ad breita epter sijnum Lausnara, hvor ed beidde fyrer þeim er hann kvolldu, Luc. 23. Eiger þu nockurn Ovin, Christinn Madur, þa giæt þess, ad Gud er þinn beste Vinur, og Andskotenn hinn argaste Ovinur; Gior þvi ecke þad hinum til Stygdar, enn þessum til Þægdar, ad hatast vid þann, sem er þinn Brooder epter Naatturunne, fyrer hvorn Guds Sonur hefur Kvol og Dauda lided eins og þig. Ef þu hatar þinn Ovin og þad so miog, ad þu villder hanns Dauda, þa gior honum Gott, Siaa til ad þu faaer giort þier hann ad Vin med goodu Atlæte; Faaer eru so Hreckvijser, ad þad takest ecke; Enn ef þu fær þvi til Vegar komed, þa hefur þu dreped Ovinenn, enn frelsad þinn Broodur og giefed honum Lijfed, 1. Joh. 5. og afrekad Saalu eina Gude til Handa, sem er stærre Sigur enn þo ett nockur hefde Kongarijkenn under sig brooted, þvi hun hefur Guds Sonar Blood kostad, hiaa hvoriu oll Verolldenn er Fis ad reikna. Soddann Hefnd er ecke einasta Saklaus, helldur og Gude kiær, og af ollum hanns Bornum vel aalitenn. Gud giæfe ad Christner Menn villdu temia sier þetta Hugarfar! Þa munde Fridur og Eindrægne halldast betur Manna aa medal, helldur enn skiedur nu um Stunder, þa mundu Menn Frid hafa vid sialfa sig og Samvitsku sijna, Frid fyrer Heimenum, þvi sa ed þvilijkt giorer, hann er af Gude fæddur, og yfervinnur Heimenn, 1. Joh. 5. Frid fyrer Dioflenum, þvi hann er Christi Barn, sem Dioflenum hefur wtsnarad, og troded hann under sinna Barna Fætur, Rom. 16. Jaa, Frid vid hinn Lifanda Gud sem ollu rædur bæde aa Himne og Jordu: J hvors-Rijke ad Fridurenn og Riettlæted kyssa hvort annad, Ps. 85. hier i Tijmanum, enn i Eilijfdenne mun aa Fridnum eingenn Ender verda, Es. 9.

Peirra

Þeirrar Sælu-Vistar niotande ad verda, unn þu oss Þijnum Bornum, O þu Stoore Gud Fridarens! Rom. 16. Fyrer hinn sanna Fridarens Hofdingia JESUM CHRISTUM, Es. 9. Amen.

# Fyrsta Sunnudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 20. Cap.

OG ad Kvollde þess sama Þvott-Dags, Þa ed Læresveinarner voru samannkomner ad luktum Dyrum fyrer Hrædslu Saker vid Gydinga, Kom JEsus þar, Og stood i Mided og sagde til þeirra: Fridur sie med ydur! Og þa hañ sagde þetta, Sijnde hañ þeim Hendurnar og sijna Sijdu. Eñ Læresveinarner glodduft vid, ad þeir saau HErrañ; JEsus sagde þa eñ aptur til þeirra, Fridur sie med ydur! Lijka sem Faderen sende mig, So sende eg ydur. Eñ sem hañ sagde þetta, Blies hañ aa þaa og sagde til þeirra: Medtaked þier Heilagañ Anda; Hvoriumm hellst þier fyrergiefed Syndernar, Þeim eru þær fyrergiefnar, Og hvorium hellst þier apturhallded þær, Þa eru þær þeim apturhalldnar. Eñ Thomas eirn af þeim Toolf, sem kalladest Tvijbure, var eige med þeim, þa JEsus kom. Eñ hiner adrer Læresveinarner sogdu til hañs: Vier hofum sied HErrañ. Eñ hañ sagde til þeirra: Nema ad eg siaae Naglaforeñ i hañs Hondum, Og ad eg laate miñ Fijngur i Naglaforeñ, Og legge mijna Hond i hañs Sijdu, Þa trwe eg ecke. Og epter Atta Daga voru eñ aptur hañs Læresveinar þar iñe, Og Thomas med þeim. Þa kom JEsus ad luktum Dyrum, stood i Mided, og sagde: Fridur sie med ydur. Sijdañ sagde hañ til Thomam: Riettu þiñ Fijngur hijngad, og skoda mijnar Hendur, Lypt upp þiñe Hende og legg i mijna Sijdu, og vert ecke Vantrwadur, helldur Trwadur. Thomas svarade og sagde til hañs: DRotteñ miñ og Gud miñ! JEsus sagde til hañs: Af þvi þu saast mig Thoma, Trwder þu; Sæler eru þeir sem ecke siaa og trwa þo. Morg oñur Teikn giorde JEsus i Augsyn siña Læresveina, hvor ad eige eru skrifud i þessare Book, Eñ þetta er þvi skrifad, So ad þier trwed, þad ad JEsus sie Christus Sonur Guds, Og ad þier, so Trwader, Hefdud Lijfed i hañs Nafne.

Exordium.

Egar JESUS hafde læknad hinn Limafallssiwka med þvi Orde, ad hann sagde til hanns: Þier eru þijnar Synder Fyrergiefnar; Matth. 9. þa prijsade Foolked Gud, er þvilijka Makt hafdi Monnunum giefed. Ecke hefur þetta Foolk so undrast yser siaalfu Krapta-Verkenu, þvi þeir voru þessu Alvaner af Frelsaranum, Annars mundu þeir ecke hafa fært þenna veika Mann til hanns; helldur yser þvi, ad hann læknade med Orda Tiltæke þessu, þvi þad hafde aa þeim Dogum ecke heyrst ad nockur Madur hefde Valld til ad fyrergiefa Syndernar, hvar af Phariseí tooku Orsok til ad bera sier þa Ohæfu i Munn, ad hann Gudlastade. Enn hann sem augliijsteſitt Valld til ad fyrergiefa Synderner med þessu Krapta-Verke, so ad þeir ed þad saau, undrudust og prijsudu Gud, er þvilijka Makt hefde Monnunum giefed; Hann same hefur og þetta Valld i Hendur feinged Syndugum Monnum, sijnum Postulum, so sem vier strax heyrdum af Gudspiallenu, og ecke einasta þeim, helldur og ollum þeirra Epterkomendum, allt til Veralldarennar Enda, Matth. 28. ad þeir, i hanns Nafne, fyrergiefa Syndernar, ecke so sem af siaalfum sier, helldur so sem Christi Þienarar, og Raads-Menn Guds Leyndardooma, sem Paulus vottar, 1. Cor. 4. Eñ so miked, so haaleitt og so Guddoomlegt sem þetta Valld er, so Vandsared er og med þad, bæde fyrer þaa sem þad i Hende hafa, og so hina er under þvi eru, ad hvoruger forgrijpe sig aa hanns Dijrdlegre og Ognarlegre Haatign, sem ad er Hofundur þessa mikla Umbods; Og fyrer þvi, ad aa þessu rijdur oll Velferd Christenna Manna, (sem er ad faa Kvittun Syndanna) þa vil eg nu ad þessu Sinne tala um þetta Tvennt, Sem er: 1. Hvor ad sie Skyllda þeirra er odrum eiga ad boda þeirra Fyrergiefning, Og 2. Hinna sem hana þyggia eiga. Gud styrke oss i þessu Verke med Naad sijns gooda Anda, I JESU Nafne, Amen.

## Utleggingen.

Veñt er þad sem Christi Þienarar eiga i þessu Guds Eyrende ad athuga, sem er, 1. Ad ecke bode þeir Kvittun Syndaña þeim, sem hennar eru Overduger. 2. Ad þeir hallde henne ecke fyrer hinum, er hun med riettu tilheyrer. Hiner Fyrre eru med Tvennu Moote, añadhvort eru þeir saafrooder, edur og Ogudleger og hardsvijrader. Hverigum af þessum aa Raads-Madur Christi ad boda Syndanna Kvittun: Ecke þeim Fyrre, þvi saa sem etur og dreckur Overdugur, hann er sekur vid Holld og Blood DRottenns, segier Paulus, 1. Cor. 11. Enn saa etur og dreckur Overdugur, sem ecke reyner og proofar siaalfann sig; enn hvornenn maa sa reyna siaalfann sig er ei þecker Syndena? Enn hvornenn maa hann Syndena þeckia aan Logmaalsins Þeckingar? An hvors ad jafnvel St. Paall ecke þeckte ad Gyrndenn var Synd, Rom. 7. Þad er ollum Moñum kunugt, ad einge\~n fær kvitta Syndeña i Himnenum, utañ hañ bere Angur og Trega fyrer hana, enn hvernig maa hañ laata sig aangra þa Synd, er hann þecker ecke? Og er þetta þo ecke nema Helftenn af Skylldu vorre. Ecke er þad noog ad þeckia Syndena og aangrast af heñe; Litlu gagnade þad Cain og Judas, þoott hinn segde; Mijn Synd er meire eñ ad hun

hun fyrergiefenn verde, Gen. 4. Enn þesse; Jeg hefe illa giort þad eg sveik saklaust Blood, Matth. 27. St. Petur, Matth. 26. Davids, 2. Sam. 12. Hinnar Bersyndugu, Luc. 7. og annarra soddann Manna Þeckingu, skal hafa til þess ad faa Syndena kvitta; Þar fyrer, Sokum þess ad Blooded JEsu Christi hreinsar oss af øllum vorum Syndum, 1. Joh. 1. og ad i eingum ødrum er Saaluhiaalpenn, Act. 4. Þa kann eingenn ad faa hiaa Gude Lausn Syndanna fyrer utann hanns Þeckingu, og er þad ad sønnu ecke noog ad Menn vite, ad hann sie fyrer Syndernar dæmenn, Rom. 4. helldur og ad tileinka sier hanns Forþienustu, og trwa þvi fastlega, ad þad Saklausa Guds Lamb hafe einnig sijnar Synder i burtu teked, Joh. 1. Þeim sem ecke er um þetta hvørttveggia aldeilis Sannfærdur i Hiarta sijnu, hønum aa Guds Þienare ecke ad boda Kvittun Syndanna, helldur ad undervijsa hønum med allre Kostgiæfne Veg Saaluhiaalparennar, og leida hann til Christum med Heilsusamlegre Kienningu. O Gud giæfe! ad þessu villdu giæta ecke einungis Kiennimennirnir, helldur og þeir ed Børnum og Hiwum eiga ad undirvijsa og uppala i Aga og Umvondun DRottinns, Eph. 6. Þa væri eg viss um, ad ecki mundi so oftlega verda Helgidoomarnir Hundum giefnir, Matth. 7. Nie Perlum fyrir Svijn kastad, sem mig uggir ad aa Stundum skie muni fyrir Vanræktarsakir þeirra, er Gud hefur umbodid ad taka Vara aa slijku: Hvøriu vill einn Gaalaus og Toomlaatur Leigulidi svara hinum Alvallda Konungi aa sijdarsta Deigi, þegar hann krefur sinna Sauda Bloods af hanns Hendi? Enn hann hefur forsoomad ad undirvijsa þeim, og ad giefa Guds Hiwum i riettann Tijma þad hønum byriad hefur, hann hefur talad fyrir þeim þad sem var Hiegoomi, haft fyrir þeim nockrar faanijtar Spurningar, sem lijtt til Saaluhiaalpar gagna, til þess ad sijnast vid ad giøra eitthvad, og ad fyrra sig Vijtum, enn alldrei lagt hinn rietta Grundvøll Saaluhiaalparinnar i Mannanna Hiarta, ei kiennt þeim Syndina ad þeckia, ecki wtlistad fyrir þeim hennar Greinir og Tegundir, ecki wtmaalad hvørsu ad hun er vidurstyggileg fyrir Gudi, ei sijnt þeim Veginn til ad faa hennar Kvittun, edur vakid Angur og Trega fyrir sijn Afbrot i þeirra Hiarta, nie Krapt hinnar sønnu Trwar er verkar fyrir Kiærleikann, Gal. 5. Og i þessari Faakiænsku hleipur Vesælingurinn inn ad Skripta-Stoolnum og þyggur Kvittun Syndanna af Prestinum, jafnvel þoott ecki sie hann henni nær, helldur enn eirn Heidingi, sem eckert af Gudi veit nie hanns Christe, og i þessu uppelst hann, i þessu lifir hann, og i þessu deyr hann, og uppvaknar i Helvijti og Kvølunum, nema Gud vilie meiri Myskun aa giøra, og ætlar sig þo ad vera Full-Christinn, og ad Saala sijn muni strax i Himininn uppfliwga, sem hun skreppur wt af Lijkamanum, af þvi einginn sagdi hønum þad, og einginn ad þvi fann, hvørsu sem hann var Ofroodur i sijnum Christinndoomi. Þetta hid sama vil eg sagt hafa Forelldrum og Hwsbændum, hvørier i þessu vera eiga so sem Prestanna ønnur Hønd; þvi, ef satt skal segia, þa er þad Ofortlun fyrir einn Guds Ords Þienara, ad hann gieti lagt hvørt Barn sier aa Knie, og øllum allt þad kiennt sem þeir vid þurfa, sierdeilis i þessu faatæka Landi; Enn ad hafa alvarlega Umsioon hier um, rannsaka hvernig þad tilgeingur, aaminna þaa sem eru

Hyrdu-

Hyrdulausir, leidrietta baa sem villt fara, straffa baa sem mooti mæla, vijsa beim wt af Guds Kyrkiu og Samneyti Christinna Manna er ecki læta sig leidrietta med hoogværum Anda, Gal. 6. Þad aa beim ecki ad vorkyñast; eñ Gud nædi hvoria Adstod beir faa i slijku hiaa allmørgum! Oskandi væri ad ecki finnduft beir ed reidast, ef ad slijku er fundid, og leggia Hatur aa Guds Þienara nær beir vilia forda Saalum beirra vid Eilijfum Helvijtis Pijslum, beir hafa beirra Gudrækilegar Aminingar i Skimpi, og kalla bad Presta Firrur og Hlutsemi. Hvar fyrir? Af bvi beir sialfir eckert kuña, eñ skamast sijn ad læra bad gamlir, er beir nenntu ecki ungir ad nema, og vilia helldur steipa sier og Børnum sijnum og Hiwum i Afgrunn Helvijtis, enn ad læta sig leidrietta, og er bad allt of kunnugt af Faafrædi hiña Ungu i bessu auma Landi, hvad lijtid ad hinir Gømlu kuña mini. O bier skynlausar Manneskiur! Kallid bier ecki bad hid argasta Mord, ef nockur fargar sijnu Lijfs-Afkvæmi vijsvitandi, og bo er bad Kiærleiks-Dygd, hiaa bvi, ad spara beim bad er beim meigi verda til Saalar-Gagns, bvi bad er ad myrda Saalina, hvør ad er med Guds Bloodi Endurleyst, Act. 20. Og er miklu minni Synd ad bera wt Børn sijn nijfædd, sem bo er hiñ versti Glæpur, bvi ba eru bau undir Guds Myskunsemi, helldur enn ad klekia beim upp Fiandanum til Þioonustu. Hafid bier ecki heyrt hvørsu ad O Rottinn vard reidur beim, er offrudu Børnum sijnum Moloch Fordum Daga, Levit. 20. Og lietu bau gaanga i giegnum Elldinn beim Andskota til Dijrkunar, Devt. 18. Enn hvad giøra beir betur, sem læta sijn Børn uppalast i øllu Reidileysi? Vitid bier ecki ad bier hafid bau i Syndinni gietid og fædt? Ps. 51. Hvad liggur ba annad fyrir hønum, sem af Nattúrunni er Reidinnar Barn, Eph. 2. helldur eñ eilijflega ad fyrirfarast, nema hann læri hiñ saña Christiñdoom, so ad hañ meigi umflija tilkomandi Reidi? Þier segied vel: Þau eru i Skijrninni Endurfædd og Guds Børn vordinn, bad er vel, enn hvørsu illa kiennid bier beim ad hallda siñ Skijrnar Saattmaala, nær bau alldrei faa ad vita hvad Skijrninn er, edur hvad beim er veitt i henni, hvøriu bau hafe bar Gudi lofad, edur hvernig bau eige ad bera sig ad hallda bad, edur faa bess Kvittun er bau afbrioota? O Vei! O Vei! Hvørsu aumur er besse Christenndoomur! Bærelegra mun einum Tyrkia verda aa Doomsins Deige, enn slijkum Forelldrum, og eg vil hafa betta sagt til beirra einungis sem Hyrdulauser eru um Velferd sijna og sinna, og meina ad Gud hafe giefed sier Børnenn, alleina til ad leika sier ad, enn ecke til hinna sem leggia nockra Rækt hier vid, er Gud giæfe ad sem flester være! Hiner adrer sem Guds Þienarar eiga Syndunum aptur ad hallda, eru beir sem kanske hafa noog Vit aa bvi er beir eiga ad trwa og giøra, enn lifa alldeilis ecki bar eptir, helldur gaanga fram i allskonar Syndum og Glæpum Ydrunarlaust, forsmaandi Gud og hans dijrmæta Ord, og hafandi ad eingu bad beim sagt verdur i Guds Stad. Þeir eiga med riettu eckert Samneyte ad hafa med ødrum Guds Børnum, hvørier helldur sem beir eru, Rijker edur Fatæker, Vesæler edur Vollduger, bvi ef Paall segier, 1. Cor. 5. ad ef nockur sa er Brooder (bad er Christenn) kallast, sie Frillulijfes Madur, Lastmaall, Agiarn,

Skw-

Skwrgoda Dijrkari edur þess Haattar, þaa skuli Menn einga Umgeingni med þvilijkum hafa, Þa er þad augliooſt ad þvilijkum aa ecki Synda Kvittun ad boda, nema þeir ydrist af Hiarta og aflaati Glæpunum, og sa Kiennimadur er segier þeim sijnar Syndir kvittar i Guds Stad, Hann lijgur uppaa Gud, er hann leysir þad sem Gud hafdi honum alldrei umbodid, Hañ tekur fram fyrir Hendur aa Christe, sem Menn plaga ad segia, og giorir hann ad þeim Gudi, sem ad þocknast Ogudlegt Athæfe, Ps. 5. Stoor Vandeliggur aa einum Kiennimañi i slijku, Ef hann vill finnast Trwr. Ecki segie eg, ad þeim skuli fraavijsa Aflausn Synda sinna, sem misgrunadur er um einhvorn Glæp, þad maa hinum besta Manni giora. Ein skiæd Twnga kann snarlega ad liooſta upp einhvorium Ohroodri um goodann Mañ, Hvar til Þusund Dæmi eru, Slijkt aa ad eingu ad hafa, helldur ad afstijra soddann vondu Umtali um Naaungann. Einn Guds Þienari aa ad vera Vandlætingasamur, Enn þo med Skynsemi, og ecki byggia so vigtugann Hlut, sem ad er Lyklavalldsins Brwkun, aa hvorium Þvættingi, Rom. 10. Enn þessa þarf ecki vid, Br. mijnir. Þar eru opennberer Lestir og Skammer, sem ad eingu eru aktadar, hvorki af þeim, ed þær fremia, og kannskie ecki helldur so sem vera ætti af sumum, sem þad ættu ad straffa. Hvorninn mun þad tilgaanga med Guds Heilaga Nafns Vanbrwkun medal Ohlutvandra Manna med Ydkun hanns Heilaga Ords? Munu ei finnast þeir, ed hafa þann Dijrgrip ad Athlaatri og i Fijflskapar Maalum? Hvad er tijdara enn Ohlijdni og Otrw Barna og Hiwa vid Forelldra og Hwss-Bændur, vond Forlijkun milli Hioona, Hardydgi Yfirbodarana vid hina aumu og vesælu, sem undir þeirra Valldi eru, so Menn laata Vargana hlaupa frij enn straffa Dwfurnar. Hatur og Ulfbwd eru ordinn ad Karlmennsku og Hugprijdi, Menn bera þad ecki einungis heimuglega med sier, Hiartanu, hvar um Kiennimadurinn ei kañ ad dæma, helldur sijna þad Daglega i Verkunum, i Ordunum, i Umgeingninni: Okur og Asælni, Myskunarleysi vid hiñ Voladi og Naudstadda, Bakmælgi og illur Muñ-Sofnudur vid Naaungann, allt þetta eru daudlegar Syndir: og maa ollum kuñugt vera, ad þær ei verda fyrirgiefnar i Himnenum, nema Menn ydrist þeirra aa Jorduñi, og þad vita Guds Þienarar, ad fyrir slijkt kiemur hanns Reidi yfir þaa ed þad fremia, Eph. 5. Nu segie eg þad ecki, ad Meñ skuli strax fraavijsa þeim, er i þessu kuña sekir ad fiñast, ef þeir sijna aa sier nockur Ydranar Merke, jafnvel þoott Yetruninn verdi ecki i einu so merkileg; hitt segie eg, ad þeir eiga þvilijka Syndara med allri Alwd og Kostgiæfni ad aamiña og leidrietta þaa med Hoogværum Anda, er fundnir verda i nockurri Hrosun, Gal. 6. Fyrst i Ein-Rwmi; vilie þeir ecki þar vid skipast, þa i Tveggia Gudhræddra Manna Vidurvist; Laati þeir enn þa ecki af nie leitist vid ad betra sig, þa veit eg ei betur eñ soddann Þverbrotnum Manneskium eige Syndirnar aptur ad halldast, þad kiennir oss ecki einasta DRottinn JEsus, Matth: 18. med þessum Ordum: Ef þinn Broodir syndgar aa mooti þier, þa far þu og aatel hann aa milli þijn og hanns, Ef hann heyrir þier, þa hefur þu auñid þiñ Broodur, Enn ef hann heyrir þier ecki, þa tak med þier Einn edur Tvo, svo ad i Muñi Tveggia edur

 Þriggia

Þriggia verdi øll Ord stadfest, enn vilie hann ecki þeim heyra, þa seig þad Søfnudinum, enn vilie hann ecki Søfnudinum heyra, þa hallt hañ so sem Heidingia og Tollheimtumañ, helldur er og þessu aldeilis samhliooda Kønunglegt Løgmaal i þessum Løndum og Rijkium, uñ þau Afbrot sem ecki verda so hentuglega med Veralldlegum Rietti strøffud, og ef DRottinn skipar einum af Søfnudinum þannig ad breyta vid þann, er hønum aa mooti brijtur, hvad miklu helldur mun þetta sagt vera Kieñimøñunum, sem i Guds Stad vandlæta eiga. Taki þvi ecki einn DRottinns Þioon Vara aa slijku, þa er næsta hætt vid, ad hann giøri sig Hluttakara i Annarlegum Syndum, og hafi Samfielag vid Ofriooffsom Verk Myrkranna, þvert aa mooti Postulans Bodi, Rom. 1. Og er þetta nu sagt uñ þa, sem Guds Þienarar eiga ad afturhallda Syndina. Enn þar fyrir hefi eg uñ Kiennimañaña Skylldu talad i þessum Stad, ad einginn hati þaa edur Ovyrde, þoott þeir giøri Skylldu sijns Embættis i slijku, þar þeim er so mikill Vandi aa Hendi.

Hvørier ad hinir sieu, er Syndina skal leysa hiaa, er audsært af þvi, sem allareidu er sagt uñ hina, sem er, alla synduga Menn, hvørsu herfilega edur stoorkostlega sem þeir syndgast hafa mooti Gudi; Jaa, hvørsu leingi sem þeir hafa vellt sier i Syndunum, þa sem ad fulla Grein hafa aa ad Reyna og Proofa siaalfa sig, og laata sig af Hiarta Syndirnar aangra, og lofa Umboot med sannri Trw aa Christi Forþienustu, þvi hinn Naadugi Giædskuñar Bruñur, vill eingann þañ fraa sier reka sem til hañs kiemur, Joh. 6. Þvi kallade hann haarre Raustu Fordum Daga og sagde: Komed til mijn aller þier sem Erfided og Þwnga erud þiaader, eg vil Endurnæra ydur, Matth. 11. Og gyllder þetta ecki einasta uñ þaa, sem eñ þaa eru Fullhrauster og kuña framveigis ad betra sig, helldur og uñ hina sem fyrer Daudanum liggia, Og jafnvel þaa sem Maalenu tapad hafa, Ef þeir eru med Rænu, Og eiñ Adgiæteñ DRottens Þienare merker þeirra Hiartañlega Epterlaungun, Angur og Trega fyrer Syndernar; Þviad a hvørium Tijma, sem hiñ Ogudlege snijr sier fraa sijnu Ogudlegu Athæfe, þaa skal hañ lifa og ecke deya, Allra hañs Synda skal ecke ad Eilijfu miñst verda, seiger DRotteñ fyrir Muñ Ezechielis, i 18. Cap. Og þoott hinn Naaduge Gud, sem allann Dagenn wtbreider sijnar Hendur til Ohlijdugs Foolks, Es. 65. sie jafnann reidubwenn ad taka vid Syndaranum, nær hañ ydrast af Hiarta, þa eru hanns diwpu Myskunar-Ydur þo alldrei naakvæmare eñ i Daudanum, þvi þa veit hin Eilijfa Giædska, sem ecke vill syndugs Manns Dauda, ad ecke er Tijme til ad draga Naadena undann. Og er þetta nu þañig sagt uñ þad hellsta, sem ad Guds Ords Þienarar eiga ad taka Vara aa i þessu Haaleita Efne. Eñ fyrer þvi ad margur Einfalldur, edur og so Hyrdulaus, kann ad steita sig aa þessu Naadarennar Frelse, þoott alldrei giøre Kiennemadureñ sitt Embætte so Athugasamlega, þa verd eg þo nockud hier uñ ad tala, og þad þess helldur, ad Andskotinn er Þusund Viela Smidur, vinni hann eckert aa þaa einu Sijduna, þa leitar hann aa hina. Þessir eru og med Tveñu Mooti, annadhvørt eru þad þeir, sem af Hyrduleysi og Ofstrausti meina, ad þeir faai Kvittun Syndanna, ef

Prest-

Presturenn þeim hälla alleina tilsegier i Guds Nafne; edur og hiner, sem vegna Fiollda og Stærdar siña Misgiorda fär þvi varla trwad, ad Guds Þienare hafe Valld hier til, þoott þeir ydrest. Hvad vidvijkur hinum Fyrra Hoopnum, sem vera mun ollu stærre, þa vite þad sierhvor einn, ad lijka sem Christur sagde vid Læresveinana Fordum, Luc. 10. Hver ydur heirer, hann heyrer mier (og meinte þo, alleina i þeim Hlutum, sem þier boded i mijnu Nafne, og epter minne Skickan) so er þvi og vared, ad ef nockur Guds Ords Þienare, bodar þeim Kvittun Syndanna, sem ecke ydrast og ecke trwa aa Guds Son og hanns Forþienustu, þa er hanns Þioonusta Onijt, og verdur baadum þeim til Dooms-Afellis, Prestenum, ef hann þad veit, og hinum, þoott Presturenn þad ecke vite; Þvi maa hvors eins Samvitska bera hönum lioosast Vitne hier um; Enn ef Presturenn afleyser Ogudlegann aan Vitundar sinnar, þa er hanns Þioonustu haattad eins og einum Doomara, þeim ed geingur raangann Doom epter folsku Vitne, samt er ecke Doomurenn riettur, þoott hinn, er dæmde, sie Saklaus; So er og þess Blood yfer hanns Hofde, Ezech. 33. sem jaatar Synder sijnar fyrer Prestenum, enn þo ecke af Hiarta edur med verdugre Ydran; Enn Guds Þienare er sykn Saka, Jafnvel þoott hanns Þioonusta sie Ogilld i Himnenum, Sokum þess Ydrunarleisis, er hana þyggur. Þad er nærsta saavijslegt, ad einn Syndare meinar ad sier verde sijnar Yfertrodslur fyrergiefnar, þoott ecke ydrest hann þeirra, edur hafe nockurn Asetning edur Vidleitne til ad betra sinn Lifnad, ef Kiennemadurenn alleina leggur hönum Hond i Hofud og bodar þeirra Kvittun. Giæt þess, O aumur Madur! Ad eingenn hefur meire Myndugleika enn sa vill, er hönum gaf hann. Nu er þad vijst, ad Gud tekur ecke vid Syndaranum, nema hann laate sig angra Syndernar, og lofe ad betra sig: Þad skal alldrei finnast i allre Ritningunne, ad Gud lofe Naad sinne, nema Ydrande Manne. Hvernig villt þu þa vænta þess af Kienne-Mannsins Hende, sem Gud hefur hönum alldrei i Hendur feinged, Og hann ecke sialfur vill edur kann giora, vegna sijns straanga Riettlætis, sem hönum eins skylldt er og Myskunsemenn; Og maa þad þier ecke gagna, þoott Presturenn sie þier samvitande i Hyrduleysenu: Laat hann ei draga þig aa taalar, þoott hann eige ad vita betur enn þu, þvi hann giorer i þvi Andskotans, og ecke Guds, Verk, ad boda þeim Kvittun Syndanna, sem heñar er Overdugur. Þad er Diofulsins Slægd, ad giora lijted wr Syndeñe fyrer Mannenum, og kalla, ad Menn meige komast af vid Gud med Eintoomre Jaatningu edur wtvortis Hegdan Lijkamans. Vara þig i Guds Nafne, vara þig! Slijkt vill þier lijted gagna aa þinne Dauda-Stundu, þvi hinn Ogudlegie skal deya fyrer sijnar Synder, seger DRottenn, Ezech. 13. Jafnvel þo hinn Riettlaate Gud, vilie krefia hanns Bloods af þess Kiennemanns Hende, er forsoomar ad segia hönum til Syndarennar.

Þad er merkelegt sem hier stendur i Gudspiallenu, ad aadur enn DRottenn fieck Læresveinunum i Hendur Lykla-955allded, þa blies hann aa þaa og sagde: Medtaked Heilagann Anda. Nu þoott Andans Gaafa sie ecke so rijk aa þessum Dogum hiaa Guds Þienurum, so sem hun þa var, þar Vitnisburdurenn JEsu Christi er vidtekenn af ollum þeim

er Christner kallast, og jafnvel af þeim medkiendur, sem ecke epter honum lifa, samt er eingenn Efe a Þvi, ad Guds Ande er i þeim og verkar med þeim sem hann þar um bidia af Hiarta, og rækia sitt Embætte. Enn hver sem ad bodar Ydrunarlausum Kvittun Syndanna, og hann veit þad, hann talar ecke af Guds Anda; Þvi Andans Embætte er ad straffa Heimenn um Syndena, Joh. 16. Enn eckert er Stioornleise meira, enn ad segia þa Synd kvitta, sem ei er; Og sa þad giorer, hann stioornast ecke af Heilogum Anda, helldur dregur bæde sialfann sig og adra a taalar. Nu kann einhvor ad þeinkia, fyrst ad Kvittun Syndanna er þar i foolgenn, ad Madur ydrest þeirra og trwe Christs Forþienustu, hvad þarf eg þa Prestsins Þioonustu vid? Mier næger þad, ad eg ydrast og trwe. Ei er hun þar fyrer Gagnlaus, Christenn Madur, helldur Omissande; Þvi fyrer utann þad, ad margur er Veikur, margur Trwarlijtell, margur Sturladur, margur Freistadur, margur Efasamur, þa eru þetta Guds Ord og Fyrerheit. Hver ert þu þa sem forsmaaer Christi Skickan? Veitst þu betur hvad Syndugum Manne gagnar til Saaluhiaalpar, helldur enn hann, sem þier hefur hana afrekad med sijnum Dauda? Þad er vijst, ad Gud bæde vill og kann ad giora þann hoolpenn sem ecke nær Heilagre Skijrn; enn hvor sem hana forsmaaer, Þad verdur honum til Fordæmingar; og vidlijkt er i þessu: Saa sem ei kann ad naa Prests Funde, þa er honum þad fullt, ad Guds Ande uppvekur i honum sanna Ydran fyrer Syndernar, og Trwna a JEsum, og hann hefur noog i hinne Andlegu Nautn, er DRottenn talar um hiaa Johannem, Cap. 6. Segiande: Hvor sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hann skal ecke Daudann smacka ad Eilijfu; under hvoria ad Ande DRottenns afleyser hann med þeim Vitnisburde, ad hann sie Guds Barn, Rom. 8. Enn sa sem forsmaaer þau Medol, er Guds Sonur hefur skickad og innsett hier til, edur þykest þeirra ei vidþurfa, hann maa ei Christenn Mann nefna; Enn þad munu þeir einer þykiast giora meiga, er Syndenn ecke miog til Hiarta geingur, og heiter þad þa so, ad Heiler þurfa ecke Læknarans vid, Matth. 9. Hiner, sem ad hun er Ofþung Byrde vordenn, so ad þeir hafa ecke Frid i Beinum sijnum fyrer henne, Ps. 38. Þeir munu Alls-Hugar feigner verda þessum Myskunar Ordum: Hvad þier leysed a Jordu, þad skal a Himnum leyst verda, Matth. 16. Þeir þyggia med allre Hiartans Audmykt eina Huggunar-Grein af Munne Guds Ords Þienara, so sem einn Svala-Dryck, af Guds Naadar-Brunne uppausenn. Enn hvorier eru hiner? Eg Ottast þad mune meir vera Dofe Samvitskunnar, helldur enn Heilbrygde, er þeir reida sig uppa. Eg hefe talad vid suma Menn, sem hafa laated sier um Munn fara, ad þau Ord, er standa i vorum Skriptargaange: Eg er hin syndugasta og svijvirdelegasta Manneskia, sem verda maa bæde fyrer Gude og Monnum; Þau villdu þeir ecke so vidkannast, þvi ad þeir væru frij fyrer sumum Glæpum sem adrer drygia, og sijnest þess vegna ad þad sie nockurskonar Hræsne fyrer Gude, ad jaata sig ad vera hinn stærsta Syndara: enn eg Ottast ad slijkt kome nockud af Rannsooknarleyse sialfs sijns. Hver þecker Manna Hiortu, nema sa sem þau skapad hefur? Hvor kann ad vita hvorsu mikla Krapta

eing

einn hefur til ad mootstanda Syndenne, nema hann, sem þa giefed hefur? Hvor veit nema eg sie stærre Syndare, sem hann meira laanad hefur, helldur enn hinn, sem ad verr lifer fyrer Mońunum? Eg sie margañ drygia þær Synder, sem eg vil bidia Gud ad vardveita mig fraa; Eñ kañ skie ad miñ Skapnadur sie þañig, ad eg hafe Vidbiood aa þem, og er þad ecke mier ad þacka, eñ life þo epter Gyrndum mijnum i ødru, sem eg er Lundlageñ aa og hañ er ecke giefenn fyrer, verda maa og ad hañ hafe ecke þeiged so mikla Andans Naad til ad strijda i giegn Syndenne sem eg. Enn hvorsu opt mootstend eg nu Guds Anda, þegar hann minner mig aa ad giora þad ecke, sem eg kalla litla Synd, edur laata af þvi sem eg er vanur til, enn þyker ecke stoort i spunned vera? Þegar eg þetta skoda, þa vil eg siaa til, hvørt þesse Synd kann ecke ad verda so fordæmannleg i Guds Auglite, so sem hid versta Mord hiaa þeim, sem ad Gud kannskie ecke enn þa so alvarlega tiptad hefur med Stroffun sijns Anda; Og hvornenn sem þessu er vared, þa veit eg eitt, ad eingenn veit betur hvar Skoorenn ad honum krepper, helldur enn saa sem hann ber aa Fætenum. So þecke eg og hiaa aungum fleire Synder enn hiaa mier, þvi eg er eingum so margra samvitande, og þad munu aller segia, er Rannsaka Hiarta sitt ytarlega; Enn sien þar adrer syndugre, þad veit Gud, eg veit þad ecke, og fell eg þa i Forundran yfer hanns Giædsku og Þolenmmæde yfer þeim, þvi mier þyker varla meiga aa þad auka, ad hann mig sparar. Hier segiest og ecke; Eg hefe allar Synder drygt, helldur allskyns. Margur er saa, ad ecke hefur Mann veiged, ecke kreinkt sijns Naunga Hwsfrw, ecke stoled med Leind, ecke Fals-Vitne bored; Enn saa sem vill segia, ad hann ei drygt hafe neitt þvilijkt, hann segier under eins, ad hann hafe þesse Bodord hallded, sem eg þore ad segia valla mune nockur vera, og þvi er þesse Jaatning riett, og ecke einasta riett, helldur þarfleg hvorium Christnum Manne; Og hafe Menn ecke annad til Dæmis hier um, þa hafa Menn Ord Pauls, er hann segier: Þad er sannarlegt Ord og i allann Maata verdugt ad medtakast, ad JEsus Christus er komeñ i þenna Heim synduga Menn Saaluhoolpna ad giora, a medal hvorra eg em hinn meste, 1. Tim. 1. Og er þetta nu sagt um þa, sem ad Kalld-finnader eru i þeirra Jaatningu og Ydran fyrer Gude. Eñ þoott ad hiner, sem ad ofbijdur Stærd sinna Illgiorda og Guds Reide, er þeir forþienad hafa, þoott þeir (segie eg) sieu nær Guds Rijke, þa er þeim samt næsta hætt, nema þeir stioorneft af Anda DRottens, sem bijr i hanns Orde, þvi Dioflenn er slægur: So sem hañ kañ ad mijnka Syndena fyrer hinum Toomlaata og Hyrdulausa, so gietur hann og stæckad hana fyrer hinum Angraada og Hugsiwka. Eñ laat þier til Hugar koma, Guds Barn, ad þad eru ecke Kraptar þinnar Naatturu, sem ad uppvekia i þier soddann Trega, helldur er þad Ande Guds, sem ad straffar Syndena þier til Leidriettingar. Hann sem ad sært hefur Hiarta þitt med Brodde Løgmaalsins, Os. 6. Honum er ecke um Megn ad græda þig med Smyrslum Evangelij. Saa sem vill giora einhvorn Kostulegann Grip af Gullenu, hann smellter þad aadur med Elldenum; So lætur Guds Ande þitt Hiarta braadna i þier so sem annad Vax med Þeckingu Syndarennar, so þu verder þess Kostulegre i Guds Auglite, nær hann soglar þier aptur

med Huggun sinne. Sa sem meir er fyrergiefed hann elskar meir, sagde DRottenn fordum vid Simon, Luc. 7. Enn þu veitst ecke hvad miked þier er fyrergiefed, nema þier hitne alvarlega um̃ Hiartaræturnar wt af Tilfinningu eilijfra Pijsla, sem þu hefur forþienad. Vert þvi Efalaus um̃ Kvittun Synda þinna, nær þu ert so a þig komenn. Ad sonnu er þad satt, ad stoor Saar þurfa mikla Grædslu, og ad Synder vorar sieu hin verstu Saar, þad verdur ei wtskafed. Enn David segier, Forlaat mier Synd mijna, fyrer þijns Nafns Skulld, þvi hun er mikil. Sieu þær nu miklar, þa er þo hans Nafn meira, hvorium Gud hefur giefed Nafn yfer ollum Nofnum, Phil. 2. Hvert er hanns Nafn? Eilijfur Fader og Fridar Hofdinge, Es. 9. Þar fyrer, so sem Faderenn er Bornunum Lijknsamur, so vill hann vera oss Myskunsamur. Hanns Naad yfergnæfer allann Skilning; Þar fyrer kann Syndenn alldrei ad vekia so mikla Styriolld i angraadu Hiarta, ad hvar sem ad hun yfergnæfer, þar yfergnæfe þo Naadenn ei miklu framar, Rom. 5. Gud doo ecke til þess, ad þu skyllder orvænta, helldur trwa. Meira kostade hann ad giallda fyrer þijnar Synder, helldur enn fyrergiefa sijdann. Bæt þess vegna ecke þvi ofann a allar þijnar Synder, ad þu giorer honum þann Oriett, ad hann, sem þolde hinn smaanarlega Dauda og bitrustu Helvijtis Pijsler fyrer hinar Verstu og Hroopleguſtu Skammer sinna Ovina, hann mune burtu reka fraa sier einn ydrande Syndara sem til hans kiemur i Nafne hanns Forþienustu. Hvorke Ydranena nie Trwna tekur þu af sialfum þier, hann sem kveikte i þier Ydranena, hann mun ei laata Trwna vanta, þvi hann veit ad hin er Onijt aan þessarar. Þar fyrer, nær þu hefur hinn mesta Opocka a sialfum þier, þa ert þu Gude hvad þeckastur, þvi meire Glede er i Himnenum yfer einum Syndugum sem Ydran giorer, helldur enn yfer Niju og Nijutijger Riettlaatum, Luc. 15.

Nu þecke eg suma Menn og hefe þeckt, sem ad sonnu ecke efast um̃ Krapt og Verdugleika JEsu Forþienustu, nie Guds Omælannlega Myskunseme, ad þeim mune Syndernar fyrergiefast, ef þeir giora verduga Ydran, enn þad liggur þeim yfermaata þrongt i Skape, ad þeir faae ei so heita Ydran giort, ad hun sambioode Stærd og Fiollda Syndanna, af þvi þeir eru sier hinna verstu Glæpa og Bodorda Brota medvitande, enn þeir faae ecke so Hiarta sitt i sundurmared med Logmaalsins Hamre, sem honum lijke, er ecke bijr nema i sundurknosudum Hiortum, Es. 57. Og er þetta ad sonnu ecke Ofyrersyniu, þvi eiga soddann Manneskiur ad kosta ollum Saalar og Lijfs Kroptum til ad sundurslijta og plaaga Hiarta sitt med yduglegre Minningu þeirra Glæpa, er þeir drygt hafa, og ecke sijdur Giædsku DRottenns, er þeir hafa stygt, helldur enn hanns Reide, og mun þess haattar Manneskia, fyrer yduglega Bæn og Vana, aan alls Efa faa Gyrnd sijns Hiarta af honum, er þesse Foorn alleina lijkar, Ps. 51. Enn þoott ad Taarenn renne ecke af Augunum, þa er þad a Stundum Natturunnar Brestur, og heimtar Gud þad af eingum sem hann hefur ecke giefed honum. Noog er þad, ef hinn innre Madurenn klagar sig, aasakar, Sakfeller og straffar. Enn ef þier virdest þijnar Synder enn þa stærre, enn ad þier lijke vid sialfann þig, þa vit, ad þetta er hin þægelegasta og mesta Yferboot hia Gude, sem af þinne

Hende

Hende maa framkoma, og munt þu heyra med St. Paale; Laat þier nægiaſt mijna Naad, minn Kraptur er i Breyſkum maattugur, 2. Cor. 12. Og er ei Olijkt, ad hinn Alvijſe Gud giøre þier ſlijkt til Gooda, þvi ef þu þætteſt hafa ad fullu Ydran giørt fyrer Syndernar, þa maa ſkie, ad þier være hætt vid ad falla til þeirra aptur. Hällt þier þeſs vegna vid hanns Myſkunar-Fætur, og ſlepp honum ecke fyrr enn hann hefur bleſſad þig. Hier er oſs gott ad vera, ſagde Petur, þegar JEſus Forklaaradeſt aa Fiallenu Helga; Vier vilium giøra hier Priaar Tialldbwder, þier Eina, Moyſi Eina og Eliæ Eina, ſagde hann, Matth. 17. Eg gledſt ad ſonnu med Petre af þeſſare Dijrdar Sioon, 2. Pet. 1. og dæeſt ad henne i allañ Maata, eñ þore þo ecke ad Oſka mier hiñar ſomu, aa medann eg ber epter mier Lijkama þeſſa Dauda, þennañ fwla Synda-Seck, þeñañ vonda Ham, fullann allra Gyrnda og Laſta; þvi eg kvijde vid, ad mijn ſyndug Augu, er ſo margt Illt hafa ſied, og vænt um þott, ad þau mundu ecke ſtandaſt þann Himneſka Dijrdar-Liooma, mier munde hid ſama i Hug koma og Manoha ſagde ſordum Daga vid Kvinnu ſijna: vid hofum ſied Eingel DRottenns, þvi munum vid Eflauſt deya, Jud. 13. Enn mætte mier þad heppnaſt, O HErra JEſu! ſem hinne Berſyndugu Fordum, ad ſkrijda ad þijnum bleſſudu Footum, og þvo þær i Taarum mijns Hiarta, og ſmyria med Oleo minnar Ydranar, Luc. 7. Þa villda eg ſegia: Hier er mier gott ad vera, þar vil eg flatur liggia, þadann ſkal mig eingenn draga, þar ſkal mig eingenn fordæma, þar ſkal eingenn mier uñ mijnar Synder brijxla, helldur mun eg heyra þau Fagnadar Ord: Honum fyrergafſt miked, þvi hann elſkade miked; Far i Fride, Þijn Trw giørde þig hoolpenn. O HErra! þegar vier køſtum oſs flater til Skarar Foota þinna, Pſ. 110. Ecke med Ovinum þijnum, helldur med þeſſare Saka-Konu, þa laat þinn gooda Anda mæla þeſſe Huggunar Ord i vorum Hiortum. Bænheyr þad Naadarfulle Gud, Fyrer JEſu þijns Sonar Forþienuſtu, og gief oſs þar til þeſſa þijns ſama Anda Styrk og Adſtod, i hanns Nafne, Amen.

# Annann Sunnudag epter Paaſka.

## Gudſpialled, Joh. 10. Cap.

JEſus ſagde til Gydingaña: Eg em goodur Hyrder. Goodur Hyrder giefur ſitt Lijf wt fyrer ſijna Saude: Eñ Leigulideñ, og hañ ſem ecke er Hyrder, Hvørs ad Sauderner eru ecke Eigeñleger, nær hañ ſier Ulfeñ koma, þa yfergiefur hañ Saudena, og flijr i burt. Og Ulfureñ grijpur Saudena, og ſundurdreifer þeim. Eñ Leigulideñ flijr, af þvi hañ er Leigulide, og giæter ecke Saudaña. Eg em goodur Hyrder, Og eg þecke mijna Saude, Og eg þeckeſt af mijnum; So ſem Fadereñ þecker mig, Og eg þecke Fodureñ, Og eg legg mitt Lijf wt fyrer mijna Saude. Eg hefe og adra Saude,

Sem

Sem ei eru af þessu Sauda-Hwse, Pa byrtar mier og hier til ad leida, Og þeir munu heyra mijna Rödd. Og þar mun verda eitt Sauda-Hws, Og eitn Hyrder.

## Exordium.

I Fyrra Pistle til Tim. 3. Segier Postulenn, ad þad sie mikell Leyndardoomur Gudhrædslunnar, ad Christur sie Heidingiunum predikadur. Gudhrædslu nefner hann hier Christenndoomenn, so sem vijdar Annarstadar i sijnum Pistlum, þad er hinn sanna Lærdoom um Frelsara Heimsins. Þad er sw Gledelega Hyrdersins Raust, er DRottenn talar um hier i Gudspiallenu, hvør og hefur fagurt læted a medal vor, þvi segier hann: Eg Hefe Og Adra SAude Sem Ecke Eru Af Þessu Sauda-Hwse, i hvørium hann bender til Spaadooms Ezechielis 37. Cap. Hvar DRottenn so talar: Minn Þioon David skal vera Konungur yfer þeim, og þeir skulu aller hafa einn Hyrder, ad þeir gange i mijnum Riettindum. Gledelegt er þetta ad heyra, Br. M. fyrer þad Foolk er sat i Myrkrunum, Esa. 9. og fyrer þeirra Epterkomendur, sem erum vier. Enn so Gledelegt sem þad er, So hryggelegt er til þess ad vita, ad þeir eru so faaer sem þad vill rætast a, nu a þessum verstu og sijdurstu Dogum, þvi svo feigens Hende sem ad marger af Heidingium tooku a moote hinu Fyrsta Christne Bode; Svofaaer eru nu þeir vordner, sem ecke drepe Hendenne vid þessare Guds Naad, og so sem ad Christur fann varla þann er hann þeckte i sinne Fyrre Tilkomu, so er ad ugga, ad hvad sem hann tefur wr þessu ad koma, þa mune hann valla finna Trw a Jordu, Luc. 18. edur þaa er hann þecke fyrer sijna. Og fyrer þad, ad þad er so Almennt vorded, ad Daufheyrast vid Raustu hinns gooda Hyrders, þa vil eg wt af Evangelio tala um þaa Hlute er kunna ad uppvekia oss til ad, liaa henne vor Eyru, so ad vier ecke wt af sofnum i Daudanum. Giefoss þar til þinn Anda, himneske Fader, fyrer JESU Forþienustu, Amen.

## Utleggingen.

Vakna upp þu sem sefur, og rijs upp af Daudum, segier Postulenn, Eph. 5. so mun Christur upplijsa þig. Enn hvar vid skyllde saa vakna er sefur i Syndunum? Hvar vid skyllde hann uppriisa sem er daudur i þeim? Nema vid Raust hinns gooda Hyrders, er sagde Fordum Daga, þa hann framsette Epterlijkinguna um Sæded, Matth. 13. hvert ad er Guds Ord, Hvor Eyru hefur ad heyra, hann heyre: Guds Rodd er þetta enn ecke Manna, sagde Foolked þad er heyrde a Tal Herodis, af þvi hann talade so snialt, Act. 12. Enn eg maa þad ollu helldur færa heim til þessa gooda Hyrders Saudanna, þess Biskupsens med þa vellærdu Tunguna, Esa. 50. Þad eru Guds Ord, enn ecke Manna, er hann talar, og þykest eg noog hafa sagt, þegar eg segie, ad þad Guds Ord sieu. Þu syndugur Madur, er þetta heyrer, laat þier þad til Hiarta gaanga, og ugsa hvor saa er, sem vid þig talar, þad er eingenn Jardneskur Hofdinge, ecke Konungur

edur

edur Keysari, og mundir þu þo heyra þa med hiñe mestu Athygli; Enn þad er DRottiñ Himins og Jardar, sa ed hefur Konunganna Hiortu sier i Hendi, og øll Verollddiñ leikur fyrir honum aa Reidi-Skiaalfe þegar hann talar, Prov. 21. Mykill maa vera Munur Abrahams Forfødurs og þijn, ad þegar hann taladi vid DRottinn, og þo i Mañs-Lijki, þa vard hann so audmiwkur, ad hann sagdi: Nu villda eg þo tala vid DRottinn þoott ad eg sie Molld og Aska, Gen. 18. Og rak sa Guds Madur þo akiarra Eyrendi og ecki sitt, i þad Sinn; Enn þu sem ad liggur hrasadur medal Ræningia, Luc. 10. Og gietur þier einga Biorg veitt, Jaa, þu sem velltir þier i Syndunum Daglega, eins og eirn Madur i sinni Hvijlu, þu villt ecki heyra þegar DRottinn kallar i sijnu Heilaga Ordi. Hugleid, ad ef þu ættir ad taka Eyrindi nockru af Høfdingia einhvørium, Og þu svaradir honum øllu ødru enn þvi sem til þess heyrdi, edur þu lietist þad ecki heyra, mundi hann ecki braadlega reidur verda og reka þig aa Dyr.? Edur laata i Fiøtur kasta? O! hvad mikid skilur þa Gud og Mennina? Hvørsu opt kallar hann oss fyrir sig i sijnu Heilaga Ordi? Hvørsu opt verda oss hanns Eyrindi aa Hendur faliñ? Hvad tijdt bijdur hann oss hvad vier giora skulum, og Ogiørt laata? Enn þad geingur eins fyrir mørgum af oss, eins og Syrach skrifar um hinn Heimska, ad þad er eins vid hañ ad tala og þañ ed sefur, Nær þu hafder lokid Rædunni, spyr hann eptir hvad þu sagdir, Syr. 22. Eins geingur þad mørgum þeim, ed Ordid heyra edur lesa: Menn muna þad varla medañ þad heyrt edur lesed er, auk helldur ad þeir færi þess nockurn Avøxt, riett eins og St. Jacob talar hier um; Ad ef nockur er Ordsins Heyrari og ecki Giørari, hann sie lijkur þeim Manni, er sinn Naatturleganñ Yfirlit i Speigli skodar, Jac. 1. þvi hann skodadi sig, gieck burt og gleymdi hvilijkur hañ var. So siaaum vier (ef vier þo sumir ad þvi giætum) i Heiløgu Guds Ordi, hanns Giædsku og vora Illsku, hanns Poliñmædi og vora Overmoodsku, hanns O-wtsegiañlegann Kiærleika og vort Hatur og Leida, sem vier berum til hanns Riettinda, enn vier gleymum þvi so flioott, ad þad hefur lijtinn Stad hiaa oss til Apturhvarfs fraa Syndunum nie Lifnadarins Leidriettingar. Giætum þo ad þvi i JEsu Nafni, giætum ad, hvørsu dijrmætt ad þetta Ordid er, og hvad mikid þad hefur kostad oss ad byrta! Þad er ecke eins og þad Orded, er Gud talade i Upphafe, og skoop þar med Himen og Jord, Gen. 1. Ecke eins og þad, hañ talade til vorra Fyrstu Foreldra, er hañ straffade þau fyrer Syndena, og rak wt af Paradijs, Gen. 3. Ecke eins og þad, hann taladi til Israels Sona i Eydimørkinni, og þeir beiddust undañ ad heyra þad, Exod. 20. Helldur er þad Lijffsins Ord, Joh. 6. Fyrir hvørt ad Guds Sonur hefur uppaa sig tekid vort auma Holld og Blood, og i þessu sama Holldi lidid allar Eymdir Mannlegs Hollds, Hwngur, Þorsta, Klædleyse, Utlegd, Orbyrgd, Haadungar og Brixli Ogudlegra Manna, Ossooknir, Fiøtur, Hraaka, Hwdstrokur, Høgg og Sløg, Og ad sijdurstu hinn Smaanarlega Dauda aa Krossens Gaalga. Allt þetta vann hin Eilijfa Hætign til þess, ad Opeñbera þetta Lijffsins Ord sijnum Fiand-Mønnum, er geingid høfdu i Sveit med Andskotanum. Og þo skamast sijn ecki eirn

Gialijfur og Þverbroteñ Syndare ad troda þessa Guds Gaafu under Footunum, læt-ur naudga sier til ad heyra þad og læra, og kallar þeim veitti, sem Guds Sonar Umbod aa Hende hafa, ef þeir faa þryst honum til ad sijna sig under Heyrn Guds Orda. Seig mier, þu sem ekur þier vid ad sitia undir eiñi Predikun, hvort mun Guds Son hafa kost-ad meira ad faa sitt Ord þier opinnberad, edur þig ad heyra þad? Þu munt nærri gie-ta, er þu les hanns Pijslar-Sogu; Hitt veit eg ad hann laangadi til ad lijda allar þær Kval-er, sem þar i ritadar eru, þinna vegna, Enn hvort þig laangar so til ad heyra þad Ordid af Krossinum, þad bid eg sialfann þig ad Hugleida. Segied mier enn aptur; Hvors veg-na mun hinn goodi Gud hafa unnid so mikid til aumra Manna Saaluhiaalpar? Þurfti hann þess sialfur vid? Fiærri sie þvi. Himnarnir utskijra hanns Dijrd, og Festingiñ Verk hañs Handa, Psal. 19. Mundi hañ hafa lidid nockurn Skort aa Dijrd siñi, þoott Manneskiann hefdi Eilijflega kvalest i Helvijti? Nei, Eins Vegsamlegt hefdi verid hañs Riettlæti, So sem nu er hañs Giædska, þoott eingvum hefdi hañ Myskunad. Er honum nockud veitt i vorri Þioonustu? Laangt fraa, þar standa frami fyrer honum Otal Þus-und Himneskra Herskara, sem lofa hann og prijsa aan Aflaats Noott og Dag, Hverra Dijrdlegar Raddir og Lof-Saungvar laangt yfergaanga vort syndugt Kvak, er vier laatunst vegsama Gud med hier aa Jorduñi. Hvar fyrir lætur hann þa sitt dijrmæta Ord predika? Hverium til Gagns og Gooda? Þier, Þier, O þu Rænulaus og Þver-brotinn Syndari! og þad ut af einskiærri Naad sinni; og þo leggia syndugir Menn þenna Himneska Leyndardoom ad so litlu, ad Menn vilia nálægt allt annad heyra. Sie þad ei annad, sem kunni ad þvijnga oss til ad hafa Mætur aa Guds Heilaga Ordi, þa lijtum til vorrar saurugrar Fædingar. Hvad vorum vier nær vier fæddunst i Heim þeña af Mood-ur-Lijfi? Reidinnar Born, Eph. 2. Eintoomis Holld og Blood, Joh. 3. sem ei kañ Guds Rijki ad erfa, 1. Cor. 15. Enn hvad erum vier nu? Guds Born og Erfing-iar Eilijfs Lijfs, Gal. 4. Ef vier truum aa Guds Son og vardveitum hanns Ord; Enn hvar fyrir er þad skied? Mun ecki fyrir Guds heilagt Ord? Hvort ad er i Vatn-enu og med Vatnenu, nær vier giorunst Guds Born af Reideñar Bornum i Heilagre Vatns-Laug. So er þa Guds Heilaga Ord hin Fyrsta Mioolk, hvoria vier inndreck-um strax med Moodur-Mioolkinni, fyrir hvoria vier odlunst hid Andlega Lijf, aan hv-ors hid Lijkamlega er eckert annad enn Daudi. Enn Gud naadi oss auma og synduga! Ad þegar vier drogunst aa Legg, þaa velgir oss vid þessari Barna-Fædu, aan hvorrar einginn Spekingur, einginn Meistari, einginn Doctor hefur þo fullordinn giorst i Guds Þeckingu. Enn hvad velldur þvi, Br. mijnir? Þad, medal annara, ad margir Ovit-rer og Hyrdulausir Forelldrar, Er sialfir kannskie lijtid edur eckert vita sier til Saalu-hiaalpar, þeir leyfa Bornunum fyrr ad veniast aa Brioost hinnar Gialijfu Hooru Verblldarinnar, helldur enn a hina Skynsamlegu og Osviknu Mioolk, er St. Petur dreck-ur þeim til af, 1. Pet. 2. Ad þau vaxi i henni. Giætid þo ad Saalum ydar, Christnir Menn, þoott þier ecki mikid hyrdid um Saalir Barna ydar, Þvi Gud mun Eflaust kref-

sia

ia þeirra af ydar Hende, Ezech. 33. sem vegna ydar Forsoomunar elliflega glatadar ver=
da. Enn þott ad þad hafe vered Forelldrana Skulld, ad þeir hafe ei uppfrædt nockurn
aa hanns Ungmennis Alldre, þa vite hann samt, ad þad verdur hanns eigenn Skulld, þeg=
ar hann kiemur til Vits og Ara, ef hann fer aafram i slijku Ovite og Hyrduleyse: Þar fyr=
er ef nockur er sa, ad hann vante þad, er hann vita þarf til sinnar Saaluhiaalpar, sem eg
dylst ecke vid, ad fleire enn færre vera mune, þa laate hann sier um alla Hlute fram vera
ant um, ad faa þess Leidrietting hiaa þeim sem betur vita, ef hann elskar Saalu sijna, og
kamest sijn ecke; þvi fyrer hvorium vill hann skamast sijn? Ecke fyrer sijnum Saalusorg=
ara, þvi ef þar er nockur Guds Anda Neiste i honum, þa mun han fagna þvi, ad eirn Faa=
froodur Vesælingur vill leita Raads til hanns i sijnum Saaluhiaalpar Efnum; Ecke fyr=
er neinum Gudhræddum edur Vitrum Manne, þvi so laangt er fraa þvi, ad nockur sa sem
Gud elskar, mune hlæa ad þvi, ad þeir mundu kalla þad Lofs verdt, og vera eins Lynder
og þeir sem i Himnenum eru, hvar meire Fognudur er yfer einum Syndara, sem Ydran
giorer, helldur enn yfer 99. Riettlaatum, Luc. 15. Fyrer hvorium skyllde hann þa skam=
ast sijn? Fyrer Gaarungum Veralldarennar, sem jafnvel hlæa ad Gude og ollu þvi hon=
um tilheyrer. En þess er stoor Munur, ad taka aa moote þvi Spotte, sem einkis er verdt,
og ad standa med Kinn-Roda fyrer Guds Doome aa sijdarsta Deige: Og hvernig sem
ollu þessu er vared; Þa hygged ad, hvort ad sie mine Mijnkun ad aller vite þad einn ver=
de ad fara til Helvijtis fyrer Vanvitsku Saker, ellegar ad leidriettast af audrum, sem bet=
ur vita, so Menn kunne ad verda Erfingar Eilijfs Lijfs. Nu er þad ecke noog, Guds
Barn, ad þu kunner þinn Barna Lærdoom, og viter hvad þu att ad trwa, og nockurn=
veigenn ad giora; Þar eru so morg Tilfelle, sem ad oss mæta aa hinne Hættusomu Rei=
su fraa Voggunne til Grafarennar, bæde i Andlegann og Lijkamlegann Maata, ad sa sem
vill fara hina riettu Leid, hann gietur ecke vered aan Leidarvijsers Guds Heilagra Orda,
hvort David segier ad sie Lioos aa sijnum Vegum og Lampe Foota sinna, Ps. 119. Han
sem þo var enn vitur Konungur. Med Guds Orde verdum vier Endurfædder, med
Guds Orde Uppfrædder; Þau temia vorn Ungdoom, styrkia Fullordens Arenn, hugga
Ellena. Hvad er eirn Unglingur, sa er ecke hefur Gud sier fyrer Augum? Hann er eitt
Raadlaust Villudijr, einn galenn Fole; þvi segier David: Hvernig kann Æsku-Madur=
enn ad gaanga sinn Veg Ostraffannlega? Ef hann helldur sier vid þijn Ord, Ps. 119.
Þvi verdur morgum þeim, er Guds Ord og goodar Menter forsmaa i Ungdoomenum,
ad þeir elldast alldrei þott þeir Attræder verde; Enn hvar eiga þeir Gud ad finna? Hv=
ar eiga þeir hann ad sia? Nema i hanns Orde. Hvad er Madurenn þa hann er full=
ordenn aan Guds Orda? Laatum honum Rijkdoom hlotnast, hann er Satans og Mam=
mons Þienare, nema han lære i goodum Verkum rijkur ad vera, sem Paulus bijdur, 1.
Tim. 6. Enn hvar skal hann þad læra nema i Guds Orde? Laatum hann setiast i Met=
ord og Virdingar, hvad er hann fyrer utann Leid-Sogu Guds Orda? Eitt Skip fyrer
utann Stijre, nockurskonar Rik sem Vinduren upp i Lopted feiker; Þad siaaum vier (þvi

verr) aa mørgum Afglapa, sem ad Luckann tiller upp i haaann Sess, sialfum sier aa stundum til Spotts og Mijnkunar, enn ødrum til Skada og Meinsemdar. Ellenn er ad sonu i sialfre sier heidarleg, Jafnvel epter Guds Bode, Levit. 19. Oskande være, ad hiner Ungu hefde þar epter Vilia edur Vit aa ad sijna henne tilbærelegann Heidur. Enn einn gamall Madur, fyrer utann Otta DRottens, er Vidundur Veralldar, þvi Guds Otte er þad sem hann aatte framar øllu ad læra aa sijnum Æfe-Stundum og kunna ødrum ad kienna sem yngre eru; Maa þvi sijnast ad hann hafe lijtenn Avoxt Æfe sinnar, ef hann er Ungum verre i Þeckingu Guds og hans Heilogu Orda. Segied mier; J hvøriu er vor Christenddoomur mest foolgenn? J þeim Þremur Hlutum, ad eg meina, ad ydrast Syndanna, ad trwa þær verde sier fyrer Christum fyrergiefnar, og so ad laata af þeim framveigis. Enn hvernig villtu þeckia Syndena, nema Guds Ord sijne þier hana? Þad er einn Speigill, i hvørium Madurenn kann ad skoda hvilijkur hann sie. Ared edur Agnernar i Loptenu faaum vier ecke sied, nema i Soolar-Geislanum. Giætum þess, Bræddur mijner, ad þoott oss sie i Bodordunum sagt, hvad vier eigum ad giøra og Ogiørt laata, þa er þad margt smaatt i Fare voru, sem Bodordunum er mootstædelegt, og vier mundum ecke skynia, nema oss være þad framar sijnt af Guds Heilaga Orde, sem ad er hinn Fegurste Geisle þeirrar Blessudu Riettlætis Soolar. Enn eingenn er afsakadur, þoott eige vite hann Guds Vilia, þvi sa sem aan Løgmaals syndgar, hann skal aan Løgmaals fyrerfarast, segier Postulinn, Rom. 2. Hvad eigum vier um sialfann Gud ad tala? Lijtid til hinna fyrri Daganna, sagdi Moyses vid Jsrael: Lijtum til Heidingianna, Fedra vorra, hvorier ed geingu til Maallausra Skwrgoda og þioonudu þeim, 1. Cor. 12. O! hvørsu mættum vier þa hinum Allsvalldanda Gude Þacker kunna med graatande Taarum, ad hann hefur oss sijna Haatign, sijna Giædsku, sitt Riettlæte, sijna Volennmæde og sijna Guddoomlega Speke opennberad i sijnu Heilaga Orde, so ad nær vier berum vort saurugt Lijferne, er vier skodum i Speigle Løgmaalsins, samann vid hanns Guddoomlegann Tignar-Liooma, þa faaum vier Vit aa ad skammast vor, ad ydrast, ad audmykia oss under Volduga Guds Hønd, og Offra hønum þeirre Foornenne er hønum alleina lijkar af vorre Hende, sem er Harmþrwngenn og sundurknosadur Ande, Ps. 51. Nu þegar vier høfum so þeckt Syndena, og siaaum oss ecke annad bwed enn Eilijfar Helvitis Pijsler, hvar villdum vier faa Boot vid þessu? Være oss þad ecke opennberad i Guds Orde, ad hanns Sonur være i Heimenn komenn til ad kalla Synduga og ecke Riettlaata til Ydrunar, Matth. 9. Þegar Andskotenn lætur einum Glæpa-Manne, sem allann sinn Alldur hefur i Vondskunne aled, ofbiooda þær Syndernar, sem hann hefur lockad hann til, so hann aa skamt til ad Orvænta sier Guds Naadar; Hvar vill hann faa Boot vid þessu? Ef ei hefde hann þau Lyknar-Ord Guds; Ad so sannarlega sem hann life, vilie hann ecke Syndarans Dauda, Ezech. 33. Og aunnur þvilijk. Nu þegar þu aattad uppbyria hina niju Hlijdne, og sijna ad þu siert Guds Barn vordenn af Þræl Syndarennar, enn Andskotenn, Heimurenn og Hollded freista þijn, hvar villt þu faa Raad til ad wtslockva øll

Elldleg Skeyte hiñs Prettvijsa, Eph. 6. Nema i Guds Orde? Hvor kienner þier ad Krossfesta Holdded med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Nema Guds Ord? Hvor yfervinnur Heimenn, nema saa sem fæddur er af Gude? 1. Joh. 5. Hvar fyrer? Þvi hanns Sæde er i honum, segier Johannes, 1. Pist. 3. Hvort er þad Sæded? Þad er Guds Ord, segier DRottenn i Epterlijkingunne hiaa Lucam, Cap. 8.

Hier verd eg og ad minnast nockud aa vora Kyrkiugaungu, og Heyrn Guds Orda i hanns Hwse. Þad er oss øllum vitannlegt, ad i sijnu Mustere hefur Gud sett Minning sijns Nafns, þar vill hann dyrkast og tilbidiast, Exod. 20. Þar eigum vier ad tala vid hann i vorum Bænum, og heyra hann aptur til vor talande i sijnu Heilaga Orde, þar eigum vier ad taka Riettindenn af Kiennemannsins Munne, þvi hann er Eingill DRottens, Malach. 2. Ritningeñ er ad sonnu Brunnur hinns Lifanda Vatns, er Christur vill oss giefa, hvør sem af þvi dreckur, hann mun ei þyrsta ad eilijfu, Joh. 4. Enn vier meigum flester segia, eins og hin faavijsa Samariska Kvinna sagde vid JEsum Fordum, þad er diwpt ofann i Bruñenn, enn vier høfum eckert ad ausa med. Guds Ords Þienarar eiga ad vera oss i þessu, so sem Rebekka var Eleazar Abrahams Sendemanne, ad hun joos Vatned upp af Bruñenum fyrer hann og hañs Ulfallda, Gen. 24. Eins og Jacob var Rachel, er hann vellte hinum mikla Steine af Brunnenum, so hennar Fodur Hiord kuñe ad drecka, Gen. 29. Þeir eiga ad sundurkliwfa Ord Sannleiksins fyrer oss, 2. Tim. 2. og giefa Guds Hiwum i riettann Tijma þad þeim byriar, Luc. 12. Þvi hvornig meiga þeir trwa nema þeim sie Predikad, segier Paulus, Rom. 10. Haf þvi Raad Salomonis er hann segier, Eccl. 5. Vakta þijna Fætur, nær þu geingur i Guds Hws, og vert helldur bwenn til ad heyra, enn til ad giefa Offur hinna Heimsku. Soddann Offur maa kalla þeirra Guds Þioonustu, er byrtast i hanns Hwse, alleina fyrer Sida-Saker, enn hugsa allt annad enn um þad sem talad er. Nu veit eg þo, Christenn Madur, ad þu segier: Þott mijner Þaankar kunne ad hvarfla hijngad edur þaangad, Jafnvel under Predikunenne, þa fæ eg ecke vid þvi giort, hvorsu vel sem eg villde. Eg veit þad er satt, og þad maa hvør Madur ødrum jaata, þvi Mannsins Þaankar eru vonder fraa Barndøme, Gen. 8. Enn hitt gieta Menn vidgiort, ad þeir sieu ecke Laangdvølum i burtu nær Menn under Guds Orda Heyrn sitia. Þvi Raad eru nockur vid þvi, B. G. ad minna verde af þessu, helldur eñ kann skie almeñelega skiedur. Eg vil ecke hier tala um Ogudlegar Mañeskiur, er setia sig til ad hugsa allt annad enn þad sem af Guds Orde talad er, til ad stytta sier med þær Stunder, er þeir ættu Gude ad giefa. Um soddann Andskotans Mustere vil eg ecke tala; Hinum vil eg Raad leggia, er giarnann vilia Orded heyra, eñ faa þad ecke giort sem villdu þeir, fyrer Naatturunnar Breiskleika Saker: Hid fyrsta er, ad nær þu geingur i Guds Hws, þa gior þad ecke af Yferdrepskap, helldur Alvoru. Enn fyrer þvi ad soddann Hugarfar tokum vier ecke af sialfum oss, þa bidium Gud innelega um ad giefa oss Astundan og Eptertekt sinna Heilogu Orda, nær vier inngaungum i hanns Hws; hvad nær vier giorum af Hiarta, þa er eingeñ Efe aa þvi, ad hanns Ande bidur fyrer oss.

med Ummrædelegum Andvorpunum, Rom. 8. og framkvæmer i oss þad gooda Verked. Hid Annad er Elskann til Guds, hvoria vier ødlunst bæde med Bænenne, ef hun er alvarleg og ydugleg, Svo og med stifelldre Jhugan Guds Tignar og vors Overdugleika, hanns Orlætis og vorrar Þarfar, hanns Giædsku og vorrar Jllsku, hanns Þolennmæde og vorrar Þvermoodsku, og kann oss alldrei ad bresta Orsøk til þessa, þvi æ hvoriu Augnablike medtøkum vier hanns Naadar Velgiorninga, og æ hvoriu Augnablike syndgunst vier æ moote honum, so þegar vier berum þetta samann i Hiarta voru, þoott ei sie nema Kvolld og Morgna, þa kunnum vier ecke ad fara æ mis vid þad, ad faa eina brennandi Elsku til hanns, sem oss Ogudlega og Synduga Orma sparar i Naad sinne, og giører oss ei ad sijdur allt til gooda, Þoott vier hann vijsvitande til Reide reitum. Nu er þad vitannlegt, ad ef vier elskum nockurn og virdum, þa vigtum vier hvort Ord, er hann talar, og þyker vænt umm þad, og þott þad sie Heimska æ Stundum, þa er vor Breiskleike so mikell, ad vier holldum þad Gullvægt, hvad sem wt af hanns Munne kiemur; Og þvi skylldum vier þa ecke elska Guds Ord, ef vier hann elskum, þar þau eru i sialfum sier dijrmætare enn hid besta Gull, og sætare enn Hunang og Hunangsseimur, Ps. 119. Enn þa framar: hofum vier ecke Ynde og Gaman af ad heyra talad umm þa Hlute er oss þyker vænt umm? Sioo-Madurenn talar giarnann umm Siglingar, Strijds-Madurenn umm Orlog, hinum Agiarna leidest alldrei ad heyra rædt umm Fiaar-Aflann, Vijsenda-Mannenum umm Heims-Speke, Logvitringnum umm þess-hattar Hyggende, þvi hvar ydar Fiaarsioodur er, þar er ydar Hiarta, sagde JEsus, Matth. 6. Aller erum vier Onæmer æ hid Gooda i Fyrstunne. Eirn Unglingur, þa hann er fyrst settur til Menta, þa er honum leid sw Ydia, enn epter æ fær hann so mikla Lyst þar til, ad hann gietur varla annad giort; So skal faa vita, ad sier er vel framfared æ Guds Veige, sem elskar hanns Ord; Fær Menn fyrst Elskuna, þa er ecke ad ugga umm Eptertektena, Þvi mijner Sauder heyra mijna Raust, segier Guds Sonur hier i Evangelio. Og segied mier, B. M. Umm hvad ætte oss væna ad þykia, enn umm Saaler vorar, sem vier þo ecke vitum nema fraa oss teknar verde æ hvoriu Augnablike; Þvi skylldum vier þa ecke giefa hinn mesta Gaum ad þvi, er þeim hiaalpa kann, ecke til nockurs Stundargagns, helldur til eilijfra Nota? Enn þessa Elsku og Rækt til vorra eigenn Saalna, munum vier ødlast, ef vier venium oss æ ad bera samann þa Dijrdlegu Vist, sem ollum Guds Bornum er fyrerbwenn med Christo i hanns Rijke, og so Fordæmdra Pijsler i Helvijte, hvar þeir eta sijnar Tungur wt af Pijnu af Ofraun Kvalanna, Apoc. 16. J Þridia Maata, Barn Guds, nær þier annarleger edur synduger Þankar i Hug fliwga under Guds Orda Heyrn, þa laat þa somu verda þier til Uppvakningar, ad þu skammest þijn, ad þu hafer þanneg saurgad Guds Mustere, og slaa þannig Andskotann med sijnu eigenn Sverde, þvi ad vijsu mun þig angra þad, ef þu ert Guds Barn, Ad þu ert so under Syndena selldur, Rom. 7. ad þu gietur ecke eina Stund vakad med Drottne, Matth. 26. Og nær þig þad angrar, þa munt þu braadlega leita aptur til ad finna Hugsvolun Saalu þinne i þvi sem fyrer þier er talad

af

af helgum Stad. Villdu Menn nu þetta Prennt gaumgiæfelega athuga, þa er eg fullkomlega viss um, ad margur fære betre heim aptur i sitt Hws, Luc. 18. undann Guds Orda Heyrn, helldur enn mig ugger ad Menn Almennelega giore; Hvad Gud Nade!

Nu er þad þo ecke noog, B. M. ad Menn heyre Guds Ord med Athygle, nema Menn fære þar af Avoxt i Þolennmæde, Luc. 8. Vier eigum ad Rootfesta þad, so og Groodursetia i Hiartanu, ad nær vier freistunst af einhvorre Synd, ad vier þa strax hofum orugt Vijge, a moote henne, i þvi sem vier hofum numed af Guds heilagre Kienningu. Hvad giorde vor goode Meistare, nær hann var freistadur? Þott ecke være honum hætt vid ad sigrast af Diosflenum, þa sloo hann samt þann Ovin med Guds Orde, i heilar Þriaar Reisur, so ad hann skammadest sijn, og forliet hann, segier Gudspiallamadurenn, Matth. 4. Gior þu eins, Christenn Madur, enn hverneg villt þu faa þad giort, nema þu hafer numed þad og geimt i Hiarta þijnu? Og kunner þu af einhvorre Freistingu yferstijgenn ad verda, hverneg villt þu faa Lækning þar vid, nema af þvi sem þu kannt af Guds Orde? J sama Maata, nær þu fær Orsok edur Tækefære til ad giora nockud gott, þa eiga heilog Guds Ord, er þu hefur safnad i Fiesiood Hiarta þijns, ad minna þig þar aa, og giorer þu ecke þetta, þa maa þier þad ad litlu gagna, hvorsu Bænheitur, hvorsu Gudrækenn sem ad þu situr under einne Predikun, þvi þad vill eins til gaanga og um Sæded, Luc. 8. Þad er fiell i grijtta Jord og aa medal Þyrna, ad soddann Manneskiur annadhvort medtaka Orded med Fagnade, enn hafa þo ecke nockra Root, þvi um Stundarsaker trwa þeir, og falla fraa aa Tijma Freistingarennar; edur og ad Þyrnenn, þad eru Sorg, Audæfe og Gyrnder Heims þessa, vaxa upp med þvi og kefia þad, so ad þad færer aungvann Avoxt. Eg efast ecke um, ad þar mune nockrer vera, sem aasetia sier Gudrækelegann Lifnad, nær þeirra Synder eru straffadar i Guds Orde, enn hvad faaer þeir sieu, er fylla þad med Verkenu, er audsært af Ogudlegu Framferde Mannanna i Heimenum. Gud giæfe þar være einn Samaritan aa mille Tiju Gydinga, Luc. 17. Einn Abraham i Gerar, Gen. 20. Og Tiju Gudhrædder i Sodoma, Gen. 18. Þig ydrar af Hiarta þess, er þu hefur Gude aa moote broted, og þu lofar ad syndga ecke vijsvitande framveiges. Enn seig mier, Kiære, nær ætlar þu til þess ad taka ad lifa betur? Munu þeir ei faaer er hlaupa strax wr Tollbwdenne med Levi, og fylgia Christo epter, Luc. 5. Nær ætlum vier ad taka til ad elska Gud og hanns heilaga Ord, ad virda og ottast hanns Nafn, sem oss byriar, ad heidra Forelldra og Yferbodna, Exod. 20. ad aga Born sijn og uppala þau i Otta DRottens, Eph. 6. Nær ætlar hinn heiptræke ad taka til ad elska sinn Ovin, Matth. 5. hinn Lauslaate ad giora Saattmaala vid sijn Augu, Job. 31. hinn Agiarne ad laata af ad Stela, Ræna og Svijkia, Eph. 4. Lygarenn ad Nægia og Baktala, 1. Pet. 2. Nær ætlum vier ad hreinsa Hiortu vor af þessum daudlegum Verkum og Svijvirdingum? Kann skie nær vier gietum ecke leingur, edur nockru epter þad vier erum dauder. Enn David segier, Ps. 115. ad þeir prijse ecke Gud sem ofann fara i Helvijted, og mun þad þa verda nockud um seinna, ad giallda honum þa Skulld, er honum aatte hvor ad lwka.

O þu

O þu Naaduge Gud, skapa þu i oss hreint Hiarta, og gief oss einn nijann vissann Anda, Ps. 51. Snw þu oss, O Drottenn, þa er oss snwed, Jer. 31. Laat oss hafa Lysting vora i þijnu Logmaale, og tala um̃ þad Daga og og Nætur, Ps. 1. Sieu þijn heilogu Ord Epterlæte vorra Saalna, og þijn Riettinde framar af oss metenn enn Gnægd allra Audæfa! Jsrael sagde Fordum Daga vid Moysen, er Guds Reider sloou i Horeb: Vier vilium ecke framar heyra Raustena O Drottenns Guds vors, Tala þu til vor, Exod. 20. Enn Moyses hefur ecke Forgiefens sagt til þeirra: Einn Spaamann mun O Drottenn Gud ydar uppvekia ydur af Brædrum ydar, lijkann mier, hønum skulud þier hlijda, Devt. 18. Lijkann ad sønnu, O Moyses! Enn þo miklu betre, miklu ædre, miklu fullkomnare, hvor ed einn lijttlogande Hor-Kveik mun ecke wtslockva, edur braakadann Reyr i sundur briota, Es. 42. Þad ert þu, O HErra JEsu Christe, sannur Gud og sannur Madur! þar fyrer seigium vier med fullu Trauste, ecke med Jsrael, helldur med Samuel: Tala þu O Drottinn, þijner Þienarar heyra, 1. Sam. 3. Vier vilium hanns Roddu heyra, er lætur oss segia: Giøred Ydran, Þviad Guds Rijke er nalægt, Matth. 3. Enn ecke ofmiog ottast Rodd hañs, er segier: Bolvadur sie saa sem ecke helldur allt þad sem skrifad stendur i Logmaalenu, Devt. 27. Vier aumer og vesæler Jardar Madkar, vilium hønum heyra, er segier: Komed til mijn aller þier sem Erfide drijged, og Þwnga erud þiaader, eg vil Endurnæra ydur, Matth. 11. Enn vier skielfunst ad heyra hanns Raust, er segier: Hvør sem giører þetta hann mun lifa i þvi, Levit. 18. Þar fyrer tala þu til vor O Drottenn, hvort helldur þad skiedur med Þrumu Logmaalsins, til ad straffa i oss Syndena, edur i Blijdvidre Evangelii, til ad hugga oss aptur, þa vilium vier Allshugar segner segia: Blessadur sie saa sem kiemur i Nafne O Drottenns, Matth. 21. Gief oss þad Hiartalag, O HErra JEsu! fyrer þijna Forþienustu, Amen.

# Pridia Sunnudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 16. Cap.

J Þañ Tijma. Sagde JEsus til siña Læresveina. Jñañ lijtels Tijma munud þier ecke siaa mig, Og þa eñ iñañ lijtels Tijma munu þier eñ siaa mig aptur, Þvi eg fer til Fødursins. Þa søgdu sumer af hañs Læresveinum sijn aa mille: Hvad er þad ad hañ segier til vor, Jñañ lijtels Tijma þa munu þier ecke siaa mig, og þa iñañ lijtels Tijma munu þier siaa mig aptur, Þvi eg fer til Fødursins? Þa søgdu þeir: Hvad er þad hañ segier oss, Jñañ lijtels Tijma? Vier vitum ecke hvad hañ segier. Eñ JEsus formerkte, ad þeir villdu spyrja hañ ad, Og sagde til þeirra: Þier spyried ad þessu ydar aa mille, þad eg sagde ydur: Jñañ lijtels Tijma munud þier ecke siaa

siaa mig, og þa aftur innañ lijtils Tijma munud þier siaa mig. Sañlega seige eg ydur, þier munud sijta og graata, eñ Heimuriñ mun fagna, og þier munud hryggver verda, eñ ydar Hryggd skal snwast i Fognud. Ein Kona, nær hun skal fæda, þaa hefur hun Hryggd, þvi heñar Stund er komiñ. Eñ þaa hun hefur Barnid fædt, miñist hun ecki þess Harmkvælis fyrir Fagnadar Sakir, þviad Madur er i Heimiñ boriñ. Og þier hafid nu ad sonu Hryggd, eñ eg vil siaa ydur aftur, og ydvart Hiarta skal fagna, og ydvarn Fognud skal eingiñ fraa ydur taka. A þeim Deigi munud þier mig og einskis spyria.

## Exordium.

HAd verdi mier ecki, ad eg hroose mier af nockrum Hlut, Nema af Krosse DRottenns vors JEsu Christi; Segier St. Paall, Gal. 6. Adrir hroosa sier af Audlegd sinni og Mægtum, eins og hinn Rijki Daari, Luc. 12. Nockrer af Metordum sijnum, eins og Nebuchadnezar, Dan. 4. Sumir af Afle og Kallmennsku, eins og Goliath, 1. Sam. 17. Herodes af sinni Maal-Snilli, Act. 12. Og gaf eigi Gudi Dijrdina: Pilatus af Makt sinni, Joh. 9. Er hann þoottist hafa Valld til ad Krossfesta JEsum og ad laata hann lausann: Hinir af stoorum Ættum, eins og Gydingar, Er sogdust hafa Abraham fyrir Fodur, Matth. 3. Og hvad er þad, sem ad Drambsemi þessarar giaalijfu Verelldar telur sier ecki til Gylldis, Jafnvel vonda Hluti? Hinn Ogudlegi Lamech hroosadi sier af Foolskunni fyrir Kvinnum sijnum, Gen. 4. Og eru honum allir þeir lijkir, er stæra sig af Odygdunum; Þa hefur Andskotinn sijnt Meistara-Stycki sitt i Hiarta Syndarans: hann fyrst kiemur honum til ad drygia Glæpenn, og sijdann ad laata sier vænt um hann þykia, þvi ef ad Hroosuniñ giorir jafnvel hina bestu Hluti ecki einungis Onijta, helldur og ad Synd, so sem Lausnarinn vottar, Matth. 6. um þaa, er giordu Goodverk til Fordilldar sier, ad þeir hafa sijn Laun wttekid; Hvad mun þad vera þaa, ad stæra sig af Klækiunum? Enn Paulus er ecki so lyndur; hann hroosar sier af þvi sem Verölldinn kallar einkis Hools vert, af þvi sem hun forsmaair, þvi sem hun undann flijr med Seglum og Arum, og skal helldur fremia allar Odygdir, enn ad hun verdi fyrir þvi, þad er Krossinn DRottinns JEsu Christi; og þvi segier Postulinn hier strax eftir: Fyrir hvorn mier er Heimurinn Krossfestur, og eg Heiminum. Þad er alkunnugt, ad Krossinn var hid Smaanarlegasta Pijslar-Færi i þaa Daga, og þvi var þad honum valid, sem er Konungur Dijrdariñar, til þess ad bera þar uppaa vorar Syndir. Eñ so Haaduglegt sem þad var, so mikla Andstygd segiest Paulus hafa aa Heiminum, og slijkann Vidbiood hafi hañ aa sier. Lijtid hier, Christner Meñ, hvernig þeir eru Skapi farnir, sem ordnir eru eitt med Christo, og hvorra Kosta þeir eigi ad vænta sier i Heimi þessum. Einga mun hann hafa kiærari haft af Monnunum, enn sijna elskulega Lærisveina, sem hofdu yfirgiefid alla

Hluti fyrir hanns Skulld, Matth. 19. Og þo segier hann þeim fyrir i þessu Heilaga Evangelio, ad þeir muni Sijta og Graata, Enn Heimurinn muni Fagna: Sama vill hann hafa sagt enn nu, Þeim er hann af Hiarta Elska. Og vil eg þvi alleinasta wt af Gudspiallenu tala umm þaa Hluti, sem oss meigi leida till ad ad bera hanns Ok Þolinnmood-lega. O Þu Krossfesti JESU! Hiaalpa oss þar til med Naad þijns Anda. Bænheyr þad, O Herra! Fyrir þijna Forþienustu, AMEN.

## Utleggingin.

Þott eckert annad være, sem kynni ad verka hiaa oss Þolinnmædina i Mootlætinu, þa mættum vier þo hugleida hvadann þad kiemur, sem er, fraa Gudi; Hvort villt þu fyrir hønum flija? Segier nockud Leyr-Kierid til þess er þad giort hefur: Hvar fyrir giordir þu mig so? Rom. 9. Og fyrst ad vier erum i Guds Hendi so sem Leir, þa er þad Oviturlegt ad mögla aa mooti hønum, hvad hellst sem hann vid oss giorir; Hann typtar oss, sem oss giort hefur, hann sem oss giort hefur, hann hefur giort Himin og Iørd, stioornar þeim, rædur þeim, og kann ad eydileggia þau, nær sem hann vill; Þvi mun eg kieppa vid þvilijkann Herra? Þvi vil eg glijma vid sialfann mig, og giøra mijna Mædu enn þa stærri med Oþolinnmædi? Øll Veralldarinnar Naad duga ecki aa mooti hanns Vilia, Prov. 21. og allir Helvijtis Kraptar meiga ecki auka hinu minnsta vid mijna Plaagu, fram yfir þad sem hann aasett hefur, þvi vil eg þaa kijsa vid svoddann Haatign, svoddann Speki, svoddann Allmætti, sem varir, rædur og stioornar? Þegar Otal Hundrud Þusund (þvilijkir Ormar sem eg) eru ad Molldu vordnir, þvi mun eg þaa beria Høfde-nu vid þann Stein, sem aa mig er kastadur af so Vollduglri Hendi? Þar fyrir, Br. M. nær Mootlætid oss ad Høndum ber, þaa hugsum til þeirrar Skylldu, er vier eigum Gudi ad giallda, sem er, ad audmykia oss undir hanns Vollduga Hønd, 1. Pet. 5. Hvad ecki er so stoor Kunst i Medlætinu, jafnvel þoott vier gleimum þvi oftlegana: Enn i Moot-gaanginum siest þad, hvoria Virding vier høfum aa hønum, og hvad mikid vier vilium fyrir hann vinna. Lijtum til Jobs, þvi hanns Þolinnmædi verdur oss af Postulanum sett til Eftirdæmis, Jac. 5. Þegar Guds Hønd hafdi svift hann øllum sijnum Børn-um, allri sinni Aleigu, Þrælum og Ambaattum, þaa sagdi hann: Gud gaf og Gud af-took, sie Nafn DRottins Vegsamad ad Eilijfu, Job. 1. Hønum var David lijkur, þaa hann flwdi fyrir Absalon og sagdi, 2. Sam. 15. Segie hann so: Eg hefi ecki Þock-nan aa þier, siaa, hier em eg! Giøri hann vid mig, hvad Gott þykir i hanns Augliti! hvar fyrir hann og segier, Ps. 39. Jeg vard Maallaus og opnadi ecki minn Munn, af þvi þu gi-ordir þad. Eins eigum vier Skapi farnir ad vera, Br. mijnir, ef vier wt af Grunni Hiartans vilium tiaa vora Audmykt fyrir Gudi, og ef vier erum nu skylldugir til þessa alleina fyrir þvi ad hann er vor Gud og HErra og vor Skapari, hvad miklu framar er-um vier þaa Skulldbundnir, þar ed hann typtar oss alldrei nema sialfum oss til hinns Be-sta? Segied mier: Mun nockud Gud, sa ad er Brunnur allrar Giædsku, mun hann nockud hafa Yndi af þvi ad plaaga sijn Børn? Og ecki giøra þad miklu helldur þeim

sialfum

siaalfum til gooda? Laatum oss ecke eigna Fødur Myskunsemdaña, 2. Cor. 1. Þa Hardydge, sem vier køllum hid versta og grimmelegasta a Fiandanum og hañs Linnum, sem er, ad hafa Gaman af Eymdum og Mootgaange syndugra Manna. Hvad þa? Munde oss þykia þad Stefnlegt Barn, sem slijge i Haared aa Fødur sijnum, nær hañ agar þad? Og er þvi verr og midur, ad vier strøffum optlega vor Børn og Þienara alleina til þess ad skeita Skape voru aa þeim: Enn hann plaagar ecke af Hiarta, edur straffar Mañaña Børn, Thren, 3. Þar fyrer er þad hid mesta Rænuleise fyrer oss, ad mogla under hanns Fødurlegre Hyrtingu. Segied mier enn aptur: Þegar einn Lækner byrlar oss svrañ Dryck, til ad giora voru Lijkama heilbrigdann, edur hann skier upp Saareñ, so ad þau skule grooa þess fliootara, styggiunst vier nockud vid hann, edur mootmælum þvi er hañ vill giort hafa vid oss? Þad giører eingenn sa sem Heilvita er, og elskar Heilsu sijna, helldur þockum vier honum þar fyrer, og giølldum honum Laun þar aa ofann, Jafnvel þoott honum mistakest, sem optlega skiedur. O Guds Barn! Skyllder þu þa espast vid hinn gooda Lækner? Hvors mioka Græders Hønd ad ijfer þijn Daudleg Saar, til hvørra þu ecke kiennir, fyrr enn hañ lijfgar þau med Beyskiu Kross-Burdarens, og ecke miklu helldur taka feigens Hende þar aa moot, og giallda honum allar Þacker þar fyrer? Ef einn Fader sæe sitt Barn framfara i allre Vondsku og illu Athæfe, og hann ecke straffade þad; ef skie mætte ad þad Leidriettest þar vid, munde honum ecke aa Haalse leiged vera af øllum Moñum? J Sannleika; Þvi hann være þess verdur, hann være Bødull og ecke Fader, er þannig breitte vid sitt eiged Holld og Blood; og þo vilium vier heimta af Gude, ad hann laate oss bada i Roosum og lifa ad Munudum vorum: Jaa, fara fram i allskonar Syrndum og Glæpum, og heita samt vor Fader, þar hann er þo sa Gud, er ecke þocknast Ogudlegt Athæfe, Ps. 5. Værum vier aan Typtunar, þa værum vier Hiaa-Børn og ecke Syner, Hebr. 12. Dæmed þvi siaalfer, Br. M. hvort helldur þier vilied eiga Gud fyrer Naadugann Fødur og þola Hyrtinguna, edur ad hann kannest ecke vid ydur, og laate ydur lifa ad eiginn Villd ydar, og verde ydur so einn straangur og Ognarlegur Doomare, þegar þier eiged honum Reikningskap ad standa af Ordum og Giørdum, sem ad er hin allra herfelegasta og skielfelegasta Olucka. Hvad sijnest ydur þa, Christner Menn? Mun þad ecke vera tilvinnande ad þyggia eina Naaduga Ressing af sijns Fødur Hende, og þoott hun ætte ad vara um̃ allann vorn Alldur, sem miog sialldann er, til þess ad verda kvittur vid øll þau Oskop, sem ad dynia munu yfer Sælkiera Veralldar þessarar i Helvijte og Kvølunum fraa einne Eilijfd til annarar? Gud naade oss Auma og synduga! Vier berum opt og Tijdum eina Vanheila Saal i Heilbrygdum Lijkama. Þegar Lijkamanum lijdur vel, þa hyrdum vier aa stundum lijtt um̃ Saalena, hvør þo ætte ad siaa bæde fyrer sier og honum, þvi bæde skulu þau hin somu Kiør hafa um̃ alla Eilijfd; Enn ef hun lætur epter honum þad hann vill, þa velltest hun miog ur Tign sinne, Baadum þeim til Obætannlegs Skada. Hvør veit nema Þrote Drambsemennar edur Vatns-Sijke Agyrndarennar, edur Kallda Ohoofsemeñar, edur Brioost-Veike Ofundarenn-

ar, edur Dööse Letennar, edur Ede Reidennar og Heiptræknennar, plæge Saalu þijna, og þu finner þar ecke til. Varla er nockur sw Saala, aa medal vor, sem ecke hafe Snert af einhvoriu þessu, eñ Krossen er sw eina Heilsu-Boot, sem aa vid ollu þvilijku. Vid Lijkamans Siwkdoomum eiga adskilianleger Drycker, epter þvi sem hvorium er hættad; Eñ vid Saalarennar Meinum aa alleina Kross-Bikar DRottens JEsu; Þoott hañ sie beiskur nockud, þad ætte oss einu ad gyllda, þegar hann giorer oss Heilbrigda, nema vier elskum meir Daudañ eñ Lijsed, Soottena meir eñ Heilsuna, Kroppenn meir eñ Saalena, og er þad þo ecke ad elska hañ, ad læta þad epter honum, sem henne mæ til Skada verda, þvi hann skal þess eilijfflega Giolld hafa, sem hann i þessu fræ henne dregur, sier til Tijmannlegs og fæsseingelegs Munadar. Þar fyrer, ef vier elskum vora Lijkame, og þad so miog sem ad sijnelegt er æ flestum, þa giorum þad þo fyrer þeirra Skulld, ef eige annars vegna, ad vier þockum Gude fyrer þad hann typtar þæ hier, so þeir ecke sijdann mæte eilijfum Plægum i Helvijte, 1. Cor. 11. Þar fyrer, Guds Barn, nær DRottenns milldu Hond slær þig æ Einhvorn Hætt, til ad græda Saalu þijna þar med, þa tak ecke alleinasta þar æ moot med Þoleñmæde, helldur og þacka honum fyrer þañ Naadar-Giorning, ad hañ ecke vill yfergiefa þig i fræleitt Sinne edur i Gyrnder þijns Hiarta, Ps. 18. Og ef þu villt Þacklæatur vera fyrer so stooraun Velgiorning, þa sijn þad i Verkunum, er þu jætar med Munnenum. Vier hofum allareidu heyrt nockud um þad, hvar til ad Gud sender oss Krossenn, sem er, til þess ad vier eige skulum hallda oss saklausa, helldur betra vort Lijferne. Sviptum þvi ecke Gud sijnum Asetninge, edur siælfa oss þeirre Naad, er hann hugde oss ad veita. O! hvorsu illa er þa fared med þessa Heilsusamlegu Guds Naad, og hvad lijtel Not munt þu þa hafa þess, syndugur Madur, er þu lided hefur; Jæ, stoor Giolld; Þvi þad er ad giora DRottenns Kross ad Ræningians Krosse; Þad er riett so sem Petur segier, 1. Pist. 4. Ad lijda so sem Þioofur og Illvirke, og so sem hann, ed fellur inn i annars Embætte. Hallt þad og ecke noog, ad þu læter af ad syndga þess vegna, ad þu gieter ecki syndgad, annadhvort fyrer Heilsu-Breste, vegna Fætæektar, edur fyrer Otta Saker vid Mennena. Þioofurenn stelur ecke helldur, þegar hann er bundenn, og ecke fremur Hoorkallenn sijna Gyrnd, nær hann er wtelokadur, hvad ecke er þeirra Dygdum ad þacka; helldur rannsaka siælfann þig, hvad þier mune hafa æfæatt orded, hvors vegna Gud mune hafa lagt þenna Kross æ þig, og munt þu þad skioott fiña, þegar þu stijngur Hendeñe i þinn eigenn Barm, Exod. 4. Og nær þu þad finnur, þa raad Boot æ þvi, ydrast þess af Hiarta, og frem þad alldrei optar, helldur bid Gud ad giefa þier Naad sijna, til ad standa æ moote þvilijkri Synd; med sooddann Moote verdur þessum Himneska Lækner launad, añad heimtar hann ecke af oss. Þegar JEsus sæ þañ Mañ gæangande i Musterenu, er hann skomu ædur hafde læknad hiæ Vatnenu Bethesda, þa krafde hann einkis af honum, helldur sagde alleina: Siæ, nu ert þu heill vorden, syndga ecke framar, ad ecke hende þig annad verra, Joh. 5. Þar fyrer, Christenn Madur, hafer þu siwkur vered, hafer þu ratad i Armood og Fiæarmissu, hafer þu vorded fyrer Araasum og

og Offooknum Veralldar Manna, enn ert aptur vordenn Fullhraustur, Fullrijkur, og hefur feinged Makt yfer Ovinum þijnum, þa gialld eige þa Vanþock aptur aa moote Gude þijnum, hvør ed sende þier Krossenn til ad betra þig, og liette honum af þier, til ad sijna þier Giædsku sijna, gialld honum ecke so illa (segie eg) ad þu brwker Heilsuna til ad drijgia sømu Synder, med hvørium þu vannst til Siwkdoomsins, Audlegdena til Ohoofs og Metnadar, Vallded til ad hefna aa þeim, sem vid þig ofgiort hafa; Þvi ef vier slijkt giørum, þa hefde þad vered betra fyrer oss, ad vier hefdum leiged i Kor, og lifad i Armood og Forsmaan alla vora Daga, so ad Saalenn hefde kunnad hoolpeñ ad verda aa Deige DRottens, 1. Cor. 5. Nu eigum vier ecke alleina ad lijta til Guds Fodurlegrar Giædsku, i þvi ad lijda Þolennmoodlega allt þad sem hann lætur oss til Handa bera, helldur og til hanns Oraskannlegu Speke og Vijsdooms, sem ad yfergnæfer allann Skilning. Einn Fader kann ad vilia Barne sijnu vel, enn brestur kann skie Vitsmune til ad siaa, hvad þvi gagnar, og þo hann bere Skyn þar aa, þa blindast vor Skynseme optlega af Hollde legre Elsku, enn vid þessu er ecke hætt hiaa hinum Alvijsa Gude.

Þar fyrer laatum oss þad sagt vera, ad þoott vier eige skynium nie siaaum Guds Tilgang, þegar hañ neitar oss um þa Hlute, er vier Oskum epter, þa er þad oss til hins besta, og eckert kañ fyrer oss gagnlegra ad vera edur upp ad hugfast, eñ þad sem hañ lætur vid oss fram koma, ef vier giefum oss olldungis aa hañs Valld, og laatum hañ raada. Israel beidde Gud um Kiøt i Eydemorkeñe, Num. 14. og hañ gaf þeim þad til Hegningar þeim; Þeir beiddu hann og um Konung, 1. Sam. 8. er þeim leiddest ad vera under hanns allra Vijsustu og Naaduguslu Stioornan, og hann gaf þeim eiñ Konung i Reide sinne, Os. 13. Þar er eingenn Efe aa, ad ef Barned mætte sialft raada, þa føre þad sier optlega ad Voda, og eins erum vier faavijser eins og Børn i vorum Andlegum Efnum; Vier Oskum oss Heilbrygde, Audæfa, Metorda, allt þetta eru ad sonnu Guds goodar Gaafur, enn skadsamar þeim sem ecke kunna med ad fara; so ad Endurlausnarenn segier: Jafnvel ef þijn Hønd edur þinn Footur hneixlar þig, þa snijd þau af og snara þeim fraa þier, þvi betra er þier halltur og Handarvane iñ ad gaanga til Lijfsins, enn ad þu hafer Tvær Hendur og Tvo Fætur, og verder i Eilijfañ Elld kastadur, Matth. 5. Ad soñu heimtar eige DRottenn af oss, ad vier so stoort Iraadunst, vid hvøria þa Tilhneiging, er vier freistunst af, þvi hann hefur giefed oss auñur Medøl til þess, ad Krossfesta Hollded med, aadur enn til þessa kome, enn þad er hanns Meining, helldur enn ad vier skylldum i eilijfum Ellde pijnast, þa være oss þarfara ad laata Lijf og Limu. Hversu vijs og hvørsu Naadugur er þa hinn goode Gud, ad hann agar oss i Maata, og so sem oss ad minstum Skada verda meige, til þess ad vier kunnum ad umflya Helvijtis Pijsler, enn verda Hluttakande Guds Barna Sælu aa Himnum med honum eilijflega? Og i þessum Guds Orannsakanliga Vijsdoome, høfum vier jafnann eina stadfasta Huggun, þvi hanns Giædska og Medaumkan verdur hann alldrei vidskila. Fyrer þvi, þoott ad Mootlæted ofbioode oss aa Stundum, og vier saaum varla under þvi rised, þa laatum oss til Hugar koma, ad þad er oss af honum

um Uppælagt, sem veit hve mikels ad vier vid þurfum og þolum. Stoor Saar þurfa mikla Grædslu, enn hann er trwr og freistar einkis yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Ecke eitt Haar fellur af voru Hofde aan hanns Vilia, Matth. 10. Og miklu sijdur hefdum vier vid so margar Prauter ad beriast, nema þad være epter hanns Skamte og epter hanns Velþocknan. Vier þurfum og ecke ad efast um, ad vier fæum Mootlæted stadest, þoott alldrei þyke oss so Ovænlega aahorfast, þegar vier kostum oss i hanns Myskunar Fadm, og under hanns blessada Umsioon og Fyrerhyggiu. Þar fyrer sagde David: Þo eg raafe i myrkvum Dal og Daudans Skugga, þa hrædest eg aungva Olucku, þvi þu ert hiaa mier, þinn Vondur og Stafur hugga mig, Ps. 23. Og DRottenn segier vid hann: Þoott Þusund falle þier til Annarar Handar, og Tiju Þusund til hinar hægre, þa skulu þeir ecke nær þier koma, Ps. 91. So oruggur Kastale er DRottenn þeim, er hann Ottast, jafnvel midt i Hormungunum, og þad geingur til, eins og hann sagde vid Læresveinana hier i Gudspiallenu: Innann lijtils Tijma, munud þier ecke siaa mig, og aptur innann lijtils Tijma munud þier siaa mig. Og so sem ad Læresveinarner skylldu ecke i þad Sinn hvad hann sagde, helldr uppfylltist þeirra Hiarta af Hrygd, af þvi ad hann sagde þad; So geingur þad og til fyrer Guds Bornum optlega i Mootlætenu, ad þau meina þa þau sieu yfergiefenn, enn samt heyrer hann þeirra Graatbeidne, og þeirra Bæn er þocknanlig fyrer honum, enn hanns Tijme er enn þa ecke komenn, Joh. 2. Hvort helldur ad eg lijt þenna fagra Heim, sem ad er harla goodur, so sem oll Guds Skiepna, edur eg þeinke um hinn Ogudliga, sem Diofullenn hefur tilbwed og nidursokt i hid Vonda, þa kan eg hvorke ad orvænta i Mootgaangenum, eige helldur ad efast um Kvittun minna Synda, sem eru Orsok til Mootlætesins, þviad i hinum, og jafnvel aa hinu minnsta Skrid-Kvikinde, sie eg auglioost Dæme hins Guddoomlega Almættis, Speke og Giædsku, ad þvi er ollu af honum so vijslega stioornad og nidurskickad, ad hann þvi ollu vid Magt helldur, hvoriu i sinne Tegund fraa Heimsins Upphafe i so morg Þusund Ar, ad þar er ecke ein enn nu undergeingenn, og so veit eg þa fyrer vijst, ad honum er ecke um Megn, ad vardveita mig syndugann Orm, sem ad epter hanns Mynd var i Adam skapadur, Gen. 1. Og med hanns Sonar dijrmæta Bloode Endurleystur, 1. Pet. 1. Jafnvel midt i Sorgunum, midt i Arraasunum, midt i Saalar og Lijfs sterkasta Ofbode, ef hann vill laata þad yfer mig koma. Enn nær eg þenna fyrer mier virde, og allar þær Odaader sem af honum i frame eru hafdar, Villur, Meinsære, Gudlastaner, Manndraap, Hoordooma, Lijge, Þioofnad, Ofbellde, Raangsleitne, og alla þa Ohæfu, er Satan fær plantad i Hiortum Vantrwarennar Barna, þa tek eg mier þar af Huggun og fullnadar Traust, um hins Myskunsama Guds Fodurlega Giædsku, ad han ecke Kollsteyper þessare vondu Verolldu, helldur med Rijkdoome sijns Langlundar-Gieds, Rom. 2. vill leida so marga til Yferbootar, sem aptur snwa vilia. Þvi veit eg, ad hann mune ecke wtskwfa mier Overdugum Synda-Præl, edur laata mig einann i Mootlætenu, þott þad sie Straff minna Synda og Illgiorda, þar eg læt mig fyrer Krapt hanns Anda wt af Hiarta ydra

Synda

Synda minna, og aa Daglega Baraattu vid eitt Ostijrelaatt Holld, sem kiepper i giegn Andanum, Gal. 5. Þvi hafe hann veitt mier hid meira, sem er ad ydrast Syndanna, þegar eg var enn þa Satans Barn, þa mun hann ecke synia mier hins minna, sem er ad vardveita mig i Mootgangenum, þa eg er hanns Þienare vorden fyrer hanns Naad, hveria hann ecke hefur giefed mier til þess, ad hun skyllde aa mier Onijt verda, helldur til Loss og Dijrdar sialfum sier, enn mier til eilijfs Saalar Fagnadar. DRottenn sagde Læresveinunum fyrerfram þessar Hormungar, af hvoriu, medal annara, sia maa hanns Guddoomlegann Vijsdoom og Giædsku ecke minne. Heimurenn segier alldrei nema Ogiæfu fyrerfram, jafnvel þoott hun sie honum vijs so vel sem ollum þeim er hann elska, hañ predikar eins og hiner Ogudlegu, Prov. 1. sem Von er aa, þvi hann er ecke annad eñ Samkunda, Apoc. 1. Andskotans, er hann hefur safnad sier af Guds Utlægum og Ogudlegum Synda-Prælum: Þeir segia: Far þu med oss, vier vilium finna miked Herfaang, og aller einn Siood hafa, Prov. 1. Enn ecke leggia þeir til hins, ad þeir skulu og aller eitt Hlutskipte hafa i þvi Dijkenu, sem vellur af Elldeog Brennesteine, Apoc. 21. Þad vill ecke DRottenn; Hann sagde fyrerfram, bæde hier og optlega Añarstadar, Læresveinunum, hvad aa þeirra Daga drijfa munde, og hid sama hefur hann ollum þeim sagt, er honum vilia epterfylgia, med þessum Ordum: Hvor sem vill minn Læresveinn vera, hañ take sinn Kross uppaa sig og fylge mier epter, Matth. 16. Eckert er þvilijkt Raad vid Mootgangenum, so sem ad bwast vid honum; Saa sem þad giorer Daglega, hann hefur miklu liett af Byrdenne, nær hun dettur aa. Bwunst vid Illu, þvi hid Gooda skadar oss ecke, segia Menn i gomlu Ordtæke. J Dagem eg heilbrygdur, eg vil þeinkia med mier hvernig eg verda munde, ef eg vanheill yrde, eg vil venia mig aa ad laata eige allt epter mier, þad mig gyrner, so mier bregde sijdur vid, ef þad kynne mier ad Hondum koma, sem eg giæte ecke af mier kastad, þott eg villde. J Dag em eg full-rijkur; Eg vil þo brwka Heimenn so ad eg ecke vanbrwke hann, og so miked af þvi, sem Gud hefur laanad, sem mier næger og mier soomer ad brwka, þa skal Faatæktenn alldrei kasta mier i neitt Hugar-Vijl, ef eg kann i hana ad rata; Eg vil hyrda þad Gud giefur, enn ecke festa þar vid Hiarta mitt, þa mun mier þykia minna fyrer ad missa þad. J Dag ræd eg fyrer odrum; so ad aller hlijda mijnu Bode og Banne, sem eg er ysirskipadur, þad Valld vil eg brwka i Hoofe og ecke med Offsa neinum, þvi þar kann ad koma, ad þeir raade fyrer mier og kunne eg af þeim nockurn Ojoffnud ad þola, þa lijd eg hann med betre Samvitsku, hafe eg ecke adur til hanns unned. So skal Madur bwa sier i Hagenn, aa medann allt leikur i Lynde: Kome had ecke uppaa, er vier Raad fyrer giorum, þa er þvi Omake vel spillt; Alldrei visse eg Abatameire Skada, þvi ad minnsta Koste hugsum vier eige so illt aa medann, og lijklegt er, ad vier munum ecke stæra oss so miog af Velmagtenne, þegar vier bwunst vid hvoru-tveggiu. Nu þoott ad allt þetta, sem eg hefe sagt, eige ad fijsa oss aa ad lijda þolennmoodlega þann Kross, er Gud oss aa Herdar leggur, þa er þo ad hroosa þeirra Kiorum fram yfer alla DRottenns Krossberendur, sem ecke einasta taka aa moote hanns Ogun aan

Møglunar, helldur og hafa Glede og Ynde af þvi ad lijda nockud fyrer Christi Saker. Eg vændest i Upphafe St. Paals Orda, er hann skrifar, Gal. 6. Þad verde mier ecke ad eg hroose mier af nockrum Hlut, utann af Krosse DRottenns vors JEsu Christi. Þegar Paall brwkar þetta Ord, sem hier stendur, ad hroosa, þa merker þad ecke so ad stæra sig af einhvoriu, svo sem ad fagna og glediast af þvi, og ad hafa Ynde þar af. Sama Ordatiltæke brwkar hann, Rom. 5. segiande: Og ecke einasta þad, helldur hroosum vier oss eirnig (edur gledium oss) af Hørmungunum, vitande ad Hørmungenn verkar Þolenmædena, enn Þolenmædenn Reynsluna, enn Reynslann Vonena, enn Vonenn lætur alldrei til Skammar verda, þviad Elska Guds er wthellt i Hiortum vorum fyrer Heilagann Anda, sem oss er giefenn. Þetta eru merkeleg og Gullvæg Ord, sieu þau riett yferveguð. Hvar fyrer gledur hann sig i Hørmungunum? Þviad Elska Guds var wthellt i hanns Hiarta fyrer Heilagann Anda, sem honum var giefenn. Heyrum þad Endurlausnarenn sagde vid sijna Læresveina: Eg skal ecke laata ydur Munadarlausa, helldur skal eg siaa ydur aptur, Joh. 14. Þad giorde saa blessade Herra ad sonnu epter sijna Upprisu, enn hanns sijneleg Vist med þeim droo þaa ecke laungt aa Veg, hefde hann ecke sendt þeim H. Anda af sijnum Fødur; Þvi sagde hann: Þad bätar ydur ad eg fare i burt hiedann, þvi nema eg fare i burtu hiedann, kiemur ecke Huggarenn til ydar. Þesse er hinn same H. Ande, fyrer hvorn ad Paulus segier, ad Elska Guds sie wthellt i sitt Hiarta, hun giorer Christi Ok sætt, og hanns Byrde lietta, Matth. 11. Hun velldur þvi, ad hanns Bodord eru ecke þwng, 1. Joh. 5. Hun deyfer alla Kvol, alla Hrygd, alla Armædu Veralldar þessarar, saa ed hana hefur fyrst odlast, hann þarf ecke Mootlætenu ad kvijda, hann Foottredur allar Hørmungar, honum er Heimurenn Krossfestur og hann Heimenum; Þad sie eg bersynelega aa Christi Postulum, er þeir voru glader af þvi, ad þeir maattu lijda fyrer JEsu Nafns Skulld, Act. 5. Þad sie eg aa hanns H. Pijslar-Vottum, laangt framm epter Æfe Christnennar, ad þeir geingu til herfeleguſtu Kvala og Pijsla, miklu gladare helldur enn adrer til Giestabods.

O HErra Gud! Fagurt maa þeim vera Himnarijke aa sijdann, hvorium Gud er so sætur midt i Hørmungunum, ad þeir finna ecke til þeirra fyrer Elskunne til hanns, sem typtar þaa. Ad þetta sieu ecke Ykiur, helldur ad þvilijker Guds Viner sieu til, þad votta eg med Paals Ordum, er hann segier, 2. Cor. 12. Egem vel til Frids i Veikleikanum, i Forsmaanenne, i Naudunum, i Offsooknunum, i Angistenne fyrer Christum, þvi þa eg em Veikur, þa em eg Maattugur; Og þad er þad sama sem DRottenn heiter hier Læresveinunum, er hann sagde: Ydar Hrygd skal snwast i Fognud. Ecke meinte hann einasta þa Sælu-Von, er þeir aattu vijsa med honum eilijflega i hanns Dijrdar-Rijke, helldur og Hugguń Guds Anda i Mannraununum, þvi alldrei voru þeir aan Mootlætis hier aa Jordunne, og samt skrifar Paulus, ad þeir sieu so sem hryggver og þo jafnann glader, 2. Cor. 6. Nu þoott oss vante miked aa ad vera so algiorder i Elskunne til Guds, sem þessar DRottenns Hetiur voru, þa eigum vier samt ad kieppast epter þeirra fullkomnu

Dæmi, ſo mikid ſem oſs er mögulegt, og hugga oſs i øllum Mannraunum vorum vid eptirkomandi Sælu, vitandi þad, ad hin lietta Byrdi Hormungarinnar, ſem varir um̃ Augnablik, hun aflar oſs yfergnæfañlegrar Dijrdar eilijfrar Þijngdar, 2.Cor.4. Og þetta er þad Paulus ſegier, Rom.5.(er eg ſtrax ææminñtiſt)ad Þolinnmædiñ verki Reynſluna, Reynſlann Vonina, enn Voninn lææti eigi til Skam̃ar verda. Hvarfyrir? Þviad Trwiñ, er Voniñi jafnañ fylgir, hun er Vera þeirra Hluta ſem koma ſkulu, Hebr. 11. Hvorsvegna þeir, ed bera Chriſti Ok, þeir eiga viiſt Himnarijki, þad er Pantur Eptirkomandi Farſælldar, vid hvorn hanns Brwdur gledur ſig, þar til hann kiemur, og innleidir hana i Lambſins Brwdkaup, ſo þegar hun hryggiſt af Mootlætinu, þa gledſt hun eins mikid, edur meira af þeirri Dyrd, ſem vid oſs mun fram̃koma i eilijfu Lijfe, hvorrar eigi eru verdar Mootlætingar þeſſara Tijma, Rom.8. Þetta wtmaalar vor Lauſnari med nærſta fogru Dæmi hier i Gudſpiallinu, þar ed hann ſegier: Ein Kona, nær Hun Skal Fæda, Þa Hefur Hun Hrygd, Þviad Heñar Stund Er Komiñ, Enn þaa Hun hefur Barnid Fædt, Minniſt Hun Ecki Þeſs Harmkvælis Fyrir Fagnadar Sakir, Þviad Madur Er J Heiminn Boriñ. Hvad viña Menn ecki i þeſſum Heimi fyrir Veralldar Hofdingia, og þad fyrir lijtil og oviſs Laun? Jaa, margur vogar Lijfenu og kannſkie ſinni eilijfri Velferd aa Stundum, og endiſt ecki til ad niota þeſs, er hann ætlar ſier til Launa. O Guds Born! Þvi ſkylldum vier þa telia eftir oſs ad lijda nockud fyrir Himna-Rijki, fyrir hin eilijfu Launinn, fyrir þad dijrmæta Hnoſſid, af hvoriu þeir alldrei ſleppa kunna, ſem riettilega Skeidid hlaupa? 1.Cor.9. fyrir hina koſtulegu Riettlætiſins Coronu, 2.Tim.4.ſem þeim er aſſijdis løgd, er hafa bariſt goodri Barattu, halldid Trwnni og goodri Samvitſku? Eiñ Madur, ſa ed ſitur i Tign og Heidri, mun hann ecki þacka ſijnum Fodur, ad hañ hefur hañ ſo vijſlega uppalid, ad hañ maa reiknaſt þeirrar Æru verdur aa ſijnum Fullordins Alldri? Mun hann nockud telia þau Vandar Hoggiñ, er hañ hefur ſleginn verid? Og hvorſu ættum vier þa allar Þackir ad kunna vorum Himneſka Fodur, ſaa ed tugtar ſijn Born upp til eilijfs Lijfs, til Himneſkrar Konungs Tignar, til ad lifa og rijkia med honum eilijflega? Hvor mun þaa minnaſt þeirra Taaranna, ſem hann hefur fellt i þeſſum Eymdar-Dal, nema hann, ſem ad hefur hellt þeim i ſinn Siood, Pſ.56. Og þaa allareidu þerrad þau af ſinna Barna Augum, Apoc.7. Þa mun þad verda uppſkorid i Dijrdinni, ſem hier var ſaad i Hormungiñi, Pſ. 126. Þa mun þeirra Gledi-Saungur fagurt lææta i hinni biortu Jeruſalem, er Guds Dijrd upplioomar, Apoc.21. Hverra Op og Veinan ad Heimſins Bornum var til Spotts og Athlaaturs hiaa Sorgar-Votnunum i hinni dim̃u Babylon, Pſ.137. Verollдu þeſſari. Hverrar Æru og Vegſemdar oſs unni ad niota hin Bleſſada Guddoomſins Þrenning, fyrir JEſu Chriſti Bloods Krapt og Forþienuſtu, AMEN.

# A þañ Almennilega Bæna-Dag.

Pistillinn, Esajæ 55. Cap.

LEitid DROTTINNS aa medañ Hañ er ad fiña, Kallid aa Hañ aa medañ Hañ er Naalægur. Saa hiñ Ogudlegi laati af sijnum Veigi, og Illvyrkiñ af siñi Huxan, Og snwi sier til DROTTINNS, Þaa mun Hañ Myskuna hønum, Og til GUDS vors, þviad i hiaa Hønum Er Mikil Fyrirgiefning.

## Exordium.

J Gamla Testamentinu tilsetti DROTTinn eina Haatijd, sem halldast skylldi Arlega i hinum Siounda Maanudi, og aa Tijunda Deigi sama Maanadar, Er Menn sijdann kallad hafa Hreinsunar Haatijd. A þeim Deigi var bodid, ad Israel skylldi þvijnga Saalir sijnar, þad er siaalfa sig, so sem þar um maa lesa, Levit. 16. Þessi Haatijd er ad sønnu aftekinn i Nija Testamentinu med øllum sijnum Foornum. Oss nægir sw eina og algiørda Foorn, sem Einusinni er inaboriñ i þad Allra Helgasta af hinum Ypparsta Biskupi Saalna vorra, Ebr. 9. Enn samt er þo Ydraninn fyrir Syndirnar ecki aftekinn, so leingi sem vier ecki leggium af ad syndga, so leingi meigum vier ecki leggia af ad ydrast, enn þad mun ei verda fyrr enn Lijkami Syndarinnar verdur med øllu afmaadur, Rom. 6. Þvi ætti med riettu alls Christens Manns Lijf ad vera ein Hreinsunar Haatijd, edur, ad minnsta Kosti, ættum vier ad giefa oss nockra Stund aa hvørium Deigi til ad ydrast og jaata Syndir vorar. Saa sem ætlar sier ad syndga nær Syndinn flijgur hønum i Hug og ydrast sijdann, hann er ecki betri enn saa sem ætlar ad draga Ydranina undann til Daudans, þvi hann veit ei nær hann deya muni. Nu erum vier oss medvitandi þess, Brædur mijnir, ad þar falla so margir Dagar wr hiaa oss, og kannskie, þvi verr, ad nockrir þeinkia hier allsialldann til; Þvi er nu þessi Dagur af Konunginum tilsettur, ad hann sie vor Føstu og Bæna-Dagur. Gud giæfi, ad hann væri þar eftir halldinn af oss med allri Gudrækni, so sem hann er Naudsynlegur, og ad ecki finndust þeir, sem giora Haad wr Føstunni, med hvørri þo Guds Heilagir Menn hafa þreingt Bænum sijnum i giegnum Skijeñ Fordum Daga, medann Guds Foolk hiet Guds Foolk og Christnenn Christne, eñ sijdan hun hiet Loammi, þad er, ecki mitt Foolk, og Menn yfirgaafu hinn Lifanda Gud, margur hver, enn giørdu Magann ad sijnum Gudi, þaa er Fastann vordinn ad Athlaatri, so vel sem øll Alvørugiefni i Guds Þioonkan: Menn hallda eftir Blødunum, enn hafa sleppt Avextinum, so David mundi segia, ef hann nu lifdi: Eg huldi mijna Saalu i Føstum, og þad vard mier ad Brixli, Ps. 69. O oss Auniar og Ræmulausar Manneskiur! Mun hønum Fastann mislijka? Er segier hiaa Joel, Cap. 2. Snwist til

mijn

miþn af ollu Hiärta med Fostum og Grææte og Harme. Og so ad þier vited, ad þad ecke er audruvijs i hinu Nija Testamentenu, þa vil eg spyria ydur ad, hvert Gude mune ecke hafa þocknast Fasta Cornelii, sem var Heidenn Madur? Er hann sagde vid Petur, Act. 10. Nu er allareidu hinn Fioorde Dagur ad eg hefe fastad, og er eg beiddest fyrer um hina Nijundu Stund i mijnu Hwse, þa stood hiaa mier Einn Madur i hvijtu Klæde, er sagde vid mig: Corneli, þinna Bæna og Olmusugiorda er minnst i Guds Auglite. Mun Endurlausnaranum hafa þoott Fastann Onijt? er hann sagde vid Læresveinana, þegar þeir gaatu ecke wtreked Tunglmeina Diofulenn: Þetta Diofla-Kyn verdur ecke wtreked nema med Fostum og Bænahallde. Verde Diofullenn wtrekenn af audrum med Fostum og Bænahallde, Matth. 17. Þvi skylldu Menn ei kunna ad reka hann wt fraa sialfum sier? Verde Diofullenn wtrekenn med Fostunne, þvi skylldu Menn þa ei kunna ad faa Gude Innbygt med henne? Þvi þad er vijst, ad hvadann sem Satan er wtrekenn, þar vill Gud byggia; Þetta segie eg ei þess vegna, ad Fastann vinne til nockurs, i sialfre sier, enn þad vitnar allt Guds Ord, ad Bænenn verde kroptugre fyrer hana; Fastann maa eckert aan Bænarennar, Bænenn verkar optlega aan Fostunnar. Fastann hiaalpar til ad drepa hinn Gamla Mannenn, sem er Andskote Bænarennar og alls Gudrækilegs Framferdis; Sie hun ecke i þeirre Verugiord, þa er hun Hræsne. Heyrum hinn Gamla Syrach hier um; Sa sem þvær sig epter hinn Dauda, og snerter aptur Daudann Mann, til hvors gagnar hanns Þvottur? Syr. 35. So er og sa Madur, er fastar i sijnum Syndum, og giorer aptur þær somu; Hvad vann hann med þvi, ad hann audmykte sig, hvor mun heyra hanns Bæn? Esaias kienner oss i uppleslesnum Pistle, hvernig þeirre sonnu Fostu eige haattad ad vera, sem er, ad hinn Ogudlege faste fyrer sijn vond Verk og Illvirkenn fyrer sijna Huxan, og þannig skipar hann DRottenns ad leita. Vil eg þvi wt af þessum Esaiæ Ordum hugleida ad þessu Sinne, hvernig vier eigum ad leita Guds, hvorn vier so margfalldlega styggt hofum.

Hiaalpa oss, O! HErra, til ad giora so þetta þitt Verk, ad vier þig funded, og fundnum halldeð gietum. Bænheyr þad goode Gud, fyrer JEsum Christum, Amen.

## Utleggingenn.

Hvernig vier eigum DRottenns ad leita, þarf ecke laangt epter ad leita, þad segier sialfur DRottenn oss, Jer. 50. med þessum Ordum: A þeim Dogum skulu Israels Syner koma med Bornum Juda, þeir skulu gaanga aan Aflaats grææt andeog leita DRottenns Guds sijns. Gydingar leitudu hanns a hinne Sijdurstu Kvala anna Noottu med Sverdum og Staungum, med Lyktum og Log-Brondum, Matth. 26. Vier skulum ei þannenn leita DRottenns, sem medkiennum ad vorar Synder hafa kvaled hann, sem var fraaskilenn Syndurunum, Ebr. 7. Hvernig skulum vier hanns þa leita? Med Harmþrwngnum og Sundurknosudum Anda, þad er, med sannre Ydran. Veigenn vitum vier ad sonnu aller til Christum, enn þad fellur ecke ollum so liett ad gaanga hann. Eina Christelega Ydran er hægt ad nefna, enn þad veiter morgum baagt ad giora hana,

Jafnvel þoott oß breste alldrei Efne þar til, sem eru Synder vorar og Rangglætingar, er Daglega stijga upp i Himenenn fyrer Gud. Margur læst ydrast og jaata sijnar Synder fyrer Gude; Enn eg Ottast, ad þegar Gud lijtur af Himnum ofann yfer Mannanna Sonu, þa mune hann finna so marga Pharaonis, Exod. 20. Sauls, 1. Sam. 24. Jeroboams, 1. Reg. 13. og Achabs, 1. Reg. 21. Ydran; Þad er, Nytur fyrer utann Kiarna, Skij fyrer utann Vatn, Visnadar Eikur, Avaxtarlausar, Tvisvarsinnum upprættar; so sem Judas Postule ad Orde kiemst i sijnum Pistle. Enn Davids, 2. Sam. 12. Josuæ, Jos. 7. Ezechiæ, Esa. 38. og Peturs, Matth. 26. Lijkar munu færre vera, hvad Gud nædarsamlega betre! Hvad er þad þa, Br. M. sem eins Christens Manns Ydran a ad hafa til ad bera? Tvent er þad sierdeilis. 1. Ad hun sie heit og alvarleg. 2. Ad hun sie ecke offsein. Hvad hinu Fyrsta vidvijkur, þa veit eg ad sonnu, ad hinn Nædugе Gud þyggur opt af oß Viliann fyrer Verked, þvi hann þecker vorn Vanmaatt og Ofullkomlegleika; Enn i Ydranar Verkenu heimtar hann af oß, ad vier framleggium allt þad vier tilhofum og drogum ecke af. Sa sem kiemur fram fyrer Gud, til ad jaata sijnar Synder, og ad bidia um Kvittun a þeim, og ecke wtheller sijnn Hiarta af fremsta Megne fyrer honum, ecke lætur Saalar og Lijkamans Krapta verda samtaka i þvi ad sundurmerta sitt Hiarta med Jhugan sinna Illgiorda og Guds Giædsku, sijns Toomlætis og hans Riettlætis, sinna Lijta og Helvijtis Ellds, sem þau hafa forþienad; Eg veit ecke hvad miklu hann er betre enn Ananias og Saphira, sem leyndu af Verde Akursins, Act. 5. Þvi eins og þau lugu ad Heilogum Anda, er skynbarlega bioo i Postulunum; So maatt þu og vita, ad nær þu kiemur i þinn Bænastad, þa stendur þu i Guds Auglite, sem alla Hlute sier, og jafnvel hin innstu Filsne þijns Hiarta rannsakar. Gabba þvi ecke Gud, med einntoomre wtvortis Hegdan, þvi hann lætur ecke ad sier hæda, Gal. 6. Og hafe þig saa Glæpur nockrum Sinnum hendt, þa vit, ad þad er ein hrooplег Synd i Guds Auglite; Jaa, stærre enn allar þijnar Synder, þvi hun apturhelldur ollum hinum, er þu aatter ad afþvo med heitum Ydranar-Taarum. Gior þvi Ydran i Nafne DRottenns, gior Ydran, segie eg, og laat þig aangra þad af Hiarta, ad þu hafer kastad Hondunum til so veglegrar Guds Þioonustu. Villt þu vita hvad mikla Ydran ad Gud heimter af þier fyrer Syndena, þa vill hann ad Beiskia Ydranarennar skule sambiooda Stærd Syndarennar; Þar fyrer, nær þu med sialfum þier les þitt Synda-Registur fyrer Gude, þa hugleid, hve miked Gaman edur Glede þu hafder af sierhverre Stoor-Synd, sem þig rekur Minne til, og bid Gud ad slaa a Hiarta þitt med Moysis Sprota, ad þu meiger hryggiast so miked sem þu gladdest aadur, og verder þu hier um Bænheyrdur; sem aan alls Efa verdur, ef þu bidur heitt, bidur Jduglega, Joh. 16. og bidur i JEsu Nafne, þa munt þu einkis Imissa, þvi su Glede, er þu aa syndsamlegu Athæfe hafder, og aflade þier Hrygdar i Guds Auglite sijdann, hun mun þier med einum ædre og meire Fognude endurgolldenn verda, nær þu finnur ad þu ert kvittur vid Gud, Enn sloppenn wr Dioful sins Nete. Þeß gietur Paulus, 2. Cor. 7. Þier erud

eptir

epter Gude hryggver vordner, so þier hafed einganñ Skada af oss feinged, þvi su Hryggd, sem epter Gude er, hun verkar Ydran til Hiaalprædis, hvørrar ei þarf ad ydrast: Þegar þier vilied ydrast, Brædur mijner, og þier setied ydur uppaa Doom-Stool ydar Hiarta til ad dæma siaalfa ydur, so þier verded ecke af DRottne dæmder, 1. Cor. 11. Þa aalijted ecke Syndena epter Mañlegum Þaanka; Vier fyrergiefum oss alltijd nockud siaalfer, og finnum eitthvad til Affsokunar. Konann bar Sokena uppaa Ormenn, enn Madurenn gaf Konunne Skulldena, Gen. 3. Aaron segier: Eg kastade Gullenu i Elldenn og þar af vard þesse Kaalfur, Exod. 32. Eins erum vier aller Skape farner enn nu i Dag, er vier laatum oss siaalfraada, og vilium ecke laata Guds Anda vid oss raada. Metum þvi ecke Synder vorar epter vorum Þootta, helldur epter hanns Heilagleika, hanns Riettlæte, moote hvørium þær giordar eru. Metum þær epter JEsu saaru Pijslum, epter þvi Lausnar-Giallde, sem Gud hefur loked i voru Hollde, þa munum vier siaa hvad reidur Gud er þeim Syndunum, sem oss jafnvel þyker lijted i spunned aa Stundum; Þott allur Heimurenn flite i Taarum um allann sinn Alldur, þa megnade hañ ecke hina minnstu Synd ad hreinsa i Guds Auglite, nema hanns Sonar Forþienusta giørde þau gylld. So stoor, so afskræmisleg er Syndeinn fyrer hanns Doome; Enn Christs Forþienusta verdur eingum til Lids, nema þeim, sem af Hiarta lætur sig aangra Syndena. Ætla þvi ecke, ad þu muner komast af vid Gud med eintoomis Jaatningu Muñsins, nema Hugur fylge Maale. Sa sem alleina jaatar Syndena med Munnenum, eñ aangrar hana ecke i Hiartanu, hann er eins og sa, er tekur Umbwdernar af Saarenu, eñ leggur ecke Plaasturenn þar vid. Guds Sonur er ad sønnu komenn til ad lækna þad Sundurknosada, Esa. 61. Enn hvernig aa hann ad lækna þig, Barn mitt, ef Hiarta þitt er heilt og Obroted.

Þar er eirn Gull-Kaalfur nærre þvi i hvørs Manns Hiarta, þad er Verolld þesse, sem ad sierhvør af oss hefur einhvørn Atrwnad aa, epter þvi sem hvør er Lyndur til, og jafnvel þeir sem Gud elska vilia, þeim er eins haattad og þeim, er ad sønnu tilbaadu Gud i Jerusalem, enn offrudu þo aa Hædunum, 1. Reg. 22. So er þad fyrer oss aumum Mønnum; Vær segiunst laata Gud gaanga fyrer, eñ flester af oss hafa þo einhvøria Hiaa-Trw; Sumer Rijkdoom, sumer Metord, og sumer Munade sijna, og aa medann vier hofum þa fram hiaa Gude, þa er hætt vid, ad vier ecke af Hiarta ydrunst, þvi eigum vier ad breita vid þa eins og Moyses giørde vid Kaalfenn; hann brende hañ til Ösku, kastade honum i Vatn, og liet allann Jsrael drecka hann i sig til Bligdunar siaalfum þeim, ad þeir høfdu teked Egyptalands Svijvirdingar fram hiaa hinum Lifanda Gude, Exod. 32. Svo eigum vier ad hondla vid Rachels Skwrgod, þeim er hun situr aa og leyner, Gen. 31. Þad eru heimuglegar Gyrnder Saalna vorra, sem ecke eru audsienar øllum. Vier eigum ad laata Moysen brenna þær til Ösku med Elldingunum af Sinai, og kasta þeim i Flood vorra Ydranar-Taara, og drecka þær siaalfer upp, so þær hverfe, Exod. 32. alldeilis, og verde ad eingvu: Þad vardar ad litlu, þoott vier stondum rauder af Ovirdingu i


Guds

Guds Auglite med Ephraim, Jer. 31. Þvi hann sier þær hvort sem er; Laban og Jacob kunnum vier ad pretta, G.n. 31. enn ecke Jacobs Gud, Ps. 94. Þvi hann er Hiartnanna og Nijrnanna Rannsakare, og sier hvad i Myrkrunum er huled. Sundur-rijfed ydar Hiortu; og ecke ydar Klæde, segier D Rottenn, Joel. 2. Gydingar plogudu aa þeim Dogum ad rijfa sijn Klæde, nær þeim rann i Skap, annadhvort þegar þeim bar nockur Sorg til Handa, edur þeir vandlætu i Guds Stad, eins og Hræsnarenn Caiphas lietst giora, Matth. 26. Enn hver Sorg skyllde oss meire tilfalla enn sw, ad vier høfum hinn gooda Gud stygdann, um hvorn skylldum vier meir vandlæta enn um sialfa oss, þvi eing- um erum vier so margs Ills medvitande, ef ecke i Verkunum og Ordunum, þa samt i Hugreñingunum. Eitt sundur-rifed Fat gagnar til lijtils: Sundur-rijfum vor Hiortu med Jdranenne, og þa munum vier finna, ad jafnvel vort Riettlæte er ecke betra enn Nid- lags-Fat, sem Esajas vottar, 64. Cap. Þa munum vier hvad best wtlijta i Guds Aug- lite. Þegar vier athugum hvar fraa vier erum fallner, þa mun hann giefa oss einn nijann Klædnad, so ad Mijnkun vors Fatleysis ecke siaaest.

Nu er þad ecke noog ad Hiarta vort klocke fyrer Gude um Stundarsaker, ef vier hverf- um þo aptur til somu Synda; þa vill þad lijtid gagna, ad vier høfum audmykt oss fyrer Gude. Þeirre Ydran er illa vared, sem leggur Mañenum alleina uppaa Hrygdena eñ ecke burt tekur Sektena. Eñ vid þad er ecke ad dyliast, Br. mijner, ad þeirre Ydran er so haatt- ad, sem leiser Mañenum ad vellta sier aptur i sama Saur. Sa hiñ Ogudlege laate af sijn- um vondum Veige, og Illvirkeñ af siñe Hugsan, og snwe sier til D Rotteñs, segier Textenn. Hier er þad ad merkia, Born mijn, ad Spaamadureñ kallar ecke, ad Meñ hafe snwed sier til D Rotteñs, nema vier tokum vora Illsku Breitne fraa hañs Auglite. Þad er alkuñugt, hvorsu ad hiñ Gudlause Amnon Sonur Davids Konungs breytte skammarlega vid Syst- ur sijna Thamar, ad hañ rak hana wt af Hwsenu, er hann hafde vanbrwkad heñar Lijka- ma, 2. Sam. 13. Enn þo eigum vier eins vid Syndena ad breita, þvi hun er ecke betra verd, vier þeckium ecke hennar Lijte fyrer Blindu Holldsins, fyrr enn Guds Ande ridur Smyrslum Ydranarennar aa Augu vors innra Manns, Apoc. 3. Enn nær hañ so giort hefur, og vier fyrer Raad Guds þeckium vora Blygdan, þa eigum vier med ollu ad ryd- ia Glæpunum burt wr Hiortum vorum, og aungvu ad leyna af þvi Satans Herfaange, sem Gud hefur bolvad, Jos. 6. heldur brenna þad upp til kalldra Kola, ad svo miklu Leite sem mogulegt er i þessum Daudlega Lijkama, og Guds Giædska fær i oss verkad. Og fyrer þvi ad þessu er svo vared, þa eigum vier Daglega ad Endurnya vora Ydran, þvi Daglega aa hinn gamle Adam i oss ad dreckiast og deydast. Ecke segie eg þad, ad Menn giete Syndlaust lifad, þad er Guds eins ad syndga ecke, enn þad er Gudhrædds Manns ad ydrast Syndarennar og rææda Boot aa henne, eñ Gud tilreiknar ecke þeim, sem eru i Christo, þær Syndernar, sem ad Ovilia edur Mannlegum Breiskleika kunna ad hen- da oss; Hitt vill hann ad Menn skule Daglega ydrast, þvi Daglega syndgum vier og for- þienum ecke annad enn Straff. Gud hialpe oss! Ef vier segdum ad vier hefdum ei Synd,

egier Johannes, 1. Pist. 1. Þa drøgum vier oss siaalfer aa Taalar, og Guds Sannleike er ecke i oss. Jaa, allt vort Lijf er ei nema Synd, være þad ecke bætt fyrer Guds Sonar Dauda; Þegar vier hugdum ad lifa einn Tijma Syndlaust aafram, og vier lijtum aptur nær hann lidenn er, þa mætte oss hrylla vid þvi sem vier hugdum best ad giora, og so margt Augnablik sem þar er i, so margur Þyrne-Broddur munde stijnga Saalu vora, nema DRottenns Forþienusta hefde giort Athafner vorar gylldar i Auglite hiñs straanga Doomara. Gud naade oss faaraadar Manneskiur, hvorsu ad vier erum under Syndena sellder! Saa sem vill skoda Stiørnu nockra i einne Sioonar-Pijpu, hann skal leita leinge ad henne aadur enn hann fær komed Auga aa hana, og nær hønum hefur þad tekest, er hann so skiaalfhendtur ad hann varla fær vidhalldest, so ad hañ ecke misse hennar aptur: So erum vier i Andlegum Efnum; Vier skulum fyrst leinge þvijnga hinn Gamla Mannenn, aadur enn vier faaum hina blessudu Jacobs-Stiørnu, Num. 24. JEsum, riett siena, og nær vier þad odlast høfum, þa eru vorar Trwar-Hendur so Østyrkvar, ad þar er nærsta hætt vid, ad hun kunne ad hverfa oss aptur, nema Gud styrke vora Armlegge. Jaa, hver bestu af oss eru eins og fylgespakur Hundur, hann rennur ad sønnu Veigenn epter sijnum Hwsboonda nockra Stund, enn ef hann sier eitt Dijr, einn Saud, einn Hest, einn Titling, þa hleypur hann epter þvi; So eru og vorar Hugrenningar; Vier rennum þeim til Guds i vorum Bænum under hanns Orda Heyrn, aa vorum Ydrunar-Tijmum, og kann skie nockrer optlega þar fyrer utañ, enn strax sem þar flijgur fyrer oss eitthvort Glis Veralldarennar, einhvør Abata-Von, eitthvort Reide-Efne, eitthvert broslegt, sem oss þyker Skiemtan ad, jafnvel þoott þad aa Stundum sie Naunganum til Hneisu og Ohroodurs, þegar þetta edur annad þvilijkt, sem Verølldenn er full af, bregdur fyrer oss, þa bregdum vier opt af Veigenum, og hlaupum epter þessu, og giætum vier þa lijtt undannfareña Synda, er oss urdu so beiskar i Ydraneñe, ad þar var ecke Fridur i vorum Beinum fyrer Guds Ognan, Ps. 38. Ef vier laatum oss villa Oflaangt epter slijkum Hiegooma. Nu er þar þo eingenn, sem kunne ad vardveita so vel sitt Hiarta, jaa, Eg maa segia Munn og Hendur, ad ecke verde aa fyrer hønum i þesshaattar Hlutum, og þad Daglega; fyrer þvi siaaum vier og, ad vier hvørn Dag, jaa, aa hvørre Stundu, høfum noog Ydranar-Efne, og er þess betur þess optar, þvi saa er sier temur þad Hugarfar, hann lærer bæde ad siaa giør epter Athøfnum sijnum, so og er lijklegt, ad hann mune ecke hverfa aptur til Stoor-Glæpanna, þvi ef hann so lærer ad ydrast Daglega þeirra Bresta, sem hann fær varla edur ecke vidgiørt, þa mun hønum i Hug koma, hvad saart þad mune kvelia hanns Samvitsku, ef hann skyllde rata i nockurn Ogiørning. So eigum vier nu ad leitast vid ad afmaa Lijkama Syndarennar, Rom. 6. Þad er illa byggt, ad briioota eitt gamallt Hws nidur, og tilla þvi upp aptur af sømu Rofum. Menn skulu ecke eins asta deyda hinn gamla Mannenn, er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins, helldur aa þar ad upprijsa einn nijr Madur, saa ed life i Heilagleika og Riettlæte fyrer Gude Æfeñlega, annars geingur hinn aptur, og einn Diøfull, sem einusinne er wtrekenn, hañ tekur Sio

adra

adra Anda sier verre, Luc. 11. og hverfur aptur i þad Hws hvadann hann wt foor. Giæt= tum ad hvernig þeir hafa breitt, sem af Hiarta hafa ydrast. Petur var miklu Trwar= sterkare, epter þad hann hafde til fulls Grated þad hann hafde Trwna mist, Matth. 26. og fieck so meire Naad enn hann mist hafde, Act. 2. Einn Stoor=Syndare, sem af Hiarta ydrast hefur, hann er miklu lijklegre til ad standa stødugur, helldur enn einn sem meinar ad sier hafe eckert ørded, og er af Mønnum goodur halldenn. Gude er og miklu þægre soddann Stoorbrota Manns Ydran og Elska til Guds, sem optast mikel er, af þvi hønum fyrergafst miked, Luc. 7. helldur enn Ydrunarlaust Meinleyse þess, er lijted edur eckert finn= ur til Synda sinna. Þar fyrer sie Ydranenn so heit, so kroptug og so alvarleg, ad þad beisk= est i vorre Sælu, sem ædur þootte sætt i Lijfernenu, og ad þad kvelie oss i Hiartanu, er ædur gladde i Holldenu, so opt sem vier minnunst æ vorar eigenn Synder, edur heyrum þær af ødrum drygdar, og þa munum vier sijdur aptur æ nij samþyckiast þeim Glæpun= um, er DRottenn hefur oss eitt Sinn kvitta giefed. J Exod. 29. stendur ritad um Brenne= Foornernar, sem og voru Synda=Foorner, ad þær ættu med heilu Lijke ad uppbrennast. J Levit. 1. er Kiennemønnunum skipad ad þvo Jnnible soddann Brennefoorna og svo Fæt= urnar. Nu bijdur St. Pæll oss, Rom. 12. ad vier skulum offra Gude Lijkame vora, eina lifande Foorn, Heilaga, Gude þægelega; Þad er sw Brenne=Foorn er hønum lijkar i hinu Nya Testamentenu. Þvoum þvi Jnniblenn, þvoum Hiarta vort, bleytum þad wt i heitum Ydrunar=Tarum, þvoum Fætur vorar af þeim Saurendum, er þær hafa atast i æ hinum breida Veigenum, sem liggur til Glotunarennar, Matth. 7. DRottenn sagde vid Petrum, Joh. 13. Sæ sem þveigenn er, hann þarf ecke ad þvo nema Fæturnar, Frelsarenn droo hier Dæme af þeim, sem Laug edur Bad taka, þeir þvo Fæturnar sijd= arst, þegar Lijkamenn er allur þveigenn. O Guds Børn! Vier erum ad sønnu aller þveg= ner i Skijrnar=Laugenne, i hvøria JEsu dijrmæta Blood er wtrunned, enn vorar Fætur hafa sijdann geinged æ vondum Veige, og Daglega eiguin vier Leid i giegnum Fen og O= veige þessarar Verålldar. Eingenn er so vel Skoofatadur, Eph. 6. so reidubwenn, ad framfylgia Evangelio Fridarens, ad eige slettest nockud uppæ. Forgiefens erum vier i Skijrnenne af=þvegner, nema vor innre Madur skijrest Daglega i Tæra=Floode vorrar Ydranar. Þad er ecke noog ad væra skijrdur i Jordan, vær skulum og skijrast i Ma= ra, Exod. 15. Þvoum þvi Hiartad, sem ad er Brunnur Jllskunnar, af hvøriu fram koma vondar Hugsaner, Matth. 15. med Christelegre Ydran, hreinsum Fæturnar med sa= ma Hætte, og hinn Ogudlege laxte af sijnum Veige, leggium so þessa Foorn uppa DRott= enns Altare. Þegar Aaron hafde helgad Samkundu Tialldbwdena og Verkfære Pioonustugiordarennar, og lagt Brennefoornena uppæ Altared, þa gieck Elldur wt fræ DRottne og fortærde þvi, Lev. 9. Þegar hin Nya Tialldbwd Guds, sem er Hiarta eins ængræds Syndara, þegar hun er hreinsud og helgud med Ydranenne, þa mun H. Ande þvi byrtast i einum Ellds=Loga, og uppkveikia i þess Manns Hiarta eina brenan= de Elsku til Guds, er hønum so margar Synder hefur tilgiefed, sæ sem henne hefur eitt

Sinn

Sinn nææd, hann hefur nææd þvi gooda Hlutskiftinu, hønum mun hægra ad mootstanda Syndinni; so leingi hun ecki slocknar, þa er ecki hætt vid ad hann læti Syndina i sier drottna; Hun uppbrennir allt Sorp Veralldlegra Gyrnda i Hiartanu. Þegar Gedeon hafdi lagt Brennifoornina uppaa Klettinn, eftir þvi sem Eingill DRottinns baud hønum, þaa rietti Eingillinn sinn Staf wt, er var i hanns Hendi, og snerti Foornina, og þar spratt Elldur upp af Biarginu, og fortærdi Kiotinu og hinum Osijrdu Braudunum, Jud. 6. Legg þijna Foorn, Christinn Madur, uppaa þann Stein, sem Uppbyggendur forsmaadu, Ps. 118. Þann wtvallda Hyrningar-Stein, er Gud hefur sett i Zion, JEsum Christum, Es. 28. Þar mun Elldur wt fraa hønum gaanga; Jaa, eiñ brennandi Elskunnar og Trwarinnar Elldur, sem upptendrar þijna Foorn, so Gud, sem bijr i Hædunum, lukti einn Sætleiks Ilm þar af: Og hefi eg nu so uñ þad nockud talad, hvørsu ad Ydraniñ eigi krøftug ad vera til Afturhvarfs fraa Syndunum og til Mootstødu þeim.

Nu þoott ad Menn sieu uñ þad sañfærdir i Hiarta sijnu, ad eingiñ kuñi ad eignast Eilijft Lijf, nema saa sem af Hiarta ydrast Syndanna og lætur af þeim, þaa erum vier so treger til þessa Verks, og vier laatum oss allt annad meir umhugad vera. Segied mier: hvør er saa ed segie, þar er noogur Tijmi til ad verda rijkur? Til ad taka Veitslur og Virdingar? Til ad reisa til Giestabods? Segir ein Jomfrw, þar er noogur Tijmi til ad giftast, ef henni bijdst þad Rææd sem henni lijkar? Edur saa, hvørs Asni edur Naut ad fellur i Pitt, ad þad sie noogur Tijmi til ad draga þad upp. Eda ef Elldur kviknar i eins Manns Hwsi, ad noogur Tijmi sie til ad slockva hann? Eñ til þess ad kveikia vora Lampa, til ad fagna Brwdgumanum Christo, Matth. 25. til ad draga sialfa oss upp wr Feni Syndaña, til ad slockva Baal Gyrndaña, sem Diofulliñ hefur upptendrad i Hiarta voru, til þess køllum vier ad alltijd sie noogur Tijmi, eins og hefdum vier Festi-Bref af Gudi uppaa Lijfdagana. Þier vitid hvad St. Paall segier, Gal. 5. Holldsins Verk eru Opinnber, sem eru Hoordoomur, Saurlijfe, Ohreinleiki, Lausung, Skwrgoda Dijrkan, Fiolkijngi, Fiandskapur, Þrætur, Kappgyrni, Þraattan, Sundurþyckia, Flockadraattur, Øfund, Manndraap, Ofdryckia, Ofneytsla, og þessu lijkt, hvad eg segie ydur fyrir, og hefi aadur sagt, ad þeir ed þvilijkt giora, erfa ecki Guds Rijki; segier hann. Nu hafa allir af oss framid eitthvert af þessu edur þvilijku, kañskie leingst Alldurs sijns, og sumir ecki enn nu aflaatid, enn vier vitum ecki nær sagt verdur: Þu Daari, aa þessari Noottu munu þeir þijna Saal fraa þier taka, Luc. 12. Og sumir faa einga Advorun. Ecki kastar Daudinn øllum fyrst i Bana-Sængina. Margur deyr so hann sier ecki Daudann fyrir Augum sier. J einu Auga-Bragdi, i Svefni, midt i Syndunum kippir hann sumum i burtu; Eñ þu veitst ecki hvad hellst af þessu ad þier muni ætlad. Seig mier þa, i Guds Nafni, seig mier, er þar alltijd noogur Tijmi til ad ydrast? Er þad viturlegt, ad draga sijna Umboot undann i Trausti laangra Lijfdaga, eins og hefdum vier giort Saattmaala vid Daudann? Vor Dauda-Stund er alltijd, þvi skylldi vor Ydrunar-Stund alltijd vera: Þu segier; Þad tekst mier ecki, þvi medañ eg

syndga giet eg ecki ydrast: Pad er satt, þvi Ydraniñ kiemur ecki fyrr enn eptir Syndina,
Gud giæfi ad hun kiæmi þo jafnañ strax ad henni drygdri, og mundum vier sialldnar
syndga, fyrst þvi verdur ecki aakomid, ad vier hugsum til þess, nær Syndinn griipur oss,
hvad beisk Ydran þar verdi aa eftir ad fylgia, ef Syndinn aa ad verda oss fyrirgiefinn.
Gud giæfi vier villdum giora eins og Dwfa Nooa, Gen. 8. Hun flaug wt og kom
aftur strax med einn Oliu-Kvist i Muxnenum, sem var Fridar-Merki. Gud giæfi, segie
eg, ad vier villdum eins giora þegar vier fliwgum wt af Guds Ork med syndsamlegu
Athæfi, ad vier villdum þaa hverfa strax aftur i Orkina, og Fridmælast vid Gud, og
ecki lijkiast Hrafninum, er alldrei kom aftur, Gen. 8. Br. M. So leingi sem vier er-
um i Syndunum, so leingi erum vier undir Guds Reidi, Joh 3. So leingi vier aan
Ydrunar lifum, erum vier undir Satans Valldi, Act. 26. Vitstola maa saa vera sem
þetta vill eiga yfir Hofdi sier: Enn Gud frambijdur sijna Myskunsemi med þeim Skil-
maala: J Dag, J Dag medann þu heyrir mijna Rødd, þaa forherd ecki þitt Hiarta, Ps.
95. Diofullinn heitir oss og Guds Myskunsemi med þessu Skil-Yrdi: A Morgun,
A Morgun; enn aadur enn þessi Morgun kiemur, þa kañt þu ad vera uppvaknadur i Hel-
vijti og Koolunum. Esau kom seint med Braudina, þvi foor hann aa Mis vid Bless-
anena, Gen. 27. Pharao þusti eftir Jsrael wt i Hafid Rauda, Exod. 14. Enn villdi
flijta sier aftur til sama Lands er Sioorinn gein yfir Hofdi honum, enn þad var þo allt
um seinna. O þu syndug Mañeskia! þu sem meinar ad þar sie alltijd noogur Tijmi til ad
ydrast, þeink aa þetta Dæmi, ef þu geingur Ottalaust aafram i hinu rauda Hafi bloodugu-
ra Synda og Jllgiorda, og þeinkir alldrei til Afturhvarfs; hvad veitst þu, nær Guds
Reidi-Flood steypist yfir þig, ad þier Ovorum, so þu gietir ecki aftur snwid? Spar-
id Tijmann, segir Paulus, Eph. 5. Þegar vier hofum mikid ad sijsla, Br. M. er oss
þykir aaliggia, þaa kollum vier hvorn Tijma, hvert Augnablik ad vera dijrmætt. O
segied mier! Liggur oss aa nockrum Hlut so miog, sem ad komast i Saatt vid hiñ Almaatt-
uga? Þo laatum vier oss so lijtid þar um annt vera. Ef nockur sleppir goodu Tækifæri
til ad framkvæma einhvern Hlut sier til Gagnsmuna, þaa hlæum vier ad honum, ef vier
ecki hyrdum um hann, aumkum hann og aatelium, ef hañ er vor Vinur, hendi þad oss sial-
sa, þaa ydrunst vier eftir, enn Diofullinn hlær ad oss ad vier forsoomum ad taka aa moo-
ti Guds Giof, medann hun er fyrir Hondum. Margt kalla Menn Heimsku i Verolld-
enni, og hver af oss hlær ad odrum, enn eingiñ er þvilijkur Daaraskapur sem sa, er oss mar-
ga hendir, þad er ad skioota Ydraninni aa Frest. Hañ er syndgar i þvi Trausti, ad hann
muni gamall verda, hann er lijkur þeim, er brijtur Skip sitt i þeirri Von, ad hann muni
komast til Lands aa Flaka einum. Eg hefi aadur sagt, ad Syndinn verdi ecki fyrirgief-
iñ, nema ad Ydraniñ ad nockru Leiti sambioodi henni. Hverium Degi nægir sijn Piaan-
ing, segier Endurlausnarinn, Matth. 6. Mundi þad ecki verda oss noogu þwngt ad yd-
rast aa hvoriu Kvolldi fyrir hvors Dags Syndir, ef vier hefdum þeirra Register vel
uppskrifad i Hiartanu? Þoott ecki skiootum vier þvi aa Frest Dag eftir Dag, Ar
eftir

epter Ar; Mun ecke þesse Byrde verda nockud Þwng um̃ sijder? Sa sem er audrum̃ haadur og aa ad vinna Dags-Verk, ef hann forsoomar framann af Deigenum, mun hañ ecke þess betur meiga herda aa sier, þegar hann tekur til Verksins? Sa sem hefur Ungdoomenum lijtels aktad Syndena; mun ecke Ydraneñ verda honum þess þijngre i Elleñe, ef hann aa Guds Rijke ad erfa? Vier vitum ecke hvad gamall David var, þegar hann sagde, ad Syndernar væru sier ofþwng Byrde vordnar; Hvad mundu þær ecke vorded hafa, hefde hann dreiged þær undann allt til Daudans. Eingenn er sa af oss, ad hañ legge hinar þijngstu Klyfiar aa hinn veikasta Eyk, og þo viljum vier kasta allra vorra Lijf-Daga Syndum uppaa vorn Hrygg, þegar vier erum so Ellemooder, ad vier hofum noog ad bera sialfa oss. O! hvorsu vijslega var þad þvi giort af David, er hann beidde Gud ad laata sig ecke giallda sinna Ungdooms Synda, Ps. 25. Eitt Saar er hægast ad græda, medann þad er Nijtt. So er og Syndenn, hun verdur best læknud ad ferskum Giorninge. A Morgnana taka Menn Læknisdoom inn aa toomann Maga. Ydraneñ er Lækning Syndarenar: Tem þier hana, Barn mitt, aa Morgne þijns Alldurs, medañ þu Fullhraustur ert; Þeink aa þinn Skapara i Ungdoome þijnum, aadur eñ þeir vondu Dagarner koma, og þu segier: Þad lijkar mier ecke, Eccl. 12. Paulus skipar oss ad krossfesta Hollded, Gal. 5. Eñ þad er lijtell Kross fyrer hinn Gamla Adam ad baña honum þad sem hann gietur ecke hast Skiemtan af leingur, þad er ad vijsu ad offra Gude þvi Hallta og Lamada, Mal. 1. og mæla honum med Mæler hinns Framanda, enn Fiandanum med Israels Mæler. Þyrm Elle þinne, ef þu kannt hennar ad bijda, og bijder þu ecke, þa munt þu finna, ad þu hefur aungvann Skada nær Kvolld þinnar Æfe kiemur, þott þad sie um̃ Middeige þijns Alldurs edur jafnvel fyrr. Veit eg ad Gud hefur morgum snwed aa sijnum gomlum Alldre, enn under þvi er ecke ad eiga, þoott hann sie Myskunsamur, hann hefur alldrei lofad ad laata þann kasta Eile-Belgnum til ad ydrast, sem alldrei þeinker til ad afklædast hinum Gamla Adam, medann hann Fullhraustur var. Þu giorer mig Ungann aptur so sem eirn Orn, segier David, Ps. 103. Þad er aan Efa þess vegna, ad David endurnijade sijna Ydran Daglega. Eru ecke Toolf Stunder i Deigenum? Segier Endurlausnarenn, Joh. 11. Eg heyre Vijngards Herrann liet Verka-Menn leigia um̃ Ellestu Stund, Matth. 20. enn sijdar ecke. Veit eg ad Gud hefur morgum i Andlaatenu myskunad, og hann myskunar ollum sem hanns Naadar leita, enn þau munu Dæmenn færre vera, ad sa hafe snwed sier af Hiarta til Guds i Andlaatenu, sem hann forsmaad hefur alla Æfe sijna. Spaamadurenn segier i Textanum: Leited DROTTENNS Medañ Hañ Er Ad Fiña, Kalled A Hañ Medañ Hañ Er Naalægur; So sem giore hann Raad fyrer þvi, ad su Tijd kunne ad koma, ad hann laate sig ei leingur finna, ad hann vilie ecke framar vera Naalægur, ad hann vilie ecke heyra þoott vier margtalader sieum, og wtbreidum baadar Hendur vorar, Esa. 1. ad hañ iñeloke sig i einu Skije, sem einginn Bæn kiemst i giegnum, so sem Jeremias ad Orde kiemst, Thren. 3. O! Guds Born, laatum oss, laatum oss ecke bijda epter þeirre Tijd, hver veit nær hun

 er?

er? Hver veit nær Mæler Syndanna er uppfylltur? Hver veit nær Hofud-Eingelsins Lwdur kvedur vid i Skijum Himens? Snwed ydur þvi til DRottens Unger og Gamler, Rijker og Fatæker, Vollduger og Vesæler, Þa Mun Hañ Myskuna Oss, Og Til Guds Vors, Þvi Hiaa honum Er Mikel FYRERgiefning. Eingeñ Hlutur er honum Omaattugur, Luc. 1. So er og eingenn Mæler hanns Myskunar, fraa hanns Kniaam hefur eingenn synande fared, sem hanns leitad hefur med Angre og Trega. So fliott sem David jaatade Afgiörd sijna, so fliott liet DRottenn segia honum: Gud hefur þijna Synd i burt-teked, 2. Sam. 12. Manasses stynur ecke fyrr i Böndunum, 2. Par. 33. enn ad hanns Misgiörder eru fyrergiefnar i Himnenum. Minn HErra JEsu, þu sagder Fordum vid Simon, Luc. 7. Þeim sem lijted er fyrergiefed, hann elskar lijted. HErra, þar er eingeñ af oss, sem hier liggium aa þinne Foot-Skör, sem lijted er fyrergiefed. Mörg Tiju Þusund Punda eru oss uppgiefenn hinum verstu Skullda-Priootum. HErra, ef þad er mögulegt, þa gief oss ad vier elskum so miked, sem oss er til-giefed. Vier erum Fortapader Syner, sem hofum sooad vorre Födurleifd, enn leitum þo aptur til Födur-Hwsa, Luc. 15. DRottenn, þu hefur runned aa Veg fyrer oss, og breidt wt þinn Fadm aa moote oss, þu hefur mætt oss aa midre Leid, og teked fagnande i moote oss; Laat oss þvi alldrei gleima, og alldrei verda i so Fraaleitt Sinne ysergiefna, ad vier hverfum burt aptur til ad eta Draf med Svijnum, helldur ad oss smackest so þijnar Vister, Þijner Uxar og aled Fie, Luc. 14. er þu tilreider oss hier i Naadeñe, ad vier meigum sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob i Dijrdenne, Matth. 8. Bænheyr þad goode Gud, Fyrer JESu Christi Forþienustu, AMEN.

# Fioorda Sunnudag epter Paaska

Gudspialled, Joh. 16. Cap.

JEsus sagde til sijña Lærisveina: Nu fer eg til hañs sem mig sende, Og eingeñ af ydur spyr mig ad, Hvört fer þu? Helldur af þvi ad eg talade þetta til ydar, þa uppfyllteft ydar Hiarta af Hrigd. Eñ eg seige ydur þo Sañleikeñ, Ad þad batar ydur, ad eg fare hiedañ. Þvi ef ad eg fer ei t burt hiedañ, þa kiemur eige Huggareñ til ydar. Eñ ef eg fer i burt hiedañ, mun eg senda hañ til ydar. Og þa ed hañ kiemur, straffar hañ Heimeñ um Syndena, og um Riettlæted, og um Doomeñ. Uñ Syndena, af þvi þeir trwdu ecke aa mig: Eñ um Riettlæted, Þviad eg fer til Födursins, og epter þad siaaed þier mig ecke: Eñ um Doomeñ, þviad Höfdinge þessa Heims er dæmdur. Eg hefe eñ nu margt ad segia ydur, Eñ þier kuñed ecke ad siñe ad bera þad. Eñ nær ed sa Sañleiksins Andeñ kiemur, þa mun hañ

hañ kleña ydur allañ Sañleik, Pviad hañ talar ecke af ſiaalfum ſier, Helldur hvad hañ heyrde, Pad talar hañ, Og hvad Epterkomande er, Pad kuñglører hañ ydur, Hañ ſame mun og auglijſa mig, Pviad af mijnu mun hañ þad taka og kuñgløra ydur. Allt hvad hellſt Fadereñ hefur, Pad er mitt. Par fyrer ſagda eg ydur, Ad af mijnu mun hañ þad taka, Og kuñgløra ydur.

## Exordium.

Eg mun bidia minn Fodur, ſegier Endurlauſnarenn, Joh. 14. Og hann mun ſenda ydur Einn annann Tals-Mann, þann er blijfe hiaa ydur Eilijflega, Anda Sannleikſins, hvern Heimurenn fær eige medteked, þvi hann ſier hann ecke, og þecker hañ ecke, enn þier þecked hann, þvi hann mun blijfa hiaa ydur og i ydur vera. Læreſveinar HErrans voru Sorgbitner af þvi ad hann ſagde þeim fyrer ſijna Burtfor til Fodurſins, Joh. 16. So ſem vier ſtrax heyrdum af Evangelio. Enn til þeſs ad þeir ſkylldu ecke allt Oſmiog Sturlaſt þar af, þa gaf hann þeim þetta Bleſſada Fyrerheit, hvert hann efnde ſtrax epter ſijna Himnafor, þar hann ſende Heilagann Anda yfer þaa med miklum Krapte og Undrunum, Act. 2. er fylgde þeim æ ſijdann i ollum þeirra Embættis Utrættingum; Og kann hinne Pridiu Guddoomſins Perſonu eckert Huggunarſamlegra Nafn ad giefaſt enn þetta, ad hann ſie vor Tals-Madur, Rom. 8. Pvi ef Gud er med oſs, hvor er þa aa moote oſs? Segier Poſtulenn. Enn ad H. Ande ſie Gud, ber Skijrnenn vor liooſaſt Vitne um; þott eige være þar til aunnur Rok, þær vier verdum i hanns Nafne ſkijrder aaſamt Fodur og Sonar, Matth. 28. Hann er vor Tals-Madur i Hormungunum, þvi hann kienner oſs, ad fyrer þær byrie oſs inn ad gaanga i Guds Rijke, Act. 14. Vor Tals-Madur i vorum Veikleika, þvi hann ber vorum Anda Vitne um, ad vier ſieum Guds Born, Rom. 8. Vor Tals-Madur hiaa Gude, þvi hañ bidur fyrer oſs med Oumrædelegum Andvorpunum: Vor Tals-Madur i þvi ad underviſa oſs, þvi hann leider oſs i allann Sannleika: Vor Tals-Madur i Efaſemdenne, er oſs optlega hender, Sokum vors Hverdugleika, þvi hann er Pantur vorrar Arfleifdar, Eph. 1. Enn ſo ſem þad, ad einum Tals-Manne heyrer ecke alleina til ad forſvara og affaka þann er hann ad ſier tekur, og Hughreiſta hann og underviſa, hvernig hann ſkule haga ſier fyrer Doomaranum edur ſijnum Herra, helldur og er þad hanns Embætte, ad mootſtanda hanns Ovinum, og ad ſannfæra þaa ſem aa moote mæla; So er þad og Heilags Anda Verk, ecke alleinaſta ad hugga Guds Born, og leida þau i allañ Sannleika, helldur og ad ſtraffa og byrgia Munnenn aa þeirra Ovinum. Þetta Embætte H. Anda er Innefaled i þeim Ordum, er Guds Sonur talar hier i Evangelio, ad hann mune Straffa HEimenn Um Syndena og Um RJettlæted, Og Um Doomenn: Og fyrer þvi, ad þau þykia ecke ſo audſkilenn, þa vil eg laata þad vera Inntak minnar Einfalldrar Rædu i þetta Sinn, ad wtſkyra þau.

DRottenn hiaalpe þar til med Naad sijns Anda, J JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

NÆr hañ kiemur mun hann straffa, edur sannfæra, Heimenn uñ Syndena; segier Endurlausnarenn. Eingenn Efe er aa þvi, B. M. ad þetta aa ad skiliast uñ hina stooru Vantrwarennar Synd, hver ed drottnadi i Heimenum framar Veniu a Hiervistar Dogum vors Lausnara: Eg segie, i Heimenum, þad er i Vantrwarennar Bornum, Eph. 1. svo ad bæde Gydingar og Heidingiar voru under þessare Synd, þar Gydingar Oskudu Teikns, segier Paall, 1. Cor. 1. Enn Gricker (þad eru Heidingiar) leitudu ad Speke: Hiner villdu ecke trwa nema þeir sæe Teikn og Stoormerke, og þoott þeir morg sæe, Oskudu þeir samt Teikns af Himne: Þesser leitudu ad Speke og meintu ad þeir med Naatturunnar Skilningi feinge griped hinn Orañsakannlega Guddoms Vijrdar-Liooma, sem uppfyller bæde Himin og Jord, hvern Guds Sonur var sendur til ad opennbera. Enn fyrer þvi ad hann vard Gydingum ad Hneixlan, enn Griekium ad Heimsku, fyrer þeirra Vantrwar Saker, þa var Heilagur Ande wtsendur til ad sañfæra Heimenn uñ þennann Sannleika. Ad þetta so eige ad skiliast, er Deigenum lioosara, af Orsokenne er DRottenn færer hier til, sem er þesse: Af þvi þeir trwdu ecke aa mig. Hañ talar uñ þetta so sem einn undann farenn Hlut, enn þa var allareidu komed ad hañs Burtfor til Fodursins. Nu er þad kunnugt hvorsu liooser ad voru Spaadoomarner og Ritningarnar sem af honum voru, hvoriar hann baud þeim ad rañsaka, Joh. 5. Samt villdu þeir ecke laata hann drottna yfer sier. Þeirra eigenn Sende-Menn baaru Vitne uñ, ad alldrei hefde nockur Madur talad so sem þesse talade, Joh. 7. Þo sogdu þeir ad hann Gudlastade, þeir saau hanns Kraptaverk, og jaatudu ad eingenn kynne þvilijkt ad giora, nema Gud være med honum, Joh. 3. Samt baaru þeir sier þa Ohæsu i Munn, ad hañ være Samverskur og hefde Diofulenn, Joh. 8. Þeir hofdu fyrer Augunum hanns Allra Heilagasta Lijferne, þo kolludu þeir hann Ofneytslu-Mann og Vijnsvelgiara, Vin Tollheimtumanna og Bersyndugra, Matth. 11. Þeir kunnu ecke ad straffa hann uñ nockra Synd, Joh. 8. þo klogudu þeir hann, so sem þann ed fraasnere Foolkenu og bannade ad giefa Keysaranum Skatt, Luc. 23. Þesse var su Gudlausa Vantrwarennar Synd, sem JEsus hier uñ talar; Hun verdur og aa Stundum kollud Synd i Ritningunne framar odrum Syndum. Uñ Jeroboam stendur vijda i Konganna Bookum, ad hañ hafe komed Jsrael til ad syndga, 1. Reg. 12. þad er til Vantrwar og Afguda-Dyrkanar. Ef þier værud blinder (segier Lausnarenn vid Gydinga) þa hefdud þier ecke Synd, Enn nu þar þier segied, vier siaaum, þa blijfur ydar Synd, Joh. 9. Hvar eige kann annad meint ad vera enn Synd Vantrwareñar, þvi fyrer utann hana hofdu þeir þo margar Synder; Jaa, þesse er su hrædelega Synd er hann uñ-talar, Joh. 15. v. 22. 24. Hefde eg ecke komed og talad til þeirra, þa hefdu þeir ecke Synd, enn nu hafa þeir ecke þad þeir kunne ad skijla Synd sinne med. Hvar fyrer miñ HErra? Þvi hefde þesse eina Synd i burtu vered, þa hefdu allar hinar afmaadar orded: Jaa, enn aptur, hefde eg ecke giort

þau

þau Verk aa medal þeirra sem eingenn kann ad giora, þa hefdu þeir ecke Synd, enn nu hafa þeir sied þau, og hata bæde mig og minn Fodur: Þetta er su stoora Vantrwareñar Synd, sem ollum odrum framar Synd kallast i Ritningunne. Hvar fyrer? Þviad medann hun blijfur, blijfa allar adrar. Lækning Saalarennar og allra vorra Meina er alleina sw Forlijkun, sem JEsus giort hefur, er hann bar vorar Synder uppaa Tried, 1. Pet. 2. Hver sem þvi ecke trwer, þann vill DRottenn ad H. Ande sannfære, þviad med þvi ad trwa Riettelega aa hann, verda allar adrar Synder i burtu teknar; Vill hann þvi ad Heimureñ verde sannfærdur uñ þessa einu Synd, þviad fyrer hana eina verda allar hinar bundnar og apturhalldnar; Þad giorer JEsus bert, Joh. 3. segiande: Saa sem ecke trwer, hañ er þegar Dæmdur; Og aptur segier hañ i sama Cap. Saa sem ecke trwer Synenum, hann mun ecke siaa Lijfed, helldur blijfur Guds Reide yfer honum; Jaa, enn framar: Ef þier ecke trwed þvi ad eg sie, þa munud þier deya i ydar Syndum, þad er, ad eg sie Lioos Heimsins, so sem hann hafde skomu aadur uñ sig vitnad, Joh. 8. Siaaed hier, Br. M. ad Vantrwenn er ein Hofud-Synd, og ollum odrum meire. Og er nu audsæert hier af, ad hun er sw Synd, er DRottenn umtalar hier i Evangelio, og þoott ecke være añad til Vitnis hier uñ, þa eru þau Undur og Stoormerke, er H. Ande byrte med sinn Guddooms Krapt under eins og Sakleyse, Almætte og Guddoom Christi, strax epter hanns Himnafor, til ad sannfæra Heimenn uñ þessa skielfelegu Vantrwareñar Synd: Edur hvad syneſt ydur uñ hina miklu Ranst, er kom af Himne, so sem þiootande Stormvidres, og fyllte upp Hwsed þar Postularner inne voru? uñ þær Elldlegu Tungur, er settu sig yfer sierhvørn þeirra? uñ þau adskiliannlegu Tungumaal, er þeir toludu, epter þvi sem H. Ande gaf þeim wt ad tala? Act. 2. Segier ecke Lucas, ad þeir ed þad heyrdu hafe vorded fraa sier numder og Tvijlraader, segiande hver vid annann: Hvad er þetta? Hvad virdest ydur uñ hina fyrstu Predikun St. Peturs, er hann giorde i sama Sinne? Hvernig hann sagde þeim ad JEsus af Nazareth hefde odlast Anda Fyrerheitesins af Fodurnum, og wthellt þvi er þeir þa saau og heyrdu, og hvernig ad þeir skaarust i sijnum Hiortum, er þeir heyrdu þetta, og sogdu: Gooder Brædur, hvad skulum vier giora? Segied mier, var ecke þetta ad sannfæra þaa uñ hina hrædelegu Synd, ad þeir hofdu ecke trwad honum, helldur Krossfestu Hofdingia Lijfsins? Ad eg tale ecke uñ oll þau Undur og Jardteikn, er fylgdu Christne-Bodenu i þa Daga, so ad hiner grimu Heidingiar, sem voru aan Guds i Heimenum, Eph. 2. geingu DRottne til Handa og medtooku hañs Vitnisburd. Þvi hroosar Paall, segiande: Eg hefe allt fraa Jerusalem og þar uñ krijng, allt til Illyricum, fullkomnad Evangelium Christi, Rom. 15. Nu þoott ad þetta sie eigennleg Meining Lausnarans i þessum Ordum, sem nu hefe eg sagt og synt med nockrum Rokum, þa eigum vier þo ad vita, Br. M. ad þetta Embætte H. Anda nær eirnig til vor, þvi Frelsarenn sagde vid þa, ad þesse H. Ande skyllde vera hiaa þeim Æfennlega, Joh. 14. Enn þeir eru fyrer laungu komner til Hvijldar DRotteñs; sañ hefur Gud ecke yfergiefed sijna Christne, þvi eigum vier enn nu ad leita ad honum i

hañs

hanns H. Orde, ſem i Fyrſtunne var predikad ad hønum ſamverkanda og ſtyrkianda med epterfylgiande Taaknum, ſegier Marcus, Cap. 16., hvørt hann er enn nu ecke vidſkila ordenn. O! hverſu værum vier faavijſer ad þeckia Syndena, nema H. Ande ſañfærde oſs þar uñ i Guds Orde, Jaa, enn þa epter þad vier høfum lært vorn Chriſtenndoom i Barna-Lærdoomenum, þa køllum vier margt þad Syndlauſt ad vera, ſem þo er ein fordæmanleg Synd fyrer Gude, ef hann vill i Doom vid oſs gaanga; og þar ad auke, þa maa þad kunnugt vera, hverſu ad Chriſtenndoomenum er almeñelega haattad Maña aa medal, þad ſumer kalla ſig vel Chriſtna, ef þeir trwa aa Gud, og þvi ad Chriſtur hafe pijnſt fyrer Synder Heimſins. Enn St. Jacob helldur þad laangtum odruvijſe, þar hann ſegier: Ad Trwenn ſie daud aan Verkanna, Jac. 2. Nu ef ſu Trw er daud, ſem ad ecke verkar fyrer Kiærleikann, Gal. 5. ſo ſem Paulus giører Raad fyrer hinne ſømu Trw, er þad þa ecke Vantrw? Jaa, i Sannleika, hun er Vantrwnne verre, þvi ſu Trw, af hvørre Madurenn alleina þecker Gud, og veit ad hann er bæde goodur, og þo under eins Riettlaatur, enn forſmaaer þo hanns Vilia og ecke aaſtundar ad læra hañ, ſo hañ ad minnſta Koſte þeckia meige hvad laangt ad hañ ſie fraa þvi, ad hann giete honum Fullnægiu giort, hun hiaalpar meir til ad fordæma einn helldur enn Saaluhoolpenn ad giøra, þviad Dioflarner trwa þvi einnig og ſkielfaſt þar af, ſegier St. Jacob, Cap. 2. Enn ſegied mier, hvar aa Holldlegur Madur ad faa ſlijka Þeckingu, nema hann ſannfærdur ſie þar uñ af H. Anda? Petur ſegier til Safnadanna i Aſia: Þier foorud aller villt ſem Sauder, enn nu erud þier uñhverfder til Hyrders og Biſkups Saalna ydar, 1. Piſt. 2. med honum tekur Paulus under, ſegiande: Þier vorud Myrkur til Forna, enn nu erud þier Lioos i DRottne, Eph. 5. Hvar fyrer munde þad ſkie, nema fyrer Verkan H. Anda, ſem bioo i Ordenu og ſtraffade Heimenn uñ Syndena. Holld og Blood hefur ecke opennberad þier þetta, ſagde DRottenn vid Petur, helldur minn Fader ſem er aa Himnum, Matth. 16. Og hid ſama maa eg ſegia uñ Þeckingu Syndarennar. Fyrer Guds Anda erum vier Endurfædder i Skijrnenne, Joh. 3. og endurnyader i Hugſkotum vorum. Hañ ſkapar i oſs nijtt Hiarta, Pſ. 51. Hann leider oſs til JEſum Chriſtum, aan hvørs vier feingium ecke til hanns komeſt, ſo ſem vier medkiennum i hinne Þridiu Grein vorrar Trwarjaatningar: Eñ hvar med giører hann þetta? An Efa i Fyrſtunne med Þeckingu Syndarennar. Segied mier! hvørt er þad Offred ſem Gude þocknaſt? Er þad ecke Harmþrwngenn og ſundurknoſadur Ande? Sem David ſegier, Pſ. 51. Su Saal ſem ad hrygg er wt af Stærd Illſkunnar, og geingur bogenn og veik; Þau Augu ſem þreitt eru, Ein hwngrud Saal mun giefa þier Dijrdena og Riettlæted DRottenn, ſegier Baruch, Cap. 2. Enn hvar vilium vier faa þeſſa Hryggd, hver vekur oſs þetta Andlega Hryngur? Þad giører Ande DRottenns med Þeckingu Syndarennar, bæde i Guds H. Orde og ſo med ſijnum kroftugu Iñvortis Hræringum, þegar hañ dregur þa Skijluna fraa Augum Saalarennar, ſem Andſkotenn hefur heingt þar fyrer, og vier ſiaaum hverſu vier høfum hinn gooda Gud til Reide reitt med margra Ara Ohlijdne, og ſijner oſs under eins

Guds

ns Guds Ominrædilega Giædsku og Polinnmædi yfir ollu þessu, sem morgum þeim hef-
ur ad Skyndingu i burtu kippt, sem kanske ecki hafa meir syndgad enn vær. Hvad mein-
ed þier, Br. M. Munum vier taka þessar Hugrenningar af sialfum oss? O Nei! Þvi
vier erum ecki megnuger um, af sialfum oss, til neitt gott ad hugleida, 2. Cor. 3. auk helld-
ur ad framkvæma: Hvadan þa, nema af H. Anda? Hver ed sannfærir oss um Synd-
ena. Gydingar hofdu Logmalid, af þvi þecktu þeir þo ecki Syndina; Eigi meintu
þeir sumir hvørier, ad illar Hugsanir væru Synd, Jafnvel þott Logmaled segdi þeim;
Þu skallt eigi Girnast, Exod. 20. Þar fyrir lijker DRottenn þeim vid Grafir Fram-
lidenna, Sem utan voru prijdilegar, Enn innan fullar af allra handa Obeckt, Matth. 23.
Þeim mundi hafa þott þad undarlegt, ad sa sem reiddist Brodur sijnum, skylldi vera
Raads sekur; Sa sem liti eina Kvinnu til ad girnast hana, hann hefdi allareidu drygt
Hoor med henni i sijnu Hiarta, Matth. 5. Edur ad Madurinn væri skylldugur til ad
giora þeim Gott, sem vid hann misgiorir. So mikill er nu Munur Bookstafsins og
Andans; hinn deydir, ef hann er einsamall, þessi lijfgar, enn brwkar Logmalid fyrst til ad
deyda, þad er, ad sundurmerja og kienna Syndaranum, ad hann sie Dauda sekur, og þann-
ig innilykur Gud alla undir Ohlijdninni, uppa þad hann myskuni ollum, Rom. 11. Vi-
tid þier ecki, ad þier erud Musteri Guds? Segir Paulus, 1. Cor. 3. Eg ætla ad so fari
best Guds Þioonustann i þessari Kyrkiu, ad Moyses hafi Bassann i Logmalinu, enn Christ-
ur Tenorinn i Evangelio, þvi hinns gooda Hyrdirs Raust mun þo yfirtaka og hærra lata
enn Moysis Reidarþruma. Þad er einn Gledilegur Tvijsaungur i Eyrum mæddrar
Samvitsku, og þa rætist þad med fullu og ollu, er DRottinn sagdi Fordum Daga,
Guds Rijki er inni hia ydur, Luc. 17. Jafnvel Angred fyrir Syndina er Guds Born-
um þeckara enn oll Heimsins Kiæti hanns Sonum, og þau Tarinn, er einn Syndari fellir
i Guds Siood, þau smacka honum betur enn Vijn hinnar flaradu Dalilæ Veralldar-
innar hennar Fylgiu-Monnum. Og þvi segier Lausnarinn hier strax eftir: Ad H. Andi
muni sannfæra Heiminn um Riettlætid, af þvi hann fari til Fodursins. Christur mein-
ar hier i Fyrstu sitt eigid Riettlæti og Sakleysi. Þad hlaut ad eftir ad fylgia, þegar Guds
Andi hafdi straffad Heiminn um þa skielfelegu Synd, ad þeir trwdu honum ecki, helld-
ur festu hann uppa Galgann, er þeir kunna þo ecki ad straffa um nockra Synd, þa hlaut
þad ad eptir ad fylgia (segie eg) ad hann sannfærdi þann sama Heim um hanns Riettlæti,
ad þeir hofdu Lijffsins Hertoga Krossfest, so sem Petur sagdi þeim, Act. 3. Þa kunnu
þeir ad segia ad hann væri Timburmannsins Sonur, Matth. 13. ad þeir þecktu Fodur
hanns og Moodur, ad hann væri Samverskur og hefdi Diofulinn, Joh. 8. ad hann fyrir
Belzebub Diofla Hofdingia ræki wt Diofl ana, Luc. 11. Þa kunnu þeir ad giefa
honum þad ad Dauda-Sok, ad hann kalladi sig Konunginn Christum, Luc. 23. Jaa,
ef hann væri Guds Sonur, ad hann skylldi stijga ofan af Krossinum, Matth. 27. Þa
var þad Tijmi fyrir þig, O þu hinn Gudlausi Biskup Caipha! ad rijfa þijn Klædi, af þvi
hann jatadi sig Guds Son ad vera, Matth. 26. Þa var Tijmi til alls þessa þegar hann,

ad sigrudum Dauda, Diofli og Helviiti, upphafinn yfir alla Himna, hafdi sett sig Kraftarins hægri Handar, og til Vitnisburdar um sitt Almætti, sitt Riettlæti o Diirdarfulla Hæatign, sendi hinn H. Anda yfir siina Pioona og Ambaattir med stoorum Undrunum og Tææknum: Jaa, yfir siina Fiandmenn og Offooknara, so ad margir af Kiennimönnunum hlijdnudust Trwnu, seigir Lucas, Act. 6. Pegar Umkomulausir Fiskimenn rææku wt Dioflana, læknudu Siwkdooma, opinnberudu leynda Hluti, sem einginn Manna kunni ad vita, so sem Ananiæ og Zaphiræ Dæmi vitna, Act. 5. Og þetta skiedi allt i hanns Nafni, sem hinir ææður hofdu kvalid, hwdstriikt og aa Gaalgann uppheingt milli Tveggia Spillvirkia. Med öllum þessum Guddoomlegum Furdu-Verkum sannfærdi nu H. Andi Verölldina i þaa Daga. Pvi Eg Fer til Fodursins; segier Herrann. Petta hid sama brwkadi H. Andi fyrir Munn Peturs til ad sannfæra þaa um Christi Riettlæti, er heyrdu aa Tal hanns Act. 2. Er hann vitnar af Spaadoomi Davids Konungs um Upprisu og Uppstigning Drottinns JEsu, segiandi: Ecki er David uppfarinn i Himininn, er hann segier sialfur: DRottinn sagdi mijnum DRottni, sit þu mier til hægri Handar, þar til eg legg Ovini þijna til Skarar Foota þier. Viti þvi allt Israels Hws fyrir viist, ad Gud hefur giort hann ad Christo og HErra, þenna sama Jesum, er þier krossfestud. Og ad þessi sie Meiningin i Ordum DRottins, vottar þad sem hier eftirfylgir: Og Eftir Pad Siaaid Pier Mig Ecki. Ad sönnu saau hann Lærisveinarnir eftir hanns Upprisu, enn ecki med sömu Asijnd og aadur, ecki i Pioons Mynd, helldur so sem einn Sigurvegara, ecki so sem þeir saau hann i Grasgardinum bundinn og fiotradann, helldur Einglunum lijkann, þar hann gieck inn ad luktum Dyrum til þeirra, Joh. 20. Ecki so sem eina Bölvan aa Krossinum uppheingdann, Devt. 21. helldur upprisinn af Daudum, ad Daudans Pijnu uppleistri. Allt þetta vottadi hanns Riettlæti og Sakleysi, þvi þad var Omögulegt, so sem Petur sagdi, ad hann kynni af Daudanum halldinn ad verda, Act. 2. Enn allra hellst meinar DRottinn hier siina Himnaför, ad þeir mundu hann ecki siaa wr þvi, ad hann giordist fyrir þeim Osijnilegur, og Skijed took hann burt fraa þeirra Augum, Act. 1. Og er nu af þessu öllu Riettlæti DRottinns sannbeviisad fyrir Vitnisburd H. Anda, sem faam Dögum þar eftir kom yfir Postulana med siinilegum Guds Krafti, so ad þeir Tungur töludu, Diofla wtrææku, lögdu Hendur yfir Siwka og þeim batnadi, sögdu fyrir Ovordna Hluti, so sem hann aadur fyrirsagdi og segier berlega hier i Gudspiallinu med þessum Ordum: Nær Ed Saa Sannleiksins Andinn Kiemur, Pa Mun Hann Kienna Ydur Allann Sannleik, Pvi Hann Talar Ecki Af Sialfum Sier, Helldur Hvad Hann Heyrdi, Pad Talar Hann, Og Hvad Eftirkomandi Er, Pad Kunngiorir Hann Ydur, Hann Sami Mun Og Vegsama Mig, Pvi Af Mijnu Mun Hann Pad Taka Og Kunngiora Ydur. Hvad siinist ydur Vr. M. Er ecki þvilijkt ad sannfæra Heiminn um Riettlæti Drottins JEsu? Og af þessu JEsu Christi Allra Helgasta Riettlæti haangir vort Riettlæti, eg meina þad oss tilreiknad verdur, þvi þad er Raunar hanns Riettlæti, og þar fyrir heyrir oss og so til þetta Embætti

bætte H. Anda eige siidur enn þeim sem lifdu aa Postulanna Dogum: Og byriar oss hier fyrst ad athuga þau Ord er hañ talade til Læresveinaña, skömu sijdar, Joh. 16. Jñann Lijtels Tijma munud þier ecke siaa mig, og aptur Jnnañ Lijtels Tijma munud þier siaa mig aptur, þvi eg fer til Fodursins. Af hvorium Ordum þad audsært er, ad DRottenn kallar sijna Pijnu, sinn Dauda, Sijna Greptran og Uppriisu, i þessum Stad, sijna Burtfor til Fodursins, aasamt Himnaforenne.

Nu er þad ollum Monnum augliost, ad Riettlæte Syndugs Manns er i þvi foolged, ad Christur er fyrer oss daaenn, uppriisenn og til Himna farenn: Þvi segier og Paall, ad hann sie daaenn fyrer vorar Synder, og uppriisenn oss til Riettlætis, Rom. 4. Enn forgiefens være hañ daaenn og uppriisenn, være hañ ecke til Himna farenn og setstur til Kraptarens Hægre Handar til ad bidia fyrer oss, hvadann hañ og hefur sendt oss siñ Anda, sa ed Trwna i oss verkar, fyrer hvoria Madurenn alleina verdur Riettlaatur fyrer Gude, Rom. 3. Allt þetta kieñer hañ betst sialfur, med faam Ordum, Luc. 24. er hañ sagde vid Læresveinana under sijna Himna-For: So er þad skrifad, og so byriade Christo ad lijda og uppriisa af Daudum aa Þridia Deige, og predika laata, i siinu Nafne Ydran og Syndaña Fyrergiefning hiaa ollum Þioodum: Og kiemur þesse Partur Embættis H. Anda miog vel samann vid hinn fyrra, þviad i Þeckingu Syndarennar er Ydraneñ foolgeñ, eñ Riettlæted i Fyrergiefningu Syndaña: Og þvi vil eg taka mier hin Gledelegu St. Paals Ord i Munn um þetta Efne, er hann segier, Rom. 8. Hvor vill aasaka Guds Utvallda? Gud er sa sem Riettlæter, hvor er sa ed fordæmer? Christur er sa sem daaenn er, Jaa enn framar, uppriisenn, hver einnig er aa Hægre Hond Gude, sa einnig er Medalgaangare fyrer oss. Sie þvi mitt Riettlæte ecke betra enn Nidlags Fat, Es. 64. Guds Heilagur Ande hefur sannsært Heimenn, sannsært Logmaaled, sannsært Diofulenn, Jaa, sañsært mijna aangraada og sturlada Samvitsku, sem klagar mig um Fiollda minna Synda Daglega, hañ hefur sannsært þau, segie eg, uñ JEsu Christi Riettlæte, sem vorded er mitt, þvi hann er Jehova vort Riettlæte, Jer. 23. Og bæde mier og ollum stoor Syndurum af Gude giefenn til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor. 1. Hafe Adam forþienad med hinne Fyrstu Synd ad verda wtrekenn wr Paradys med sijnu Raanglæte; hafe hann lokad henne aptur epter sier og ollu sijnu Afkvæme; hafe eg, hanns Syndugur Nidie, fylgt honum epter i Raanglætenu, so þar er eckert nema Fordæmanlegt i mier, þad eg hefe af hinum Fyrra Adam medteked, hvern Lucas kallar Guds Son, Luc. 3. enn giorde bæde sig og mig og allt sitt Hyske ad Diofulsins Bornum fyrer Ysertrodsluna: Þa sannfærer þo Guds goodur Ande mig uñ þad, ad hinn eilijfe Guds Son, hinn annar Adam, sem er DRottenn af Himne, 1. Cor. 15. hvor ad hefur Davids Lykil og upplijkur so eingeñ kann aptur ad laata, Apoc. 3. Hañ hefur bæde mier og ollum þeim uppluked Rijke Himnanna, sem med Angre sijns Hiarta skrijda ad Footum hans og segia: Fader, eg hefe syndgast i Himenenn og fyrer þier, eg em ei verdur ad kallast þiñ Sonur, gior mig svo sem einn af þijnum Leigu-Moñum, Luc. 15. Hvorier eru mijner Ovin-

er? Hvar eru mijner Aklagendur? Þad er Logmaaled, þad er Heimureñ, þad er Di-
ofullenn, þad er mijn eigenn Samvitska; Eg Ottast þa ecke, þegar DRottenn er mier
Naadugur, fyrer mijns Endurlausnara Riettlæte. Þeir eru Bodlar Guds, nær hann
er reidur, enn þeim sem i JEsu Christo er vid hann saattur og kvittur, gieta þeir eckert Mein
uñed; Ecke Logmaaled, þvi hañ er komeñ Logmaaled upp ad sylla, Matth. 5. Ecke Heim-
ureñ, þvi hann segiest hafa Heimeñ sigrad, Joh. 16. Ecke Diofullenn, þviad Hofdinge
þessa Heims er dæmdur, Joh. 14. Ecke mijn Samvitska, þvi Johannes segier: Ef yd-
ar Hiarta fordæmer ydur, þa er þo Gud meiri ydar Hiarta, 1 Joh. 3. Og Petur seg-
ier um Skijrnena, ad hün sie Saattmaale goodrar Samvitsku, 1. Pet. 3. Þoott eg
hafe hann yfertroded, þa veit eg þo ad hanns Blood er vtruñed i Skijrnar Saaenn, sem
mig Overdugañ Þræl hefur elskad meir eñ sialfañ sig. JEsus er bæde Gud og Madur,
Guds Eingietiñ Sonur og þo Davids Sonur, Matth. 1. Þar sie eg Gud hefur straff-
ad a Gude mijnar Synder, og þann Mann og miñ Broodur epter Holldenu, J hvør-
ium ad bijr øll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Col. 2. hefur hañ, ad afrekadre minne
Endurlausn, sett sier til Hægre Handar; Þar fyrer gietur hann ecke straffad hañs Riett-
læte a mier, hvørs Raanglæte hann straffade a honum, þegar hañ giordest Bølvan fyr-
er mijnar Synder, Gal. 3. sem eilijfa Bølvan forþienad hefe. Gud hefur alldrei unned
meira Frægdar-Verk, helldur enn þa hann leyste oss synduga Orma vr eilijfu Banne.
Ødrum Sinnum hefur hañ att ad skipta vid þad sem eckert var, so sem þegar hann giørde
Himen og Jord af eingu Efne, Gen. 1. Edur vid Skiepnur sijnar, so sem þegar hañ liet
Soolena standa kyrra, Jos. 10. Klauf Hafed i sundur, Exod. 14. Sende Plaagur
yfer Egyptaland, og añad þvilijkt. Enn i vorre Endurlausn aatte hann ad bijta vid sialf-
ann sig og sitt Riettlæte, hvoriu eige maa raska, þvi er eg þess full-oruggur, ad hann lætur
ecke soddann Stoorvirke til Onijtis verda a þeim, sem treysta a Forþienustu hanns Ein-
gietins Sonar, þoott ad synduger sieu, þviad Synduga og ecke Riettlaata er hann komen
ad kalla til Ydranar, Matth. 9. Hvad skulum vier þa hier til segia? segier Paall, Rom.
6. Skulum vier dvelia i Syndunum, so ad Naadenn yfergnæfe? Fiærre sie þvi.

DRottenn segier hier i Gudspiallenu, ad Heilagur Ande mune sannfæra Heim-
enn um Doomenn, Af þvi ad Hofdinge þessa Heims sie dæmdur. Hvør ad sie þesse
Hofdinge, er audvitad: þad er Satan, hvør hinn same kallast Diofla Hofdinge,
Matth. 12. Enn þar fyrer kallast hann so, ad Heimurenn liggur i hinu Vonda,
1. Joh. 5. Enn hañ er alls Jlls Hofundur, honum þioonar mikell Herskare i Heimen-
um, allra hellst Manneskiann med adskiliannlegum Syndum og Glæpum, so ad hann er
megtugur i Børnum Vantrwarennar, segier Paall, Eph. 2. Þad er, i Heimsins Børn-
um, hañ er dæmdur; Toñ fyrer Toñ, Auga fyrer Auga, segier Logmaaled, Lev. 24. Sa-
tan var øll Orsok i þvi, ad Christur var deiddur, Kvalenn, Hvdstryktur, og matte Hel-
vijtis Pijsler þola, er Synden hafde tiluñed; Þar fyrer er hann dæmdur til Myrkraña
Hleckia eilijflega i Helvijte, 2. Pet. 2. Hann er dæmdur, þad er, sigradur og vtrekenn;

So

So sieger DRotten hiaa Joh. 12. Under sijna Pijnu. Nu er Doomur Heimsins, nu mun Høfdinge þessa Heims verda wtskufadur. Þad er alkunnugt hvørsu ad Satan drottnade i Verølldenne aadur enn JEsus kom i Heimenn, Jaa, aadur enn hann sigrade Diøfulenn a Krossenum; hvørsu ad øll Lønd voru full af hinne verstu Afgudadyrdkan, og sialfre Guds Þioonustu aa medal Jsraels Barna hafde hann so spillt, ad þegar hann, sem Løgmaaled hafde wtgiefed, kom i Heimenn, hann þeckte ecke Guds Løgmaal hiaa sijnu Foolke, þar fyrer klagar hann, Marc. 7. segiande epter Esaja: Þeir dyrka mig forgiefens, er þeir kienna þann Lærdoom sem er Manna-Setningar, þvi þier gaangid fram hiaa Guds Bodordum, og hallded Manna-Setningar; Þvott Bikara og Kiera, og margt annad þvi lijkt giøred þier. Enn þegar Guds Ande var wthelltur yfer allt Hold, so sem Joel hafde fyrerspaad, Cap. 2. Þa urdu hier aa snogg Umskipte, so sem Lucas skrifar i Postulanna Giørningum, 2. Cap. So hefur nu DRotten JEsus utreked Diøfulenn ur sijnu Rijke med Guds Fingre, Luc. 11. sem er H. Ande, vorden sialfur Høfud alls Høfdingiadæmis, og hefur flett hinn sterka Hervopnada øllum sijnum Herklædum, aa hvør hann treiste, Matth. 12. So Diøfullenn hefur sialfur naudugur bored Vitne um hanns Almætte og Guddooms Krapt: Þvi lijste hann, medal annara, af Munne Spaakunnar, sem rann epter þeim Paale og hanns Førunautum i marga Daga, og hroopade: Þesser Menn eru Þioonar Guds hins Hæsta, sem boda ydur Veg Velferdarennar, Act. 16. Þanneg aat Diøfullenn sialfur ofann i sig allar Gudlastaner sinna Verkfæra. Og þegar þeir flettu hinn H. og Riettlaata sijnum Klædum, og heingdu hann naken uppaa Tried, þa hefur hann undereins afklædt Høfdingia-Dæmen og Magtar-Vollden, og þau openberlega til Skodunar framleidt, Col. 2. Hrossande Sigre yfer þeim aa Krossenum. Og um þennann Doom, sem nu þannig er yfer Diøflenum geingenn, Sannfærde Guds H. Ande Heimenn, ecke einasta þa Ogudlegu, sem maattu þreifa aa slijku, helldur og alla þa, sem hann umsnere til Hlijdnis Christo og giørde honum Þioonustu-bundna, og þad sama verkar hann enn nu i Dag i Guds H. Orde, þegar þad er hreint og klaart, og med Alvøru nockurre og Røggseme kiennt og predikad; Þvi jafnvel þott ad Diøfullenn sie bundenn, þa lætur hann þo ecke af ad skioota sijnum Ørvum aa Guds Her. Þar fyrer, Christner Menn! Fyrst ad vor Konungur hefur so miken Sigur unned aa Diøflenum, og so Vegsamlegann Doom yfer honum feinged, þa laatum oss ecke þa Skam henda, ad vier yfergiefum Hertoga Lijfsins, enn gaungum i Sid med Fiandanum aptur, edur þioonum honum framveigis i Syndenne og Ogudlegu Athæfe aa moote Samvitskunne; Verum minnuger þess Eids, er vier soorum hinum Lifanda Gude i Skijrnenne, ad vier jaatudum honum og øllum hans Stoormerkium, enn afneitudum Fiandanum og øllum hanns Svikum og Vielum. Ecke hefur Guds Sonur þenna dijra Sigur unned fyrer sialfann sig; Þeirrar Haaleitu Guddoomsins Þrenningar Oraskannliga Riettlæte var fullnægt fyrer hina Fyrstu Synd Diøfulsins, þegar hann var wtskufadur af Himne. Gud took Riett sinn af honum fyrer sialfann sig i eilijfum Kvølum; Fyrer oss syndugar Orma og Guds Ovine er þessi

frægre Sigur uñeñ; Sijnu Lijfe, sinne bitru Kvol og Dauda hefur hin eillifa Giædska til þess-kostad ad faa Herleidinguna ad Herfaange teked, Eph. 4. Og oss Sigurenn giesed. Med þessu dijrmæta Lausnar-Giallde hefur hann oss Heilagann Anda afrekad, til ad kiena oss ad þeckia Syndena, ad þeckia hid sanna Riettlæte sem er af Trwnne, og til ad Endurnya vor Hugskot, so ad vier gietum, ef vilium, Gude þioonad.

Verum þvi eige so Oþacklaater edur siaalfum oss vonder, ad vier slockvum H. Anda, 1. Thess. 5. med vijsvitande Glæpum og Illgiordum i giegn vorum Frelsara; sem oss hefur so dijru Verde keypta, og þar hañ hefur wthellt honum i vor Hiortu, fyrst i Skijrnenne, si:dann Daglega naalægt i sijnu H: Orde, ef vier forsmaaum þad ecke, þa segium ecke ad þad sie oss Omogulegt Gude ad þocknast, 1.Cor.3 Þvi hann kann alla Hlute framar ad giora, enn vier kunnum ad hugsa edur mæla, þar sem hann finnur goodañ Vilia. Þad er Slægd Diofulsins, ad hann breiter vid oss, eins og þeir sem Moyses giorde fraa sier inn i Canaans Land; þeir sogdu illa af Landenu, Num. 13. So breiter og Satan; hvar sem hann hefur vaned Hollded aa sijnar Kræsingar, þad eru Skañer og Lester, ad hann kallar þad Omogulegt Gude ad þocknast, þar hañ sie einn straangur Herra, sem ad uppskiere þar hann ecke saade, Luc. 19. Þad lijgur þu Satan! Þvi fyrer utañ þad, ad allt hvad vier giorum, er ecki utann Haalfverk, sem Postulenn vottar, 1. Cor. 13. og verdur þad so af Gude þeiged; þa styrker Andenn vorn Vanmaatt, segier Paulus, Rom. 8. Og hann bregdst alldrei þessum sem bidia uñ hanns Adstod, og allt hvad vier giorum gott, ef so maa nockurt heita, af þvi vier giorum, þad er hanns Verk i oss, hann verkar þad ad Guds Bodord eru eige þwng; 1. Joh. 5. Hvar fyrer? Þviad Elska Guds er wthellt i vorum Hiortum fyrer H. Anda, sem oss er giefenn, Rom. 5. Hann giorer Christi Ok sætt, og hanns Byrde lietta, Matth. 11. Hvar fyrer? Þviad Elskann til JEsum yfervinnur alla Hlute, og þad er eins og St. Paall segier: Eg formaa alla Hlute fyrer hann, sem mig maattugann giorer, Christum, Phil. 4. J Christelegu Lijferne er miklu meire Glede og Unadsemd, jafnvel i þessum Heime, helldur enn i allskyns Fullsælu Veralldarennar; Enn ef vier eige til þessa finnum, þa velldur þad þvi, ad Vane Syndareñar er allt ofrijkur i oss vordenn; Reynum til fyrst og tokum til ad beriast Kallmannlega, siaaum til hvort vier ei finnum Adstod H. Anda, og þegar vier fyrer Guds Naad hofum yferunned, hvad aan alls Efa skiedur, ef vier leggium nockurn Hug aa vort Maal, þa munum vier ecke vilia umskipta þott allur Heimurenn i Bode være, og kalla Strijded lijtels verdt hiaa þeirre Glede er vier finnum i Vinaattu Guds, og i goodre Samvitsku; enn þad maa eige undanndraga, Christenn Madur! Tef ecke ad snwa uñ til DRottenns, segier hinn gamle Syrach. 5. Cap. og skioot þvi ecke aa Frest Dag fraa Deige. Giorum oss vidskila Ogudlega Verolld þessa og hennar Athæfe; strax sem Andenn kallar til vor af Opennberingar Bookenne s:giande: Gaanged wt af henne, mitt Foolk, ad þier verded ecke hluttakande i hennar Syndum, og medtaked af hennar Plaagum, Apoc. 18. Og þetta letur Gud aa hvorium helgum Deige klijngia fyrer vorum Eyrum. Þegar Loth ford-

um

um Daga tafde ad gánga wt af Sodoma, þa twok Eingellenn i Hond honum, og droo hann haalfveigis naudugann wt þadan, so ad hann ecke tijndest i Baalenu med odrum, Gen. 19. O! hvørsu opt tekur hinn Naaduge Gud i Hond vora med Krossenum, med Eptterdæmunum, med hinum straungu Logmaalsins Hootunum, og dregur oss nauduga wt af vondre Verolldu þessare, ad vier ecke fyrerforunst med henne. Loth beidde Leifes ad hann mætti bwa i Zoar, sem var naalæg Sodoma, Gen. 19. Enn hann tafde þar ecke leinge, hefur og ecke þorad, Sokum þess hrædelega Straffs, er kom yfer hinar Borgernar. Giør slijkt hid sama, Barn Guds! Þegar þu ert Einusinne, fyrer Guds Naad, wtgeingenn fraa Heimenum, sem er riett ein Sodoma, þa stadnæmst ecke i Naagrennenu, þad er, kappkosta ad deyda aldeilis hinar fornu Gyrnder; Rek wt Ambaattena, Gal. 4. þad er, spnndumspillta Naatturu, med Gyne hennar, vondum Vana, ad so miklu Leite sem þier er mogulegt. Drep hinn gamla Manneñ, so ad Christur meige i þier lifa, annars er hætt vid, ad þoott Zoar sie lijtil, þa kunne hun ad verda ad Sodoma fyrer Naagreñis Saker, og þig meige aptur laanga til Kiøt-Katlanna i Egyptalande. Og hefe eg nu so talad um þetta Þrefallda Embætte H. Anda, hvad eg hygg Guds Orde samhlioodande vera, og under þvi er falenn allur vor Christenndoomur, sem er, i Fyrstu ad þeckia Syndena til ad ydrast; JEsu Christi fullkomna Riettlæte, til þess ad trwa ad oss verde hun fyrergiefenn; Og Doom Andskotans, til þess ad afneita honum og ollu hanns Athæfe: Og haanger þetta so hvort af odru, ad eckert maa annars missa, ef vor Christenndoomur aa fullkomenn ad vera. Enn, þu vor Gud, sem rijkur ert af Naad, kieñ þu oss ad þeckia Synder vorar, og ad ydrast þeirra af ollu Hiarta, og nær þu reiser oss aa Fætur aptur wr vorû Dupte og Osku, med Trwnne aa þinn Eingieteñ Son, þa gior oss hinar fyrre Synder so leidar, ad vier stuggum vid þeim, so sem annare Opeckt, enn kienn oss ad lifa sparsamlega, Gudrækelega og Riettferduglega i Heime þessum, ad vier mættum Ostraffannleger finnast i Tilkomu JEsu Christi vors Frelsara, og af honum innleidder verda i hid fagnadarsæla Lambsins Brwdkaup. Gief oss þar til þiñ H. Anda,
Naaduge Fader, fyrer þañ sama þiñ Eingieteñ Son
JESUM Christum, Amen.

# Fimta Sunnudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 16. Cap.

OG JEsus sagde til siña Læresveina: Sañlega, Sañlega, selge eg ydur: Hvors þier bidied Fodureñ i mijnu Nafne, Þad mun hañ giefa ydur. Hijngad til hafed þier Einskis beded i mijnu Nafne; Bidied, þa munud þier medtaka, so ad ydar Fognudur sie fullkomlegur. Þetta hefe eg talad i Ordskvidum til ydar; Saa Tijme kiemur, ad eg tala eige leingur i Ordskvidum til ydar, helld-

helldur mun eg kuñgiøra ydur Opeñberlega af mijnum Fødur. A þeim Deige munud þier og bidia i mijnu Nafne. Og ecke segie eg ydur, ad eg mune bidia Fødureñ fyrer ydur, Þviad sialfur Fadereñ elskar ydur, af þvi þier elsked mig, Og trwed þad, ad eg sie af Gude wtgeingeñ. Eg em af Fødurnum wtgeingeñ, Og komeñ i þeñañ Heim. Eg fyrerlæt og aptur þeñañ Heim, Og fer til Fødursins. Og hañs Læresveinar segia þa til hañs: Siaa, nu talar þu Berlega, og mæler aungva Ords-kvidu. Nu vitum vier, ad þu veitst alla Hlute, Og þu þarft eige ad nockur spyrie þig. Fyrer þad trwum vier, ad þu siert af Gude wtgeingeñ.

## Exordium.

DROTTENN Gud þinn er Einn Fortærande Elldur, sagde Moyses Fordum Daga vid Israels Sonu, Deut. 4. Kvijda mætte Einn Aumur Syndare fyrer, sem eckert annad giorer enn ad forþiena Daudann, ad koma fram fyrer so Dijrdarfullann, so Ognarlegann Gud, hvors Reide ad brennur yfer þeim sem hann hatar, allt til nedsta Helvijtis, Deut. 32. Hverneg mun Eitt Haalm-Strаа, Eitt Vatns-Boola, kunna ad bwa vid soddann einn fortærande Elld? Þo skulum vier fram fyrer hann koma, þvi hvor vill dyliast fyrer hanns Auglite? Nu þoott ad þad vitanlegt sie, ad vorar Synder adskilie millum vors Guds og vor, Esa. 59. þa hrоopadst þo Fader Myskunsemdanna; Komed til mijn aller þier sem Erfided og Þwnga erud þier, eg vil Endurnæra ydur, Matth. 11. Hvar fyrer þoott ad Gud sie einn fortærande Elldur, sem Paulus ad Orde kiemst, Hebr. 12. þa meigum vier jaata þad um oss satt ad vera, er hann skrifar Ebreingum til, i sama Brefe og sama Cap. Þier erud komner til Fiallsins Zion, og Borgar Guds Lifanda, Jerusalem hinnar Himnesku, og til margra Þusunda Einglana; Af hvoriu vier siaaum, hvad miked oss er veitt i Christo JESU DRottne vorum, Ad vier, sem fiærre vorum, hverra Fedur ad voru aan Guds i Heimenum, Eph. 2. Vier erum fyrer hann vordner Guds Heima-Menn, og vor Borgar-Riettur er aa Himnum, so sem Paall segier, Phil. 3. Enn med hveriu Moote saaum vier þa Sauckugar Manneskiur hellst nærre komed þessum Guddoomsins Dijrdar-Lioома, sem ad bijr i þvi Lioose sem eingenn fær til komest? 1. Tim. 6. Þad skiedur i hanns H. Orde og Sacramentunum, enn ecke sijdst i einne audmiwkre Christens Manns Bæn, þar hinn Vesæle talar vid hinn Vollduga, hinn Lijflause vid Doomarann, Þrællenn vid HErrann, Einn Syndugur Ormur vid Himens og Jardar Skapara, so sem þa Madur vid Mann talar, og einn Vinur vid annann, Exod. 33. hvar einn Harmþrwngenn og Syndurkeannenn, Ande þreinger sier i giegnum Skijenn med Ovmræde-leguin Andvorpunum fram fyrer Guds Tignar-Stool i Himnenum, og verdur af honum Bænheyrdur, so ad Himnarijke lijdur Ofrijke, Matth. 11. Og til þessa Samtals bijdur oss nu hier i Dag Eingell hinns mikla Raads, þar hann segier hier i Gudspiallenu:

allenu: Sannlega Segie eg Ydur, Hvors Þier Bidied Fodurinn i Mijnu Nafni, Þad Mun Hann Giefa Ydur. Enn hier er nockur Vandi aa, Br. M. sem er, ad vier hogum so Bæninni, ad vier sieum visser um Bænheyrsluna, og finnum til hennar (þvi hanns Fyrirheit bregdast alldrei). Þvi vil eg nu tala nockud þar um aa þessu Stundarkorni, hvornig Bæniñi eigi haattad ad vera; Og er sierdeilis i þvi Tvennt ad athuga, sem er, 1. Ad hun sie Heit og Alvarleg. 2. Ad hun framkomi af Trwudu Hiarta. Eñ hann, sem alla Hluti kann framar ad veita, eñ eg kañ fyrir ad mæla, hann styrki oss hier til med Naad sijns Anda, fyrir JEsum Christum, Amen.

## Utleggingeñ

Þegar vier vilium Offra Gudi Bænum vorum og Þackargiordum, þa hugleidum fyrst allra, hvorsu skielfeleg Haatign þad er, sem vier komum fyrir, sem er Konungur Konunganna og DRottiñ Drottnaña, 1. Tim. 6. sa ad er allrar Veralldarinnar Doomari, Gen. 18. og i hvors Augum ad Himnanna Himnar eru ecki hreinir, Job. 15. So laangt er fraa þvi, ad nockurt Saurugt meigi nærri honum koma, þegar hann reidur er, enn vier erum aller so sem sa Ohreini, segier Esajas. 64. Cap. og jafnvel vort Riettlæti er so sem Nidlags Fat. Hvad hellst sem ad snertir þetta Fiall, þad skal Dauda deya, þar skal einginn Hond snerta þad, añars skal þad grijtast edur i Hel skotid verda, hvert helldur þad er Madur edur Kvikindi, sagdi DRottinn Fordum vid Moysen, undir þad hann wtgaf sitt H. Logmaal aa Fiallinu Sinai; Exod. 19. So hrædilegt, so Ognarlegt er hanns Tignarvelldi, þegar hann vill þad sijna. Nu vilium vier segia, ad hann sie blijdkadur fyrir Sonarins Forþienustu, sem satt er, eñ þess er ad giæta, B. M. ad þeim einum mun hann blijdlega taka, sem fyrir Christi Blood framkoma, Eñ þeim einum mun Christi Blood og hanns Forþienusta þar til gagna, sem hennar leita med Angraadu og Sundurknosudu Hiarta. Laat þier þvi til Hugar koma, syndugur Madur, þegar þu fellur fram fyrir Gud i þijnum Bænastad, hvilijkur Haaski þad sie ad koma nærri þessum brennandi Elldi, nema þu aadur so tilreiddur siert, ad þu faair hann slocktann med Taarum þijns Hiarta. Þegar þu hefur nu Ihugad hvilijkur ad Gud sie, og hvorsu reidur Syndsamlegu Athæfe, þa athuga hvilijkur ad ert sialfur þu, Molld og Aska, so sem Abraham sagdi, Gen. 18. Gietinn og fæddur i Syndinni, Ps. 51. Og af Nattúruñi til Reidinnar Barn, Eph. 2. Ad sonnu Endurfæddur i Skijrniñi fyrir Christi Blood og Guds Vinur kalladur: Enn hvorsu opt hefur þu nu rofid þiñ Skijrnar Saattmaala, og ecki lokid þijn Særi hinum allra hærsta? Þu hefur verid bwinn til ad giora allt þad sem hann hefur bañad, og nærsta tregur til ad framkvæma þad hann bodid hefur, og hafi Guds Naad verkad nockud Gott med þier, þa hefur þad þo af þinni Hendi verid Ofullkomid, og gietur aungvanveiginn stadist i hañs Augliti, sem er fullkominn og heilagur; So laangt er fraa þvi, ad þad meigi sambiooda þvi Illa, sem þu giort hefur, edur afplaana þad, þvi þu giordir þo eckert annad enn þad þu aattir ad giora, Luc. 17. Og er þo vel, ef þad so er, þegar þu hefur hvad bestur verid; Eñ reikna nu upp med sialfum þier

allt Ydiuleysi i Guds Vijngardi, alla Hiegooma Þaanka, øll Onytiu Ord fyrir utann
Stoor-Glæpina, ogudlegann Verknad, Ord og Huxanir. Og þoott ad Guds Reidi
og hanns Doomur sie enn nu ecki felldur yfir þijnar vidurstyggilegar og Klækiafullar At-
hafnir, þa er hann ecki þier lijkur, þoott hann siaai þad og þeigi, Ps. 50. Helldur er þad
annadhvert, ad hann med Þolinnmædi siñi vill draga þig til Ydrunar, Rom. 2. Ellegar
og ad hann lætur þig vaxa til Kornskieru Tijmans, þar til þu, aasamt hinu Illgresinu, verd-
ur upphøggvenn og i Elld kastadur, Matth. 13. til ad giallda honum þar, med Eilijfum
Pijslum, þad sem þu ecki villdir lwka honum hier i Naadinni med Angri þijns Hiarta,
og Aflaati vondra Verka, aa medann þar sagdist enn nu i Dag, Ebr. 3. Ber nu allt þetta
samann vid hanns Guddoomlega Haatign, nær þu villt bidiast fyrir; hversu hañ er Volld-
ugur enn þu Vesæll, hann heilagur, eñ þu allur i Synd, hann hreiñ enn þu hefur saurugar
Varir: Og þegar þu þetta giørir med Athygli nockuri, þa er lijklegt ad þier muni helld-
ur enn ecki renna i Skap vid siaalfann þig, ad þu syndugur Ormur hefur so moodgad
hann, aa hvors Foot-Skør þu liggur, og Valld hefur til ad spyrna þier med Lijfi og Saalu
ofann i eilijfann Elld, Matth. 10. Og framar þessu, þaa hugleid hanns Giædsku vid þig
framkomna; Þviad þu ottist alleina hanns Makt og Velldi, þad er Þrælls Otti einn, er
jafnvel Dioflarnir hafa og skielfast þar af, Jac. 2. Enn þoott hañ sie ecki Onijtur Mañ-
enum, sem alltijd aa afturkvæmt til Guds, ef hann ydrast, og er i þvi øllu betur varid enn
Dioflunum, þa er hann þo ecki einhlijtur til Saaluhiaalpar, þvi Menn eiga ecki einungis
ad Ottast Gud, helldur ad elska hann einnig, og kiemur Ottinn hellst af Ihugan hanns
Maattar og Riettlætis, enn Elskann af Tilfinningu hanns Giædsku.

Vilier þu þvi audmykia þig fyrir honum wt af Hiarta i Bæninni, þa laat þier i Hug
koma, hvilijkur þu varst, þegar þier var kastad inn i Heiminn so sem ødru Hræe, i And-
legann Maata daudum i Uppruna Syndinni, og hvernig hann hefur þig med Vatni og
Anda endurgietid i Skijrninni, Joh. 3. Til einnrar lifandi Vonar, 1. Pet. 1. Og
giort þar vid þig Saattmaala goodrar Samvitsku, 1. Pet. 3. Eg vil eigi faa mier þad
til Orda, hversu ad hann goodur er, og ad hanns Myskunsemi varir eilijflega, Ps. 118.
Og ecki einasta fædir allar lifandi Skiepnur, Ps. 145. Helldur og Manninn, hver ed, af
siaalfum sier til, er hinn allra Versti og Obackláatasti af øllum Guds Handaverkum, sem
hann er yfir skipadur. Og þoott ad vier allt þetta heimtum af honum, so sem med Siaalf-
Skylldu, og møglum þegar nockud kann ad bresta, þa minnist hann ecki aa vorar Illgiørd-
ir, ecki aa þaa Glæpina, sem ad hanns eingietinn Son kvalid hafa, helldur aa sijna miklu
Myskunsemi, sem verid hefur i fraa Upphafi, Ps. 25. Og aalijtur Forþienustu Sonar-
ins, hveria Syndarinnn þo margoft forsmaair, og svifti oss ecki i burtu midt i voru Ogud-
legu Athæfi, til þess ad hann faai dreigid oss til Idranar, Jaa, sparar margann þann,
sem hefdi forþienad ad eiga Saalu Fielag med Core Dathan og Abiram, hveria Jørd-
inn svalg i sig lifandi, Num. 16. Af þvi þeir forsmaadu hanns Bodord. Laat þessa O-
umrædilega Giædsku þijns Skapara smellta þitt Hiarta, nær þu kiemur fram fyrir hann

ad bidia þier Fridar af honum, er þu so stoorkostliga hefur til Reide reitt, og Daglega moodgar, og hallt þad fyrer vijst, ad þu muner Eyrendislaus fara, um̃ hvad hellst sem þu bidur, nema þu fyrst af Alvoru bidier um̃ Kvittun Syndanna, þvi hier um̃ ma eg segia þad sem hann sagde, er blindur var borenn og JEsus læknade, Joh. 6. Eg veit ad Gud Bænheyrer ecke Synduga: og meinte hann ecke þar med Heidingia og Ogudlega Menn. Eñ hvad skulum vier segia? Þar er eingenn Christenn so Heilagur, ad hann sie ecke Heidingium verre, nema hañ þigge Kvittun Syndanna af Gude med sannre Ydran, þvi hañ veit Veigenn til Lijfsins og geingur hann ecke, Luc. 12. O Rottenn hafde þann Formaala fyrer þeim Hœlsvisna er þaade Heilbrigde Lijkamans af honum: Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, Matth. 9. Enn miklu sijdur meigum vier odlast Lækning Saalarennar, nema vorar Synder verde i burtu teknar. Og þessar Hugrenningar ættu nu ad bleita vort Hiarta fyrer Gude, þegar vier offrum honum vorum Bænum, so ad ecke hende oss þad, sem David bidur hinum Ogudlega, Ps. 109. Ad hañs Bæn verde ad Synd; Hvad þo aan Efa skiedur, nær vorar Bæner eru eige nema Flapur Munnsins, og ecke af Root Hiartans. Eg vil eige um̃ þad tala, hvada Þorf ad Syndarenn hefur aa ad bidia Gud. Vitum vier ecke, ad allar vorar Lijfs og Saalar Heiller þær hanga alleina af hañs Myskunseme? Hvad er Madurenn? Ein Vatns-Boola, Ein Gufa, er siest um̃ Stundarsaker og hiadnar sijdann, Jac. 4. Enn hve miklum Hœska er þesse Vatns-Boola, þesse Reikur underorpenn? Þar er ecke so vesæl Skiepna i Heimenum, ad eige kunne hun ad vinna oss Mein, nema Gud sæe fyrer Raade voru:. Ein Mijfluga kann ad taka af oss Lijfed, þad vier etum og dreckum kann ad saalga oss, ef til vill, enn hvad vilium vier þa tala um̃ hina Megtugu Ovine Saalna vorra, Dioful enn, sem er Þusund Viela Smidur, Heimeñ, sem er hanns Eyrends-Reke, og vort eiged Holld, hvers Gyrnder ad i moote Saalunne strijda, 1. Pet. 2. Hvernig kunnum vier þessum ad veriast, nema med Bænenne? Vier siaaum þad aa hinum Bænarlausu, hvoria Gud hefur yfergiefed i fraaleitt Sinne, og einkis svijfast ad giora Gude aa moote, sleppande Taumunum vid Andskotann, Heimeñ og sitt eiged Holld, leifande þvi sijnar Gyrnder ad rækia, Rom. 13. þar til þeir um̃ sijdir af þvi Skadsemd, Jaa, eilijfa Fyrerdæming uppskiera, Gal. 6. Og þvi munde Endurlausnarenn leggia so rijkt aa vid sijna Læresveina um̃ þenna Hlut, hefde hann eige vitad, ad þeir mættu ecke þess aan vera, ad bidia? Vaked og bidied, so þier falled ecke i Freistne, Matth. 26. Og aptur, Vaked og bidied, þvi þier vited ecke nær Tijmenn er, Marc. 13. Nu kann einhvor ad þeinkia: eg giet ecke ydrast Syndanna, og ecke rækelega edur heitt beded, nema Gud giefe mier þad, og verd eg þad af honum med Bæn ad þiggia i fyrstu, enn þa er eg syndugur, kalldur og hardur og i allañ Maata illa skickadur til ad bidia Gud. Allt kañ þetta satt ad vera; Eñ seig mier, Christenn Madur, Gietur þu ydrast þess er þu tilgiorer Monnunum? Vijst gietur þu, þad siaa Meñ jafnvel aa morgum Skaalk, ad hañ ydrast epter, þegar hañ er bweñ ad fremia Glæpeñ; Þvi skyllder þu þa ecke laata þig aangra þad þu hefur Gude aa moote broted, ef þu nenn-

ter einhvorn Tijma ad hyxa um̃ Framferde þitt og Guds Riettlæte. Gietur Stoorbro-
ta Madurenn beded Konungenn um̃ Lijf sitt? Edur sa Hwngrade um̃ Mat? Þad gieta
baader þeir, og þad af Alvoru, Jafnvel med grætande Taarum. Hvad mun þvi vallda,
ad þu gietur ecke beded hinn Almaattuga Gud þannig? Þad gaatu þo Heidingiar, þeir
Taarudust fyrer sijnum Afgudum, þegar Hwngur edur Drepsoott þrijste þeim þar til, so
ad Livius skrifar, ad jafnvel þeirra Hofdings Kvinnur hafe soopad Goda-Hofenn med sij-
num Haar-Lockum, med vidlijkre Atferd, þoott Olijku sie samann ad jafna, so sem þegar
hin Bersynduga kraup ad JEsu Footum, og þvode þær med Taarum sijnum, og þerrade
þær med Haar-Lockunum, Luc. 7. Nu er oss Christnum Moñum i slijku ollu betur vared,
þar vier hofum medteked Heilagann Anda i Skijrnenne, so ad eg þore ad segia, ad þar er
eingenn til Vits og Ara komenn, hvers Hiarta ad Guds Ande hafe ecke einhvorn Tijma,
Jaa, optlega snert og skored med Þeckingu Syndanna og sijns eigenn Overdugleika; enn
hvad velldur þvi ad hier er ecke meira af vorded hiaa sumum? Þad, ad vier hyrdum ecke
um̃ ad foostra Andann med Bænenne, miklu helldur slockvum hann med Ogudlegum
Þankum, so hann fær ecke Rwm i oss, þeirra Hluta vegna, sem honum eru so gagnstæd-
er, og hann hefur Andstygd aa, siñ eru Agyrnd, Ofund, Heift, Hatur, Loste, Drambseme,
Elskann til þessa fallvallta Heims, og þvilijker Giester, sem hann vill ecke eiga Samsæte
med, enn vier hofum einga Vidleitne aa ad rijma wt wr Hiarta voru, hvad þo morgum
Heidingia hefur tekest ad miklu Leite. Ecke var Hundrads Hofdingenn um̃skorenn, so
Men̄ vite, og þo verkade Gud Audmyktena og Trwna i han̄s Hiarta, Jaa, þvilijka Trw,
sem ad Hofundur Trwarennar hafde ecke funded i Israel; Enn hvern Vitnisburd hafde
þesse Madur af Olldungum Gydinga? Þad segier oss Lucas, Cap. 7. Verdur er han̄
þess (sogdu þeir) ad þu veiter honum þad, þvi han̄ elskar Þiood vora, og hefur vora Sam-
kundu uppbyggt: Ecke var Cornelius skijrdur, þegar hanns Bæner og Olmusugiorder
stigu upp fyrer Gud, Act. 10.

Siaa hier, hversu Reidubwenn ad Gud er til ad hiaalpa goodum Vilia; Laat vera ad
þijn Bæn sie kolld i Fyrstun̄e: Meinar þu ecke, ad Gud þecke ad Mannsins Þankar eru
vondir i fraa Barndoome, Gen. 8. En̄ laat han̄ fin̄a Vilian̄ hiaa þier; Sijn honum ad
þu hafer Astundan til ad bidia, og vert þess fulloruggur, ad hann mune hiaalpa þier med
Naad sijns Anda. Heidenn var hin Canaaniska, Matth. 15. Samt þreitte hun med
Bænenne vid JEsum, eige hefur hun teked þad af sialfre sier, enn þad Ord stendur stod-
ugt segier Postulen̄, 2. Tim. 2. Gud þecker sijna; Hann þeckte Hiartans Gyrnd hen̄ar
og Epterlaangan, og þvi hefur hann hiaalpad henne til ad strijda vid sig: Orvænt þier ecke
slijkrar Myskunar af honum, þar þu ert hanns Barn vordenn og Christo innplantadur i
Skijrnenne. Þu segier; Eg villde giarnan̄ af Alvoru beded gieta. Seig mier; Hefur
þu beded Gud um̃ ad hiaalpa þier til ad bidia? Þu segier: Jaa, eg hefe beded; Enn eg maa
spyria, hvad opt? Hvad marga Daga? Vikur? Maanude? Ar? Edur hversu opt
aa Deige hefur þu beded? Hefur þu þreitt vid Gud med Bænenne? Hefur þu kostad

til þess öllum Saalar og Lijfs Kroptum ad bidia? Vera mꜳ ad so sie, enn eige trwe eg þvi, ad þu siert þa ecke Bænheyrdur, og finner þu ecke til þess, þa er ad vijsu nockurs Aboo-ta vant, af þvi sem þu ꜳtt til ad leggia, þviad ef hinn Ranglꜳte Doomare, sem JEsus tekur Dæme af hiꜳ Lucam, Cap. 18. Ef hann liet þo sigrast af Eckiunnar Bæn til ad giora henne Riett, þa gior þu ecke Fodur Myskunsemdanna, 2. Cor. 1. þann Oriett, þad þu ætler, ad hann sie hardwdugre, enn þesse Gudlause Madur var. Miñ Tijme er eñ þa ecke komeñ, eñ ydar Tijme er jafnann til Reidu, sagde Lausnarenn, Joh. 7. Mad-ureñ er nockud gruñsær til þess, ad skignast i Underdiwp Guds Leindar-Raads, edur ad þeckia Tijma og Hentugleika, sem Fadereñ hefur i siñe Hende, Act. 1. Þu segier: ÓRott-enn baňade sijnum Læresveinum ad bidia mörgum Ordum eins og Heidingiar, Matth. 6. Þad giorde hann blessadur til ad vorkyňna þier og mier, þvi hann visse, ad Hiarta Mann-sins er frasnwsd Gude, enn fwst a Hiegoomann. Eñ ecke misþocknast honum lꜳngar Bæner, þær sem af trwudu Hiarta framkoma; Þess vegna var haň og siꜳlfur allar Næt-ur ꜳ Bænum, Luc. 6. Þar fyrer segier og Lucas, 18. Cap. Ad haň hafe framsett þessa Epterlijking uṁ Doomaraň til þess, ad þeim byriade ydugleg ad bidia og ecke Toomlꜳt-um ad vera. Eg segie ecke helldur, ad þu skuler so miög leinge i einu bidia, þvi Illska Mañ-legs Hiarta þoler þad ecke, enn bid þa þess optar, og heiter þad samt ydugleg ad bidia. Þu segier; Eg fæ eige vid þvi giort, ad mier flwga i Hug marger annarleger Þꜳnkar, nær eg bid: Þad er illt; Bid Gud ad taka slijkt frꜳ þier, ad ecke verde þijn Bæn ad Synd, þvi soddann er ad vanhelga hina bestu Guds Þioonustu. Enn seig mier; Þegar þu lijdur Hwngur og Þorsta, edur hefur Brest a Lijkamlegum Munum, gietur þu þa ecke bedid so ad þu ecki uṁ annad hugser? Ad vijsu gietur þu; Enn trw þu mier, ad hid sama munde verda, ef þu lieter þig hwngra og þyrsta epter Riettlætenu, Matth. 5. Hvad þu muňt brꜳdlega odlast, ef þu af Hiarta rannsakar, hversu stooraň Skort þu hafer ꜳ þeir-re Hroosan, sem fyrer Gude gyllder, Rom. 3. Og hver sem ad þessum Veikleika er undervorpeñ, honum vil eg rꜳda til, ad bidia helldur optar, eñ leinge i einu; Þvi nockud af slijku kann ad Ordsakast af Skapsmunum, sem ecke er so hægt vid ad giora, Jafnvel þoott Guds Kraptur kunne alla Hlute ad verka i þeirra Breyskleika, sem hann af Hiarta Ottast, og eingenn Efe er ꜳ þvi, ad sꜳ sem elskar Gud uṁfram alla Hlute, hann hefur Ynde af þvi ad tala vid hann i sijnum Bænum, og þarf ecke stoorum ad þvijnga Nꜳttur-una þar til, þegar haň hefur fyrst eignast Elskuna ꜳ Gude, og hann kann alldrei ad vanta Orsok til ad bidia Gud; Elskann minner hann ꜳ sierhvorn Guds Velgiorning til Þack-lætis, ꜳ siñ eigenn Vanmꜳtt til ad bidia uṁ Hiꜳlp, ꜳ sijnar Synder til ad ydrast þeir-ra, og ꜳ Guds Dꜳsemdarverk honum til Lofgiordar; Svo ad þoott ecke hafe haň lꜳng-ar Bænagiorder, sem og kaňskie eige leife sumra Maña Uṁsvif og Aňrijke, Jafnvel þoott Eitt ætte ad vera Naudsijnlegt, Luc. 10. Þa samt bidur hann Oaflꜳtannlega, og er þol-ugur i Bænenne, epter Bode Postulans, Rom. 12. Hver þegar hann Jklæder Riett-trwadaň Maň, Guds Herkrwda, Eph. 6. Þa giefur hann honum þessa Yferhofn ad

Endingu, segiande: Med allre Bæn og Fyrerbeidslu, bidiande a hvorium Tijma i Anda, og verande arvakrer til þess sama med ollu Þolgiæde. Og er nu so so wt-talad um þad Fyrra er eg hiet a ad minnast. Enn þad Sijdara epterfylger med faam Ordum af ad segia.

Ecke þyrste Riett-Christenn Madur annad til þess ad taka fra Saalu sinne allañ Efa um Bænheyrsluna, helldur enn þesse Blessud Ord, er vor Endurlausnare hier talade til sinna Læresveina: Hvors Þier Bidied Fodurenn J Mijnu Nafne, Þad Mun Hañ Veita Ydur: Enn fyrer þvi ad JEsus talade þetta til sinna Astvina, hvorium hañ gaf þann Vitnisburd, ad Faderenn Elskade þa, af þvi þeir Elskudu sig, Joh. 16. Þa kynne Syndaranum, sem Daglega reiter Gud til Reide, ad fliuga i Hug, ad þetta Blessada Fyrerheit naae ecke til sijn, þviad hann sie þess Overdugur; Enn eg mun framveiges sijna, ad þad ollum þeim tilheyrer, er hanns leita med angrædu Hiarta, ollum þeim er hañ bidia i Anda og Sannleika, Joh. 4. Ollum þeim, sem eru stadfaster i Bænenne, Rom. 12. So sem eg nockud umtalade i hinum Fyrra Parte Rædu minnar. Þad kienner JEsus sialfur oss, er hann sagde i Bænenne til sijns Himneska Fodur fyrer Læresveinunum: Eg bid ecke einasta fyrer þeim, helldur og fyrer þeim, sem fyrer þeirra Ord munu a mig trwa, Joh. 17. Guds Sonur kom ecke i Heimenn til þess ad kalla Riettlaata, helldur Synduga til Ydrunar, Matth. 9. Þvi vill hann allar ydrande Manneskiur Bænheyra, og hvad meira er, ad þar er meire Glede i Himnenum yfer einum Syndara sem Ydran gierer, helldur enn yfer Niju og Nijutijgu Riettlaatum, Luc. 15. Ecke homludu Syndernar Hoor-Konunne, sem Judar villdu grijtt hafa, ad faa þeirra Kvittun hia Guds Syne Fordum, er hann sagde vid hana: So fordæme eg þig eige, Far burt og syndga eige framar, Joh. 8. Ecke bægdu Syndernar Tollheimtumannenum fra ad gaanga Riettlaatare heim aptur i sitt Hws, helldur enn Phariseenn, Luc. 18. Ecke leit JEsus til Synda hinna annarra Tollheimtumañanna og Bersyndugra, ad hañ ecke þar fyrer æte og drycke med þeim, Matth. 9. Hvar fyrer? Af þvi þeir ydrudust Syndanna. So er þad nu vijst, ad Syndenn gietur ecke hindrad Bænheyrsluna, þegar hun er jaatud fyrer Ydranena, og afþveigenn fyrer Forþienustuna, þvi þad Ord blijfur Æfennlega stodugt: Hvorn þann sem til mijn kiemur, vil eg ecke fra mier reka, Joh. 6. Nu þoott ad þessu sie so vared, Br. M. þa eigum vier ad gæta ad, hvar um vier bidium, ef vier viljum ad Trwenn sie bygd a hinum rietta Grundvelle, og ad vier ecke bidium af Gude þeirra Hluta, sem annadhvert i sialfum sier eru Oleifeleger edur oss skadleger, so ad vier ecke reyngium Sannsogle Guds, þoott vier ecke Bænheyrder verdum, nær vier þanneg bidium. Þad sem vier eigum um ad bidia, er annadhvert Lijkamlegt edur Andlegt. Um Lijkamlega Hlute eigum vier med Fororde ad bidia, so sem vier optlega heyrt hofum, þad ber til þess, ad vier ecke vitum hvors vier eigum ad bidia, vier meigum og ecke alls þess bidia af Lijkamlegum Hlutum, sem Hollded edur Lijkamenn heimtar; Riett er ad bida um Heilsu og Heilbrygde, Fot og Fæde, Vernd og Vardveitslu fyrer Lijkamlegum

um

um Ovinum vorum, Luckuog Framgaang i voru Ervide, Þviad allt þetta a ad skiliast under Daglegu Braude i DRottennlegre Bæn, enn um allt þetta a med Fororde ad bidia; Þvi jafnvel þott ad ecke sie þad lagt til hiñar Fioordu Bænarennar, þa stendur þar þo strax fyrer framann: Verde þinn Vilie so a Jordu sem a Himne; so ad ef hinum gooda Gude, sem veit hvad oss er fyrer bestu, ef honum þocknast ad vier skulum hafa nockurn Brest a þessu, a Heilsunne, a Daglegre Atvinnu, ef vier hliootum Oriett ad lijda og vera Forsvarslauser i Heimenum, þa eigum vier samt aungvannveigen ad efast um Guds Trwfeste, þvi hann hefur aan Efa heyrt vorar Bæner, þar eckert hender oss aan hanns Vilia, og komande mun hann koma og ecke tefia, Hab. 2. Og þetta a ad vera Grundvollur Trwar vorrar þegar a moote blæs; Þvi ef vier vilium i þvi Bænheyrder verda, ad hanns Vilie verde a oss, so sem i ollu odru, þa eigum vier ecke ad vantreysta þvi ad vier sieum Bænheyrder, þoott oss nockud vante, og þad þess sijdur, ad værum vier aan Typtunar, hverrar aller eru Hluttakande vordner, so sem Paulus segier, Heb. 12. (hann meinar Guds Viner) þa hefdum vier Orsok til ad efast um, hvert vier værum af honum elskader edur eige; Þvi hvern þann Son sem hann elskar þann agar hañ. Paulus segier enn aptur: Ad vier værum aumaster allra Manna, ef vier trijdum alleina a Christum i þessu Lijfe, 1. Cor. 15. Enn eg vil þvi vid bæta, ad vier værum og allra Maña heimskaster, ef vier elskudum Gud, alleina fyrer þessa Heims Velgeingne, eins og hann hafe ecke Þusundsinnum betra tilbwed þeim sem hann elska, 1. Cor. 2. Þar er ecke nema Svikræde a þeim Hædunum, sagde Jeremias vid Juda, Cap. 3. Talande um Skwrgoda Hofenn; Og so er þvi vared um Velgeingne þessara Tijma, þegar hun geingur sem hædst, þa er hun a Stundum eige nema Svik og Pretter, hvoria þo margur Daare giorer ad sijnum Gude, edur, ad minnsta Koste, þeir sem Gudhrædder þykiast vera, elska hinn saña Gud, alleina fyrer þa Hlute, sem hann jafnvel giefur Ovinum sijnum, og verda þeim Orsok til eilijfrar Glotunar, sem þad misbrwka. Þar fyrer Ottast eg, ad þeir sem alleina elska Gud fyrer slijka Hlute, ad þeir elske hann ecke Riettelega, Jafnvel þoott hañ eige fyrer allar sijnar Gaafur ad elska; Eg veit og hvorge i Ritningunne boded ad Menn skule bidia um mikenn Veralldar-Aud, edur Metord, og allra sijst um Fall edur Slis Ovina sinna, er margur heiptrækur virder þo meir enn stoora Fiesioodu, Jaa, kostar ollu þvi hañ a til ad svala Giede sijnu a þeim hann hatar. Miklu helldur sie eg, ad Gude fiell vel i Gied Bæn Salomonis, er hann beidde hann um Speke til ad dæma Foolked med. So veit eg nu hvorke leyst nie boded i Guds Orde, ad bidia um þvilijkt, og ecke er þad i hiñe stuttu, enn þo fullkomnu Bæn, sem DRotteñ hefur oss epterlaated: Gief Oss i Dag Vort Daglegt Braud; Þad er hanns Atkvæde, hvad Paulus best wtleggur, 1. Tim. 6. Nær vier hofum Fæde og Klæde, þa verum a nægder þar med. Miklu helldur sie eg hitt boded, ad Menn eige skule vera hugsiwker um, hvad þeir skule Eta edur Drecka, edur hvoriu vier skulum klædast, þviad vor Himneskur Fader veit ad vier hofum alls þessa Þorf, Matth. 6. Jaa, ad vier skulum leita fyrst Guds Rijkis og hanns Riettlætis, þa mune

oss

oss allt gott til-leggiast; Þvi eigum vier ad trwa, þvi Gud kann ecke ad liwga, og gyrnast eige framar, vilie Gud veita oss meira, þa tokum þad med Þacklæte, og brwkum so, ad vier sieum rijker i goodum Verkum, epter Postulans Bode, 1. Tim. 6. Og saa sem nu bidur Gud um Tijmanlega Mune, hann hafe þetta fyrer Grundvoll Trwar sinnar, og þeinke under eins til þess, er Jacob skrifar; Þier gyrnest og þier hafed þo ecke, þier osunded og metest, og megned þo ecke ad hreppa, þier strijded og beriest, og hafed þo ecke, af þvi þier bidied ecke, þier bidied, og faaed þo ecke, af þvi þier bidied illa, til þess ad þier hafed til ad kosta uppaa ydvarn Munad, Jac. 4. Hvad hinum Andligu Gaafunum vidvijkur, Trwnne, Vonenne, Þolennmædenne, Kiærleikanum og ödrum goodum Dygdum sem þar af spretta, þa eigum vier þeirra ad bidia aan Forords; Hvar fyrer? Þviad þar af maa allann Efa draga, ad þær eru Gude þacknæmelegar; Þad er Vilie Guds ydar Helgun, segier Paulus, 1. Thess.4. Enn vor Helgun gietur ecke framkvæmst nema fyrer H. Anda; Þar fyrer, hver sem vill Heilaglega og Christelega lifa, hann bidie Gud af ollu Hiarta um sinn Anda, og trwe Ordum Frelsarans aan allrar Efaseme, er hann sagde: Ef ad þier, sem vonder erud, kunned ad giefa Börnum ydar goodar Gaafur, þvi mun ecke Fader minn Himneskur giefa þeim Heilagan Anda er hann þar um bidia, Luc. 11. Hier um talar so Jacob Postule, Cap. 1. Enn ef nockur af ydur þarf Skynsemdar vid, þa bidie hann Gud, hver ed giefur öllum Einlæglega, og telur ecke epter, og mun honum giefed verda: Enn bidie hann i Trwnne, Efande um eckert. Hver er þesse Skynseme, er Jacob talar hier um? Þad er aa þeim Hlutum, er hann framann til i sama Cap. eggiar Christna Menn aa, segiande medal annara, v.2. Hallded þad fyrer hinn mesta Fögnud, Bræd ur mijner, þegar þier falled i adskiliannlegar Freistingar: Og þoott hann meine hier sierdeilis wtvortis Mootlætingar, þa verdur þo Guds Börnum hid mesta Mootlæte, ad þeirra eigenn Holds og Bloods Freistingum og Tilteigingum; Enn Guddoomlega Speke H. Anda skal til þess hafa ad yfervinna slijkt, og til ad skynia hvilijkt Gagn ad Freistingenn epter sig leider, nær hun er sigrud; enn þa Skynseme er ecke ad finna hiaa Holldlegum Manne, þvi hann skyniar ecke þad sem Guds Anda er, segier Paulus, 1. Cor. 2. Og eige verdur hun feingenn nema med Bæn af Gude, og er þad nu aan alls Efa vijst, ad sa sem bidur Gud um H. Anda þar til, hann gietur ecke hiaa þvi sneidt ad verda Bænheyrdur, þvi hann, sem þvi lofad hefur, er Jehova, Mal. 3. og umbreitest ecke, og eckert hanns Ord mun aa Jordu falla. Hvad velldur þa þvi, Br. M. ad þar finnst Skortur hiaa allmorgum aa slijkum Astgiöfum Andans? Hvar er hin forna Trw? Elskann til Guds, Kiærleikenn, Þolennmædenn og adrar Christelegar Dygder? Menn verda so lijtt varer vid þær i Heimenum, so ad hætt er vid, ad Mannsins Sonur mune eige finna Trw aa Jordu, Luc. 18. nær hann kiemur, hvad af hveriu. Enn hvad mun þvi vallda, B. G.? Nema ad Menn eru so Almennelega Toomlaater i þvi ad bidia Gud um hinn Heilaga Anda, sa ed plante þesse Himnesku Aldine i Akre vors Hiarta.

So sem þad ad Gudhrædslann (þad er hinn sanne Christendoomur) er einn Hlutur, sem er

er til allra Hluta Nytsamlegur, 1. Tim. 4. So verdur hun ecki feinginn, nema med riett-trwadri Bæn af Gudi. Þetta Diofla-Kyn verdur ecki wtrekid nema med Fostum og Bænum, sagdi DRottinn, Matth. 17. um Mein hinns Tunglsiwka, hvorn hanns Lærisveinar gaatu ecki læknad, sokum Vantrwar sinnar, v. 20. Og so er þvi hattad um Þvermoodskunnar Dioful, er syndugir Menn eru plaagadir med, hann verdur ecki wtrekinn nema med Bæn og Andvarpan. Þu læst vel bidia Gud, enn hve mikil Alvara þvi fylgi, er af Bænheyrslunni audsied, þvi ecki eru Guds Fyrirheit Onijt vordinn, segier Paall. Pharisearnir villdu hafa grijtt HErrann, er hann sagdi þeim Sannleikann, Joh. 8. Enn hvorsu oft segier hann þier satt i sijnu H. Ordi um sijna Reidi, sitt Riettlæti, sitt Vandlæti yfir Syndinni, og aftur um sijna Giædsku, sijna Elsku og Myskunsemi vid þaa sem Ydran giora; Siaa til, ad þu ecki grijtir Christ DRottinns, er þu tekur aa mooti ollu þessu med einu Stein-Hiarta; Edur hvernig villt þu Bænheyrdur verda ef þu so giorir? Hvad velldur þessu, nema ad Menn rannsaka ecki Lifnad sinn, so þeir meigi ydrast, ecki rootfesta Guds Ord i Hiarta sijnu, so þeir meigi trwa, og ecki kieppast vid ad lifa þar eftir, so Menn færi Avoxt i Þolinmædi; Og þo undrast Menn, ad þeir ecki Bænheyrdir verda. JEsus kom til hinnar Samarisku Fordum Daga vid Jacobs Brunn, og beiddi hana um ad drecka, Joh. 4. Hann kiemur enn nu til Saalar þinnar i Dag, hann þyrstir eftir hennar Velferd, og gyrnist ad dryckiast af Taarum þijns Hiarta, so hann meigi giefa þier lifandi Vatn, ad þig eigi þyrsti eilijflega. Bid Moysen ad vellta Steininum af Brunninum med Hendi Logmaalsins, og mun Hofudid verda braadlega fullt af Vatni; Og þig langa eptir DRottni; sem er þinna Meina Grædari; Þvi betra er þier ad Ormur Samvitskunnar stijngi Saalu þijna hier i Naadinni, So hun vakni vid og saai titid uppaa hann, sem fyrirmyndadur var i Eyrorminum, er Moyses heingdi uppaa Tried þeim til Lækningar, sem af Eitur-Ormunum bitnir voru, Num. 21. Helldur enn ad hinn eilijfi Ormur kvelie þig, sa ed alldrei deyr, og sa Elldurinn pijni þig, sem alldrei slocknar um Alldir Allda, Esa. 66. Giæt þessa, Barn Guds, og hreinsa Hiarta þitt af daudlegum Verkum med sannri Ydran, Ef þu villt Bænheyrdur verda; Þvi nema þu leitist vid af ollu Hiarta, þa hefur þu eckert Fyrirheit um Bænheyrsluna i Andlegum Efnum, sem þu kunnir ad styrkia Trw þijna vid, verdur so Bænin forgiefins, þvi aan Trwarinnar er Omogulegt Gudi ad þocknast, Ebr. 11. Og hier siaaum vier Orsokina, hvar fyrir Menn ecki um Andlega Hluti Bænheyrdir verda. Þar fyrir nær þu kiemur i Guds Hws, edur hvern annann Bæna Stad, til ad færa Gudi þitt Offur, þaa siaa til, ad þu flytier ei þangad med þier nockurt þad sem Gudi mislijkar; Syndlaus gietur þu eigi framkomid, og þad er þar fyrir ad þu kiemur til Guds, ad þu ert syndugur, enn laat eckert Groom Illskunnar drottna i þijnu Hiarta; rannsaka þau Innstu Fylsni þinnar Samvitsku, hvort þar er einginn Gyrnd, einginn syndsamlegur Asetningur, og einginn saa Giestur, sem H. Andi ecki vilie bwa vid, og finnir þu nockurn, þa rek Dioftulinn fraa þier med Reidi-Svip, so ad þu Guds Vinur verdir. Og nær þu

so giorir, maatt þu vera fulltrwa um̃ Ord DRottinns, er hann sagdi, Matth. 21. Hvad hellst sem þier umbidied, ef þier trwid, þaa skulud þier þad odlast: Og er þad Maala sañast, Br. M. ad þetta eru ecki lijtil Fyrirheit, ad hafa soddann Frelse, hiaa honum, sem ollum Hlutum stioornar bædi aa Himni og Jordu. Enn so sem þad er mikid, so skal og mikid til þess vinna: Himininn er hærri enn so, ad þar sie so audstocked upp i hann; Guds Jerusalem er rambygdari enn so og hennar Port þreingri, eñ ad einn Veralldar Asne, klyfiadur af Syndum og Sorgum þessa Heims, gieti brotist þar inn, og þvi er þad Oska Raad, er Syrach giefur, Cap. 18. Segiandi: Adur enn þu bidst fyrir, þaa tilbw þitt Hugskot ad ecki siert þu eins og saa Madur sem freistar DRottiñs; og þad med þvi Mooti, sem nu strax sagda eg; þvi so sem Gud giefur einlæglega, so vill hann og bedinn vera af einlægu Hiarta. Edur, segied mier i Guds Nafni, segied mier! Hvad er þad, ad Menn bidia Gud ad taka fraa sier hinar vondu Syndir, Osund, Drambsemi, Agyrni, Reidi, Heiftrækni, Enn bera kannskie Hiartad fullt fram fyrir hann af ollu þessu? þad er ad gabba Gud og riett ad freista DRottinns, so sem Syrach segier: Alldrei hefur Gud heitid þvilijku Skapi neinni Bænheyrslu; Þar er ecki vid ad dyliast. Paulus skipar oss ad bidiast fyrir i ollum Stodum, Upphefiandi heilagar Hendur aan Reidi og Efasemi, 1. Tim. 2. Postuliñ fraaskilur þad Tvent, sem hañ vissi ad mest hindrar Bænina, Sem er, Reidina og Vantrwna; Og er sialfsagt um̃ Reidina, þvi þad er vor gamall Skilmaali vid Gud, sem aa hvorium Deigi endurnijast, ad Gud fyrirgiefi oss vorar Skulldir, eins og vier fyrirgiefum vorum Skulldunautum: og vil eg raada hinum Hefnigiorñu, ad hann alldrei lesi Drottinnlega Bæn, aa medann hann er þannig Skapi farinn, þvi eingin af ollum hanns Bænum mun verda heyrd, nema sw eina, og hañs Syndir med soddañ Mooti ecki ad Eilijfu fyrirgiefnar. Vier bidum Gud fyrir allann þañ Oriett, sem hañs eingietinn Sonur saklaus þoldi, ad hann ecki vilie minnast vors Raangłætis, enn vier lætum oss alldrei wr Minni falla þad Lijtilrædi, sem vor Broodir oss tilgiordi. Er ecki þetta ad heimta af sijnum Samlags Þioon, þad sem miklu minna er, enn Drottiñ hafdi oss uppgiefid? Matth. 18. Hvilijkt Raanglæti er þetta? Þvi er Einsætt fyrir þann, sem vill þiggia Bæn sijna af Gudi, ad hreinsa vel Hiarta sitt af slijku; þvi ef vier eigum ad bidia fyrir Ovinum vorum, Matth. 5. Undir eins og vier bidium fyrir sialfsum oss, ef vier viliuni kallast Born vors Fodur, sem aa Himnum er; Þaa er lijkast, ad vier munum ecki eiga ad ala Hatur til þeirrra i Hiarta voru, og er þeim best, sem hætt er vid slijku, ad hann snwi þessu Hatri aa sialfann sig og Metnad sinn, þad hann syndugur Ormur dyrfist ad koma fram fyrir hid hrædilega Tignarvelldi hinns lifanda Guds med þvilijku Skapi; Ad sonnu er Efaseminn til mikillrar Hindrunar i Bæninni; Enn þo er lijklegt, ad hinn goodi Gud vorkynni henni meir og hiaalpi henni, sierdeilis ef hun framkiemur af Hugleidingu vors Overdugleika, þvi honum er vor Vanmaattur kunnur. Ecki rak DRottinn fraa sier Fodur hinns Tunglsiwka, er sagdi: Eg trwi Herra, enn hiaalpa þu Vantrw minni, Marc. 9. Ecki Lærisveinana, er þeir baadu; Auk þu oss Trwna, Luc. 17.

ecki

Ecke Köngungs-Maktenn, þoott hann aviitade hann um Vantrwna, Joh. 4. Ein veik Trw, hun er þo Trw, enn hann vill ecke brakadann Reyr i sundurbriota, nie lijttlogann de Hör-Kveik wtslockva, Esa. 42. So heyred nu þetta, Br. M. og laated ydur Maal mitt i Eyrum loda. Enn þu, fyrer hvorn ad allar vorar Bæner eru Jaa og Amen, HErra JEsu Christe, Bid þu þinn Himneska Fodur fyrer oss, ad vor Trwa þrotne ecke, Luc. 22. og veit oss epter afstadna Baraattu þessa Heims, ad odlast Verdlaun vorrar Trwar, 1. Pet. 1. Þier med Fodur og H. Anda sie Lof, Prijs, Heidur og Þackargiörd, nu hiedann i fraa og um alla Eilijfd, Amen.

# A Uppstigningar Dag.

Gudspialled, Marc. 16. Cap.

ENNselnast, er þeir Ellefu saatu til Bords, opennberade hannsig, og aviitade þeirra Vantrw, og Hiartans Hardwd, þad þeir hefdu eige trwad þeim, sem hann hofdu sied Upprisenn. Og hann sagde til þeirra: Fared wt um allann Heimenn, og prediked Evangelium allre Skiepnu. Hvor hann trwer og verdur skijrdur, skal hoolpenn verda. Enn hvor eige trwer, skal Fordæmdur verda. Enn Teiknenn, er þeim munu fylgia, er trwa, eru þesse: J mijnu Nafne skulu þeir Diofla wtreka, Nijar Twngur tala, Hoggorma upptaka, og ef þeir drecka nockud Banvænlegt, þa skal þad þeim ecke granda, yfer Siwka munu þeir Hendur leggia, og þa mun þeim batna. Og epter þad, ad DRottenn JEsus hafde talad vid þa, vard hann uppnumenn til Himens, og situr til Guds Hægre Handar. Enn þeir geingu wt, og predikudu Allstadar, DRottne Samverkanda, og Orded Styrkianda, med epterfilgiande Teiknum.

## Exordium.

ÞAd er Riettvijst hiaa DRottne, segier Paulus, 2. Thess. 1. Ad Endurgiallda Þvijngunina, þeim sem ydur þvijnga, enn ydur, sem þvijngader erud, Endurnæring medur oss i Opinnberan DRottins vors JEsu Christi af Himnum, med hanns Megtugum Einglum. Enn ef þad er Riettvijst hiaa Gudi, ad endurgiallda oss þanneg, sem þo til Einkis unned hofum, nema fyrer hanns Forþienustu, sem hefur erft dad i vorum Syndum, Esa. 43. Hversu var þad þa Maklegt og Riettvijst, ad Christur Inngeinge i sijna Dijrd, epter þad hann hafde lided þad, sem vier med vorum Syndum hofdum forþienad? Ef þier elskudud mig, þa mundud þier glediast af þvi ad eg segie ydur þad, eg fer til Fodursins, segier DRottenn, Joh. 14. Vier hofum heyrt, Br. M. aa fyrerfarande Haatijdum og Helgum Dogum, hversu DRottenn var i Faatækt alenn, Luc.

2. Ad hann var Landflootta fyrer Ofrijke Herodis, Matth. 2. Ad hann var lastadur, þa hann gott giørde, Matth. 12. Offsooktur, þa hann talade Sannleikann, Joh. 8. Hvernig hann var Bundenn, Hwdstrijktur, Þyrnum krijndur, Hrakenn wt af Jerusalem, berande sinn Kross, og ad sijdustu aa Gaalgann uppfestur so sem annar Illrædis Madur, og midt i þessum bitru Pijslum hæddur, og med Galle og Edike drickiadur, og øll þesse Hegning laa aa honum, til þess ad vier hefdum Fridinn, Esa. 53. O hversu byriade oss þa ad fagna og glødum ad vera! Þar vier heyrum i Dag, ad hann er Inngeinginn i sijna Dijrd, vordenn Himnum ædre, og setstur aa Hægra Veg Gude Fødur, Sierdeilis þar hann ecke Einasta er i Hædernar uppstijgenn, Ps. 68. helldur og hefur Gaafur ødlast handa Mønnunum, Eph. 4. hvers vier høfum noted, yfer hveria lijklegt er ad Heims Enderenn sie komenn, 1. Cor. 10. hverium hann ecke sijdur enn nockrum ødrum hefur bwed Braut til Himnarijkis og Eilijfrar Guds Barna Sælu med sinne Himnafør. Og þar oss verdur nu slijkur Fognudur bodadur aa þessare Dijrdlegu Haatijd, þa laatum oss gaanga nær Evangelio, og af þvi hugleida hina herlegustu Velgiørninga og Avexte DRottens Uppstigningar. Hiaalpa oss til þessa Gudhrædslunnar Eyrendis, Naaduge Fader, med Krapte þijns Anda, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingenn.

Þesser Dijrmætu Avexter Uppstigningarennar vors DRottens, eru med Tvennu Moote. Adrer koma mest hønum vid, enn adrer oss alleina. Hvad vidvijkur þeim fyrre, þa er þad ecke mijn Meining, ad DRottenn JEsus hafe sialfum sier nockud forþienad med sinne Kvøl og annare Pijning hier aa Jordunne. Oss er hann fæddur, oss er hann giefenn, segier Esajas, Cap. 9. Fyrer oss er hann bundenn, Hwdstrijktur og aa Krossenn negldur, hanns Eyrende aa Jardrijke var ecke ad afreka sialfum sier nockurt Agiæte, þvi hann kunne ecke aagiætare ad verda, enn hann var i Upphafe sinna Vega, helldur ad leysa Mannkyned wr eilijfum Þrældoome. Þa Vegsemd, er hann auglijste i sinne Dijrdarfullu Himnafør, hana meddeilde hann Manndoomenum strax sem hann var gietenn i Moodur-Lijfe, þoott hann sijnde hana miøg sialldann aa sijnum Hlervistar-Døgum, so hann yrde oss ad øllu samlijkur, ad fraatekenne Syndenne. Þvi er hann þa med Dijrd og Heidre Coronadur? Ebr. 2. Þvi þad var Omøgulegt, ad hann kynne af Daudanum halldenn ad vera, Act. 2. Þegar Gud, blessadur um Allder, hafde afloked hinu stoora Þrekvirke Mannkynsins Endurlausnar i voru Hollde, þa var allt fullkomnad, þa þocknadest Gude ad upphefia vort Holld, er hanns Sonur Iklæddest, a sinn Tignar-Stool sier til Hægre Handar. Hvorier eru þa Avexter þesser, er Christur epter Manndoomenum hefur ødlast i sinne Himnafør? Þad segier oss Marcus hier i Gudspiallenu: Ad hann hafe vered Uppnumenn til Himens og sitie til Guds hægre Handar. Þetta er ei so ad skilia, Børn mijn, ad DRottenn sie uppfarenn i þenna sijnelega Himen, er vier lijtum med Augum vorum, Jafnvel þoott hn̄, epter alvijsre Raadstøfun Guds, sijnelega uppnumenn være fraa Jordunne allt þar til Skijed took hn̄ fraa Augum Læresveinanna, Act. 1. Vor Lausnare er uppfarenn yfer alla

Himna

Himna, sem Paulus skrifar, Eph. 4. Þad er, i þann Dijrdlega Himen, hvar Guds Dumrædeleg Haatign lioomar, hveria eingenn Madur kann ad siaa og lifa, Exod. 33. Þvi er hann ecke i þeña Sijnelega Himen uppstijgenn, hañ er uppfarenn i þañ Himen, hvar hann uppfyller alla Hlute, sem Paulus vottar, Eph. 4. Enn aller Hluter eru ecke i hinum Sijnelega Himne, þvi skulum vier ecke meina, ad hann sie vid hann bundenn, jafnvel þoott hann uppfylle hann, so sem allt añad. Hann er setstur til Guds Hægre Handar; sem hier stendur. Nu er Guds Hægre Hond allstadar, þad er hanns Dijrd og hanns Almætte, þad er hann sialfur, sem ecke er nema Mattur og Dijrd; Enn Himnaña Himnar taka hañ ecke, sem Salomon vottar, 1. Reg. 8. Nu fyrst DRottenn JEsus er upphafeñ til Guds Hægre Handar, þa er hañ ecke so i þeña sijnelega Himen uppfarenn, ad hañ ecke under eins sie allstadar; J þañ Himen, hvar Gud bioo aadur eñ Himeneñ var skapadur, þangad er Christur upphafeñ; Hverneñ kañ hañ þa ad vera inne lucktur i þeim skapada Himne? J þann Himen, hvar Gud mun um Alldur og Eilijfd stioorna, raada og skijna, þegar hiner skopudu Himnar forgaanga, og hann hefur þa eins og annad Fat samannbroted, Heb. 1. J þann sama Himen er Guds Sonur uppstijgenn: Þvi er þad of-smaatt ad hugsa um þa Tign, sem Gud hefur sinn Eingietenn Son prijddañ med, ad ætla, ad hiñ skapade Himen sie alleina hanns Haasæte. Vier skulum og ecke þad meina, ad þoott so kvede ad hier i Textanum, ad vor Frelsare sitie til Hægre Handar Guds, ad Gud hafe Hendur, edur ad hann sitie so sem Madur, ad vier ei follum i þa Villu, sem Paulus ber uppaa Heidingiana, Rom. 1. ad þeir hafe breytt Dijrd Oforgeingelegs Guds i Mynd forgeingelegrar Mañeskiu: Þvi jafnvel þoott Ritningeñ tale þañig aa Stundum, þa talar hun so ad Manna Plagsid. Og þoott ad Gud hafe sig i Manns Lijkan Opennberad (so sem Esajæ 6. J Openberunum Johannis, og vijdar) þa eru þad Okvæde ad hugsa, ad hañ so i Raun og Sannleika sie, helldur er Gud einn Ande, so sem Johannes vottar, 4. Cap. Hverneg vilium vier þa Jmynda oss nockud hægra edur vinstra hiaa honum, sem uppfyller Himen og Jord, og er allt i ollu Omælanlegur, Osynelegur og Orannsakanlegur? Helldur er þetta sagt, til ad utmaala þa Tign, sem Guds Eingietiñ Sonur hlaut i Uppstigningunni eptir Mañdoominum. Hin Hægri Hlid var hiaa ollum Þioodum virduglegri aa þeim Dogum, enn sw Vinstre. Þegar Bersabe gieck inn til Salomons Konungs, fagnade hañ Moodur sinne, og sette hana aa Hægra Veg sier, 1. Reg. 2. An Efa þess vegna, ad hann hefur viliad veita henne hinn mesta Heidur, nærst sialfum sier. Drottningeñ stendur þier aa Hægre Hond, segier David, Ps. 45. er hann kvedur um Brwdkaup Christi og hanns Unnustu Christnennar. So er nu med þessu meint, ad Frelsarenn, epter Mañdoomenum, sie Gude nærstur ad allre Tign, Makt og Vellde: Gud Fader og Guds Sonur eru jafner epter Guddoomenum ad allre Tign, þeirra Haasæte, þad er þeirra Dijrd, hun er ein, þvi Faderenn er i Synenum, og Sonurenn i Fodurnum, Joh. 14. Þvi nærst er Guds Sonur epter Manndoomenum, er situr honum aa hægra Veg sialfum Gude nærstur, sialfur sialfum sier nærstur, hann er sialfum sier ædre og sialfum sier lægre, þvi

hann er bæde Gud og Madur, og er þo hanns Manndoomur ollum Skiepnum ædre; Þvi hverium af Einglunum hefur hann nockurn Tijma sagt: Sit þu mier til hægre Handar? segier Paulus, Ebr. 1. Og þessa Tign Manndoomlegrar Natturu Christi wtmaalar hann greinelega med fogrum Ordum, Eph. 1. segiande: Gud Fader hefur sett Christum æ Hægre Hond sier i Himnenum, Laangt fyrer ofann allann Hofdingskap, Vald, Magt og Herradæme, og oll þau Nofn sem nefnast, ecke einasta i þessare Olld, helldur og i hinne sem verda mun. So er þa DRottenn JEsus sitiande til Fodursins Hægre Handar, afklæddur ollum þeim Eymdum og Harmkvælum, er hann bar i voru Hollde, vordenn Konungur og Kiennemadur ad Eilijfu, so ad i hanns Nafne skulu oll Knie sig beigia, bæde æ Himne og Jordu, og under Jordunne, Phil. 2. Þad er, ad hann Lifer og Rijker ad eilijfu; Þvi þad sem David kallar ad sitia æ hægra Veg Gude, Ps. 110. Þad kallar Paulus ad rijkia, segiande: 1. Cor. 15. Honum byriar ad Rijkia, þar til hann leggur alla Ovine til Skarar Foota hanns. Og er nu þetta sa Avoxtur og Nytseme er DRottne sialfum tilheyrer, jafnvel þoott ad ei sieum vier helldur Hlutlauser af henne, sem sijdar mun sagt verda.

Enn hvad viðvijkur þeim Avoxtum, sem oss Syndugum Monnum til Gagns og Nytseme spretta af DRottenns Himnaför, þa er hinn Fyrste: Sending H. Anda. So segier hann sialfur: Nema eg i burtu fare, þa kiemur ecke sa Huggarenn til ydar, Joh. 16. Þetta sitt Fyrerheit efnde DRottenn æ Hvijtasunnudogum, so sem alkunnugt er; Og er þad ecke lijtill Velgiorningur, Br. M. ad hann sende sinn H. Anda yfer sijna Postula, hann leidde þa i allann Sannleika, so ad þeir skylldu Leyndardooma Guds Rijkis, ad oss yrdu þeir sijdann Opennberader, hann giorde Kraptaverken fyrer þa, og styrkte þar med Christne-Boded, so ad þad Hialpræded, sem fyrst var bodad af JEsu Christo, yrde og stadfest hia þeirra Epterkomendum, sem Paulus vottar, Heb. 2. Hann kiende þeim ad forsmaa alla Hlute hia DRottenns Krosse, og hallda þa fyrer Þreck ad vera, til ad avinna Christum, oss til Epterdæmis, so ad þeir uppfylldu Leyfar JEsu Christi Pijsla æ sijnum Lijkama, sem er hanns Christne, Col. 1. Nu þo ad þetta sie einn Haaleitur Velgiorningur, ad hann wthellte sijnum Anda so Rijkuglega yfer Postulana, þa hofum vier aungvu minna þeiged, ef vier riett ad giætum. Hid mesta Erfide skal til þess hafa, ad leggia Grundvollenn under eitt Hws; So var og ad Christs Kyrkiu. Hinn fyrsta Stein lagdi Gud i Pijnu sijns Sonar, þegar hinn dijrmæti Hyrningar-Steininn var af Uppbyggendum wtkastadur, 1. Pet. 2. Þar uppæ byggdu Postularnir og adrir Helgir Menn, er vordu Lijfe sijnu og allri Tijmanlegri Velferd sinni til þessarar Byggingar. Þess gietur Paulus, Eph. 2. segiande: ad vier sieum bygder uppæ Grundvoll Postulanna og Spamannanna, þar Christur er sialfur Hyrningar-Steinnenn. Giæted ad þessu, er eg segie, Br. M. Þess meira sem lijdur æ Bygginguna, þess minne Þwnga hefur þad ad bera, sem Ofarlega er lagt. Þoott vier eigum Daglega ad þiaa vorn eigenn Lijkama fyrer Guds Rijke; Hvad er þad hia þvi sem Postular Guds og adrer Helger Menn urdu ad lijda

oss

oss til Epterdæmis? Þeir baaru Hita og Þwnga Dagsins, Matth. 20. medann heist var, medann Hædeige var Christnennar. Vier erum um Elleftu Stundu kallader: Gud wthellte yfer þaa sijnelegum Astgiøfum Andans, til ad styrkia Kirkiuna, til ad styrkia þaa, so þeir giæte Offsooknernar þolad. Þu hefur ecke minne Astgiof þeiged Christen Madur. Fagned ecke yfer, sagde JEsus, ad Andarner eru ydur undergiefner, helldur hinu, ad ydar Nøfn eru skrifud aa Himnum, Luc. 10. Bileam, Num. 22. Saul, 1. Sam. 10. og Judas, Matth. 10. høfdu og soddann Gaafur um Hrijd, þar fyrer voru þeir þo ecke fullsæler. Sw var hin ædsta Gaafa DRottenns, ad hann gaf sijnum Pienurum ad vera eitt med sier, eins og Faderenn og hann eru eitt, ad hann vardveitte þaa fyrer Heimenum, þoott hann tæke þaa ecke burt wr Heimenum, Joh. 17. Og þessa Gaafu hefur hann þier og sendt, Christen Madur, ef þu villt moote taka; Hann hefur so Endurgieted þig i Skijrnar Laugenne med Heilogum Anda, ad þu gietur samsinnt hanns Orde; hann Endurnyar þig Daglega med hinum sama Anda (nema þu mootstander honum), so þu gietur trwad aa Gud, heyrt hanns Ord, Tamed þitt Holld, bored hanns Kross og elskad Naungann. Mier virdest DRottenn hafe somu Atferd vid sijn Børn i Sendingu Heilags Anda enn nu i Dag, so sem hann hafde vid sijna Læresveina, sem Von er til; þvi DRottenn hiet þeim þvi, þar hann segier, hiaa Joh. 14. Eg mun bidia Fødurenn ad hann sende ydur einn annan Huggara, ad hann blijfe hiaa ydur eilijflega. Þegar hann kom til þeirra ad luktum Dyrum og opennberadest þeim, þa blies hann aa þaa og sagde: Medtaked þier H. Anda, Joh. 20. Ecke var þesse Blaastur Heilagur Ande, helldur hefur hann bwed i honum eins og i hinum mikla Storme aa Hvijtasunnu; Þo var Mannlegur Veikleike so mikell hiaa þeim, ad þeir ecke trwdu fyrer Fagnadar-Saker; Jaa, þoott hann opennberade sig fyrer þeim Nijusinnum epter Upprisuna, þa trwdu þeir varla, so ad Matthæus segier, ad þegar hann talade vid þaa aa Fiallenu i Galilea, þa hafe sumer efast, Matth. 18. Og under hanns Uppstigningu voru þeir so Ofrooder i þessu, ad þeir spurdu hann, hvert hann þa villde upprietta Israels Rijke, Act. 1. Enn er hann hafde meddeilt þeim ad nyu Heilagann Anda, og blessad þaa, og þeir saau hann til Himens faranda, þa jokst þeim so Kraptur, ad þeir geingu glader heim og prijsudu Gud, segier Lucas, Act. 2. Enn epter Tiju Daga wthellte hann yfer þaa hinum sama Anda med miklum Undrunum og Teiknum, so þeir efudust alldrei sijdann; So fer Madurenn enn nu ad vaxa, þar til hann verdur Fullordenn, epter Maata fullkomens Alldurs JEsu Christi, sem Paulus adkvedur, Eph. 4. J Skijrnenne medtokum vier Heilagann Anda: Ecke er Vatned Ande, helldur bijr hann i Ordenu, hvert ed samlagast Vatnenu, hanns giæter ecke miked i Hiarta Ungbarnsins, þo vita Menn ad hann bijr þar, þviad slijkra er Guds Rijke, segier JEsus, Luc. 18. Þegar vier drogunst aa Legg, verdur hann jafnann Samfara Ordenu hiaa þeim sem þad læra, þoott ei þecke Børnenn JEsum grannt, helldur enn Læresveinarner hier. Þegar oss aukast Vitsmuner, og vier saaum Epterteckt nockra, þa samverkar hann jafnann Guds Orde. O Børn mijn! er ecke þetta ein stoor Astgiof H.

Anda?

Anda? Ad eitt Ungmenne lætur ſier ſkiliaſt þad, ſem ei gaatu ſkiled edur villdu ſkilia hiner vijſu Heims=Spekingar, Philo, Celſus, Porphyrius, Lucianus, og adrer miklu fleire, og þoott þad ecke ſkilie ſo grañt, þa temur Guds Ande ſo Mannlega Skynſeme og verkar ſo i Einfelldne Barnſens, ad þad giefur ſinn Skilning faangenn under Hlijdne Trwarennar, 1. Cor. 10. ſo þvi duger til Saaluhiaalpar. Er þad ecke ein ſtoor Guds Giøf, ad vier, ſem fæddunſt Reideñar=Børn, Eph. 2. Vier ſiaaum þo, hvilijkann Kiærleika Faderenn hefur oſs giefed, ad vier meigum Guds Børn kallaſt, 1. Joh. 3. Hver kienner oſs þad? Mun ecke Heilagur Ande, ſaa ed ber Vitne vorum Anda hier um̃? Rom. 8. Er þad ecke ein Oumrædeleg Guds Gaafa, ad þegar vier ſyndgunſt og høfum forbroted vora Arfleifd, jafnvel med Stoorglæpum, ſem vorre Saalu verda aa Stundum ofur þwng Byrde, ad vier høfum þa Tals=Mañeñ aa Himnum, Mañeñ JEſum Chriſtum hinn Riettlaata, 1. Joh. 2. ſem oſs ſender ſinn H. Anda af ſijnum Fødur, til ad ſtraffa i oſs Syndena, ſo vier ydrunſt, til ad kienna oſs ad hann ſie Forlijkun fyrer allar Veralldarennar Synder, ſo vier trwum, til ad Endurnya oſs i Anda vors Hugſkots, ſo vier gietum lifad nijum Lifnade. Þegar Tveir Konungar ſættaſt, þa ſeliaſt þeir Giſla aa, ſo ad Vinaatta þeirra ſkule tryggvare vera, edur ſaa meire tekur af þeim miña til þeſs ad treyſta ſier hann. Enn Gud naade oſs faaraadar Mañeſkiur! Hvad þurfte Gud ad taka Pant af oſs Þrælunum? Utlogunum? Obootamønnunum? Hvad þurfte hañ oſs Pant ad ſetia? Og þo hefur hann ſo giørt. Hann hefur teked af oſs einn Pant, ſem er vort Holld og Blood, og ſett þad aa hægra Veg ſiaalfum ſier, ecke til þeſs ad hann tryde oſs betur, þvi hann viſſe ad vier Daglega ſyndum riwfa vor Sære, helldur ad vier kynnum hønum þeſs betur ad trwa. Eingenn hefur um̃ Alldur ſitt eiged Holld hatad, helldur fooſtrar hann þad og nærer, ſegier Paulus um̃ Mann og Konu, Eph. 5. Fyrſt Guds Eingieten Sonur hefur giørt vort Holld ad ſijnu Hollde, fyrſt hann hefur Trwloſad ſier Chriſtnena ſo ſem adra Brwde, þa er þad vijſt, ad hañ elſkar þaa ſem eru Holld af hanns Hollde og Bein af hanns Beinum, er ſo heitt elſkade oſs, ad hann gaf ſitt Lijf i Daudann fyrer ſijna Ovine, Rom. 5. Hann mun ei forſmaa ſijna Brwde, ſem ſkipar fyrer Munn St. Paals ſyndugum Mønnum ad elſka ſijnar Egta=Kvinnur eins og Chriſtur Søfnudenn, Eph. 5. helldur laata Drottninguna ſtanda ſier aa hægre Hønd, Iſkrijdda hinu beſta Gulle, Pſ. 45. Og til frekare Stadfeſtu hier um̃, hefur hann, upphafeñ aa ſiñ Tignar=Stool, ſendt oſs einn Pant af ſinne Hende, þad er Heilagur Ande, ſem er Pantur vorrar Arfleifdar, Eph. 1. hvør og bidur fyrer oſs med Oumrædelegum Andvørpunum, ſeger Paulus, Rom. 8. O! hvilijk er Aſtgiøf þeſſe? Hver vill ſkipta henne vid Læknisdoomana? Vid Tungumaalenn? Vid Jardteiknagiørdena? Og ſiaaum vier af þeſſu, ad Guds Sonur hefur aungvu minna veitt oſs i ſinne Uppſtigningu enn Poſtulunum. Hønum ſie Dijrd og Prijs ad eilijfu, Amen!

Hin Ønnur Nytſeme, ſem vier høfum af Chriſti Uppſtigningu, er ſw, ad hañ ſitur til Fødurſins Hægre Handar og bidur fyrer oſs. DRottenn baud i Gamla Teſtamentenu

enu Aaroni og hanns Sonum, ad þeir skylldu blessa Foolkid, Num. 6. Þeirra Embætti var og ad bidia fyrir þvi. Lucas skrifar, Cap. 24. Ad þessi vor Ædsti Kiennimadur (hvors Fyrirmynd ad var Aaron i morgum Hlutum) ad i þvi hann var ad blessa þaa, hafi hann verid numiñ fraa þeim. O einn Gledilegann Vidskilnad! O eina Elskuriijka Kvediu! O eina kroftuga Blessan! Þessi dijrmæta Blessan, liggur enn nu i Dag yfir hinum Andlega Israel, þegar hann tilbidur Gud i Anda og Sannleika, Joh. 4. So ad hvors vier bidium Fodurinn i hanns Nafni, þad vill hann giora, Joh. 16. Drottinn stie upp af Fiallinu Oliveti, Act. 1. Þvi hann hafdi þa wt til Bethania (segier Lucas, Cap. 24.) er stood aa sama Fialli; fraa þessu Fialli reid DRottinn sijdarst inn til Jerusalem, ad hann Offradi hinni dijrmætu Foorn sijns Lijkama, med hverri hañ Verolldina Endurkeypti, Feldstillti Gud, enn braut undir sig Diosfulinn og allañ hañs Her, og trood hann undir sinna Barna Fætur. Med þa somu Foorn uppstijgur hann hier, vordinn Kiennimadur ad eilijfu, Ebr. 7. Ecki eftir Skickan Aaronis, helldur Melchizedechs, og byrtist med henni fyrir Guds Augliti jafnadarlega, so oft sem einn ydrandi Syndari vidþarf. Þess gietur St. Paull, Hebr. 9. segiandi: Ei er Christur inngeinginn i þad heilaga, sem med Hondum er giort, hvort ad er Fyrirmyndan þess sañarlega, helldur i sialfann Himinninn til ad byrtast nu Augliti Guds fyrir oss. Hañ byrtist NU Guds Augliti, segier Postulinn, og var þad nockru eftir hanns Uppstigningu, teiknandi þar med, ad þetta sie eitt sijfellt Offur, Olijkt þvi sem umgietur Num. 28. Hverju Israels Synir aa Stundum ræntir voru af sijnum Ovinum, 2. Paral. 39. Enn þetta kann eingiñ ad hindra, einginn fraa oss ad taka. Diosfullinn, med allri sinni Makt, fær þvi ecki spillt, so leingi vier trwum aa Guds Son. Nofn Israels Sona voru ritud aa Briost-Skiolld Aaronis, Exod. 28. Med hvern hann inngieck i þad Allra Helgasta, so sem til eins Minnis-Teikns fyrir Gudi. Minn Herra JEsu, þu eilijfe Kieñimadur! Þu blessader þijna elskulega Læriisveina med Kiennimannlegri Blessan, adur eñ þu inngieckst i Himinninn, þu barst þaa ecki aa þijnu, helldur fyrir og i þijnu Briosti til eilijfrar Minningar fyrir þijnum Himneska Fodur; Jaa, ecki einasta þaa, HErra, helldur og alla þa, sem aa þig sijdann trwad hafa, og trwa munu allt til Enda Veralldariñar, þar þu ert einn Kiennimadur freistadur aa allann Haatt, lijka sem vier, þo aan Syndar, Ebr. 5. Uppaa þad þu kuñir ad sampijnast vorum Eymdum. O! hvorsu er þessi Guds Giof æskileg? Hvad maa Gledilegra veitast einum Syndara, sem eckert hefur annad enn Daudann og Helvijtis Pijslir forþienad, þegar hann aa ad mæta fyrir þeim hrædilega Doomi, hvar ed tebla er uñ hanns eilijfu Saaluhiaalp, hvad maa honum, segie eg, Gledilegra veitast enn þad, ad hañ hefur Doomarañ fyrir Fodur, og sinn Broodur fyrir Tals-Mann, hver vill laata sier þar Hugsallast, hver vill mistreysta Sok sinni? Þvi vil eg aalykta þetta med Paals Ordum: Hver er saa ed fordæmir? Christur er sa sem daainn er; Jaa, hver ed upprisinn er, hver og situr aa hægri Hond Gudi og bidur fyrir oss, Rom. 8.

Hin Þridia Gagnsemi er vier syndugir Menn hofum af Uppstigningu vors Frelsara

er sw, ad hañ þar med hefur afrekad og tilbwed oss eilijfa Dijrdar-Vist i Himnenum. So segier DRottiñ sialfur hia Johannem, Cap. 14. J mijns Fodurs Hwsi eru margar Verur, annars segda eg ydur: Eg fer burt og tilbij ydur Stad, enn eg mun koma aftur og taka ydur til mijn sialfs, ad þier sieud þar sem eg er. Þad er merkilegt ad hann segier: Ad þier sieud þar sem eg er. Nu er þad vitannlegt, ad hañ er i Guds Himin uppfarinn, og situr til Kraftarins hægri Handar; Þad er ad sønnu honum einum ætlad ad sitia a hægra Veg Gudi, samt erum vier þess fullvisser, ad hver og einn af oss hefur sijna Deild i Christi Lijkama, 1. Cor. 12. Hvar fyrer, þar sem mitt Holld rijkir, þar kalla eg mig rijkia, þar sem mitt Hofud drottnar, þar drottna eg, sem er Limur þess sama Lijkama. Þad er einn undrunarlegur Hlutur, og ein stoor Dypt Audæfanna og Guds Speki, ad Manneskiañ, Gietiñ og Fædd i Syndiñi, Ja, su ed alldrei kañ Syndlaust ad lifa hier i Lijkamanum, Ja, margur sa ed velltir sier i Endeni Syndanna, hiñ mesta Hluta Æfe sinnar, hun skal þo, ef hun ydrast og trwir a Christum, verda Einglunum jøfn, segier Postulinn, þeim Himnesku Aundunum, er siñ Skapara ecki hafa i hinu miñsta stygdañ, og sia hanns Auglit aan Aflaats, Matth. 18. Ja, Hvad meira er, ad vier skulum samlijkir verda Christi dijrdlegum Lijkama, Phil. 3. Sem aan Efa ber laangt af Einglanna Dijrd. Hvoriu sætir þetta, Br. M.? Hver fær þad skilid? DRottninginn stendur þier til hægri Handar, skrijdd hinu besta Gulli, segier David i Brwdkaups-Vijsunni, Ps. 45. Christur eptir Manndoominum situr a hægra Veg Gudi, þad merkir, ad hann sie honum nærstur ad Tign og Heidri, enn honum til hægri Handar stendur, og ecki situr, Brwdurinn, Christileg Kyrkia; So miklu er hun O-ædri, sem Von er til, Og þo næst honum ad Tign og Heidri; So ad hier maa sia ad Mañeskiann i Dijrdinni verdur Einglunum jøfn ad vijsu. Hvad ætti Christinn Madur um þetta ad hugleida? Mætti ecki Hiartad braadna af Audmykt, so sem añad Vax, nær hañ þetta heyrir? Mun honum ecki til Hugar koma med Abraham, þad hann sie Dupt og Aska, Gen. 18. Og ecki þess verdur, ad sia iñ fyrir Himnarijkis Dyr, auk helldur ad standa a hægra Veg Guds Syni i hanns Dijrd. Eñ hvar fyrir er syndugum Jardar-Leyr þvilijkur Soomi veittur? Fyrir DRottins Uppstigningu til Himins, fyrir þa dijrmætu Foornina, er hann hefur Einusinni iñborid i þad Allra-Helgasta. Brædur mijnir, Køllum vier ecki eiñ Hlut so mikils verdann, sem hañ kostad hefur? Nu er Guds Blood, med hveriu Syndarinn er Endurkeyptur, Act. 20. Þess miklu ædra og kostulegra Einglunum, sem hann hefur þeim ædra Nafn, þad er Heidur og Virdingu ødlast, sem Paulus aavijkur, Heb. 1. Eñ nu hefur hann ecki Einglana, helldur Abrahams Sædi uppa sig tekid, Jþvi hefur hañ lidid, Jþvi er hann Upprisinn, Uppstijginn og setstur til hægri Handar Gudi Fodur. Er þa ad undra, Børn mijn, þott hann giori oss Einglunum jafna, Þar hann hefur oss med sijnu eiginn Bloodi Endurleyst? Act 20. Hverium hann og giefur sitt Holld og Blood til ad eta og drecka, Joh. 6. Hvert nu situr a hægra Veg Gudi i Dijrdenne. Plaga ecki Konungarnir ad hefia Ættmenn sijna til Virdinga, alla þa sem i Hlijdne

ne

ne vid þa standa, og sia ei giarnañ aþrer sieu þeim fremre? Þvi mun ei DRottiñ JEsus, hverium allt Valld er giefed bæde a Himne og Jørdu, Matth. 28. vera eins lyndur vid oss, sem erum Limer hanns Lijkama, 1. Cor. 12. hvoria hann skamast sijn ecke Brædur ad kalla, Ebr. 2. Þañeg hefur nu Gud upploked oss Himnenum i sijns Sonar Uppstigningu, og giefed oss ad sitia asamt med Christo a honum, segier Paulus, Eph. 2. Ohvert su eru allar Heimsins Virdingar, Audur og Epterlæte, Hiegoome ad reikna hia þessare Tign, þessare Sælu, þessum Himneska Fiesiood! Og þo er Manneskiann so daarleg, ad hun tekur allt þetta fram fyrer þessa Dijrdar-Vist med Gude og hanns Utvolldum.

Þar er i flestra Manna Nattturu nockurs konar Hugprijde, ef eg maa so kalla, Jafnvel þott flester hana vanbrwke, þad er ad komast sem hædst, og eru, þad fierdeilis Tvo Fioll, sem Menn eru ad klifrast uppa alla sijna Æfe, þad er Maktareñar og Vitskuñar, enn þar eru so faaer sem leitast vid ad komast uppa Zions Fiall, Ebr. 1. og naa Þienustu hia hinum Alvallda Konunge, sem Gud hefur þar yfer sett, Ps. 2. Hversu Andhæles geingur þetta, Br. M. Jafnvel fyrer þeim, sem eru Kongborner i Skijrnenne! Þeir taka ecke betur Vara a Tign sinne eñ so, ad þeir selia hana fyrer Glis Veralldareñar eins og Born þau, er kaupa vilia þad er þeim vænt um þyker fyrer dijra Dooma. O! hversu Vijsare og Volldugre munu þa hinns eilijfa Konungs Syner og Brædur verda i hanns Rijke, þvi þeir munu Einglana dæma, segier Paulus, 1. Cor. 6. Þad er Dioflana, þeir munu Gud þeckia so sem þeir verda af honum þeckter, og sia hann og hanns Dijrd, ecke so sem i Speigle edur Raadgaatu eins og hier, helldur Auglite til Auglitis, 1. Cor. 13. og er þo hiñ minsta Þecking, sem einn Einfalldur Guds Dijrkare hefur a Christo hier i Lijfe, miklu vijsare enn allt Mann-Vit Heims Spekinganna, þvi Paulus segier, 1. Cor. 1. Ad Gud hafe giort Speke Veralldar þessarar ad Heimsku, og ad Heimska Guds sie Monnum hyggnare, og Veikleike Guds Monnum oflugre. Þegar Makt Heidenna Maña gieck sem hædst, og Vijsdoomur Gydinga stood i Blooma sijnum, ad þeirra Hyggiu, þa voru hluter so Vollduger, og þesser so vijser, ad þeir heingdu Konung Dijrdarennar uppa Gaalgann; hveriertveggiu sier til Skamar og sijns Hofdingia Fiandans Rijke til Nidurdreps, so hann hefur alldrei vidriett sijdann. Þanneg er Makt Myrkranna og Skynseme Holldsins! Þau eru Volæde hia Guds Barna Veikleika, og Heimska hia þeirra Einfelldne i Guds Augum, sem einn er Vijs og alleina Volldugur, Rom. 16. og þott nockur være Einvallds Drottenn yfer ollum Heime þessum, og visse alla Natturu Hlutanna; hvad munde þad vera hia þeirre Dijrd, þeirre Speke og þeirre Sælu, sem hiñ minnste i Himnarijke er prijddur med? Þvi ef hann er meire enn Johañes Baptista, hvers Lijke ei var af Konu fæddur, Matth. 11. Þa munu hiner naa skamt til þess, jafnvel Haadeige Maktar sinnar. Og hefe eg nu so talad fyrer ydur, Br. M. um hina fierlegustu Averte DRottenns Uppstigningar, hverrar hinn Fyrste heyrer honum sialfum til, sem er, ad hañ er iñgeingenn i sijna Dijrd. Og eigum vier ad glediast þar af, ad hañ er fareñ i burtu hiedañ, ef vier elskum hañ, so sem hann sagde Fordum vid Læresveinana, fierdeilis

is þar vier erum ecke Hlutlauser þessarar Dijrdar: Hañ, so sem Frumgieteñ og Eingietenn Sonur hinns Hærsta, hefur teked hinn mestá Arf; maa oss ei nægia þad Ettleidingunum, ad vier erum Samarfar Christi og Erfingiar eilijfs Lijfs. Rom. 8. Ma þad ei duga oss Landraada Mønnunum, ad vier høfum Arfs-Von i Omælañlegrar Dijrdar eilijfre Þijngd? 2. Cor. 4. Gud hefur giefed sijnum Syni Endemørk Veralldareñar til Arfleifdar, Ps. 2. Ecke so Fiøll og Dale, Jørd og Skooga, Vøtn og Sioo og allt hvad þar innebygger, so sem hanns Elskulega Brwdur, sem hañ hefur wtvaled af øllum Þioodum og Twngumaalum, adur enn Grundvøllur Verølldarennar var lagdur, Eph. 1. Þess høfum vier noted Aumingiarner, sem liggium under hinu ytsta Heims Skaute þessu: Vier erum hanns Arfur, og høfum vier siaalfum oss alldrei betur vared. Hiner adrer Avepterner heyra oss Mønnunum til, hann hefur Rijkuglega wthellt yfer oss Heiløgum Anda, so vier Riettlætter fyrer hanns Naad yrdum Erfingiar eilijfs Lijfs. Tit. 3. Hann situr til Guds hægre Handar, og bidur fyrer oss, Rom. 8. So ad allar vorar Bæner eru Jaa og Amen. Hann hefur opnad oss Himenenn og tilbwed oss þa Sælu-Vist, er eg fyrer skømu umtalade.

Nu þar Gud Fader i sijnum Syne, Guds Sonur af Fødurnum sendur, og Heilagur Ande, sem af baadum þeim framgeingur, þad er, øll Heiløg Guddoomsins Þrenning, hefur audsijnt oss þvilijkann Kiærleika, sem adur er sagt, i DRottenns Uppstigningu, þa stijgum nu upp aptur aa moote hønum i vorum Hugskotum. Hann hefur vort Holld upphafed; Laatum hann ecke Forgiefens hafa sendt ofann sinn Anda til vor aptur: Ef vier erum upprisner med Christo, þa leitum þess sem þar uppe er, hvar Christur situr til hægre Handar Fødursins, Col. 3. Þar sem ydar Fiesioodur er, þar er ydar Hiarta, sagde Endurlausnarenn, Matth. 6. Ef vier høfum medteked Heilagann Anda, sem hann hefur rijkuglega wthellt yfer oss i Endurgietningar Vatns-Saanum, hvar skyllde þa vor Fiesioodur vera nema i hønum, J hverium ad byggia aller Fiesiooder Vitskunnar? Col. 2. Postular DRottenns horfdu upp i Himenenn epter hønum, Act. 1. Lyptum og Augum vorum upp fraa þessum Jardneska Hiegooma, og skynium þad sem þar uppe er, Lyptum þeim til Hædanna, hvadann oss kiemur Hiaalpenn, forsmaaum Heim þenna med øllu þvi sem i hønum er, þvi hann mun fyrerfarast; Gaungum þvi wt af Heimenum, ad ecke tortijnunst vier med hønum. DRottenn hafde Læresveinana wt til Bethania, þegar hann stie til Himens, Luc. 24. Hvert hañ er fareñ, þad vited þier og Veigeñ þecked þier, Joh. 14. Bethania merker Faatæks Mañs Hws; Ef þier vilied epter hønum uppstijga, þa giørest Andlega Volader, þviad slijkra er Himnarijke, Matth. 5. Falle ydur Rijkdoomur til, þa fested ei Hiarta ydar vid hann; Giøred Faatækum gott, so þier sieud i Gude rijker, og þeir medtake ydur i eilijfar Tialldbwder, Luc. 16. Elias foor nakeñ til Himna. 2. Reg. 2. So meiged þier og slijta fraa Hiarta ydar allt Veralldlegt Yferlæte, ef þier vilied hønum fylgia. DRottenn var nakenn Krossfestur, nakenn var hann i Lijkblæunne vafeñ, hana skilde hañ epter i Grøfeñe: Nakeñ hefur hann uppriseð, nakeñ uppstijged, Jafnvel þoott

hañ

hann hafe klæddur ſijnſt fyrer Læreſveinunum; Þu aatt og ad Kroſsfeſta hinn Gamla Mannenn, þu aatt ad greftraſt med Chriſto, og uppriiſa med hønum, Rom. 6. aadur eñ þu fær uppſtijged. Afklæd þig og ſo med hønum; Laat ecke eina Flijk Veralldlegra Muna þijngia Hiarta þitt, ſo þu megier flıwga upp i Hædernar eins og annar Ern epter þijnum Frelſara; Brwka ſo Heimenn, ad þu ecke vanbrwker hann; Slijt fraa þier alla Elſku til Veralldarennar; Laat ecke hennar Þwnga-Voru draga þig nidur, þegar þu aatt ad ſtijga til Himens hvar vor Borgar-Riettur er, hvadann vier og væntum DRottenns JEſu Chriſti, Phil. 3. Hønum med Fødurnum og H. Anda ſie Lof, Prijs og Heidur um Allder Allda, AMEN.

# Siøtta Sunnudag epter Paaſka.

Gudſpialled, Joh. 15. og 16. Cap.

JEſus ſagde til ſiña Læreſveina. Eñ þa ed ſaa Huggareñ kiemur, hvern eg mun ſenda ydur af mijnum Fødur, ſem ad er Sañleikſins Ande, hver af Fødurnum framgeingur, hañ mun bera Vitne af mier, og þier munud mier Vitne bera, þvíad þier hafed i fraa Upphafe hiaa mier vered. Eñ þetta tala eg þvi til ydar, So ad þier hneixleſt ecke. Þvíad þeir munu forboda ydur, og ſaa Tijme kiemur, ad hver hañ lijflætur ydur, ſaa meinar ſig ad giora Gude þægt-Verk. Og þetta giora þeir ydur, af þvi þeir þeckia hvørke Fødureñ nie mig. Eñ þetta tala eg þvi til ydar, ad nær ſu Stund kiemur, ad þier miñeſt þeſs, ad eg ſagde ydur þad. Eñ þetta ſagda eg ydur eige i Upphafe, þvi eg var hiaa ydur.

Exordium.

Ingeñ kann Tveimur Herrum ad þioona, þvi añadhvert hatar hañ þann Eina, og elſkar hinn Añañ, edur ad hann adhylleſt þann Eina, og forſmaaer hiñ Añañ; Þier gieted ecke under eins Gude þioonad og Mañona, ſegier Endurlauſnarenn, Matth. 6. Enn þad ſem hann hier ſegier um Mamon, hver ad er Gud þeſſa Heims og hanns Barna, þad vill hann ſagt hafa um ſiaalfann Heimenn. Omøgulegt er under eins Gude ad þioona og ſo Heime þeſſum, þad eru Tveir ſo Olijker Hwſs-Bændur, ad hvor þeirra rekur annars Þienara i burtu fraa ſier, og þad þeſs vegna, ad þeir ſo Olijker eru; Þar fyrer aavarpar St. Jacob Poſtule Veralldarennar Paarfugla þanneg: 4. Cap. Þier Hoor-Kallar og Hoor-Konur, vited þier ecke, ad Heimſins Vinaatta er Guds Ovinaatta? Fyrer þvi, ſa ſem vill vera Vinur Heimſins, hann gioreſt Guds Ovinur. Og fyrer þvi, ad þeſſu er nu ſo vared, þa hlioota Guds Born adſkilianleg Moodlæte og Hørmungar ad lijda, um hvert Efne eg hefe nockud fyrer ſkømu

 talad,

talad, er eg Oska ad goodann Stad funded hafe i ydar Hiortum. Enn Sökum þess, ad margur sa ed vill Gude þocknast, hann þoler liwflega þad sem Gud leggur sialfur a, So sem eru Siwkdoomar, Fatækt, Astvina Misser og annad þvilijkt; Enn þad sem af Mannanna Hende kiemur, þad er oss baagara ad þola, og optlega upptendrast vort Hiarta af Reide og Hatre til þeirra, af hveríum vier meigum nockurn Ojøfnud lijda, sierdeilis nær þad fram vid oss kiemur fyrer Sakleyse, edur og i Stadenn þess, er vier Gott hugdunst giöra, slijkt er ad sonnu Mannlegt, og eingenn Laaer þad ödrum, Manna a medal, þviad flester eru so Lynder. Enn ef vier adgiætum, ad þad kiemur eckert fram vid Guds Born, sem ad ecke sie epter hanns Forsia og Tillaatseme, þa eigum vier þvi eins vel ad taka sem kiemur af Mannanna Hende, so sem hitt, er hann sialfur a oss leggur, þvi ecke einn Titlingur fellur a Jordu aan vors Himneska Fodurs Vilia, Matth. 10. Hvi mun oss þa nockurt þad henda, sem ad hann ecke vill ad vid oss framkome? Og þetta er þad sem ad DRottenn JEsus fyrer-segier sijnum Læresveinum i þessu Heilaga Evangelio um Offsookner vondra Manna, og segiest þess vegna tala þad til þeirra, ad þeir hneixlest ecke, og ad nær sw Stund kiæme, ad þeir þa minntust þess, ad hann segde þeim þad; Og vill hann þad sama sagt hafa öllum sijnum Bornum um allann Heimenn. Hvi vil eg wt af þessum Spaadoome DRottenns, sierdeilis Tvent Hugleida i þetta Sinn, Sem er. 1. Ad vier sieum skylduger til ad giegna þvi med Þolennmæde, er vier lijdum af vondum Monnum Sakleysesins og Guds vegna. 2. Ad vier eckert raangt giorum, til ad umflija þeirra Ofbellde.

Hier til hiaalpe oss goodur Gud, Fyrer sinn Son JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingin.

HEir Munu Forboda Ydur (segier DRottenn,) Og Sa Tijme Kiemur, Ad Hver Hann Lijflætur Ydur, Hann Meinar Sig Ad Giora GUDE Þægt VERK. Vid hveria sagde Frelsarenn þetta? Vid sijna elskulega Læresveina, hvorier honum aa n Esa hafa af Monnum kiæraster vered, hverier ad hofdu hanns Vitne um þad, ad Faderenn elskade þaa, af þvi þeir elskudu sig, og allt þetta rættest a þeim, sem vonlegt var. Hver sem athugar Hwdstrokur St. Paals, 2. Cor. 11. Faangelse Peturs, Act. 12. Lijflaat hinns Elldra Jacobi, Act. 12. og Beinbrot hinns Yngra; Ja, hversu ad aller Guds Heilager Menn og Vottar JEsu Pijslar eru herselega wtleikner, so sem liooft er af Christendooms Sogunum: Hann mun þad jaata, ad eckert Ord DRottenns sie a Jordu falled. Nu fyrst honum þocknast hefur, ad laata sijna kiærustu Vine þetta lijda af vondum Monnum, þvi skylldert þu og ecke fyrer Guds Saker lijda vilia, þad sem einhvor Ohlutvandur vid þig aflaga giorer? Og taka þvi so sem ödrum Krosse af DRottenns Hende? Ad sonnu relner ecke a þad fyrer oss i þessu fatæka Lande ad þola Offsookner edur Lijflaat fyrer Evangelii Lærdoom edur Christi Vidurkienningu, samt eiga Menn þo Gud ad dijrka med goodum Verkum, med þvi ad hiaalpa hinum Saklausa, og þeim sem Oriettenn lijdur til Riettarens, mootstanda þeim sem illa giora, og margur lijdur Oriett fyrer Sakleyse,

se, og fyrer þad sem hann med soddann Hætte Gott giorer, enn aller þeir ed þannveg lijda, þeir lijda fyrer Guds Saker. Gud hefur boded ad hiaalpa þeim sem Raungindenn lijda og underþryckter eru af Ofrijkis Monnum: Villt þu ecke frelsa hinn Faangada, sem til Dauda er Dæmdur, og þann sem ad liggur vid Lijflaate, þar þu segier: Siaa, vier þeckium ecke þenna; meinar þu ecke, ad hann sem rannsakar Hiartad, hann merke þad? Og hann sem tekur Vara aa Saalu þinne, hann þecke þad? Mun hann ecke giallda hverium Manne epter Verkum sijnum? segier Salomon, Prov. 24. Þetta vill nu hinn Æðste Doomare hafa sagt þeim, sem meire Maattar eru og kuña ad hiaalpa þeim sem Oriett lijda. Segied mier: Mun hann syn Saka vera ef hañ giorer þad ecke? Nei, litlu betre eñ hiñ sem Oriettiñ giörde; Enn þott hann meige Araasum mæta þar fyrer, þo aa hann þad ad lijda med Þolenmæde, fyrer Guds Saker. Gud hefur bodid ad elska Raungann, og þad ecki einasta med Ordi og Twngu, segier Postulinn, helldur med Verki og Sannleika, 1. Joh. 3. Eñ hvad er tijdara i Heimenum, helldur enn Vanþacklæti fyrer Goodgiørdirnar. Drambsemi Ohlutvandra Manna er so haavor og Rijklundud, ad hun þykest aungvum vera um neitt skylldug, hversu miklar Velgiorder sem hun þiggur, og alla Hlute vill hun med Siaalf-Skylldu hafa, enn gielldur hin verstu Laun fyrer allt undannfared, ef ecke er Grædge heñar fullnægt i hverium þeim Hlut er hun hafa vill. Full er Verolldenn af slijkum Siaalf-Byrgingum: Þeir sem nu fyrer slijku verda, sem margur er, þeir lijda Guds vegna, þvi þeir lijda fyrer þad sem Gud hefur boded, hvert þeir meiga ecke Ogiort laata, ef þeir vilia Christner Menn heita, og Guds Vinir, þvi hvor sem sier sin Brooður Naud lijda og aptur lykur sitt Hiarta fyrir honum, hvornig maa Guds Kiærleiki i honum vera? segier Johannes, 1. Pist. 3. Og meiga þeir þad ecke reikna, þott ad Heimurenn giallde Illu aa moote Goodu, þvi Paulus segier, Rom. 12. Ef Ovin þinn hwngrar, þa gief honum ad eta, og þyrste hann, þa gief honum ad drecka: Og meigum vier ecke vera vandare hier um, enn Fader Myskunsemdanna hver ad i giegn sinne Owtsegiannlegre Goodgyrne þoler hina mestu Oþock af syndugum Monnum, og lætur þo rigna yfer Vonda og Gooda, og sijna Sool upprenna yfer Raanglaata og Riettlaata, Matth. 5. Þvi skulum vier ecke meina, Br. M. ad þetta sie alleina sagt til Postulanna, edur þeirra sem lifdu aa þeim Dogum, þvi eingenn er sw Stiett sem ad nockur Madur lifer i, ad eige mæte hañ Andstreyme og Adkaste Veralldar, ef hann leggur Kapp aa ad giora Verk Drottens Guds sijns trwlega. Þvi er æ verr og midur, ad þeir eru flester sem skioota þessu Omakenu hiaa sier, uppaa þad þeir meige i Fride vera. Hvad er ecke einn Guds Ords Þienare, ef hann er Vandlætingasamur i sijnu Embætte? Mun honum ecke Ovilld og Mann-Hatur bwed vera? Enn segied mier: Mun hann þar fyrer meiga laata af ad straffa, Ogna og aaminña? edur elska þaa og þeirra Velferd, er honum so illa launa hinn mesta Velgiorning, er af syndugum Manne kann vid annañ giordur ad vera? Mun hãnn ecke meiga þeinkia hid sama og Paulus? Er hann sagde, Gal. 1. Hefde eg hijngad til Monnum þocknast, þa

være

være eg ecke Christs Þienare. Og þetta er riett ad taka sinn Kross uppaa sig og fylgia JEsu epter, Matth. 10. Saa giorer vel sem lijdur med Þolennmæde þad Gud aa hann leggur, og hann gietur ecke af sier kastad; Eñ sa giorer enn þa betur, sem med fwsum Huga geingur i Bardagann aa moote Fiandanum og hanns Verkfærum, þar hann kynne þo ad skioota sier undann, sem marger giora: Hañ er einn Guds Kappe, og maa vænta sier þeirrar Kvediu, sem Gedeon fieck af Einglenum Fordum: DRottenn er med þier, þu Hetia, Jud. 6. Hvad skulu Menn tala um̃ einn Rietvijsann Doomara, ef Menn eiga þo fyrer morgum þvilijkum Raad ad giora i hreckvijsre og skynlausre Olld þessare? Enn ef nockur er saa, er vanda vill sitt Embætte med Roksemd og Stioornseme nockurre, og hallda uppe Christelegum Riettendum, þa er honum ecke einasta aa Haalse leiged af þeim er þvi mæta, sem ecke er so ad undra, þvi blindur er hver i siaalfs sijns Sok, helldur og af þeim er þad eckert vidkiemur og eige skynia hvar um̃ þeir dæma; Jaa, mæter Araasinni af þeim, er siaalfer ættu hvad mest Riettenum fram̃ ad fylgia, hverier ad brwka Logenn eins og Reikne-Peninga, þaa er Menn laata merkia so mikla edur litla Tolu, sem Meñ siaalfer vilia. Aller þeir, ed nockrum Oskunda fyrer verda af so hreckvijsum og heimskum Monnum, þeir lijda fyrer Guds Saker, þvi hann er saa ed sagt hefur fyrer Munn hinns Vijsasta Konungs; Saa sem Riettlæter hinn Ogudlega og Sakfeller hinn Riettlaata, þeir eru baader eins Svijvirding fyrer Gude, Prov. 17. Og eru ecke alleina þeir, ed i Guds Stad vandlæta eiga med Ordum, edur þeir sem yfer Riettenn skipader eru, þessum Mootgaange vondra Manna undervorpner, helldur hefur Diofullenn sijn Verkfære nærre þvi hveriu Hwse, til ad spilla Christnenne og goodum Sidum. Einn vandlaatur Hwsboonde maa slijku mæta af sijnum Hiwum, af sijnum Bornum aa Stundum; Jaa, af odrum wt i fraa, sem ecke hyrda um̃ ad vanda Raad sitt, og aamæla þeim, er adra vilia hafa aptur af Illu, giefa þeim stijfenn Ord, og kalla ad þeir eige eckert med sig, þeir mune brwka sijna Sidu þeim ad Packarlausu. Þetta er ecke lijtel Skap-Raun, Born M. fyrer þaa sem Ottast DRottenn, og aangrast af ad siaa Ogudlegt Framferde, og siaa fyrer þeirra Tijmanlegar og eilijfar O-farer, enn faa þo eige vid þeim giort, sokum Þvermoodsku og Stráakskapar hinna, er þeir villdu leidriett hafa; Jaa, þad er þeim meira Angur, helldr enn margt þad er aa siaalfum þeim liggur. Eñ aller þeir ed fyrer þvilijkt lijda meiga nockurt Adkast, Illyrde edur annad verra, þeir lijda fyrer Christi Saker, þvi Gud hefur skipad ad uppala sijn Born i Lærdoome og Um̃voondun DRottenns, Eph. 6. Hann hefur boded ad vier skulum Leidrietta þaa, er viller fara, med hoogværum Anda, Gal. 6. Jaa, saa ed þad ecke giorer, nær hann sier sinn Broodur villt fara, hann samþyckest honum, og giorer sig Hluttakara i Annarlegum Syndum, 1. Tim. 5. Og hefe eg nu þañeg sijnt, Br. M. ad sierhver einn af oss gietur aatt Hlut i þessum Alvijsa Spaadoome DRotteñs, ef vier vilium þyckia fyrer Gud edur vandlæta i hanns Stad; Þvi alldrei þrijtur þar Andskotans Born, þau er giefe þeim Orsok þar til er DRottenn Ottast, og eyra þvi illa ad hanns Dijrdarfulla Nafn sie vanvirdt, hanns Ord forsmaad og hanns Setningar vijsvitande

vitandi undir Footum trodnir: Og þoott ad Mønnum sie Ohætt uppa Lijf og Lands-Vist; þa er þad eigi þeirra Giædsku ad þacka, sem allt Gudlegt Skick og Riettindi forsmaa, þvi hann sem ad hatar einn Guds Ords Þienara fyrir Heilsusamlega Kienningu, edur einn Yfirvallds-Mann fyrir riettann Doom; Ja, hann sem bolvar Fodur og Moodur, Hwsbændum edur ødrum þeim, sem hann leidrietta vill, hañ er ei laungt fraa þvi ad taka Lijfid af honum, edur reka hañ wr Landi, ef hañ þad þyrdi vegna Hefndariñar.

Nu er þessu so varid, sem eg sagt hefi, Brædur mijnir, og þvi verdur eigi mootsagt, enn allt þetta eigum vier þolinmoodlega ad lijda fyrir Guds Sakir, og ecki hatast vid þaa er vier meigum þola þad af; helldur giora Skylldu vora med Þolinmædi. Giætum þess er Frelsarinn segier hier i Gudspiallinu: Ad þeir, ed giori þetta, meini sig ad giora Gudi þægt Verk; So kunna og hinir Skynlausir ad vera, ad þeir ætli sier sie Oriettur gior, og þeir ed þeim vel vilia, giori þetta af Offsa og Illgyrni. Laat hier þo til Hugar koma, syndugur Madur, ad þad er Oriett fyrir Gudi þijnum, hverium þu þioonar, ad hatast vid so faaraadar Manneskiur, þvi þeir eru ecki Haturs, helldur Medaumkunar verdir, hvorsu Vollduger edur Vijsir, hversu Rijkir edur Sterkir sem þeir eru, þaa eru þeir allra Skiepna Vesælastir, er so hafa gleymt Gudi og sinni Velferd, ad þeir skynia ecki hvad þeim er til Gagns edur Ogagns. Þetta giora þeir, segier Frelsarinn, af þvi ad þeir þeckia hvorki Fodurinn nie mig. Ef ad Hundur bijtur nockurn, edur Hestur slær hann, honum kann Madur ecki so ad reidast so sem einum Manni, sem Gud hefur Vit og Skyn giefid; enn hinn Ogudlegi, saa ed segier i sijnu Hiarta, þar er einginn Gud, Ps. 14. Hann er argari enn Hestar og Mwlar, hverium Menn hlioota Beitsli og Bitil i Munn ad leggia, Ps. 32. Og þvi skylldi eg þa vilia hefna mijns Vansa aa soddann Andskotans Vinnu-Dijri, sem ei veit hvad þad giorir? Menn laata Oods-Manns Verk vera saklaust vid Konginn eftir Logunum; og þvi skylldu Menn þa ecki hafa vidlijka Myskun vid hann, sem so er yfirgiefiñ i fraaleitt Sinni, ad hann hverki þeckir Gud nie hanns Christ? Og ecki miklu helldur leitast vid ad leidrietta hann, helldur enn vilia hanns Olucku. Lijt til þijns Endurlausnara, þar ed hann hieck aa Krossinum, og beiddi fyrir Yfirtrodslu-Monnunum, Ja, þeim er giordu a mooti honum þa allra stærstu Svijvirding, sem nockurn Tijma hefur framinn verid aa milli Himins og Jardar, og þo villdi Brunnur Giædskunnar laata þetta fyrir Afbotun gyllda; þeir vita eigi hvad þeir giora, Matth. 27. Og hversu lijtid er þad nu, sem þu maatt lijda af þeim, sem ecki eru kannskie ollu syndugri enn þu, fyrir hanns Skulld, hiaa þvi sem hann leid saklaus þinna vegna! Þar fyrir, nær sem einhver Veralldarinnar Sonur mootmælir oss, þegar vier giorum Guds Verk, þa hugleidum hvilijk Vegsemd þad er ad lijkiest hanns Eingietnum Syni i þvilijku, og spillum ecki þeim Heidri med Oþolinmædinni, þvi ef vier giorum þad viliugir, þa hofum vier Laun, enn giorum vier þad naudugir, þaa er oss þad þo uppaalagt, segier Paulus um sig, 1. Cor. 9. Og þeinkium ecki ad Lærisveirninn sie yfir Meistaranum; hafi þeir Hwss-Fodurinn Beelzebub kallad, hv-

ad munu þeir giora vid hanns Heima-Menn? Matth. 10. Og þessa Jhugan munum vier laata spekia Hiarta vort, ef vier meir angrunst af þvi sem Gudi er i þessu a moot giort, helldur enn sialfum oss, og blondudum ecki hverutveggia þessu samann. Og mä þad ecki letia oss, þoott ad lijtid vilie avtkast vid vora Tilhlutan i Guds Stad. Heyrum hvad sialfur Christur segier, Es. 49. Enn eg sagda, eg erfidadi forgiefins, og fyrirkiemi so mijnum Styrkleika fyrir eckert og til Onijtis, þo ad mitt Maalefni sie DRottinns, og mitt Embætti mijns Guds; enn þar um ber Raun Vitni, hvernig hann blessadur Holldinu Jklæddur lagdi allann Hug a Guds Eyrendi. Hver hefur þvilijk Mootmæli, Haadungar, Brixlanir, og allra-handa Ooyrdingar þolad fyrir Guds Verk, sem hann? Eckert er tijdara i Heiminum, enn þad, ad hann skipast ecki vid þeirra Adgiordir, sem Guds Eyrendi reka; Samt vill Gud þad þo giora laata, sijnu Nafni til Dijrdar, og þeim til Nota er þad medtaka, enn hinum til þess stærri Fordæmingar; og maa þig einu gyllda syndugann Mann, med hvoriu Mooti þu Gud dijrkar. DRottinn JEsus vissi, ad Judas var Glotunarinnar Sonur, samt taladi hann Guds Eyrendi fyrir honum, advaradi hann þad sama Kvolld, og hann sveik hann um Noottina, Joh. 13. Aminnti hann i þvi hann sveik hann, Matth. 26. Þu verdur fyrir Ooyrdingu af Heimum: Enn seig mier; Er nockur Virding stærri? Nockur Nafnboot so fogur, so sem Guds Barn ad heita? Nu segier Endurlausnarinn, Matth. 5. Blessid þeim er ydur Bolva, giorid þeim gott sem ydur Offækia, so ad þier sieud Born ydar Fodur, sem a Himnum er: Þar fyrir, hver sem hugleidir eilijfa Himnarijkis Gledi og Fognud Guds Barna, og ecki reingir Sannsogli Christi, honum mun lijtid þykia fyrir, ad lijda nockur Hallmæli og Araasir af Vitlausum Monnum hier i Heimi, fyrir þad Dijrdlega Verdkaupid, sem er nooglegt a Himnum, Matth. 5. Hier til lijtur David, er hann segier, Ps. 27. Eg mundi snart hafa yfirgiefid mig, ef eg eigi trydi ad eg siaa mundi Giædsku DRottinns a Landi lifandi Manna. Og vilium vier þeirra Dæmum fylgia, er JEsus taladi þetta vid, og þeirra Samþioona, þa skulum vier ecki finna, ad þeir hafi stoorum Oþolinmoodir edur reidir vordid, nær þeir voru falsklega aklagadir fyrir Herrum og Landsdoomurum. Hvad skal eg tala um hid saklausa Lambid, Guds Eingietinn Son? Þegar þeir sogdu hann væri Samverskur og hefdi Diofulinn, Joh. 8. Svaradi hann alleina þessu: Ecki hefi eg Dioful, helldur vegsama eg minn Fodur. Þegar Judas sveik hann; Vinur, hvar til komst þu hijngad? Matth. 26. Þvodi Svikarans Fætur, Joh. 13. Skomu adur enn Diofullinn foor i hann; Þegar Biskups Þienarinn sloo hann, Joh. 18. Hafi eg illa talad, þa bevijsa þad, og hafi eg satt sagt, hvar fyrir slær þu mig? O þier allir hanns Vinir, oll hanns Born, allir hanns Lærisveinar, allir sem vilied honum i Dijrdinni eftirfylgia! Komid hijngad og lærid af honum, þvi hann er hoogvær og af Hiarta lijtillaatur, Matth. 11. So var hann þolinmoodur, sem ecki vissi af Synd, 2. Cor. 5. og atti þo alls Valld, bædi a Himni og Jordu, Matth. 28. Enn þu sem daglega syndgar og ecki forþienar annad enn Straff, munt þu ecki

ecke jaata ad Gud hafe allainn Riett til ad straffa þig? Jaa, þad munt þu ad vijsu jaata; Enn seig mier: Mun hann þa ecke frialst eiga, med hvorium Moote ad han typtar þig? Mun Barned nockud sijsla um vid Fodurenn, hvert helldur ad hann straffar þad med Hende edur Vende? Þad heyrdest ecke aa Job, Cap. 1. Hver oss er settur fyrer Þolenmædenar Epterdæme, hvert helldur ad Gud liet Ellldenn falla af Himne og brenna hanns Eigur ellegar ad þeir af Chaldea og Saba ræntu hanns Gotze: J ollu þessu syndgade ecke Job, segier Ritningenn, helldur sagde hann: Gud gaf og Gud aftook; Sie Nafned DRottenns lofad ad Eilijfu. Þad er ein Hræsnisfull Þolennmæde, ad segiast vilia þola allt þad sem Gud leggur aa, enn vilia eckert Monnunum lijda, eins og þeir giore nockurt þad er hann leifer þeim ecke. Saa sem Lijflaatast aa, hann fyrergiefur Bodlenum, enn slær allre Skulldenne uppa Doomarann; Nu gietum vier ecke giefed Gude Skulldena, þvi vier jaatum ad vier hofum til þessa unned sem hann aa oss leggur, og þvi skylldum vier þa reidast hanns Bodlum, sem eru voilder Menn? Þoott hann leyfe ad þad aa oss framkome, sem han visse ad þeir af sialfs Dadum mundu Oriett giora, Sierdeilis þar vier erum sialfer vonder. Þar fyrer, hversu sem þad er Oriett vijst af þeirra Hende, þa er þad af Guds Alfu riett, og eckert annad enn vor forþient Laun; Og vilie einhvor þvi ecke trwa, ad Gud stiorne i þann Maata Verkum Oniiltdra Manna, sijnu Nafne til Dijrdar, enn sijnum Bornum til Leidriettingar (þvi allt verdur þeim til Gooda er Gud elska, Rom. 8.) Hann lese þad er, stendur i Bæn Postulanna, Act. 4. J Sannleika komu þeir samann yfer þinn H. Son JEsum, hvorn þu smurt hefur, Herodes og Pontius Pilatus med Heidingiunum og Jsraels Foolke, til ad giora allt þad er þijn Hond og þitt Raad hafde aasett ad ske skyllde. Hafe nu Guds Vollduga Hond, epter sijnu alvijsa Raade, stiornad Ogudlegra Manna Verknade og Athofnum i Fordæmingu sijns Eingietens Sonar, þier til Saaluhiaalpar og Mykunar, Christenn Madur! Þa laat þig ecke undra, þoott hann stijre þeim til ad aga þitt lauslaata og Drambsama Holld, til ad temia þig Lijfadann Kaalf, eins og Ephraim, Jer. 31. þier til Andlegrar Heilsubootar; Helldur minnst þess, nær ed vonder Menn þier rangt tilgiora, ad þu hafer þad med þijnum Syndum forskulldad, og munt þu braadlega snwa þvi Hatrenu, er þu fær til hanns, er vid þig afgiorde, aa þijna eigenn Synd, med Harmþrwngnum og sundurknosudum Anda; Þad er þad Offred sem Gude lijkar, Ps. 51. So giorde David Konungur, 2. Sam. 16. er Simei bolvade honum, og kastade Steinum aa hann, enn Abisai sagde: Þvi skyllde þesse daude Hundur bolva mijnum Herra Konungenum? Eg vil fara og taka hanns Hofud af; Enn Konungurenn svarade; Hvad hefe eg med ydur, þier Born ZeruJa, hafe DRottenn skipad honum: bolva þu David; hver vill segia? Þvi giorer þu þanneg? Og er nu so wttalad um hinn Fyrra Partenn.

Hvad hinum Sijdare Partenum vidvijkur, þa aa oss þad sagt ad vera, ad vier eigum fyrer eingum Manne svoddann Virdingu ad bera, edur ad nockurs Manns Elsku edur Otta so miked ad laata, ad vier þess vegna styggium vorn Gud aa moote Samvitskunne.

Þad er oss vitannlegt, Br. M. ad noogu eru margar Synder vorar, sem oss henda af vorri-eigenn Holldꝺs og Bloꝺs Tilteigingu til ad fordæma oss, þoott ad ecke styggium vier hinn gooda Gud med þvi ad taka synduga Menn fram fyrer hann. Gud bijdur i sijnu H. Lögmaale: Þu skallt ecke hafa Annarlega Gude fyrer mier; Þad er hid fyrsta og hid ædsta Bodord, Matth. 22. og þegar þad er broted, þa eru öll brotenn. Enn hvad giora Menn þegar þeir giora alla Hlute ad Mannanna Villd, hversu Oguðleger sem þeir eru, eñ kasta Guds Bodordum a Bak sier aptur? Er þad ecke ad dyrka eitt lifande Skurgod? Jaa, þann sem er verre enn eitt Skurgod, þvi einn Tre-Stobbe er Saklaus, þoott hann sie dijrkadur: Hiaa-Trw Mañanna gioerer hañ ad Svijvirdingu, enn sa sem Ottar ødrum til ad giora Odygder og sierhvad þad sem Gud hefur bannad, hann er Diofull, og saa ed hañ dyrkar, hann dyrkar Diofulen: Þu segiest ecke dyrka hann, þoott þu giorer þad sem hann bijdur, þu veitst ad Gud sie ædre og öllu betre, og hann eige ad dyrka: Þad er illt ad þu veitst þad, þad vill fordæma þig enn þa meir, helldur enn ef þu þad ecke visser. Enn seig mier! J hveriu er nu Guds Dyrkun innefalenn? J þvi ad trwa a hann, elska hañ og Ottast, og giora epter hanns Bodordum. Enn seig mier aptur: Hvern Ottast þu meir, Gud edur Mannenn, nær þu hrædest hann, sem ecke kann ad deyda nema Lijkamann, eñ forsmaaer Gud, sem Lijfe og Saalu gietur kastad i eilijfañ Elld? Matth. 10. A hvern trwer þu meir, nær þu þykest einkis Þurfe, er þu hefur Mañsins Vinaattu, a medañ þu hræsnar fyrer hanns Borde, enn so lijted reider þu þig uppaa Gud, sem þig skapad hefur, Fædt og forsorgad, ad þu vinnur þad til ad missa hans ecke, ad þu giorer alla Hlute, sem Gud bannad hefur? Hvern elskar þu meir? Er þu villt jafnvel fara til Helvijtis fyrer Mañenn, enn fyrer Guds Saker stendst þu ecke ad siaa hanns Reide Svip, er þu meinar ad hafa nockud af þinne Tijmannlegre Velferd i Hende sier. O Vei! O Vei! Er ecke þvilijkt ein hrædileg Afguda-Dijrkun, og miklu verri enn öll Svijvirding Heidingiaña, þeirra er af Gudi eckert vissu? Paulus segier, 1. Cor. 8. Ad Skurgoded sie eckert, og hræddust þeir þo Skurgodinn, er þau dijrkudu; enn Christner Meñ, hveriumm Gud er i Holldinu Obennberadur, Þeir Ottast Menninna meir enn Gud, Jafnvel þoott hañ sie allt i öllu, og þykiast vel hafa komid Kaupi sijnu, Ef þeir saa sellt Guds Vinaattu fyrir Mannsins Kiærleika, edur til ad umflija hanns Oblijdu. Drottinn segier fyrir Muñ Oseæ Spamantis, Cap. 2. um Gydingaña Samkundu: Hun þecker ecki, ad eg er saa sem gief henne Kornid og Mustina og Oliuna, og eg fæ þeim anægianlega Sylfrid og Gullid, af hveriu þeir giora Baal. Hversu vel a þetta heima hiaa þeim, er hiñ goodi Gud veitir alla Hluti ysirflootannlega til Notkunar, enn þeir ecki einasta wtsinga Hws Eckna og Fødurlausra, Matth. 23. Og selia hinn Volada fyrir einn Skoo, Amos 2. Helldur og giora sier einn Afgud af þessu i Hiarta sijnu, hvert ed vera ætti Mustere H. Anda? 1. Cor. 6. Þad er Svijvirding Foreydsllunnar i Helgum Stad: Og þad er þeim ecki noog ad þeir dijrki hann einsamler, helldur, eins og Nebucadnezar liet wthroopa, ad hver Madur under Lijfs-Straff skylldi dyrka Bel, So villa þeir fyrir þessa Svijvirdingu af öllum heid-

rader verda, og ad aller hlijde þeirra Bode og Banne, hverſu ſem þad er Oriett og Ogudlegt, og þeſſe Barmenne Ottaſt Menn framar enn Gud og hañs Sannleika. Edur hvad er tijdara eñ þad? Ad nær einn Lijtilmagni aa vid eiñ Maktar-Mañ, þorir eingiñ Munnenum upp ad lwka, eingiñ Sañleikañ ad vitna, þeir hlaupa i Felur, og hafa adſkiliannleg Undañbrogd, til þeſs ad Odygdiñ verdi ecki ſtroffud, nie Sañleikurinn i Lioos leiddur, Jaa, giefa ſig helldur Fiandanum, ſijnum Fodur, helldur eñ ad þeir ſtyggi hinn Vollduga, og jafnvel aa ſtundum þañ ſem þeim kan eckert Mein ad viña; Ecki er þetta Chriſtindoomur; Bærelegra mun einum Ærlegum Heidingia verda aa Doomſins Deige, Matth. 11. helldur enn þvilijkum Dioſulſins Hamhleypum. Hvad kunna Menn þo ad ſiaa þad aa einum daudlegum Manne, hverſu Bolldugur ſem hañ er, ad Menn Otteſt hann meir enn Gud? Hann kann ad ſyrra þig allre þinne Aleigu, þad gietur og Gud aa Auga-Bragde; Hann kann ad ſteipa þier wr Heidre þijnum, mun Gude nockud bægt um þad vera? Hann gietur ſett þig i Fiotur og Jaarn, Gud gietur ſleigid þig med ſkiædum Siwkdoomi; Hann gietur teked Lijfed af þier, og er þo ecke hætt vid þvi i Lande voru, enn Gud kann ad deyda eilijfum Dauda, og ſetia þa, er hann forſmaa, i þad Faangelſe, hvadann eingenn Endurlauſn er, Matth. 18. Hvert er nu meira? Eg vil taka til þeſs meſta Skadrædis, er Meñerner kuña ad giora, þad er Daudeñ, eñ hvad er hañ hiaa Helvijte? Þad er ſo Ognarlegt, ad eg er viſs um, ad ef nockur mætte ſiaa Pijſler Fordæmdra, munde hann hlaupa wt i Þuſund Daudans Hættur, til þeſs hann ſæe þær alldrei optar: og þo flya Menn med Seglum og Arum undann einne Vatns-Boolu, ſem þo kann ecke ad ſkada oſs, nema aa Lijkamlegre Velferd, og þad þo ecke framar enn Gud leifer honum. Nu ef þu ætter allt þad er þu kiæraſt hefur ad miſſa, fyrer hvern er þier ſkylldara ad miſſa þad? Fyrer Gud edur hinn Ogudlega? Mun Madurenn hafa ſkapad þig? Hefur hann giefed þier Lijfed? Hefur hann forſorgad þig fraa Moodur-Lijfe? Hefur hann giefed þier Gootz og Peninga? Hefur hann upphafed þig til Heidurs? Hefur hann verndad þig og allt þad þier vidkiemur? Mun eige lijkara ad þu miſſer þad hanns vegna, ef miſſaſt ſkal, ſem gaf þier þad i Fyrſtunne, og þvi hefur ollu vid Makt hallded, allt til þeſſa Dags, helldur enn hiñs, ſem þier gaf eckert af þeſſu? Þvi þad hann kañ-ſkie gaf þier, þad took hañ af Guds, og jafnvel þoott hañ hafe ſtoled þvi fraa Naunganum, og er hñ viijaſtur til ad taka þad fraa þier aptur og laangtum meira, þad fyrſta honum rennur i Skap vid þig, þvi ſo, er Vinaatta Heimſins. Eg vil eige þar um tala, ad ſa ſem hræder einn til ad giora Oriett Einuſiñe, hañ hefur hann fyrer Skulldbundenn Þræl i ollum Skomum og Odigdum ſijdann, og vilie hann ecke, þa er honum Oluckann bwenn, þvi ſo plagar Heimur þeſſe ad launa ſijnum Þienurum; Jaa, hann ſkal ecke vinna ſier hinn miñſta Ohagnad, til ad forſvara hañ, ef hañ yrde af audrum þar um ſooktur, helldur mun hañ ſvara eins og Gydingar Judæ: hvad kiemur þad vid oſs? Siaa þu fyrer þvi, Matth. 27. Og kuña þeir ſier ecke betre Side, helldur eñ þeirra Foringe Dioſulleñ, þvi ſo breiter hañ vid þa er honum liaaſt til Þioonuſtu; Hañ teiger þaa fyrſt til Syndareñar, og launar þe-

im sijdann med elijsfu Hølvijtes Bæle, og þañeg er þad ad ottast Meñena framar eñ Gud. Enn hverneg launar nu Gud aptur þeim er stoduger standa i hanns Þioonustu, og ecke ottast Menneña? Þad maa oss af Dæmunum kunnugt vera? Hann launar ollum good-um Launum, bæde hier og Eilijflega; Satt er þad, ad morg eru til þess Dæme, ad hañ hef-ur giefed sijna Astvine i Mannanna Valld, þo alldrei so ad hann ecke hafe vered þeim til annarar Handar. Eg er viss um, ad St. Paall, er hann stood fyrer Festo og Agrippa, Act. 26. hefur unad miklu betur Hag sijnum helldur eñ hver af hanns Aklagendum, hver-ia Reideñ og Hatred so plagade, ad þeir eyrdu eingu neina þeir feingiu honum i Hel kom-ed, annars hefde hann ecke Oskad þeim, ad þeir være þvilijker sem hann. Þegar hann hafde i 14. Daga hrakest i Siaafar-Olgunne, og aller orvæntu sier Lijfs, sende DRottenn sinn Eingel til hanns, Act. 27. Og liet segia honum: Ottast ecke Paall, þier byriar ad ko-ma fyrer Keysarann. Og hversu ad hiñ mattuge Gud hafe mattugur i honum vered fyr-er Keysarans Doome, þvi lijser hann, 2. Tim. 4. segiande: J mijnu Fyrsta Forsvare var eingenn hiaa mier, helldur yfergaafu mig aller, eg Oska ad þad verde þeim ecke tilreik-nad, enn DRottenn var hiaa mier og styrkte mig, so ad Evangelii Bodskapur yrde fullkom-nadur fyrer mig, og þad heyrdu allar Þiooder, og eg vard frelsadur af Munne Leonsins. Og þoott ad Gud tale ecke so bersynelega vid oss aa þessum Dogum, so sem hann þa talade vid Paal, þa talar hann samt i sijnu H. Orde, og dregur allann Efa af þvi, ad sa sem hon-um treyster i ollu Erlegu, Ollu Riettvijsu, Ollu Guds Eyrende, hann mun alldrei til Skammar verda, þoott hañ sijnest ad hafa oss i Mannaña Valld giefed um Stundarsaker, þvi þad Ord stendur stodugt, Gud þecker þaa sem hanns eru, segier Postulenn, 2. Tim. 2. DRottenn er minn Styrkur, Eg Ottast ecke, hvad mun mier Madurenn giora? Segier David, Ps. 117. Einn goodur Fader, þegar hann hefur strijkt Barned, þa kastar hañ aa Stundum Vendenum i Elldenn og breñer hañ; Og so breiter Gud vid Skaalkana, hver-ia hann brukar optlega til ad hyrta sijn Born med: Þvi skylldu Meñ þa Ottast þaa, nær Menn hafa so sterkann, so Riettvijsann og so Giædskurijkañ Forsvars Mann sem Gud er? Þad mun gaanga þeim, eins og St. Paall spaer, 1. Tim. 3. um Villu-Meñena aa sijnum Dogum, hverneg hann samlijker þeim Jañes og Jambres er mootstoodu Moysi, so stan-da þesser i giegn Sannleikanum (segier hann) fordiarfader Menn i Hugskotum, fraahverfer Trunne; Enn þeir munu eige meiru framkoma, þviad þeirra Faasiña mun ollum opin-ber verda, so sem og hinna vard. Og þoott ad Guds Astviner ecke eige ad fagna yfer O-luckur Fiandmanna sinna, miklu helldur bidia Gud ad giefa heim Leidrietting til Ydranar, sem Paulus bijdur, 2. Tim. 2. og segia: Verde þiñ Vilie; þa samt er þetta ein Obrygd-ul Huggun fyrer þaa, sem reka Guds Eyrende, nær þeim mootmællt verdur, ad hañ er þeir-ra Styrkur, sem ad jafnvel segier til Siaafar-Hafsins: Hijngad skallt þu komast og ecke leingra, hier skulu þijnar stolltar Bylgiur leggia sig, Job. 38. nær vier erum i Vinaattu vid hann, þa kañ eingenn Ovinur ad granda oss, og nær hañ er Ovinur, kann eingeñ Vinur ad hiaalpa oss; Þvi skyllde eingenn voga hid miñsta moote Gude ad giora fyrer Otta edur

Elsku

Elsku Saker vid hanns Ovine, helr vega aller minna enn eckert, Ps. 39. J mier hafed hier Frid, enn i Heimenum hafed hier Angist, vered Ohrauder, eg hefe Heimenn yferuñed, seger Frelsarenn, Joh. 16. Hvad kunna oss Mennerner ad giora? Offiækla oss, Fieflet-ta, Hallmæla, Bryxla og vanvirda; Eg vil þad allt Þusundsinnum helldur lijda, enn ad vita mier i minnsta Maata Von hañs Oblijdu, þvi ad flija undann Mannsins Vallde under Guds Reide, þad er ad hlaupa undann Snæ-Liooseuu til ad verda fyrer Reidarslag-enu. Hversu miklu betra er, Jaa, miklu gledelegra alla Hlute ad þola fyrer Christi Nafns Saker, epter þeirre Mælingu sem hann veit ad sierhver einn bored gietur, og oss mun þarf-legast; Jaa, Dijrdarsamlegast og Fagnadarsælast verda; þa vier munum i hanns Rijke med honum eilijfum Sigre hroosa! Þvi hver sem hitt utvelur, hann maa ad þessu Tvennu vijsu gaanga, annadhvert Eilijflega ad fyrerfarast med Heimenum, edur ad taka so mikla Ydran fyrer þad sem hann liet epter Heimenum aa moote Guds Vilia, sem kann ad sambiooda þeirre Ohamingiu, er hann hugdest ad umflija. Þad sie fiærre, ad eg selie þier mijna Fodurleifd, sagde Naboth vid Achab Fordum, 1.Reg.21. er hañ falade hañs Vijn-Gard til Kaups; Þad forbioode Gud, Minn HErra JEsu, ad eg selie þann Himneska Arf, sem þu hefur mier afrekad med þijnu Allra Helgasta Bloode, fyrer Veralldarennar Frid, hver ad er Reide og Fiandskapur i giegn Gude! Hvad er einn Vatns-Drope hiaa Siaafar Hafenu? Hvad er eitt Sand-Korn hiaa allre Heims Bygdenne? Hvad eru Mootlætingar þessarra Tijma hiaa þeirre Dijrd, sem vid Guds Born mun opeinber verda? Rom. 8. Hvad er hin lietta Byrde þessarar Stundlegu Armædu hiaa eilijfre Þijngd Dijrdarennar? Gud giæfe Meñ villdu hier um þeinkia! þa munde þeim sijdur ofbiooda allt Yferlæte og Skarkale Veralldarennar Sona, hverier ad eru ein Gufa er sierst um Stundarsaker, segier Jacob, Cap. 4. og hverfur sijdann, enn saa eiñ er stadfastur, sem varpar allre sinne Ahyggiu uppaa hann, sem alltijd er hinn same, og hvers Ar ad þrotna ecke, Ps. 102. Þar fyrer vil eg segia med Postulanum: Eg em vel til Frids i Veikleikanum, i Forsmaanenne, i Naudunum, i Offooknunum, i Angistenne fyrer Christum, þvi þa eg em veikur, þa em eg Mattugur. Þetta Sinne og Hiartalag virdst þu, O! Gud, ad veita ollum þijnum Bornum sem aa þig vona, og beriast under Merkium þijns Sonar i Utlegd þessare, þar til þu innleider oss i eilijfa Himnarijkis Vist til ad medtaka þijn Naadar Fyrerheit med ollum Guds Bornum. Veit oss þad og gief, Himneske Fader, fyrer Arnan og Forþienustu þijns Eingietens Sonar JEsu Christi, Am.

# A Hvijtasunnu Hatijd.

Gudspialled, Joh. 14. Cap.

**O**G JEsus sagde til siña Læresveina: Hvor hañ elskar mig, Saa mun vardveita mijn Ord, Og Fader miñ mun elska hañ, Og til hañs munum vid koma, Og hiaa honum Vistarveru giora. Eñ hvor hañ elskar mig eige, Saa vardvelter ecke mijn Ord,

Ord. Og þad Orded sem þier heyrdud, Er ecke mitt, Helldur Fød-ursins þess sem mig sende. Þetta talade eg fyrer ydur, aa medan eg vaar hiaa ydur. Eñ Huggareñ, sem er hiñ Heilage Ande, Þañ er miñ Fad-er mun senda ydur i mijnu Nafne, Hañ sialfur mun kieña ydur alla Hlute, og miña ydur aa allt þad sem eg sagda ydur. Miñ Frid læt eg hiaa ydur, Miñ Frid gief eg ydur, Eige so sem Heimureñ giefur, Þa gief eg ydur. Ydvart Hiarta hryggest el nie skielfest. Þier heyrdud þad eg sagda ydur, Eg fer burt og kiem aptur til ydar, Ef þier elskud-ud mig, Þa gleddust þier vid þad, Ad eg sagda ydur, Ad eg fer til Fødur-sins, Þviad Fadereñ er mier meiri. Og nu sagda eg ydur þad, aadur fyrre eñ þad skiedur, So ad þier trydud þvi, Þa ed þad være skied. Hied-añ i fraa mun eg ecke tala margt vid ydur; Þviad þessa Heims Høfd-inge kiemur, Og med mig hefur hañ eckert. Helldur so ad Heimureñ þecke þad eg elska Fødureñ, Og þad eg giøre so sem Fadereñ hefur mier boded.

## Exordium.

Exodi Bookar 25. Cap. Talar DRotteñ þanneg um sijna Vist medal Israels Sona: Þeir skulu giora mier Einn Helgedoom, og eg skal bwa aa medal þeirra: O minn Gud! Hvilijker eru þesser þijner Velgiorningar? Þad mætte noog þyk-ia ad øll Naatturann ber Vitne um Guds O-wtsegiannlega Giædsku, ad Himnarner framtelia hanns Dijrd, og ad Festingenn kunngiorer hanns Vegsemd, Ps. 19. So ad Menn kynnu ad leita ad honum af hanns Skiepnum, og ad hann hefur ecke læted sig vera aan sijns Vitnisburdar, þar hann veiter oss gooda Hlute, giefande oss Regn af Him-ne ofann, og Hagkvæma Tijma til ad bera Avoxt, uppfyllande Hiørtu vor med Fædslu og Fognude, sem Paulus segier, Act. 14. Noog mætte allt þetta þykia, segie eg, þoott ecke hefde hin Ogrijpannlega Hætign sett Boolfestu sijna medal Syndugra Jardar-Madka, sem eru Dupt og Aska. Nu þyker oss þesse Vegsemd Israels Sona For-kunar Væn og Vegleg, Br. M. so sem hun og i Raun og Sannleika er; Enn vier høfum þo i Christo ollu meira þeiged, þvi Dijrd hinns Sijdara Musteresins, sem er hanns Christne hier aa Jordunne, hun er vordenn miklu meire enn hinns Fyrra, so sem DRottenn spaade fyrer Munn sijns Þienara Haggæi, Cap. 2. Edur hver Hlutur maa þar vid jafnast, ad Orded vard Holld og byggde med oss, Joh. 1. Ad i Einum Adams Syne bijr øll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Col. 2. Ad Guds Eingietenn Sonur er Hluttakande vordenn Hollds og Bloods, eins og Smaa-Bornenn, Ebr. 2. Enn þoott ad þetta sie Upphaf og Grundvollur Heilsugiafarennar, þa munde oss ecke ad fullu stoda Holldtekia DRottenns, nema hanns Fødurleg Giædska hefde giort enn framar vid

vid oss, og efnt þad er hann lofadi hiaa Zach. Cap. 6. segiandi: Sia einn Mann, hvers Heiti ad er grænn Kvistur, hann mun bloomgast i sijnum Stad og uppbyggia DRottni eitt Musteri, þad er Guds Kyrkia i Mannanna Hiortum, 1. Cor. 3. J hverium Christur bijr fyrir Trwna, Eph. 3. Og hann er þar sialfur Kiennimadur i sijnu Haa-Sæti og Raad Fridarins aa milli beggia, Zach. 6. Nu þoott ad þessi Naavist Guds sie ollum Monnum frambodinn, þa naadi þad DRottinn, ad so faair verda hennar Hluttakandi! Enn hvad velldur þvi? Nema ad Menn leggia ei miog Kapp þar aa, ad innbiooda þessum Giesti. Vier hofum hanns Ovini inni hiaa oss, med hverium hann vill ecki Sam-Sæti eiga, þeim vilia Menn ecki wthijsa, og þvi missa þeir hanns Naalægdar og Velgiorninga, er so lyndir eru: Enn so ad allir þeir, ed leggia nockurn Hug aa þetta, meigi vita med hverium Kostum honum meigi innbiooda, þaa hefur JEsus þad sagt med berum Ordum i upplesnu Gudspialli, þar hann segier: HVor Hann Elskar Mig, Sa Mun Vardveita Mijn ORD, Og Fadir Minn Mun Elska Hann, Og Til Hanns munum Vid Koma, Og Hiaa Honum Vistarveru Giora. Þessi dijrmætu Ord vil eg nockud framar yfirvega fyrir ydrum Kiærleika, og af þeim framtelia þaa hellstu Hluti, er eiga ad locka Hiortu vor til ad elska Gud, hinn Ypparsta Gooda, fram yfir allt annad. Hann virdist ad kveikia i oss sijna Elsku, so vier þetta Eyrendi so framkvæmt gietum, ad honum sialfum lijki, fyrir JEsum Christum, Amen.

## Utleggingin.

Ver eru Verølldir, Br. M. Onnur sijnileg, i hverri vier lifum, Onnur er þar uppi, hvadann vier væntum Frelsarans JEsu Christi, um hveria St. Petur talar, ad i henni muni Riettlætid byggia, 2. Pet. 3. Hina siaaum vier med Lijkamlegum Augum, þessa med Trwarinnar; Þvi Trwin er Vera þeirra Hluta sem koma munu, Hebr. 11. Og hun sijnir þad sem ecki er Sijnilegt. Hvert sem vier nu helldur rennum Saalarinnar edur Lijkamans Augum og lijtum i kriing oss med Athygli nockurri, og Gaumgiæfni þeirra Hluta er fyrir oss bera, þaa gietur Christinn Madur ecki hiaa þvi sneidt, ad elska Gud, allra Hluta Skapara, fram yfir alla Hluti. Lijt, Christinn Madur, aa hinn fagra Skapnad Heims þessa, hvorsu kostulegur hann er; hann hafa Heidnir Menn aa Latinu kallad Mundum, fyrir hanns Fegurdar Sakir, og Grikkir i sama Maata Cosmon, Sokum hanns Prijdi. Athuga hin fogru Himinsins Lioos, hversu þeim er vijslega nidurskipad, þau hafa sinn afmarkadann Gaang allt fraa Verølldarinnar Upphafi, allt til þessa Dags, so alldrei hefur enn nu þrotid Noott nie Dag, Vetur nie Sumar, Hita edur Kullda i Hagkvæmann Tijma, Gen. 8. Vird fyrir þier Naatturu Dijranna, Fuglanna, Fiskanna, Grasanna, hvor so eru prijdileg, ad Salomon i allri sinni Dijrd var eigi so skrijddur sem eitt af þeim, Luc. 12. Enn segied mier: Fyrir hvern hefur Gud allt þetta skapad? Segier ecki David, Ps. 8. Þu hefur sett hann (Manninn meinar hann) yfir þijn Handaverk, og lagt alla Hluti undir hanns Fætur. Sagdi ei DRottinn Gud i Upphafi Skopunar? Drottnid yfir Fuglum Loftsins og Fiskum Siaafarins,

Gen. 1. Jtrekadi hann ecki hid sama eftir Floodid vid Noa og hanns Eftirkomendur? Gen. 9. Sagdi ei St. Paall, ad hann hefdi af einu Bloodi giört allt Mannkyn? Act. 17. Ad þad byggdi alla Jardar-Kringluna, og hann hafi afmarkad Tijmana med sijnu Bodi, og sett Endimörk Bygdum Manna? Seig mier, Christinn Madur! Hvert kylldir þu helldur elska enn þann, er so vel hefur til þijn giört wt af einskiærri Giædsku sinni, enn eingri þinni Forþienan? Þykir þier nu nockud Inndælt edur Elskuverdt a þessum Guds Skiepnum, sem hann hefur lagt undir þijna Fætur, þier til Nota og Eftirlætis; þa gleym ecki ad elska hann þo umfram alla Hluti, sem þetta hefur þier giefid: Þad heitir ad fara aftan ad Sidunum, ad þacka Þienaranum, sem færir þad sem Hwsboondinn giefur, edur ad virda Ambaattina meir enn Drottninguna. Enn stærri Oriettur er Gudi gior i þvi, ad elska hanns Skiepnur fyrir þad Gooda sem hann hefur sæmt þær med, fram yfir hann, sem er Brunnur og Uppspretta alls hins Gooda. Laat þvi siaa, Christinn Madur, ad þu temier þier Lunderni St. Paals, er hann sagdi, Phil. 3. Ad sönnu reikna eg alla Hluti Skada ad vera fyrir Jfirburdi Þeckingarinnar JEsu Christi mijns Drottenns, vegna hvers eg hefi alls a Mis farid, og reikna Þreck ad vera, so eg avinni Christum. Þegar þu hefur nu þannig hinn meira Heim i giegnum skodad, og þu sier eckert i honum, þad er ei dragi þig jafnvel naudugann til ad elska hinn Gooda Gud fram yfir alla Hluti, þa skoda og hinn minna, sem er Madurinn, þad ert sialfur þu, hann er og med Tvennu Mooti, Andlegur og Lijkamlegur. Lijt fyrst til þess Lijkamlega; Hver hefur myndad þig i Moodur Lijfi? Hver hleipti þier þar samann eins og ödrum Osti? Job. 10. Þad giordir ecki sialfur þu, ecki Forelldrar þijnir: Þijnar Hendur hafa giort mig og tilbwid mig, segier David, Ps. 119. Hver hefur leidt þig wt þadann so þaasamlega i Lioos þessa Heims? Hver hefur giefid þier heilbrygda Saal i heilbrygdum Lijkama? Alijt hversu þinn Skapnadur er Vegsamlegri enn allra annarra Dijra a Jördunni, hver þo ecki hafa Gud a neinn Veg styggdann, enn þu reitir hann til Reidi Daglega. Þocknist þier nu nockud a sialfum þier, og þyki þad vænt og veglegt sem Gud hefur til þijn lagt, so sem þad og er i allann Maata, þa laat hann þo fyrir gaanga, er giordi þig so veglegann, og sæmdi Drottnara allra Hluta undir Himninum, med sinni eiginn Mynd i Fyrstu Skopun. Athuga hvad hann hefur þier meira giort: hann hefur ecki sleppt þier Forstödulausum inn i Verolldina; J honum lifir þu, ert þu, og hræríst þu, Act. 17. Hann hefur giefid þier alla Hluti aanægiannlega til Notkunar, Act. 14. Hann lætur sijna H. Eingla, Ps. 91. þaa Himnesku Anda þioona þier og vardveita fraa öllu Vondu, öllum Slisum, allri Ogiæfu, jafnvel midt i Syndinni, hvoria þu gietur ecki vid þig skilid allt so leingi þu ert i Holldinu: Eru þeir ecki allir Þioonustusamer Andar, segier Postulinn til Hebr. 1. wtsendir þeim til Þioonustu er Saaluhiaalpina erfa skulu? Jaa, Andskotinn sialfur sagdi eftir Davids Munni vid vorn Frelsara, Matth. 4. Þad sem satt var, og þo i illri Meiningu; Skrifad er, sagdi hann, ad hann muni biooda Einglum sijnum um þig, ad þeir beri þig a Höndum sier, ad ecki steytir þu Foot þinn vid Steini.

Seig

Seig mier: Hver þinna Vina edur Vandamanna tekur so Vara aa þier, hverium er so miøgum þig hugad? Skyllder þu ecke hata Fødur og Moodur, Syne og Dætur fyrer hanns Skulld, Luc. 14. ad þu mætter verda hanns verdugur? Elska þui ecke jafnvel þitt Lijf allt i Daudann hanns vegna, sem þier hefur Lijf og Lijkama giefed, og vert minnugur þess, er Christur segier, Matth. 10. Sa sem finnur sijna Saalu, hann mun tapa heñe, Og sa sem tapar Saalu sinne minna vegna, hann mun finna hana. Eg vil ei margt tala um Saalena, sem er hinn ædre Partur vors Skapnadar. Minnst aa, Christenn Madur, hvadann þu ert; Lijkamenn er ad sønnu af Leyr Jardar, enn Saalenn af Gude (med hverium Moote veit hann best sialfur) og mest fyrer þa Skulld segier Lucas, 3. Cap. Ad Adam hafe Guds Sonur vered, þvi sialfur Gud blies Lifande Anda i Mañsins Naser, Gen. 2. Ef vier erum nu skylldugir ad elska Fødur og Moodur, af þvi þau hafa oss gieted og fædt i Heim þenna; Hvad miklu framar er þad skylldugt, ad vier leggium alla Ast aa hann, af hvers Dijrdar-Lioonia vier og vor Ande i Fyrstunne kveiktur er! Vel talar St. Paall hierum, Act. 17. segiande; Nu, þar vier erum Guds Affspreinge, þa byriar ad vier ei þeinkium, ad Gud lijkur sie Gulle og Sylfre edur Steinum, nie vel smijdadre Lijkneskiu edur Manna Þanhkum. Enn so sem þad er Ovidurkvæmelegt, sem Postulenn hier um talar, so er þad og Afgudadijrkun stoor og merkeleg Gudløstun, ad elska nockud af þessu jafnframt honum, og maa þad øllum Heilvita Mønnum sialfsagt vera, hvilijkur Glæpur þad sie ad lia so gøfugann Hlut, sem Saalenn er, til Þrælkunar Syndenne, edur Veralldarennar Munum, hver ed mun fyrerfarast med øllu þvi sem i heñe er: Þar fyrer aaminner Johannes nærsta heilnæmlega, segiande: Elsked ecki Heimenn, nie þad sem i Heimenum er; Ef nockur Heimenn elskar, þa er ecke Kiærleike Fødursins i honum, 1. Joh. 2. Eñ Gud, af hverium Saala vor innblaaseñ er, hann blijfur og hañs Ar þrotna ecke, Ebr. 1. Athuga hin skynlausu Dijrenn, þoott þau sieu daasamlega skøpud, þa hafa þau ecke Skin aa þeim Hlutum, er fyrer þau bera; Ei rannsaka þau sitt Edle, ecke er Framsijne hiaa þeim mikel, eingenn Hæverska, Sidseme, Adgreining goods edur Ills, og allra sijdst Þecking Skaparans. Skyllder þu nu ecke, syndugur Madur, elska hann fram yfer allar Skiepnur? Er so miked meira hefur lagt til þijn helldur enn annara Skiepna, sem ad Sooleñ er Saurnum biartare; Þar Madurenn er eitt Dijr fullt af Raade og Skilninge, hann kann Grein aa Illu og Goodu, hann gietur wtvaled hvert hann vill, hañ veit hvad soomer edur ei, hann eirn kann ad læra ad þeckia Vilia sijns HErra, hann hefur uppfunded allann Hagleik, allar Kunster og Lister i Heimenum, hann hefur wtreiknad Himensins Hlaup, og veit Tijma og Stunder Fyrerfram, hann skygnest inn i Leynda Dooma Naatturunnar, so ad Guds O-wtsegianleg Vitska, sem Naatturuna hefur skapad, wtbrijtur sig i Skynseme Mannsins um allt Naatturunnar Rijke, epter þeim Maata sem hun fær vidteked i þessum daudlegum Lijkama; Enn þo er þad fyrer øllu, ad hun þecker Gud sinn Skapara, og aa hañ Kost ad trwa aa hañ sier til Myskunar og Saalu hialpar, I hveriu ad er iñefaleñ Endurskøpun hiñs Iñra edur Andlega Mannsins. Þeink til þess,

Christenn Madur, ad þu fædest i þenna Heim Reidennar Barn, og daudur i Syndunum, Eph. 2. Þvi hvad sem af Hollde er fædt þad er Holld, Joh. 3. Enn Holld og Blood erfa ecke Guds Rijke, 1. Cor. 15. Eñ Gud hefur af Oumrædelegre Elsku til þijn, Endurgieted þig til einnar lifande Vonar, 1. Pet. 1. og sett þig i sijns Sonar Rijke, Col. 1. so þu meiger Guds Barn kalladur verda og Samarfe JEsu Christi; Og til þessa hefur hann ecke vared Gulle nie Silfre, helldur sijns Eingietens Sonar dijrmæta Bloode; þvi so segier Paulus, Act. 20. Ad Gud hafe med sijnu eigenn Bloode Hiordena Endurleist, og þetta giorde hann þegar þu enn varst hanns Ovinur, Rom. 5. Madurenn mætte segiast aan Guds i Heimenum epter Falled, so sem Paall um̃ Heidingiana talar, Eph. 2. adur enn Gud took Adam i Saatt aptur: Allt hanns Hyske mætte kvijda vid ad deya, enn skam̃ast sijn ad lifa, enn hanns Owtsegiannlegu Giædsku og hinum diwpu Myskunar Ydrum (J hverium hann vitiade vor upprunnenn af Hædum, Luc. 2.) þeim er ad þacka, ad vier hofum frijañ Tilgaang til Naa-Stools Myskunarennar, Act. 5. Og skom̃unst vor ecke; þvi hann skam̃ast sijn ecke ad kalla oss sijna Brædur, Ebr. 2. Vier kvijdum ecke vid Daudañum, þvi hvert sem vier lifum eda deyum, þa erum vier DRottenns, Rom. 14. Og þoott vier deyum, sem aa hanns Nafn trwum, þa skulum vier samt lifa, so vier erum þess fullvrugger, ad hverke Daude nie Lijf, hverke Einglar nie Hofdingia-Stiett, nie Vellde, hverke Hæd nie Dypt, eda nockur onnur skopud Skiepna, fær oss skiled vid þann Kiærleika, sem er i Christo JEsu DRottne vorum, Rom. 8. Hvad sijnist ydr Br. M. Skylldum vier ei biooda honum allar Aster, er vier hofum so oteliande Velgiorder þeiged af? Hann ed fyrergiefur oss Daglega so margar Synder, hann ed ecke vill gleima oss, þoott ad Mooburenn gleime sijnu einasta Barne, Es. 49. Hvers Hiarta ad brestur, so hann hlijtur oss Myskunsamur ad vera, Jer. 31. Þad fyrsta vier snwum oss til hanns af ollu Hiarta. Þanneg breiter hann vid vorn innra Mann; Og so sem hañ forsorgar þañ ytra, edur Lijkamañ, so lætur hañ ecke helldur hinn aan Forsorgunar. Þad kienner JEsus oss i Textanum, er hann segier: Hver Sem Elskar Mig, Hann Vardveiter mijn Ord. Matur er Mannsins Meigenn, segier Ordtæke gamallt, eñ so sem Lijkameñ ecke þrijfast kann aan Fædsluñar, so kann og ecke Saaleñ aan Guds Orda, þvi þau eru hennar Foodur; Þar fyrer segier Endurlausnarenn, ad þau sieu Lijf og Ande, Joh. 6. Er saa nockur er elskar einhvern, ad hann hate hanns Maal? Fiærre er þvi, helldur kieppunst vier vid ad eiga sem optast Tal vid þa er vier unnum vel; þar fyrer, ef vier segiunst Gud elska, þa afrækium ecke hanns Ord. Menn hallda ad saa Lijkame sie ecke heilbrigdur, sem velger vid Matnum, og hverium hann verdur ecke til Notkunar; Dylst og ecke þar vid, Christenn Madur, ad þijn Saala er ecke heilbrigd, og ecke elskar þu Gud, so sem byriar, ef þu hefur Leida aa hanns Orde, og þykia þeir Tijmar leingster er þu aatt ad hlijda þvi. Enn hvad segier Paulus hier um̃ 1. Cor. 16.? Bolvadur vere sa sem ecke elskar DRottenn vorn JEsum Christum; Þad er, hann mun eilijflega fyrerfarast: Og ecke einasta er þad Merke þeirra er Gud elska, ad þeir vardveita hanns Ord, helldur er þad Avoxtur hñs

Elsku

Elsku. Enn hvad er ad vardveita hanns Ord? Þad er ad giora epter þeim, ef ecke ad fullu, þvi þad er syndugum Manne Omøgulegt, samt eigum vier ad leggia allt Kapp þar a, enn Elskann til Guds er ecke Ydiulaus, hun orkar þvi, ad Guds Bodord verda ecke þwng, so sem Johannes segier, 1. Pist. 5. So ad hver sem Gud elskar, hann hefur sijna Lysting i Løgmaale DRottens, og talar um hans Vegu Daga og Nætur, Ps. 1. Verdur so Ydkanen ad Naatturu fyrer þeim sama Mane, og han um sijder ein Ande med Gude, 1. Cor. 6. Endurnijadur epter Mynd þess, er han skapad hefur, Col. 3. En þvi velldur Elskan til Guds, ad oss þyker Fæda þesse sætare en Hunang og Hunangs Seimur, Ps. 19. sem von er til, þar vier finum i þvi Krapt epterkomande Alldar, Hebr. 6. Nær vier tijnum þa Molana, er detta af þvi Himneska Borde, med Trwarennar Mune. Þvi skylldum vier þa ecke um alla Hlute fram stunda Elskuna til Guds er so margt gott med sier færer.

Eg vil ei tala um þad, er hier stendur i Gudspiallenu: Og Fader Minn Mun Elska Hann. Eingenn kann ad segia þad, hvad gott þad sie ad vera elskadur af Gude, nema hann, sem Gud elskar: Þvi ef nockur elskar Gud, hann er fæddur af honum, segier Paall, 1. Cor. 8. Og þegar Riett-Trwud Manneskia hefur sijna Unadsemd i DRottne, og gledur sig i hanns Elsku meir enn i nockru Giestabode, þa finnur hun hversu gott er ad vera af Gude elskadur; Þviad vor Elska a Gude er Avoxtur hanns Elsku til vor: Þær kuna ecke ad skilia helldur enn Soolenn og Byrtann; Þad vottar sa Læresveinn sem JEsus elskade, 1. Pist. 4. Vier elskum hann þess vegna, ad hann elskade oss fyrre. Hver sem þeinker med sier, hversu vijs, hve mattugur, hve Giædskufullur, hvad Obrigdull, hversu Trwr, ad Gud er, hann mun segia, ad Abraham hafe goodur Hlutur i Skaut falled, þegar hann var Guds Vinur kalladur, Jac. 2. Enn ecke atte Abraham, ecke Lazarus, Joh. 11. Ecke Postular Christi, Joh. 15. alleinir þetta Nafn, helldur aller Abrahams Syner epter Andanum, Rom. 4. Þad eru aller Riett-trwader, sem elska Gud, þeir eru eins vel til þess borner, þeim tilheyrer um Alldur og Æfe þad Fyrerheit er Gud gaf Abraham, Gen. 17. Ad hann villde vera hanns Gud og hanns Sædis epter hann. Þann vantar faatt sem Kongurenn elskar, hann gietur sæmt hann med Tign og Heidre, hann gietur veitt honum Fullsælu Fiaar, hann gietur lated hann lifa ad Munudum sijnum, epter þvi sem hann er lyndur til, enn þo gietur hann ecke giort hann Fullsælann, ei megnar hann ad faa honum alltijd Heilsuna aptur ef hun missest, ei gietur han giefed honum Samviskunnar Frid, og allra sijdst maa hann honum Himnarijked veita. En hvad vill han vanta sem Gud hefur til Vinar? Hann rædur einn fyrer ollu þessu. Jeg veit Menn segia, ad Guds Viner sieu optlega Vesæler, Siwker, Saarer, Offsookter, Underþrickter, og a alla Vegu adþreingder; En þad er eckert Stoormerke fyrer Gud, ad han late Vine sijna una vel Hag sijnum, nær þeim ad Oskum geingur, eins og Abraham, Isaac, Jacob, David, Salomon og adrer fleire; en þegar hann lætur Postulana ganga glada wt fraa Raadenu nær þeir Hwdstrykter voru, Act. 5. Þa Daniel syngur Gude Lof i Leona Grofenne, Dan. 7. Þa Paulus og Silas eru kater i Myrkva-Stofunne, Act. 16. Þa

sịa Menn hverſu goodur hañ er, hverſu hañs Elſka vinnur alla Hlute, hvilijkur ſa Fridur enn er, ſem Verolldenn maa ei giefa, og hvad maattugur hanns Kraptur er i Breiſkleik-anum. Gud naade oſs auma ſynduga Menn! Hvad vinnum vær ecke fyrer Hiegoomann i Verolldenne, ſem oſs lyſter til? Hvad ſparar hinn Stoorlaate fyrer Metord? Hiñ A-giarne fyrer Aud? Hinn Heiptrækne fyrer Tøpun Ovina ſinna? Og ſinn er vid hveria Heimſkuna bundenn, og þegar Menn eru ſo med miklu Erfide komner til annars meira, þa gieta þeir þo ecke ſagt: Et og Dreck Saala mijn, Luc. 12. Og Dijred aa Mørkenne, ſem hefur ſitt Fooſtur, er ſællra enn þeir, þvi þad ber ei Ahyggiu fyrer Morgun-Deigen-um: Eñ ad naa Guds Vinaattu hyrda ſo faaer uñ, Jafnvel þoott þa ſie allt feinged ; þa hun er feingenn, þvi hann elur Onn fyrer ſijnum, og veit hvers ad þeir vid þurfa. Allt þet-ta fæter Guds Elſka med ſier.

Enn uppaa þad ad Frelſarenn laate oſs vita, hverſu heitt hann elſkar þaa ed hann elſka og vardveita hanns Ord, þa ſegier hann hier: Og Til Hanns Munum Vid Koma Og Viſtarveru Hiaa Honum Giðra. Er ei ſo, Br. M. ad vier heimſæk-inum þaa giarnann, er vier kiæra hofum? Epter þeſſum Mannlega Plagſid talar Chriſt-ur: Hann þarf ecke ad ferdaſt laanga Vegu til ad heimſækia oſs, þvi hann er Gud, hañ er allſtadar, hann er ecke laangt fraa ſierhverium einum af oſs. Enn Frelſarenn kallar hier ad koma til vor, þegar hann kiemur med ſinne Verkan og Aſtgiofum i Hiartad; Hann hafde ſkomu aadur ſagt i þeſſum Capitula: Eg mun bidia minn Fodur ad hann ſende yd-ur Anda Sannleikſins, ſaa ed blijfe hiaa ydur ad eilijfu, Joh. 14. Enn hier ſegieſt hañ aa-ſamt Fodurnum vilia ſiaalfur koma, ſo ſem Von er til, þvi hvar Fader og Sonur er, af hverium Andenn framgeingur, þar er og ſiaalfur Andenn. Chriſtur ſegieſt vilia ſij-na ſig þeim ed ſig elſka, enn hann ſijner ſig ecke nema fyrer H. Anda, þvi hann er þad, er vit-nar uñ hann og leider oſs i allann Sañleika. Þegar þu nu, Chriſteñ Madur, ſitur under Heyrn Guds Orda, og þu fellſt aa þad ſem þar er af Guds Alfu talad; Þegar þu yd-raſt þinna Synda, ſem þier verda þar fyrer Augun leiddar; Þegar þu trwer þo, ad hvar ſem Syndenn yfergnæfer, þa mune Naadenn yfergnæfa miklu framar; Rom. 5. Þegar þu fær Leida aa Syndenne og Kappkoſtar ad lifa nyum Lifnade; Þegar þu i Mannraun-unum fær Huggun nockra af þeirre Sælu-Von, ſem þeim er heitenn, er bera Kroſſenn epter Chriſto; Þegar þu hræreſt til Medaumkunar yfer hinum Volada, og til Vand-lætingar moote hinum Ogudlega; Nær þitt Hiarta brennur i þier, Luc. 24. er hañ talar vid þig i ſijnu Orde, og þu vid hann i þijnum Bænum; Þegar þu wteys þijnu Hiarta fyr-er honum, og hann eys þar inn aptur Hugſvolun ſijns Anda; Og i einu Orde ad ſegia: Þegar þu finnur i Hiarta þijnu Elſkuna til Guds og Naungans, ſem alldrei kuña ad ſkil-ia, þegar þu allt þetta finnur, þa maatt þu fullviſs uñ þad vera, ad oll Heilog Guddoom-ſins Þrenning er ad Viſtum med þier, og þu kañt ecke ad fara aa Mis vid þad, ad þu ſiert Guds Barn, Rom. 8. Ecke einaſta ſegieſt Endurlauſnarenn aaſamt ſijnum Fodur vil-ja koma til vor, helldur Viſtarveru hiaa oſs giora. O! hvilijkt er þetta, Br. M. Hvad añ kiemur

kiemur mier þad ad Mooder DRottenns mijns kiemur til mijn ? sagde Elizabeth Fordum vid Mariam, Luc. 1. Enn meir er þad, ad sialfur DRotteñ Drottnaña vill til vor koma; Ecke so sem hañ kom i Hollded med Þrææls Mynd, helldur med sijnum Guddooms Krapte i vor Hiortu; Enn þad er enn þa mest ad hañ vill Vistarveru hiaa oss giora. Þegar vorer Viner heimsækia oss, þa tefia þeir sialldann leinge, og þess kiærare sem þeir eru oss, þess meira Angur laata þeir oss epter ad Skilnade; Enn Christur hefur lofad, ad hañ vilie ecke laata oss epter eina, helldur vera hiaa oss allt til Veralldarennar Enda, Matth 28. Ef vier yfergiefum hann ecke, þa mun hañ oss alldrei yfergiefa, nema vier slockvum Andann, 1. Thess. 5. þa mun hañs Lioos i oss æfeinnlega breña, og vier i vorum Anda gloandi verda. Vorer Viner giora oss Kostnad, þa þeir vitia vor, Jafnvel þoott þad telie eingenn epter þeim sem hann elskar; Enn hinn Almaattuge og alleina rijke Konungur Dijrdareñar er ecke Kostnadarsamur, þar sem hann er ad Heimbode; Hañ færer alls Nægter med sier, þvi allt Silfur og Gull er hanns, og oll Dijrenn aa Mørkenne, Ps. 50. Ecke vill hañ neinum tilsegia ef hann hwngrar, enn ef hann lætur sijna Elskendur vanta þetta, so sem hañ opt giorer, þa giefur hann þeim, i Stadeñ Allsnægta, þad Sinne, er lætur sier sijna Lucku nægia, hvad St. Paall kallar Avinning Gudhrædslunnar, 1. Tim. 6. og þau þiggia eins vel af honum einn Bita Brauds, so sem full Hws Audæfa. Þegar Christur umgieckst hier aa Jordunne, kom hann alldrei so i nockurs Riett-trwads Manns Hws, ad hañ ei kiæme med Blessan. Hañ var enn ecke i Heimeñ borenn, þa hann kom i Hws Zachariæ og Elizabethar, og þau aasamt Barneinu i Moodurkvide fylltust af Heilogum Anda, Luc. 1. Hann kom i Hws Peturs og færde Moodur hanns Heilsu sijna, Matth. 8. Hann kom i Caprnaum og gaf hinum Limafallssiwka sijnar Synder kvittar, so hann spratt upp og gieck, Matth. 9. Hann kom i Jairi Hws, og færde hanns Doottur Lijfed aptur. Hañ kom i Landsaalfur Tyri og Sidonis, og rak Dioflenn wt af Doottur hiñar Canaanisku, Matth. 15. Hann kom i Hws Zachæi, og gaf þvi Hwse Velferd aa þeim sama Deige, Luc. 19. So þad maa satt uñ hañ jaata, sem Petur sagdi, ad hann hafe geinged uñ kring, giort Gott, og grædt alla, sem underþryckter voru af Dioflenum, Act. 10. Enn ef hann þvilijkt giorde þegar hann bar vorar Synder og erfidade i þeim, Es. 43. Hvad miklu stærre Hlute mun hann nu giora, þar hann situr til Kraptarens hægre Handar, og er þo ad Vistum med oss aasamt Fodur sijnum og H. Anda? Hier uñ maa eg segia eins og Paall, Rom. 5. Ef vier erum sætter vid Gud, þegar vier vorum hanns Oviner, fyrer Dauda hanns Sonar, þa munum vier enn framar nu i Saatt komner hoolpner verda fyrer hañs Lijf. Gud blessade ObedEdom medañ Ørk DRottenns var i hañs Hwse, 2. Sam. 6. Hier er Ørk Saattmaalans aa millu'n Guds og Manna, JEsus Christus, sem er Naadar-Stooll fyrer hanns Blood, Rom. 3. Hvada Blessan mun honum ecke fylgia? Mig skal þad ecke undra þott ad Guds Bornum, i hverium hann bygger, þyke lijted koma til Yferlætis Veralldareñar; Þar hann, sem bijr i Himnenum, hverium ad þioona Þusund og Tijusiñum Hundrad Þusund H. Eingla, hann hefur bwed sier Vist i þeir-

ra

ra Hiarta hier a Jordunne, sem hann elska og hanns Ord vardveita · Þesse er su Onnur Verolld, er eg i Upphafe talade um, hver ed uppbyriast hier i Naadenne einn fullkomnast sijdar i Dijrdenne, þa Gud verdur allt i ollu, um hveria Esajas Spaamadur Cap. 64. og Paall Postule Samsaga verda, 1. Cor. 2. Ad þad hafe ecke Auga sied og ecke Eyra heyrt, og ei hafe þad i nockurs Manns Hug edur Hiarta komed, hvad Gud hafe þeim fyrerbwed er hann elska. Hana ad byggia, hennar niootande ad verda, og i henne eilijft Lof ad syngia vorum Gude, sem oss hefur Sigurenn giefed, unne oss sialfur hann, fyrer Son sinn JEsum, Amen.

# Annann Dag Hvijtasunnu.

Gudspialled, Joh. 3. Cap.

JEsus sagde til Nicodemum: So elskade Gud Heimenn, ad hann gaf wt sinn Eingieten Son, Til þess, ad aller þeir sem a hann trwa, fyrerfarest ecke, helldur ad þeir hafe eilijft Lijf. Þvi eige sende Gud Son sinn i Heimenn, ad hann fyrerdæmde Heimenn, helldur ad Heimurenn frelsest fyrer hann. Hvor a hann trwer, fyrerdæmest eige. Enn hvor hann trwer eige, Hann er nu þegar dæmdur, Þvi hann trwdi ecke a Nafn Eingietens Guds Sonar. Enn þesse er Doomurenn; ad Liooset kom i Heimenn, Og Mennerner elskudu meir Myrkred enn Liosed, Þviad þeirra Verk voru vond. Hvor sem illa gi orer, Hann hatar Liooset, Hann kiemur og eige til Lioossins, ad eige straffest hanns Verk. Enn hvor sem Sannleikann gi orer, Hann kiemur til Lioossins, So hanns Gi order verde kunnar, Þvi þær eru i Gude gi ordar.

## Exordium.

TRwudum Er Allt Mogulegt, segier Ritningenn, Marc. 9. Þad hefur Christenndoomurenn framm yfer adra Speke, ad hann verkar alla Hlute med Guds Krafte. Sijnast mætte ad Abraham, Fader Trwadra, hafe vered nockud Holldlega Sinnadur, þegar hann sagde vid Gud, er hann hiet honum sinne Giædsku: Hvad villt þu giefa mier? Eg em Barnlaus, Gen. 15. Þviad i þad Sinn hefur Guds Vinur ecke lited nema epter Tijmannlegre Farsælld, enn Gud giorde betur vid hann, þvi hann þeckte hanns Hiarta; og gaf honum ecke einasta einn Son vid einne Alldradre Kvinnu, Gen. 21. helldur og þar ad auke einn Son af hanns Lendum, J hverium ad Blessadar eru allar Þiooder, Gen. 22. Þad er JEsus Christus, Matth. 1. Gud Blessadur um Allder, enn þa fæddur af Fedrunum epter Holldenu, Rom. 9. Saa sem hann a, hann er alldrei Barnlaus, alldrei Arflaus, alldrei Hiaalparlaus; Þvi hann a þann, hver ad er DRottenn sem er Mattugur til ad hiaalpa, hverium Gud hefur giefed Endemork Veralldarennar til Arfleifdar, Ps. 2. Þad Barn, sem oss er fædt, og þann Son, sem oss er giefenn

giefinn, a hvers Herdum ad er Hofdingia-Doomurinn, hvers Nafn hann kallar, Undarlegur; Raad; Hetia, Stirkur, Fadir Eilijfdarinnar, Fridar-Hofdingi, Es. 9. Þenna sinn Eingietinn Son segier sialfur Sonurinn ad Fadirinn hafi wtgiefid fyrir Heiminn i þessa Dags Evangelio, Til þess ad allir þeir sem a hann trwa, skuli ei fyrirfaraſt, helldur hafa eilijft Lijf; Af hvorium Dijrmætu Ordum eg vil Tvennt Hugleida. 1. Hversu vegleg ad sie þessi Gaafa. 2 Hvar til hun gagni oss.

Þu goodi Gud, sem oss hefur hann sialfur Overdugum giefid, Styrk oss med Raad þijns Anda, ad vier mættum þetta Dijrmæta Eyrendi so framkvæma, ad þier lijki, fyrir JEsu Christi Forþienustu, AMEN.

## Utleggingin.

Menn plaga ecki alleina ad virda eina Gaafu af þvi, hversu dijrmæt hun er i sialfri sier, helldur og hinu, af hverium hun er giefinn, og med hveriu Giedi ad hun er wtilaatinn: Eg virdi meir þann Skeink, sem giefinn er af Konunginum, helldur enn af mijnum Lijka, og sa er mier hvad kiæraſtur, er eg þigg af Fodur mijnum edur Vin þeim, sem er eins og sialfur eg. Nu heyrum vier i Textanum, ad þessi Aſtgiof sie fraa Gudi kominn. Eckert kann þvilijkt ad segiaſt edur nefnaſt; So miklu ædri sem Gud er ollum sijnum Skiepnum, so miklu er þessi Skeinkur Dijrdlegri ollu þvi er adrir giefa, eigi sijdſt fyrir hanns Skulld, sem giefid hefur. Land-Stioornarinn i Epheso, er hann villdi stilla til Frids Borgar-Mwginn, sem Demetrius hafdi uppæſt a mooti þeim St. Paali, Act. 19. Hann fann eckert gylldara til ad sefa þaa med, enn þad, ad hann sagdi, ad Bijlæti hinnar miklu Dianæ i Epheso væri af Himnum ofannfallid. So var nu Andſkotinn kroftugur i Bornum Vantrwarinnar, ad Heidingiar skipuduſt alleina vid þad, sem ædur voru so Olmir, ad Ærslum giegndi, af þvi þeim þootti þad Soomi so mikill, ad þeirra Fulltrwi skylldi fraa Himnum kominn vera. Ættum vier þaa ecki, Christner Menn, ad leggia hina meſtu Vyrdingu, Aſt og Elsku a þad, sem vier vitum komid vera fraa hinum sanna Gudi, hver ed ollu stioornar bædi a Himni og Jordu, og jafnvel þad sem vier kollum hanns minnſtu Gaafur, sem þo aungvar litlar eru, aukhelldur þad, ad hann hefur giefid oss sinn Son? Jacob segier, ad oll good Giof og oll fullkominn Giof komi ad ofann fraa Fodur Liooſanna, Jac. 1. Enn af hveriu Giedi, ad Fadir Liooſanna hafi oss giefid þessa Giof, sem er ollum meiri, þad segier hann oss sialfur i Gudspiallinu, med þessum Ordum: Svo Elskadi Gud HEiminn. Laangt vorum vier fraa þvi, syndugir Ormar, Utlægir fraa Gudi og hanns Helgidoomi, ad þad væri nockurt hiaa oss, nema Eymdinn ein, er mætti hræra Gud til Medaumkunar, aukhelldur hann kynni ad elska oss fyrir nockra vora Verdskulldan edur Agiæti. Manneskiann var so a sig komenn eftir Synda-Fallid, ad Ritningin talar þar so um, eftir Mannlegum Plagsid, Gen. 6. Gud ydradi þess ad hann hafdi Manninn skapad; og samt elskadi hann oss þo so, ad hann gaf oss ecki nockra Almennilega Gaafu, so sem þegar hann lætur rigna yfir Vonda og Gooda, og Soolina upprenna yfir Raanglaata og Riettlaata, Matth. 5. Helldur sinn eingietinn Son, og þad ad

 fyrra

fyrra Bragdi, aadur enn vier hofdum Vit aa, edur nockra Atburdi til ad elska han̄. I þvi er Kiærleikurinn, segier Johan̄es, 1. Pist. 4. Cap. Ecki ad vier elskudum Gud, helldur ad han̄ elskadi oss, og wtsendi sinn Son til Forlijkunar fyrir Syndir vorar. Eg ætla ad vorum Fyrstu Forelldrum yrdi nærsta Raadfaatt i Paradijs, þegar þau hofdu Gud styggdann. Mundu þau hafa nockra Vidleitni ad blijdka hann? Mundu þau gieta hitt uppaa þetta Guddoomlega Vijsdooms Raad? Ad Gud skylldi Madur verda til þess ad forlijka Heiminn vid sialfann sig. Faavijs voru þau til þess, Atburdirnir voru þeir einir ad fela sig; þvi þau voru nakinn, Gen. 3. Og ad bera Skulldina af sier hvert um̄ sig: Þessi voru Urrædinn einasta. O hvilijk Dypt Audæfanna og Guds Speki! Rom. 11. Snem̄a brautst wt hin Guddoomlega Elska af hanns Hiarta. Strax er hann hafdi lagt hinn Riettvijsa Doom aa Manninn, ad hann skylldi deya, lagdi hann þa Lyknarfullu Boot med, ad Kvinnunnar Sædi skylldi i sundurmeria Hoggormsins Hofud, Gen. 3. Þetta sitt Myskunar-rijka Fyrirheit hefur hann efnt i Sendingu sijns Eingietins Sonar hijngad i vort auma Holld fæddann af Kvinnunni, em þa þegar vier vorum hans Ovinir, Rom. 5. Þegar vier en̄ þa vorum daudir i vorum Syndum. Þessi er hin Guddoomliga Elska, er DRottinn prijsar hier i Gudspiallenu, og þad ecki um̄ Skor fram̄, þvi Paulus talar hier um̄, Rom. 8. Ad Gud hafi ecki þyrmt sijnum Eingietnum Syni, helldur giefid hann wt fyrir oss alla; Hann sparadi hann ecki til ad fædast i Armood, ecki til ad verda Land-Flootta, ecki til ad þola Skam̄ir og Haadungar af þeim, sem hann took undan eilijfri Skom̄ og Haadung, ecki til ad lijda Krossins Dauda fyrir þaa, er hann deyddu, og ecki til ad þola Helvijtis Pijslir fyrir þaa sem hofdu giort Samband vid Daudann og Saattmaala vid Helvijti, Esa. 28. Hann sparadi hann ecki fyrir Syndina, sem Gudi alleina illa lijkar, Ps. 5. Helldur giordi hann, i hvorium honum alleina velþocknast, ad Synd, jafnvel þoott ecki vissi hann af Synd, 2. Cor. 5. Einginn elskar nockurn meir enn þad, ad hann giefur sitt Lijf wt fyrir hann, segier Lausnarinn: Enn Gud elskar sinn Son eins og sitt eigid Lijf, þviad hann er Lioomi hanns Dijrdar, Hebr. 1. Hann er sa sem er i hanns Skauti; Enn fyrir þvi, ad Gud kunni ecki einnsamann ad deya, liet han̄ sinn Son deya i Mannlegu Holldi, i Mannlegri Naatturu, er hann af Fedrunum hafdi, hver, (fyrir þvi ad i honum bijr oll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Col. 2.) Þa heitir hann saa Madur, sem honum er nærstur, Zach. 13. Jaa, hanns Sonur; jafnvel eftir Manndoominum, ecki einn Sonur, er sie Ættleidingur, so sem vier erum fyrir hanns Skulld, helldur Guds himneska Fodur naatturlegur Sonur, fyrir Ibwd Guddoomsins, þvi Textinn segier: Ad hann hafi wtgiefid sinn Eingietinn Son: Hvad ecki aa ad skiliast eftir Guddoominum alleina, helldur og eftir Manndoominum eingu sijdur; þviad i honum hefur hann Kvol og Dauda lidid, og allt þad er hann vann til Arnadar og Myskunar syndugu Mannkyni. Einginn vill missa sinn Son; Jacob villdi ei voga sijnum yngsta Syni i þa Hættu, ad laata hann fara med sijnum Brædrum ofann til Ægyptalands, þoott þeir neyddu hann þar um̄, Gen. 42. Og þeim lægi Lijfid aa. En̄ Gud gaf oss sinn Son

O-bedin̄/

Qvedenn, og ofurselldẽ hann i Daudans Kvøl fyrer oss, sem ecke vorum Syner, helldur Reidennar Børn, og, af Naatturunne til, Satans Prælar, Eph. 2. Kviñann, sw sem umgietur 1. Reg. 3. hun villde helldur, ad sw sem ecke var Mooder skyllde eignast siñ Son, helldur enn Lijfed være af honum teked; so nilog elskade hun sitt Lijfs Afkvæme: Hun villde vinna þad til, ad Ovina sijn mætte hafa Glede af Barnenu, so þad mætte þo Lijfe hallda, þvi hennar Ydur tendrudust upp sijns Sonar vegna, segier Ritningenn. Enn hiñ eilijfe Brunnur Giædskunnar vitiade vor fyrer sijn Myskunar Ydur, og elskade so Heimenn ad hann wtgaf sinn Eingietenn Son i Daudann, uppaa þad, ad aller þeir sem aa hann trwa, hefdu eilijft Lijf. Þegar DRotteñ spaær um Giædsku sijna, er hann vilie audsijna sijnu Foolke fyrer Christum og i Christo, þa tekur hann so til Orda, Malach. 3. Eg skal tiaa þeim Myskunseme, so sem einn tiaaer Myskun sijnum Syne, þeim er stundar hann. Miñ HErra og minn Gud! Vier meigum þad med Kinn-Roda medkienna, ad þu hefur sijnt oss meire Myskun enn þijnum Eingietna Syne a hanns Dauda Deige: Hañ vard ecke Bænheyrdur er hann beidde, ad Reidennar Kaleikur mætte fraa sier takast, Matth. 26. Jaa, ecke þoott hann beidde i heilar Þriaar Reisur: Enn hvers vier bidium þig i hanns Nafne, þad villt þu veita oss, Joh. 16. Þad skal skie (þad eru þijn eigenn Ord), ad aadur eñ vier bidium, þa villt þu bænheyra, Esa. 65. Þiñ Eingietenn Sonur fieck einga Vægd, Jafnvel þoott eingenn kynne ad straffa hann um nockra Synd, Joh. 8. Enn vier høfum Myskun ødlast, sem til alls Ills høfum uñed. Þijn Sonur fieck eckert ad svala sier med i hinne bitru Pijnu, nema Gall og Edik, Matth. 27. Laater þu oss nockud til Handa bera til þess ad lijkiast honum; Laater þu oss drecka hanns Kaleik, Ps. 116. hier i Naadeñe, þa kriddar þu hann med Svølun þijns H. Anda. Þu dreiper aa oss med Sætleik epterkomande Alldar, og leider oss fram ad ferskum Vøtnum; So miklu betre Koste høfum vier nu Prælarner ad bwa vid, enn þinn Eingietenn Sonur. Hver er sa af oss, ad hann ecke hafe þar hann meige Høfde sijnu ad halla? Matth. 8. Hver er so offsooktur, Pijndur og kvalenn, sem hann var? A hverium hefur þvilijk Hegning leiged? Satt er þad, ad hann er iñgeingenn i sijna Dijrd, Luc. 24. ad øllu þessu afloknu: Enn vier, sem ad varla drepum hinu minnsta vors Fingurs i þinnar Reide-Flood, Luc. 16. sem gieck yfer Høfud honum; Vier skulum og inngaanga i hanns Dijrd, ef vier trwum aa hann: Og er þad Maala sannast ad vier vinnum so lijted sem eckert til þeirrar Dijrdar, sem hann hefur oss med sinne Kvøl afrekad; Þoott vier bærum Jobs Kaun, Job. 2. og Gihezi Lijkþraa allt fraa Vøgguñe til Grafareñar, hiaa þvi sem hann þolad hefur fyrer vorar Synder. Hønum sie Lof, Dijrd og Heidur um Allder, Amen. So hefe eg nu allt hijngad til nockud talad um Agiæte þessarar Himnesku Gaafu; Epterfiiger ad tala um hennar Gagnseme.

Nytseme eins Hlutar metum vier af Tveñu; Añadhvert, ad hann gagnar oss til ad umflija hid Vonda, edur til ad ødlast hid Gooda. Hverutveggia finnum vier i Utsendingu Guds Eingietins Sonar: Þad fyrra kienner hann oss i Gudspiallenu, med þessum Ordum: Ad Aller Þeir Sem A Hann Trwa Fyrerfarest Ecke. Tveñt hefur og Drott-

enn til þeſs giort, ad þeir ſkule ecke fyrerfaraſt ſem aa hann trwa. Fyrſt þad, ad hañ hefur lided þeim til Epterdæmis; Þad Annad, ad hann hefur lided þeim til Forlijkunar. Um hid Fyrra talar St. Petur, 1. Piſt. 2. ſegiande: Chriſtur er daaenn fyrer oſs, og hefur oſs epterlaated þad Dæme, ad þier gaangedi hanns Footſpor. Þegar hinn gamle Adam, ſem bijr i oſs, aa ad leggia wt þau dijrmætu Ord, ſem Paulus ſkrifar, Rom. 8. Ad ſa ſem ecke þyrmde ſijnum eigenn Syne, helldur gaf hann wt fyrer oſs alla, hvar fyrer ſkyllde hann ecke giefens veita oſs alla Hlute med hønum? Þa ſkilur hann þau um̃ þad, ſem hønum lijkar; Hønum þyker ecke miked koma til þeſs Lijfſins Brauds, ſem af Himnum er ofañkomed, Joh. 6. Hañ vill Kiøt hafa, Num. 11. Og er ecke til Frids ella; Þad er Sælgiæte Holldſins og þeſs Munadur, hann etur ſig fullann þar af, þar til þad geingur wt um̃ hanns Naſer og ſaalgar þeim, er ala hañ ſo kappſamlega, ſo þeir drepaſt Þuſundum ſamann, og verda Helvijtis Ellds⸗Matur ad ſijdurſtunne. Enn þegar Paulus nefner hier alla Hlute, þa meinar hann þaa ed Saalunne gagna; Þad er audſært af øllum þeſſum ſama Capitula, hvadann Ordenn tekenn eru: Hvar af vier ſiaaum, Br. M. ad ecke er Guds Sonur oſs til þeſs ſendur, ad vier ſkulum laata epter Holldenu þeſs Gyrnder ad ræfia, Rom. 13. Ef vier vilium aa Guds Son trwa, ſo vier fyrerførunſt ecke; Helldur, ſo ſem hann er Einuſinne daaenn Syndenne, ſegier Paulus, Rom. 6. Þad er, fyrer Syndena, og deyr ecke framar, ſo eigum vier henne Daglega ad deya, og med hønum Daglega ad upprijſa, ad vier ei framar lifum i henne. So ſem hann hefur ſigrad Heimenn, ſo eigum vier ad forſmaa Heimiñ, og ſo ſem hañ hefur wtſnarad Dioflinum og trodid hann undir ſinna Barna Fætur, Rom. 16. So eigum vier ad reka hann wt wr Hiarta voru, med øllu hanns Hyſki. Vier eigum ecki ad hafa eina Klauf eptir aa Egyptalandi, Exod. 10. helldur brenna upp þann Amalechita med øllu hanns Gotze, kviku og Daudu, 1. Sam. 15. med ſannre Ydran og Afløate Syndanna, ſo ei verde Iſraels Rijke fraa oſs teked. Þad kienner oſs Paulus, 1. Cor. 11. Ef vier dæmdum ſiaalfa oſs, þa yrdum vier ecke dæmder, enn þegar vier dæmunſt af DRottne, þa verdum vier Leidrietter, ſo ad vier ecke Fordæmunſt med Heimenum. Þannig er oſs nu Chriſtur ſendur til Epterdæmis, bæde i Lifnadenum og ſo i Kroſsburdenum: Hverutveggia er Omiſſande til þeſs ad um̃flija Topunena: Enn forglefens hefde hann lided oſs til Epterdæmis nema hann og hefde lided oſs til Forlijkunar. Hvar fyrer, til Forlijkunar? Þvi vier vorum miſſaatter vid Gud: Hvers vegna? Fyrer Syndena; Hvad hafde Syndenn forþienad? Eilijfann Elld med Dioflenum og øllum hanns Arum. Hver hefur Syndena burtteked? Þad hefur Guds Sonur giort, er hann bar hana uppaa Tried, ſegier Petur, 1. Pet. 2. Þvi ſagde Johannes Skijrare, er hann leit Chriſtum koma til ſijn; Siaaed þad Guds Lamb, ſem i burtu ber Heimſins Synder, Joh. 1.

Til þeſſa þyker Heimenum lijted koma; Eg trwe hann dylieſt vid, ad þar mune ſo heitt i Satans Badſtofu, ſem Preſtarner ſegia, annars mundu Menn ecke bidia ſier og ødrum ſo optlega Helvijtis, ſem Menn giøra; Enn vilied þier ecke trwa þeim, þa trwed Guds

Orde, trwed Ritningunne. Eg veit ad ydur þyker þad lijted, Heimsins Børnum, ad þier skulud alldrei um Æfe Gud sia i Dijrdenne, þvi þier hafed alldrei sied hann nie hyrdt um ad sia i Naadenne; Enn so þykir Paale þad miked, ad hann segier: Oguds-leger munu straffast med eilijfre Glotun, Fiarlæger Auglite Guds og Mætte hanns Dijrd-ar, 2. Thess. 1. Enn hlusted til hinns, ad þar mun verda Op og Tanna-Gnijstran, Luc. 13. Þeir munn eta sijnar Twngur wt af Pijnu, Apoc. 16. Þessar Pijsler eru Vægdarlausar, Jac. 2. Og ecke so sem þessa Heims Mootlæte, hvar Menn faa nockra Linun aa Stundum; Þeirra Ormur mun ecke deya, og þeirra Elldur ecke wtslokna, Es. 66. Þad er eilijf Smaan, Dan. 12. Eilijf Hegning, Matth. 25. Og Þoka Myrk-ranna, Jud. v. 13. Sem um eilijfd er tilbwenn hinum Ogudlegu, 2. Pet. 2. Ef þier nu hafed nockra Lijkamlega Tilfinning, ef þier varla lifad gieted, þa ydur vantar Sæl-gæte ydar og venjulegann Addwnad, ef þier gleted ecke af ydur bored nær þier faaed Hof-udverk edur Sijdu-Stijng; hvad mun þa verda i Ellds-Dijkenu, sem vellur af Ellde og Brennesteine, Apoc. 21. Ef ein lijtel Vanvirda, er þier so kalled i þessu Lijfe, kvelur so ydar Hiarta, ad þier svijfist einkis til ad hefna ydar, hvad mun þa verda hin eilijfa Skomm? Þier munud þeinkia, ad einginn hafe yfer odrum ad stæra sig aa þessu For-smaanarennar Lande; enn giæted þess, ad þier muund kveliast i Augsijn H. Eingla, Apoc. 14. hverra Lagsmenn ad eru Guds Utvallder, er þier Foot-troded hafed i ydar Velmagt; Þier munud siaa alla Heilaga i Guds Rijke, Luc. 13. Enn ydur wtkastad, Jaa, marg-ann þann, sem þier Oriett giort og uppsvelgt hafed, og ecke reiknad verdugann ad þurka ydar Skoo, Þaa munud þier siaa til Bords sitia med Abraham, Isaac og Jacob i Rijke Himnanna; Þegar hiner Fordæmdu Glotunarennar Syner siaa þetta fyrst, þa mun Ofundar-Ormurenn taka til ad bijta af Alvoru, þa mun ecke duga ad sefa hann med Lijflaate Abels, Gen. 4. nie Mansale Josephs, Gen. 37. edur Draape Naboths, 1. Reg. 21. Þvi hann mun alldrei deya, Es. 66. Og vilied þier ecke odrum Guds Monnum trwa hier til, og segied: Ad hverke Esajas, Jacob, Petur nie Judas hafe vered i Helvijte, ad þeir kunne þar fraa ad segia, (so sem margur Gloopur lætur sier um Munn fara) þa trwed þo Guds Syne. O þu hin Vantrwada Kynslood! Hann var i Helvijte, þegar hann kvaldi-est fyrer ydar Synder, so þier skylldud ecke fyrerfarast, helldur hafa eilijft Lijf. Eingenn kann betur ad segia oss, hvernig þar er haattad, helldur enn hann, sem þad hefur tilbwed handa Dioflenum, hann ed sialfur hefur þolad Helvijtis Pijsler, hann ed sialfur er þaangad ofannfarenn til ad predika Ondunum i Fangelsenu, 1. Pet. 3. Þad er, til ad straffa þaa. Hann er Guds Sonur, hann ber alla Hlute med Orde sijns Krapt-ar, Ebr. 1. Allt Valld er honum giefed bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. Og vard Helvijte honum þo so heitt, ad hann sveittest Bloodenu, Luc. 22. Og hroopade aa Krossenum: Gud Minn, Gud Minn, Þvi Hefur Þu Yfergiefed Mig? Matth. 27. O! Vatns Boola, O! Hey-Straa, munt þu þa gieta bwed vid þennann fortærande Elld? Og þu skallt þar þo eilijflega bwa, nema þu ydrest og trwer aa Sonenn, Joh. 3.

Vilied þier nu ecke Guds Syne trwa, þvi þad er so gamallt, ad honum er lijtt-trwad af Heimenum, þa trwed þo Diofflunum; Þier erud vaner þeim ad trwa, þoott þeir ljuge, giored þeim ecke þann Oriett ad trwa þeim ecke, nær þeir satt segia. Þegar DROttenn took hina morgu Diofla wt af hinum Ooda Gadareno, Marc. 5. þa bædu þeir hann ad skipa sier ecke i Underdiwpenn, Luc. 8. þad er i Helviite, þvi so kallast þad Apoc. 9. Og viidar; So kvidu þeir vid þeim Loga, sem alvaner voru Kvolunum. Seig mier, mun þier ecke bregda vid, ef þier yrde … Skyndingu burt kyppt wr öllu þijnu Sælgiæte og steypt i Helviite og Kvalernar, eins og hinum Rijka? Luc. 16. J þetta Sinn toludu Dioflarner Alvoru, þvi þeir rœku sitt eiged Eyrende, enn ad þier ljwga þeir, Syndugur Madur, og maala upp fyrer þier Helviite eins og adra Konungs-Holl; trw þeim ecke, þvi Fader þeirra er Ligare fraa Upphafe, hann stood ecke i Sannleikanum, ei helldur þeir, þar fyrer eru þeir i Helviite ofann steipter, og bundner Myrkranna-Hleckium, 2. Pet. 2.

Til ad frelsa oss fraa þessum Oskopum er nu Guds Sonur wtgiefinn, til þess er hañ Fæddur, hwdstrycktur og aa Krossenn negldur; Enn Gudspialled segier oss enn nu meira, helldur Ad hann hefde Eilijft Lijf; stendur hier. Þad er vitannlegt af St. Paals Ordum, Eph. 2. Ad vier sœdunst dauder i Syndenne; Þad Naatturlega Lijf færer med sier Andlegann Dauda. Nær tokum vier til ad deya?. Þegar vier lifum i Skijrnenñe, fiñur Mooder vor, Christeleg Kyrkia, med oss fyrst eitt Andlegt Lijfs-Mark. Fyrer hvern? Fyrer hann, sem af Gude er wtgiefinn, til þess ad Heimuriñ skylldi hafa eillijft Lijf; So segier Paall, Tit. 3. Ad Gud hafi rijkuglega wthellt yfer oss Heilogum Anda fyrir JEsum Christum vorn Heilsugiafara, so ad vier Riettlaater fyrer hanns Naad yrdum Erfingiar eilijfs Lijfs; Eñ saa sem skal eilijfs Lijfs njoota, hañ verdur hier i Lijfe fyrst ad lifa Andlegu Lijfe; Þad hlioottum vier i Skijrnenne, sem sagt er. Þess getur St. Petur, er hañ segier; Ad Gud hafe Endurgieted oss til lifande Vonar; 1. Pet. 2. Enn þad kañ audvelldlega aptur ad missast, so vel sem þad Lijkamlega, nema hiñ iñre Madureñ, sem i Fyrstuñe er eins og Brioostmylkingur aa sig komenn, nema hann sie Daglega nærdur og Endurnijadur; Þvi lætur Paulus þetta fylgia hvort odru, segiande; Tit. 3. Ad Gud haf: oss hoolped giort fyrer Endurgietningar Laugena og Endurnijungar Heilags Anda. Þennann Andlega Voxt og Þroska odlunst vier eins vel fyrer Christum so vel sem hid Andlega Lijf i Fyrstunne; Þad kienner oss Paulus, Eph. 2. segiande: Vier erum Guds Verk, skapader i JEsu Christo til goodra Verka, hvor Gud hefur tilbwed, ad vier gaungum i þeim. Saalenn velldur þvi ad Lijkamenn vex; Ecke giorer þad Fædslañ alleina, helldur er hun so sem nockurskonar Medal, J hveriu ad verkar Mannsins Ande honum til Þroska, þar til hann fullvaxenn er. Christur er vort Andlegt Lijf, hann er Lijf hiñs iñra Mañsins. Fædann er Guds Ord, J þvi verkar hann med sijnum Anda, þar til vier naaum ad vara epter fullkomnum Mæler Christi Alldurs, sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 4. Og þetta Andlega Lijf er foolged i Deydingu Holldsins; Þau Tvo eru hvort aa moote odru; Eins Lijf er annars Daude; Hiñ Gamle Madureñ og hiñ Nije, sem epter Gude er

skap-

skapadur, þeir beraſt Bana-Spioot epter, enn þar er Mutturenn, ad hiñ Gamle fær ſaulgad hinum nyga i einu, ſo hann a Stundum alldrei vidraknar aptur, enn hiñ nyer fær alldrei ſo dreped hiñ gamla, ad hann ecke aptur gange. Til Faanga verdur hann tekenn fyrer Guds Krapt, en alldrei verdur hönum ſo fyrerkomed, ad ei briooteſt hann um ſo leinge vier erum i Holldenu. Vel ſie þeim, er gieta lagt hin ſterkuſtu Fiotur a hañ! Og þvi kallaſt hañ daudur, þegar hañ naer ecke ad framkvæma ſijnar Gyrnder: Þegar Meirhepta Reidenn og Gyrndena, og adrar Tilhneigingar, ſem af þeim vara, med Chriſti Anda, þa heiter hinn gamle Adam daudur; Þviliſer Paulus, er hañ ſegier, Col. 3. Þier erud dauder og ydar Lijf er foolged med Chriſto i Gude. Hver hefur nu afrekad oſs þetta Lijf? Þad hefur Chriſtur, ſem ad er vort Lijf, enn var wtgiefinn i Daudann fyrir oſs, ſvo vier hefdum eilijft Lijf. Þad vottar Paall enn aptur, Gal. 2. ſegiande: Eg em Kroſsfeſtur med Chriſto, enn life þo ſamt; Ecke eg nu, helldur lifer Chriſtur i mier, enn þad eg life i Holldenu, þad life eg fyrer Trw Guds Sonar, er mig elſkad hefur og wtgiefed ſiaalfañ ſig fyrer mig. Af þeſſu Lijfe framkiemur hid eilijfa Lijf, ſem adur er ſagt. Menn biooda ecke daudum Mönnum til Bords, helldur lifande; So mun og eingenn Bordſettur verda med Abraham Iſaac og Jacob, nema Dauden, hver ad er Sendebode, hitte hann lifande i Chriſto.

Hier ſeger i Gudſpiallenu, Ad Gud hafe ſo elſkad HEJMENN: Þad er alla Menn, þvi aller vill hann ad hoolpner verde, og komeſt til Sannleikſins Vidurkeñingar, 1. Tim. 2. Enn þvi velldur Fiandmadurenn, ſem er Mordinge Saalnanna, ad hanns Guddoomlege Kiærleike fær þvi ei til Vegar komed, ad aller hoolpner verde. Þvi ſtendur hier, ad þetta eilijfa Lijf hlotneſt þeim alleina, ſem a Guds Son trwa: Enn hvilijk Saaſa er þetta Lijf, Born mijn? Vier kunnum ecke ad leida oſs i Hug nie Hiarta hvilijkt þad ſie, nema hvad vier af Guds Orde heyrum, nema hvad Guds Ande ſijner oſs ſo ſem fyrer Speigel og i Raadgaatu, 1. Cor. 13. Þegar hann lætur oſs þad ſmacka, og vekur i oſs Sætleik epterkomande Alldar; Þad er Gnogt Fagnadarens og gledelegt Lijferne til Fodurſins hægre Handar, Pſ. 16. Vorer Lijkamer verda Einglunum jafner, Luc. 20. Ja, ſamlijker Chriſti Dijrdlegum Lijkama, Phil. 3. Þeir munu einkis vidþurfa, Ei Fædſlu nie Fatnadar, þvi Guds Rijke er ecke Matur nie Dryckur, helldur Fridur og Fognudur i H. Anda, Rom. 14. Þeir munu Dijrdenne Iklædder verda, og ſkijna eins og Sool i Rijke ſijns Fodur, Matth. 13. Vorar Saaler munu i Oumrædelegum Fognude lifa, 1. Pet. 1. Dijrdleger Huter verda i þier talader, þu Borg DRottenns, ſegier David, Pſ. 87. Er hann ſpaer um Chriſtnena; enn Paulus ſegieſt hafa heyrt i hinum Þridia Himne Oumrædeleg Ord, ſem eingenn fær wt-talad, 2. Cor. 12. Veralldarennar Sælgiæte er alldrei ſo miked, alldrei ſo margvijslegt, ad ei fare Meñ Leida a þvi; þeir ſem hafa ſijna Unadſemd þar i, verda þo ad kridda þad med Aflate nockru. Einn ſkal hwngra adur enn Maturen ſmackar vel, hann ſkal þorſta adur enn Dryckurenn þyker hönum goodur; Enn i Sælu Himnaña er eckert Aflaat, eingeñ Bid epter nockru, þvi ſo ſem Einglarner ſiaa jafnañ Guds Fodur Andlit, Matth. 18. So mun-

um

um vier og giøra, þar vier erum Eitglumum jafner, J hveriu oll Sæla er foolgenn. Job
i øllum sijnum Mann-Raunum huggar sig þar vid einasta, ad hañ mune siñ Endurlausn-
ara siaa med þessum Augum (segier hann) Job. 19. þad er med sijnum Lijkamlegum Aug-
um. Þegar Paulus hafde eitt Sinn vered i Himnenum og sied Guds Dijrd, þad var
honum so Minnesstædt, ad hañ wr þvi villde alla Hlute lijda fyrer Christi Saker; og þañ-
eg eru þeir Lynder, sem Gud opennberar sijna Dijrd i Hiartanu, med Von epterkoman-
de Dijrdar. Enn ef þanneg er vort Faangelse, B. M. hvilijkt mun þa Kongs Rijked ver-
da? Þad er ecke ad undra, þoott hin sanna Guds Kyrkia stynie og Andvarpe i Himen-
enn epter Guds Barna Sælu, Rom. 8. þar Guds Andlit lijser yfer henne, þoott ei siaaum
vier hann hier Auglite til Auglitis, helldur so sem i Speigle og i Raad-Gaatu, 1. Cor.
13. Aristoteles var eitt Sinn spurdur ad, hvad Frijdleikenn være? Enn hañ svarade: ad
þad være fyrer blindann Mann ad spyria ad. O oss auma! Þoott oss af øllu Hiarta
laange epter ad siaa hinn Lifanda Gud, þa faa Menn þad ecke fyrer Blindu Holldsins, og
er þo Efterlaungun þesse miklu inndælle, enn allur Fognudur Veralldarennar. Gud
hafde lagt miked til Moysen, og prijdt hann med kostulegum Gaafum fram yfer adra
Menn, og þo var hann ecke aanægdur, nema hann mætte siaa Gud; Þad var honum ecke
noog ad tala vid hann, eins og Madur vid Mann, Exod. 33. helldur villde hann og siaa
hanns Dijrdar-Liooma, hefde hann þad maatt, og lifa. Þvilijk er nu Guds Barna
Sæla i eilijfu Lijfe, og miklu meire, ædre og Dijrdlegre, enn ad nockur syndug Tunga faae
wt-talad. Hugleided nu, Christner Menn, hvilijka Astglöf Menn þeiged hafa i Utsendin-
gu Guds Eingietens Sonar: Hann er wtgiefenn til þess ad ei skylldud þier fyrerfarast, ecke
brenna i hinum gloandi Helvijtis Ofne, ecke verda Lagsmenn Dioflanna i Myrkrañ
Faangelse, ecke bera eilijfa Skoom og Forsmaan, sem þier med ydar Syndum hafed for-
þienad; Hann er wtgiefenn til þess, ad þier hafed eilijft Lijf, Eilijfa Sælu, eilijfañ Fog-
nud og Unadsemd um Allder Allda, hvar þier siaa munud, so sem þier erud siener, og
þeckia so sem þier frædder verded, 1. Cor. 13. Þier munud siaa Guds Haatign, er yd-
ur hefur skapad, gledia ydur i hañs Elsku, er knwde hañ til ad giefa ydur þenna siñ Son;
Þier munud siaa ydar Frelsara, er ydur hefur leyst med sijnum Dauda wr eilijfu Banne,
þier munud siaa ydar Hold og Blood upphafed aa Guds Tignar-Stool honum til hæg-
re Handar; Þier munud siaa H. Anda framgaangande af Fodur og Syne, þañ goo-
da Anda Guds, sem ydur hefur Endurgieted, Endurnijad, leidt i allann Sannleika, straff-
ad i ydur Syndena, huggad ydur aptur, styrkt ydur i Mootgaangenum; Og þa munud
þier fyrst siaa, ad Harmkvæle þessara Tijma voru ecke verd þeirrar Dijrdar, sem ydur er
þa auglijst, Rom. 8, Børn mijn, hveriu vilied þier nu giallda fyrer þessa stooru El-
sku? Hvers krefur hann af ydur? Einkis nema ad þier elsked hañ aptur i moot. Hvar med
verdur þad giört? Ecke med Orde og Tungu, helldur enn Naaungann, helldur med Verke
og Sannleika, 1. Joh. 3. Gude var Alvara ad giefa oss sinn Son. Laatum oss vera
þad Alvoru ad elska hañ aptur. Ef þier elsked mig, þa vardveited mijn Bodord, segier

Christ-

Christur, Joh. 14. Giorum so, þa lætum vier hann siæ, ad vier elskum hann, edur, ef riett skal segia, vier siæum þad siælfir og finnum þad, þvi ecki þarf hann ad leitast eftir hvert vier elskum hann, sem rannsakar Hiortun og Nijrun; Eñ ef vier vilium vitá siælfir hvert vier elskum Gud edur ei, þa spørum eckert fyrir hanns Skulld, eins og hann þyrmdi ecki sijnum Eingietnum Syni fyrir vora Skulld; Þviad i þvi auglijsti hann sijna Elsku. Brennum upp allar vorar Tilhneigingar med Elskunni til hanns, hun er einn Elldur; Ef vier erum Abrahams Synir, Joh. 8. Ef vier høfum Trw Abrahams, þa giorum Abrahams Verk, Jac. 2. Hann villdi Foornfæra sijnum eiginn Syni, og trwdi Gudi ad hann mundi kunna ad giora hann lifandi af Daudum, Rom. 4. Giorum eins! Offrum Gudi þvi sem oss kiærast er, þad er Viliennn vor; Lætum ecki eftir honum, eins og David Syni sijnum Adoniæ, þegar hann sæ ad hann villdi rijkia; Hann var so Barn-sæar, ad hann nennti ecki ad ængra hann; Breytum i ødru eftir David, eñ ecki i þessu: Helldur drepum vorn Vilia þegar hann vill giora Uppreist æ mooti Guds Vilia, og segium: Verdi þinn Vilie! Þa mun Gud hann aftur lifandi giora med sijnum Vilia, so ad vier vilium þad sem hann vill, og ad hanns Vilie fram̄kvæmist æ oss, sem er sæ, ad vier eignunst Eilijft Lijf. Þad veiti oss Gud Fadir af Naad sinni og Myskun, J JEsu Nafni, Amen.

# Þridia Dag Hvijtasun̄u.

## Gudspiallid, Joh. 10. Cap.

JEsus sagdi til Phariseaña: Sannlega, Sannlega segie eg ydur: Hvør hann geingur ei iñ um̄ Dyrnar i Sauda-Hwsed, helldur stijgur hañ iñ med ødrum Hætti, sa er Ploofur og Spillvyrki: Enn sa sem geingur iñ um̄ Dyrnar, hann er Hyrdir Saudaña, fyrir honum lijkur Dyra-Vørdurin̄ upp, og Saudirnir heyra hanns Rodd. Og hann kallar sijna Saudi med Nafni, og leidir þa wt, og þa hañ hefur sijna Saudi wtlætid, geingur hann fram̄i fyrir þeim, og Saudirnir fylgia honum eptir, þviad þeir heyra hanns Rodd. Enn ødrum annarlegum fylgia þeir ecki eptir, helldur flya þeir fræ honum, þviad þeir kienna ei Annarlega Rodd. Þessa Maals Grein taladi JEsus til þeirra; eñ þeir vissu eigi hvad hañ sagdi þeim. Þa sagdi JEsus enn aptur til þeirra: Sannlega, Sannlega, segie eg ydur, ad eg em Dyr Saudanna: Og allir, hvørier hellst sem fyrir mier komu, þeir voru Ploofar og Spillvirkiar, og Saudirnir hlyddu þeim eigi. Eg em Dyrnar; Ef nockur geingur iñ um̄ mig, sa mun frelsast, hañ mun og gænga wt og inn, hañ skal og finna sitt

Foodur. Eñ Pioofureñ kiemur ei til añars eñ hañ stell, drepi, og fordiarfe. Eñ eg er komiñ til þess, ad þeir hafe Lijf og fulla Nægd.

### Exordium.

Ert þu sa sem koma mun, edur eigum vier ad vænta eins Annars? Søgdu Johannis Lærisveinar vid Christum, Matth. 11. er þeir voru sendir fra sijnum Meistara til ad spyria ad, hvor hañ væri. J hvorium Ordum þad er ad athuga, ad Messias hefur nefndur verid a þeim Døgum, SA SEM KOMA MUN, annars hefdi þessi Spurning verid nockud myrk og Oskiliannleg. Þu ert Christur Sonur Guds, hann sem koma skal i Heiminn, sagdi Martha Fordum vid Lausnarann, Joh. 11. Og mundi hun ecki hafa avarpad hann þannig, hvern hun þeckti kominn ad vera, nema Messias hefdi so almennilega kalladur verid. Þetta ma vijdar sia i Nija Testamentisins Bookum, og hafa vijsir Menn Gydinga i þessu litid til Spaadoomanna i Gamla Testamentinu, hvar ed so adkvedur um Messiam, ad hann muni koma; So segier Esajas: Sia, ad Gud, ydar Hofud, kiemur, ydar Endurgiallð, hañ kiemur til ad frelsa ydur, þa munu og Augu hinna Blindu uppliwkast, og Eyru hinna Daufu opnast, þa mun hinn Hallti dansa so sem Hiortur, og Twnga hinns Maallausa sijngia, Esa. 35. Til hvors Spaadooms, medal annarra, Frelsariñ bendir Johannis Lærisveinum, er þeir friettu hañ ad, hvort hann væri sa sem koma mundi. Þetta upplijser þau Ord, er vor Endurlausnari talar i þessa Dags Evangelio, er hann segier: Ad aller þeir sem fyrir hann komu hafe verid Þioofar og Spillvyrkiar; Hvar hann meinar, eftir mijnum Faafroodum Skilningi, þaa sem fyrir hann komu og eignudu sier Nafn hinns mikla Hyrdirs og villdu frelsa Gydinga af Valldi Romveria, enn bonnudu ad giefa Keysaranum Skatt; Þvilijkir voru Tevdas og Judas Galilæus, um hveria Gamaliel talar i Postulanna Giorninga Book 5. Cap. Enn hvernig sem þvi er varid, þa talar DRottinn hier ecki um Spaamennina, er voru Riettlætisins Predikarar og spaadu um hanns Tilkomu, og toludu af hanns Anda, helldur annadhvert um þessa, sem nu hefi eg nefnt, edur einhveria þeirra Lijka, þoott Søgurnar greini ecki um þaa: Enn fyrir þvi ad DRottinn visbi fyrir, ad eftir sijna Hierviist a Jordunni mundu upprijsa Fals Christar og Fals Spaamenn, ecki sijdur enn fyrir sijna Tilkomu i Heiminn, þeir ed koma mundu til Guds Barna i Sauda-Klædum, enn Jnnra voru þeir glepsandi Vargar, Matth. 7. Þa segier hann hier i Gudspiallinu, hvert ad sie Merki hinns sanna og mikla Hyrdirs Saudanna, eftir hverium adrer Hyrdarar eiga ad breita, er hann sett hefur yfir Hiardirnar, Act. 20. So og a sijna Saudi, er hanns Raust alleina eftirfylgia. Vier vilium af Gudspiallinu þetta Tvennt Hugleida. 1. Hvernig Kiennendunum eigi haattad ad vera. 2. Hvernig Tilheyrendurnir eigi ad skicka sier.

O Þu sem ert hinn mikli Hyrdir Saudanna, fyrir Blood þess eilijfa Testamentis HErra JESU Christe! Styrk oss hier til med Fulltijngi þijns gooda Anda; Bænheyr oss fyrir þijna Forþienustu, AMEN.

## Utleggingen.

HAr Vor Endurlausnare nefner HYRDER i Gudspiallenu, þa meinar hann i Fyrstu siaalfann sig, þvi hañ er Hofdinge Hyrdaraña, sem Petur vottar, 1. Pet 2. Aller adrer Hyrdarar hafa sitt Embætte af honum, þeir sem ad hanns Vilia eru etter yfer Hiordena; Þvi byriar øllum þeim hanns Blessudu Dæme ad fylgia, og er þad fierdeilis Preñt sem þetta Heilaga Gudspiall vijsar oss til, sem er. 1. Ad þeir sieu inn uñ Dyrnar geingner, þad er, riettelega kallader. 2. Ad þeir læte Saudena heyra sijna Raust. 3. Ad þeir gaange undann þeim. Hvad hinu Fyrsta vidvijkur, þa segier Paulus ad sonnu, Hebr. 5. Eingenn take sier þennann Heidur til, helldur sa sem kalladur verdur af Gude so sem Aaron. Þvilijk Kallan brwkast ad sonnu ecke nu, og jafnvel ecke i gamla Testamentenu, epter þad Gud skipade Konungana yfer sitt Foolk. Spaamennena kallade hann ad sonnu, enn Kiennemennerner voru af Konungenum setter. So skickade Salomon Kongur Zadoch Kiennemann i Stad Abiathars, 1. Reg. 2. Og Josaphat tilsette Prestana i Hwse DRottens, 2. Chron. 17. Olle þad þvi, ad aa medann Gud hafde siaalfr Stioornena i Jsrael, þa skipade hañ øllum Hlutum fyrer Medalgaungu Moysis og annarra sinna Þienara, sijdann hefur hann feinged Konungunum þvilijkt i Hendur, og odrum Valldstiettum, epter þvi sem hveriu Lande hagar. So var og Aron bæde kalladur og vijgdur fyrer Medalgaungu Moysis, Exod. 28. DRottenn JEsus kallade ad sonnu sijna Postula siaalfur, Matth. 10. Enn epter hanns Dijrdarfullu Himnafor voru hanns Kyrkiu Þienarar af Monnum kallader, þvi Matthiam og Barnabam wtvolldu Postularner, Jafnvel þoott Hlutureñ, ad Guds Vilia, fielle yfer Matthiam, Act. 1. Biskuparner i Epheso voru af Mønnum kallader, ecke sijdur enn þeir sem Titus Critar Biskup nidurskipade uñ Borgernar, Tit. 1. Og kallar St. Paall, ad þeir sieu af H. Anda settir yfer Hiardirnar, Act. 20. So skickudu þeir Paulus og Barnabas Olldungana i Lystris og Iconio, Act. 14. Og þesse Skickan hellst allt þaangad til Gud gaf sijnum Sofnudum Christenn Yfervolld. Þetta segie eg til þess, ad eingenn Guds Þienare efest uñ sijna Kallan, þegar hann er af Christelegu Yfervallde kalladur, sem Gud hefur þetta uñboded, nema hann hafe med Svikum og Prettum, Gaafum og Mwtum stolest iñ i Sauda Hwsed; Þa er hann eingu betre enn Þioofur og Spillvyrke, og hefur sier eingrar Guds Adstodar ad vænta i sijnu Kalle og Embætte, hversu vel sem hann þykest ad sier vera. So eru þeir nu af Gude kallader, sem eru af Konungenum kallader, edur þeim sem hann hefur þad Valld i Hendur feinged, þvi hañ er Guds Uñbods-Madur aa Jordunne, enn þeir hanns, sem af honum setter eru, þo med þvi Moote, ad þeir brwke ecke nein Oleifeleg Medol hier til, og er þad ecke lijtil Huggun fyrer þann, sem aa Daglega Mootstødu ad veita Satan og vondum Mønnum, hanns Þienurum, ad hñ er af Gude kalladur i þa H. Stiett; Þvi maattugur er Gud ad vardveita sijna Þienara er honum treista, og ei brestur hann Viliann til þess; Þeir eru skrifader i hanns Hondum, Es. 49. Hver vill þeim granda, fram̃ yfer þad hann leifer? Eg vil uñ þaa segia eins og

Bileam sagde um̃ Israel Fordum: Þvi skyllde eg bølva hønum? Hinn sterke Gud bølvar hønum ecke; Þvi skyllda eg stugga vid hønum? Jehova stuggar ecke vid hønum, Num. 23. Enn hann leifer eckert, nema þad sem er til hanns mikla Nafns Dijrdar, og þeim fyrer bestu, er hønum af Trw og Dygd þioona, og er Sæmd ad taka þvi af hañs Hende, hverium sem hønum lijkar þvi ad skipa; Þeir meiga ad vijsu tilreikna sier þad sem Paulus um̃ sig skrifar, er hann segier: Eg veit hverium eg hefe trwad, og eg em fulltrwa, ad hann er mattugur ad vardveita þad sem eg hefe hønum tiltrwad, 2. Tim. 1. Nu er þad ecke noog, Br. M. ad Menn sieu kallader, nema Menn giøre og Guds Verk med allre Athygle. Judas var kalladur, Matth. 10. og gieck i Fyrstu inn um̃ Dyrnar, þvi hann hafde medteked þetta Embætte med þeim, sagde Petur, Act. 1. Enn hanns Setur vard i Eyde, og hanns Biskups Doom medtook eirn annar. Og þvi vil eg tala um̃ i ødru Lage, hverneg oss byrie ad foostra Guds Saude.

SAUDerner Heyra Hanns RØdd, segier i Textanum. DRottenn talar hier epter Sidveniu Gydinga-Lands og añara Landa, þar ed Hyrdararner brwkudu, og eñ nu brwka i Dag, eina Hliood-Pijpu til ad kalla samann Saudena, so ad þoott margar Hiard er sieu a beit i einu Haglende, samt þecker hver ein Hiørd sijns Hyrders Must, og skilur sig wr ødrum Sauda-Flock nær hun lætur. Ef Rodden̄ skal heyrast, þa skulu Men̄ hroopa. Þetta Ord, RØDD, þijder optlega, Kieñingu, i Ritninguñe. Þar er Rodd eins Hroopanda i Eydemørku, segi:r Esajas C. 40. Hvad Johañes Baptista þijder uppa sig og sijna Kieñingu, Joh. 1. Þvi skipar og Gud Kieñemoñunum ad upphefia sijnar Radder, so sem adrar Basunur, Esa. 58. Þad er hin Andlega Hyrders Pijpa, hveria ad hañ, sem er hiñ Mikle Hyrder Saudaña, Hebr. 13. hefur oss, sijnum Smala-Moñum, i Hendur feinged, hvers Eign ad Sauderner eru; Enn til þessa heyrer mikel Kostgiæfne og Astundan, Br. M. Ætled ecke, ad þad mune einu gyllda, hvad þier hrooped; noog Hareyste meiga Meñ heyra Stundum, þad þijtur um̃ Eyruñ eins og annad Stoorvidre; Eñ þvi er ecke so hattad sem Þytnum, er kom yfer Postulana, Act. 2. I hverium ad bioo H. Ande, þvi þad er ecke Guds Ord, sem sumer Menn tala i Helgum Stad, enn hann bygger alltijd i sijnu Orde, er hañ i Fyrstu innblies i Hiørtu Postulaña og añarra Guds Maña: Þad er eins og Sterkvidred, sem Elias sañ i Hellrenum a Guds Fialle Horeb, 1. Reg. 19. Þad klauf i sundur Fiollenn og braut Klettana, enn Gud var þo ecke i Vedrenu; So eru Kieñingar sumra Manna; Þær skafa innann Eyrun a Foolkenu, eñ eckert kiemst i Hiartad, þvi þar er eckert af Skynseme, eckert af Rade, og eckert af Guds Orde, þad er Skij fyrer utann Regn, so sem Judas Postule talar um̃ Guds Dijrdkun sumra Maña. Hvad mun valda þessu, Br. M? Þvi Menn hyrda so lijted um̃ ad safna þvi i Korn-Hlødu Hiarta sijns, er Guds Hiwum byriar ad giefa. Drottenn kallar þann Þioon sælann, Luc. 12. er giefur þeim sinn Verd i riettann Tijma. Hier af ma sia, hvad stoor Framsijne og Arvekne ad heimtest af einum Guds Ords Þienara, sa sem a ad giefa hverium einum i riettann Tijma þad hønum ber: Hann ma Adgiætenn og ecke toomlatur vera; Sie nock-

ur

ur Sturladur, sie hann Ofroodur, sie hann Hyrdulaus, sie hann Þverbrotenn, sie hann Esasamur; Ad øllu þessu a eiñ Guds Þioon ad giæta, og laata eckert Verk, Einga Sysslan edur Umsvif Tijmañligra Hluta sig hindra fraa, ad giefa sierhverium af þessum i riettann Tijma þad sem þeim ber, ef hann vill giora Verk DRottenns Guds sijns trwlega. Og nema vier so giorum, þa er ecke ad dyliast þar vid, ad vier munum ecke einasta Launeñ missa, helldur og þar aa ofañ straffader verda, so sem hiñ vonde Þioon, er groof sitt Pund i Jordu, Matth. 25. Vered þvi Kostgiæfner, og ætled ecke ad þad sie noog, ad vier hofum Hroos af Mønnum, þvi ef vier leitum epter þvi, þa erum vier ecke Christi Þienarar, Gal. 1. Og umm allt fram, þa lærum siaalfer Guds Vilia ad þeckia, af hanns Orde; Þar i aa eins Guds Þienara Kienning foolgenn ad vera, ad kienna Mønnunum ad þeckia Syndena, ad faa hana kvitta og ad fordast hana. Holldum vier ecke so i Bwskap vorum, ad þoott Foodred sie gott, þa varde miked umm hverneg þvi sie hagtært; Ætlum ecke ad þad mune vera odruvijs i Andlegum Hlutum. Menn segia, ad Foolked skule ecke syndga, enn þo giora Menn aa Stundum ecke so skilmerkelega Grein aa millum Goods og Ills so hinn faafroode lære ad þeckia Syndena, og þad velldur þvi, ad margt þad sem lioott er verdur Dygd hallded, edur, ad minnsta Koste, eingenn Okostur. Menn segia þeir skule ecke syndga, enn ei segia Menn so gloggt hverneg þeir skule varast Syndena, edur leggia þeim Raad af Guds Orde, hverneg þeir skule siaa sig vid þeirre edur þeirre Synd, er einhver kann ad vera hneigdur til. Menn segia ad þeir skule ecke syndga, eñ tala nærsta dauflega þar umm, hvad hver Synd epter sig leider. Guds Reide nefna Menn ad sønnu, enn ræda ecke so skilmerkelega umm þad, fyrer hver Verk hun openmberast af Himnum ofann yfer Mannanna Born, Jafnvel þoott Menn siaae þau Daglega fyrer Augum sier: Og nær Menn þanneg breita, ætla sumer ad vel sie predikad Guds Ord, og ad þeir sieu gooder Verka-Menn i Christi Akre, eins og hann hafe ecke siaalfur Merke sett uppaa sijn Ord, þar ed hann segier, ad þau sieu Lijf og Ande, Joh. 6. Enn sumra Mañа Kieñingar eru daudt Hiegoma-Rugl, og aflar meir Bana enn Lijfs. Þegar St. Paall er ad tala Maale voru, 1. Cor. 9. Ad Menn skule hafa Upphellde af Þioonustunne, þa færer hañ til sijns Maals þa Logmaals-Grein, er stendur, Devt. 25. Þu skallt ecke Mwlbinda þad Naut sem þresker: Enn eg ætla ad ei þurfe ad Mwlbinda oss suma, þegar Guds Eyrende aa ad tala: Vær giorum þad siaalfer aa Stundum, edur og Ottenn edur Fie-Gyrndenn, enn þegar eta skal rijsum vier Mwlenn af, og uppfyllum so þad sem DRotteñ segier fyrer Munn Ezechielis umm Voku-Mennena i Juda: Aller eru þeir Maallauser Hundar og kunna ecke ad giellta, Ezech. 56. Enn þesser graadugu Hundar verda þo alldrei saddder. Þetta vil eg hafa sagt þeim, ed brwka Nafn Evangelii til Abata alleina, og þad er þo allt annad eñ Evangelium er þeir tala. Ecke þanneg, Brædur mijner! Helldur filged Bode Peturs, er hann segier, 1. Pist. 5. Foostred Guds Hiord, sem ydur er aa Hendur falleñ, og giefed Giætur ad heñe, ecke af Naudung helldur swslega, verande ecke skieñelegs Avinnings gyruger, helldur med swsum Huga, og ecke so sem drottnande yfer Sofnudunum,

um, helldur so sem þeir, ed sieu Fyrermyndan Hiardarennar. Gud hefur sett oss yfer Hiörd sijna; Þvi eigum vier Hyrdarar ad vera og ecke Drottnar, þvi einn er vor DRottenn JEsus Christus, hinn mikle Hyrder Saudana; Þad maa eingenn Afsökun vera þoott sumer hafe lijtel Laun: Hvad hafde Paulus og Barnabas, og hiner Postularner? Saa sem þioonar Christo fyrer lijted, hann hefur stærra Lien af Gude þeiged enn hinn, sem hefur yferfliootanlegt, so eg þore ad segia, ad hann mun fegur skijna i Dijrd sijns HErra enn hinn, þoott bader giore þeir eins vel Skylldu sijna.

Giætum og i Þridia Maata þess, sem Petur minner oss aa, ad vier sieum Fyrermyndan Hiardanna. Þad er almennelega hallded, ad af oheilum Forelldrum kunne ecke heilbrygdt Afkvæme gieted ad verda; Nu eru Kiennemennerner Andleger Fedur allra þeirra sem þeim tiltrwad er; Enn ef þeir eru lijtt vander ad Hlut sijnum, og hyrda ecke um hverneg þeir lifa, og eru i þann Maata Andlega vanheiler, hvernig meiga þeir Gude Andleg Börn fæda? Sonakorn mijn, segier Paulus vid þaa i Galatia, med hveria eg aptur ad nyu þrwngbwenn er, þar til Christur myndast i ydur, Gal.4. Enn hverneg gietur Christur vorded i þeim myndadur, hverra Mooder, þad er Kiennemannsins Saal, afneitar ollu Christelegu Athæfe, enn hlijder Dioflenum i Ogudlegu Framferde? Og þoott ad Gud kunne ad framkvæma sitt Verk i sumra Tilheyrenda Hiortum, fyrer Naad sijns Anda, sem ad verkar i Ordenu, þa er þad ecke hinum Naangsnwna Kienne-Fodur ad þacka; Ad sonnu hefur hann med sinne Þioonustu vered Medal til, ad hun er i Skijrnenne Endurfædd; Verda maa og, ad hann tale þad eitthvad af Predikunar-Stoolnum, er heyrer til Saaluhiaalpar og Lifnadarens Betrunar, enn hvad gagnar þad? Þegar hann hvad mest aaminner og eggiar aa hinar Andlegu Dygder, Kiærleikann, Myskunsemena, Hoogværdena, og, i einu Orde ad segia, aa Deydingu sijns Holld og Bloods; þa sijner hann þo i Verkunum, ad þeim Hlutum sie Omogulegt af Stad ad koma, er hann bijdur af Predikunarstoolnum, leggiande so þad Ok aa Herdar Læresveinanna, er hann ecke snerter med hinum minnsta Fijngre, Matth.23. O vei! O vei! hvilijk Gudlostun er þad, nær Embætte Forlijkunarennar er þanneg brwkad Andskotanum til Þioonustu! Þetta er hin mesta Landraada Sök i giegn Gude, þvi þad er ecke einasta hanns Þegna undann honum ad raada, helldur brwka þa aa moote honum, enn giefa sig i Lid med Satan, hver ad er svarenn Ovinur hins Alvallda Konungs. O! hversu skielfeleg mun þeirra Pijna verda um alla Eilijfd, er þannveg vanbrwkad hafa Myndugleika sijns Embættis! So eg er viss um, ad hver sem kynne ad leggia Eyrad vid Helvijtis Munna, og mætte heyra Oop og Tanna-Gnijstran þeirra Fordæmdu, þa mundu þo Kiennemannanna Hliood yfertaka, eg meina þeirra, sem hafa leidt hanns Hiörd, sem med Guds eigenn Bloode er Endurkeypt, Act. 20. aa Veg Glotunarennar, bannande so Mönnum inn i Himnarijke, og siaalfer koma þeir þar ecke inn, Matth.23. Fyrer þvi, DRottenns Kiennemenn, verum ecke eins og Vördur þær, er standa aa Heidum uppe, og vijsa ad sonnu Veigenn, enn ecke fara þær wr Stad, so þær leide hinn Vegsvijkade til Hybijla; ecke eins og Klucka, sw er haanger fyrer Kyrkiu-Dyrum, hun kallar Foolked

ed til samans til Guds Orda Heyrnar, enn siälf heyrer hun eckert. Treyste og eingenn þar uppaa, ad hanns Embætte sie heidarlegt, edur ad hann hafe Guds Um̄bod aa Hende, nema hann gange verduglega þeirre Kallan, hvar inne hann er kalladur, Eph. 4. Maalmuren̄ i eiñe brosteñe Klucku kañ goodur ad vera, eñ samt er hun ecke miøg hæf til Pioonustugiørdarennar; So er og Embætted jafnann heidarlegt, enn þad lijdur Vanvirdu aa Stundum, fyrer Oskickun og illa Breitne þess, sem þad Starf er aa Hendur faled. Edur, segied mier! Hvad kunna Tilheyrendurner ad þeinkia annad um̄ hann, sem ei giører nema bender med Fijngrenum til Guds Vegar, enn siälfur geingur hann ecke, helldur einn þad, ad annadhvert meine þesse Madur eckert af þvi hann talar, edur og ad sa Gud, er hañ kienner, mune ei vera so miøg vandur ad Lijfernis Hättum syndugra Mañа, sem hañ seger? Laate Menn sier þvi ecke nægia þar med, ad þeirra Kienningu er hroosad, Jaa, ecke þott hun sie mikillrar Hroosunar verd i siälfre sier, nema Menn fram̄kvæme þad i Verkunum, er Menn tala med Munnenum. Eg vil hier um̄ vidlijkt segia, og Endurlausnareñ sagdi Fordum vid Læresveinana, Luc. 10. Fagned ecke af þvi ad Andarner eru ydur undergiefner, helldur af þvi ad ydar Nøfn eru skrifud aa Himnum. So vil eg segia: Glediest ecke so þar af, ad þier hafed af Gude þeiged goodar Gaafur til ad kienna, helldur meir af þvi, ad ydar Søfnudur Leidriettest, geingur aa Guds Veige, elskar Gud og hanns Ord, ef hanns Rijke uppbyggest aa medal ydar, enn Andskotans verdur niedurdrepid. Glediest af þessu, Br. M. og leggid allt Kapp þar aa, hvad ydur audvelldlega takast mun, ef þier fylgid Bodi St. Pauls, er hann skrifar til Timotheum; Vert Fyrermyndan hinna Trwudu i Ordenu, i Um̄geingnenne, i Kiærleikanum, i Andanum, i Hreinlijfenu, 1. Tim. 4. Og hefe eg nu nockud talad um̄ Skylldu Kiennemannanna. Eptersfylger med faaum Ordum ad segia um̄ Tilheyrendanna Skylldu; Hun er Tvoofolld: Ein vid Gud, og Ønnur vid hanns Pienara; Hin Sijdare hanger af hinne Fyrre; Og þvi vil eg fyrst þar um̄ tala.

Hier stendur i Gudspiallenu: Sauderner Fylgia Honum Epter, Þvi Þeir Þeckia hans Raust. Eg hefe nockrum Siñum þar um̄ talad i Book þessare, mijner Eiskañleger, hvad oss eige ad knya til þess ad heyra Raust O Rottenns, sem er hanns Ord, þvi vil eg þess færra þar um̄ tala i þessum Stad, jafnvel þott alldrei sie good Vijsa of opt kvedenn. Hier stendur: Ad Sauderner Fylge Hyrdernum Epter, Af Þvi Ad Þeir Heyra Hanns Raust: Hvad er þad; Honum epter ad fylgia? Hyrderenn er Christur, Þad er ad fylgia honum epter, ad lifa Christelega. Hvad er ad lifa Christelega? Þad er ad hallda Guds Bodord, ef ecke fullkomlega, sem Omøgulegt er, þa þo ad þvi Leite, sem oss er møgulegt. Hanns Matur og Dryckur var ad giøra hanns Vilia sem hann sende; So aa oss eckert so kiært ad vera, sem ad giøra hanns Vilia, Joh. 4. Elska skallt þu O Rottenn Gud þinn, þad er hid Ædsta og Mesta Bodord, Matth. 22. Enn hvad segier Christur? Joh. 14. Ef þier elsked mig, þa vardveited mijn Bodord. Hann vegsamade Guds H. Nafn fyrer Mønnunum; Ef vier vilium honum epter fylgia, þa laatum oss þad kiarlægt

lægt vera, ad misbrwka hanns Nafn til ad leggia þad vid Hiegooma, enn þo miklu sijdur ad Liwga vid þad, Sveria edur Fiolkynge fremia. J einu Orde ad segia: Christus sem ecke var Logmælenu undergiefenn, hann uppfyllte allt Logmæled; So eigum vier af fremsta Megne ad æfa oss i Hlijdne allra Guds Bodorda, og ecke skamta oss sialfer hvad miked edur lijted vier vilium hallda þar af. Ecke ad elska alleinasta Fodur og Moodur, enn hata alla adra; Ecke ad vera einasta Meinlaus i Umgeingne, og Goodvikin vid Naungann, enn kreinkia hanns Hwsfrw edur Frænd-Konur; Ecke alleina ad vakta sijn Augu fyrer Lauslæte, enn stela þo Naungans Gotze og svijkia hann i Kaupum og Solum; Ecke þad noog, ad laata hanns Fiemune kyrra, enn Baktala hann þo og Ofrægia, Jaa, Liwga uppaa hann Lijtum og Skommum, Bera Fals-Vitne aa moote honum, edur neita honum Sannleikans Vitnes, sem er allt hid sama. Ecke duger þetta, Br. M. Ecke er þad Christo epter ad fylgia, þvi saa sem er sekur i einu af Bodordunum, hann er brotlegur i ollum, Jac. 2. Þar fyrer er ad þvi vijsu ad ganga, ad saa sem læturepter sier nockud af þessu, og dryger þad vijsvitande aa moote Samvitskunne, hann er ecke af Christi Sauda-Hwse. Hvad er hann þa? Hann er Braad Ulfsins, sem er Andskotenn, og mun honum ad eilijfu Hersfange verda, nema hann snwe aptur. Enn hvernig vill hann saa þad giort? nema hann heyre Raust hinns gooda Hyrders, nær hann kallar: Þvoed ydur, hreinsed ydur, Taked ydar Illsku-Breitne fraa mijnu Auglite, Laated af Illu og læred Gott ad giora, Es. 1. Þesse er hanns Raust, og ef þier af Hiarta ydrest ydar daudra Verka, og laated ydur angra ad þier hafed Gud styggdann, þa lætur hun enn þa hærra, er hann segier: Komed til mijn aller þier sem erfided og Þwnga erud þiaader, eg vil Endurnæra ydur: Taked aa ydur mitt Ok og læred af mier, þviad eg em Hoogvær og af Hiarta Lijtelaatur, og munud þier finna Hvijld Saalum ydrum, Matth. 11. Þesse er Raust hinns gooda Hyrders i allre Ritningunne, i ollu Guds Orde, og þanneg aa eins Hroopanda, eins Predikara Raust ad vera i Eydemorku Veralldar þessarar. Þier vited, B. M. ad vier Daglega syndgunst; Lastanna Greiner spretta ydugleg wt wr þeirre Molld sem vier erum giorder af, sijdann Fiandmadurenn saade þar Illskunnar Sæde, þær verdur af ad hoggva, so opt sem þær vaxa. Med hveriu þa? Med Guds Orde, sem er eitt Tvijeggiad Sverd og framgieck af hanns Munne, er Johannes saa ganga at mille Liosastiakanna, Apoc. 1. Guds Ord er einn Elldur, saa ed brenner upp oll Saurgande Gyrnda og Lasta, sem oss eru medfædd; Þad er einn Hamar, er sundurmer Hiortu vor, so þau verde Bwstadur Guds, og sundurknosar vorn Anda, so hann verde þad Offred sem DRottne lijkar, Ps. 51. Hier um talar hann hiaa Jeremiam, Cap. 23. Er ecke mitt Ord so sem Elldur, segier DRottenn, og so sem einn Hamar, saa ed Klettenn sundurmolar? Guds Ord er einn Elldur, sem sagt er. Aaron sagde Fordum sier til Afbotunar: Minn Herra, Eg kastade Gullenu i Elldenn, og þar vard af þesse Kaalfur, Exod. 32. Riett-trwads Manns Hiarta er hveriu Gulle dyrmætara; Kostum þvi i þennann Elld, þar af mun sialfkrafa vaxa eirn Kaalfur, ecke Svijvirding Egyptalands, so sem Aarons,

Aarons Kaalfur, helldur ein lifande Foorn og Gude þacknæmeleg, sem eru Kaalfar Vara vorra, Os. 14. Þesse er sw Skylldann, er vier eigum Gude ad giallda, og giolldum vier, ef satt skal segia, Br. M. ecke i hanns, helldur i vorar Þarfer. Jardnesker Hyrdarar fæda Saudena fyrer Ullena og Miolkena; enn DRotten̄ fæder sijna Saude fyrer alls eckert; Einkis krefur hann af þeim, nema ad þeir skule Ottast sig og Elska, og ætte þad ecke ad vanta, Christner Menn; Þvi ef vier elskum vora Laanar-Drottna fyrer þad þeir giefa oss Fot og Fæde, og vinnum þeim alltijd þo nockud til Þarfa: O! þvi skylldum vier þa ecke elska hinn gooda Allsheriar DRottenn, er ecke einasta fæder og fooſtrar Lijkame vora, helldur og elur Saaler vorar aa þessu Himneska Manna, jaa aa sijns Eingietens Sonar Hollde og Bloode, sem er Lijfsins Braud af Himnum ofann komed, Joh. 6. Verum þvj ecke so Illgiarner aa moote sialfum oss, ad vier daufheyrunst vid þessa gooda Hyrders-Raust, hver ed fooſtrar oss i Lysteleguni Gras-Haga, og leider oss ad ferskum Votnum, Ps. 23. Øll syndugs Manns Olucka kiemur þar af, ad hann liær ecke Guds Raustu Eyrun: Hverneg meiga þeir trwa nema þeim sie Predikad? segier Paall, Rom. 10. Enn eg maa spyria: Til hvers skulu þeir predika, nær eingen̄ vill heyra? Og hverneg aa Guds Ord ad verka i Hiartanu, nær þad kiemst ecke i giegnum Eyrun, sem eru Dyr Hiartans. Lamparner voru fyrst kveikter i gamla Testamentinu aadur enn Reykelsed var tendrad, Exod. 27. Og so verdur Skilningurenn fyrst ad upplijsast, ad Manneskiann þecke Gud og sialfa sig aadur enn Gyrnden̄ kviknar, og Audmyktenn lifnar til ad afneita sialfum sier, enn elska Gud. Enn hvar er slijka Guds Giof ad faa, nema i hanns H. Orde, Þau eru Lampar þeir, Ps. 119. Sem Reykelse vorrar Ydranar, vorrar Trwar, vorrar Bænar, Reykelse Elskunnar til Guds og Naungans skal tendrast med, so þeirra Ilmur stijge upp fyrer Guds Haasæte og samteingest þar DRottens Forþienustu oss til Forlijkungr. Og er nu so wt-talad um̄ Skylldu vora aa moote Gude vorum i þessu.

Enn hvad vora Skylldu aahrærer vid Kiennendurnar sem oss eru i Guds Stad setter, þa er hun nærsta mikel. Eg mun þykia bermælltur vered hafa um̄ þeirra Skylldu i hinum Fyrra Parte Rædu minnar, og vil eg þvi viked hafa til þeirra sem ecke taka Vara aa sijnu Embætte, og lijted hyrda um̄ hverneg þeir kienna edur lifa; Enn Gude eru Þacker ad kunna, ad hann hefur giefed oss marga sijns Ords Kiennendur, þaa ed bæde predika þad hreint og klaart, og so prijda Kienninguna med Lastvoru Fram̄ferde. Þesser hafa stooran̄ Myndugleika af Gude, Born mijn. Hiaa þeim aa þad heima sem DRottenn seger, Luc. 10. Hver hann forsmaaer ydur, hann forsmaaer mig. Ecke er oss ad þeim ad leita, sem ecke finnest Mannlegur Breiskleike hiaa: Gud hefur nærsta Vægdarsamlega hondlad vid oss i þvi, so sem ollu odru, ad hann hefur ecki sendt oss Eingla af Himnum til ad kienna oss, þvi vier mundum ecke standast þeirra Naalægd, helldur synduga Menn eins og vier erum, og hefur prijdt þaa med Einglanna Nafne, Malach. 2. Til ad laata oss vita, ad þeir sieu hanns Sendebodar til vor, hveria hann vill laata medtaka i sijnu Nafne.

Hverke Petur nie Paall, edur nockur annar af Postulunum, voru aan Mannlegs Veikleika. O hvad munum vier þa vera, sem eingann veigenn erum þeirra Lijkar! Kiennemennerner i Gamla Testamentenu aattu ad forlijka fyrer sijnar eigenn, aadur enn þeir Offrudu fyrer Foolksins Synder, Hebr. 7. Enn ei ad sijdur villde DRottenn ad Foolked skyllde þeim hlijded og undergiefed vera, so ad hann segier; Hver sem ecke vill Kienemanninum hlijda, hann skal deya, Devt. 16. Nu þoott ad þetta Logmaal sie afteked, ad so miklu Leite sem Lijkamans Straffe vidvijkur, þa er þad samt og aadur vijst, ad hver sem ecke hlijder einum DRottenns Kiennemanne i ollu þvi, sem hann hønum i Guds Nafne riettelega bijdur, hann deyr Andlegum Dauda, hann er ecke Christelegrar Kyrkiu lifande Limur, hann er daudur i Synd þeirre er hann vill ecke raada Boot aa, og nema hann hlijdnest DRottenns Pienara og ydrest af Hiarta aadur enn hann deyr, mun hann eilijfum Dauda deya. Pier vited hvad DRottenn sagde Fordum Daga um Pharisæos og Skriftlærda, Matth. 23. Ad Menn skylldu giøra epter þvi sem þeir segdu, enn ecke epter þvi sem þeir giørdu, af þvi þeir sæte aa Moysis Stoole. Hversu miklu framar byriar oss þa ad hlijdg Raadvondum Kiennemonnum er undann oss gaanga i Orda DRottens, og eru Ostraffanleger, sem Paulus ad Orde kiemst, 1. Tim. 3. Þad er, hveria Menn ei kunna ad straffa fyrer nockurn Glæp edur Hneixlissama Umgeingne, þoott ei sieu þeir fyrer Gude Syndlauser. So eigum vier nu vorum Kienne-Fedrum ad hlijda, i þvi þeir oss bioodad Guds og sijns Embættis vegna, eins og sialfum Gude, þvi þeir eru Verkanautar Christi, og Raadsmenn hanns Leindardooma, sem Paulus vottar, 1. Cor. 4. Þar fyrer segier og sialfur Christur, Luc. 10. Hver ydur heyrer, hann heyrer mier.

I audru Lage eigum vier ad heidra og elska vora Kienne-Fedur. Þvi bijdur Paulus oss, 1. Tim. 5. segiande: Þeir Olldungar, sem vel forstanda, halldest Tvøfalldligs (þad er, mikels) Heidurs verduger, allra hellst þeir sem erfida i Ordenu og Lærdoominum, so sem eru Trwlynder Kienne-Fedur medal vor, Br. M. Og þvi skylldum vier ecke heidra Guds Sendeboda, ef vier hann heidrum? Hvilijkt er þa Rænuleyse sumra Manna, er þeir hatast vid sijna Kienne-Fedur, af þvi þeir straffa hiaa þeim Synder og Leste, og vilia hafa Saalum þeirra hiolpad wr Glotunenne? Þar finnast Ogudleger Skaalkar, er ecke svijfast ad leggia Hendur aa sinn Saalusorgara, þeir ed skiema hann wt i Ordum sijnum Leynt og Lioost. Hvad er ad giallda Illu Gott ef þvilijkt er ecke? Hvad er ad giøra Uppreist aa moote Gude, ef ecke er þetta? Og eru þeir eingu betre sem Maktena hafa, og svoddann Glæpe ecke einasta Ohegnda laata, helldur og taka slijka Ohæfu i Forsvar, sem Dæmemunu tilgiefast. Vel er þad satt, ad Guds Pienare aa alla Hlyte ad lijda fyrer hanns Saker, enn þo maa hann beidast Riettar sijns, nær so vid ber, þvi ecke einasta hann, helldur og hanns HErra er i slijku vanvirdtur. O hvilijkt Nidurdrep er þad Christi Rijke, þegar soddann Gudleyse er ecke straffad af þeim, sem þar til Valld hafa af Gude og Konungenum! Egyptsker straffudu þann aa Lijfenu, sem ecke hialpade einum Ferdamanne wr Ræningians Hondum ef hann kynne; Giære þeir ad þvi, sem Makt

hafa

hafa til ad straffa þa sem Guds Þienurum ofbiooda med Orde edur Verke, hvllijk Guds Reide yfer þeim hänger; J hveriu Faare þeirra Lijf og Saal vera muna, þegar hanns Hefnd vaknar einhvern Tijma, nær þeir ecke hiälpa þeim i riettre Sok, sem af Gude eru setter til ad hiälpa Saalum Ohlutvandra Manna wr Kverkum Satans, sem er Ræninge Saalnanna. So eru þeir og nockrer, sem Andskotenn hefur so blindad med Foolskunne, ad nær einn Christi Þienare segier þeim til Syndanna, Vilia þeir ecke þiggia Guds Lijkama af hanns Hende; Þeir giora sier Þusund Mein fyrr enn þad skule ä þa ganga, og fara giarnann þeim Tijma, nær einhvor anar flytur Guds Þioonustu i Kyrkiunne. Þessa eru morg Dæme, þvi verr! Og þetta giora sumer af þeim, ed segiast vera nockud, þoott ei kunne þeir Prestenn um nockra Sok ad klaga, og nefna þetta Samvitsku Veike sijna: Hvar i þeir fara ei miog villt, þvi Diofullenn plagar Saaler þeirra med Heiptenne, sem þeir leggia ä þann, er þeir ættu, næst Gude og Konungenum, ad elska. Segied mier! Mun ecke Satan hlæa ad slijkum Daaraskap? Og mun ecke DRottens Lijkame fordæma þa merkilega, nær þeir stelast til ad medtaka hann, med svoddann Hiartalalage inoote sijnum Kienne-Fodur? Mun ecke hanns dijra Blood, med hveriu Syndarenn er Endurkeiptur, hroopa Bölvan i Himenenn yfer þeim? Þad Auga sem spottar sinn Fodur, edur forsmaaer Hlijdne Mooduř sinnar, þad munu Hrafnarner wtkroppa, segier Salomon. Enn segied mier; Eru ecke Riettsinnader Kiennendur Fedur voorer? Prov. 30. Segier ecke Paulus, 1. Cor. 4. Eg hefe gieted ydur i JEsu Christo fyrer Evangelium: Þeir eru og riett-kallader þessu Nafne, sem gooda Forstodu veita, þvi so sem voorer Lijkamleger Forelldrar eru Medal til ad framkvæma Natturunar Verk, so eru og hiner Andlegu, sem eru Riettsinnader Ordsins Þienarar, Medal til þess, ad framkvæma Guds Verk i oss, sem er ollu ædra, þvi ä þa eingu sijdur ad elska og virda. Enn þad kalla eg, ad hinn grædugе Hrafn Diofullenn hafe alla reidu þeirra Saalar-Augu wtkroppad, sem hata so nockurn Guds Ords Þienara, sem er hanns Fader, ad hañ vill ecke þiggia af honum þa Guds Þioonustu, er hann ä ollum Christi Limum ad veita, og giorer sig þanneg Guds Rijkis Overduganн. Heyred þvi St. Pauls Ord, af Pistlenum til Hebr. Cap. 13. Hlijded ydar Leidtogurum og heyred þeim, þeir ed vaka yfer ydar Saalum, so sem þeir ed þar fyrer eiga Reikningskap ad giora, so þeir giori þad med Fognudi og ecki med Andvarpan, Þvi þad er ydur Oþarflegt. Þad er hinn ædste Fognudur Guds Ords Þienara, Sem vilia Trwir finnast, ad þeir faai nockud œorkad med sijnu Erfidi, Og þvi kallar Paulus þaa i Philippis sinn Fognud og sijna Coronu, Phil. 4. Þvi segiest hañ ecki þurfa Hools-Brefanna vid, Er hann skrifar Corinthiis til, Þviad þeir sieu sitt Brief skrifad i Hiarta sijnu, Sem skilid og lesed verdi af ollum Mońum, 2. Cor. 3. Aptur er þad hin mesta Sorg, nær þeir faa eingu til Leidar komed vid suma Menn, nær þeir siaa fyrerfram, ad þeirra Sauder, vegna Þvermoodsku sinnar, deya wt af fraa þvi heilnæma Foodre Guds Orda, ecke Tijmañlegum, helldur eilijfum Dauda. Augustus Keysare sagde um Born sijn, er skickudu sier illa, og midur enn hanns

Tign ſoomde, ad þau være ſijnar Priaar Akomur. So meiga trwer Guds Þienarar ſegia um̃ þad Jllgreſed er Dioſullenn ſaaer nidur i Guds Akre, ſem þeir eru, yferſetter: Þad eru þeirra Akomur, Þeirra Meinſemder, þad eru Jllſku-Kijle og Graftrar Mein, ſem eta i Kriijngum ſig med vondum Dæmum, og eitt Surdeig, ſem ſpiller øllu Deigenu, ef til vill, nema þau læknud ſieu.

J Pridia Maata eigum vier Saalusorgurum vorum ærlegt Upphelldi ad veita; Þad baud ſiaalfur DRottinn hiaa Matth. Cap. 10. er hann ſendi þaa wt ad predika; Verdur er Verka-Madurinn ſiinna Launa, ſagdi hann. Þad heſur hann Jtrekad fyrir Munn St. Paals, hvor þo erfidadi ſiaalfur med ſijnum eiginn Høndum, ſo hann ecki legdi Þijngſle aa Soſnudinn i Corintho: Hann ſegier i hinu Fyrra Sendi-Breſi til þeirra, Cap. 9. Hvor ſer nockurn Tijma i Hernad uppaa ſinn eiginn Koſtnad? Hvor plantar Vijngard og etur ecki af hanns Avexti? Hvor fædir Hiordina og etur ecki af Mioolk Hiardarinnar? Þier ſegied vel, Br. M. vier giorum ſvo, vier gioldum Kiennifedrunum þad Loginn oſs tilſegia; Þad er ſatt, morgum fer vel i þvi, þeir eru og ſumir er meira giora enn Log-Skylldann bydur, og hafa þeir hiaa Gudi Launa ad vænta, ſem ecki vill laata einn Vatns-Dryck Olaunadann vera ſem gieſinn er i Lærisveins Naſni, Matth. 10. Þad er, jafnvel hid minnſta, ſem hanns Þienurum er til Gooda giort, um̃ hvoria hann ſier i Lagi talar i þeſſum Stad, þoott þad og meigi til Faatækra heimfæraſt. Enn ſo munu aptur aa moot finnaſt þeir, ſem ecki eru ſo miøg Adgiætnir i ſlijku, þeir ed greida þad þeim greida byriar med Jllu, med Eptirtolum, med Raangſleitni i þvi er ſijſt hagar, og aa hinum Ohentugaſta Tijma, og þyker þad nærre þvi verſt allra Skullda loked, ſem gollded er DRottens Þienurum, og kalla ad Preſtar haſe ecke miked fyrer ſijnu Braude. Ecke giet eg ſagt ad þvilijkar Manneſkiur elſke miøg Saaler ſijnar, þvi annars mundu þeir hyrda meir um̃ ſinn Saaluſorgara. Lited vita þeir af hvad Kiennemannlegu Embætte fylger, hver Mæda, hver Um̃hyggia, hver Aſtundan, ef þad af Alvøru nockurre giort er. Segied mier; Mun þad lijtel Mæda ad þeir vaka yfer ydar Saalum med Bænenne til Guds? Med Koſtgiæfne i hanns Heiløgu Orde, ſem ydur ſkal Predikaſt? Munu þeir hriſta þad Foodur wt af Ermenne, er ſierhverium ydar gieſa ſkal i riettann Tijma? Mun ei þurfa Omak og Adgiætne til ad þeckia ſo hvern einn af þeim ſem Guds Þienara er tiltrwad, ad hann giæte boded þad hverium einum ſem honum er hagannlegaſt? Leggia ydar Kiennefedur ecke optlega ſitt Lijf i Hættu fyrer ydar Velferdar Skulld? Meiga þeir ecke taka aa ſig þa Þyckiu og Ovilld vondra Manna, nær þeir ſegia þeim til Syndanna? Byriar þeim ecke ad þvijnga ſinn eigenn Lijkama, ad ecke predike þeir ødrum, og verde ſiaalſer ræker? 1. Cor. 9 Og hvad allra þijngſt er, ad þeir ſkulu giøra hinum Alvallda Doomara Himens og Jardar Reikningſkap fyrer Saaler ydar aa Deige alls Hollds, og ſvara til ef nockur tapaſt, hvert þad er af hanns ſiaalfs Vijtum edur Kiennemannſins Vanrækt. Vilied

Þier

þier segia mier þa, ad einn Prestur vinne ecke fyrer sijnu Braude, edur honum sie ofgiefed, þad hann nijtur? Þier segiest giallda, þad þier erud skylldugêr, so er þad fyrer Monnum; Eingenn kann meira wt ad heimta. Eg segie ecke helldur ad þier skulud giefa þeim fram yfer Skylldurnar, sem noog Upphellde hafa, og sialfer ættu helldur ad leggia af vid adra enn taka fraa þeim. Enn hina, er vinna þurfa Bake brotnu, þeir og þeirra Born og Kvinnur fyrer Lijfs-Næringu sinne, Sokum lijtels Upphelldis, sem vijda er, þa ættu Menn ad þeckia framar odrum, so sem Paulus bijdur, 1. Thess. 5. segiande: Eg bid ad þier þecked þaa sem Erfida aa medal ydar, og ydur Forstodu veita, og kiennia ydur og ad þier hafed þaa sonnu ysertmaata kiæra, fyrer þeirra Verks-Skulld. Ad þeckia, Merker hier ad Elska, (So sem Postulinn leggur þad sialfur wt), Ecke Einasta med Orde og Tungu, helldur med Verke og Sannleika, 1. Joh. 3. Eg þecke mijna Saude, Og eg þeckest af mijnum, segier JEsus, Joh. 10. So sem Gud þecker oss, Pad er Elskar, So eigum vier ad þeckia vora Kienne-Fedur: Enn hverneg þecker Gud oss? Þanneg, ad hann giefur oss alla Hlute aanægiannlega til Notkunar, 1. Tim. 6. So eigum vier ad meddeila þeim ollum Giædum sem oss uppfræda i Ordenu, Gal. 6. Hvad medtokum vier af Guds Hende fyrer þeirra Medalgaungu? Andlegt Foodur Saalna vorra. Heyred þa hvad Paulus segier hier um, 1. Cor. 9. Ef vier hofum saad ydur hid Andlega, Er þad þa miked, ad vier uppskierum ydvart hid Lijkamlega? Þu gielldur allar Skylldur Prestenum, Pad er Gott; Hann kann ei meira ad heimta; Enn ef þu sier þinn Saalusorgara Naud lijda, Hungra, Þyrsta edur Klædlijtenn vera, Og þu hialpar honum ecke, Ef þu hefur Raad þar til, Þa hefur þu eingann Veigenn loked þijna Skylldu Gude, sem er bæde þinn og hanns DRottenn; Þvi ef Postulenn segier, ad Guds Kiærleike sie ecke i þeim ed so breyter vid Einhvern annann, sem Naudstaddur er, 1. Joh. 3. Hvernig maa hann vera i þeim, er so giorer vid sinn Kienne-Fodur, Sem honum er framar odrum Vanda bundenn? Hugsa þvi ecke med þier, Ef þu att Faatækann Saalusorgara, Pann er ræker sitt Embætte: Hvad er mier vandara enn þeim, sem lifa i odrum Sofnudum? Þegar eg gielld og gief eins og þeir, Þa hefe eg afloked Skylldu minni: Þvi Gud hefur giort betur til þijn enn hanns, sem eckert þarf af ad leggia vid sinn Kienne-Fodur, Par hann hefur giefed þier Orsok til ad leggia Skulld inn hiaa sialfum sier, Ecke þess vegna, ad hann kunne nockrum skylldugur ad verda, helldur Saker sinna Fyrerheita. Eg Paall hefe skrifad med minne eigenn Hende, Eg skal betala; Sagdi hann Fordum i Sendi-Briefenu til Philemonem; Enn eg er Gud alleina Rijkur; Eg hefe talad fyrir Munn mijns Eingetins Sonar, ad einn Vatns-Dryckur i Lærisveins Nafni skuli ei Olaunadur vera, segier DRottinn, Matth. 10. Saa sem vill sialfum sier vel, Hann giore vel vid sinn Kienne-Fodur; Saa sem sialfann sig elskar, hann elskar Saalu sijna; Hver ed sijna Saalu elskar, hann elskar Gud, sem hana skapad og frelsad hefur; Saa ed Gud elskar, hann elskar hanns Þien-

nns Þienara; Sæ ed hans Þienara elskar, Hann sier Oglarnann ad þeir Naud lijde, Ef hann fær vid þvi giørt. Þar fyrer, Sæ sem vill sialfum sier vel; hann vilie under eins sijnum Sælusorgara, Sem honum er i Guds Stad settur. Einn Gud Allsheriar, Sæ ad er Fader vor allra, Hann stiodrne oss so hier i Nædenne, bæde Yferbodnum og Undergiefnum; Ad vier þeckium so hver annann, ad vier um̃ sijder af hinum Ædsta Biskupe og Hyrder Sælna vorra; Mættum þeckter verda, Og innleidder æ Land Lifande Manna; So þar verde Eitt Sauda-Hws og Einn Hyrder. Þad Bænheyre hinn Næduge Gud, Fyrer JEsum Christum, A M E N.

